

Jakob Peter Mynster D.r Theol.

Carlsruhe durch Kunst Verlag W. Creuzbauer

# Hugleidingar

um

# høfudatridi kristinnar trúar

samdar af

**Dr. J. P. Mynster**

Sjálandsbiskupi og skriptafødur Dana konúngs og s. frv.

Útgefnar á íslenzku af

**Þorgeiri Gudmundssyni.**

Presti til Glólundar og Grashaga á Lálandi.

**Kaupmannahøfn.**

Prentadar med hradpressu í Brünnichs prenthúsi.

1839.

# Formáli.

Nú, er ad því kemur, ad eg sendi londum mínum hugleidíngar þessar um høfudatridi kristinnar trúar, fyllist hugur minn kvída og vonar. Því eg hefi gjørla fundid, hversu ørdugt verid hefir vida hvar, ad koma ordum ad hinum djúpsæru hugsunum høfundarins, svo þær yrdu ekki óljósar og ógreinilegar — ad láta íslenzkuna samsvara hverri smá-tilbreitíngu í dønskunni — ad hitta í hvert skipti þau ord og ordatiltæki, sem bezt áttu vid, sérilagi atridisord — og vidhalda þeim hinum fagra gudrækuisblæ, sem er yfir ordum høfundarins, og hlýtur ad gagntaka sérhvern, er les þau med athygli. Þessvegna kvídi eg því, ad mørgum muni þykja útleggíngu þessari í ýmsu ábótavant — muni sýnast, ýmsar greinir geta verid og eiga ad vera ødruvísi enn þær séu, og ordatiltækin nákvæmari, — og hann muni finna, ad sjálfum honum mundi hafa tekizt betur. Eg vil ekki þræta þess, né deila hérum vid neinn, heldur vil eg einúngis geta þess, svoad menn kenni ekki um hirduleysi né léttúd, ad útleggíngin hefir verid kostgæfilega skodud og prófud, og ekkert til sparad, ad hun yrdi svo gód, sem hér voru faung á. Þessa er eg mér medvitandi, og því vona eg einnig hinsvegar, ad vidleitni mín verdi ekki árángurslaus, heldur ljái Gud henni adstod sína svo þótt búníngi þeim sé í mørgu ábótavant, sem þessar kristilegu hugleidíngar koma

nú í til ættjardar minnar, muni þær eigi ad sídur færa sérhverj-um hugsunarsömum og rádvöndum lesara blessunarríkan ávöxt, og ná einnig medal landa minna þeim tilgángi, sem höfundur þeirra talar svo fagurlega um í formála hinnar dönsku bókar, þar sem hann kemst svo ad ordi: "Eg hefi leitazt vid, ad selja gódfúsum lesendum í hendur gudræknisbók, eg meina slíka, ad hugleidingar þær, sem hún hefir ad geyma, ljái ekki adeins vitinu nokkud ad starfa, heldur fái á gjörvallan húgann, og hrífi svo á tilfinningu og vilja. En hinsvegar var þad ekki ásetníngur minn, ad gjöra adeins sérstakar gudrækilegar hugmyndir skírar og lifandi, einsog menn verda ad gjöra í hinum almennu rædusöfn-um og mörgum ödrum gudræknisbókum, heldur vildi eg skíra frá höfudatridum kristinnar trúar í samfellu, svo allar þessar sérstöku hugleidingar væru jafnframt ein samstæd eining, og þad hefir verid vilji minn og vidleitni, ad bók þessi skuli ad nokkru leiti stydja til, ad efla og auka fulla og fasta og ávaxtarsama þekk-ingu á sannindum kristinnar trúar."

Á ödrum stad í formála hinnar dönsku bókar minnist höf-undurinn á medferd sína á efninu, og getur um leid eins hlutar, vidvíkjandi lestri þessara hugleidinga, sem eg bid mikillega ad sérhver lesari þeirra vilji veita nákvæma eptirtekt. Hann kvedur þar svo ad ordi: "Í bókum, sem ætladar eru almenníngi, verd-ur höfundinum optlega erfitt, ad fara svo med efnid, sem bezt ætti vid, þarsem hann vill bædi nokkurnveginn fullnægja þeim, sem vanir eru vísindalegri nidurskipun hugmyndanna, og jafnframt rita svo, ad þeir, sem midur eru ad sér, skilji ord hans. Eg get ekki talid mér annad til gyldis, enn ad eg hefi leitazt vid ad ráda sem bezt úr þessum erfidleika; en eg vænti mér þess, ad fari svo, einhver lesenda minna felli sig ekki vid einhverja grein,

hvad sem til þess kemur, þá láti hann það samt ekki fæla sig frá, að halda áfram lestrinum. Mörg hugleiding, sem ekki kynni að falla einhverjum í fyrstu, annaðhvert vegna efnisins eða meðferðarinnar, ávinnur sér, ef til vill, sé hún optar lesin, hylli slíkra lesenda, sem eg gjöri hér alstaðar ráð fyrir, en það eru sanngjarnir og kristilegir lesendur." Eg vil enn aptur ítreka þá bón, að ef nokkrum fellur ekki einhver hugleiding, eða einhver kafli úr hugleidingu, þá láti hann það ekki fæla sig, heldur lesi upp aptur og aptur, en láti líða nokkuð á milli, þángaðtil efnið verður honum ljóst og skiljanlegt, og fær áhrif á hjarta hans; og þá mun hann reyna og finna, að hann hefir eðlazt þar mikinn auð, og þá þekkingu og sannfæringu, sem mun koma honum að því meiru liði, sem hann hefir meira fyrir haft að afla sér þeirra með athygli og íhugan.

Þess verð eg að geta, að þær greinir, sem teknar eru úr Nýja Testamentinu, eru flestar eptir hinni ýngstu útleggíngu þess á íslenzku, þó er þeim sumstaðar dálítið breitt að orðfærinu til, þarsem þurfa þókti, og á fáeinum stöðum að meiníngunni til, þar sem útleggíng höfundarins var frábrugðin íslenzku útleggíngunni. Líka hefi eg sleppt nokkrum sálmversum, sem voru í dönsku bókinni, þar sem eg fann ekki samsvarandi vers í íslenzkum sálmabókum.

Afþví eg sá, að bókin mundi verða of þykk og óhandhæg, væri hún prentuð í sama broti og danska bókin er í, og síðan bundin í eitt band, ásetti eg mér að láta prenta hana í stærra broti, og vona eg að pappír og prentun verði eptir allra geði.

Að endingu ber mér og að minnast þess þakklátlega, að konúngur vor hefir veitt mér 300 dala styrk af sjóð þeim, sem kalladur er: "sjóðurinn til almennra þarfa" (Fondet ad usus

publicos), því útgáfa bókarinnar hefir ollað mér allmikils kostnaðar.

Þannig sendi eg hugleiðingar þessar af stað, eins útbúnar og hér má sjá, og bið þess og vona til Guðs, sem blessar einlæga viðleitni sérhvers manns, að þær megi auka og ávaxta sanna þekkingu á kristiuni trú, meðal bræðra minna útá Íslandi, efla kristilegt hugarfar, og lífga og glæða guðrækilegar tilfinningar, er beri ávöxt í kristilegu og Guði þekku líferni.

Kaupmannahöfn, 5ta sunnudag í Föstu 1839.

**Þorgeir Guðmundsson.**

# Fyrirsagnir hugleidinganna.

---

## 1.

## Trú. Kristindómur.

Önd mín er þreytt — hvar má hún finna hvíld? ætti eg að lýsa ástandi hennar, yrði eg að segja, hún væri einsog fuglinn, sem ofviðrið hrekur út á hið auða haf: hann stefnir til himins, en vængir hans þreytast þegar, hann líður niður á leið til hins bárótta hafs, en finnur eingan fótastað; hann líður og lýist — yfir og undir er ómælanda djúp. Á sálin allajafna að líða milli himins og hafs, og finna aldrei hvíld? Eða á eg að snúa aptur, þaðan sem eg kom, til hinnar lágu strandar? Á eg að lama vængi sálarinnar, svo að stormurinn beri hana ekki optar á burt, þegar henni verður að breiða þá út? Á eg að slökkva eldlegan áhuga sálarinnar — á eg að seðja mig ávörtum jarðarinnar, og síðan, þegar líkaminn er mettur, og sálin mædd og þjáð í þrældómi líkamans —, til líkamans nauðsynja, gefa þau á vald svefninum og aðgjörðaleysinu, og aldrei framar spyrja dagsbirtuna og einveru næturinnar, hvað sé í himnunum eða í undirdjúpinu? Á eg að telja mér trú um — og leiða mér í hug upp og aptur, til að kúga viðleitni sálarinnar, að allt það, sem öll hjörtu og allar túngur kalla fagurt, háleitt og gott, sé tómar sjónhverfingar, tómir draumórar, en það, sem öll hjörtu og allar túngur kalla lágt og lítilfjörlegt, að það eitt sé verulegt og áreiðanlegt og það, sem maðurinn, með alla viðleitni sína og framfaralaungun, eigi að halda sér við. Er þá ekki neitt, sem er satt, nema þetta eitt, að einginn sannleikur sé finnanlegur? Eða er sannleikurinn — takist einhverjum ofurhuga að draga af honum skýluna — er hann slík óttaleg ófreskja, að

hjartað verði að steini við sjón hennar, og lífið visni af hennar eitruðum áblæstri.

Hjarta mitt er órótt — hvar má það finna frið? Mér liggur við að skelfast, þegar eg hugleiði, hvað brotizt hafi í gegnum það, allt frá þeim degi, er það tók að bærast; allar girndir hafa logað í því, það hefir titrað af von og ótta, það bráðnaði opt af hita ástarinnar, það kólnaði opt af frosti dauðans. Eg kenni í brjósti um mig sjálfan, þegar eg hugsa um allt, sem eg hefi þolað — einnig þegar veröldin kallaði mig sælan. Opt fylltist auga mitt af tárum, þegar eg lít barn mitt í vöggu sinni; átt þú einnig að þola slíkt sem eg hefi þolað? á einnig þín sála að verða lögð sverði í gegnum? — Enn er eg á bezta skeiði; mér hefir í mörg ár þókt minkun að þróttleysi og hugleysi, eg hefi áminnt sjálfan mig, — þegar morgungeislarnir runnu upp, þegar nóttin breiddi myrkur yfir jörðina, hefi eg áminnt sjálfan mig svo segjandi: vertu hraustur! Og þó þarf eg stólpa að styðjast við, eða réttara að segja: eg þarf að finna þann, sem er vísari og betri enn eg, eg þarfnast lifanda brjósts, til að halla upp að því mínu þreytta höfði.

En er það einúngis í mæðu, neyð og sorg, að eg finn til þessarar þarfar? Uppsprettur gleðinnar eru og í mínu hjarta, brjóst mitt getur gripið himinsins sælu. Getur gripið? Nei! Brjóstið rúmar hana ekki; hjarta mitt þrútnar og lángar til að úthella nægð sinni, svo það skuli ekki springa. Eg safna vinum mínum umhverfis mig, og tala um þá sælu, er streymir í gegnum mig; opt finn eg aungvan, er skilji mig, aungvan er taka vilji þátt í sælu minni; og þó allir samgleðjist mér, lángar mig samt úr faðmi vina minna; eg leita einverunnar; og það sem þá logar í auga mínu, það sem titrar á vörum mér — hvað er það annað enn þakkir? Og þessar þakkir, sem brjótast upp úr djúpi sálar minnar, þær vilja ekki streyma út í bláinn, þær leita að eyra, sem heyri, í þeim leitar tilfinníng mín hinnar réttu uppsprettu sinnar, þeirrar uppsprettu, sem hvorttveggja er frá komið: gæði lífsins og tilfinning vor, er hefir þeirra not.

Eg finn krapt í mér til að starfa, undarlegan krapt, sem aldrei hvílist; umhugsun nýrra fyrirtækja lifnar sífeldlega í sálu.

minni, og eg tel mér það mestu unun að framkvæma þau. En á eða má þessi kraptur í mér vera blindur og stjórnlaus? Má hann æða áfram í blindni, brjótandi og eyðandi? Það verður þó að stýra honum að einhvörju miði, setja honum takmörk, binda hann við reglu, sem hann má ekki brjóta. Og hvað er þessi regla — er það hagur min sjálfs? Hversvegna þori eg þá ekki að óhlýðnast henni? Því sé hún ekki annað, enn hagur min sjálfs, hversvegna þori eg þá ekki að yfirgefa hana, og enda spotta hana og fyrirlíta, og gleyma ókomnum ávinníngi, til að geta átt gott, eða þurfa ekki að leggja hart á mig, eða geta látið að vilja mínum í því vetfángi sem er að líða? Það er furðu margt, sem mennirnir geta kallað sinn hag; það eru óteljandi hlutir, sem þóknast mér, sinn á hvern hátt: hver kennir mér, hvað eg á að kjósa? hvað skyldar mig til að meta einn ávinnínginn meir enn annan? Get eg lært áðurnefnda reglu af mannanna dómi, sem aldrei er eins, ætíð er óstöðugur, ætíð umbreitanlegur, einnig í munni eins og sama manns? Og sé það ekki annað enn regla, sem menn hafa samið, hversvegna má eg þá ekki óhlýðnast henni? hversvegna má eg ekki hikunarlaust kasta allri siðvenju, og gjöra sjálfum mér nýa reglu? Því það finn eg, að sé til það lögmál, sem mér ber að hlýða, þá hlýtur því að fylgja meira vald, enn nokkurri mannlegri setníngu, þá hlýtur það að vera skrifað með því letri, sem menn megna ekki að breita eður afmá.

En hvert sem eg viðurkenni, aðhyllist, ræki nokkurt lögmál, eða ekki, hvert sem eg sækist eptir miklum framkvæmdum, eða ekki, og hvert nafn sem framkvæmdir mínar fá eða verðskulda: þá er samt einn tími, sem er mér óumflýanlegur, og öllum sem hafa andað, og enn anda á jörðunni, það er sá tími, þegar eg er hættur að anda. Þar bera heimskingjarnir sigur af öllum þeim, sem hafa afneitað jarðneskum gæðum, sem hafa barizt hinni þúngu baráttu við heiminn og sjálfa sig; þeir standa millum leiðanna, og spyrja oss, hvert vér sjáum nokkurn mun á þeim, er vér köllum heiðarlega, og þeim, er vér köllum fyrirlitlega; hvert oss gruni, það sé nokkur munur á að liggja undir hinu niðurfallna leiðinu, sem ekki er prýdt fátæklegum krossi eða litlu blómi, því síður öðru meira, eða undir

hinum dýrdlega minnisvarda, er menn flykkjast um af forvitni; og þó þad kæmi til af þakklæti, þá er sá munur einúngis í tilfinníngu hinna lifendu, en ekki þeirra, sem eru ad verda dupt nidri í hinni dymmu jerd. — Þad er til ógurlegt veldi, óvinur lífsins, og lífinu yfirsterkari; hverju opt hefir hann burtu svipt einnig þeim, er mér voru nákomnir; einnig þeim vini, er mér var bezt ur og kærstur, svipti hann úr fadmi mínum, burt frá hjarta mínu; og eg stedvadi tárid í auga mér, eg stardi, og leit ekki undan, eg horfdi eins lángt og augad eygdi, og sá hin ómflýanlegu endalok vinar míns, þau sem eg á sjálfur í vændum, eg sá rotnanina og þvínæst eydileggíngunna, sem ekkert skilur eptir; lengra sá ekki líkamans auga; er ekkert í mér, sem lengra sjái? er ekkert ljós í myrkri næturinnar? heyrist eingin rödd frá himnunum, þegar jerdin þegir?

Allar þessar hugleidíngar leida mig til trúarinnar; þó segi eg ekki, ad þetta hafi leidt mig til hennar í fyrstu; í stuttu máli: eg hefi ekki leitad trúarinnar í fyrstu, en hún hefir leitad mín. Þetta ord trú er harla fagurrar þýdingar. Ordid er innlenzkt; en trúin sjálf er í öndverdu útlenzk. Eingin þjód, sem hefir nokkra adkenníng af hinni háleitu mentun, eignar sér uppsprettu trúarinnar; heldur gánga sögur af þeim — sumar greinilegar, sumar ógreinilegar — er hana hafi þángad flutt af fjarlægum löndum, og vísa oss frá einni þjodinni til annarar, og benda til um sídir, ad hid rétta heimili trúarinnar sé ekki hér á jördu. Trúarbrögd hinna heidnu forfedra vorra voru ekki sprottin upp á Nordurlöndum; heldur vísa þau á fjarlæga uppsprettu og ógleggva, og hafa ad líkindum upptök sín í hinum sameginlega brunni, er allar hinar ædri hugmyndir eru frá komnar. En nú tölum vér um kristindóm. Þad ord kunnum vér allir, eins hinir fáfródustu; þad ord heyrum vér snemmindis á túngum barnanna, og þó er þad útlenzkt ord, eins og líka kristindómurinn er ekki sprottinn upp í vorum átthögum; hann er til vor kominn af fjarlægum löndum, vér vitum hve lángt er sídan og hvernig hann kom, vér kunnum ad tilgreina hann stad, er hann höfst í öndverdu, en sjálfur uppruni hans er þó hulinn mannlegum augum. Hann er nefndur eptir höfundi sínum, Kristi, hinum smurda;

en ekki var hann smurdur né til konungs tekinn af mönnum, því krossinn var sú upphefd, er menn höfdu búid honum; þó var hann kalladur þessu nafni ádur enn hann kom, og bodadur med þessu nafni um hina vidlendu veröld. Undarleg og leyndarfull er fæding hans — hver getur lýst henni? segja hinir fornu sjáendur; hann er til frá því snemma, frá upphafi, frá eylífd; hann er útlendur á jördunni, og þó hefir hann fengid þar svo mikla stadfestu, ad heimurinn virdist ekki geta verid án hans, og kristindómurinn er ordinn oss svo tamur, svo edliligur, svo mjeg samtvinnadur öllum hag vorum, sem væri hann öndverdliga vor eign.

Eg er fæddur í skauti kristindómsins; þegar eg var skírdur, var eg tekinn í tölu kristinna manna; mér voru sídan kennd frædi þeirra; og þó eg hefdi í barnæsku mist bædi fedur og módur, mundi eg þó ekki hafa farid á mis vid kristilega uppfrædingu, því einsog hverju barni veitist hlutdeild í ödrum tilskipunum, lögum og sidvenjum þjódar vorrar, þannig verdur þad og þegar hluttakandi kristinnar trúar. Eg veit, ad eg get ekki trúad, og á ekki ad trúa, öllu sem mér var kennt; þó hefi eg ætíd virdingu á því, er á þann hátt hefir ílenzt á landi fedra minna; og eg er ekki sá sjálfbirgingur, ad eg vísi burt frá mér umhugsunarlaust því sem hefir vitnisburd svo margra, ad þeir hafi fundid í því þá hvíld sálu sinni, þann frid, þá óbifandi lífernisreglu, þá hina traustu von fram yfir daudann, sem mig vantar, og eg leita ad. Eg hefi einsett, ad láta ekki leidast í blindni; nei, þér skulud ekki tæla mig, hræda mig, kúga mig, um eitt fet, þér hinir blindu vandlætingamenn! og ekki heldur þér, sem afneitid í blindni! Eg ætla sjálfur ad velja, sjálfum mér til nota, og ábyrgjast sjálfur.

Ef þad, sem eg kalla skynsemi mína, væri mér einhlýtt, þá þyrfti eg einga tilsögn; en eigi eg ad hafa tilsögn, eigi hún ad koma mér ad haldi, eigi hún ad kveikja í mér sannfæringu, med hverju á eg þá ad skilja hana, ödru enn skynseminni? Hinir óskynsömu hafa ekki not tilsagnarinnar, og ef eg hefi hennar not, þá kemur þad til af því, ad eg finn afl hennar, og skil þad sem mér er kennt, og af því ad í mér er þad, sem ordid getur ad birtu, þegar birtan skín á þad. Þó get eg ad minnsta kosti ekki

byrjad á, ad fara med kristindóminn eins og vísindi. Eg lofa ljós vísindalegrar medferdar, svo ad enginn getur lofad þad meir. Þeir eru til þúsundum saman, er vita meira, enn eg, og skilja þad betur, og hve gjarna vilda eg vita allt sem þeir vita! En vísindin eru, og munu ætíd verda, fárra medfæri; en þad, sem á ad vera til eptirbreitni og huggunar, verdur ad vera hverjum manni bert. Eg ætla ad litast um med þeim augum, sem mér eru gefin, á þeim stad, sem eg er á settur; og verdi sannleikurinn fundinn, og eigi sannleikur ad vera ljós hvers manns, þá hlýt eg einnig ad geta komist í skilning um sannleikann.

En hvad er Kristindómur? Þarum þræta menn, ekki ad eins í skólum hinna lærdu, heldur á strætum og torgum, á mannamótum og í heimahúsum. Ætti eg ad óska, þad væri ødruvísi? Ætti eg ad óska, ad kristindómurinn væri ordinn daud eign, og gengi hønd úr hendi, og munn úr munni, án prófs og án umhugsunar? ad hann væri ekki svo lifandi vor á medal, ad hann gæti ollad nokkru stridi? ad hann þækti ekki þess verdur, ellegar ad menn hefdu þegar búid svo um allt, bædi fyrir sjálfa sig og børn sín og allar ókomnar kynkvíslir, ad ekki yrdi lengra komizt í þekkingu trúarinnar? Edur ætti eg ad óska, ad þetta strid væri einúngis medal hinna lærdu, og ad þad yrdi dulid fyrir alþýdu einsog eitthvert leyndarmál? Eg skil ekki, hvernig þeir vilja fara ad, er þetta vilja; þvi ef kristindómurinn á ad verda bodadur um alla verøld, jafnt smælingjunum og hinum einføldu, sem hinum vitru og spekingunum, og eigi ekki ad boda hann med fláródum ordum, heldur einsog þeim, er hann boda, kenniſt hann í huga sínum, og finnst hann í hjarta sínu: þá mun og þrætan komast til almennings eyrna, hver vardhøld sem á eru høfd, og þad sem talad er í hljódi í húsum inni, mun verda kunngjørt á þekjum uppi. Sælir eru mennirnir, ad þvi er svo varid, og verdur svo varid! Því ekki eru þad einúngis einstøku lærdir menn og spekingar, sem eiga ad komast í himnaríki, heldur rídur á fridi og frelsi handa sálu hvers manns, og fyrir því á sérhver ad vita, hvar hann á ad leita, og hvernig hann á ad finna. Kvídi þér hneixlan? Aumur er sá, er hneixlinu veldur! En þad hneixlar mig ekki, ad menn keppa um hina helg-

usti gersemi — hvernig ætti það ødruvísi að vera, einsog ástatt er hér í heimi? — en á því hneixlast eg, að sjá menn láta leiða sig fram og aptur í blindni; og enn fremur á hinu, að þeir skuli vera til, er vilja leiða menn þannig. Og ef þeir eru til, sem falla frá vegna þess sumt er svo vandskilið, að menn leysa úr því á ýmsa vegu, vegna þess allir menn eru ekki búnir að ná einingu trúarinnar, vegna þess gáríngarnir spotta, og hræsnararnir vilja kveikja óvild og ofsóknir — þá falli þeir frá! Þeir hefðu aldrei orðið hollir kristindóminum, ef hann er einsog eg ímynda mér hann; þeim hefir aldrei verið innanbrjósts einsog mér er. Þeir vilja hafa að láni, en eg vil hafa það, er eg geti eignað mér; þeir leita samlyndis við heiminn, en eg leita sálu minni friðar; þeim þykir ekki fyrir að láta af hinni heilsgu vidleitni, þeir geta verið án sannleikans — eg get ekki verið án hans, og þessvegna hefi eg leitað, og þessvegna mun eg leita, til þess eg finn.

---

## 2.

## Stefna hugleiðinganna.

Þegar maðurinn vill ødlast þekkingu á sannindum trúarinnar, eins fullkomna og eins vel á røkum byggða og orðið getur, hvaðan á hann þá að litast um? á hverju á hann að byrja? Andi mannsins er djarfur, og optsinnis lángar hann til að spenna út vængina, og reyna hvert þeir geti ekki borið hann uppí hinn efsta himin, svo hann gæti sjálfur komist að raun um, hvernig háttað er í himnunum, og gæti litið inní hið hulda djúp guðlegrar veru, svo hann gæti séð, hvernig straumar tímanna og tilburðanna renna fram, og lesið í hinni myrku bók Guðs ráðstafana, og komizt að øllum leyndardómum; þaðan mundi hann horfa niðurá jørðina og komast fram úr øllum flækjum, og ráða allar ráðgátur á jørðunni. En bráðum verða allir þess varir, að það eru til torfærur, sem hugurinn kemst ekki yfir, og bønd sem aptra fuglinum á flugi hans; það vill opt til, að

þegar sálina lángar sem mest til, himnunum væri lokid upp, og hún mætti komast inn, og skoda augliti til auglitis, þá er einsog himnarnir lyktist því fastar aptur, þá þolir hún ekki ad líta í ljósid, snýr aptur, og hefir fremur fundid rugling enn rød, fremur efa enn vissu. Margir verda fegnir þessari reynslu, og hafa hana til átyllu fyrir, ad hætta allri eptirsókn eptir hinu háleita, og kalla hverja hugrenning, sem hættir sér útyfir hid sýnilega, eintóma draumóra; þeir segja, mennirnir geti ekki náð sannindunum, og þykjast þá réttlættir, ef þeir adeins gefa gætur ad hinum hverfulu myndum þessa lífs, og þad er einsog þeir hugsi, ad leyuist nokkud á bak vid þær, muni þad nógu snemma koma í ljós, þegar myndir þessa heims hverfa af sjálfum sér. Víst hverfa myndir þessa heims, þær hverfa allar saman hver eptir adra, um sídir verdur skýlunni burtu svipt — en verdur þú þar eintómur áhorfandi annarlegra hluta? Madur! madur! snertir ekki þetta allt sjálfan þig?

Enn eru þeir, sem þvínær ørvinglast, þegar þeir kenna vanmáttar síns ad lypta sér svo hátt, ad þeir geti litid yfir jørdina, og horft í gegnum himnana; þeir heyra getid viturra manna og spekínga, sem eiga ad hafa fundid lykil vizkunnar, þeir sjá ad áhángendur safnast ad þeim, og lokid er upp fyrir mørgum, en marga sjá þeir í burtu rekna, afþví þeir sén hverki nógu þroskadir né hæfilega undirbúnir; þeir finna, ad þeir eru sjálfir í þessara tølu, og muni aldrei komast ad þessum hinum huldu fjársjódum vísindanna; samt er í þeim brennandi þorsti og øsloekkvanlegur, og þad er þeim eitt hid bitrasta bøl, ad vera ekki gæddir því hyggjuviti, ad þeir geti komist í tølu spekínganna, sem menn halda ljós ædri sanninda skíni yfir. Ad vísu eru ekki allir menn jafnt viti bornir, og þad má eingin hugsa, ad þángad, sem hann nær ekki, geti einginn annar komizt. En hversu undarleg og hugnarrík eru hin gømlu ord, ad Drottinn himins og jardar hafi birt smælíngjum þad, sem hann hefir hulid fyrir hinum vitru og spekíngunum (Matth. 11, 25). Sé þetta svo — og hver er sá, er ekki sjái, ad ef Drottinn himins og jardar vill, ad einnig smælíngjarnir og hinir fáfródu óttist hann og fremji réttlæti, þá muni hann einnig hafa léd þeim svo

mikid ljós ad þeir geti gengid? Hver er sá er ekki minnist, hvad marga menn hann hefir þekkt, sem hann gat ekki talid med vitríngum og spekíngum þessa heims, og vildi þó med eingu móti telja med fávísum mönnum, þeim er hverki þekkjá huggun né skyldu þessa lífs? hver minnist ekki tilfinníngá sinna, þegar hann var barn og falinn ødrum á vald, og adrir þurftu ad leida hann, medan eingin þekkíng hafdi nád fullum þroska í sálu hans, en hann fann þó innst í hjarta sínu, gladur og fullur trúnadartraústs, ad Gud er til, og ad hann muni launa þeim, er leita hans? En sé þetta svo, hlýtur ad vera til annar vegur til Guds, enn sá, sem þeir einir geta fetad, er skara framúr ødrum ad hyggjuviti. Hversu margir af þeim, er lengst hafa komizt í vísindum og þekkíngu, hafa ekki vidurkennt, ad ekki sé til nema einn vegur, sem leidi til þekkíngar á Gudi; á þeim vegi komast ad sønnu sumir leingra enn sumir, en þó er hann opinn smælíngjunum og hinum fáfródu.

Hversu huggunarrík, sagdi eg ádan, eru hin gømlu ord; því þegar sála mín flækir sig í þúngar efasemdir, þegar hún kennir vanmáttar síns, ad lypta sér upp til ljóssins, sem Gud býr í, þá þori eg ad stødva flug hennar, eg þori ad segja vid sjálfan mig: ad sé þad ekki gefid alþýdu manna, eda sé *sjálfum mér ekki gefid, ad horfa ofanad nidureptir, þá sé mér þó gefid, ad horfa nedanad uppeptir.* Þángad er mér vísad, til ad byrja þadan hugleidíngar mínar; eg vil þá litast vel um hid næsta mér, og taka svo eptir, hvert ljósid af bædum lýsi ekki nidur þángad, án þess eg þurfi ad fara uppá fjallatind, til ad eygja þad. Þo madurinn hljóti ad vera kyrr á jørdunni, medan hann er jardarbúi, getur hann þó séd þadan himininn.

Hvad biturlega sem menn hædast ad spillingu mannkynsins, og hvad maklega sem menn kvarta yfir henni og heimskunni og rángsleitninni, sem alstadar kemur í ljós, og øllu hinu illa, sem fram fer undir sólunni, þá hefi eg séd marga menn, sem fylltu mig lotníngar med framferdi sínu, og hefi hitt þá í øllum stéttum; þeir skinu stundum einsog stjørnur óteljandi mønnum til eptirdæmis, en stundum urdu ekki adrir varir vid þá, enn þeir,

sem þeim voru næstir. En það, sem ætíð kveykti lotninguna í mér, voru ekki framúrskarandi gáfur, né miklar framkvæmdir, né djúpsær þekking, heldur það, sem postulinn kallar hinn hulda mann hjartans, er sýnir sig í óforgængilegu skarti hógværs og kyrrláts anda (1 Pét. 3, 4).

Þegar eg sá þessa menn sýna, hvað lítið þarf til að gledja hinn lítilþæga, þar sem óseðjandi girndir slíta sundur hjörtu svo margra manna; þegar eg sá, þeir unnu án afláts hvern daginn eptir annan, hvert sem það voru ljósir eða dimmir dagar, og lögðu stein á stein ofan í hið mikla musteri, er allir menn eiga að reisa í sameiningu, og hættu aldrei við starf sitt, afþví það væri of ervitt, eða of lítilfjörlegt, ef það á annað borð var þeim á hendur falið; þegar eg sá, þeir voru ráðvandir í allri hegðan sinni, og breyttu við aðra, einsog þeir vildu láta breyta við sig, einsog það gæti ekki öðruvísi verið; þegar eg sá, þeir voru góðgjörðasamir, og að hin vinstri höndin vissi þó ekki hvað hin hægri gjörði, og sá þeir voru tryggvir og viðkvæmir, og breiddu út yndæli og ánægju allt í kríngum sig, styrktu hina vanmáttku, en huggudu hina hreldu, en sóktust þó aldrei eptir heiðri né launum — því það leit næstum svo út, þeir hefðu þegið, en ekki veitt —; þegar eg sá þetta allt, þá fann eg, að maðurinn, þótt veikur se, getur hegðað sér svo hér á jörðu, að Guði þóknist hegðan hans, og sérhverjum manni, sem ekki er búinn að missa alla tilfinning á því, sem veglegt er og lotníngarvert. En þessir menn, sem kveyktu í mér hina fögru tilfinning lotníngarinnar, og gengu í guðlegum sannleika, hvernig fundu þeir götuna, sem þeir áttu að troða? Byrjuðu þeir á því, að lypta sér svo hátt, að þeir gætu séð útyfir öll kjör mannlegrar æfi, og talið allar mannlegar skyldur, og skipað þeim í eitt kerfi, sem þeir gætu haft fyrir augum, og rakið út í allar æsar, og metið hverja skyldu mot annari, til að gera ekki ofmikið úr sumum, en oflítið úr sumum, heldur geta undireins skorið úr hverri þrætu eptir skirum reglum? Fjærri fer því! þeir sáu gleggt, hvað fyrir þeim var, þeir tóku eptir kröfum lífsins, einsog þær komu fyrir sjónir á ýmsum tímum; þeir aðgættu það sem næst þeim var, hina óspilltu tilfinning, og rödd samvizkunnar í brjósti sínu, og á þenna hátt fundu þeir, hvað

satt er og fagurt og gott í líferni manna. Þessvegna gat og hinn mikli löggjafi Gyðingaþjóðar með sanni sagt: "það boð, er eg býð þér á þessum degi, er þér ekki myrkt, né heldur lángt í burt; það er ekki á himnum uppi, svo þú þurfir að segja: hver vill fara fyrir oss upp til himna, og sækja það, og láta oss heyra það, svo vér getum gjört það? Ekki er það heldur hinumegin hafsins, svo þú þurfir að segja: hver vill fara fyrir oss yfir hafið, og sækja það, og láta oss heyra það, svo vér getum gjört það. Því það orð er harla nærri þér, í munni þínum, í hjarta þínu, svoað þú gjörir það" (5 Mós. b. 30, 11—14). Þó kristileg fræði séu komin til vor lángt að, þá á þó boð Guðs, sem á að stjórna lífi voru, ekki þannig heima í fjarlægum löndum, að menn þurfi að sækja það yfir hafið, einsog hina fágætu dýrgripi jarðarinnar. Það er oss harla nærri, og er það, sem allar túngur kalla hið góða, og öll hjörtu finna er gott; þessvegna er hægra að finna það með góðum vilja, enn djúpsærum skarpleika. Það verður að vera til í líferni manna, fyrr enn vér getum farið að hugsa úti það, og koma því fyrir í hið margbrotna kerfi siðfræði vorrar. Og þessvegna þurfum vér ekki í þessu efni, að fara fyrst svosem upptil himna, til þess að líta þaðan yfir lífið á jörðunni, heldur byrjum vér á því, sem oss er næst, og hver getur komist að, og finnum þá, að það boð, sem býður oss, sem letur og hvetur, launar og hirtir, með þvílíku valdi, er ekki mannlegs uppruna, heldur guðlegs; og er vér heyrum það og könnumst við það hér á jörðunni, þá knýr það oss til, að líta neðanað og uppeptir.

Uppeptir — til hvers, nema til hans, sem heilagur er, sem margar túngur hafa afneitað, en öll hjörtu hafa fundið nálægan — til hins almáttka Guðs? Enda á þessum tímum truflsins og efasemdanna, þegar öll undirstaða skalf, og hver villa rak aðra, hef eg þó vitað menn, sem héldu sér við hinn ósýnilega, einsog þeir sæu hann. Eg hefi ætíð hlotið að virða það, þegar eg hefi séð meðvitundina um Guð fylgja einhverjum, hvar sem hann fór — þegar hann hagaði sér eptir ráði Guðs, þó það væri honum myrkt og erfitt, þegar hjarta hans var harmþrúngið, og hann sagði samt: Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað veri nafn-

id Drottins! — þegar hann, einsog sagt er um þann mann, sem kalladur er fadir hinna trúudu, trúdi med von, þar sem einskis var ad vona (Rómv. 4, 18), og megladi ekki, heldur beid frelsunar frá Drottni! Hver, sem nokkurutíma hefir haft þetta hugarfar, mun hafa fundid, ad þad er gott og sælufullt; og hver, sem ekki hefir haft þad, mun þó hafa efundad þá af hvildinni, sem skynja og finna, ad vér lifum, hrærumst og erum í Gudi, og finna þad eins gjörla, og brjóstid finnur andann, sem þad dregur ad sér. En þessir menn, er hefdu áunnid sér sannfæring, sem ekki bifadist í stormum lífsins og straumi tímanna, hvernig áunnu þeir sér hana? Byrjudu þeir á, ad ætla sér ad komast uppá hæsta tind vizkunnar? reyndu þeir fyrst, ad lypta sér í hinar hæstu hædir, líta Gud augliti til auglitis, og læra ad tala um eylífa vegsemd hans, med ordum, sem eru heimi algjörlega samboðin? Einginn finnur trúna, sem ætlar sér undireins ad byrja á því, ad sækja hana til himins upp; hafi hann hana ekki til ad bera ádur, þá flækist hann þar í þúngar hugsanir, og traust og fullnægja hverfa burt úr sálu hans. Hversu feginn vildi eg kalla til sérhvers, sem svimi er kominn yfir á þessum hædum, og skygnist um kvídafullur, hvar hann megi sjá jördina undir fótum sér, en kemst þó brádum þángad, er hann ekkert sér, því birta himinsins blindar hann, og jördin hjúpar sig þoku, og hylst augum hans — hversu gjarna vildi eg kalla til sérhvers hvíliks villuráfanda manns: snú þú aptur til jardarinnar, því á hana setti Gud þig, og þú ert ekki enn nógu vanur og eflugur, til ad bætta þér á slíkt flug; en þarna á jördunni, bústad þínum, skaltu opna augu þín, og skygnast um eins lángt og eins vel og þú getur. Og þá, þegar þú sér jördina allt um kríng, med öllum saman audæfum sínum, og þegar þú sér hinn synilega himin uppi yfir þér, med öllum saman hersveitum sínum, og litur alstadar hinar ótæmandi nægtir, er gudleg fyrirhyggja lætur í té sérhverri skepnu eptir þörfum hennar; þegar þú athugar þann mátt, er leidir mennina gegnum lífid, hinn undarlega ósigranda mátt, er setur ofurhuganum skordur, og segir: híngad skaltu komast, en ekki lengra, hér skulu háöldur þínar brotna! sem veitir hinum audmjúka likn, sem hirtir oss, og litur aptur til vor miskunar-

augum, sem gefur oss krapta til ad bera, þegar oss liggur vid ad hníga undir byrdinni, sem lætur hjálpina vera næsta, þegar neydin er stærst — O! eg nefni nú adeins fátt eitt af því, sem eylífur Gud lætur vera umhverfis oss á jördunni, til vitnisburdar um sig; en þetta híd fáa er þó nóg til ad fylla sálina med tilbeidslu, og til ad kenna túngunni ad segja: Drottinn! og hjartanu ad segja: Fadir! og þetta hid fáa er nóg til, ad sýna oss þá stefnu, er vér eigum ad taka í hugleidingu vorri, og til ad kenna oss, hvernig þad geti verid smælingjum bert, sem hinir vitru og spekingarnir fundu ekki á háflugi hugar síns.

Eitt nafn er til, sem ædra er öllum nöfnum, göfgad og vegsamad hverju nafni meir, einnig hatad, offsókt og smád, en á því hefir tign þess í eingu minkad; þad hljómar um alla veröld, þad hljómar í höllum hinna voldugu og hreysi hins vesæla, í harki og háreysti lífsins og í þögn og einveru daudans, í eyrum hins vitra og hins fákæna; þad hljómadi mér í eyra nærri því nafna fyrst, og komst inní hugskot mitt med sætleik sínum, og nam þar stadar; veraldarglaumur og veraldarspott hafa ekki megnad ad slíta nafnid Jesú Krists útúr hjarta mínu. En nú veit eg, ad trú mín á ad vera öflug, hrein og skír, og ad eg á ad gjöra grein fyrir þeirri trú, og þeirri von, sem í mér er; og hvernig á eg þá ad búa mig undir þad? hvernig á eg ad rekja hugmyndir kristinnar trúar í réttu sambandi? hvernig skal eg veita þeim afl til ad sannfæra mig og adra? Á eg ad byrja á hinu efsta, og sökkva mér í djúp gudlegrar veru, til ad geta skilid, hvernig hann var í upphafi, og var hjá Gudi, og var Gud, og til ad geta skilid hina huldu eining Fodur og Sonar? Hann sýnist sjálfur vísa mér þarfrá, er hann segir: einginn þekkir Soninn, nema Fadirinn, og einginn þekkir Fodurinn, nema Sonurinn, og sá, er Sonurinn vill birta þad (Matth. 11, 27); og þó hann vilji, vér þekkjum og trúum, ad hann se í Fodurnum, og Fadirinn i honum (Joh. 10, 38), þá vill hann ekki leida oss til sín um hina dymmu leid grufls og efasemda. Komid híngad — segir hann — þér, sem erfidid og þjáist! eg vil veita ydur hvíld (Matth. 11, 28). Med því vísar hann oss fyrst á þad, sem næst er, og ad gefa gætur ad ástandi voru hér á jördunni.

Ef þú hefir byrði að bera í veröldunni, ef dagurinn er heitur og erviður, ef mæða og synd og sorg eru til í veröldunni, ef þar eru sjúkleikar, sem mannleg kunnátta megnar ekki að græða — og þú finnur til þessa, finnur til baráttu þinnar í efasemi, í ótta, í hryggð; þá muntu einnig finna, að það orðið, er talar um hvíld handa sálum vorum, er rödd héraðosan, sem talar til vor í eymd vorri; þá mun hugur þinn aðhyllast hann, er nefnist fræðari og meistari þeirra, sem vilja nema, hirðir þeirra, sem villast, græðari þeirra, sem einginn, utan hann, megnar að græða, hjálpari þeirra, sem ekki mega sjálfir hjálpast, er færir þeim líf og eylífa fullsælu, sem sitja í myrkri dauðans. Þegar þú byggur íkríngum þig hér á jörðu, þá muntú finna hann; leitaðu hans fyrst, einsog hann var á jörðunni; gakktu til Bethlehems; sjáðu þar í jötunni sveininn, sem öll fyrirheitin fylgja, sem á að verða mikill, og nefnast sonur hins hæsta; fylgdu honum á lífsferli hans hér á jörðu, þegar hann gekk um kríng og gjörði gott; sjáðu hvernig veikindin flýðu, augu blindra lukust upp, grafirnar opnuðust að boði hans; fylgdu honum á píslargaungu hans, allt þángað til, er hinn nýi sátttmáli var stofnaður á hinni miklu stund, er hann gat með sanni sagt: það er fullkomnað; nemdu staðar við gröfina, þar sem þeir hafa lagt þann, sem einn er réttlátur af öllum mannanna sonum, þann, sem er hógvær og af hjarta lítillátur; bíddu þar, til þess að gröfin opnast, til þess hinn mikli Sigurvegari gengur fram; láttu han síðan birta sig þér, dýrðlegan og alskæran orðinn, til þess hann líður burt um vegu ljósanna! Þessir hlutir eru orðnir á jörðunni: þú yfirgefur ekki það svið, sem þér er til vísað, og hættir þér ekki of hátt, þótt þú íhugir þetta. Eigi að síður lyptir það máttuglega sjón þinni héðan og upp til hæða; horfðu eins lángt og þú megnar; en þegar þú sérð ekki lengra, þá snú þú aptur, og seztu undir kross Krists, eða hvar þar, sem hugur þinn býður þér að dveljast með honum; því hann er í heiminn kominn, til að sameina hið guðlega hinu mannlega, og birta smælíngjum það, sem mannlegt vit aldrei fullskilur af sjálfsdáðum, og fyrir þá skuld optlega neitar af drambsemi sinni. Þetta á að vera stefna vor: ekki ofanað og

nidureptir, heldur nedanad og uppeptir; þó vèr megnum ekki ad grandskoda allt, skal þó sála vor ná svo lángt, ad hún geti hvílt í fadmi hins eylífa kærleika.

---

## 3.

## Medvitundin um Gud.

Víst er þessi veröld audug ad margbreittum og mikilvægum hlutum; þótt augu vor þreytist aldrei ad horfa, fá þau samt aldrei fullskodad þá allasaman, og þótt eyru vor þreytist aldrei ad heyra, fá þau aldrei fullheyrt um edli þeirra — og samt sem ádur er einginn sá madur til, sem ánægdur sè med þekkinguna á eintómum hlutum hins sýnilega heims. Þó vèr gjörþekktum allar þjódir og allar túngur; þó dýrin hefdu mætt frammi fyrir oss — sèrhver hinna þúsundþúsunda þúsund tegunda — eins-og þau fordum mættu fyrir augliti hins fyrsta höfdíngja jardarinnar; þó vèr hefdum litid nidur í undirdjúpin, og vissum, hvad þar er geymt, og hefdum talid stjörnur himinsins: þá myndum vèr samt sem ádur girnast ad þekkja ennþá meira, og ad þekkja eitthvad öllu þessu háleitara; því sálin nær ekki ad hvílast í hinum sýnilega heimi, heldur einúngis í hinu ósýnilega.

Er þad ekki undarleg laungun, sem leitar þannig á burt frá audæfum veraldarinnar og til þess, sem mannleg augu aldrei hafa sèd og aldrei geta sèd, sem girnist upp til þeirrar veru, er eingin ord geta lýst og einginn hugur numid! Samt finn eg, ad þessi laungun ríkir í djúpi sálar minnar; snemma baud hún mèr ad leita þekkingar á Gudi, ekki einúngis med því ad hlýda á adra, og læra ord og nöfn, heldur hvatti hún mig ad leita Guds sjálfur, þángad til eg fann hann.

Og þegar eg leitadi þannig, hversu berlega kannadist eg þá optsinnis vid sannindi hinna gömlu orda: Guds ósýnilega vera, hans eylífi máttur og guddómleiki, er sèn frá upphafi veraldarinnar, og sýnir sig í verkum hans. (Rómv. 1, 20). Því allir hlutir, sem Gud hefir skapad, vitna um hann; þó þeir fari þegjandi

leidar sinnar, þó þeir sjálfir finni hverki né skilji gudlega dýrd skapara síns, lýsa þeir henni samt berlega fyrir þeim, er megnar ad skilja, því Drottinn setti merki sitt á þá allasaman. Þegar eg med þessu móti kannast vid tilveru Guds, er þad þá eptir skynsamlegri ályktun, edur veldur því einhver upprunaleg tilfinníng? Eg veit þad ekki. Eit blómid í dalnum, sem hverki hefir ofid né spunnid, þad segir: Gud skrýdir mig; og fuglinn í loptinu, sem ekki sáir og ekki safnar í hlødu, segir berlega: Gud elur ønn fyrir mér; og hnettirnir uppi yfir oss, sem velta fram um himinleidirnar, kyrrir og stadfastir yfir øllum ókyrrleika jardarinnar — ekkert nema daufur geisli af ljósi þeirra getur nád til auga míns, en í næturþøgninni segja þeir vid mig berlega: almáttugur Gud stjórnar oss. Um fegur kvøld, um stjørnubjartar nætur, í forsælu skógarins, edur á strøndinni vid hid ómælanda haf, er gudsafneitun varla møguleg; og þad sem vér þa finnum til, getum vér gjørt ad ljósum hugmyndum, og radad því nidur í ályktanir, sem hver er bygd á annari, og skilníngurinn varla fær í móti mælt. En á þessari ørdugu leid, gegnum lángar radir hugsana og ályktana, verda fyrir oss margskonar efasemdir, sem ekki er svo hægt ad hrinda; sálunni fatast smátt og smátt ad sjá yfir þad alltsaman, og þegar hún ad lokunum hefir brotizt framúr hverjum einstøkum lid í þessu kerfi hugmyndanna, og þegar hún ad lokunum hlýtur jafnvel ad fallast á þá sennum, er þykir fullnægja skilnínginum, þá getur samt verid, ad hún fallist á hana med leynilegum ótta fyrir, ad skilníngurinn sé afvega leiddur, og ad eitthvad rángt hafi læðst inní þann hinn lánga reikníng orda og hugmynda, svoad hún, ef til vill, samsinni ekki med fullkominni sannfæríngu; því sannfæríngin heimtar skíra og stadfasta medvitund um, ad þannig sé því varid, og þad geti ekki ødruvísi verid. Þad er líka alkunnugt, hversu hæglega sannleikurinn truflast á þenna hátt. Vér sjáum þad optlega um þessar mundir, hversu hæglega þad fer svo, einmitt fyrir þeim hinum skarpvitrustu, ad hinn lifandi Gud ummyndast og verdur ad náttúrunni, ad alheimi, ad óendanlegum krapti, ad einhverju guddómlegu, er streymir í gegnum allt sem til er, edur ad einhverri af hinum ødrum hugmyndum, sem þeir búa sér

til-, er kalla skugganū veruna, og geislann, er skin yfir hinu skapaða, ljósðins eylífu uppsprettu.

Þannig er því varið: hversu yndæl og affaragóð sem skoðun hins sýnilega heims er huga mínum, hversu nálæga sem eg þar sæ optsinnis að líta dýrð Guðs á verkum hans, hversu opt og hversu feginn sem eg vík aptur til þeirrar hinnar sömu skoðunar, getur hún þó samt sem áður ekki veitt mér óræka fullvissu. Sú sannfæringin, sem mér er mest áríðandi, gagntekur mig ekki eins kröptuglega af þessari skoðun, eins og af tveimur tilfinningum, sem eg ber í brjósti mér. Láti eg þær ná að þróast fyllilega, boða þær mér tilveru Guðs með svo miklum styrkleika sannfæringarinnar, að ætti eg að afneita Guði, yrði eg jafnframt að afneita sjálfum mér. Þessar tilfinningar heita ótti og elska.

Þegar eg nefni óttann á þessum stað, gjöri eg það eingönguvegiun í sama skilningi og þeir, er halda að jarðneskur ótti sé uppspretta allra mannkynsins hugmynda um Guð og allrar guðlegrar tilbeiðslu. Því fer svo fjærri, að hefðum vér ekki ödlazt þekkinguna á Guði með öðru móti, þá hefði þessi ótti aldrei getað veitt oss hana. — Sá hinn jarðneski ótti gjörir helzt til snemma vart við sig í oss. Vér finnum ekki einúngis til bágindanna, þrautanna og hættunnar, sem komin er að höndum, en vér erum einnig fúsir á að ímynda oss allt hið illa, sem enn þá geti verið ókomið; vér sjáum það ekki, það er ekki framkomið, en vér finnum þó þegar til þess. Vér óttumst öfl náttúrunnar, vér skiljum að þau eru oss yfirsterkari, og vér höfum reynt, að þau geta rifið upp og eydt og brotið; vér óttumst bruna sólarinnar og kulda vetrarins; vér óttumst að loptið, sem vér öndum, sem breiðir sig svo blíðlega umhverfis oss, og myndar himinblámann uppi yfir oss — að það muni æsast af ofviðrum, eður að það muni eitrast og olla banvænum sóttum; vér óttumst dropa hins frjóssama regns, að þeir muni frjósa og verða að hrynjanda hagli; vér óttumst hinar straumhörðu ár; ver óttumst hafsins blíðlegu öldur, að þær muni æsast og brjóta allar stíflur og flóa yfir hin blómgudu lönd; vér óttumst jörðina, sem vér gaungum á — vér óttumst, segi eg, hina kyrrlátu, óbifanlegu, dauðu jörð, að hún muni skjálfa undir fótum oss og umturna verkum vorum. Þar

á ofan óttumst vér aðra viðburði, sem náttúran er ekki að vøld, þeir er ýmist steypa løndum og þjóðum, eður farsæld einstakra manna. Vér óttumst mennina umhverfis oss; vér vitum, að það sem vér køllum illt leyníst einnig í þeim og getur brotizt fram með mørgu móti, og að vér sjálfir erum að miklu leiti á valdi þeirra. Vér óttumst endalok allra mannlegra hluta — vér óttumst dauðann, því hann er oss máttkari og vér vitum ekki hvenær hann muni koma og hrífa frá oss þá, er vér elskuðum, eður hrífa oss sjálfa burt frá þeim og øllu því, sem oss er dýrmætast. Samt sem áður er ekkert það í øllum þessum margháttaða ótta, er leiði oss beint til Guðs, því eg hlýt að þekkja Guð, áðurenn mér geti hugkvæmzt, að þetta sé alltsaman á hans valdi, að hann ráði øflum náttúrunnar og stjórni gjørðum mannanna, og áðurenn eg geti ímyndað mér, að dauðinn sé af Drottni sendur. Þegar mennirnir annarstaðar að eru búnir að fá hugmynd um Guð, þá getur mér skilizt, að þeir eigni Guði allt það sem við ber, og að hugmyndin um Guð aflagist smátt og smátt í huga þeirra, svo þeir fari að reyna til að ávinna sér hylli Guðs með ýmsum hjátrúarbrøgðum, til að fá umflúið tímanlega ógæfu. En það getur mér ekki skilizt, hvernig voðalegir atburðir náttúrunnar geti komið mønnunum til að eigna þá af sjálfsdáðum reiði guðlegrar veru, og hvernig einber skoðun sólarinnar komi þeim til að segja: þú ert guðleg vera, þú lifir og veizt til þín og vilt mér ýmist vel eður illa; eður hvernig eintómur ótti fyrir veldi annara manna, er rísa í móti þeim, geti skotið þeim í hug að leita sér verndar af guðlegu veldi og ósýnilegu, er þeir á einhvern hátt geti komizt í samband við og komið því til að veita sér sigur og hefnd. Að minnsta kosti er þetta samband svo óljóst, og mótsagnir og efasemdir horfa svo beint við, að vér með eingu móti getum byggt á þessum hlutum neina játníngu, er kalla megi trú, eður neina sannfæríngu, er geti verið oss til leiðbeiníngar eða til friðunar sálum vorum.

En það er allur annar ótti, sem býr í brjóstum mannanna, er vér réttilega megum kalla helgan ótta. Þú veizt með sjálfum þér, djúpst í fylgsnum meðvitundar þinnar, að munur er á réttu og röngu, og að þessi munur er ekki hið sama, sem munurinn á

því sem þægilegt er og óþægiligt. Avinningur stód þér til boda; þú girntist ad ná honum og gazt nád honum; hann hefdi getad létt þér lífskjör þín og gjört þér æfi þína unadarmeiri; en undarlegt lögmál er einnig til, er þannig hljódar: þú mátt ekki taka þessi gædi, er bjódast þér; þú átt ekki ad girnast neitt af því, sem náúngi þinn á; þú átt ekki ad stela og ekki ad svíkja, og þú átt ekki ad halda því fé, sem þér er fyrirtrúad. Laungun bjó í brjósti þér, sem þú gazt fullnægt og girntist ad fullnægja öllu fremur, en eingill lögmálsins stendur fyrir dyrum sælu þinnar og sveiflar leyptranda sverdi og bægir þér á burt og sýnir þér lögmáls töflurnar, þar er skrifad stendur: þú mátt ekki. Ef þú nú samt sem ádur fremur hid illa, metur nautnina meira enn réttindin, og farsæld þína, sem þú kallar, fremur skyldunni; hverskonar undarlegur ótti er þad, sem vaknar þá í sálu þinni? Afbrot þín eru, ef til vill, dulin mannlegum augum; mennirnir hafa, ef til vill, ekki gefid gaum ad þeim, edur fyrirgefid þau, edur gleymt þeim, edur jafnvel lofad þau og goldid þér laun fyrir illgjördir þínar — hvad er þad þá, sem þú óttast? O, þessi ótti, þessi skelfing í brjósti syndarans, þegar samvizkan vaknar — hvad er sú tilfinning annad, en bodun nálægdar hins eylífa Guds? Sé einginn heilagur Gud, sem hafi gefid lögmálid, er þú braust, sé þetta lögmál gjört af sjálfum þér, edur einber mannlegur vani: hversvegna óttastu þá lögmálid svo mikillega? Sé einginn réttlátur Gud, er heimti ad lögmáli hans sé hlýdt, sé ekki allur fridur falinn og öll sæla búin í samvistinni vid hann, og öll eymd í missi hans miskunar: hversvegna skelfur þú þá og titrar?

Eg kalladi þenna ótta helgan ótta; og sérhver mun sannlega finna, ad hann má ekki missa sin úr mannlegu brjósti. Bezt mundi fara, ad mennirnir fyndu ekki til annars ótta. Ef vér sjáum þann mann, sem ekkert hirdir um, hvad sér muni mæta í veröldinni, þá þykir oss ad vísu gedslag hans ekki med öllu virdingarvert; en ekki getum vér borid ámóti, ad þad sé lán hans, og ekki getum vér vandad um þad vid slíkan mann, láti hann þad ekki ginna sig til ad gjöra neitt þad sem illt er. Og ef vér sjáum þann mann, sem hefir kannazt vid skelfingarnar á lífsins leid og sigrazt á þeim med hugprýdi sinni, þann mann, sem á

nógan ſtyrkleika, til að ſjá eyðínguna geyſa fram umhverfis ſig og hreggviðri ſorlaganna að gánga upp yfir höfði ſer, og ekki lítur undan, en þrjózkaſt gegn mætti mannanna og einſkisvirðir reiði þeirra — þá getur verið, að oſs virðiſt ſem eitthvað ſé að geðslagi hans, en varla munum vér geta ſynjað honum virðíngar vorrar. En mundum vér þá einnig virða þann mann, ſem hefði byggt ótta Drottins út úr hjarta ſer og ſviſiſt ekki við að þrjózkaſt gegn hinum eylíſa og hinum heilaga og hinum réttláta Guði?

Peſsi ótti, ſem mennirnir geta þaggað niður, en aldrei rekið með öllu á burt, ſem þeir geta hæðzt að með vörunum, en aldrei með öllu aſneitað í hjartanu, þeſsi ótti er ein þeirra tilfinnínga, ſem tengja mennina við Guð og líſga truna í hjörtum þeirra. Því ef vér ímyndum oſs mann, ſem freiſtíngar vantrúarinnar áſækja, ef það liggur við, að hæðni veraldarinnar, eður glaumur hennar, eður hryggð — að óvinur Guðs og manna — ætli að geta talið honum trú um, að einginn Guð ſé til, reyni þá ſá hinn ſami að ſegja við ſjálſan ſig, í ſamvizku ſinni: fyrſt að einginn Guð er til, þá má eg gjöra allt, ſem eg vil, og allt, ſem eg get, í veröldinni; geti eg dulið það fyrir mönnum, þá er einginn til, ſem viti það, því Guð hinn alviſi er ekki til; geti eg umflúið veraldlega hegníngu, þá er einginn ſá er hegni, því einginn almáttugur og einginn réttlátur Guð er á himnum; eg vil veita ſjálſum mér og öllum mönnum ſullt frelſi, vér ſkulum afla oſs veraldlegrar ſælu og veraldlegs hagnaðar; því ef vér hljótum ekki hagnað og ſælu í þeſsu liſi, hljótum vér það aldrei þaðanífrá. Þetta væri réttilega hugſað, ef vantrúin hefði ſatt að mæla, en einginn maður þolir að hugſa ſlíkar hugſanir á enda; því óttinn ſer á undan því illa, eður hann verður því ſamfara, og þeſsum ótta verður ekki á burtu rýmt. Eðli ſálar vorrar neyðir oſs til að játa því lögmáli, ſem ekki verður umbreitt né aſmáð; en þegar vér kennumſt við þetta lögmál, þá kennumſt vér einnig við þann, er lögmálið ſetti, þá játum vér að Guð ſé til, og að hann ſé Drottinn og Dómari allra vor. Og þeſsi ſannfæríng verður ljós og vakandi í huga vorum, hvert ſinn er vér látum ótta Drottins aptra oſs frá að fremja það, ſem illt er; því einúngis þekkíngin á Guði vekur oſs og eflir til að

lifa ráðvendu lífi, þannig eykur á hinn bóginn þvílíkt líferni þekkinguna á Guði og eflir hana.

Satt er það að vísu í allan máta, að kærleikur er betri, enn ótti, svoað ef vér alla daga værum algjörðir í kærleikanum, þá þyrftum vér ekki óttans við, til að reka eptir oss. En æ því miður! harla mikið er ávant, að vér séum svo gagnteknir af elskunni á Guði og náúnga vorum, að vér þurfum aldrei aðra hvet. Taktu á burtu ótta Drottins, og þá munt þú umleið taka á burt einhverja traustustu stíflu fyrir syndum og vonzku þín og annara. Þar á ofan er þetta hin tiltekna reð: fyrst kemur lögmálið og síðan boðun fagnaðarins; svo er það fyrir öllu mannkyninu og fyrir sérhverjum einstökum manni. Þú munt ekki leita lækningarinnar á Golgatha, nema ógnanirnar frá Sinai seu búnar að duna í eyrum þínum; þú verður ekki hluttakandi hins nýa sáttmála, nema því að eins, að þú hafir áður verið hluttakandi þess hins gamla; þú leitar ekki Guðs svo sem frelsara, nema þú hafir áður þekkt hann svo sem leggjafa, og óttast hann svo sem dómara.

En hversu helgur, hversu nytsamur og áffarasæll, sem þessi ótti er, eigum vér þó eingan veginn að staðnæmast í óttanum; því elskan er háleitari og æðra eðlis. Því segir postulinn til hinna kristnu: þér hafið ekki þegið þrældóms-anda, svo þér skyldud aptur verða hræddir, heldur hafið þér þegið anda kosinna sona, og samkvæmt honum kallið þér Guð yðvarn föður (Róm. 8, 15). Því segir einnig annar postuli, að full elska reki óttann út, því kvöl se óttanum samfara, og sá sem óttast sé ekki algjör í elskunni (1 Joh. 4, 18.). Af þessu leiðir, að elskan er sú tilfinníng, er sameinar manninn Guði með fegurra móti enn óttinn getur gjört.

Elskunni á Guði er og þannig varið, að hún er eins eðlileg mannlegu brjósti, eins og óttinn fyrir Guði. Og velgjörðir Guðs við mennina, sem eru svo miklar og margar, vekja þessa elsku og glæða hana. Þegar Guð lýkur upp fjársjóðum himins og jarðar, þegar hann kallar á oss svo segandi: njótið og sjáið, að Guð er góður! Þegar lífið er fagurt og líkami vor heilbrygður og hjarta vort glaðt, — þá taka að vísu margir við gjöfinni, og

gleyma þeim er gaf, en margir eru það einnig, er segja: látum oss elska hann, því hann elskaði oss að fyrra bragði. En á þá elskan til Guðs að flokkna, þó Guði þyki ekki ráð, að veita oss veraldleg gæði einsog vér beiðumst? Vér heyrum óteljandi raddir umhverfis oss í heiminum, er segja: hefði Guð veitt oss þær velgjörðir, þá gæfu, það yndæli, þann auð, þann heiður, þann styrkleika, er vér girntumst, þá mundum vér einúngis hafa þakkað honum og elskað hann, en vér játum, að fyrst hann hefir svo optlega synjað oss þess, er vér beiddumst, og tekið svo optlega aptur það er hann gaf, er hjarta vort farið að kólna, og oss lángar ekki eins mikið til hans og vér finnum, að vér erum honum ekki eins nátengdir og vér áður vorum, meðan vonin á miskunsemi hans var óroskuð. Það lítur þá út, eins og þeir, sem þetta mæla, vilji ekki leita Guðs, nema til að fá það, sem þeir girnast, og ekki endrarnær. Þeir hirða ekki um gjafarann, en heimta gjöfina; þessir menn gætu verið án Guðs, ef þeir væntu sér ekki velgjerða af honum.

Þetta er alltsaman eintóm sérplægni, þetta er ekki elska; því sá sem leitar annarar veru vegna einhvers annars, enn sjálfrar hennar, og vill ekki lifa í henni, heldur einúngis í sjálfum sér, hann elskar hana ekki. En ef vér íhugum sanna elsku á Guði og gefum henni mál, getum vér ekki látið hana mæla, utan á þessa leið: eg girnist þig ekki, Guð minn! og leita þín ekki, að þú skulir fullnægja óskum mínum og efla hamíngju mína, en eg leita þín — vegna þín sjálfs; þó að þú ekki hefðir vald á öllum hinum stundlegu gjöfum, er þú útbýtir svo ríkuglega um alla jörð — og hefir einnig gefið mér slíkan skerf, sem speki þinni þókti bezt henta — þá mundi eg samt sem áður leita þín, af því þú ert sjálfur hið æðsta hnoss, af því þú ert alfullkominn, af því eingínn getur elskað einsog þú — þú sem ert faðir allra! — og af því að eg get eingan elskað einsog þig. Eður elskum vér hér á jörðu feður vora og bræður og vini, fyrir þá aðstoð eður þann hagnað, er þeir veita oss, eður fyrir sakir gjafa þeirra? Ef þeir hefðu ekkert að gefa oss, mundum vér elska þá minna fyrir það? Eður á elska vor á þeim, sem oss eru nánir hér á jörðu, að vera hreinni og viðkvæmari og óséðrægnari, enn ástin á þeirri veru, sem allar verur eru afsprottnar, og vér lifum, hrærumst og erum

i? Þó að vér ættum öll önnur gæði, en værum sviptir föðurnum á himnum, þá hefðum vér sannlega mist það sem bezt var. Ef ekkert væri til, utan náttúra meðvitundarlaus, og þó henni væri svo fyrirkomið, að allt skyldi þróast og dafna öllum til góðs og til góðs handa sérhverri einstakri veru; þó henni væri svo fyrirkomið, að sála vor gæti lifað í dauðanum, en einginn lifandi Guð væri til, er vér gætum nálægt oss á tíma bænarinnar, og á dauðastundu vorri, — ó! hver sem nokkru sinni hefir fundið til elskunnar á Guði í brjósti sér, hann mun einnig finna, að væri þetta þannig, þá væri það horfið, sem eittsaman megnar að fullnægja sálu vorri og að gjöra hana sæla.

Þessi sífelda laungun guðrækinna manna eptir Guði, þessi furðulega, rótgróna fýsn, er sífeldlega snýr huga þeirra og laungun og allri ástundun til Guðs, hún hefir einnig í sér fullvissuna um að Guð er til. Því sérhver laungun, sem lifandi skepnum er meðsköpuð, leitar örugg að takmarki sínu og verður að geta fundið það. Væri það ekki til, sem fullnægir fýsninni, þá væri fýsnin til einskis. Þegar hunángsflugan flýgur í fyrsta sinn úr búi sínu, þar sem hún lifnaði, á hverju veit hún að gras séu til, sem geymi í sér vax og hið ilmanda hunáng, af hverju veit hún það, utan af fýsnini, sem gerir hana að þeirri veru, sem hún er, og kemur henni í samband við tilveruna kríngum sig — fýsninni, sem knýr hana til að leita? og sjá, hún finnur! Af hverju veit fuglinn, sem flýr undan vetrarkuldanum, að heitari lönd séu til, er geti veitt honum fæðslu, af hverju ratar hann leiðar sinnar yfir fjöll og dali og ólgusjó, utan af fýsninni, er leiðir hann óyggjanlega að því takmarki, sem hann stefnir að? Sérhver skepna, sem húngruð er, finnur á jörðunni, í loptinu, í sjáfardjúpinu, fæðslu til að fullnægja þörfum sínum; hún hefir ekki látið hana þar sjálf, ekki sáð og ekkert í haginn búið. Samt sem áður leitar hún örugglega, hún leitar og finnur. Og þú hin rótgróna, helga, óupprætanlega laungun í mannlegu brjósti, sem leitar hins eylífa kærleika, mundir þú einsaman leita til ónýtis? O, eins og sú tilfinníng í brjósti mér, er titrar af meðvitund um synd og spillingu, hefir í sér sannfæringuna um tilveru hins réttláta Dómara; þannig kannast sú tilfinníng elskunnar í brjósti mínu,

sem ekkert á jördu getur fullnægt, med fullri vissu og trúnadar-trausti vid födurinn á himnum. Gud hefir gjert oss handa sér, og sú laungun, er leitar upp til hans af daudlegleikans landi, og ekki er fundin med hugviti, og ekki verdur med hugviti ónýtt, hún er sá vitnisburdur, sem Drottinn ber sjálfum sér í hjörtum allra þeirra, sem tilfinningu hafa. Það er Gud sjálfur, sem kallar oss til sín med þessu móti; og sá sem kallar, hann er til, og mun leyfa þeim ad finna sig, er leita hans, og mun svara oss aptur, þegar vér ákollum hann.

---

## 4.

## Gudleg opinberun.

Eg hefi nefnt þær tvær tilfinningar hjarta míns, er tengja mig fastast vid Gud, ottann og elskuna. Hvernig sem hugur minn villist áśtundum og hverjar efasemdir sem leitast vid ad smegja sér inní hugskot mitt, get eg samt á augabragdi sefad þær allar-saman, ef eg ad eins spyr sjálfan mig: þórir þú nokkurn tíma ad afneita Gudi. Hefir þú lifad nokkra þá stund, ad medvitund hjarta þíns hafi leyft þér ad segja: það er einginn Drottinn yfir þér, gjör þú hvad þér líkar í veröldinni — og þessu næst: geturdu afneitad Gudi; geturdu látid hjarta þitt verda munninum samdóma, ef hann segdi: vér eigum eingan födur á himnum, og elskan, sem leitar upp til hans og nær ekki ad hvílast nema í honum einum, hún er ekkert annad, enn eintóm svikul og ástædulaus tilfinning, risin af ólgu blódsins í ædum þínum, edur af hégómlegum hugsunum?

En það sem eg finn til, blýt eg eptir edli mínu ad leitast vid ad skilja, ad svo miklu leiti, sem mér er það audid. Því optar, og med því meira afli, sem hin sama tilfinning kemur aptur í mannlegt hjarta, þess betur greidist úr henni í huga skynsamra manna, svo hún verdur ad ljósum hugsunum, og þær gjöra aptur tilfinninguna styrkvari og stadfastari. Þannig leitar hin öndverdlega og edlilega medvitund um Gud., ad verda

að þekkingu á Guði. En hvernig get eg ødlast þessa þekkíngu?

Eg þekki að vísu þær mótsagnir, er menn eru vanir að beita, einsog vildu þeir bægja oss frá þeim hugarburði, að vèr getum ødlast nokkra þekkingu á Guði; og þessar mótsagnir líta út, einsog eitthvað sè satt í þeim. Óendanlegur Guð, sem ekkert auga hefir sèð nè megnar að sjá, sem býr í því ljósi, er einginn fær tilkomizt, sem er ekki takmarkaður á nokkurum stað, að vèr getum sagt: þar ríkir hann, þar er bústaður dýrðar hans! og ekki undirorpinn legmáli tímans, að vèr getum sagt: þá varð hann til, þá kom vera hans í ljos, ofæddur, óskapaður, samur frá eylífð til eylífðar! við hvað eigum vèr að líkja honum? allar myndir hjaðna fyrir dýrð hans, einsog varið hjaðnar fyrir eldinum. Með hverju eigum vèr að lýsa honum? øll orð, sem til eru, missa þýðingu sína, þegar á að hafa þau um guðlega veru; gagnsèn og skoðaður af sjálfum sèr einum, óransakanlegur mønnum og allri endanlegri skynsemi, hulinn Guð — hvernig á að þekkja þennan Guð hèr á jørðu? hvernig eiga jafnvel smælíngjarnir og fáfræðíngarnir að geta fengið þekkingu á þessum Guði? og hennar þurfa þeir þó við, ekki síður, enn hinir vitru og spekíngarnir.

Mikið er of hermt í þessum mótsegnum, því er ekki fyllilega svo varið, að mannlegt vit sè svo veikt, að það geti ekki hugsað sèr Guð, mannlegt mál svo fátækt, að það hafi eingin orð, til að lýsa með guðlegum hlutum. En fyrst um sinn viljum vèr leiða þetta hjá oss, og svørum nú einúngis á þessa lund: ef að menniirnir geta ekki hafið sig til Guðs, þá verður þekkíngin á Guði ekki fengin með øðru móti, enn Guð komi niður til mannanna og birtist þeim, að sá Guð, sem hulinn er mannlegri sjón og skilníngi, opinberi sig. Það er upphaf allrar þekkíngar, að það sem á að verða þekkt, komi fram fyrir hinn skoðanda og að hann ljúki upp skilníngarvitum sínum til að verða var við, og hugskoti sínu til að nema. Upphafi þekkíngarinnar á Guði er eins varið, það er að skilja, að Guð kemur fram fyrir oss, að vèr sjáum hann í verkum hans, og að vèr finnum í sálu vorri: hèr er Guð. Øll þekking á Guði er þannig byggð á opinberun,

og sérilagi er kristindómurinn byggdur á einni einstakri tegund opinberunar; eigi því hugleidingar minar um kristindóminn ekki ad verda hverful hugsun og reikandi ræda, hlýt eg ad halda mér fastlega vid þessa hugmynd.

Og þá kannast eg í fyrsta lagi vid þad, ad **Gud opinberar sig í náttúrunni**, í tilveru og niduröðun sýnilegra hluta. Þessvegna getur postulinn med sanni sagt, jafnvel um heidingjana: þad sem mennirnir geta vitad um Gud er opinberad þeim, því Gud hefir þeim þad opinberad (Róm. 1, 19). Bædi himin og jörd boda sanulega lofdýrd Guds. Hver hefir litid yfir jördina, þegar vorid fyllti hana grösum og blómum, edur þegar sumarid fyllti hana ávöxtum, hver hefir hvílzt undir skugga trjánna, hver hefir stadid á sjáfarströndinni, þegar hafsdjúpid tók af hræraft og bylgjurnar ad geysa, hver hefir litid upp til hinna ómælandi hæda, sem hvelfast yfir öll lönd og öll höf, yfir allar athafnir mannanna, yfir allar hallir og öll hreysi, yfir allan grúa hinna lifendu og yfir allar grafir hinna daudu, hver hefir gengid úti hid mikla musterid, sem ekkert annad musteri kemst í neina samlíking vid — hver hefir gert þetta, án þess ad heyra þúsundsinnum þúsund raddir boda lof og dýrd hins eylífa, og án þess ad geta, í blómum jardarinnar og í stjörnum himinsins, lesid nafn skaparans. Þegar eg fer ad hugsa um þad, sem eg hefi þannig séd um ljósa daga og þögular nætur, þá hefi eg ad sönnu reynt, ad eg get smátt og smátt flækt mig í neti ruglabra hugsana, svo mér veitir örðugt, ad geta litid í einu yfir þær allar, og greint hid rétta frá hinu ránga; en þó koma jafnan hinar einföldu spurníngar aptur ad nýu og medvitundin í brjósti mér játar, ad þeim verdi ekki svarad nema á einn hátt: er einginn höfundur allra þessara furduverka, sem vér sjáum? er einúngis veldi til, en einginn voldugur? er einúngis speki til, en einginn spakur? Þar sem afleidingar eru á alla vegu, er þá eingin orsökin, eingin upphafleg orsök? þar sem straumar lífsins renna á alla vegu, er þá eingin uppsprettа, þadan er þeir komi? Í hinu breitaulega hlýtur þó eitthvad ad vera, sem ekki breitist, eylíf vera, upphaf allra hluta. Og þessi vera — lýstu henni fyrir sjálfum þér, einsog þú hlýtur ad ímynda þér hana.

Er hún ekki annad, enn þad sem vér köllum náttúrukrapt? Er hún daud? hún er þó uppsprettа lífsins. Er hún blind? hún lýkur þó upp allra augum. Sá sem myndadi augad, mundi hann ekki sjá? Sá sem grodursetti eyrad, mundi hann ekki heyra? (Sálm. 94, 9). Sá sem gjørdi mannlegar sálir, svoad þær geti vitad af sér og hugsad ljósum hugsunum, mundi hann ekki sjálfur skynja og ekki vita til sín og til vor? Sá sem kenndi veiku hjarta mannsins ad farsælast af nægd ástarinnar, mundi hann ekki sjálfur vera ást? O! sannlega birtist ósýnileg vera Guds, eylífur máttur hans og guddómsedli, allt í frá sköpun veraldarinnar og verdur skilin af verkum hans, svo vér høfum einga afsøkun (Rómv. 1, 20) ef vér neitum.

Í ødru lagi opinberar Gud sig í þeim hlutum, er verda á jørdunni; hann opinberar sig serhverjum manni, allt frá hinni fyrstu stund, er barnid finnur sér fædslu tilbúna í brjóstum módurinnar, sem þad lét þar ekki sjálft, og sem einginn madur lét þar handa því — og þadanífrá, allar þær stundir, er Gud sedur munninn á fædslu og hjartad á gledi (Post. g. b. 17, 27). Hann opinberast øllum kynkvíslum mannanna, er hann sýnir svo þráfaldlega, ad yfir øllum breitíngum hlutanna og rádum og vidleitni mannanna, sé Gud til á himnum, sem gjøri þad, er honum vel þókknast (Sálm. 115, 3); því vor himneskur Fadir ervidar allt til þessa (Jóh. 5, 17). Hann þandi ekki adeins út himnana fordumdaga og myndadi jørdina af mætti sínum, en þad, sem ennþá verdur á hverjum degi, leidir ekki eingaungu af hinni fyrstu niðurrødun hlutanna, heldur sýnir þad oss, ad Gud heldur áfram ad stjórna. Ad vísu ber þad optlega vid, ad vér fáum ekki skilid rádstafanir Guds, medan vér støndum í hinum geysandi stormum og sjáum einúngis hversu stjórnlaust þeir æda hver á móti ødrum, og hvernig þeir vada áfram eydandi og brjótandi, en sjáum ekki ennþá hvert þeir fara, né hví þeir séu útsendir. Hvernig megum vér og búast vid, ad geta med skamsýni vorri litid yfir, og med hinum takmarkada skilníngi vorum fá skilid, þá rádstøfun, sem nær yfir alla mannanna laungu leid, gegnum torfærur þessa lífs, og ígegnum hid ókomna lífid, — þá rádstøfun, sem nær yfir alla tíma og alla kynþætti. Hver mundi undr-

ast það, þótt ormurinn í duptinu viti ekki, hvað uppi skín á fjallatindum? eður þótt við fyrsta orð sé ekki ljóst, fyrrenn búið er að segja hið síðasta? O! sannlega ber oss að lúta þeim, sem einn er vís, að þegja og tilbiðja, að trúa, þó vèr sjáum ekki. En svo að trú vor skuli ekki slokkna, lætur Guð oss einnig optsinnis sjá; því hversu opt hefum ver orðið að segja: þetta kom frá Drottni, það var Guðs ráðstefun! Þegar hinar kænlegustu ráðagjörðir mannanna og traustustu verk fuku svo optlega á burtu einsog fis, en sáðkorn það, sem einginn gaf gaum að, þróaðist bæði fljótt og vel; þegar vèr optlega fundum veg þann lokaðan, sem vèr höfðum ætlað oss að gánga, svo vèr gátum ekki opnað hann, þó vèr reyndum það á allar lundir, en ósýnilig hönd leiddi oss apturámóti um annan veg ígegn vilja vorum; þegar vèr ástundum urðum þakklátlega að kannast við, hversu hollt það var oss, að oss var synjað jafnvel þeirra hluta, sem vèr girntumst öllu fremur, hversu mikið vèr lærðum, í hinum harða, en þó nytsama skóla mótlætinganna; þegar vèr einnig komumst að raun um, að freistingin var oss ekki um megn fram; að hjálpin var nálæg, þegar neyðin var mest, huggunin nálæg í hinni beiskustu sorg, þegar afdrifin urðu miklu ødruvísi og miklu betri, enn vèr höfðum búizt við í kvíða vorum og efasemi; þegar það leit optlega út, einsog hinn seki mundi ætla að fá umflúið hegnínguna, en hinar huldu, gömlu, gleymdu misgjørðir komu þá undarlega í ljós, og hinn saklausi varð hinsvegar eins undarlega frelstur úr snøru þeß, er ofsókti hann; þegar vèr sáum, að hin tóma krúsin var fyllt, sáum hina dásamlegu blessun yfir litlum efnum; þegar vèr heyrðum menn vitna: ver höfum verið úngir og erum orðnir gamlir, en ver höfum ekki sèð hinn rèttláta yfirgefinn, eður børn hans brauðþurfa (Sálm. 37, 25) — þá urðum vèr að boða verkin Guðs og skilja, að það voru hans verk (Sálm. 64, 10).

Ennfremur opinberar Guð sig í brjóstum mannanna, og þaðan uppkoma þær tilfinníngar, ótta og elska, sem geta ekki orðið skiljanlegar með ødru móti, enn að þær rísi af meðvitundinni um þann, sem meiri er, enn hjarta vort (1 Jóh. 3, 20). Sannlega er løgmál ritað í hjørtum vorum, og rødd

er til, sem talar um rétt og rángt með svo miklu valdi, að vèr þorum ekki að mæla henni á móti. Eg get ekki kallað lygar og svik, eða ofbeldi og undirokun, rètta hluti og góða; eg get ekki kallað verndun hins þjakaða, eða miskun við hinn nauðstadda, eða sjálfsvalausa uppfylling skyldunnar, eða móðurást og vinatryggð, ránga hluti og illa. Og eingu hægra er mèr að segja: eg geng undan allri hlýðni við það lögmál, sem þannig talar í brjósti mèr, eg vil vera öldúngis óbundinn, öldúngis samvizkulaus. En eg á sannlega rètt á, að heimta það að sèrhverjum, sem finnur þetta ásamt mèr, að hann svari sèr greinilega í huga sínum, þá er hann spyr sig: hver hefir ritað þetta lögmál, sem mannleg kjör og venja og lèttúð og ósvífni megna ekki að afmá? Ef lögmál er til, þá hlýtur einhver að hafa sett það. Hvernig verður sá dómur háður, er samvizkan boðar háum og lágum, þeim sem heimurinn lofar og þeim sem hann hefir útskúfað? Ef dómur er til, þá hlýtur einnig sá að vera til, er dæmi. Þessar hugsanir kveykja ýmist ótta eður trúartraust, eptirþví sem þær heita oss hegníngu eður umbun; en í báðum þessum tilfinníngum opinberar Guð sig meðvitund sálar vorrar. Hversu opt hefir Guð talað þannig í brjósti mèr, sem Drottinn og Dómari, og hversu optlega, sem Faðir! Því fagurt ástarsamband er til beinlínis á milli Guðs og manna. Heimurinn kalli það hvað sem hann vill, en svo sannlega sem eg hefi með skilníngarvitunum orðið var hlutanna íkríngum mig, svo hefi eg reynt í hjarta mínu, að Guð er ekki lángt frá neinum af oss, að í honum lifum, hrærumst og erum vèr; hann hefir sjálfur vitnað um sig, ekki einúngis þá, er hann lèt veraldleg gæði falla mèr í skaut, er hann rètti munni mínum fæðu, heldur einnig þá, er hann svalaði brennandi laungun sálar minnar, er hann fyllti sál mína anda sínum, er hann í tilfinníngu hjarta míns birti mèr veru sína, að hann se kærleikurinn.

Þetta hafa menn kallað hina almennu opinberun, af því hún veitist jafnt öllum mönnum. Apturámóti segjast kristnir menn þekkja aðra sèrlega opinberun, sem takmörkuð er innan viss tíma og vissra staða, og er að sönnu ákvörðuð til að verða birt öllum mönnum, en getur samt ekki orðið það,

nema smátt og smátt. Það er fyllilega ljóst, að þegar kristinn maður nefnir gudlega opinberun, sem undirstöðu kristilegra fræða, þá meinar hann eitthvað annað, enn opinberunina í sköpunarverkinu, eður í hjartanu, eður í hlutanna eðlilegu rás; svo ef vér færum að tala við hann um opinberunina og meintum einúngis til hinnar síðarnefndu, þar sem hann meinar til alls annars, þá mundum vér rugla með því ræðuna, svo eingin sannleikur yrði eptir í henni.

Það er furðanlegt, að þarsem nú svo margir eru búnir að koma sér saman um að gjöra æ minna og minna úr mannlegri þekkíngu á ósýnilegum hlutum, er þeir ætíð meir og meir fráfnúast allskonar djúpri ransókn, af því þeir eru einusinni búnir að segja, að menniruir geti ekki gagnskoðað samband hlutanna og geti ekkert vitað um Gud og eylíf efni — halda þeir samt hinsvegar, að þeir séu sjálfir svo fyllilega búnir að gagnskoda djúp guddómsins og veraldarinnar, að þeir geti fullyrðt, Gud hafi með eingu móti getað opinberað sig á annan hátt, enn hinn venjulega og náttúrlega! Þetta getum vér hvorki játað, né eigum að játa, svona undir eins. Miklu fremur hlýtur sérhver, réttsýnn maður, sem ann sannleikanum, að kannast við, að þegar hann kastar burtu öllu því drambi, er hann ætlaði að hefja sig með yfir hinn fákæna lýð, sem trúir táknum og stórmerkjum, girnist hann samt í raun og veru, að opinberun væri til, svo Gud gæti birt sig oss með því móti ljósar, enn í hinum almennu opinberunum. Því hversu margt og mikið sem vitnar um Gud í hinu ómælandi ríki skapaðra hluta og í viðburðanna undrunarverðu rás, eður í innstu fylgsnum sálarinnar, þá er samt ekki í öllu þessu það orð, sem eyrað girnist að heyra, er segi berlega að Gud sé til, og hvílíkur Gud sé, og hvernig Gud hafi síð fyrir ráði mannkynsins. Á þá maðurinn einnsaman og af sjálfsdáðum að bæta þessu orði við? Er hann sá hinn eini, sem talar á himni og jörðu, en skaparinn þögull, einsog hin ómálga skepna? Á maðurinn sjálfur, einúngis af vizku sinni, að þýða hin leyndarfullu táknin, ráða hinar torskildu gáturnar, fullvissa sjálfan sig um, að hann sé búinn að finna og framsegja hið rétta, leiða sig sjálfur á hinn rétta veg, kalla sjálfur á sig aptur af afgötunum?

O! ad ord væru til, er eylífur Gud birti sjálfan sig í fyrir mønnunum, ljósari enn þúiar myrku raddir, sem vér svo optlega gefum ekki gaum ad og heyrum svo optlega á ýmsa vegu, hversu einlægur sem viljinn er. O! ad ljósari ord væru til, er gætu vísad mér á þann veg, sem eg á ad gánga, og leidt mig á honum — er gætu sannfært mig med meira afli, enn eg sjálfur get og spekíngar jardarinnar, um þad, hvert þeir hlutir, er eg hefi séd, séu sannleikur edur sjónhverfíngar; ó! ad kennsla væri til, sem gæti leidt mig lengra, enn eg get komizt med hugsunum sjálfs míns, og opinberad mér þad, sem eg leita ad med eldheitri laungun, eins og hinn þyrsti á eydimørku leitar ad uppsprettu lifanda vatns — þad sem hverki dagur né nótt, hverki blóm jardarinnar né stjørnur himinsins geta frá sagt, þad sem eg get ekki lesid á tøflum løgmálsins í brjósti mér, Guds rád til frelsunar glatadu mannkyni, til endurlausnar þeim, sem ásamt mér eru bundnir í þúngri ánaud.

Hvar sem eg sé mannlegar framfarir og mannlega þekkíngu, sé eg líka jafnan, ad þær hafa byrjad á tilsøgn og kennslu. Þad sem eg veit um jardneska hluti, er ekki þadan komid, ad eg hafi þreifad í blindni innanum margbreitni hlutanna og fundid þannig sjálfur þad, sem mér bar ad afla þekkíngar á, heldur voru þad adrir er vøktu þekkíngarfýsnina í sálu minni, adrir stýrdu hreifíngum hennar, adrir léttu mér leitina og rudu øllu nidur fyrir mig, einsog aldri mínum og framførum var haganlegast. Hversu lángt mundi eg vera kominn, ef eg hefdi sjálfur átt ad sjá fyrir mér eingaungu? Þad sem eg veit um himneska hluti, byrjadi ekki á því, ad eg uppgøtvadi sjálfur þá naudsyn, sem er á ad tengja saman hid jardneska og hid himneska, ad eg gæti mér sjálfur til hins ósýnilega af hinu sýnilega, edur til hins eylífa af hinu endanlega; heldur nefndu adrir Gud fyrir mér, hinn eylífa Fødurinn, og þá samþykktist hjarta mitt máli þeirra og fann, ad Gud er til. Adrir skírdu mér frá veru Guds, og þá fann eg í brjósti mér, ad Gud er almáttugur og alstadarnálægur, alvitur og algódur, heilagur og réttlátur, miskunsamur og líknsamur. Þannig hófst þekkíngin í sálu minni og í sálum allra manna; hvernig mætti þá upphaf allrar gudlegrar þekkíngar á jørdunni hafa

getad verid slíkt, ad mennirnir efludu þekkingarinnar án allrar tilsagnar? Hver er sá fadir, er sendi barn sitt úti veröldina, utan hann sé ádur búinn ad tendra ljós þekkíngarinnar í sálu þess, ad festa í huga þess og hjarta reglur þær, er það á síðan ad fylgja? Hver er sá fadir, er horfi á barn sitt fara afvega, og kalli ekki á það? horfi á það gánga beinlínis framí glötunina, og láti það sjá fyrir því sjálft, hvert það af sjálfsdádum geti nogu snemma séd djúpid, sem það stefnir ad? og þú, sem allt faderni er frákomid á himni og jördu, mundir þú hafa látid börn þín án uppeldis og tilsagnar? mundir þú hafa ætlad mennina til ad efla st og dafna til ædri tilveru, med réttlæti og elsku í ótta þínum og þekkíngunni á þér, og svo ad því búnu látid mennina sjá sjálfa fyrir því, hvert ad þeir af sjálfsdádum gætu þekkt ákvörd-un sína og nád henni? mundir þú hafa sleppt þeim útá lífs-ins villugjarna ólgusjó, án þess nokkur stodug stjarna skyni þeim til leidarvísis! Mundir þú hafa séd mennina í allri villu sinni, og kallad ekki á þá, séd þá á bakka glötunarinnar, og rétt ekki út hönd þína til ad frelsa þá! Þú hinn eylífi kærleikur! mundir þú ekki hafa virt þess manninn, sem þú elskar, og einúngis getur fundid frid í því ad elska þig, — mundir þú ekki hafa virt hann þess, ad birta þig honum á annan hátt, enn med myrkum rádgát-um í verkum þínum og óljósum grun í brjósti hans! Hvad mundi vera ordid úr manninum, hefdi hann, þá er hann vakn-adi til lífsins upphaflega, séd sig einan, hjálparminni enn dýrin ikríngum hann, en eingan séd, er vildi leidbeina honum, eingan, er vildi segja honum til?

Allir menn í öllum heimi, eins heidíngjarnir, sem minnst vita, tala um gudlega opinberun; það eru skröksögur og sumar af þeim svikfamlegar og svívirdilegar. En hvernig gat mönnun-um komid til hugar, ad Gud opinberadi sig á slíkan hátt? Mundi ekki undirrót alls þessa vera upphaflegur sannleiki, sem ruglazt hafi og aflagazt? Mundi það ekki vera frásaga, er öndverdlega hafi skírt frá sönnum vidburdum og géngid svo frá kynslód til kynslódar, og komizt um sídir á vald lýginnar?

Hinn kristilegi fagnadarbodskapur er opinberun, og algjör-lega byggdur á fornum opinberunum. Hann lýsir því yfir, ad

hinn lifandi Guð hafi gengið fram fyrir mennina úr djúpi veru sinnar, að hann í öndverðu hafi boðað þeim, hver hafi sett þá í heiminn og kennt þeim snemma að nefna nafn hans og kveykt snemma í brjóstum þeirra lotníngarinnar fögru og farsællegu tilfinníng og kennt þeim að hefja hugann til hæða í tilbeiðslunni. Hann lýsir því yfir, að Guð hafi ekki yfirgefið hina úrættudu kynslóð, að hann hafi viðhaldið á jörðu þeim neista þekkíngarinnar, sem í fyllíngu tímans átti að verða að ljósum loga, að hann hafi optsinnis og með mörgu móti talað til feðranna fyrir spámennina (Hebr. 1, 1), fyrir þá menn, sem knúðir voru af Anda Guðs, og fóru ekki að eyrindum sjálfra sín, heldur að eyrindum hins eylífa og háleita, og voru færir um að sýna bæði í orðum og gjörðum, að þeir væru af honum sendir. En að síðustu talaði Guð til allra manna fyrir Soninn, að síðustu opinberaði Guð sig í hinum eingetna, því þetta er fagnaðarboðskapur kristinnar trúar, að Guð sætti veröldina við sjálfan sig í Kristi (2 Kor. 5, 19).

Ef vér athugum þessa opinberun, — hver fær þá neitað, að hún sé komin í ljós á annan hátt, enn eptir hlutanna og viðburðanna venjulegu rás, er vér köllum náttúrlega? að nokkru leiti geta menn sagt og eiga að segja, að Guð opinberi sig í orðum og gjörðum viturra, guðrækinna og réttlátra manna; því allt, sem er viturt og háleitt og gott, kemur frá Guði og stuðlar til að gjöra Guð dýrðlegan á jörðunni. En hversu ólík er koma Krists, og koma þeirra, sem á undan honum voru, og allra, sem komið hafa eptir hann! Líf hans hér á jörðu er tákn og stórmerki, það verður ekki skilið og á ekki að skiljast samkvæmt lögum náttúrunnar.

Látum oss snúa huga vorum til hins fyrsta kraptaverks, sem Jesús gjörði, þegar hann var að brúðkaupinu í Kana í Galílæa og vínskorturinn varð (Jóh. 2, 1, o. nn. vv.). Það sem Jesús gjörði þá, þykir oss ef til vill lítilvægt, og lítið var það að vísu, að bætt var úr svo léttvægum skorti. Þó kannast postuli hans við, þetta tákn hafi verið svo mikið, að hann lýkur frásögunni um það með þessum orðum: þannig auglýsti Jesús dýrð sína og lærisveinar hans trúðu á hann. O! — hversu herlega veit eg, að þegar þeir, sem frá upphafi voru vitni hans, sögðu að

þeir sæu dýrd hans, svosem hins eingetna Sonar Födursins, þá meintu þeir einkum til þess, ad þeir sáu hann fullan nádar og sannleika (Jóh. 1, 14), og þegar þeir sögdu, ad þeir þekktu eingan annan, er þeir gætu leitad til, kom þad til af því, ad hann hafdi hid eylífa ord lífsins (Joh. 6, 68). En til ad vekja mennina, svo þeir gæfu gætur ad þessum ordum, til ad styrkja ordin á móti þeim efasemdum, sem ætíd erú vidbúnar ad mæla í móti, til þess þurftu tákn og stórmerki. Ef vér þá hugleidum hid fyrsta kraptaverk Krists, hvernig lítur þad út? Sannlega! annadhvert eru þetta töfrar og sérhvad annad, sem oss hryllir vid ad nefna, þegar vér tölum um slíkt efni; annadhvert bljótum vér ad bera kinnroda fyrir ad segja frá þessu um hann, sem vér köllum Drottinn vorn og Meistara, edur vér höfum ad ödrum kosti ekki nema eitt ord, til ad lýsa ásigkomulagi þessa verks: þad er kraptaverk. Ad vísu er þad einnig dásemdarverk Guds, þegar vökvi jardarinnar breitist og batnar í vínvidinum, og verdur ad lífganda og styrkjanda hressingar-drykk; en dásemdin er fólgin í tilbúningi náttúrunnar, og frá því ad hann var upphaflega til ordinn, fer þad allt ad sköpum. Apturámót, þegar Jesús gjördi kraptaverkid í Kana, þá breittist ekki vatnid eptir lögum náttúrunnar, heldur var sú dýrd, sem þá átti ad birtast, dýrd þess, sem er Herra náttúrunnar, er skilur allt og megnar allt, er segir, og þá verdur þad, er býdur, og þá stendur þad þar (Sálm. 33, 9). Ef vér hugleidum hvert um sig af kraptaverkum þeim, er Jesús sídan gjördi, og ritud eru til þess vér skulum trúa því, ad Jesús sé Kristur, Sonur Guds (Joh. 20, 31) — þegar kraptur Jesú flaug í gegnum vísnandi limu hinna veiku og þeir urdu aptur hraustir og heilbrygdir, þegar hann lauk upp augum hinna blindu og eyrum hinna heyrnarlausu, þegar hann blessadi hin fáu braud, svo þau urdu nóg handa mergum þúsundum, þegar hann lægdi hinn stjórnlausa ofsa vindanna, þegar rödd hans hljómadi nidur í grafirnar og kalladi aptur íbúa þeirra upp í ljósid; þá er öllum þessum verkum varid á hinn sama hátt. Því öll opinberun Krists er kraptaverk, og hefdi ekki nád tilgángi sínum, nema med því móti ad birtast á þenna hátt. Því Gud, sem átti ad verda kunngjördur, og opinberadi sig í Kristi, á ad þekkjast þannig, ad menn-

irnir sjái hann sé ædri náttúrunni. Hversu mikil og hversu audug sem náttúran er — allt sem lifir, verdur til og breitist og lídur undir lok í henni, en hún heldur áfram ad vera til; lög hennar ná yfir stjörnurnar á himninum og yfir allt, sem bærist í sjáfardjúpinu, og konúngar jardarinnar í hásætunum verda ad hlýdnast bendingu hennar, allt eins og hinir vesælustu þrælar þeirra — samt sem ádur er hún einúngis eins og andi hins almáttka, ef hann dregur hann ad sér, eydist hann og hjadnar, ef hann bendir, stödvast hann og hlýdir bodum hans, því Gud er Herra náttúrunnar. Hvad sem vér menniruir höfum fyrir stafni, getum vér aldrei komist útfyrir takmörk náttúrunnar, og aldrei fundid þann stad, er hinn forni spekingur leitadi ad fyrir utan heiminn, þadan sem hann ætladi sér ad breita nidurrödun náttúrunnar; því Gud hefir lagt oss undir lög hennar, og náttúra þessa heims er einnig vor náttúra. Sjálfur Gud fer ekki útfyrir edli sitt, hann breitist ekki og skiptir ekki veru sinni, en náttúra þessa heims er ekki náttúra Guds; hún er verk hans, og hann breitir rás hennar, þegar hann vill opinbera dýrd sína, fremur enn á venjulegan hátt, svo mannkynid undrist og sjái ad hann er Drottinn, Gud almáttugur.

Eg sagda, ad vér mennirnir gætum ekki komizt út fyrir takmörk náttúrunnar, vér hljótum í öllum gjördum vorum ad haga oss eptir rás náttúrunnar og getum einúngis búizt vid uppfyllíngu óska vorra, samkvæmt lögum hennar. Því Gud gjörir ekki á hverjum degi kraptaverk umhverfis oss, svo ad vér þyrftum fyrir þá sök, ad vera í efa um undir hvílíkum lögum vér lifum, og hvílík ad sé sú nidurskipan hlutanna, sem oss beri ad leitast vid ad fá skilid og færa oss til nota. Vesæll væri sá gudleysingi, sem af fíflslegu drambi léti sér koma til hugar, ad hann gæti gjört hin sömu verk og Gud almáttugur; og vesæll er heimskinginn, sem lángar til at sjá hégómleg furduverk, og lætur villiljósid tegja sig út í dymmar ófærur, þar er þad hverfur; og vesæll væri letínginn, sem færi ad halda ad sér höndum, og bída svo adgjördalaus eptir kraptaverki. Vort líf á jördunni byrjadi undir lögum náttúrunnar og á ad lída og enda undir þeim. En þegar sá, sem er geisli Guds dýrdar og eptirmynd veru hans, átti ad gjöra

Guð kunnan á jörðunni, þá gjörði hann slík verk, sem hinn almáttki gjörir; og þannig opinberaði hann dýrð sína og lærisveinar hans trúðu á hann.

---

## 5.
## Skynsemi og opinberun.

Þegar vér íhugum, hvað til þess komi, að mörgum, enda þó vel séu viti bornir, er svo óljúft að ímynda sér nokkra opinberun: þá getur vel verið, mannlegu viti útaf fyrir sig fylgi eitthvað það, sem standi í mót opinberuninni. Vitið vill sjá allt út, það vill grípa og skilja, og þessvegna fellur því ekki það, sem annaðhvert er í sjálfu sér óskiljanlegt, eða í fyrsta áliti virðist ekki geta staðið heima við það, sem vitið er búið að skilja, svoað vitinu veitir örðugt að koma því heim. Fyrir því er það ætíð gjarnt á að bera á móti öllu, sem fágætt er og undarlegt, og ekki eptir venjulegum hætti. En það væri þó fullkomin heimska, ef vér ætluðum oss að sækka sjálfir gripum vorum, svo það yrði hægra að telja þá, eða kasta burt auði þekkingarinnar, svo það yrði hægra að afla þekkingar. Vitið er því að eins góð eign, að það beri ekki á móti því, sem er, heldur kanníst við það; að það riti ekki sannleikann, svo hann skuli standa heima við tilbúnar meiningar þess og verða auðveldari meðferðar, heldur leiti að aukast og þróast til að geta gripið sannleikann einsog hann er.

Margir eru og vegna þess ófúsir að trúa opinberuninni, að þeir óttast vanbrúkun hennar. Því er og miður, að vér getum ekki í móti mælt, að margir hafi haft sannar eða lognar opinberanir til að kefja með þeim skynsemi og vit, til þess að láta menn hlýðnast í blindni boðorðum annara, en ekki trúnni og sannfæringunni í brjóstum sér. Þeir hafa verið, og eru enn margir, sem ekki vilja, að mennirnir verði frjálsir og skynugir; þeir vilja leiða þá í blindni og halda þeim í vankunnáttu, til að geta því betur haft þá sér til nota eptir jarðneskum

tilgángi sínum; þessvegna hafa þeir annan lærdóm handa sjer og vinum sínum, enn handa lýdnum, og segja, ad hann þoli ekki ljósid, en eigi ad trúa lygum og skroki, og vera svo og verda þræll annara.

Vjer megum ekki í móti mæla, ad slíkt hugarfar hefir opt verid ríkt medal Fariseanna í kristinni kyrkju. En hversu ólíkir því voru hinir fyrstu bodendur trúarinnar! "Vjer höfum afsagt alla leynilega svívirding, segir Páll postuli, og förum ekki med vjelar, fölsum og ekki Guds ord, heldur mælum vjer fram med oss, vid samvizku hvers manns, med auglýsingu sannleikans, fyrir augliti Guds. Sje nú, segir hann, kenning vor nokkrum hulin, þá er þad þeim einum, er glatast munu, sem höfdingi þessarar aldar hefir blindad á hugskotum, svo þeir sjái ekki birtu kenningarinnar um dýrd Krists, sem er Guds ímynd" (2 Kor. 4, 2—4). Sami postuli segir í brjefi til annara safnada: "eg hefi ekki látid af ad bidja, ad Fadir Drottins vors, Jesú Krists, Gud dýrdarinnar virdist ad gefa ydur anda vísdóms og opinberunar í þekkíngu sinni, og skíri augu skilnings ydvars, svoad þjer skynjid, hvílík ad sje von sú, er hann hefir ydur til kallad" (Eph. 1, 17. 18).

Slík ræda gerdist efalaust samvizkum allra manna; sjerhver finnur þegar, ad þannig á kristinn kennari ad hegda sjer fyrir augliti Guds, er sannleikann elskar. Og virdum vjer ordin betur fyrir oss, þá sjáum vjer, ad postulinn lofar uppfrædinguna, sem margir þó ímynda sjer, ad tálmi og útrými kristilegum sannleika; og þessa opinberun, sem hann prjedikar, bodar hann skynseminni og vitinu, sem margir þó ímynda sjer ad sjeu gagnstædileg kristilegri opinberan, svoad madurinn, eptir þeirra meiníngu, verdur ad afneita skynseminni, ef ljós trúarinnar á ad skína í sálu hans, edur afneita trúnni, ef hann ætlar sjer ad gánga í ljósi skynseminnar. Nú til ad geta ordid samþykkir sjálfum oss og ödrum í þessu efni, þá verdum vjer ad íhuga þessi tvö merkilegu ord, er svo mikid hefir verid um þrætt: skynsemi og opinberan, og leitast vid ad sjá greinilega þýdingu þeirra; því ekki stendur þad á sama, hvernig svo þýdingarfull ord eru skilin, og hid skilmerkilega eflir ætíd sannleikann, en hid óskilmerkilega veldur misskilníngi og þrætu.

"Opinberun sannleikans" segir postulinn vera það, er hann hafi helgað líf sitt. Eigi sannleikurinn að verða þekktur af mønnum, þá hlýtur hann fyrst að verða þeim opinber. Þessi tvø orð (skynsemi og opinberun) eru ekki øldúngis samrar þýðingar; því að þekkíngin er greinilegri og fullkomnari, enn vitneskja sú, er fæst af hinum fyrstu áhrifum, en um það, sem á eingan hátt hefir birzt oss, getum vér einga þekkingu øðlazt. Þessvegna høfum vér sagt, að øll hin kristilega þekkíng sé byggð á opinberan. Einginn getur þekkt Guð af sjálfsdáðum nema sjálfur hann, og eigi menuirnir að þekkja hann, þá hlýtur hann að verða þeim opinber. Hinir fyrstu bodendur kristinnar trúar vísuðu til hinnar almennu opinberunar, sem einnig er hlutskipti heidíngjanna — en það er sú opinberun, sem er í náttúrunni, er með sinni margbreitni, reglu og fegurð birtir lof Skapara síns; sú opinberun, sem er í undarlegum viðburðum, er menuirnir geta hverki eignað neinni hendíngu, né heldur vizku eða hreysti sjálfra sín, heldur einhverri æðri stjórn; og sú opinberun, sem er í hjarta mannsins, þar sem Guð hefir skrifað løgmál sitt og birtir dóm sinn. En þaráofan høfðu þeir einnig aðra sérlega opinberun að boða, það er: boðskapinn um dýrð Krists, sem er Guðs ímynd. Ef vér sleppum þessari opinberan, þá er einginn kristindómur til, því kristindómurinn er ekki sama, og þetta, sem flestar þjóðir vita, að það sé Guð til, sá er sé Herra, Løggjafi og Dómari — kristindómsins geta ekki hluttakandi orðið aðrir enn þeir, sem Kristur hefir opinberazt.

Nú þóað þessar opinberanir séu til, þá er það alls ekki manninum að þakka, þó hann hafi mikla skynsemi og mikið vit; hann hefir ekki fundið þær upp, heldur eru þær gefnar honum. En hvernig fer hann að geta numið, gripið og kannazt við guðlegar opinberanir? Dýrið hefir augu og eyru, einsog maðurinn, dýrð Guðs ber fyrir eyru þess, lindin svalar því og ávextir jarðarinnar ala það; hvað vantar það þá, til að geta þekkt Guð, sem opinberar sig í øllu þessu? Þegar vér spyrjum þannig, þá þykir øllum það nærri því undarlega spurt, og þá svara allir einum munni: hvernig ætti dýrið að þekkja Guð, þarsem það vantar skynsemina? Því það er ágæti og yfirburðir mannsins,

ad hann er einn skynsamur medal dýranna, sem eru skynlaus; þessvegna þekkir hann hlutina í kríngum sig ødruvís, enn þau geta þekkt — þessvegna þekkir hann sjálfan sig og þad sem ædra er enn sjálfur hann. Fyrir því segjum vér, ad gudleg opinberan, hversu dýrdleg og hversu ljós sem hún er, kæmi oss ad eingu haldi, nema Gud hefdi gefid oss skynsemi til ad grípa hana med. Því skynsemin hefir nafn sitt af ad skynja, og med því skynsemin er ædri enn skilníngarvitin, þá skynjar hún þad, sem þau geta ekki skynjad — hún skynjar raddir og krapta hins ósýnilega heims. Í náttúrunni og veroldinni og samvizkunni er Gud því opinber hinum skynsømu einumsaman.

Ef vér athugum hina kristilegu opinberan, þá sjáum vér gudlega náð opinberada øllum mønnum (Tít. 2, 11): kristin trú er bodud í borgum og á eydimørkum, rødd hennar hefir heyrzt um gjørvalla verøldu, og eingin sú túnga og ekkert þad mál er til, ad rødd trúarinnar hafi þar ekki í hljómad. Þó segir postulinn, ad þeir séu til, sem hún sé hulin, þó þeir hafi heyrt hana; þessir hljóta nú ad vera hinir sømu, og þeir, sem Drottinn vor segir um, ad sjáandi sjái þeir ekki (Matth. 13, 13). Hvad er nú þad, sem því veldur, ad þeir heyra ekki þad, er þeir heyra, edur nema ekki afl þeirra sanninda, er hljóma í eyrum þeim? Mundi nokkur láta sér í alvøru um munn fara, ad þetta komi til af því, ad þeir neyti skynseminnar, og ef þeir væru midur skynsamir, þá mundu kristileg sannindi verda þeim audskildari og hafa meiri áhrif á þá? Nei! þannig mun einginn, sem kristinn er, tala um þá trú, sem allir fjársjódir vizkunnar og þekkíngarinnar eru í geymdir — sem von er á ljósinu frá — sem á ad kenna oss veg vorn á jørdunni. Þeir sjá med augunum — segir Drottinn vor — og þekkja ekki, þeir heyra med eyrunum, og fá ekki skilid (Mark. 4, 12). Svoad þá vantar greind og vit; en hvar eiga þau heima? Vér tølum allir um skynsemina svosem um þá gáfu sálarinnar, er rædur og dómar manna verdi réttir af — er lýgin og villan leggist á flótta fyrir, einsog líka girndirnar í brjósti mannsins þaggast nidur vid rødd skynseminnar, afþví skynsemin lætur ekki leidast af hverju áhrifi, einsog hid holdlega, heldur

sér lengra fram. Það er sjálfsagt, að þeim, sem við leitar, að ná skynsamlegri þekkingu, er hættara við að rata í efasemdir, enn þeim, er fellst á í blindni; en hvernig verdur með sanni sagt, að sá þekki sannleikann, sem ekki hefir prófað hann? En með hverju getur madurinn prófad, og með hverju getur hann hrakið ástædulausar efasemdir, ødru enn því að neyta skynsemi sinnar? Því það er eins óskynsamlegt að neita í blindni, einsog að fallast á í blindni. Sá er vill gjøra mun á hinu sanna og hinu ósanna, hann verdur að hafa vit sitt við sérhvað einstakt, en skynsemi sína við það sem stórt er og yfirgripsmikið; því hverjar adrar gáfur hefir Gud gefið oss til þess? Vilji nokkur svara: samvizkuna, vegna þess postulinn segir, að hann mæli fram með sérvið samvizku hvers manns, með auglýsingu sannleikans, þá er það að vísu satt, að í hverju óspilltu hjarta er skír medvitund hins sanna og góða, og vér getum með sanni sagt, að vér finnum það í samvizku vorri. En getur þá samvizka verið þar, sem ekki er skynsemi? Getur það í nokkru verið hvad ødru gagnstædilegt, sem rétt skynsemi og árvøkur og ótæld samvizka fallast á? Um þá, sem kasta því er samvizkunni gedjast, segir postulinn, að hofdingi þessarar aldar hafi blindað hugskot þeirra; en þar sem hugskotið er blindað og rángsnúið, þar er óskynsemi. Augað er ljós líkamans, segir Drottinn vor; og, ef auga þitt er heilbrygt, þá er bjart í øllum líkama þínum, en ef auga þitt er sjúkt, þá er myrkt í øllum líkama þínum (Matth. 6, 22. 23). Þetta á og við um skynsemina, sem er auga sálarinnar. Í heilagri ritníngu finnum vér þráfaldlega áminningar, sem mida til að ávíta hin spilltu hjørtu, og sérvizku þeirra, er veita mótstødu sannleikanum; en vér finnum ekki eitt ord, sem vari við skynseminni — heldur heimtar postulinn skynsamlega gudsdýrkun (Rómv. 12, 1).

Þessvegna gæti gudleg opinberun ekki komið oss að haldi, ef vér hefdum ekki skynsemi til að veita henni móttøku; en hinsvegar yrdi skynsemin oss að jafnlitlu lidi til þekkingar á gudlegum hlutum, nema Gud og sannleiki hans væri oss opinberadur. Hversu mikid mundirdu sjá, þó auga þitt væri ósjúkt og heilt, en þú stædir uppá eydifjøllum í dymmvidri? Legdist náttmyrkur øllumegin yfir þig nidur, þá

sœir þú ekkert, og þó þú tendradir loganda blys, þá sœir þú adeins, og þó óskírt, grilla fyrir því er næst þér væri, en fegurd sveitarinnar sœir þú ekki — og óvíst ad þú ratadir á þann veg, sem þú vildir feginn finna, vid þad hid dapra ljós. Þannig er í skynseminni útaf fyrir sig ekkert gledilegt og huggunarríkt, og ekkert, er styrki og endurnæri sálina, væri ekki fylling gudlegrar opinberunar. Nú er ad vísu í hinni sjáanlegu veröldu mikil nægd opinberunar, en táku hennar þurfa þó útþýdingar, til þess ad vér í henni getum fyllilega séd Gud. Vidburdirnir í heiminum opinbera Gud einnig; en í mörgum þeirra sjáum vér hann ekki sakir skammsýni vorrar, og af öllu, sem til hefir borid frá upphafi veraldar, opinberar einginn hlutur oss eins berlega Gud, og kenningin um dýrd Krists, sem er ímynd Guds. Takir þú þessa kenníng í burt, þá væri þad einsog ad vilja slekkva sólina til ad geta brúgdid upp skridljósi, hvad sem þú settir í stad hennar. Sama er um mannlegt hjarta, spillt og aflagad einsog þad er, ad þad bodar ekki Gud, nema dauft og skakkt og óskilmerkilega. Nú er vér sjáum, ad skynsemin fellur í dá, svoad hún vill ekki leita — ad hún leitar, og getur ekki fundid — ad hún kemst á villistigu, er tæla hana burt frá uppsprettum lífsins og sannleikans, þá hljótum vér ad játa, ad skynsemin er ekki sjálfri sér einhlýt, og ad henni er ekki einhlýtt þad, sem oss er vant ad birtast í heiminum. Þessvegna mænum vér upp til hæda, og andvörpum eptir nægari og stödugari þekkíngu, og eptir óhultari handleidslu, enn sjálfra vor og vorra líka. Þetta er nú hinn kristilegi nádarbodskapur, ad Gud hefir látid ljósid skína í dymmunni — ad sá er í heiminum opinberadur, sem er vegurinn, sannleikinn og lífid (Jóh. 14, 16). Hann kom í heiminn, hin sýnilega mynd hans hvarf, er hann hafdi af lokid sínu mikla ætlunarverki; en ord hans urdu eptir. Þau fékk hann tríum vottum, til ad boda þau um heiminn; en svoad þau skyldu ekki glatast né aflagast þegar stundir lidu, þá voru þau í rit sett, er allar aldir sídan eru heilög haldin; og þetta safn heilagra bóka, sem allarsaman, bædi hinar eldri og ýngri, mida til ad skíra þekkínguna á Guds dýrd í Jesú Kristi (Kor. 4, 6), köllum vér einkanlega opinberan. Sé hún gefin mönnunum af Gudi, handa öllum

kynkvíslum mannanna á sérhverri tíd, þeim til leidbeiningar í allri eptirgrenslan þeirra, og til eptirbreytni í allri hegdan þeirra og til huggunar í allri eymd þeirra, þá verdur inntak hennar ad vera gudlegur sannleiki, þá verdur hún ad vera einhlýt, það er, allt sem madurinn þarf ad vita sér til sálubótar verdur ad vera í henni fólgid, og hún má ekki hafa í sér eintóma hulda speki, og sáskilda, heldur verdur hún ad vera svo greinileg, ad sá sem hefir einlægan vilja geti gripid það, sem hverjum er þörf ad vita, og er jafn-áríðandi háum og lágum, vitrum og fákænum.

En þegar vér skodum hin helgu rit vor, finnum vér samt sem ádur í þeim ekki adeins ýmislegt midur áríðandi, sem er ógreinilegt, heldur og margt, er hverjum kristnum manni rídur á ad vita, og svo er flókid, ad ekki verdur úr því greidt, utan med ransókn og umhugsun; vér sjáum á stundum fremur vera til þess bendt, enn ad það sé berlega sagt. Hversvegna var oss það eigi ödruvísi opinberad? hversvegna virti hin eylísa spekin oss ekki skírrar og greinilegrar frásagnar um öll sannindi kristinnar trúar, í því sambandi sem þau eru í hver vid önnur, svoad öllum deilum hefdi verid lokid med þeim öllum, er trúa opinberaninni? Það er vegna þess vér eigum ad leita ádur enn vér finnum — vegna þess kraptar vorir, skynsemi og vit, áttu ad þróast af áreynslu umhugsunarinnar — vegna þess það eitt verdur vor eiginleg eign og sameinast sálu vorri, er oss hefir vantad og vér höfum ad leitad, er vér höfum barizt fyrir og armædu þolad og sálin hefir fundid hvíld í, ad aflokinni baráttu sinni.

Allar gódar gjafir koma ad ofan, — madurinn getur ekki gefid sér þær sjálfur, en Gud gefur honum þær; þó gefur Gud þær ekki á þann hátt, ad þær fáist fyrirhafnarlaust. Madurinn þarfnast braudsins til ad nærast og sedjast af; en þó hann þarfnist, gæti hann samt ekki skapad eina sádtegund, til ad fullnægja þörfum sínum. En Gud lætur sádid vaxa í öllum tegundum þess; þó ekki nema á dreif, staung og staung; það sprettur ekki sjálfkrafa á heilum ekrum, einsog þistlar og illgresi. Hversvegna er því svo fyrir komid, ad hid ónýta kemur af sjálfu sér, en hid nytsama einúngis vid idjusemi og kunnáttu? Ekki vegna neins

annars, enn þess, ad Gud hefir viljad vekja manninn til þessa hverstveggja, idjusemi og kunnáttu — ad hann hefir viljad, madurinn skyldi eta braud sitt í sveita andlitis síns, og venjast á ad verda til margs hæfur. Málminn, sem er mønnunum svo ómissandi, hvad sem þeir eiga ad gjøra, geta þeir ekki búid til sjálfir; heldur verdur ad undirbúa hann handa þeim í hinum stórkostlegu smidjum, er handaverk mannanna komast í eingan samjøfnud vid. En til hvers lagdi Gud ekki málminn á yfirbord jardarinnar, heldur fól hann djúpt í skauti fjallanna, nema til þess manninum skyldi lærast ad opna hamrana, gjøra sér veg inní jørdina, leida burt vatnid úr hinum djúpu gjám, og afla sér þannig kunnáttu og þekkíngar, um leid og hann flytti fjársjódu jardarinnar upp undir beran himin. Fuglinum hefir Gud gefid í endverdu nokkurskonar fýsn, eda enn heldur dásamlegt vit, sem fuglinn veit ekki sjálfur af; fyrir því kann hann ad búa sér til hreidur, án þess neinn hafi kennt honum þad; en þessvegna býr hann þad til enn, einsog hann hefir gjørt frá upphafi veraldar. Madurinn þarámóti, þótt hann sé fuglinum ædri, þá er hann ekki fæddur med neinni þesskonar íþrótt; hann verdur ad nema af ødrum med fyrirhøfn og kenna sjálfum sér; en vegna þess ad hann, í stad hinna gáfnanna, ødladist skynsemina, er sífeldlega getur dafnad og fullkomnazt, þessvegna hefir hann og not áreynslu sinnar, og honum lærist ad auka smásaman hreysi sitt þángadtil þad verdur ad høll. Eins er um hid andlega — eins er um hid helgasta; madurinn átti þar einnig ad finna því meira, sem hann verdur ad leita betur. Gud lét opinberun sína í forn rit og daudar túngur, og huldi hana fyrir oss svosem í blæu lidinna tíma. En med því audæfi þau, sem þarí eru geymd, eru manninum eins ómissandi, og fjársjódir fjallanna, eda dýrmætir ávertir jardarinnar — med því þau fullnægja sárasta húngri mannlegrar veru: þessvegna leitar hann þeirrar þekkíngar, er megi leida hann inní þessa helgidóma; og hver fær mælt eda talid, hversu mjøg sú ransókn og umhugsun, er hérvid þarf ad hafa, hefir eflt allar þær vísindagreinir, sem mannlegu lífi eru til ágætis og prýdi. Þó snertir þetta einkum hina fródu og lærdu, jafnvel þótt afleidíngar þess nái og til leikmanna. En hitt snertir alla, ad þó

hinar helgu bækur liggi nú sérhverjum opnar á hans túngu, verda þó sannindi trúarinnar fundin af þeim einum, er þeirra leita, og ad þekking þeirra náir ekki ad þróast nema í þeim einum, er ransaka þau med hógværd og kostgæfni, og brúka skynsemina og vitid, er sálin hefir þegid af Gudi. Þannig samsvara hér einnig hinar ytri gjafir hinum innri; hinni innilegu þekkingarfýsn, sem madurinn megnar ekki sjálfur ad fullnægja, samsvarar opinberun gudlegra sanninda; himnesk̃ri rödd og háleitri fegurd opinberunarinnar samsvara hin næma heyrn skynseminnar og hin hvassa sjón vitsins. Hver sem vill vera kristinn, hann fyrirlíti einga af Guds gjöfum, og vanbrúki þær ekki, því allar studla þær til þess, ad skira þekkinguna á Guds dýrd í Jesú Kristi.

---

## 6.

## Gud er alstadarnálægur, almáttugur.

Gud minn! þegar eg hefi reynt af öllu hjarta ad hefja huga minn til þín, þegar eg hefi reynt af öllu hjarta ad grandskoda veru þína, hversu optlega hefi eg þá fundid, ad þú ert hinn óransakanlegi, hinn óskiljanlegi, og hversu fjærri því fer, ad andi mannsins, sem ekki megnar ad skilja sjálfan sig, muni fá skilid djúp veru þinnar, þú sem ert Fadir andanna! þá snéri hugur minn aptur örmagna, og túnga mín kendi vanmáttar síns, hún vildi ekki tala um dýrd þína, því hún gat ekki talad um hana tilhlýdilega. En svo sagdi eg vid sjálfan mig: lauk̃stu þá upp munni mannanna, gaf̃stu þeim hid furdulega vald rædunnar, einúngis til þess, ad þeir skyldu tala um þad, sem jardneskt er og lítilmótlegt, þad sem hverfur á medan vér tölum um þad, þad sem hefdi eingan mátt og einga veru, ef þad væri ekki til og héldist vid af þínum mætti, þú sem fyllir upp alla hluti, þú hinn fyrsti og hinn sídasti, þú hinn almáttugi? Eg finn þó ord á vörum mínum, sem vitna ekki, þegar þau eru rétt skilin, um neitt sem augad hefir séd, eda eg hefi fundid á jördunni, hvad

víða sem eg hefi leitað. Eg kalla hlutina góða, þegar eg hefi not af þeim, eg kalla mennina góða, þegar þeir líkjast honum, sem er uppspretta veru þeirra; sumir eru betri enn sumir, en þó veit eg í hjarta minu, að orðið góður, í æðstu merkíngu þess, á ekki við neitt það, sem ófullkomið er, að einginn er góður nema Guð einn (Matth. 19, 17). Eg kalla mennina vitra, eg kalla þá volduga og drottna jarðarinnar; eg kalla þann sælan, sem hefir sundið spretta upp í sér þá tilfinníng yndis og ánægju, sem hold og blóð og dýrð þessa heims geta ekki veitt; en í hjarta minu veit eg þó, hver að er einnsaman vitur og sæll og einnsaman voldugur (Tím. 1, 17; 6, 15). Eg skal því ekki hafa þessi orð einúngis um hið ófullkomna og lítilfjörlega, heldur ætla eg að bera þau fram með öllu afli þýðíngar þeirra, eg ætla að reyna til að nefna með þeim, hvað það er, sem hreifir sig í innstu fylsknum hjarta míns, hvers eg er mér meðvitandi, hvað eg veit um lífið í mér sjálfum og andann, sem eg dreg að mér; eg ætla að reyna til, að tala um dýrð þína, eylífi Guð! til þess eg geti fyllt sálu mína af tilbeiðslu á þér, og, ef verða mætti, vakið tilbeiðslu í annara sálum. En opinbera þig kroptuglega í mér á guðrækuisstundum mínum, svo hugurinn fyllist og eg finni þau orð, sem rétt eru og hæfileg, þegar maðurinn talar um þig!

Opt segja menn, að vér getum ekki ødlast neina þekkíng á Guði, heldur sé hann oss hulinn, eða vér aðeins getum gripið hann í óljósum hugarburði; en hvað er það annað, enn eintóm undansærsla, eintóm laungun til að hlífa sér hjá kostgæfilegum og helgum hugleiðíngum; eða til þess að hylja sig heldur í þoku, enn hugsa skírt og greinilega? Verkið lofar meistarann! hversu opt hafa menn ekki getað séð það á mannlegum handaverkum, hvað búið hafi í sálu meistarans sem bjó þau til, og gerði leynilegar hugrenníngar sínar og háleitar tilfinníngar hjarta síns sýnilegar í handaverkum sínum; og hversu gjörla hafa menn ekki getað þekkt innstu fylskni sálar hans, þó þeir hvorki hafi heyrt hann né séð. Og þér himnar! og þú jörð! mundúð þér ekki eins berlega segja frá meistara yðrum! Og þú mannlegur andi! sem finnur, að þú ert af háum stigum, þótt þú sért hér á jørð djupti klæddur, þú ert líka eitt af handaverkum

hans, sem hann setti merki dýrðar sinnar á, því þig skóp hann eptir mynd sinni. Nú ef uokkuð er til í oss, sem líkist Guði, ef vér erum hans ættar (Post. 17, 28), mundi þá ekki þekking vor á Guði vera rétt, og ræða vor um hann vera hæfileg, þótt vér sjáum hvérki né skiljum alla veru hans? Einginn maður hefir nokkru sinni séð Guð, en hinn eingetni Sonur, sem er í skauti Föðursins, hann hefir sagt oss af honum (Jóh. 1, 18); og þau orð, er hann birti dýrð Föðursins með, og endurhljóma í hjörtum vorum, afþví vér líka köllum Guð föður vorn, og erum hans ættar, þau orð geta ekki villt oss, heldur gefa þau oss rétta þekking á því, hvílíkur Guð sé.

Guðs nafn er mikið og heilagt. Vei þeim manni, sem leggur það við hégóma og leikur sér að því með vörunum, án þess það veki nokkra tilfinningu í hjarta hans! Þetta orð: "Guð" er svo þýðingarmikið, og innibindur í sér svo margar hugmyndir, að það nálega ber oss ofurliði. Þessvegna verður meira fjör í tilfinningu vorri, þegar vér nefnum Guð eptir því, er vér köllum náttúrur hans, það er: með einu af nöfnum þeim, sem að sönnu merkja alla guðlega veru, en benda þó til, að vér einúngis skoðum hana á einn veg, og vekja eina hugmynd um hana öðrum fremur í sálu vorri. Þegar eg segi: hinn eylífi, hinn almáttki, hinn réttláti, hinn algóði, þá nefni eg þar æ hinn sama, og Guð er allt þetta í einu, en hjarta mitt kemst þó ekki við á einn veg af sérhverju þessara orða. Eg nefni eitthvert af þeim, sem mér kemur fyrst í hug, eða hjarta mitt hefir mesta þörf á að heyra; en þegar eg er að hugsa um Guð, og ætla að safna nöfnum hans saman, til að geta skilið, á hvern hátt eg er mér þess meðvitandi, að Guð er til, hvert þeirra á eg þá að nefna fyrst?

Þegar Páll stóð í Athenuborg innanum heiðinn lýð, sem ekki þekkti hinn sanna Guð, hugsuðust honum þó orð til að tala með um guðlega veru; hann fann slík orð, er ætíð hafa síðan verið talin meðal hinna háleitustu orða; því hver hefir ekki opt og tíðum, þegar hann ætlaði sér að tala um Guð, tekið undir með hinum mikla postula: Guð er ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og erum vér. Það er hið fyrsta, er eg verð var við, að hvert sem eg lít, þar er guðlegur kraptur,

sem er umhverfis mig, og í mér og fyllir upp alla hluti; ad hvarsem eg er, þar er og sá, sem meiri er enn eg, og þekkir alla hluti. Alstadarnálægur — vera má, ad takmarkadur skilníngur eigi einna bágast med ad gripa þýdíngu þessa ords, um þad er allra torveldast ad gera sér nokkra hugmynd eptir því, sem í oss býr, eda kríngum oss er. Ad vísu get eg med sanni sagt, ad hugur minn sé ekki bundinn vid stadinn, sem eg stend á, né þá hluti eina, sem eg næ til med hendunum, því hann flýgur út um hin vídlendu veldi jardarinnar, og fer gegnum himnana á vængjum vindanna; ad vísu get eg med sanni sagt, ad ást mín sé ekki bundin vid stad né tíma, hún fylgir þeim í fjarlægd, er eg ann, og flytur þá til mín úr gröfunum, sem fyrir laungu eru látnir, því þeir sem unnast hugástum, þeir eru ætíd hver ödrum nálægir. En allt þetta má ekki kalla skugga af nærveru hins óendanlega Guds um allan hinn ómælanlega geym og tímann, sem aldrei stedvast. En þóad vér í þessu tilliti allrasízt getum skilid hann, sem er ekki fjarlægur neinum af oss, sem vér lifum, hrærumst og erum í, þá er þó einginn sá, er ekki viti, med hinni háleitustu og helgustu vissu, ad Gud er ætíd og alstadarnálægur. Hefir nokkur verid þar staddur, er hann gæti sagt: hér er Gud ekki, hér sé eg ekki mátt hans adhafast neitt, skapa, nidurrada, vidhalda. Hefir nokkurntíma verid nokkur sá, er mennirnir hefdu gjört ósanngjarnar gersakir, ákært og sakfellt, ad hann hafi getad efazt um í hugskoti sínu, þegar sérhverju hjarta og sérhverju eyra var lokad fyrir honum, ad einn sé til, sem þekkir góda vidleitni hans, ad einn sé vidstaddur, sem ekki dæmir eptir mannlegum hætti. Hefir nokkurntíma nokkur unnid illvirki, og reynt til ad skýla því, og tekizt ad skýla því fyrir sérhverju dæmandi auga, og sérhverri hegnandi hendi hér á jördu, en vitad þó ekki í hugskoti sínu, ad sá var vidstaddur, sem sér þad sem í leyndum er, og endurgeldur opinberlega. Hefir nokkurntíma nokkur bedid med lotníngu og hógværum anda, og óttast þó, ad bæn sín mundi hverfa úti bláinn, og komast ekki til eyrna þeirra, er hún girntist ad ná? eda ímyndad sér, ad Drottinn himins og jardar hafi tjaldbúd sína á hædum uppi, hinumegin vid stjörnurnar, fjærri þeim, er kalla á hann í þraut-

um sinum? Himininn og himnar himnanna geta ekki rúmað hann (Konúng. 8, 27), hann býr í hæðum og helgidómi, en hann býr líka hjá þeim sem auðmjúkur er og voladur í anda (Es. 57, 15). Þessi rödd hljómar til vor frá forneld, hún hljómar til vor frá deginum sem er að líða, hún hljómar til vor úr helgidóminum, og upp úr innstu fylsknum hjarta vors: Drottinn! hvert skal eg fara frá anda þínum? hvert skal eg flýja frá augliti þínu? þó eg fari upp í himininn, þá ertu þar; þó eg búi mér legurúm í undirdjúpunum, þá ertu þar; þó eg taki vængi morgunroðans, og þó eg gjörði mér bústað yzt við heimsskautið, mundi þar einnig hönd þín leiða mig, og hægri hönd þín halda mér (Sálm. 139, 7—10). Og því vil eg helga mig fyrir augliti þínu, svo eg kjósi ekki að flýja frá þér, heldur kjósi eg að flýja til þín, og að hvílast undir vernd þinni, og í faðmi kærleika þíns, þú, sem ekki ert fjarlægur neinum af oss, sem vér lifum, hrærumst og erum í!

Þegar vér fyllum sál vora af hugmyndinni um alstaðarnálægð Guðs, munum vér skjótt finna, að hún verður ekki slitin frá hugmyndinni um almætti Guðs, því hinn eylífi Guð fyllir ekki upp himna og jörð aðgjörðalaus, heldur gefur hann öllum líf og andardrátt og sérhvað annað (Post. 17, 25). "Guð almáttugur!" Hversu óssjálfrátt brjótast ekki orð þessi fram af munni sérhvers manns! þau verða hinum glaða af munni og hinum þakkláta, hinum hrygga, og hinum hrædda. "Guð almáttugur!" Hversu opt hefi eg ekki sjálfur nefnt þessi orð, þó ýmislega stæði á fyrir mér! Og að eg nú nefni þau aptur á þessari hugleiðingastund, kemur ekki til af því, að eg ætli að safna áslæðum saman frá dölum og fjöllum, hafi og hauðri, undirdjúpunum og stjörnuhvolfinu, til að sanna með fyrir sjálfum mér almætti Guðs; því undireinsog eg lýk upp augunum, þá sé eg, að yfir öllu veldi drottnar eitt veldi, sem heldur öllu saman; undireinsog nokkur íhugan vaknar í sálu minni, þá veit eg, að orðið "Guð" merkir: hinn almáttuga. En eg nefni þau, til að minna mig á, að þó Guð gerði manninn að herra jarðarinnar, og gæfi mönnunum vald og sumum þeirra yfir öðrum mönnum, og leyfði að þeir kölluðust máttugir á jörðunni, þá er þó allt veldi þeirra hans eign, og honum verða þeir að vinna, Konúngi konúnganna og Drottni

drottnanna, hvert sem þeim er það ljúft eða leitt. Hann gefur öllum líf og andardrátt og sérhvað annað — að eg anda að mér og frá mér, að hjarta mitt bærðist hið fyrsta sinn, og mun bærast hið síðasta sinn, að eg bergði stundum á bikar gleðinnar, en stundum á bikar mótlætinganna, það er allt af þínum mætti orðið, Drottinn minn og Guð minn! Eg þarf ekki að sanna þetta fyrir mér, því mér væri næstum óhætt að segja, að eg sé fæddur með þessari meðvitund; eg veit ekki nær hún hefir vaknað í sálu minni, eða nær hún, sem er almáttug sjálf og enginn má í móti standa, hefir brotizt inní hana, og stigið yfir sérhverja efasemd; en eg vil halda mér fast við hana og láta hana leiðbeina mér á hinni villugjörnu lífsleið. Fari hjarta mitt að stæra sig heimskulega; fari óstýrilátar ímyndanir að telja mér trú um, að eg megi óhræddur bruna áfram; fari eg að vanbrúka vald það, er þú trúðir mér fyrir, Guð minn! þó ekki væri nema vald mitt yfir hinum lítilmótlegasta — lát mig þá minnast þess, hversu opt þú hefir sagt við menniua, einsog þú sagðir við hafið: hingað skaltu komast, en ekki lengra! hér skulu háöldur þínar brotna (Job. 38, 11)! Fari mér að sortna fyrir augum, fari mér að fallast hugur, og fari eg að örvinglast, einsog enginn væri til að hjálpa, einsog ekki að eins hið nálæga heldur og hið ókomna væri hulið sorgarblæu, og vonin sjálf væri undir lok liðin, ó! minntu mig þá á, að þú ert sá, sem lífgar hið dauða, og kallar á það sem ekki er, svosem væri það (Rómv. 4, 17).

Almáttugur Guð, sem allt gjörir, er honum þóknast, sem ekkert miklast, svo að honum sýnist það undarlegt, og ekki þykir neitt lítið, svo að hann fyrirlíti það, sem leiðir missirin áfram, og gefur hverju þeirra gleði eða mæðu, sem leiðir mennina áfram, og gefur hverjum þeirra krapt og tóm og tækifæri, sem beygir jafnvel hjörtu mannanna — getur það verið, að einnig þessa hugsan megi rángfæra, að eitrið geti læðst einnig inní það, sem á að vera lækning sálum vorum. Þó er til ein hugmynd, sem hjarta mitt titrar af ótta fyrir, þó hún látist vera byggð á þekkíngunni á almætti Guðs. Eptir þessari hugmynd, er heimurinn í rauninni sama og Guð; hann er einúngis mynd guðlegrar veru, og allt sem við ber í heiminum er einúngis Guðs verk. Því

óttast eg þessa hugmynd? Menn hróśa henni þó vegna þess, að hún eignar Guði einum allan mátt; verði nokkuð, segja þeir, í alheimi, með öndunum eður hinu andalausa, verði hið minnsta, sem Guð hefir ekki gjört, þá er veldi hans takmarkað, og þá er hann ekki almáttugur. Þér gjörið lítið úr Guði, segja þeir sem ímynda sér þetta, þegar þér þykist hafa vald á, að takast eitthvað á hendur, annaðhvert íllt eða gott; þér viljið sjálfir vera guðir, og viljið komast undan valdi hans, og sjáið ekki, að þér eruð einúngis verkfæri í hendi þess, sem einn á ríkið og máttinn og dýrðina að eylífu.

En hversu haglegar sem ályktanir þær eru, sem þessi hugmynd er á byggð, og hversu vegleg sem orðin eru, er menn prýða hana með, þá er hún þó jafn-huggunarlaus fyrir mig. Ætti eg að fallast á hana, yrði mér að sýnast allt líf mannanna óttaleg lýgi þeirra við sjálfa sig, eða þó heldur lýgi þess, er skapaði í oss alla aðra meðvitund, enn meðvitund sannleikans — það er að skilja, ef þessi hugmynd væri sönn. Því vér erum oss þess meðvitandi, að vér erum frjálsræði gæddir, að vér í hugskoti voru getum hallað oss til hverrar hliðar sem vér viljum, hvaða skorður sem reistar eru krapti líkama vors. Nú leitast menn við að koma oss í skilníng um, að oss missýnist í þessu efni; vér þykjumst, segja þeir, hafast að sjálfir, en það er þó reyndar hinn mikli veraldarandi, sem einn gjörir allt, og gjörir sjálfur í oss, það sem vér gjörum. Vér elskum Guð, og höldum hann elski oss, en elskan sjálf er ekki annað enn eintómur hugarburður; því séum vér ekki annað, enn partar eða geislar af anda Guðs, hugsanir í sálu hans, eða limir á líkama hans, eða hvað annað sem menn kalla það: þá er hitt reyndar, að Guð elskar sjálfan sig, þarsem vér þykjumst elska hann. En allra óttalegast finnst mér það, að þá er engin mismunur ílls og góðs, þá er allt Guðs opinberun og Guðs verk. Hversvegna kvelur þú þig, veslíll maður! á umhugsun synda þinna? Þú varst ekki annað enn verkfæri í hendi hins almáttuga, þú hlaust, ensog von var, að fara það sem hann leiddi þig, og framkvæma það, er hann hafði fyrirhugað. Það var hann, sem lagði vopnið í hönd morðíngjans, og beitti því móti bróðurbrjóstinu; það var

þann, sem leiddi svikarann lengra og lengra, án þess hann fengi móti staðið, allt til þess, er hann seldi saklaust blóð. Hvað viltu þá bitra og kvalafulla tilfinning í brjósti mínu, er eg kalla iðran og samvizkubit? Hvað viljið þér hugrenningar, sem ásakið hinn brotlega og leyptrið með ógurlegum eldingum niðurí djúp það, sem hann er í hrapaður, og sýnið honum alla hans ómrædanlega eymd, svo hann ærvinglast útaf tímanum, sem liðinn er, og útaf tímanum, sem koma mun; þér kvalarar, er segið við hinn ófarsæla: það er alltsaman sjálfum þér að kenna — hvað viljið þér, heimskulegar hugrenningar? Þér eruð þó aðeins sprottnar af illum vessum í líkamanum og afvegaleiddu ímyndunarafli, en eruð ekki ógnanir hins eylífa Dómara; því hvernig gæti hann ásakað þann, sem ekki gekk annað enn hann var neyddur að gánga, og ekki framkvæmdi annað enn vilja þess, er einginn fær í móti staðið?

Eg veit það, og sé það berlega, að ali eg þessa ímyndan í mér, muni eg geta slitið mig frá öllum samvizkupíslum, afmáð allar syndir mínar, skopast að allri skuld minni, einskisvirt hverja ásökun frá himni og jörðu; og samt sem áður, þó eg gæti rekið burt allan ótta, og gæti með þessu móti gjörkenda á allri baráttu milli syndar og réttlætis í brjósti mínu — þarsem eg þá yrði að álíta hverttveggja jafn-samfara Guðs veru, og jafn-ómflýanlegt fyrir þann, sem ætlaður væri til annarshvers þessa: samt sem áður yrði þó þessi hugmynd mér óttalegust allra hugmynda. Því geti mér lærzt, að halda synd og viðurstyggð og smán og spilling og afbrot séu ekki annað enn eintóm nöfn, þá lærist mér undireins, að halda sannleikur og réttlæti og sakleysi séu það líka. Við iðranina missi eg einúngis sjálfs mín, lofs míns og réttlætis — en við þessa upphafníng yfir iðranina, missti eg Guðs; hann væri þá ekki framar minn Guð, ekki sú vera, er eg gæti orðið frá mér numinn af að undrast og tigna; hann væri faðir lýginnar, ekki síður enn sannleikans; hann kveldi skepnur sínar á iðrun þeirra athafna, er hann sjálfur neyddi þær til að áforma og framkvæma, og píndi þær á kröfum, er hann sjálfur lofaði þeim ekki að geta fullnægt. Þó sú hugmynd um Guð, að hann sé sá eini, er að hefst í hinu ómælanda ríki andanna, gæti leyst allar efasemdir, og

gæti gjört allar adrar hugmyndir skírar: þá mundi þó sú hugmynd er allra er helgust, verda vid þad myrk — en þad er hugmyndin um alfullkomlegleika Guds; og hin ørruggasta vissa í sálu minni mundi þá haggast, — en þad er vissan um, ad hid illa er ekki gott, og ad eg syndga, ef eg gjøri þad sem illt er.

En þrátt fyrir allt þetta nefni eg þó ordin "Gud almáttugur!" og nefni þau med fullkominni sannfæríng, veit þad og finn og trúi því í djúpi sálar minnar, ad Gud er almáttugur. Eg trúi því, ad ekkert vald sé til, hverki á himni né jørdu, nema þad, sem Gud hefir gefid, og ef Gud tæki krapt sinn burt, þá drægi þegar líf og mátt úr øllu, og allt yrdi ad eingu. Eg trúi því, ad þegar Gud kveykti ljós skynseminnar í brjósti skapadrar veru, og gaf henni um leid frjálsrædi og takmarkadi vid þad ad nokkru leiti sjálfan sig — ad því ordatiltæki geta þeir einir hædst, sem vilja utrýma øllu frelsi úr Guds ríki — er hann lagdi á vald skynsamrar skepnu, ad hallast ad sérhverri hvøt, ad kjósa og áforma eptir gedþekkni: þá hafi hann og um leid takmarkad sérhverja skepnu; hún megnar alls ekkert, nema þad, er Gud gaf henni krapta og tækifæri til, alls ekkert, nema á því svidi, er Gud setti hana á, og ekkert er henni unnt ad gerà, nema þad, sem eflt getur ráð hins almáttka. Eg trúi því, ad hvad sem vér gjørum af því, sem vér megnum ad gjøra, þá muni þó sérhver athøfn vor koma undir stjórn hins almáttuga Guds. Vér gródursetjum og vøkvum, en Gud einn gefur frjófgunina (1 Kor. 3, 6), og gefur hana opt undarlega, stundum þeim vísinum, sem einginn gaf gaum ad, og því fræinu, sem einginn vissi hvad úr mundi verda; þarámót setur Gud skordur fjær eda nær, en þær skordur eru óbifanlegar; hann setur skordur hafrótinu, vindunum og gjørdum manna.

Í þessari trú er hin dýpsta audmýkt; madurinn getur ekkert tekid, nema honum sé gefid þad af himni (Jóh. 3, 27); sérhver gáfa, sérhver hvøt til hins góda, sérhver hentugur tími, sérhver framfør og blessan, — allt kemur þad frá Gudi; en eingin tálman kemur heldur án vilja Guds og stjórnunar, hvert heldur sem hún er eintómt próf, til ad auka afl vort og reyna trúnad vorn og stødugl yndi, eda hún er send til ad kollvarpa mikilvæguſtu ráda-

gjørðum vorum. En í þessari trú er líka hið øflugasta og sigursælasta trúnaðartraust. Ef vilji minn er góður og réttlátur og elskufullur og støðugur, þá mun eg aðhyllast það veldið, sem stjórnar øllum hlutum, en einginn getur aptrað. Hið góða á ekki, ef til vill, að koma í ljós í þeirri mynd, er eg hafði ímyndað mér, — en það mun þó koma í ljós í øðrum, veglegri myndum; hinn hentugi tími er, ef til vill, ekki kominn, — en hann kemur sá hinn góði tími, er Guð hefir blessað, hann kemur annaðhvert fyrir mig eða annan, er vill hið sama og eg, og verk mitt hefir þá ekki verið árángurslaust; steinninn, er eg lagði, stendur og í hinu mikla musteri. Rísið upp stormar! þér munuð ekki kollvarpa því. Rísið upp synir mannanna! þér munuð ekki tálma byggíngu þess. Það hljómar røðd frá himnum og undirdjúpunum, og hljómar í eyrum hinna guðhræddu í armæðu þeirra og þrautum, svo látandi: Drottinn er með yður, afþví þér eruð með honum, og ef þér leitið hans, þá mun hann láta yður finna sig (2 Kron. b. 15, 2). Og þá svarar trúin í hjarta hins guðhrædda, í allri armæðu hans og þrautum: Drottinn er með mér, eg vil ekki óttast; hvað geta mennirnir gjørt mér (Sálm. 118, 6)? Hvað getur lífið gjørt mér eða dauðinn, eða englar, eða konúngar, eða voldugir menn, hið nálæga eður hið ókomna; hvað getur allt hið skapaða gjørt mér, þegar Guð almáttugur er með mér?.

---

## 7.

## Guð er eylífur, einn, sannur, óumbreitanlegur.

Hversu farsællegt er vit mannsins! Það kemst æ leugra og lengra í skilníngi hlutanna; það sem er í þoku og óreglu fyrir augum annara liggur hinum vitra í augum uppi; hver partur þess birtir sig honum í sínu sambandi við alla hina; hluturinn allur er einnig samtengdur øðrum hlutum, og þá samtengíng er vitinu gefið að skilja, — það skilur orsøk og afleiðíngu; því ekk-

ert í heiminum er aleitt sér — en það, sem nú er, hefir rætur sínar í því, sem áður var, og getur af sér hið ókomna; þannig liggur aptur og fram endalaus röð orsaka og afleidínga, og hvetur sífeldlega vit mannsins til þess að herða sig, og veitir því sífeldlega meiri og meiri ánægju. Þannig gleðst vitið af verkum sínum, meðan það litast um að eins á litlu svæði. En ofrdvísi fer, þegar það flækir sig í hinar þúngu hugsanir um upphaf og enda alls. Eður mundi hin mikla röð undirróta og afsprettna, orsaka og afleidínga, keðjan öll, sem hver hlekkurinn í er svo nákvæmlega samtengdur hinum — mundi hún hánga í hinum auða geymi, og hvergi vera fest, og einginn hlekkurinn efstur? Er eintómt áframhald, en ekkert upphaf — er eintómur straumur, en eingin upptök?

Af öllu, sem augað sér og hugurinn hugsar, hefir ekkert fullnóga ástæðu í sjálfu sér, en vísar æ til annars, er áður var. En þegar hugurinn einsog hrekst þannig frá hverjum hlutnum til annars, og nær hvergi að hvílast, þá verður honum öldúngis ósjálfrátt að veita móttöku hugmyndinni um hinn eylífa, sem hefir upptök sín í sér sjálfum, og ekki er orðinn til af neinu öðru, en gefur öllu líf og anda og sérhvað annað, þann, sem ekki aðeins var, áðurenn heimurinn varð, var og er og verður alla tíma, heldur er upphafinn yfir vora hugmynd um tímann, og er óransakanlegur mannlegu viti, þarsem þó mannlegt vit finnur ekkert ljós án hans, hvað víða sem það leitar.

Eg ætla ekki að reyna, að skíra með orðum frá því, sem túngan og hugurinn megna ekki að ná; það er einmitt ljósið, sem Guð býr í, og hið skapaða fær ekki að komizt (1 Tím. 6, 16). En hversu merkilega, hversu háleitlega kemur þessi hugmynd um eylífð Guðs hvervetna fram í heilagri ritníngu frá hinum fremstu bókum til hinna eptustu! Þegar Móses hafði á hendur tekizt hið mikla erindi til Gyðíngaþjóðar, þá er skrifað, hann hafi mælt til Guðs: "þegar eg kem til Ísraelsbarna og segi við þau: Guð feðra yðvarra sendi mig til yðar; og þau segja við mig: hvað heitir hann? hvað á eg þá að segja? Þá svaraði Guð Mósi: eg er sá, sem er; og hann sagði: tak svo til orða við Ísraelsbörn: eg er hefir sendt mig til yðar. Og ennfrem-

ur mælti Gud til Mósis: tak svo til orda vid Israelsborn: **Jehovah**, Gud fedra ydvarra, sendi mig til ydar; þad er nafn mitt ad eylífu, med því nafni skulu allar kynkvíslir minnast mín" (2 Mós. 3, 13). Jehovah, þad er, hinn verandi, þad er sá, er í ædstum skilníngi segir vid sjálfan sig, og um sjálfan sig: eg er; því þarsem hver ennur vera, hversu fræg sem hún er í tolu skapadra hluta, er skepna eigi ad sídur, og verdur ad kannast vid, ad hún hefir upptek, og hefir þau ekki í sjálfri sér, og helzt ekki vid af **sínum** krapti, og ad hún er til, einúngis af því ad Gud er: þar hefir hinn eylífi lífid í sjálfum sér (Joh. 5, 26). Þvílíka hugmynd um Gud finnum vér í hverri bók heilagrar ritníngar, og med þessum hugmyndum minnist hans enn í dag hver kynslódin eptir adra.

Þari liggur og ennur hugmynd, er svo optlega og svo kostgæfilega er vakin og glædd; þad er sú hugmynd, ad Gud sé **einn**. "Heyr þad, Israel — segir í Guds ordi seint og snemma — Jehovah, vor Gud, Jehovah er einn (3 Mós. 6, 4). Eg em Jehovah, þad er **mitt** nafn, og tign mína veiti eg eingum edrum (Es. 42, 8). Svo segir Jehovah, Konúngur Israels og lausnari hans, Jehovah Zebaoth: eg er hinn fyrsti og hinn sídasti, og enginn er Gud nema eg (Es. 44, 6). Þó sumt séu gudir kalladir, hvert sem er á himni edur jordu, þá hefum vér þó einúngis einn Gud, Alfedur, sem allt er frákomid (1 Kor. 8, 5. 6)". Ad vísu eru margir kraptar allavega umhverfis oss, og eru sumir oss yfirsterkari og oss á margar lundir ofvarnir vid ad eiga; en sameign þeirra er ekki sem stjornlaus leikur milli margra drottna, né heldur eylíf, áráungurslaus óslítandi barátta tveggja hofudkrapta, hins illa og hins góda; heldur er einúngis eitt vald á himni og jordu, og **einn** sem ríkid á og máttinn og dýrdina um alla eylífd.

Af þessu skiljum vér, hvad til þess kemur, ad Drottinn himins og jardar er hvad eptir annad nefndur **hinn sanni Gud**. Ad vísu er hann kalladur svo til adgreiníngar frá falsgudunum, sem mennirnir hafa búid sér til, og fædduft í huga þeim, og gjordir eru af hendum þeirra; en hann er einnig kalladur svo sakir náttúru sinnar. Því Gud Jehovah er sannleikur, hann er lifandi Gud og eylífur Kon-

úngur (Jer. 10, 10). Í öllu hinu endanlega er æ einhver misshníng, svo að það sýnist vera annað, enn það í raun og veru er; þar er æ eitthvað óáreiðanlegt, svo að vér getum ekki öldúngis átt undir því — svo að það reyniſt allt annanveg, enn vér hugðum — svo að það hverfur oss, þegar vér ætlum að ná því: en Guðs vera er sannleikur, Guð er eins og hann verður, hann breitist ekki þó hlutirnir breitist, og það traust, sem á honum er haft, er á óbifanlegum grundvelli byggt; ennfremur: allt mundi hverfa og verða einsog reykur, staðlaust, verulaust og síbreitanlegt, nema Guð gæfi því líf og fylling og stað. Þessvegna sjá þeir, sem ekki nema staðar við yfirborð hlutanna, heldur rannsaka eðli þeirra — þessvegna sjá þeir, að allt er dautt og tómt, fánýtt og eydanlegt, nema Guð sé; og sérhver, sem er kostgæfinn og rétthugaður í rannsókn hlutanna, finnur, að þessi orð eru sönn: það er hið eylífa lífið, að þeir þekki þig, hinn eina sanna Guð (Jóh. 17, 3).

Þessi orð: hinn eylífi og hinn eini, sanni Guð, eru þá samrar þýðingar; svo er og, þegar vér köllum Guð óumbreitanlegan, nema hvað vér höfum þá fremur í huga mismun guðlegrar veru og hlutanna óstöðugleiks. Og þessvegna skulum vér halda fast þessu nafni, og hafa það til að gjöra skírri hugmynd vora um Guð.

Öll góð gjöf — segir Jakob postuli — og öll fullkomin gjöf er ofanað, niður komandi frá Föður ljósanna, þar sem hverki er umbreiting né umskiptingar skuggi (Jak. 1, 17). Þar sem postulinn kallar Guð Föður ljósanna, þá hefir hann eflaust í huga þau ljós, sem Guð hefir tendrað á himninum, til að ráða fyrir degi og nóttu, og vér svo optlega horfum upp til, leitandi hjarta voru rósemi í órósemi lífsins. Því hversu mjög sem flestir menn æskja sér umbreiting, hversu fráſnúnir sem þeir sýnast vera því, að geta unað við enda það sem gott er og gledilegt, og hversu mjög sem þeir fíkjast í nýtt, svosem væri það allt indælt — ó! þá fær þó öll þessi umbreiting optlega sárt á oss; einginn er svo léttúdugur, að hann verði ekki hryggur í huga, um leið og hann finnur, hvernig umskiptingin verpur skugga sínum yfir alla jarðneska dýrð, og að ekkert er hér á jörðu, er með sanni verði um sagt: þetta er stöðugt og breitist ekki. Mitt í þessari jarð-

nesku umbreitíngu, er mæðir oss og gjörir oss hryggva, hessum vér optlega, svosem af náttúrlegri sýsn, augu vor til himins, og sú tilfinníng, er gagntekur oss, annaðhvert þegar vér sjáum hina miklu dagstjörnu líða fram himinbrautirnar, og senda ljóma sinn útum hinn ómælanda geym, eða þó einkanlega þegar vér sjáum stjörnur næturinnar skína niðurá lög og láð — sú tilfinning er ekki einúngis í því fólgin, að vér dáumst að fegurð þeirri, er augu vor líta, heldur finnum vér þá til þess, sem er fast og stöðugt og óbreitanlegt, og sú tilfinníng fyllir þá hjarta vort, og gefur brjósti voru rósemi í stað órósemi. Þvíað þér, ljós himinsins! þér skínið enn, einsog þér skinuð í öndverðu, þér lýsið enn yfir oss og yfir vorum fánýtum athöfnum, einsog þér lýstuð yfir feðrum vorum. Ótal kynkvíslir hafa komið hver eptir aðra; ótal þjóðir hafa risið upp, og eru undir lok liðnar; allt útlit jarðarinnar hefir umbreitzt, — en yður sjáum vér enn á yðrum ljósu leiðum eins útlítandi og þegar hinn fyrsti maður sá yður, þá er Guð opnaði augu hans til að sjá það, sem honum var fyrirbúið; og jafnvel þegar ský og þokur fela yður sýn vorri, þá er það jörðin ein, er sig hjúpar skýum og þoku, en yðvart ljós brennur jafnskært hinumegin skýatjaldsins, og mun senda geisla sinn ígegnum það, þegar er það rifnar. En þéað tilfinníng umbreitíngarinnar mýkist á því að hefja augu sín upp til hins sýnilega himins, — þó að vér lítum þar það, sem er stöðugt, þó tímarnir breitist: þá vitum vér samt, að þetta allt er kallað stöðugt, einúngis afþví að það á lengra aldur enn vér, sem eigum fá ár fyrir hendi. En þó verða umbreitíngar á hinu víða himinhvolfi: stjörnurnar koma og fara, sólin sendir geisla sína lengra eða skemra að, umskiptíngin verpur skugga sínum einnig yfir hana, og undarleg umskipti verða á hennar skínandi ásjónu; himinhnettirnir reika af leið sinni, og stjörnur hafa birzt og orðið æ skærri og skærri, en horfið síðan; og meira að segja: hver getur hjá komizt að hugsa, að þessi ljós hafi einhverntíma byrjað ferð sína, og einhver dagur hafi verið þeirra fyrstur? hver getur hjákomizt að hugsa, hvert einhver dagur muni ekki einnig verða þeirra síðastur? Allt, endanlegt, sem er hefir enda; og menn þykjast geta

reiknað, að hnettirnir hljóti að rekast á, þó ekki verði fyrrenn um óteljandi þúsundir alda; og því er sastlega spáð í Guðsorði, að sól þessa heims muni missa birtu sína, og stjernur þessa himins muni slokkna.

Látum það verða oss sem berast, að allt hið stundlega sé breitingum undirorpið — látum þá tilfinníngu gagntaka oss, að eydíngin grafi burt rætur fjallanna og hlífi ekki himinbirtunni: því meir hefst hugurinn, og sálin öll, upp til Föður ljósanna, því meir verðum vér oss meðvitandi þeirrar veru, sem ekki breitist, þó allt annað ummyndist; hann eldist ekki, og eingin umskiptíngar skuggi dregur neinn myrkva á ljóma hans guðlegrar dýrðar. Eylífur Guð og óumbreitanlegur — ostöðugleiki stundlegra hluta kennir oss að nefna þessi orð með guðrækni og lotníngu. Í Guði einum finnur sálin hvíld, enda finnur hún þar fullkomna hvíld.

Óbreitanlegur, æ hinn sami — þessi orð þýða allt annað, þegar vér segjum þau um Guð, enn ef vér kæmumst svo að orði um harðan klett í hafinu, eður um einhvern hnöttinn, sem þar skín uppi yfir; því þá tölum vér um dauða hluti, sem ekki geta bifast, eða um þá líkami, sem halda áfram að feta þær brautir, sem þeim eru markaðar, og vita ekki til sín; en nú tölum vér um hinn lifanda Gud, um þá veru, sem ekki aðeins er, heldur hefir lífið í sjálfri sér. Vér getum ekki gjert oss neina þá hugmynd um Guð, að um hana verði með sanni sagt: nú er hún fullkomin, nú er hún Guði sambodin; en ef vér girnumst að nálægja oss réttri þekkíngu á Guðs óumbreitanlegleika, þá leitum heldur líkingar í ríki andanna, enn í ríki líkamanna, og hugsum, hver að sé sá óumbreitanlegleiki, sem vér mundum ætlast til af þeim manni, sem væri vitur og rettlátur. Sannlega ætlumst vér ekki til, að hann sé stirðnaður steingjörvíngur — að lífsins auðæfi líði fyrir augu hans, og sái ekkert á hann — að hann hafi eingin afskipti af því, sem við ber í veroldinni umhverfis hann; en vér ætlumst til þess óumbreitanlegleika, að hann meti og dæmi sérhvað sem fyrir hann ber æ eptir sömu reglum — að hann hafi stöðugan vilja, og breiti ekki teknu ráði jafnótt og eitthvað breitist,— að straumur athafna hans komi æ af sömu upptekum; það á reynd=

ar ad vera allt e i n athefn, þó hún komi fram í mörgum myndum. Ró og hreifing eru þar í einu lagi; lifnadur hins vitra er stedugasta ró í ávaxtarsemustu og efluguftu hreifingu. En í því vér segjum þessi ord, þá finnum vér um leid, hver ad sé e i n n vitur, því þessi lýsing á ekki vid um neinn mann, heldur einmitt um gudlega veru. Guds ró er margfaldlegasta fylling kraptarins, straumar lífsins streyma útfrá honum án afláts, kraptur hans er í öllum, og er æ hinn sami: myndir alsherjarlífsins renna án afláts upp fyrir augum hans, samt kviknar ekki í honum nein ný hugmynd, því allt sem verda mætti og verda mundi var honum laungu bert, þad hverfur aptur, en þó hverfur ekkert úr huga Guds, því þar er eingin gleymska, ad skyggja á þad sem vid hefir borid. Hér á jördu er hid andlega ásamt hinu líkamlega á sífeldri hreifingu og breitingu. Einsog hafsins öldur ædaa allt í kríngum löndin, eins æda öldur meininganna yfir þau. Hvernig hafa ekki meiningarnar breitzt hér á jördu! Einn tíma hafa mennirnir bodad þ a d svosem heilsusamleg og ómótmælanleg sannindi, er þeir annan tíma hafa útskúfad svosem villu; einn tíma hafa þeir kallad þad rétt, er þeir annan tíma hafa haft andstyggd á svosem raungu. En því betur sem vér sjáum þetta, því leidari og vidbjódslegri sem þessi umbreiting verdur oss, því skírri verdur sú sannfæríng, ad yfir öllum þessum óhyrleik meininganna sé e i n n stadfastur hugur, sem, án yfirsjónar, greini sannleikann frá hinu ránga, og kalli hann æ hinu sama nafni; ad yfir öllum þessum óstöduga vilja, sem kýs í dag þad sem hann kastar á morgun, sé e i n n vilji, heilagur og óbifanlegur, samur í dag og í gær og samur til eylífdar; ad á himnum sé þ a d kallad rétt, sem er kallad svo frá upphafi veraldar, og verdur kallad svo til veraldar enda. Þessi sannfæring er hyrníngarsteinn sérhverrar háleitrar vidleitni og ransóknar. Hvad dygdi þad, þó eg leitadi sannleikans, væri ekki til óbifandi sannleikur, byggdur á óumbreitanlegri veru hins eina og eylífa Guds? Hvad dygdi þad, þó eg kostadi kapps um ad laga athafnir mínar eptir þesskonar reglu, er eg gæti sí og æ haft fyrir augum, væri ekki til stödug regla og óbifanda lögmál, byggt á óumbreitanlegri veru hins eina, sanna, eylífa Guds?

Afþví Gud er einn og sannur, eylífur og óumbreitanlegur,

þeßvegna er sannleikinn — sem þeir finna, er leita hans kostgæfilega — þeßvegna er hann ekki svikſamlegt tál, breitanlegt á hverri stundu, né heldur óumflýanleg misſýníng til þeß ætlud, ad hún villi sjónir fyrir manninum á hérvistardøgum hans, og hverfi sídan; heldur er hitt, ad hverjar þekur sem tálma sjón vorri hér á jørdu, þá standa þó gegnum þær geislar þeß sannleika, er Gud sér frá eylífd sjálfan sig í og þekkir frá eylífd øll verk sín í (Post. 15, 18). Fyrir því er þad løgmál, er hinn rádvandi leitar ad breyta eptir — fyrir því er þad ekki sett honum adeins um stundarsakir, medan hann sé á ferd um tálgøtur þeßa lífs, svo ad annad løgmál eigi sídan ad koma í stad þeß, — heldur er þad byggt á edli og náttúru Guds; þad er sama løgmálid, sem drottnar í verkum hans, því þóad hvert bodord tali til mannanna á mannlegan hátt, þá er þó hvert þeirra byggt á því løgmáli réttlætis og kærleika, er sjálfur Gud drottnar og stjórnar eptir.

Gud umbreitist ekki af neinu, sem kemur af náttúru sjálfs hans, — því hún er æ hin sama; né heldur af annarlegum mætti — því hann megnar ekkert í mót Gudi; þó er stjórn hans ekki sem stjórn hinna ósvegjanlegu forlaga, er heidíngjarnir søgdu drottna yfir gudum og mønnum. Þeßi forløg, ímyndudu þeir sér, ad hefdu ákvedid óbifanlega, hvad hver madur væri edur ætti ad verda, og alla sælu þeirra og eymd; þau hirda ekki um synd né réttlæti, og ekki um tár né bænir, heldur halda þau leid sína og troda allt undir fótum sér miskunarlaust. En vor Gud metur athafnir mannanna; hann launar og hegnir af réttlæti sínu, og leitar hins glatada af kærleika sínum, til ad bjóda því frelsi; vor Gud heyrir óp vort, þó vér séum djupt og aska, og eyru hans nema æ bænir þeirra, sem eru audmjúkir og treysta honum. Þó breitist ekki Gud vor; því þad er vilji hans frá eylífd, ad hinir syndugu hjálpist — þad er vilji hans frá eylífd, ad sá finni, sem leitar, ad sá ød list, sem bidur. Hefir þú nokkru sinni ásakad sjálfan þig um óstødugleika, þó þú hafir miskunad þig yfir hinn auma, edur látid ad audmjúklegri beidni hins idrunarfulla? Þad, sem kom fram í þér í þad skipti, þad var hid bezta, og hid óbreitanlegasta, sem þú hefir til — þad var sá vilji, sem kann og á ad

standa stöðugur um allar aldir: þú vildir vera sannleiknum og réttlætinu trúr í kærleika. Þannig er Guð æfinlega óumbreittur, hans vilji er æ hinn sami, hvert sem hinir þúngu dómar réttlætis hans steypa hinum dramblála, eður hin blíða rödd miskunar hans segir til hins iðrunarfulla: syndir þínar eru þér fyrirgefnar. Hjá Föður ljósanna er eingin umbreiting né umskiptingar skuggi.

8.

## Guð er lifandi, allsvitandi, alvitur.

Hvernig getum vér bezt gjört hugann á Guði ötulgan og áværtarsaman í sálu vorri? Vér vitum að Guð er til; þegar vér sjáum tímans straum framhjá fljóta, og því fremur sem vér sjáum, að hann breitir öllu við bakka sína, að sérhver bylgja sem rís, fellur aptur, og sérhvert blóm, sem breiðist í sundur, fölnar aptur, og ekkert er til í öllu hinu mikla ógrynni sýnilegra hluta, sem vér getum með sanni um sagt: það var og er og mun vera; því fremur hlýtur að vakna í oss hugmyndin um hinn eylífa, sem varir, þótt allt annað breitist, ætíð hinn sami. Himin og jörð boða hinn almáttuga, sem eylíflega skapar, viðheldur og stjórnar; og hvert sem vér horfum, sjáum vér vott hans, sjáum vér hann sjálfan, hinn alstaðarnálæga, sem fyllir alla hluti, þann er vér lifum, hrærumst og erum í. Og samt sem áður, þótt vér játum þetta svo berlega, hversvegna lifum vér þó svo optlega án Guðs í heiminum? Eg kemst ekki þannig að orði, til að telja mig á meðal þeirra, er kastað hafa að öllu leiti oki guðlegra yfirráða; hversu mjög sem eg hefi villzt, og hversu harðúðugt og tilfinningarlaust sem hjarta mitt hefir verið, hefi eg þó aldrei sagt, að eingimn Drottinn væri yfir mér, og aldrei hugsað, mér leyfðist að gjöra allt það er eg vildi og gæti. En þú hjarta í brjósti mér, breitilegt einsog hlutirnir í kríngum mig! hversu optlega hefir þú fyllzt nægð sælu og fagnaðar, hversu optlega hefir þú andað í hinum tæra himinbláma, en allar hinar þúngu

þokur jarðarinnar voru signar og sokknar lángt niðurfyrir þær himnahæðir, sem þu varst uppnumið í; og hversu optlega hefir þú hinsvegar verið bæði dautt og tómt, — trú og von og kærleikur voru þér þá slík orð, sem hefðirðu gleymt þýðingu þeirra, og þér fannst, sem værir þú einmana og allsþurfi í veröldinni, sem eingimu væri í himninum, er þekkti eymd þína, eingimu er gæti huggað þig, né vildi það! Hvernig get eg lífgað hjartað aptur, þegar það er dautt, hvernig get eg fyllt það aptur tilbeiðslu, þegar eingin háleit tilfinníng drottnar í því, þegar illaufar hugsanir einarsaman koma, og fara, eður eintóm óró́semi og áhyggja eiga þar bústað sinn?

Eg ætla að halda áfram að nefna nöfn Guðs, því öll eru þau mikillar þýðingar, hvert þeirra bætir nokkru við hugmynd mína, hvert þeirra hefir sinn krapt; og hvert þeirra snertir sálu mína í sitt skipti, á þann hátt að eg uni þá bezt við þá hugleiðíng, er það vekur.

Ef eg nú girnist að hjarta mitt lifni, þá skal eg temja mér að tala við það um hinn lifanda Guð; því einsog hann lífgar alla hluti (1 Tím. 6, 13) og er uppspretta alls lífs, er hrærist í veröldinni, þannig lifnar hjartað af tilhugsun hans. Lifandi Guð — þessi orð hljóma eins opt og eins kröptuglega í allri heilagri ritníngu, eins og nafnið eylífur Guð. "Eg lifi eylíflega" segir Drottinn himins og jarðar (5 Mós. 32, 40). "Svo sannlega sem Jehovah lifir", segja hinir guðræknu menn, er halda sér við hann (Dóm. 8, 14, og víða annarst.). "Guð vor Guð er sannleikur, hann er lifandi Guð og eylífur Konúngur", segja spámenn hans (Jer. 10, 10); og þá er postular Krists hófu upp raddir sínar meðal heiðinna þjóða, þá kenndu þeir fyrst af öllu, að þær skyldu snúa sér frá fánýtum átrúnaði til hins lifanda Guðs (Post. 14, 15). Allur lærdómur heilagrar ritníngar, bæði lögmálið og náðarboðskapurinn, er byggður á hugmyndinni um hinn lifanda Guð. Að vísu er hugmynd þessari fastast fram haldið í móti þeim, er gjörðu sér guði úr silfri eður gulli, eður tignuðu herskeitir himinsins; en þótt oss sé nú svo farið fram, að vér sèum hættir að búa oss til bílæti, þau er vér tignum og dýrkum, afþví vér höldum að í þeim búi guðleg-

ur máttur, þá látum oss samt ekki halda, nú sé orðinn óþarfi að boða hinn lifanda Guð; því fer svo fjærri, að guðsafneitun vorra tíma er einmitt folgin í því: að margir trúa að sönnu einhverju guðlegu, eður þá, ef til vill, einhverskonar guðlegri veru, en hinum lifanda Guði trúa þeir ekki, að minnsta kosti ekki lifanda á slíkan hátt, sem kristin trú boðar. Getum vér borið á móti, að hugsanir manna og einkum þeirra, sem vitrir eru og hyggnir haldnir, hafi meir og meir náð þeirri stefnu, að þeir ímyndi sér hið guðlega, er þeir nefna, einsog einhvern krapt í allri náttúrunni, er ekki viti til sín, og ímyndi sér lífið í Guði þeirra, álíka og lífið í trjánum, er flýtur vøkvana gegnum bol og greinar, breiðir sundur bløð og blóm og ávexti, og lætur síðan bløð og blóm og avexti følna og falla, til að framleiða aðra nýa, en veit ekkert til þeirra, sem eru né hafa verið? Hvernig á eg þá að ímynda mér þig, þú falsguð! er mennirnir hafa sett á veldisstól Skaparans? Þú gefur øllu líf og anda og sérhvað annað, þú gefur mér huga og meðvitund, opnar í mér uppsprettur tilfinnínganna, kennir mér að elska þá, sem aðhyllast mig; og sjálfur veiztu ekkert til auðæfa þeirra, er þú leiðir í ljós, og gleðst ekki við dýrð þína; þú elskar ekki børn þín, heldur fleygir þú þeim frá þér í tilfinníngarleysi, einsog tré fellir lauf á hausti; þú ert kaldlyndur og grimmur, og skapar einúngis til að eyða. Nei! þig get eg ekki tignað, þú ert dauðinn, en ekki lífið, og sálu mína þyrstir eptir Guði, eptir hinum lifanda Guði (Sálm. 42, 3), þeim Guði, er bæði veit til sín og til mín.

Hversu nálægur er sannleikurinn, hvert sinn er vér aðeins viljum gefa gætur að røddu hans! Eg hverf aptur til þeirrar hugleiðingar, er eg finn í ritum geymda frá fornøld: mundi sá, sem gróðursetti eyrað, ekki heyra, mundi sá, sem tilbjó augað, ekki sjá (Sálm. 94, 3)? Eins segi eg: mundi sá, sem gefur líf øllu lifanda, ekki lifa sjálfur? hversu bert er það, að fyrst að maðurinn þekkir hlutina í kríngum sig og þekkir sig sjálfan, þá geti sá — sem opnaði í oss uppsprettur þekkíngarinnar, og kveykti ljós hugsana og meðvitundar í sálum vorum, og leysti oss undan áþján náttúrunnar, svo vér gaungum frjálsir í heiminum, — ekki verið eintómur kraptur, er lífgi náttúruna, án þess að vita til

sjálfs sín. Hugsunarafl og medvitund eru þeir yfirburdir, er lypta mér yfir allar adrar skepnur þessarar jardar; ætti eg þá ad synja hinum hæsta, Födur andanna, þeirra yfirburda, sem gjöra andann ad anda? Edur þarf eg ad vera hræddur um, ad eg lítillækki gudlega veru, og minnist hennar med of mannlegum ordum, er eg eigna henni þann yfirburd, sem eg finn ágætastan á sjálfum mér? O! hvadan ætti eg ad taka ord, til ad tala um þann, sem er eylíflega, edur hugmyndir til ad hugsa um hann, utan af því sem er. Og þad var madurinn, en hverki dýrid, né jurtin, né hin medvitundarlausa náttúra, er Gud skóp eptir mynd sinni, svo þad sem lýptir manninum yfir adrar skepnur nálægir hann Gudi. Gud er Andi (Jóh. 4, 24), og þeir lítillækka gudlega veru, er taka hugmyndirnar um hana af öllu ödru enn af anda mannsins; því hann einan skóp Gud svo hér á jördu, ad hann skyldi vera honum líkur.

Hinn eylífi Fadirinn hefir lífid í sjálfum sér (Jóh. 5, 26). Allt sem lifir í veröldinni hefir lífid í einhverju ödru, sem máttugra er og yfirgripsmeira; þannig lifir madurinn sumpart í náttúru þessa heims, og sumpart í hinu mikla allsherjarlífi mannkynsins; og ad sídustu lifa allir hlutir í Gudi. Samt hefir madurinn þaráosan veru sjálfs sín, er hann greinir skírlega frá og setur gegnt öllu því, er hefir áhrif á hann, og birtir mátt sinn í honum; slíka medvitund sjálfs sín, eignar madurinn ekki ödrum skepnum, er hann kemst svo ad ordi, ad einsaman náttúran reki þær og þær geti ekki slitid sig af henni. Þá er madurinn segir: "eg", setur hann sig sjálfan, sem þann, er gjöri af sjálfsdádum þad er hann gjöri, og kannist vid sig sjálfan og veröldina í kríngum sig. Þá er hinn eylífi segir: eg lifi, þá hlýtur allt, sem til er í mannlegri medvitund, ad vera fólgid í þessu "eg", nema hvad þad er allt ómunrædanlega miklum mun öflugra og dýpra og ljósara. Því einsog Gud er ljós, og alls ekkert myrkur er í honum (1 Jóh. 1, 5), eins er Gud líf, og alls einginn daudi né fyrirstada né takmörkun er til í honum. Og undireins og þetta hid eylífa og alfullkomna líf þekkir sjálft sig, gagnskodar þad djúp veru sinnar til fullnustu, og gagnskodar umleid allt hid skapada, himnana og jördina og allt, sem ordid

er, og allt, sem óordið er, því það er allt af Gudi og fyrir Gud, og samt greinir hann það allt að frá sjálfum sèr.

Þegar vèr segjum: hinn lifandi Gud, þá ímyndum vèr oss hann svosem framkvæmandi og gjørandi, en jafnframt svosem vitandi veru; hann er sá hinn almáttugi, því máttur hans er í øllu, og sá hinn allsvitandi, því þekking hans nær yfir allt. Þannig er alvizkan í hinni nánustu sameining við hið hæsta og endalausa líf; og hèr sjáum vèr aptur hugmynd, sem bæði er háleit og huggunarrík, er bæði vekur anda vorn og lyptir honum til hæða. Hún er þess verd, að vèr stadnæmumst við hana og reynum til að skilja til hlítar, hvað það sè, sem vèr segjum, er vèr svo optlega ákøllum hinn allsvitanda Gud.

Gud gjørdi einnig manninn vitandi, og færi eg að minnast á yfirburdi mannsins, hlyti eg einnig af þessu að kannast við, að Gud hefir krýnt hann vegsemd og sóma. Þá kæmist eg rèttilega svo að ordi: sála mannsins er audug, hún safnar í sig fjársjódum lidinna tíma; tímarnir, sem fóru framhjá mèr, skildu eptir merki sitt í sálu minni, í kyrrdinni og einverunni eys eg úr brunni endurminninganna, og það sem horfið er hverfur aptur í huga mèr; fornar aldir hafa eptirskilið merki sín á jørdunni, hver kynslódin segir það annari, søgurnar kenna oss að lifa í samfèlagi við hina ágætu menn, er uppi voru í fornøld; vèr sjáum afreksverk þeirra og hlýdum enn á speki þeirra. Madurinn lýkur augum sínum upp, og lítur hlutina umhverfis sig; hann lítur þá ekki adeins í óreglu, einsog skilningarvitin sýna honum þá, heldur lýkur hann upp augum sálar sinnar og sèr þá í sameiningu þeirra hvers við annan, hann eydir misssýningum, hann kemst að brøgdum svikarans, hann rífur grímuna af hræsnaranum, og í ordum og gjørdum annara manna, jafnvel í augum og andlitum þeirra, les hann það, sem í brjóstum þeirra býr. Madurinn gengur ekki að øllu leiti blindur í móti hinum ókomnu tímunum, heldur getur hann sèr til hins ókomna af því, sem lidið er, og alltaf kennir reynslan honum betur, að hið sama sem var, muni verda, svoað ekkert sè nýtt undir sólinni (Préd. 1, 9). Hann hertigjar sig vizku og hyggindum, og gengur þannig fram á hina ókunnu stigu, og reidir

sig á, að þær hinar sömu stjörnur, sem áður hafa leidt hann á réttum vegi, muni nú og eptirleiðis ráða stefnu hans.

Þetta hól er ekki með öllu ástæðulaust, því Guð kennir mönnunum hyggindi (Sálm. 94, 10). En satt er það, að þótt eg nú beri þetta hól fram, freistar það mín einganveginn til að gjörast drambsamur af hlutskipti mín sjálfs, eður annara manna. Miklu fremur finn eg til vanmáttar míns og því ákafar, sem sálin girnist að aukazt að þekkíngu og skilníngi, því sárlegar finnur hún til takmörkunar sinnar. Þú hin hryggilega óminnisá! seint, en jafnt, ber þú fram þær hinar dymmu bárur, og breiðir þær eins yfir fagra völlu og eyðisanda, og smátt og smátt breiðir þú þær yfir hina víðlendu veröld og yfir alla dýrð hennar. Það er ekki einsog fornskáldin sögðu, að maðurinn bergi þá fyrst á vatni þínu, er hann nálgast hinnar dymmu strendur, þar er draumar hins jarðneska lífs hverfa; heldur hefir mér optlega verið borið það, bæði þá eg vildi og ekki vildi. Hversu margt hefir verið mér ljóst, sem nú er hulið fjarlægri þoku; hversu margt hefi eg þókzt vera búinn að rita svo skírt í sálu mína, að þeir stafir mundu aldrei geta óskírzt, og samt eru þeir afmáðir; hversu margt hefir hrært innstu rætur hjarta míns; hversu optlega sagði eg við gleðistundina: þér skal eg aldrei gleyma að eylífu — og þó er hún gleymd, allteinsog sorgin, er eg sagði aldrei mundi fyrnast. Að vísu er því svo varið, og Guði sé lof því er svo varið, að það, sem fyrnzt hefir yfir, er þó ekki orðið að eingu: það sefur ennþá djúpst í fylgsnum sálarinnar, og undarlega vaknar það aptur, kallað og ókallað, og kennir manninum, að hið umliðna sé ennþá nálægt, og að á hinni síðustu stundu æfi hans, verði honum einmitt réttur minnisbikarinn, en ekki bikar óminnisins, því þá er búið að taka á burt skorðurnar, er öptruðu sálinni að líta aptur. En á meðan sálin truflast og glepst hér á jörðu, leitar hún optlega árángurslaust að hinu umliðna, og sjaldan og dauflega kallar hún það framfyrir sig; svo er það fyrir hverjum einstökum manni, og svo fyrir öllu mannlegu kyni. Öll jörðin er einsog leiksvið, og í stað þeirra, sem léku þar um stundarsakir, eru nú komnir aðrir; hálfhrundir minnisvarðar frá liðnum tímum standa enn á stángli, en sú hin lifandi kynslóð hefir gleymt

hinni dauðu, og er á ferðinni hugsunarlaus, þángaðtil einnig er búið að gleyma henni. Mikil afreksverk hafa verið framin, og allur lýður hefir horft á þau, hetjurnar hafa sett sigurhrínga á höfuð sér, og fólkið leidt þá fagnandi heim aptur; spekíngarnir hafa talað og skáldin kveðið, og lýðurinn hefir uudrazt og hlustað á sérhvert orð, sem gekk fram af vörum þeirra; og nú eru þessar varir þagnaðar, og hetjan er sezt um kyrrt, myndin er orðin að dupti og leidið sigið; og minnisvarðinn geymir ekki nafn hans framar meir. Þeir hafa flýtt sér áfram á hinum sjelförnu götum, háfaði lífsins hefir geysað í kríngum þá, og ástríðurnar hafa geysað í brjóstum þeirra, margt eitt hjarta hefir brostið, er það var fullt vonar og fagnaði lífinu, og margt eitt hjarta hefir brostið í hryggð og einveru — og það er alltsaman gleymt. Gleymt hér á jörðu — en þú, Guð allsvitandi! gleymir e i n g u; það er veikleiki að gleyma, og þú ert ekki veikur; eingin skepna er orðin ósýnilig fyrir augliti þínu, heldur eru allir hlutir berir og breiddir sundur fyrir augum þér (Hebr. 4, 13). Minni þitt, ef eg mætti svo að orði komast, og skoðun þín, sem nær yfir alla hluti, lítur yfir alla þá, sem dánir eru, hvert heldur sem margar þúsundir grétu burtför þeirra, eður einginn hirdti um dauðastríð þeirra; og sérhver sjelfskvalaus og háleit viðleitni, og sérhver synd, hulin og augljós, það er alltsaman skrifað fyrir augliti þínu, og skrifað í þær bækur, sem tíminn fær ekki afmáð af, jafnvel hinn minnsta staf.

Vér þekkjum hið nálæga — jafnvel eins lángt, og auga vort fær séð, um hitt, sem fjær er, hlustum vér til hinnar seinfærtu boðunar; en auga þitt, Guð allsvitandi! sér yfir öll ríki veraldarinnar, það fylgir ástvinum vorum á hinum fjarlægu og villigjörnu vegum þeirra; vér vitum ekki hvað þeim líður, en þú veizt það. Vér þekkjum hið nálæga — yfirborð þess þekkjum vér, en það tælir oss optlega. Að vísu hefi eg mörgum sinnum þókzt sjá djúpt í hjörtu mannanna, og þá hefi eg séð þar ýmist réttlæti eður synd, ýmist tómar blíðar og ósérplægnar tilfinníngar, eður þá tóm svik og hégómagirnd; en þegar hið hulda varð augljóst, þá hefi eg optlega orðið að bera kinnroða fyrir virðíngu mína á þeim, sem ekki áttu hana skilið, og hryggjast af minni

óréttvísu og meidanda vandlæti. Hvernig ætti eg og að geta séð með nokkurri vissu inní hjörtu annara, þar sem eg svo optlega hefi séð rángt í hjarta sjálfs míns? Eg hefi ekki einúngis mörgum sinnum gálauslega skotið á frest að birða um, hvað í sjálfum mér byggi, ekki einúngis mörgum sinnum látið sjálfselskuna draga mig á tálar, svo mér hefir þókt eg ódruvísi og betur á mig kominn, enn einlægleg ransókn mundi hafa komizt að raun um; heldur einnig, þegar eg í fullri alvöru hefi reynt til að sjá mig allan, einsog eg er, þegar eg með kostgæfni og einlægni hefi leitað í fylgsnum hjarta míns, að hvörtum þeim, er ráðið hafa gjörðum mínum og hugrenningum, og að uppsprettum þeim, sem allt í mér er fram komið af; hvörsu optlega kom þá þoka fyrir augu mér, svo eg komst að raun um, að mannlegur andi skilur ekki einusinni það til fullnustu, sem er í honum sjálfum. En, Drottinn minn! þú ransakar og þekkir mig; einsog ekkert orð er á túngu minni, utan þú vitir það alltsaman, eins og þú gjörþekkir alla vegu mína, þannig skilur þú og hugsanir mínar álengdar (Sálm. 139, 1. o. nu. ov.), jafnvel fyrrenn þær hafi íklæðzt orðum eður gjörðum, og fyrrenn eg geti gjört grein á, hvert þær séu vondar eður góðar.

Maðurinn snýr einnig huga sínum til hins ókomna, vér höldum optlega að oss geti grillt til þess, sem hulið er þoku ókominna tíma, og stundum bendir vonin oss til þeirra daga, sem ekki eru uppruunir, og kvartar yfir, að morgunroði þeirra seinki um of komu sinni, en stundum skelfist óttinn fyrir hinum komanda morgni, og píniſt samt þegar af þjáningu, sem ekki er fram komin. Þú veizt það þó síðan fyrir laungu, mannlegt hjarta! sem lætur svo hæglega á tálar dragast, hvörsu tíðum hin jarðneska von lætur til skammar verða, og eins optlega hefir þú aptur hins vegar hæðst að ástæðulausum ótta og óróſemi þinni. Því eingin dauðleg hönd lyptir fortjaldi ókominna tíma, hinumegin við það ráða dagarnir niður gjöfum sínum, og koma svo í ljós hver eptir annan, og færa með sér annað, enn dauðlegir menn hafa við búizt. Eg sagða, að dagarnir raði niður gjöfum sínum, því hver er sá, er haldi í hjarta sér, að þeir brjótist fram í stjórnlausri óreglu, og gripi svo af hendingu, í gamanleik, það

er þeir vilji, til að blessa með því eður skelfa, eptir því sem verkast vill? hvet er sá, er ekki sé óbifanlega sannfærdur um, að ákvordun sé til, er radi nidur hlutunum fyrirfram, og hulin regla, einnig í því, sem fremur ödru þykir vera undirorpið eintómum leik tilviljunarinnar? Það vald, sem rædur hinu óordna, kalla heidíngjarnir forlög, er í öndverdu hafi ákvedid sérhverjum, er í heiminn fædist, hlutskipti sitt, og fyrirfram ritad hið óordna í stjörnurnar, eins óbreitanlegt og gángur þeirra er. Vér, sem trúum á lifanda Guð, köllum það gudlega stjórn, vér segjum og trúum, að þú, Guð allsvitandi! vitir það fyrirfram, sem ennþá er óþekkt á jördunni, og kallir á þá hluti, sem ekki eru, svosem væru þeir (Rómv. 4, 16). Að vísu höldum vér ekki, þú ákvardir fyrirfram gjördir sérhvers manns, að þú neydir suma til að hlýdnast, en suma til að þrjózkast, að þú lítir ekki á það, sem þú hefir gefið sérhverjum á vald, heldur ætlir suma fyrirfram til sóma, og vegsemdar, en suma til smánar og glötunar. En því trúum vér, að þú reisir þær skordur, sem einginn fær yfir stigið, að þú sjáir fyrirfram allt hvað ordið getur, og allar afleidingar, og að þú lofir ekki manninum að framkvæma annad, enn það er hann má efla með áform þín, hvert sem honum er það heldur ljúft eda leitt, svo hann verdur að verkfæri í hendi þinni, annadhvert til hegníngar eda blessunar. Þessvegna berum vér traust til, að leggja út á ókunna vegu; vér reidum oss ekki á framsýni vora, því hún þekkir optsinnis ekki hræfareldinn frá réttu ljósi; en vér reidum oss á þig, sem sást oss ádurenn vér vorum skapadir, og ákvardadir daga vora, ádurenn nokkur af þeim var til (Sálm. 139, 16).

Því hugmyndinni um þekkíngu Guðs er ætíd samfara önnur hugmynd, sem naudsynleg er til þekkingarinnar á hinum lifanda Gudi, en það er hugmyndin um Guðs heilaga og réttláta og miskunsama vilja, og bádar hugmyndirnar til samans, eru gudleg speki. Hinn spaki sér ætíd takmarkið er hann stefnir að, hann veit hvað hann vill, og það er ætíd rétt og gott, og farsællegt og ávaxtarsamt. Hinn spaki sér ætíd veginn, sem leidir að takmarkinu, ekkert ráð er honum hulið, og hann er öruggur í, að taka það ráðið, er bezt á við allar kríngumstædur, og framkvæmir áform

hans áfljótasta og bezta hátt; hinn spaki fyrirlítur ekki hid smáa, því án þess getur hid mikla ekki ordid, og hid stærsta er honum ekki of stórt, til þess safnar hann saman øllum rádstøfunum sínum, einsog steini er bætt á stein ofan, þángadtil musterid er risid í dýrd sinni. Madurinn sækist eptir speki, en því er midur, ad jafnvel þeir sem beztan hafa viljann, takast svo optlega á hendur ránga fyrirætlun, og jafnvel þeir, sem vitrastir eru, hafa svo optlega ránga adferd, til ad ná henni. Og þannig leidumst vér einnig med þessu móti til Guds, af tilfinníngu vanmáttar vors og veikleika; vidleitni vor verdur ad bæn til hans, sem hefir spekina og máttinn og rád og hyggindi; og hvert sem rádagjerdir mannanna verda ónýttar, edur oss audnast ad framkvæma hid fagra og góda, þá segir samt ætíd hinn gudhræddi: Gudi, sem einn er vitur, sé heidur og vegsemd ad eylífu (1 Tím. 1, 17).

---

## 9.

# Gud er algódur, Fadir allrar miskunar.

Allir munnar játa, ad Gud sé algódur og allrar miskunar Fadir; en mundum vér þora ad segja: øll hjørtu trúa því? Satt er þad, á stundum sjáum vér miskun Guds almáttugs svo bersýnilega umhverfis oss, ad allir smakka og sjá, ad Gud er gódur (Sálm. 34, 9); á stundum tekur Gud þúngann af brjóstum hinna mæddu, og gudlegt frelsi mætir oss svo berlega, ad vér hljótum ad kannast vid verndarhønd hins hæsta, og segja af øllu hjarta: lofadur sé Gud, Fadir allrar miskunar og Gud allrar huggunar, er huggar oss í sérhverri þjáníngu vorri (2 Kor. 1, 3. 4)! En sumar stundir æfi vorrar eru á annan hátt.

O! hver er sá, sem ekki hafi þekkt þær, stundir líkamlegra bágindа, lángar stundir og þúngar, svo mennirnir verda ad segja: eg girnist þær ekki (Préd. 12, 1). Og hver er sá, sem ekki hafi reynt, hvernig sú hin innri neyd leitar þá vid ad auka hina ytri, hvernig hryggd og ótti sálarinnar og trúarskortur og vonarleysi ætlar þá ad bætast ofaná mótlætid, sem oss er á herdar lagt? Því þegar vér sem mest vidþurfum hugrekkis og

vonar og trúartrausts, þá er freistarinn ákafastur að reyna til að svipta oss því og þá ertu, o! þú veika hjarta í brjósti voru! þá ertu fúsast á að sleppa því. En vel sé þeim, sem á hinum vondu dögunum varðveitir trúna og þolinmæðina! Og vel sé þeim, sem á góðu dögunum hertigjar sig í gegn hinum vondu dögum og leynir til að afla sér slíkrar trúar, sem ekki er eintómur leikur óskirra tilfinnínga, heldur skír og staðfest sannfæríng, er biltingar hlutanna fá ekki haggað, og ekki stýðst við það, sem augað sér, heldur við hitt, er samvizkan þekkir og kannast við. Með slíkri trú — en styrk þú, ó Guð! veikleika hennar — vil eg reyna að mæla þessi orð: Guð er algóður, Faðir allrar miskunar.

Einginn er góður nema Guð einn (Matth. 19, 17). Menn-ina köllum vér betri eður lakari, eptir því sem vera hins eylífa speglar sig í eðli þeirra, skírt eður óskírt; en þessi spegill er aldrei fullskær, svo orðið góður á í raun og veru einúngis við hinn alfullkomna, því hin rétta þýðing þessa orðs felur í sér allan fullkomleik. Gæðska Guðs felur í sér allan fullkomleik hans, og svo einnig þá náttúru, sem orðið gæðska jafnaðarlegast á að þýða: miskunsemi Guðs.

Sumum Guðs náttúrum er þannig varið, að bæði himin og jörð birta þær. Vér þurfum ekki utan að litast um, til að verða varir við þær öll umegin Sama er um miskunsemi Guðs. Hver fær talið þær verur — hver getur falið í huga sér einsaman kynferði þeirra — sem Guð telur allar, sem hann nefnir allar á nafn (ef eg á að dirfast að tala eptir mannlegum hætti) sem lifa í hans ómælanlegu ríki, frá orminum í duptinu, til höfuðengilsins, frammi fyrir hásæti hans? Og yfir þeim öllum lýkur hann upp sinni mildri hendi, seður þær allar með blessun sinni, gefur þeim öllum — sérhverri skepnu eptir þörfum hennar og samkvæmt eðli hennar. Eg sé þær umhverfis mig, skepnurnar, sem ödluðust líf og tilfinníng, einsog eg, og allra augu vona til Drottins og sérhver þeirra þiggur þæga gjöf úr Drottins hendi. Hver elur önn fyrir fuglinum í loptinu, sem sáir ekki og safnar ekki í hlöðu? Hver elur önn fyrir mönnunum, sem gróðursetja og vökva, en geta ekki sjálfir látið spretta?

Og þú hid mannlega hjarta, med øllum þínum laungunum og øllum þínum þørfum: hver elur enn fyrir þér? Hversu opt sem þú verdur ad berjast í þúngleika og hryggd, þú hefir þá einnig barizt í unadsemd og fagnadi, stundum vesælla orminum, er veltist í duptinu medvitundarlaus, en stundum sælt sem englarnir á himnum. Eg hefi heyrt kveinstafi sorgarinnar, en eg hefi einnig heyrt fagnadarlæti gledinnar; ekkert þad brjóst er til, ad þau hafi ekki þadan hljómad; og allt hid góda, hverju nafni sem þad heitir, allt í frá þeirri uppsprettu, er svalar hinum ørmagnada ferdamanni og til þeirrar uppsprettu, er sløkkur hinn brennanda þorsta sálarinnar, uppsprettunnar er streymir fram til eylífs lífs — ó! manna hendur hafa ekki snortid klettana, ad þadan streymi lækir niduri dalina, og mannleg speki getur ad eins fundid, en ekki skapad, þad sem í raun réttri er fylling lífsins; en frá þér, almáttugur Gud! er øll sú gnægd miskunseminnar, sem streymir í gegnum hinn sýnilega og hinn ósýnilega heim. Sannlega hefir Gud ekki látid sjálfan sig án vitnisburdar, er hann gjørdi oss gott og gaf oss regn af himni og frjófsamar árstídir, er hann saddi oss á fædu og fyllti hjørtu vor af gledi (Post. 14, 17); og vér køllum hann hinn algóda, afþví frá honum kemur allt gott og afþví hann er øllum gódur og miskunsemi hans nær til alls sem hann hefir gjørt (Sálm. 145, 9); allt fær sinn deildan verd, mikinn edur lítinn. Hann setur ekki takmørk miskun sinni: hann lætur sólina renna upp yfir vondum og gódum og hann lætur rigna yfir réttláta og rangláta (Matth. 5, 45), hann kallar synduga menn til apturhvarfs, og hefir optlega fyrirbúid sér lofgjørd af vørum þeirra, sem ádur løstudu nafn hans.

Hversu berlega, hversu áþreifanlega sjáum vér þetta og vidurkennum, í hvert skipti sem gudleg miskun birtist á sjálfum oss, edur vér samføgnum ødrum, sakir gudlegra velgjørda, er þeir hafa þegid. En breytum vér þá réttilega, þegar vér aptur á stundum gleymum því, sem vér ádur fundum svo berlega í sálu vorri. Þad er ád vísu gott og vel til fallid ad ein gladvær stund getur tekid á burtu hryggd margra þúngbærra daga, svoad øll eymd og bágindi eru gleymd, einsog vér hefdum aldrei syrgt

og mundum aldrei framar syrgja. En er þad einnig gott, þegar hinir dymmu dagarnir taka á burtu endurminuíng hiuna bjertu, þegar vér gleymum øllum velgjerdum Guds, einsog vér hefdum aldrei verid gladir, og ættum aldrei framar meir ad verda þad.

Satt er þad ad vísu! einsog gledistundir mannlegrar æfi eru óteljandi, þannig fær einginn talid allar sorgarstundir hennar; hversvegna er hersveitum mótlætinganna sleppt yfir þessa jørd? Eingiun sá madur, sem hefir nokkrar leifar af gudrækni eptir í hjarta sínu, svarar þessu ødruvísi enn svo: afþví þær eru ómissandi til framfara monnunum, til ad búa þa undir fullkomnara líf, er þeir hafa ekki ennþá nád, og géta ekki nád, nema einúngis med þessu móti. Rádníngu þessarar gátu er ekki ad finna í hinu sýnilega; því væri þad einúngis auguamid tilveru vorrar, ad vér skyldum njóta veraldlegrar sælu, þá gæti hver heimskinginn sídad hina eylífu spekina, og kennt henni hvernig þessu takmarki yrdi nád med miklu hægra móti; en rádníngin er í hinu andlega, hin fulla rádníng er ekki í tímanum heldur í eylífdinni. Einginn er sá kristinn madur, ad hann ekki svari, ad hefdi syndin ekki komid í veroldina, þá hefdi einnig uppeldi mannkynsins bædi mátt vera vægra, og líka verid þad. Hid illa kom fyrst í ljós í monnunum sjálfum, og þvínæst i veroldinni fyrir utan þá. Og hvernig sem mannlegum þjáníngum er varid, hvert sem þær eru sendar oss til hegníngar, edur til eintómrar reynslu, þá reidist Gud samt ekki, einsog menniruir reidast, hann hefnir ekki til ad tortýna, því jafnvel þegar hann refsar, gjørir hann þad oss til frelsis. Gud er gódur, einnig þá, þegar hann lætur oss þad ad hondum bera, sem vér køllum illt; hann er gódur, og hann lætur oss reyna þad, og líknsemi Guds, þegar hún birtist oss í lifsins þjáníngum, og fødurgædsku Guds, þegar hann lítur til vor í eymdum vorum, — þad køllum vér miskunsemi hans.

Eg hefi sagt ad sumum náttúrum gudlegrar veru sé svo háttad, ad vér verdum þeirra jafnskjótt varir, þegar vér litumst um. Ad veldi sé til, sem tengir saman alheim, og heldur honum í skordum, sem er ædra øllu mannlegu valdi, sem opt gjørir ad eingu hinar mikilvægustu fyrirætlanir, og lætur optlega þróast

hann vísir, sem einginn gaf gaum ad; ad þetta veldi sé oss alstadar nálægt og sýni sig í ollum hlutum, smáum og stórum — hver er sá er sjái ekki þetta, sjái ekki almætti Guds og allstadarnálægd, þegar hann med nokkurri gaumgæfni horfir upp til himnanna, edur rennir augum sínum yfir jordina? Drottinn! hversu morg eru verk þín, þú gjordir þau oll med speki (Sálm. 104, 24). Hver er sá er sjái þetta ekki, þegar hann ad eins lýkur upp augunum? Og ad miskunsemi sé til, sem elur enn fyrir ollu sem lifir, hver hefir andad undir þessum himni og ekki fundid þad? En — þorum vér einnig ad segja, ad vér í þjáníngum lífsins vidurkennum ætíd nálægd gudlegrar miskunar? ad vér þurfum einungis ad ljúka upp augunum, til ad verda varir vid, ad sá er nálægur í allri vorri eymd, sem adstodar oss og frelsar? Sannlega, þegar vér med gudrækilegu hugarfari hyggjum ad vegum Guds, og vonum og bídum kyrrlátir frelsis hans (Harmagr. 3, 26), þá munum vér efalaust sjá þad. En einmitt þetta, ad vér hljótum svo opt ad bída og vera kyrrlátir, ad vér ekki sjáum frelsi Guds á þeirri stundu og med þeim hætti, sem vér hofdum búizt vid, þetta reynir á styrkleika trúarinnar. Þad, sem gudleg forsjón lætur oss ad houdum bera, virdist optsinnis ad vera svo hart, svo ofødurlegt; hjarta vort klokknar af medaumkun, ef vér adeins hefdum máttinn, hversu skjótt mundum vér þá koma til adstodar, hversu skjótt mundum vér þá snúa burt hættunni, edur snúa hryggd í kæti. Og hann, sem hefir máttinn, hann bídur; hann sem sér alla eymd vora, hann kemst ekki vid, hann sendir ekki engla sína, ad vardveita fót vorn frá hrosun, og dreypa svolun í hinn beiska bikarinn. Hvernig eigum vér ad frida hjarta vort, þegar þad býr yfir svo myrkum hugsunum, þegar þad tekur ad efast, hvert því sé óhætt ad kalla Gud líknsaman.

Einsog meistarinn þekkist af verki sínu, eins þekkjast einnig Guds náttúrur af verkum hans, en verk Guds eru ekki adeins himin og jord, ekki einúngis þad sem augad sér, ekki einúngis dásamlegur líkami vor. En andinn, sem lífgar þetta dupt, er einnig Guds verk, Gud skóp hann eptir sinni mynd, og sérhver gód og háleit tilfinníng í brjósti voru er sádkorn af himni og geisli

gudlegrar veru. Efad nú eg, hin veika og óhreina skepna, sem einatt er svo sérgódur, einatt svo kaldlyndur og hardbrjósta, og ófús á ad samgledjast hinum glødu og samhryggjast hinum hryggu, efad eg nú, samt sem ádur finn til þess, ad eg hefi eyra til ad heyra kveinstafina og hjarta til ad kenna í brjósti um þá hina aumstøddu, ef eg játa ad þessi tilfinníng sé einhver hin fegursta tilfinníng mannlegs edlis, þá er þad ad vísu Gud, sem rætti hana svo djúpt í fylskni sálar minnar, ad eingiinn hlutur fær henni þadan algjørlega á burtu rýmt. Þessvegna, þegar efasemdirnar taka ad hreifa á sér í sálu minni, þá skal eg mæla þad med berum ordum, sem vantrúin hugsar; því ljósara verdur þad, hversu ástædulaus hún er, hversu fánýt og heimskuleg; mundi eg þá vera betri enn Gud minn? Sá sem gaf mér eyrad, sem heyrir, mundi hann ekki heyra? sá sem myndadi hjartad, mundi hann vera án tilfinníngar? — Postulinn kallar hinn eylífa, Fødur allrar miskunar, þad er ad skilja: uppsprettu allrar líknsemdar, er þadan streymir gegnum øll hjørtu, er tilfinníngu hafa; og hann mundi ekki sjálfur líkna! Hann gaf oss fødurhjartad og módurhjartad, sem aldrei slítur sig frá barninu, aldrei lykur sér aptur, aldrei synjar því gódra gjafa; og hann, sem allt faderni er frá komid á himni og á jørdu (Eph. 3, 15), mundum vér kalla hann Fødur árángurslaust. O hversu djúpt, hversu snjallt hljóma þessi hin gømlu ord í fylsknum hjarta vors: einsog fadir miskunar sig yfir børn sín, þannig miskunar Drottinn sig yfir þá, sem óttast hann (Sálm. 103, 3).

"Einsog fadir miskunar sig" — en einnig á medal mannanna, miskunar vitur fadir sig ekki ætíd þannig, á þeim tíma og med því móti, sem barnid girnist og vonar. Þad er hart og óføðurlegt, segir barnid optsinnis í hjarta sínu vid fødur sinn, ad þú veitir mér ekki lausn frá þessu erfidi, ad þú annt mér ekki þessa fagnadar, ad þú gefur mér ekki upp þessa refsíngu, þér væri þad svo hægt og mér væri þad svo ljúft; en þú þegir og heyrir ekki bæn mína; þú ert ekki framar sami fadir, sem þú ádur varst, og þegar þú unntir mér og varst mér gódur. Og fadirinn veit þad í huga sínum, hvernig barnid efast, samt breitir hann ekki ákvørdun sinni, samt leidir hann barnid, med

edur á móti vilja þeſs, einsog hann veit því bezt hentar; hann ſegir: það væri miſkunarleyſi, ef eg vildi hlífa þer vid ſtuttrar ſtundar bøli, vid þeſsum fáu tárum, og hlytir þú ſvo eptirá, ad fara á mis vid hinn fagra ávøxt vizkunnar og þolgædiſins. Og barninu eykſt aldur, það ſer ad ſkilja tilgáng fødur ſins, það verdur vart vid afleidingarnar, og þá ſegir barnid: þú hafdir vit á því, fadir minn! en eg ekki; og nú þakka eg þér fyrir það ſem þú ſynjadir mér, einsog fyrir það ſem þú gafſt mér; nú vidurkenni eg, ad þú varſt mér aldrei betri, enn þegar mér fannſt þú ekki vera mér gódur.

Hverſu opt hefir þeſsi hin ſama rødd heyrzt í bænum gud-hræddra manna? Og þegar vér erum búnir ad læra ad trúa þó vér ſjáum ekki, ad trúa á miſkun Guds, þótt hún birtiſt ekki á þeirri ſtundu og med þeim hætti, ſem vér æſktum, hverſu opt-lega munum vér þá verda hennar varir, einnig í lífſins þýngſtu raunum. Því jafnvel þegar þeir hlutir verda, ſem oſs þykja þúngbæraſtir og ſkelfilegaſtir, þarſem vér í fyrſta áliti þykjumſt ſízt geta ordid varir vid frelſisþønd hins miſkunſama Guds, þá er ſamt optaſtnær í þeſsari eymd, eitthvert teikn fra Gudi, eitthvert atvik — það þykir optlega ſvo litilvægt, heimurinn kallar það hendíngu, en gudhræddir menn kalla það ſtjórn gudlegrar for-ſjónar; og það er ſvo í raun og veru, því þetta hid litilvæga atvik er nóg til þeſs, ad Gud geti látid frelſid af því leida. Það er gamalt máltæki, er gengid hefir munn frá munni, frá einni kynſlód til annarar, ad þegar neydin er hæſt, þá ſé hjálpin næſt. Þetta hljóta mennirnir ad hafa ſannreynt á þúſund vegu, ádurenn það yrdi ad ſvo almennu máltæki; reynſlan hefir apt-ur og aptur ordid ad ſanna það, fyrſt það helzt vid og fyrſt vér heyrum það á allra vørum, og eins á þeim vørum, er ekki eiga vanda til ad lofa Gud.. Er þetta þá tóm tilviljun? ber það vid af eintómri hendíngu, ad margopt, þegar neydin er hæſt, þá kemur einnig hjálpin? Nei, eingan veginn; heldur er það hid ſýnilega teikn miſkunar þinnar, Fadir vor á himnum! Þú ſér oſs í eymd vorri, þú þekkir alla beiſkju hennar, og þegar þú ſér oſs liggur vid ad hníga undir byrdinni, þá hræriſt þú miſk-unar og lætur vor ekki verda freiſtad um megn fram, miklu

fremur gjörir þú freistinguna og endalok hennar þannig, að vér fáum staðizt. Sérhver, sem reynt hefir til að varðveita þolgæðið og trúna og ótta Drottins, einnig á hinum vondu dögunum, hann hefir og jafnan reynt, hvernig guðleg mildi er sameinuð guðlegri vandlætingu, því Guð hefir vísað honum á úrræði, þar sem hann sá eingin úrræði sjálfur, Guð hefir gefið honum krapta til að bera, Guð hefir grædt, einsog hann særði, Guð hefir aptur litið til hans í mikilli miskun.

Þannig standa teikn á móti teiknum, og velur maðurinn af þeim eptir því sem hjarta hans er háttað, það sem honum þykir sér haga. Sá sem vill brjóta af sér ok Guðs ótta, eður heimtar, að vilja sjálfs sín verði í öllu framgengt á jörðunni, og leitar sér — þegar þetta ferst fyrir — hryggilegrar fullnægju í að örvinglast eður þrjózkast — hann safnar sér af því sem hann hefir séð eður heyrt, grátlegum fjölda eymdar og ógæfu-viðburða, sem eingin frelsun á að hafa stoðvað, eingin huggun hafa mýkt; sá þarámóti, sem getur ekki verið án Guðs og miskunar hans, hann sér hann nær og fjær að birtast sér, hann hlýðir á huggunarsögur þær, er lýsa því yfir, að Guð hafi ekki látið sig án vitnisburðar, hann sér alstaðar vott Guðs frelsishandar og elskunnar eylífu, sem miskunar sig yfir alla skepnu. Hvað sannast sé í þessu efni, getum vér ekki komizt að raun um með eintómri upptalningu viðburðanna, því það er einsog eg hefi áður sagt: teikn standa á móti teiknum, og vér gaungum hér í trúnni, en ekki í skoðuninni (2 Kor. 5, 7), hér eru Guðs ráð oss svo optlega óransakanleg og vegir hans órekjanlegir (Róm. 11, 33) og hljóta að vera það. En meðvitund sú, sem býr oss í brjósti um guðlega veru, er gróðursetti í hjörtum vorum allar góðar tilfinningar, sem vér verðum varir við að í oss búi — þessi meðvitund sameinar sig þeim vitnisburði, er hvað eptir annað stendur í heilagri ritningu, og boðar oss, að Drottinn sé líknsamur Guð og náðugur, þolinmóður og mikillar miskunar (2 Mós. 34, 6); og hún hvetur oss jafnan, að grenslast eptir þeim merkjum, er sá einn finnur sem leitar. En sá sem þannig leitar eptir opinberun miskunar Guðs í heiminum, ætti hann ekki að nema staðar við hinn mikla boðskap fagnaðarins: Svo elskaði Guð heiminn,

að hann gaf Son sinn eingetinn til þess, að sérhver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur ødlist eylíft líf (Jóh. 3, 16)? Hér er vottur miskunar Guðs, mikill og augljós einsog sólin á himninum, er lýsir frá austri til vesturs; hann skín niður yfir allan óróleik mannanna, yfir allan leynilegan ótta hinna voldugu, yfir alla eymd hinna fátæku, hann býður sig spekíngunum og hinum ráðalausu, vitjar syndaranna í hryggð þeirra og hugarvíli, þegar þrumurødd løgmálsins er búin að vekja samvizkur þeirra, og þeir þora ekki að lypta upp augum sínum til Guðs né manna. Hver sem þessu trúir, hann hefir sannlega slíkan vott þess, að Guð hafi miskunað sig yfir heiminn, að eingin sjón stríðs né drepsótta, né annara eymda, og eingir hegníngadómar, er gánga yfir jørðina, megna að ónýta þenna vott; og þessi orð: "hver sem trúir á hann" flytja huggunina inní brjóst allra manna. Guð sendi Son sinn eingetinn, til að birta miskun sína, ekki að eins við hina miklu og víðlendu verøld, ekki aðeins við fáeina útvalda, heldur einnig við þig, sem ert þjáður og hryggur, hver sem þú ert, og einnig við mig.

"Glataður" er skelfilegt orð, og þýðir óumræðanlega eymd; þess óttaleg þýðing á heima hjá þeim, sem alls ekkert frelsi fær eygt, hverki hér né síðar, sem eingrar miskunar væntir sér á jørðu né á himni. Þessvegna segir hin eylífa miskun við hvern sem trúir: þú skalt ekki glatast, heldur eignast eylíft líf.

---

## 10.

## Guð er heilagur og réttlátur.

Mikils er um vert, hvernig røddin, er Móses heyrði í hinum háleitu opinberunum á Sinai-fjalli, þegar Jehovah gekk framhjá andliti hans, einsog ritníngin að orði kemst, røddin, er sagði: Jehovah, miskunsamur og líknsamur Guð, þolinmóður og mikillar miskunsemi og trúfesti (2 Mós. 34, 6) — mikils er um vert, hvernig þessi rødd heldur áfram að hljóma gegnum allt gamla testamentið, frá ýmsum vørum og á ýmsum tímum

(4 Mós. 14, 18; Neh. 9, 17; Sálm. 86, 15. 103, 8. 145, 8; Joel 2, 13; Jón. 4, 2). Í þessum orðum er fólgin játníngin um Guð, sem mannkynið getur ekki án verið, sem sérhver sá, er girnist hvíld sálu sinni, verður að halda sér við, sem getur þessvegna aldrei aptur gleymst, þegar búið er að heyra hana einusinni. Þarsem heyra má þessa rödd þegar í hinu gamla testamenti, þá er nýa testamentið að öllu leiti opinberun náðar Guðs og miskunandi kærleika, og það nafn Guðs, sem hljómar í því og þaðan er komið á varir allra guðhræddra manna, og í hjörtu allra sem trúa, þetta nafn: Faðirinn á himnum — það felur í sér allar hugmyndir um náð og miskunsemi.

Þorum vér að segja, að mikil og affarasæl sannindi geti orðið heyrð of optlega — að mennirnir geti haldið sér of fastlega við þau? Fjærri fer því, ef mennirnir nema þau svo, að öll þýðing þeirra verði skilin og þau verði sén í sambandi sínu við allan annan sannleika, svo að hvað styðji annað og hvað verði ljósara af öðru. En hversu mjög hættir ekki mannlegu hjarta til að rjúfa þetta samband! því er svo tamt að svíkja sjálft sig, og þessvegna slítur það einhver ein sannindi, eður einhvern einstakan lærdóm, útúr keðju allra sanninda, skoðar hann einúngis á einn veg, ruglar honum óafvitandi og hefir það sér til skemda, sem ætlað var til blessunar. Þannig sjáum vér optlega að hugmyndin um miskunsemi Guðs og lánglundargeð er borin aflaga; flestir menn á vorum dögum halda í raun og veru, að sé á annað borð nokkur Guð til á himnum, þurfi þeir við eingu að búast af honum, nema friði og fögnuði; því þótt þeir geti ekki að öllu leiti mælt í móti, að gáleysi þeirra sé mikið og brotin mörg, að þeir hirði litið um að eflast að vizku og siðgæðum, að trú þeirra sé veik og ást þeirra köld á Guði og mönnum, halda þeir samt að reikníngur þeirra sé kvittaður með þessum orðum: Guð er líknsamur og miskunsamur. Þessvegna eru rituð í heilagri ritníngu, ásamt hinu huggunarríka fyrirheiti, að Guð fyrirgefi misgjörðir og afbrot og synd, þessi hin þúngvægu orð: Guð mun á eingan hátt telja þann, sem sekur er, síknan saka (Mós. 34, 7), og röddin, sem hljómar gegnum himnana skal einnig

fylla jørdina: heilagur, heilagur, heilagur er Jehovah Zebaoth (Es. 6, 1).

Ordid "heilagt" merkir þad sem fráskilid er venjulegum hlutum og hafid yfir þá, og einkum yfir þad, sem er audvirdilegt og svívirdilegt og íllt. Þannig á Guds nafn ad vera heilagt á jørdunni, og þannig er gudleg vera ad øllu leiti heiløg í sjálfri sér; óhreinleiki jardarinnar flekkar hana ekki; eptir eylífri veru sinni og gudlegu edlj hefir Gud einungis þóknun á hinu góda, og hvar og í hverskyns mynd, sem hid illa dirfist ad koma framfyrir auglit hans, mislíkar honum þad jafnan. Gud einnsaman er heilagur, í ædsta skilníngi; því þannig á þad ekki heima hjá nokkuri veru, sem getur fallid, og síst hjá manninum, sem er fallinn, og fæddur er í synd og hjarta hans hneigist snemma til þess, sem ósæmilegt er og íllt. Og þó sýnir þad sig einnig á þessu, ad Gud skapadi manninn eptir sinni mynd; afmáanleg tilfinníng býr í oss, sem gerir mun á illu og gódu, sem lítur hid góda med velþóknun og hid illa med misþóknun. Hversu spilltur sem madurinn er ordinn, hefir hann þó eptir menjar upphaflegrar líkingar sinnar vid Gud; svo illir hlutir eru til, ad þeir kveykja vidbjód í slíkum manni, og svo gódir, ad hann hlýtur ad virda þá, ënda þótt hann kefji þessar tilfinníngar jafnskjótt, sem þær lifna í brjósti hans. En því skírra og því nákvæmar og af því meira fjøri sem madurinn gjørir greinarmun þessara hluta, því fyrr og. því hjartanlegar, sem hann sameinast hinu góda, og fær vidbjód á hinu illa — því fremur endurnýast hann eptir Guds mynd. Þessi tilfinníng er í raun og veru hinn heilagi eldur; þegar hann logar hægt og skært, er hjartad Guds musteri, þegar hann slokknar, fara andar myrkranna inní hjartad og ásamt þeim allskonar andstyggd.

"Þér eigid ad vera heilagir, því eg Drottinn, Gud ydar, er heilagur" (3 Mós. 19, 2), — þannig hljódar røddin, sem aldrei eldist, og halda mun áfram ad tala, med øllu fjøri sínu og afli, ámedan menn byggja jardríki. En býdur Gud þá einúngis, og heimtar ekki hlýdni vid bodord sín? Sér hann úr ró síns háfa himins, hvernig mennirnir gánga á vegum gudhrædslu edur syndar, og sendir hverki blessun né bølvun út frá veldisstóli sín=

um. O! Drottinn Guð vor er vandlátur Guð (2 Mós. 20, 5), því heilagleiki Guðs vandlætir jafnan, og þegar þessi vandlætandi heilagleiki Guðs lætur í ljósi velþóknan sína eður misþóknan, köllum vér hann guðlegt réttlæti. Það launar eður hegnir, því Guð mun endurgjalda sérhverjum eptir verkum hans (Rómv. 2, 6); það lætur til sín heyra í öllu hirðuleysi mannanna og í allri þrjózku þeirra: villizt ekki, Guð lætur ekki að sér hæða; því það, sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera (Gal. 6, 7).

Það sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera — þetta eru mikil og þýðingarfull orð. Í þeim eru fólgnar allar hótanir, ser eiga að vekja hinn hirðulausa og skelfa hinn óguðlega, og í því eru öll þau fyrirheit, er eiga að hugga og styrkja hinn trúlynda þjón í allri armæðu þessa lífs. En eru einnig þessi orð sönn? Að vísu veit eg, hversu djarfleg, hversu ofdirfskufull þessi spurning er, því sannlega ofdirfist hún gegn Guði og ætlar sér að kollvarpa öllum sannleika og réttlæti á himni og jörðu; en einmitt svona spyr samt öll vantrú í mannlegu hjarta, og þessvegna hljótum vér að vera viðbúnir að svara henni.

Ef vér skoðum rit þau, er vér köllum heilög, afþví vér eigum að heiðra þau og hlýða rödd þeirra og læra af þeim og trúa því, er þau kenna oss, þá heimta þau jafnan réttlæti og bindindi, og tala um leið um hinn komanda dóm, þar er maðurinn á að gjöra þess reikningskap, hvert hann hafi hlýdt lögmálinu og breytt eptir því eður ekki. Sérhver opna, er vér flettum upp í ritum þessum, segir oss berlega, að Guð vitji allskonar illgjörða, og auðsýni þeim miskunsemi, er óttast og elska hann; þetta er ritað í harla þúngvægum aðvörunum og huggunarríkum fyrirheitum; það er ritað í frásögunum af því, sem Guð hefir látið verða á jörðunni allt í fra sköpun mannkynsins, að Guð hafi ekki velþóknan á guðleysi og að hinn trúlyndi öðlist margskonar blessun. Það kemur samt að litlu liði, þótt þetta sé ritað með bókstöfum, hversu helgir sem þeir eru, utan þessir bókstafir vakni og verði að lifandi rödd, er tali til hjartna vorra. En þegar vér hlýdum gaumgæfilega á áminníngar Guðs orða, finnum vér einnig, að vér vitum það allir fyrirfram í samvizkum

vorum, er þau segja oss um þetta efni. Það, sem madurinn sáir, mun hann og uppskera; þessa krefjumst vér af mannlegu réttlæti, og þó vér á eingan hátt viljum synja veikum og ydrandi mönnum fyrirgefníngar, þá heimtum vér samt að hegníngin skuli vekja hinn hirdulausa, skuli neyða hinn samvizkulausa og þverbrotna, en aptur skuli hinsvegar frelsi og fridur og sómi og umbun verda hlutskipti þess, sem gott gjörir. Þessa hins sama krefjumst vér — nei! vér væntum þess med fullu trúnadartrausti af hinum eylífa, ad þó jafnvel ekkert réttlæti sé til á jördu, hljóti það þó ad vera til á himnum. Sá sem dæmir jardríki, mundi hann ekki dæma réttlátlega (1 Mós. 18, 25). Sá sem innrætti hjörtum vorum þá hina eflugu og óafmáanlegu tilfinníng, er gjörir mun á illu og gódu, mundi hann ekki sjálfur gjöra mun á því? Ef vér vildum þræta þess, ad sá, sem stjórnar veröldinni, muni ad lokum auglýsa þenna mismun, þá væri þessi mismunur í sama bili horfinn úr mannlegu lífi, þá stædi það á sama, hvert mennirnir brúkudu réttilega tíma þann og krapta, sem þeim eru gefnir, edur þeir sóudu því hverutveggju, hvert þeir verdu lífi sínu til uppfyllíngar skyldunni, til eflíngar sannleikanum og réttlætinu og velferd manna, til eflíngar Guds ríki edur til eflíngar alls hins, sem því er gagnstædilegt, því til hvers er ad sá, ef uppskeran á aldrei ad launa erfidi sáandans? En þetta finnum vér miklu betur innst í hjarta voru, þar sem tilfinníng sannleikans býr; vér búumst jafnan vid ad sjá uppskeru þess, er mennirnir hafa sád; komi hún ekki skjótt, búumst vér samt vid henni eptirá; ef vér sjáum hana ekki í lifanda lífi, sáum vér ókominni kynslód í hendur eptirbid vora; komi ekki tími uppskerunnar fyrir hina gódu og fyrir hina vondu á jördunni, snúum vér huga vorum til annars lífs. Um þetta getum vér tekid undir med spámanninum, er hann segir: ef sáttmáli Drottins vid dag og nótt verdur rofinn, svo dagur og nótt koma ekki á tilteknum tíma, eđa leg himins og jardar breitast, þá mun og einnig það logmál breitast, ad Gud vilji endurgjalda sérhverjum eptir verkum hans. Ljós þessa heims slokknar ad lokunum einhvern tíma, og regla sú, er hlutirnir nú hrærast eptir, mun hætta; en þó himin og jörd lídi undir lok, mun samt þetta

lögmál stöðugt standa, að það, sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera.

Þó — svarar hið vantrúaða hjarta mannsins — þó vitnar reynslan í móti þessu. Hversu optlega höfum vér séð, að mönnum var úthlutað allt annað, enn þeir höfðu tilunnið, hversu optlega höfum vér séð gæfu og ógæfu, lof og last, frið og ófrið sendan maklegum og ómaklegum. Hyggið að þessum guðleysingjum! þeir lifa rósömu lífi í heiminum og auka auð sinn, en aðrir, er hreinsað hafa hjörtu sín og þvegið hendur sínar í sakleysi, þjást hvern dag, og hegning þeirra kemur hvern morgun (Sálm. 73, 12 o. u. v.); ekki er öllum goldið eptir verkum þeirra, því réttlátir menn eru til, er líða eptir verkum óguðlegra, og guðleysingjar, er líða eptir verkum réttlátra (Préd. 8, 14). En höfum vér þá í rauninni búizt við þessu og æskt þess, að uppskeran komi tafarlaust á eptir sáningunni? að laun og hegning séu viðstödd hverja athöfn og fljóti beinlínis af henni? O! væri því svo varið, að engill hegningarinnar veifaði þegar leyptranda sverði yfir hinum forboðna ávexti, hver mundi þá vilja snerta hann? Ef ljósið skini þegar niðri í hið dymma bæli lýginnar og svikanna, hver mundi þá vilja ljúga og svíkja? Ef svipunni væri þegar veifað yfir höfði hins lata daglaunamanns, mundi hann þá afrækja vinnu sína? En mundu þá menuirnir verða betri fyrir það? mundi fyrir það bindindi og ráðvendni og góður vilji og ákafi hafa tekið sér bústað í hjörtum þeirra? Og hinsvegar, ef það, sem þú gefur hinum fátæka, gildist þér þegar tífaldt aptur, ef allt, sem lagt er í sölurnar, fengi þegar verðskuldaðan heiður, og sérhver fyrirhöfn fengi þegar endurgjald sitt, þá mundi sérplægni og hégómagirnd setjast í sæti allra dygða. Mótlæti og vanþakklæti eru reynsluskóli allra sannra dygða, og sá einn vill hið góða af alhuga, er vill það einnig þá, er það fær ekkert lof af mönnum, einnig þá, er honum sýnist það sé ólaunað; sá einn forðast hið illa af alhuga, er þorir að forsmá það, jafnvel þótt allt skrant og öll sæla þessa heims sé í fylgd með því.

Þessvegna fylgir uppskeran sáningunni, hverki undireins, né með því móti, sem skammsýn laungun mannanna heimtar það.

En hver hefir lokið augum sínum upp, utan hann sæi, hversu optlega menuirnir uppskáru það er þeir sáðu, sæi, hversu optlega afleiðingarnar á undarlegan hátt urðu gjörðunum samfara, hvert sem þær voru vondar eður góðar. Og hve miklu meira mundum vér sjá, ef vér ekki aðeins gæfum gætur að hinu ytra ástandi. Að vísu heyrum vér optlega um það kvartað, að sá og sá hafi sáð því sæði, er sagt er um, að það beri skaðsaman ávöxt, og hafi samt uppskorið vegsemð og gæfu, en aptur hafi annar stundað allt gott og uppskorið hvorki þakkir né endurgjald. En ef vér athugum það betur, ó! hversu marga sjáum vér þá, sem í allri vegsemð þeirra, er vér svo köllum, uppskáru einmitt það, er þeir sáðu, þarsem þeir hlutu að lifa gleðilausu lífi, með gjörspilltu hjarta af óseðjandi girndum og sívakandi áhyggjum, og sundurslitnu af hatri og öfund og reiði og öllum illum endum, og hversu optlega sjáum vér, að sá, sem þessir menn aumka og fyrirlíta, hinn ydjusami og nægjusami og ráðvandi, uppskér það er hann sáði, er hann lifir ánægðu lífi, styrkur í anda, staðfastur og rósamur. Því margopt eru þjáníngar, þarsem enginn bjóst við neyð, og margopt ótti, þarsem enginn okkær; sá friður er og til, sem heimurinn hvorki veitir né fær í burtu tekið, og trúartraust og von, reist á þeim stólpum, er ekki standa á þessari jörð.

Þessar hinar eðlilegu afleiðingar verkanna, bæði í hinu innra og ytra lífi, votta þegar á nálægum tíma, eður eptir skamma bið, þráfaldlega um guðlegt réttlæti, því réttlát vera Guðs birtist einnig í hinni eðlilegu niðurröðun hlutanna, í afleiðíngum þeim, er samkvæmt helgu lögmáli Guðs eru samfara mannlegum gjörðum. En þóað jafnvel allt endurgjald illra og vondra gjörða vanti í þessu lífi, er réttlæti Guðs samt ekki afmáð, því samvizkan og meðvitundin í brjósti voru um sjálfa oss og um Guð, bendir þá til hins ókomna. Dagur kemur eptir þenna dag! hversu optlega höfum vér sagt þetta, bæði þegar óskamfeilni og drambsemi þrjózkuðust gegn Guði og mönnum, og eins þegar hinn saklausi var rángdæmdur, og máli hins réttláta þókti komið í ónýtt efni; því hver dagur, sem líður, bendir til annars dags, er koma mun. Sá dagur, er bræður Jósephs sáu hræðslu og

og kvída sálar hans, þegar hann bad þá, og þeir vildu ekki heyra bæn hans, hann bendti til þess dags, er þeir áttu ad standa yfirgefnir í ókunnu landi, án allrar bænheyrslu í neyd þeirra (1 Mós. 42, 21); sá dagur, er Davíd ritadi: látid Uría fremstan, þar sem bardaginn er hardastur og yfirgefid hann sídan, svo hann falli þar og látist (2 Sam. 11, 15), bendti til þess dags, er hann átti ad flýa med øllum áhángendum sínum fyrir augliti sonar síns, svo hann særdi þá ekki med hvøssum sverdum (2 Sam. 15, 14). En þannig bendti einnig hver sá dagur, er Jóseph var þræll í húsi lávardar síns, og var trúr og réttlátur, hvilíkt óréttlæti sem hann mátti þola, til þess dags, er Faraó átti ad segja: þegar eg er í hásæti mínu, þá adeins vil eg vera þér meiri (1 Mós. 41, 40); þannig bendti einnig sá dagur, er Jakob í æsku sinni fór einmana og landflótta, med stafinn einan í hendi sér, og sagdi: Jehóva skal vera minn Gud, til þess dags í elli hans, er hann gat med sanni sagt: Drottinn! eg er minni allri miskunsemi og trúfesti þinni, er þú hefir audsýnt þjóni þínum (1 Mos. 33, 10).

Ad vísu vitum vér med sannindum, ad hverki hótanir réttlætisins, né fyrirheit þess, rætast øll edur ad øllu leiti hér á jørdu; en þessi ord: dagur kemur eptir þenna dag, benda einnig lengra fram, benda til þess dags, er kemur á eptir øllum døgum jardarinnar, á eptir øllum fagnadarlátum og øllum gráti undir sólunni, kemur handa þeim, er hafa leitad sér vegsemdar og sóma og ódaudleika, med stødugleik í gódum verkum, og handa þeim, sem þverbrotnir eru og þekkjast ekki sannleikann, heldur hlýdnast óréttlætinu: þad er Guds rettláta dóms opinberunardagur, þá er hann mun gjalda sérhverjum eptir verkum hans (Rómv. 2, 5 o. n. v.). Hvert sinn, er vér sjáum, ad hinn trúlyndi verkamadur fer á mis vid laun sín á jørdunni, hverfur hugur vor í gudrækni til þess dags, er sagt mun verda: vel hefir þú gjørt, þú gódi þjónn! þú varst trúr í litlu, eg mun setja þig yfir mikid, gakk inní føgnud Herra þíns (Math. 25, 21); hvert sinn, er vér sjáum mann, sem í kyrrd og undirgefni tekur kross sinn og fylgir Drottni sínum, hverfur hugur vor til þess dags, þá Drottinn sá, sem hann hefir fylgt, skal til fullnustu efna þetta sitt

fyrirheit: sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun hljóta (Math. 5, 4); hvert sinn, er vér sjáum eitthvert góðverk miskunarinnar, er hún þekkir ekki lof sitt og heimtar ekki umbun sína, minnumst vér þess dags, er Dómarinn mun segja: það sem þér hafið gjört við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þér gjört við mig (Math. 25, 40). En sömuleiðis, hvert sinn er vér sjáum andstyggð óréttvísinnar, og sjáum að henni verður ekki hegnt hér á jörðu, minnumst vér þessara spádómsorða: hinn rángláti haldi áfram að gjöra rángt; en sjá! eg kem skjótt og hefi með mér endurgjaldið handa sérhverjum, eptir því sem verk hans verða (Opinb. 22, 11 og 12); hvert sinn, er vér sjáum þá, er ekki aðeins fremja hið illa, heldur og hafa þóknun á þeim er það gjöra (Róm. 1, 32), er furða sig á og hæðast að þeim, er vilja ekki hlaupa með þeim úti hið sama ósvífnis foræði og sjálfir þeir, þá samsinnir meðvitund hjarta vors af alhuga Guðs orði, er það segir, þeir eiga að gjöra honum reikningskap, sem viðbúinn er að dæma lifendur og dauða (1 Pét. 4, 4 og 5).

Það sem maðurinn sáir, það mun hann og uppskera: hversu vekjandi, hversu viðvarandi talar þessi rödd til hins mikla fjölda mannanna, er þrjózkast og skeitir eingu! Að vísu er ótti ekki hin rétta hvöt til að forðast hið illa, en þó greiðir ótti Drottins veginn fyrir anda kærleikans, og aldrei má sú rödd missa sín á jörðunni, er líka sameinar sig fagnaðarboðskapi Krists; farið ekki villir vega, Guð lætur ekki að sér hæða! Þér börn mannanna! þér njótið frelsis á jörðunni, þér getið fyrirlitið og þrjózkast, verk yðar fara framhjá og þér eruð, ef til vill, búin að gleyma þeim fyrir laungu eður þér gleymið þeim bráðum; verið getur það líti svo út ennþá, sem afleiðingar þeirra séu aðeins hryggilegar öðrum mönnum, en ekki sjálfum yður; girndum yðar hefir verið fullnægt, ef til vill, og dramb yðvart hefir ekki verið lækkað; óréttlæti yðvart hefir, ef til vill, komið öllu því fram, er þér girntust: en villizt ekki, Guð lætur ekki að sér hæða! þótt óréttlæti yðvart hafi þókt vera gleymt og afmáð og hulið, sem það er jörðin hylur, þá hyggið að því, að fræið, sem jörðin skýlir, er einmitt það, sem uppkemur, og það sem maðurinn sáir, það mun hann og upp-

skera. Þetta er atkvæði réttlætisins; samt lætur Gud þad ekki hljóma til ad skelfa mennina, svo þeir örvíngllist, heldur til ad hryggja þá, svo þeir snúi sér; því þad er sameinad hinni blídu rödd náðarinnar og líknseminnar, er talar um hann, sem afmád getur sektina, svo hún verdur med öllu afmád, hann er hinn sjúki getur fundid lækníng hjá, og hinn glatadi fundid frelsi hjá. En einginn hefir til fullnustu skilid ad Gud er líknsamur, utan sá, sem ádur hefir skilid, ad Gud er réttlátur; einginn hefir fundid sætleika þeirra orda, ad Gud hafi fridþægt oss vid sig fyrir Krist, utan sá, sem ádur hefir fundid þúnga þeirra orda, ad Gud láti ekki ad sér hæda.

En samt á fullvissa þess, ad þad sem madurinn sáir, þad skuli hann og uppskera, ekki einúngis ad hóta, til vidvörunar, heldur og ad frida, til upphvörfunar og huggunar. Sá sem vill hid góda og gjörir þad, á einnig ad uppskera á sínum tíma, þad er ad skilja, ef hann gefst ekki upp, því sá sem væntir og hættir idju sinni, hvernig ætti hann ad fá uppskorid? Hirduleysi annara manna, og mótstada þeirra, og illkvitni, og óþakklæti, og hinn mikli máttur tímans, er sýnist ad brjóta þad allt og dreifa því og eyda, er straumur hans snertir vid, allt þetta ætlar optsinnis ad draga úr oss allan hug. Þá sjáum vér ekki nema eina hlid hlutanna og dæmum eptir tilfinníng nálægrar stundar, en gleymum hversu mikid nú er oss búlid, sem á ad birtast á sínum tíma. Á slíkum stundum hugleysisins, rídur oss hálfu meir enn endrarnær á ad heyra gudlegt ávarp, er geti hughreyst og huggad oss, þá þörfnumst vér einmitt þess ávarps, er vér og fáum ad heyra: látum oss ekki þreytast ad gjöra hid góda, því á sínum tíma munum vér uppskera, ef vér letjumst ekki (Gal. 6, 9). Þad er krafan, ad vér skulum gjöra hid góda, ekki adeins endur og sinnum, heldur med stadföstum vilja, ad vér skulum ekki þreytast, þótt oss veiti örduga, og gefast ekki upp, þótt uppskerunnar sé lángt ad bída. En þad er fyrirheitid, ad þá skulum vér uppskera á sínum tíma, á þeim tíma, er speki Guds og miskunsemi ákvedur, en ekki vort hid skammsýna vit. Og þetta fyrirheit mun rætast, svo sannlega, sem samvizkan er ekki eintóm hégómleg rödd, svo sannlega, sem himin og jörd eru samtengd

með andlegum lögum, en ekki líkamlegum, svo sannlega, sem Guðs orð er já og amen. Sjá, bóndinn væntir jarðarinnar dýrmæta ávaxtar, en þreyir þó, þartil hann fær morgun — og kvöld — döggina. Þreyið og þér og styrkið hjörtu yðar (Jak. 5, 7)!

---

## 11.

## Guð er trúr.

Einn víðfrægur heimsspekingur hefir sagt, að upphaf allrar vizku sé, að efa allt. Eg veit ekki, hvert það er svo nauðsynlegt, að rífa niður fyrrenn byggt er, eða hvert einginn getur haft unaðsemd af hinni lifandi uppsprettu, án þess að leita fyrst á brennheita eyðimörku til að pínast af þorsta. En þó vér heiðum áſett oss að efa allt, þá er þó allt að einu sum sannfæring þess eðlis, að vér getum aldrei afneitað henni, því vér gætum ekki ímyndað oss það, sem henni er gagnstætt. Svo er og þeirri grein varið, að Guð sé trúr; seinna orðið er svo nákvæmlega sameinað hinu fyrra, að vér getum ekki skilið þau að: Guð er trúr eins sannarlega og hann er til. Vér finnum, að Guð er hinn fasti grundvöllur alls sem til er, og að sálin, mædd af svo mörgum stormi, getur hvergi fundið sér staðfestu og hvíld, nema í honum einum; vér finnum, að það er óyggjanlegt, sem postulinn segir: þó vér séum ótrúir, þá er hann trúr, hann getur ekki afneitað sjálfum sér! (2 Tim. 2, 13). Þegar eg því segi, að eg trúi á Guð, þá segi eg um leið, að eg þekki þann, sem að sé trúr í æðstum skilníngi. Eður gæti mér komið til hugar, að Guð sé breitanlegur og ótrúr? Sá einn er trúr, sem er sannorður; þarímót er sá falskur og ótrúr, sem villir á missýníngum, og tælir á ósönnum hugmyndum, og segir annað enn hann hugsar. Hið illa er svikſamlegt og óstöðugt, í eðli þess er æ lýgi; hið góða er ekki síður hreint, enn stöðugt.

Fyrir því sjáum vér, að í heilagri ritníngu er hugmyndin um sannsegli og trúfesti ætíð samfara hugmyndinni um guðlega

veru. Vit fyrir víst — segir Móses — að Drottinn Guð þinn er trúfastur Guð, og heldur sáttmála sinn og miskunsemi við þá, sem elska hann og geyma boðorð hans, og endurgeldur berlega hverjum, er hatar hann (5 Mós. 7, 9. 10). Orð Drottins eru sönn — segir Davíð — og hverju sem hann lofar, það efnir hann sannarlega (Sálm. 33, 4). Þegar hinir helgu menn sáu himnana upp ljúkast, heyrðu þeir ætíð þann, sem þar lifir og ríkir, vera kallaðan sannorðan og trúan (Opinb. 19, 11); og þessi orð, er hljóma um himnana, geymdu þeir jafnan í jarðneskri baráttu sinni. Þegar Páll postuli hugsar um það, sem honum var hið sárasta hryggðarefni — þegar hann hafði tilefni til að óttast, að erfiði hans mundi verða árángurslaust, og illgresið mundi spretta uppyfir hveitið, og spillingin komast inní söfnuðina, afbaka sannindi trúarinnar og ónýta ávexti hennar: hversu optlega kemst hann þá svo að orði: Guð er trúr, sá er yður hefir kallað til samfélags við Son sinn, Drottinn vorn Jesúm Krist (1 Kor. 1, 9); Guð er trúr, hann mun ekki láta yður rata í meiri freistni, enn þér fáið staðizt (1 Kor. 10, 13); Drottinn er trúr, hann mun styrkja yður og vernda við illu (2 Thess. 3, 3). Og þegar hann vill styrkja það traust í sjálfum sér og öðrum, að hann sé ekki á tálar dreginn með sannfæringu sinni, og að hann dragi ekki aðra á tálar með kenningu sinni, þá segir hann: eins sannarlega og Guð er trúr, hefir ræða vor til yðar ekki verið já og nei (2 Kor. 1, 18), það er: efablandin og hvikul, eður slík, að hún verði ónýtt eða henni verði breitt. Slíkar hugsanir eru einsog fornvinir postulans: þær vitja hans, þegar hann er í þúngu skapi, og hugga og lífga sál hans, þegar honum liggur við að láta hugfallast.

En eigum vér ekki einnig að reyna að verða svo innlífaðir þessum háleitu og huggunarfullu hugleiðingum, að þær renni upp í sálu vorri þegar vér þurfum á þeim að halda? Meðþví Guðs heilagt nafn felur í sér allan fullkomleika, svo það er einsog oss verði ofbjart fyrir augum, þegar vér ætlum að ímynda oss í einu lagi allasaman þýðingu þess: þá nefnum vér hann ýmsum nöfnum, og hvert þeirra kveykir í oss eina hugmynd um eðli Guðs. Guð er einn, en fullkomleiki hans er margfaldur

einsog geisli sólarinnar. Einsog eg því optlega kalla Guð almáttkan, og optlega réttlátan, og optlega líknsaman, eins skal eg optlega segja við sjálfan mig: **Guð er sannorður og trúr**; eg skal tala við hjarta mitt um það, ekki til að safna mér ástæðum fyrir því — því það **hlýtur** að vera eptir eðli Guðs — heldur til að minna mig á, hvað af því leiðir, mér til huggunar í efasemdum og kvíða.

Af mótlæti því, sem maðurinn verður að þola hér í heimi, eru hinar sárbeittu efasemdir, sem pína sálina, ekki hvað léttbærastar, og vitja einkum þeirra, sem ráðvandir eru, og leiða þá ekki aðeins í efa um einstöku hluti, heldur ætla opt að hagga öllum grundvelli þeim, sem traust þeirra er á byggt, og von þeirra og vidleitni er af sprottin — og ætla með því að láta þá hafna öllum sannleika. Hversu eymdarfullt er ástand vort, þegar augu vor myrkvast, og himin og jörð hjúpa sig þoku, og maðurinn tekur að efast um, hvert hann sé ekki á tálar dreginn af þeirri þekkingu, sem hann var áður algjörlega sannfærður um, og veitt hafði sálunni hvíld og ró! Að sönnu eigum vér ekki að láta undan þvílíkum efasemdum, heldur eigum vér að hertigjast öllum styrkleika sálarinnar til að vísa þeim burt, þegar þær ætla að brjótast inná oss og tálma viðleitni vorri og mæða oss í baráttunni; en ráðvandur maður þorir samt ekki að vísa þeim burt, nema hann sé áður orðinn sannfærður um, að þær hafi ekkert við að styðjast. Leyfum því, að efasemdirnar séu berorðar á stundum; því ef vér þöggum þær niður, þá er hætt við það liti svo út, sem lángtum meira mundi reynast í þær varið, ef vér vildum taka vel eptir ræðu þeirra; vér hefðum þá aðeins flúið þær, þá væri einsog vér þyrðum ekki að gánga fram úr fylkíngunni, er vér hefðum hopað inní fyrir áhlaupi þeirra, og þá segir vantrúin í hjarta voru, að efasemdirnar mundu sigrast á oss, ef vér dirfðumst að gánga í berhögg við þær. En þær eru ekki svo óttalegar, ef vér höfum þor til að virða þær fyrir oss; þeim er eins varið og líkneskinu forðum, sem konúngurinn sá í undarlegum draumi: það var skrautlegt og ljómanda, það var ógurlegt álits, það glóði við gull og silfur, það leit svo út, sem það væri stöðugt á járnfótunum, en fæturnir, sem öll sú

hún vodaleg mynd stód á, voru þó sumpart úr leiri, þessvegna gat hún ekki stadizt eitt hegg, svoad hún fell þegar mikid fall og kraptur hennar lamadist allur (Dan. 2,31 o.nn.vv.). Pad er ad skilja: allar efasemdir þær, er oss virdast svo hrædilegar og illar vidureignar, eydast og verda ad heimsku og hégóma, ef menn hafa stilling og stödugleik til þess ad íhuga þær.

Eg segi ekki, ad öllum efasemdum eigi þannig ad eyda; þad eru til efasemdir, sem koma frá sannleikanum sjálfum, og eru ætladar til ad vekja oss af svefni vorum, og eyda hleypidómunum, og sýna oss, í hverju oss hafi yfirsézt, og leida oss þannig áfram í þekkingu; í slíkum efasemdum liggur frækorn sannleika þess, er sídar á ad verda oss kunnur; opt pína þær sálina lengi, en veita henni sídan því meiri sælu nýrrar og efalausrar þekkingar. Enda eru og til adrar efasemdir, þær er koma frá anda lýginnar og spillingarinnar, og ætla ad leida mennina burt frá fyllingu þekkingarinnar á þurrar og veglausar eydimerkur; slíkum efasemdum verdur ad vera menn geti eydt, nema svo sé, ad myrkrinu sé ætlad ad sigrast á ljósinu; og ef slíkar efasemdir hefdu nokkud vid ad stydjast, þá hefdi ekki madurinn dregid sjálfan sig á tálar, heldur segjum þad berlega — svoad vér skiljum því betur, hversu fávíslegar og syndsamlegar slíkar efasemdir eru — ad þá hefdi Gud dregid oss á tálar, og birt oss slíka þekkingu, sem vér gætum ekki annad, enn álitid sanna í huga vorum, og þó drægi oss á tálar; og þá væri þad ordid, sem ekki getur verid: þá hefdi Gud afneitad sjálfum sér — þá væri Gud ekki sannordur og trúr.

Madurinn getur ekki lifad án sannleika. Því hann hefir ekki adeins eina sýsu, þá er hvetur hann til ad leita sannleikans fyrir sakir hans sjálfs, heldur þarf hann ávallt, í hverju spori sem hann gengur og hverri athöfn sem hann áformar, ad halda á einhverju, sem víst er og áreidanlegt, til ad geta fylgt því, og vitad, hvad hann á af ad ráda. Nú eru ad sönnu skilningarvitin honum til leidbeiningar, og í sumu er honum óhætt ad fara eptir því, sem þau segja fyrir; því í þeim efnum, sem koma til skilningarvitanna, þá er bædi, ad misýningarnar eru ekki miklar, enda er þar hægt vid þeim ad gjöra. En þarimót

mundu skilníngarvitin draga hann á tálar, eða réttara að segja: hann drægi sig sjálfur á tálar, ef hann héldi, að þau gætu birt honum allan sannleika; því bæði skilníngarvitin séu aldrei svo næm og hvöss, þá sýna þau oss ekki annað enn yfirborð hlutanna, og kenna oss aldrei annað enn hvernig þeir komi fyrir á líkamlegan hátt, en ekki, hvert að sé eðli þeirra; og það er harla margt, sem oss ríður á að vita, og skilníngarvitin geta ekki frætt oss hót um. Fyrir því segir og hver maður, að það séu ekki skilníngarvitin, heldur skynsemin, sem grípi sannleikann, og að það sé hún — sú er og veitir manninum yfirburði yfir dýrin — er aðgreini það sem rétt er og víst frá því, sem blekkir og tælir. Þó menn aldrei nema gjöri lítið úr hinni spilltu skynsemi — þó það sé aldrei nema víst, að hún villist þráfaldlega, ef hún er tilsagnarlaus: þá er hitt jafnvíst, að sumt skilur hún svo, að hún getur ekki efazt um það né borið á móti því. En ef einhver þorir ekki að reiða sig á skynsemina, vegna þess menn hafa svo margt fávíslegt um hana talað, þá höfum vér þó allir samvizku, og hennar samþykki er hið nákvæmasta og innilegasta; vér getum ekki borið á móti því, sem vér vitum fyrir samvizku vorri. Eg finn ritað í hugskoti mínu lögmál, sem ekki er til búið af sjálfum mér, og ýmist hvetur mig til að gjöra eitthvað, sem mér er óljúft, eða aptrar mér frá því, sem mér er ljúfast. Þetta lögmál býður öldúngis fortakslaust það sem það býður; það getur verið, eg efist um, hvað rétt sé í einhverju vafasömu málefni, en eg efast ekki um, að eg á aldrei að vinna rángan eið né bera falsvitni — að eg á aldrei að halda því fé, sem mér er fyrir trúað — að eg á ekki að svíkja vin minn. Ef eg gjöri það sem rángt er, ásellir samvizkan mig og ógnar mér; en ef eg gjöri það sem rétt er og gott, þá hefi eg djörfúng, og sé eg ásælldur og lastaður að orsakalausu, þá er meðvitund mín örugg og frjáls og skýtur máli sínu undir hinn æðsta dóm. Þegar þessi meðvitund þróast í mér, sprettur af henni öll hin æðsta og ágætasta þekking, með því sannfæríngin um Guð og um samband vort við hann er sannlega í henni fólgin; en nú hugsa eg einúngis um, með hvað mikilli vissu eg viti það er samvizkan segir mér. Og eg verð við að kannast, að eg veit það með

heilagri vísðu, og veit það eins fyllilega og eg veit til sjálfs mín; edli sálar minnar yrdi ad umbreitast, og eg yrdi ad verda ad annari veru enn eg er, ef eg ætti ad hafna þeirri þekkíngu. Þóad nú efasemdin gjørdi sig eigi ad sídur svo djarfa, ad rengja einnig þessa vissu, og hún spyrdi mig, á hverju eg viti alltsaman þetta svo fullkomlega, og hvert eg kunni ekki ad vera á tálar dreginn, þarsem eg segi, það sé óbreitanlegur mismunur á réttu og raungu, eda þegar eg segi um eitthvad, ad það sé rétt: þá liggur í augum uppi, ad eg hefi ekki sjálfur dregid mig á tálar í þessu efni — því ekki er sem eg hafi innrætt sálu minni þessa høfud-tilfinníngu; eg hlyti því ad vera dreginn á tálar af þeim, er skapadi mig, og gaf mér ekki adeins augu og eyru til ad sjá og heyra líkamlega hluti, heldur og samvizku til ad heyra hina andlegu rødd, er hann talar til mín med. Og væri eg þannig á tálar dreginn, þá hefdi Gud afneitad sjálfum sér, medþví hann hefdi þá gjørt mig svo, ad eg yrdi ad álíta það rétt, sem rángt er; hann væri þá ekki sannordur og trúr.

Þegar eg leita ad sannleikanum — þegar eg reyni ad komast í skilníng um edli Guds og samband mitt vid hann, þá finn eg mér vera þørf á himneskri leidsøgn; þegar eg leita ad nálægjast Gud, og finn til adskilnadar þess, er fyrirmunar syndaranum samfélag vid þann, sem eyliflega er réttlátur — þegar eg finn til hapta þeirra allra, sem aptra mér frá ad komast ad því ljósi, sem Gud býr í: þá finn eg mér þørf á frekari opinberun gudlegrar veru til fridþægíngar. Þessi þørf leidir manninn til trúar þeirrar, sem bodar, ad Gud hafi sætt heiminn vid sig fyrir Krist (2 Kor. 5, 18). Ef nokkur er kominn svo lángt, ad hann kalli sig kristinn af sannfæríngu, þá hefir hann fundid einkum og umfram allt, ad Drottinn hans hefir ord hins eylífa lífs ad Drottinn leidir hann ad þeim lindum, er upp spretta til eylífs lífs — og ad vér høfum fyrir Krist djerfúng og leyfi til ad nálægjast Gud; hann hefir ødlazt þekkíngu um elsku Krists, sem ædri er øllum skilníngi (Eph. 3, 19), og hefir greinilega sett sér fyrir sjónir, ad hann þekki eingan annan, er han gæti farid til; hann hefir þaráofan íhugad tákn þau, er Gud hefir gjørt

Krist dýrðlegan með fyrir heiminum, hann er orðinn sannfærður um, að einginn geti gjört þau verk, sem Kristur gjörði, nema Guð sé með honum (Jóh. 3, 2); hann er kominn í skilníng um, að Guð hefir borið honum vitni fyrir öllum, meðþví að reisa hann frá dauðum (Post. 17, 31); hann hefir hlýdt til hinna spámannlegu radda, sem allt í frá fyrstu öldum vísuðu æ skilmerkilegar til þess, er koma átti, og gefið gaum að táknum þeim, er um allar hinar seinni aldir hafa viðhaldizt, og Guð sýnir með, að sá sé kominn í veröldina, sem allar kynkvíslir eigi að hljóta blessun af: ef nokkur — sagða eg — hefir öðlazt sannfæríngu þessa, á hann þá aptur að fara að efast um, hvert það kunni ekki að vera, hann sé á tálar dreginn í þessu öllu? Já, að vísu! sé á talar dreginn; því hann hefði ekki sjálfur dregið sig á tálar, hann hefði trúað þeim táknum, sem hann getur ekki í móti mælt, hann hefði trúað hinni innstu og bezta tilfinníngu hjarta síns, er hann hefði viðurkennt, að þessi kenníng væri ekki frá mönnum, heldur frá Guði. En af hverjum væri hann þá dreginn á tálar? Af þeim, sem maðurinn fær ekki í móti staðið, og maðurinn á að þegja fyrir — af þeim, sem bæði hefir lagt hina djúpu þörf í hjörtu vor, og fullnægju þarfarinnar í Krists fagnaðarboðskap — það er: hinum sannorða og trúa Guði! — O! hversu nauðsynlegt er — einsog eg áður sagða — að láta efasemdirnar tala berlega, því, ef þær eru sannleikans áminníngar, að vér höfum enn ekki fundið það sem rétt sé, og veiti sálunni hvíld, þá hvetja þær oss til að halda áfram leitinni, og sá finnur, sem leitar (Matth. 7, 8); en séu þær sendar af lýginni, til þess að útrýma sannleika, krapti og von úr sálum vorum, þá munu þær bráðum verða tvísaga, og þá mun koma í ljós, af hverjum anda þær eru sendar, og brodduriun hverfa, sá er þær ætluðu að pína hugann með.

Guð er trúr! hvaða traust höfum vér annað í mót hinum margvíslegu og stopulu æfikjörum? hvað höfum vér annað til að friða með kvíða vorn? Mér er alls ókunnugt, hvað veröldin muni gefa mér; og þó hún jafnvel gæfi mér þær gjafir, sem mér virðist góðar í bráð, en eg tæki við þeim einsog eg þiggi þær af veröldinni einnisaman, þá er óvíst, hvert þær muni verða

mér til blessunar; og taki hún aptur þad sem hún gaf, þá get eg ekki haft neitt traust á, ad hún gefi mér annad í stadinn, sem betra sé. Þad er edli veraldarinnar ad vera táldræg: henni er tamt ad kveykja fyrst von, og bregdast sídan, hún réttir oss ávexti, sem eru fýsilegir á ad sjá og sýnast lostætir, en innan eru þeir holir og tómir, eda ormur leynist í kjarnanum; hún vísar manninum þann veg, er honum sýnist réttur ad vera, en sá vegur leidir ad sídustu í daudann, og hryggd kemur eptir hlátur og harmur kemur eptir fögnud (Ordskv. 14, 12. 13). Þad getur ekki hjá því farid, ad sá, sem ætlar ad halda sér vid heiminn, verdi á tálar dreginn, því heimurinn steypist og fýsn hans (1 Jóh. 2, 17). En hvernig gæti sá ordid á tálar dreginn, er heldur sér vid Gud? því Gud er trúr. Ef vér bidjum Gud gódra gjafa réttilega og rádvandlega og án þess ad letjast, og köllum ekki gott þad sem veröldin kallar gott, sem er sadning hégómlegrar langanar, heldur þad sem gott er í raun og veru — frækorn hins rétta og eylífa lífs: mundi þá Gud gefa oss kaldan stein eda eitradan orm í stad réttrar, hollrar og endurnærandi fædu? (Matth. 7, 9 o. un. v.). O nei! allt gott, sem þú þiggur med audmjúku hjarta af hendi hins trúa Guds, og nýtur í sakleysi og med þakklæti, þad er allt sannarlega gott; í Guds paradís leynist einginn höggormur undir rósunum. Þó ad Gud leidi þig aptur útúr paradís þinni hér á jördu, svo þú verdir ad ráfa um eydimerkur, þá mun Gud heyra rödd þína, medþví hann er trúr, og engill hans mun leida þig til einhverra uppsprettulinda, svo þú örmagnist ekki; og þó þú verdir einnig ad reyna freistíngar, þá er Gud trúr, og mun ekki láta þig rata í freistni yfir megn fram, heldur láta þau endalok á henni verda, ad þú getir stadizt hana (1 Kor. 10, 13). Því sé Gud trúr, þá getur ekki verid, hann slái hendinni af þeim, er reida sig á hann af öllu hjarta sínu; því þad hlýtur ad vera, ad allir hlutir snúist þeim til góds, er elska hann (Rómv. 8, 28).

O! hversu mjög fær þad á hjörtu vor, sem postulinn segir: fyrir því skulu og þeir, sem þola hart eptir Guds vilja, fela honum, svosem trúfestum Skapara, sálir sínar á hendur, med gódum verkum (1 Pét. 4, 19). Menn geta þolad hart ad

vilja sjálfra sín, afþví menn hirði ekki um að eiga betra; menn geta og þolað hart að Guðs vilja, afþví hann vilji eða leyfi, að það komi yfir oss, þóað vér tölum satt og breytum rétt. En ef oss fýsir að eiga hæli hjá Guði í mótlæti lífsins, þá er ekki nóg, að hafa ekki syndgað á undan, heldur verðum vér að halda áfram í því að breyta vel, þó vér þolum illt; en ef vér breytum vel, þá megum og eigum vér að fela Guði sálir vorar með fullu og óbifanlegu trúartrausti. Han er Skapari vor, af honum þiggjum vér líf og anda og alla hluti, og þegar hann gaf oss lífið, ætlaði hann oss ekki til hegningar, heldur til að eðlast sáluhjálp fyrir Drottinn vorn Jesum Krist (1 Thess. 5, 9). Og hann er trúr, öll fyrirheit hans eru já og amen, hann getur ekki afneitað sjálfum sér Allt stundlegt getur brugðizt, ekki að eins heimurinn, heldur og augu sjálfs mín, hyggjuvit mitt, líkleg ágizkan mín um ókominn tíma, von mín og kvíði minn; en Guð er sannorður og trúr.

---

## 12.

## Guðlegir hlutir eru óskiljanlegir.

Fagnaðarboðskapur Krists boðar sig ætíð, svosem opinberaðan leyndardóm. Innták hans, eða það, sem hann boðar, var frá eylífð hulið í ráðsályktunum Guðs, en kom smátt og smátt í ljós, einsog þegar morgunroðinn er að smá-aukast, þángaðtil umsíðir að sólin kemur uppyfir sjóndeildarhringinn; hann var fólginn í helgum bókum, sem eru kallaðar spádómsbækur, vegna þess, þær benda til ókominna tíma og ókominna atburða; en þegar þeir komu í ljós, lagði birtuna af þeim yfir hina undanförnu tímana, svo bert varð, hvað undirbúið var. Þannig lýsir nýgræðíngurinn því undireins, að þar á að verða jurt, en það sést fyrst berlega, þegar jurtin er fullskrýdd prýði sinni, hvað dulizt hefir í hinu leyndardómsfulla frækorni. Vér getum og sagt, að innták kristilegrar trúar sé falið í hjarta mannsins, ekki að sönnu einsog þekking, heldur einsog grunur eða laungun,

því serhver söknudur innibindur í sér það er meìn sakna, og sérhver laungun það er menn lángar til; söknudur og sorg hins einmana hjarta innibindur þegar í sér vonina um trúan vin, sem loksins muni koma og hugga hinn þreyanda; og brennandi laungun hverrar skapadrar skepnu, og andvörpin, sem hvert armædt brjóst sendir upp eptir lausn, sýna þegar, ad lausn hljóti ad vera til. Það er til leynilegt samband milli allra hluta, sem til eru, svoad hver þeirra vísar til annars, neyd hins húngrada vísar til kornsins, sem vex upp af jördunni, og þorstinn vísar til linda þeirra, er sjálfur hann hefir ekki til búid, en þó eru ætladar honum til svölunar; þannig vísar og neyd sálarinnar hjarta mínu, sem þyrstir af elsku, upp til þín, Lausnari mannanna!

Það sem hulid var í Gudi, það sem í hjarta mannsins var ekki annad enn grunur, sem hann varla vissi af, það sem í spádómsbókunum var harla óljós bending, það er opinberad í fagnadarbodskapnum. Er opinberad — það er: er ordid ljóst og skiljanlegt; því fagnadarbodskapur Krists er ekki hulinn, og sjelst ekki í óljósum tilfinníngum, þarsem ljós skilningsins þorir ekki ad koma, heldur mælir hann fram med sjálfum sér vid samvizku mannsins med opinberan sannleikans (2 Kor. 4, 4), og þannig er Guds sáluhjálpleg nád kunn ordin öllum mönnum (Tit. 2, 11). Opinberanin er ætlud öllum þjódum á öllum tímum, því svo er til ætlad, ad hún skíni jafnt inní hreysi sem hallir, og ad jafnvel smælíngjarnir hafi hennar not.

En þóad inntak kristilegrar trúar sé þannig opinbert ordid, þá er það samt enn leyndardómur, ekki adeins hinum fáfródu, heldur og hinum vitru og spekíngunum; það er eitthvad hulid í henni, sem vitid getur ekki skilid; og vér sjáum, ad mennirnir bera annadhvert lotníngu fyrir þessu hinu óskiljanlega, eda þeir hneixlast á því, og hædast ad því. Hvert er nú réttara? Er það tilhlýdilegt, er það skynsamlegt, ad neita hinu óskiljanlega, einúngis vegna þess, ad skilníngarvit vor geta ekki skynjad það, og hugur vor getur ekki gripid það? Það er þó öldúngis audsært, ad hid himneska, hid gudlega, verdur ad vera ædra enn vér, en vér ekki ædri enn það, og vér getum því ekki skilid það á þann hátt, er vér skiljum veniulega hluti; það er öldúngis audsært,

að Drottinn himins og jarðar, sem er Faðir andanna, og allir munnar kalla hinn óendanlega, hann verður einnig að vera oss í mørgum greinum óskiljanlegur — bæði óskiljanlegur í veru sinni, og óskiljanlegur í ráðsályktunum sínum og verkum. En afþví það er einsog mannlegu viti sé gjarnt, að þykkjast leyndardómum þessum, sem það fær ekki skilið, þá eigum vér að venja hið drambsama vit á, að kannast við takmørk sín, og synja því þó ekki neins af réttindum sínum, vér eigum — ef eg má svo að orði komast — að reyna til að gera oss það skiljanlegt, að hið guðlega hljóti að vera oss óskiljanlegt, og á hvern hátt það hljóti að vera það.

Af hverjum getum vér lært betur í þessu efni, enn af honum sjálfum, er kom í heiminn, til að opinbera oss leyndardóma Guðs. Það er einnig í því tilliti, að svo mikið má læra af tali Jesú við Gyðingahøfðingjann, er kom til hans á næturþeli (Jóh. 3). Eptirþví er vér vitum, var það hinn fyrsti af høfðingjum jarðarinnar, er gekk á hønd honum, er svo margir, háir og lágir, síðan hafa gengið til handa. Vér vitum og viðurkennum, hvað lastvert var í aðferð þessa manns; hann kom á laun til Jesú, og þorði ekki að kannast við hann opinberlega; þó var óumræðilega miklum mun meira varið í handgaungu hans, enn í handgaungu margra høfðingja, er síðan hafa lifað. Það hefir ekki vantað á, þeir hafi aðhyllzt Jesúm opinberlega, og kannazt við hann fyrir allri alþýðu; en þá var ødruvísi orðið ástatt á jørðunni, sumir þorðu ekki annað vegna alþýðunnar, sem aðhylltist hann, sumum var líka alvara að stuðla til þess með áliti sínu, að kristin trú fengi vald yfir almúganum, en þó ekki vegna annars, enn að þeir vildu nota hana, til að koma fram áformum sínum, og að þeir álitu hana hentuga til að hafa tauma og bønd á alþýðunni, til að beygja hana undir það ok, er þeir sjálfir opt og tíðum vildu ekki snerta með einum fingri; en í leyni, þarsem þeir tálmunarlaust gátu verið einsog þeir vildu, þar løgðu þeir af sér alla lotnínguna, ásamt hátíðaklæðunum, er þeir høfðu borið á samkomunum. Allt ødruvísi var Gyðingahøfðingjanum varið; hann þorði ekki að gjøra játníngu sína alþýðu kunna, en í-leyni, í þøgn næturinnar, þegar hann

þordi ad vera þad, sem hann var í raun réttri, þá leiddi hjartad hann til Drottins. Hvad seinna meir vard úr manni þessum, og hvernig hann sídar tók ad sér hinn offókta og hinn krossfesta, á sér ekki stad í þessari hugleidingu; var ekki trúin ordin enn stadfest í hjarta hans, og spyrjum vér ad ástædum fyrir efasemdum hans, eru líkur til, ad fagnadarbodskapurinn um Krist hafi reyndar fundizt honum háleitari, leyndardómsfyllri og óskiljanlegri enn svo, ad hann hafi fullkomlega þorad ad þýdast hann.

Til þess ad leidbeina huga hans, bendir Drottinn honum fyrst til hins sýnilega, og spyr hann, hvert vér neitum hinu verulega í náttúrunni, þótt vér getum ekki skilid þad. "Vindurinn blæs, hvar sem hann vill, og þú heyrir þyt hans, en þú veizt ekki, hvadan hann kemur, né hvert hann fer". En þótt þú þekkir ekki, hvernig stormunum er sleppt, eda hvernig þeir verda bundnir aptur í fángelsum sínum, heyrirdu samt þyt þeirra, og neitar ekki tilveru þeirra og afli. Hve fagurt kvedur hið ágæta fornskáld um þetta, er hann lætur hina eylífu vizku ávíta þann, er dró myrkva á ráð Guds med heimskulegum rædum! "Hvar varst þú, þá er eg grundvalladi jørdina? hver hefir takmarkad hana? á hverju eru stólpar hennar skordadir? hver setti hurdir fyrir hafid, þegar þad braust fram? hver hefir girdt um þad? hver hefir sagt: hingad skaltu komast, en ekki lengra, hér skulu hásldur þínar brotna? Hefir þú farid nidur á hafsbotninn? hefir þú ferdast innanum undirdjúpin? Hvar er vegurinn til híbýla ljóssins? og hvar eru heimkynni myrkursins? Hefirdu komid í nægtabúr snjóarins? og hefirdu séd geymslustadi haglsins? Hefir þú tengt sjøstjørnurnar saman? eda geturdu sprett belti Orions? Lætur þú stjørnurnar koma í ljós á réttum tíma? eda leidir þú bjørninn á himnum uppi med húnum sínum? (Jób. 38,2 o.nn.vv.). Ad sønnu er margt uppgøtvad og fundid vid rannsókn, sídan þetta fornskáld var uppi, því mannleg skynsemi brýzt æ lengra og lengra áfram; lyptu þér í hædirnar, ágæti hugur mannsins! og fordastu hvorki birtu himinsins né myrkur undirdjúpanna! En hvad lángt sem þú færir út merki þín, þá er samt yfir þér og undir þér og umhverfis þig óransakanlegt djúp, og hver ný eign, er þú nemur, lætur þig sjá takmarkalaust land,

sem þú ert ekki búinn að eignast. Enn eru einsog áður margir leyndardómar náttúrunnar huldir mannlegu viti, enn má einsog áður með sanni segja: vindurinn blæs og þú heyrir þýt hans, en þú veizt ekki, hvaðann hann kemur, né hvert hann fer.

"Eins er því varið með hvern, sem af andanum er fædd-ur", segir Drottinn, og minnir þar á aðra leyndardóma; því veröld sú, er Guð skóp í hjarta mannanna, er eingu síður leynd-ardómsfull og óskiljanleg, enn sú, er hann breiddi sundur fyrir augum þeirra. Þú ert ekki búinn að komast fyrir uppsprettur ljóss þess, er ljómar yfir jarðneskum hlutum, og skilur ekki á hvern hátt blis himnanna voru tendruð í öndverðu; en ertu þá búinn að komast að uppruna hugrenninganna? veiztu hvernig þær vöknuðu í sálu þinni? Þú finnur, að tilfinningarnar streyma í gegnum þig; en hvar er hin djúpa uppspretta þeirra? Sam-vizkan talar í brjósti þínu, hún kennir þér, hvað rétt sé eða rángt, hún dæmir um gjörðir þínar, hugsanir og áform; þú heyrir glöggt raust hennar, en hvaðan kemur sú raust? Þú hefir ekki gefið himninum lög hans, og missirunum röð þeirra, og ekki fremur samvizkunni lög-mál það, er hún dæmir eptir; það er byggt á hinu eylífa réttlætinu, en hvernig er það orðið þér kunnugt innst í hugskoti þínu? "Eingin getur séð Guðs ríki, nema hann endurfæðist að nýu". Það eru und-arleg orð! enda skildi Gyðíngahöfðinginn þau ekki, þótt hann væri kennifaðir. En einginn, sem hefir reynt í hjarta sínu, það sem fólgið er í þessum orðum, getur rædt um það á annan hátt. Hafirðu nokkurntíma, eptir margar baráttur og mikil pínandi sárindi, slitið þig frá þrælkun veraldarinnar, og gengið á vald Guði, með fullkominni hlýðni og ótakmarkaðri undirgefni undir vilja hans: var þá ekki umbreitíng sú, er á þér varð, friðurinn, sem spratt upp í hjarta þínu, hinir nýu kraptar, sem tóku að þróast í sálu þinni, var ekki allt það endurfæðing? byrjaði ekki nýtt líf í brjósti þér? En einsog þú getur ekki látið skipanir þínar ná skýunum, svoað mergð vatnsins hylji þig; einsog þú get-ur ekki hleypt á stað eldíngunum, svo þær komi og segi við þig: hér erum vér (Jób. 38, 34. 35): eins getur þú ekki skipað áminníngunum af hæðum ofan að leyptra í brjósti þér, eins

getur þú ekki látið fridinn úr hinum sælla heimi gagntaka þig allan.

"Ef þér trúið mér ekki, þegar eg segi ydur jardneska hluti, hvernig megið þér þá trúa mér, ef eg segdi ydur himneska hluti?" Það sem hértil hafði verið um rædt kallar Drottinn jardneska hluti, í þeirri þýðing, að þeir verða á jörðunni, að þeir koma manninum mest við, og að sérhver getur haft raunina fyrir sér um þá. En sé því svo varið, að mannlegt vit geti ekki gripið jafnvel þessa hluti, finnist mörgir, sem jafnvel sýnist þessi orð heimska: hvernig eiga þeir þá að geta skilið himneska hluti og gudlega? Hvað stoðar, að tala við þá um gudlega hluti, sem ekki álíta neitt satt, nema það, sem þeir geta þreifað á, meta hvern hlut einúngis eptir verði hans manna á milli, og telja ekki það, sem andanum birtist, með því sem til er í raun og veru. En sá, sem hefir litið inní sálu sína, og fundið veru sína svo leyndardómsfulla og óskiljanlega sjálfum sér, hvernig á hann að halda hann geti skilið hinn óendanlega, og kannað djúp gudlegrar veru?

Veru Guðs getur einginn grandskodað nema sjálfur hann, dauðlegir menn geta ekki skilið dýrð hans, því þeir eru bundnir við líkama sinn, og við hugmyndirnar um stað og tíma, sem eiga við jardneska hluti en ekki við himneska hluti og eylífa; og þessvegna getur sú fræði um gudlega veru verið rétt, sem endanlegur skilníngur verður að segja um, eg skil hana ekki. Og jafn-óskiljanlegur hlýtur Guð að vera oss í athöfnum sínum, ráðsályktunum og gjörðum, og öllu sambandi við heiminn. Heimur þessi er til, og er orðinn til af almætti Guðs; en hvaða skarpleiki hefir haft því að hrósa, að hann hafi fundið leyndardóm sköpunarinnar, að hann hafi skilið, hvernig sýnilegir hlutir eru ordnir til af hinum ósýnilegu? Heimurinn stendur, afþví máttur Guðs viðheldur honum; en hver hefir þókzt geta skilið, hvernig eylífur Guð aðhefst í hinu tímanlega? Fyrstað eg skil ekki, hvernig sála mín aðhefst í þessum líkama mínum, og hvernig breitíngar líkamans aptur vekja hugmyndir í sálunni: hvernin á mér þá að detta í hug, eg geti skilið samband það, er veröldin er í við Guð, og svo er náið, að Guð fyllir allt, að vér lifum, hrærumst og

erum í honum, og Gud er þó ekki sama og veröldin? því veröldin er sköpud, og breitist einsog fat, en Gud er eylífur og ómbreitanlegur. Vending Guds stjórnar veröldunni; en hver hefir setid í rádaneyti Guds, og hver getur þekkt ætlanir hans? Vér sjáum einúngis hid nálæga, og þekkjum það þó ekki til fulls, sáum aldrei fullskodad edli hlutanna, og getum aldrei séd útyfir samband þeirra og allar afleidíngar. Hversu undra ólíkir því, er þeir eru í rádstöfunum hins alvitra og alskygna Guds, hljóta því ekki þeir hlutir, er verda á jördunni, ad sýnast mönnunum, er á svo margan hátt eru takmarkadir í skodun sinni! Hversu heimskur, hversu ofdirfskufullur er því sá, sem þorir ad lasta rádstafanir Guds, afþví þær eru ólíkar rádstöfunum hans — sem þorir ad segja: hér er ekki alvizka Guds í, afþví hans skjóku augu sjá hana ekki! Sá sem gudhræddur er, og sannarlega vitur, beygir sig med lotníngu og kannast vid, ad rádstafanir Guds hljóta opt ad vera óransakanlegar og vegir hans órekjanlegir (Rómv. 11, 33), ad einsog himininn er hærri enn jördin, þannig hljóta vegir Guds ad vera hærri enn vorir vegir, og hugsanir Guds háleitari enn vorar hugsanir (Es. 55, 9).

Nú fyrst edli heims þessa er oss mönnum á margan hátt óransakanlegt og óskiljanlegt, þóad vér stöndum mitt í honum, og þó ad edli hans einnig sé edli vort, þá hlýtur miklu fremur edli Guds ad vera hafid yfir takmarkadan skilníng vorn. Hvert sem vér snúum oss, sjáum vér leyndardóma, er vér getum ekki dregid af skýluna. Hversu ónýt og grunnskygn, ósönn og ástædulaus mundi ekki ransókn náttúrunnar og edlis hennar verda oss, ef vér dirfdumst ad afneita öllu því, er vér skiljum ekki! Og hversu ónýt og ófullkomin og raung mundi ekki frædi vor um Gud og gudlega hluti verda, ef vér ætludum ad laga hana eptir takmörkudum skilníngi vorum, ef vér vildum kasta öllu því, sem honum er of hátt, og ætludum ad láta eingan leyndardóm verda eptir.

En er vér þannig einardlega játum, ad vér viljum ekki laga rædu vora um veru Guds og rádsályktanir eptir ásigkomulagi mannlegs skilníngs og viljum ekki láta hann, sem ætíd er ófullkominn og misjafnt þroskadur, setja oss takmörk þau, er vér

ekki þorum yfir að ſtíga; er vér þannig játum, að vér viljum mæla, ekki ſpeki þeſsa heims, heldur ſpeki Guðs hina leyndardómsfullu, ſem hulin var (1 Kor. 2, 6. 7), og dulin frá eylífð, en nú er opinberuð, og eptir rituíngum ſpámannanna og ſkipun eylífs Guðs er kunn orðin øllum þjóðum til hlýðnis við trúna (Rómv. 16, 25. 26): þá heyrum vér margar raddir, er mæla oſs í móti, ſegjandi, að með þeſsu tekum vér allar ſkorður frá trúarvínglinu, að við það muni heimſka og ruglíngur riðlaſt inn viðſtøðulauſt, og mennirnir muni, leyſtir undan løgum ſkynſeminnar, ſleppa ſér úti óſtýrilátar ímyndanir um það, ſem æðra er øllum ſkilníngi.

Vér getum nú apturámóti ſpurt, hvert ketur muni fara, þegar ſkilníngurinn kannaſt við ekkert, ſem er æðra enn hann, þegar hann ýmiſt fellſt á, eða ber í móti, eptirþví ſem honum er hægaſt í hvert ſkiptið, og flæktir ſtundum einúngis á yfirborðinu, en leitaſt ſtundum við með eintómum orðaleik að ráða einſtakar gátur, og þegar øll hin mikla fyllíng lífſins hverfur við þetta. Því maðurinn á ekki að beita einni gáfu ſinni eingaungu, heldur á hann með øllum kreptum, er Guð hefir gefið ſálu hans, að leitaſt við að ná ſannindunum; þvíaðeins getur hann eignaſt þau. En fjærri fer, það ſé meiníng vor, að mennirnir ſéu þar án leiðſagnar, ſem ſkilníngurinn getur ekki leiðt þá. Þegar þú vilt þekkja hluti, ſem til eru í náttúrunni fyrir utan þig, og ſamband þeirra, þá gerir þú þér óteljandi getgátur, því alltaf er eitthvað í þér, ſem vill leita útyfir það, ſem þú ert búinn að þekkja, og finnur þú þá ſtundum hið rétta en ſtundum hið ránga. En náttúran ſýnir þér ſjálf, hvert þú ſért á réttum vegi, því hún er fengin þér, þú getur ekki breitt henni, og það er ekki leikur hugſana þinna, er þú átt að reyna til að ſkilja, heldur náttúran. Þegar þú ert búinn að gera þér hugmynd um løg þau, er himintúnglin gánga eptir, þá lítur þú upp á himinhvolfið, og hugmynd þín er ekki rétt, nema þú ſjáir að vegir þeirra á himnum uppi ſéu hinir ſømu og þú varſt búinn að finna með reikníngum þínum; en fari þau aðrar leiðir, verður þú að leita betur, því þá ert þú ekki búinn að finna. Þannig verður þú á øllum hlutum að reyna ágizkun þína á því ſem í raun og

veru er til, á því í náttúrunni, sem þér er fengið, og ágizkun þín verður ekki að þekkingu, nema hún standist próf þetta; annarskostar mátt þú ekki fallast á það, sem náttúran vill ekki samsinna, og ekki bera í móti því, sem hún leiðir þér fyrir sjónir, hvert semþað er þér skiljanlegt, eða það er þér enn leyndardómur. Viljir þú þekkja veru sjálfs þín, o! hversu margar tilraunir gjörir þú þá ekki, til að komast inní djúp hennar, en sérhverja tilraun verður þú að prófa á því, sem er, á því, sem í raun réttri fram fer í sálu þinni: Þér stoðar ekki að bera í móti afli holdligra áhrifa, því húngur og þorsti munu sýna þér, að þú sért bundinn við ørðina; þér stoðar ekki, að reyna til að sanna, að samvizka sé ekki til, því hún gerir vart við sig í þér ýmist með greinilegum dómi, eða óskirri áminníngu; og vera þín verður einsog hún er, hvert sem þér heldur sýnist það óskiljanlegt, að hinn háleiti andi er fjøtraður hlekkjum líkamans, eða þú þykist ekki geta gripið hvernig það má vera, að þú, sem ert jarðarbúi, sprottinn upp mitt í hinu líkamlega, skulir geta átt samneyti við Guð. Vilji hugur þinn hefja sig yfir allt það, sem er hér á jørðu, viljirðu þekkja Guð og veru hans og ráðsályktanir hans yfir mønnunum, þá eru til alstaðar í kríngum þig, og í þér, ótal bendíngar, sem leiða þig á þau spor, er þú átt að rekja. En þegar þau hverfa, eða verða óljós og ruglast fyrir augum þér, þá hefir þú opinberanina, er þér, sem kristnum manni, er vísað til. Hafir þú viðurkennt, að Guð hafi sendt þér hana, þá veiztu jafnframt, hverju þú átt að fylgja í rannsókn þinni; allt það, sem ekki er byggt á opinberaninni, og ekki er henni samhljóða, það eru hugmyndir, sem hafa slitið sig frá undirstøðunni, og fara villar vega milli himins og jarðar, og trufla ekki aðeins hugann, heldur og lífið; en allt það, sem auðsjáanlega er falið í henni, það er satt, hvert sem þú ert búinn að fá skilníng á því eða ekki.

Það er nú títt, að sækjast mest eptir lofi fyrir hinar æðri andlegu gáfur, fróðleik, mentan og fyndni og hyggjuvit, og ekkert þykir mønnum jafnillt, sem ef þeim er borið á brýn, að þeir séu fátækir í anda. En nær er andinn fátækari í þeßsum skilníngi, enn þegar hann sér ekkert æðra, og hefir ekkert háleitara að huggast og gleðjast við, enn það, sem takmarkað vit mannsins skilur, þegar

það ſpottar öll furðuverk og rengir alla leyndardóma? En hverſu mikill auðlegur auður fylgir þeirri auðmýkt, er þykiſt ekki geta fyrirfram ákveðið takmörk þekkingarinnar, og viðurkennir, að allt í kríng liggi mikil auðæfi, þó hún ſé ekki búin að eignaſt þau fyllilega, og lýkur fyrſt augunum upp, til að ſjá hvað um ſé að vera, en kappkoſtar ſíðan að ſkilja, það ſem ſkilníngarvitin eða hugurinn hefir numið, og leitar ætíð og finnur því ætíð! Því ſagði Drottinn vor: ſælir eru hinir fátæku í anda, því að þeir geta öðlazt himnaríki (Matth. 5, 3)! Sannarlega eru þeir ſælir, ſem því trúa, að á himni og jörðu ſé eitthvað æðra til, enn það, ſem hver heimſkinginn getur ſkilið, og veraldleg hyggja gripið af ſjálfsdáðum; að það ſé til helgidómur þekkíngarinnar, ſem lykſt aptur fyrir þeim, er vill troða ſér inní hann með drambi, til að drottna þar, og laga ſannleikann að ſínu ſkapi, en lykſt upp fyrir þeim, er þángað leitar með lotníng og tilbeiðſlu, og þegar hann er innkominn, birtir æ meir og meir fyrir augum hans; en dauðlegir menn ſjá ekki helgidóminn, nema einsog ígegnum óſkírt gler, því jafnvel englarnir fá hann ekki fullſkoðað (1 Pét.1, 12).

Hverſu dýrmæt gjöf er vitið! án þeſs væri hvörki hugſan né mál, án þeſs væri maðurinn ekki maður, og væri alls ekki í ætt við hina eylífu vizku. En hið endanlega vit getur ekki aðhafſt, áður því ſé eitthvað fengið, er það geti leitazt við að ſkilja; það getur ekkert til búið, það megnar ekki annað, enn ſkoða. Það ſem þú átt að fá ſkilið af jarðneſkum hlutum, verða ſkilníngarvitin áður að færa þér; það ſem þú átt að ſkilja af himneſkum hlutum — o! það auga, er ſér hið háleita og eylífa, kallaðu það hjarta, eður hugſkot, eður ſkynſemi, kallaðu það hvað ſem þú vilt, en eitthvert afl ſálarinnar hlýtur að vera til, er ſkynjar guðlega hluti, áður enn vitið geti farið að hugleiða þá. En hvað ſem þú ſér á þenna hátt, hvað ſem þér verður ljóſt í tilfinníng og meðvitund hjarta þíns, þá hugſa þú um það, því opinberun guðlegra hluta tálmar því á eingan hátt, að vér neytum vitſins; miklu fremur hvetur hún það til að reyna alla orku ſína. Sérhver kriſtinn maður á að vita, hversvegna hann trúi, og hverjar áſtæður hann hafi fyrir trú ſinni, hann á að vita, á hvern hann trúi og hverju

hann trúi, og ekkert af þessu gæti hann vitad, ef sjónum vitsins væri apturlokad. Samt þekkjum vér adeins á ófullkominn hátt og tølum um hid helga á ófullkominn hátt, og því meira sem vér skiljum, því fremur lángar oss eptir fullkomnari þekkíngu, þá er sú þekking, sem ófullkomin er, á ad hætta, og vér eigum ad sjá augliti til auglitis (1Kor. 13, 9. 10. 12).

Hversu huldir leyndardómar dyljast í øllu, sem er umhverfis oss, og í sálum sjálfra vor! — Þú, sem allir leita og allir horfa upp til, eylífur og almáttugur Gud! mannahøndur fá ekki reist þad musteri, er þig geti innibyrgt, því himnar himnanna fá ekki rúmad þig (1 Kóng. 8, 27), þó er ekkert þad musteri og einginn sá afkimi til, ad þú sért þar ekki, og hjarta mitt, svo veikt sem þad er, getur einnig gripid þig; þú býr í hædunum og helgidóminum, en þú býr einnig hjá þeim, sem voladur er og audmjúkur í anda, til ad lífga anda hinna audmjúku, og til ad lífga hjarta hinna voludu (Es. 57, 15). O! laga þú hjarta mitt, svo þad fái æ betur og betur fundid til þín í sér, og ljúk upp augum vitsins, svo eg megi þekkja þig og tala um þig, eins og hæfilegt er; leid þú mig frá fullvissu til fullvissu, en vardveittu audmýkt og fúsan vilja í sálu minni, svo himnaríki lokist ekki fyrir mér, þá er eg leita þess, og svo þad ljós, er eg geng í, og sé og tala í, megi vera þín vizka, en ekki sjálfs mín.

## 15.

## Gud er þríeinn.

Þó ad Páll postuli komist þannig ad ordi í bréfinu til hinna hebresku: vér munum leida hjá oss ad útlista fyrsta grundvøll kristinnar trúar, og halda áfram til þess, sem fullkomnara er, ad ekki førum vér aptur ad leggja grundvøllinn til lærdómsins um apturhvarf frá daudum verkum og um trúna á Gud, og lærdóm skírnarinnar, og handanna uppáleggíngu, og upprisu hinna daudu, og hinn eylífa dóm (Hebr.6, 1.2): þá veit postulinn gjørla, einsog hann hefir sagt rétt á undan, ad mønnun=

um sé þörf á, að þeim sé kennd æ af nýu fyrsta stöfun Guðs orða; að vísu er öllum oss sífeldlega þörf á, að áminna oss á apturhvarf frá dauðum verkum, það er: þeim verkum, er Guðs líf og Guðs Andi eru ekki í, til sannrar og lifandi trúar á Guði, er bæði hefir í sér hlýðni og traust; að minna oss á, að vér erum kristnir, og hverjar skyldur og hver fyrirheit vér hlutum í skírninni; og minna oss á, að þessir hinir jarðnesku hlutir, er framhjá fara, hverfa ekki með öllu niðurí eylíft óminnisdjúp, heldur er í vændum uppríſa hinna dauðu, bæði hinna ráttlátu og hinna ránglátu. En hversu nauðsynleg sem þessi áminníng er, segir postulinn samt, að menn eigi ekki að staðnæmast í sjálfri stöfuninni, heldur sé til í hinum kristnu fræðum annað fullkomnara, æðra og dýpra, og það beri játendum Krists einnig að nema. Að sönnu eigum vér ekki að vera skriptlærðir allir saman, og það er ekki gott, að margir gjöri sig að kennendum; en samt á hver kristinn maður að stunda, eptir mætti, rétta skilníngu kristinna fræða. Hversu mjög stunda menn nú að skreyta sig marghättuðum fróðleik — hversu mjög lofa menn sérhvern, að því skapi sem honum tekst að kynna sér fjársjóðu náttúrunnar, listanna, sagnafræðinnar, eður annara veraldlegra vísinda; en guðlegur fróðleikur er þó öllum oss fullt eins náinn; mundi það þá ekki vera loflegt, að staðnæmast eigi við yfirborð hans, heldur leita að ná réttri og fullkominni þekkíngu á honum? Að sönnu veit eg, og viðurkenni fullkomlega, að líf kristinnar trúar er ekki fólgið í einnisaman hugsaninni, heldur verður það að gagntaka manninn allan; að fagnaðarboðskapur Krists fær fyrst á innstu meðvitund vora, og mælir fram með, sér fyrir samvizku vorri; að vér eigum að geyma leyndardóm trúarinnar í hreinni samvizku (1 Tím. 3, 8), og þegar einhver týnir hreinleika samvizkunnar, þolir hann skipbrot á trú sinni, eptirþví sem postulinn að orði kemst (1 Tím. 1, 19). En hvernig fá hinar máttugu og heilsusamlegu tilfinníngar upp komið, nema ljós þekkíngarinnar ljómi inní sálu vora? Og reiðum oss aldrei á einar saman tilfinníngarnar; þær líða burt sem reykur, þegar þær vantar skíra og stöðuga og grundvallaða þekkíngu að halda sér við. Eg veit, að þeir tímar hafa verið, er menn afbökuðu

kristilegan sannleika með eintómum orðaleik, og andi hans hvarf, því menn ætluðu sér að meta smásmuglega hveru staf; enda veit eg og þá tíma, að bæði stafnum og andanum liggur við að hverfa sakir almennrar fákunnáttu. Fyrstað sá, sem til Guðs ríkis er mentaður, á að vera líkur þeim húsbónda, er framreiðir úr forðabúri sínu bæði nýtt og gamalt (Matth. 13, 52), þá skulum vér og hverki kasta því að óreynðu, sem nýtt er, né heldur fyrirlíta það, sem gamalt er; því ekki er það lakara, þó það hafi verið til á þeim öldum, sem fyrir laungu eru liðnar, og verið huggun og speki margra framliðinna kynkvísla; vér skulum ekki hliðra oss hjá þeirri ransókn, er hlýtur að koma fyrir oss, hvert sem hugurinn sökkur sér í djúpið eða hefur sig í hæðirnar; og yfir allt fram skulum vér ekki fyrirverða oss fyrir fagnaðarboðskapinn Krists.

Þegar eg íhuga með slíku hugarfari hina kristnu kenníngu um veru Guðs, þá vakna þær hugmyndir í sálu minni, sem mörgum munu vera ókunnar orðnar; allt í frá barnæsku hljómar þríhljómur í sálu minni, hvert sinn er eg nálgast hinn æðsta helgidóm með einlægri umhugsan; nú ef það reyníst, að þessi þríhljómur hljómi einnig í öllum Krists fagnaðarboðskap, ætti eg þá að fyrirverða mig fyrir nafn þitt, þríeini Guð! ætti eg að hræðast skammsýni hinna þóttafullu, og spott heimskíngjanna, sem er sjálfum þeim til niðurdreps, en alls ekki hinu heilaga, sem þeir vilja saurga með því; ætti eg ekki að þora að játa nafn þitt, fyrst fyrir sjálfum mér, og svo fyrir mennum? Eður ætti eg að sneiða mig hjá öllu þessu efni, einsog menn gjöra, þegar spurt er af einberri forvitni? O Guð! þú hefir ekki aðeins gefið oss vitsmuni til að skoða og íhuga, reyna og prófa með þeim jarðneska hluti, heldur gjörðir þú og sálina svo, að hun skyldi lypta sér til uppsprettu sinnar, og nálgast guðdóm þinn og eylífa veru þína, slíkt er hún mætti. En huganum er svo hætt við að villast á hinu háa flugi upp til ljóma helgidómsins; leiddu hann þessvegna með opinberan þinni, svoað hann finni þar það sem hann á að þekkja; leiddu hann með Anda þínum, svoað hann skilji það sem þú opinberar, og taki ekki neitt upp hjá sjálfum sér það er sannleikurinn ráungfærist af, né

heldur afneiti því, edur nídurlægi þad, sem þú hefir gefid honum ad þekkja. Og alla þekkíngu, er þú veitir oss, þá lát hana efla oss í gudhrædslu og í sannri og lifandi trú, er veiti krapt til gódra verka, og gefi huggun og von! —

Ordid "þríeinn" er ekki til í heilagri ritníngu, þó hugmyndin sé þar; og fyrir því væri oss óskyldt ad hafa þetta ord, ef vér ættum vel á ödru hentugra. En medþví vér eigum ekki vel á ödru jafnstuttu til ad nafngreina þenna höfudlærdóm, er kristindómurinn er á byggdur, þá væri ofdirfska, ad kasta því ordi, sem tídkad hefir verid í kirkju vorri uppi svo margar aldir, og sérhverjum kristnum manni er kunnugt. Þegar vér athugum, hver ad sé sá bodskapur, er allar opinberanir hins gamla testamentis séu á byggdar, hver ad sé sá höfudlærdómur, er án hans mundi allt annad, þad sem þar er kennt, vera ad eingu hafanda: þá sjáum vér skjótt, ad þad er hinn háleiti lærdómur um einan, sannan, lifanda Gud. Hversu kreptuglega hljómar þar sú kenníng ífrá hinum fyrstu bókum til hinna sídurstu: heyr þad, Ísrael! Drottinn vor Gud, Drottinn er einn (5 Mós. 6, 4); eg er Jehóvah, þad er mitt nafn, og tign mína vil eg ekki gefa neinum ödrum (Es. 42, 8); svo segir Jehóvah, Konúngur Ísraels og Lausnari hans, Jehóvah Zebaoth: eg er hinn fyrsti og hinn sídasti, og einginn er Gud nema eg (Es. 44, 6). Þannig opinberadi hinn eylífi sig frá fyrsta upphafi fyrir þeim skepnum, er hann setti á jördina til ad vera drottnar hennar, og jafnframt ad þekkja, óttast og tigna hann, sem er Drottinn allra drottna. Þannig sendi hann spámenn sína ad vitna gegn villum Ísraels, svo ad einn stadur væri til á jördunni, er sönn gudsþekkíng yrdi geymd, og fengi dreifst þadan út á hentugum tíma til allra heidinna þjóda, hverja túngu sem töludu. Og er þessi hentugi tími kom, þá tók ljósid ad lýsa yfir stærra svid, þá tók þekkíngin á hinum eina, sanna Gudi, ad renna þær brautir, er ádur voru dásamlega lagdar af gudlegri fyrirhyggju, og rydja sér til rúms í myrkri heidinnar trúar, allt til þess er ljómadi bjartur dagur hins siguranduga fagnadarerindis, er Kristur bodadi. Því þóad hann hafnadi þeim lögum og sidvenjum, er einnisaman Gydíngaþjód var bodid ad halda, þartil er annad betra fengi upp

runnið; þá hafnaði hann einganveginn þeirri kenníngu, er aldrei getur breitzt né ónýtzt, að Guð sé einn, sá er allir hlutir séu frá komnir og allir hlutir þiggi viðurhald af.

En þessi hin eylífa og heilaga kenníng kemur þó ödruvís fyrir í Krists fagnaðarboðskap. Því ef vér leitum þar að því, hver að sé sá höfuðlærdómur, er hann ætlaðist til, að öllum þjóðum skyldi verða boðaður, og hver önnur kristileg kenníng er við tengð, svoað án hans væru þær allarsaman fánýtar: þá heyrum vér Drottinn sjálfan segja til votta sinna, þarsem hann boðar sig svosem þann, er allt vald sé gefið á himni og á jörðu: farið því og kennið öllum þjóðum, og skírið þær í nafni Föðurs og Sonar og Heilags Anda (Matth. 28, 19). Þetta nafn, er nefna skal yfir sérhverjum, sem í skírninni er tekinn í Krists söfnuð, hlýtur að vera það helgunar, huggunar og frelsis nafn, er hver kristinn maður á að játa, og allar skyldur og öll fyrirheit fylgja, svoað vér megum ekki skipta því við neitt annað; og vegna þess hér eru ekki boðaðir þrír guðir, meðþví og að lægri verur geta ekki á þann hátt samtengst hinum eylífa Föður, þá eigum vér sem kristnir menn að trúa á einn sannan Guð, sem Föður, Son og Helgan Anda.

En hitt er örðugra ransóknar, hvernig til þessarar kenníngar, að Guð sé þríeinn, sé þegar bent í bókum gamla testamentisins; enda sakar minna, þóað það dyljist í skólum hinna skriptlærðu; en kenníngin sjálf á að hljóma í eyrum allra kristinna manna — eins sannarlega og Krists verðskuldan og áhrif Andans eru ekki guðlegar gjafir, nema hinn eingetni Sonur og hinn Heilagi Andi séu sameinaðir Föðurnum í einni sannri guðlegri veru; og eins sannarlega og sérhver kristileg áminníng er innilukt í þeirri postullegri blessan, að náð Drottins vors Jesú Krists og kærleiki Guðs og hluttekníng Heilags Anda skuli vera með öllum oss (2 Kor. 13, 13); og eins sannarlega og vér, eptirþví sem annar postuli að orði kemst, eptir Guðs Föðurs fyrirhyggju erum fyrir helgun Andans kjörnir til að vera hlýðnir Jesú Kristi og hreinsaðir með blóði hans (1 Pét. 1, 2). Af þessu orsakast, að kirkjubænir þær, sem allt ífrá fornöld og enn í dag eru tíðkaðar á samkomum vorum, enda flestallar á því, að tigna og vegsama

hinn eingetna elskulega Son Guds, sem lifi og ríki med Födurnum í einingu Heilags Anda, einn sannur Gud frá eylífd til eylífdar.

Vér eigum ad tala um þetta, og vér skulum gjöra þad, ekki samt af því, ad vér þykjumst geta ransakad djúp gudlegrar veru eda nád gudlegum hlutum med mannlegum ordum. Vid hvern vilji þér líkja mér? segir Drottinn; hverjum vilji þér samjafna vid mig, svosem væri hann jafníngi minn (Es. 46, 52)? Menn hafa reynt ad líkja þrenníngunni í óskiptilegri veru Guds vid þann hljóm, er verdur af þrem röddum; eda vid þrjár línur, þær er hver þeirra girdir um alls ekkert, en er þær koma saman gjörist af því mynd med föstu edli og óbreitanlegu, sú er gjöreydist, ef einhver línan er frá numin; eda vid rúmid, er þad hefir þrefalda náttúru, breidd, lengd og hæd, og væri þá alls ekkert, ef þetta þrent færi ekki æ saman, en þad getur aldrei ordid vidskila hvad vid annad, enda hverfur aldrei saman í eitt. Hér er Gudi líkt vid líkamlega hluti, og getur þad verid til skilníngsauka því er vér hugsum; en þó eru þessir hlutir daudir, þarsem hinn þríeini Gud er lifandi Gud. Menn hafa og reynt ad líkja Gudi vid sálu vora, sem ad sönnu er ein, en kemur ýmislega fyrir sjónir, medþví ad hugur, tilfinníng og vilji spretta upp úr djúpi hennar og eru ætíd samfara, og verda þó vel adgreind. En hvílíkur munur er þó á sambandi sálaraflanna og því sambandi gudlegrar veru, er þetta er um sagt: ad einsog Fadirinn hafi lífid í sjálfum sér, eins hafi hann og veitt Syninum, ad hann hefdi lífid í sjálfum sér (Jóh. 5, 29).

Nú fyrst ad samlíkíngar vorar geta aldrei nád því, er vér ætlumst til, þá tengjum heldur kenninguna vid hina upphaflegu og ósjálfrádu hugmynd vora um Gud. Vér köllum Gud Födur, og þann, er allt faderni á himni og jördu sé eptir nefnt (Eph. 3, 15), þann, er födurnafnid eigi heima hjá sem framast ad verda megi, sem er Fadir, Skapari, Veitandi, eins sannarlega og hann er Gud. En hvert var Gud ekki Fadir, eda var hann einn í dýrd sinni, ádurenn heimurinn vard? Er hann einúngis Fadir hinna endanlegu, er horfa upp til hans úr fjarska og þola ekki sjón dýrdar hans; svoad einginn þeirra fær séd hann augliti

til auglitis, og einginn kannað djúp veru hans, og einginn skilið ómrædilega ráðstöfun hans? — Í hinni kristilegu trú er sá boðaður, sem nefndur er hinn eingetni, afþví hann er sameinaður Gudi á ædra hátt, enn nokkur þeirra, sem kalladir eru Guðs börn, og er sameinaður hönum frá eilífð, og er hluttakandi alls veldis hans og allrar vizku hans og dýrdar, svoað þar er oss kennt, að Gud sé Fadir frá eilífð, að, áðurenn veröldin var grundvöllud, hafi sá til verið, er nefndur er Frumgetníngur allrar skepnu (Kól. 1, 15), afþví hann hafi verið til, áðurenn farið var að skapa; og að Gud sé frá eilífð opinberaður í þeim, er sé geisli dýrdar hans og ímynd veru hans, þeim er hann hafi sett-an erfingja alls, og skapað heiminn fyrir hann, þánn er öllu stjórni med sínu kroptuga orði (Hebr. 1, 2. 3); þar er hinum eingetna lýst þannig fyrir oss, að hann sé almáttugt orð Guðs, er Gud hafi einsog birt veru sína með, og unnið með því verk sín öll, og það hafi verið í upphafi, og verið hjá Gudi, og verið Gud, og allir hlutir séu fyrir það gjördir, og án þess væri ekkert tilorðið, sem til er (Jóh. 1, 1. 3); og hið eilífa ljós hafi í hon-um skínið, og þessvegna sé hann hið sanna ljós, er upplýsi alla menn (Jóh. 1, 9). Sömuleiðis er í hinni kristilegu trú talað um helgan Anda. Hann kemur frá Födurnum og Syninum, og í upphafi sköpunarinnar sveimaði hann yfir vötnin, þau er huldu hina auðu og tómu jörð (1Mós. 1, 2); Gud sendir hann, og þá skapast, og mynd jarðarinnar endurnýast (Sálm. 104, 30); — hann rannsakar allt, ogsvo Guðs leyndarráð (1 Kor. 2, 10); hann var í spámönnunum, og vísaði þeim á hina ókomnu tíma, þegar eilífu ráði Guðs ætti að verda framgengt (1 Pét. 1, 11); hann býr enn í oss (1Kor. 3, 16), gefur oss allskonar ástgjafir, og úthlutar hverjum einum eptir sínni vild (1Kor. 12, 4. 11).

Vér tölum hér ekki um veru hins þríeina Guðs með orðum sjálfra vor, heldur þeim orðum, sem fyrir laungu eru rituð í þá ritníng, er vér köllum helga, afþví vér eigum að lúta henni, meðþví hún er yfir oss, en vér ekki yfir henni. Og það sem ritníngin kennir, megum vér aldreigi dirfast að kalla ónýtt og einskisvert, því það á og hér við, að opinberun Andans er æ gefin oss til nota (1Kor 12, 7). En sérhverja kenníng ritníng-

drinnar, svo og einnig þessa, hverju leyndardómsfull og óran=sakanleg sem hún er, þá eigum vér að leiða hana inní hugskot vort, inní samvizku vora, inní hjarta vort, og athuga síðan, hvert henni sé þar ofaukið, hvert hún megi missa sig, hvert vér getum sleppt henni, og þó allt að einu kallað oss kristna.

Kristna köllum vér oss, afþví vér álítum Jesúm Krist vera þann aðal=hyrningarstein, er öll trú vor sé á byggð, afþví vér viður=kennum, að af engum öðrum sé hjálpræðis að vænta, því ekkert annað nafn sé mönnunum gefið, undir himninum, er oss megi frelsa (Post. 4, 11, 12) — afþví vér viðurkennum, að Guð hefir gefið honum það nafn, sem æðra er öllum nöfnum, svoað fyrir Jesú nafni skulu allir beygja kné sín, hvert sem eru á himni eða jörðu eða undir jörðunni (Philipp. 2, 9. 10). En hvað hefðum vér fyrir oss í því, að auðsýna honum þessa lotn=íngu — hvað hefðum vér fyrir oss í því, að heiðra Soninn eins=og Föðurinn (Jóh. 5, 23), ef hann væri vor jafníngi, Guðs barn á sama hátt, og sérhver af oss á að vera, og enda þó hann væri lángt fyrir ofan oss mennina, en væri þó sköpuð skepna, og væri hann ekki æðri öllum hlutum og fyrri öllum hlutum og Viðurhaldari allra hluta, og væri það ekki vilji Föðursins, að öll fylling skyldi í honum búa (Kól. 1, 17. 19), og væri hann ekki kraptur Guðs og speki (1 Kor. 1, 24), og ætti hann ekki allt, sem Faðirinn á (Jóh. 16, 15)? Þá fremdum vér að vísu afguðadýrkan, er vér beygjum kné vor fyrir Jesú, því vér eigum að tigna Guð, Drottinn vorn, og dýrka hann einan (Matth. 4, 10).

Sé þér, maður! alvara að kalla þig kristinn, og hafirðu satt að mæla, er þú kallar þig svo, þá kemur það til af því, að þú þekkir engan, er þú getir aðhyllzt, nema Jesúm Krist, því hann hefir orð hins eylífa lífs (Jóh. 6, 68); þú kallar hann því Meistara og Fræðara, og kannast við, að Kristus einn sé leiðtogi vor, en vér allir séum bræður (Matth. 23, 8). En hvað hefirðu fyrir þér í því, að meta hann einan meir enn alla aðra, láta leiðast af orðum hans einsog af Guðs orðum, láta hann aptra þínum hverfulu hugrenníngum, og þora ekki að brjóta þau lög, er hann hefir sett þér — hvað hefirðu fyrir þér í þessu, nema ef hann er þannig sameinaður Föðurnum, að hann er

jafn-frjáls af allskonar villu, sem af allskonar synd, og nema þau orð, er vér heyrum, séu ekki hans orð, sem manns, heldur Föðursins, er sendi hann (Jóh. 14, 24)? Hvaðan hefir þú fengið þá sannfæríngu, að hann sé vegurinn, sannleikinn og lífið (Jóh. 14, 16), ef þú trúir ekki, að einginn þekki Föðurinn nema Sonurinn, og sá, er Sonurinn vill opinbera það (Matth. 11, 27)? — Þú kallar Jesúm Frelsara, og því var hann og svo kallaður, að hann átti að frelsa lýð sinn af syndum hans (Matth. 1, 21); þú segir, svo framarlega sem þú ert kristinn, að hann sé friðþægíng synda vorra, og þó ekki aðeins vorra synda, heldur allrar veraldarinnar (1 Jóh. 2, 2); þú nefnir nafn hans fyrir hinum iðrunarfulla, fyrir þeim er andvarpar: Guð, vertu mér syndugum líknsamur! og einga fórn hefir að færa Guði, nema sundurkramið hjarta. En hefði Jesús verið fæddur í syndinni, hefði hann ekki vald til að dæma lifendur og dauða, hvernig mátti hann þá segja til hins auma: vertu hughraustur, syndir þínar eru þér fyrirgefnar? þá hafa þeir haft rétt að mæla, er sögðu: hví talar hann þvílíka guðlastan? hver kann að fyrirgefa syndirnar, nema Guð einn (Mark. 2, 7)? — Þú kallar Jesúm Frelsara, afþví þú trúir einnig, að hann bæði vilji og megi leysa oss frá öllu illu, frelsa oss frá öllum vorum óvinum, og sigra hinn síðasta óvin, sem er dauðinn, svoað hver sem trúir á Krist lifi þó hann deyi (Jóh. 11, 25). Hvernig mátti hann koma því til vegar, að frelsa oss, ef honum væri ekki gefið allt vald á himni og jörðu (Matth. 28, 18), ef hann hefði ekki þann krapt, er hann leggur allt undir sig með (Philipp. 3, 21)? Hvernig gat hann með sanni sagt um þá, er hlýða röddu hans og fylgja honum, að hann gefi þeim eylíft líf, og að þeir skuli ekki glatast, og að einginn skuli slíta þá úr hendi honum, nema hann gæti einnig með sanni sagt: eg og Faðirinn við erum eitt (Jóh. 10, 28. 30)?

En sú lausn, er Kristur afrekaði oss, er ekki aðeins þari fólgin, að hann létti af oss hegníngu syndarinnar, heldur léttir hann af oss syndinni sjálfri, leysir oss af allskonar óréttlæti, og hreinsaði sér sjálfum fólk til eignar, það er kostgæfið væri til góðra verka (Tit. 2, 14). Ef eg kalla Krist Drottinn og Frelsara

minn, þá á eg ad láta af allskonar órèttlæti (2 Tím. 2, 19), þá á eg ad glæda sèrhverja áſtgjöf, ſem í mèr er, og gánga fram í krapti og kærleika og ſtillingu, en ekki í ómennſku. Get eg þad af ſjálfsdádum? Viljann til hins góda hefi eg ad ſönnu, en ekki krapt til ad framkvæma þad (Rómv. 7, 18); eg ræd ekki einnſáman athöfnum mínum, þad eru til máttugir andar, ſem reka mig, og vilja ná valdi yfir mèr einsog ödrum, — andi villunnar og lýginnar, andi órèttvíſinnar og ágirndarinnar og hègómagirndarinnar og annara vondra girnda, andi vantrúarinnar og blindleikans og örvæntíngarinnar — er eg ſtyrkari, enn þeir, er fallid hafa? O! því adeins ödlumſt vèr mátt til ad ſtrída, ekki einúngis vid hold og blód, heldur vid alla vonda anda undir himninum, ad til er heilagur Andi ſannleiks og huggunar, ſem gengur út af Födurnum og vitjar þeirra, er þeſs beidaſt — bædi þegar Gud ſendir í hjörtu vor ſíns Sonar anda, ſem kennir oſs ad kalla Gud rèttilega Födur (Gal. 4, 6), og gjörir Kriſt dýrdlegan í oſs, medþví hann ber honum vitni, og tekur af hans eign til ad auglýſa oſs (Jóh. 16, 14); ſvo og þegar Gud lífgar einnig daudlega líkami vora fyrir Anda ſinn, er í oſs býr (Rómv. 8, 11). Hver hefir fundid í ſèr hid ædra, hid eylífa líf, og fundid ſálu ſína fyllaſt af háleitri tilhugſan þeſs, er þróaſt, medan tímarnir lída, og ſtendur ſtödugt, þó annad eydiſt, tilhugſun þeirrar ſtjórnar, er nær yfir himin og jörd, og hamíngju og óhamíngju allra manna, eins hinna lítilmótleguſtu; hver hefir fundid hjarta ſitt fyllaſt af hreinu og öflugu áformi, annadhvert ad hirda ekki um ſ i n n hag, edur vera ſtödugur í einhverju gódu verki; hver hefir fundid hjarta ſitt vera ſælt í elſku Guds og manna, og þó ekki jafnframt fundid og vidurkennt í huga ſínum, ad öll þeſsi fyllíng er ekki ſprottin af holdi og blódi — ad áhugi og vidleitni ſjálfs hans megna í meſta lagi ad búa henni ſtad, en ad allt þetta gefur oſs Guds Andi, hinn eini ſami Andi, er úthlutar hverjum einum eptir vild ſinni (1 Kor. 12, 11), og gefur mönnunum alla góda tíma og allar gódar gjafir, og ſafnar þeim medþví í e i n n ſöfnud, þann er tekur gudlegan þroſka (Kól. 2, 19), þrátt fyrir alla tálmun og truflun.

Munur er á ástgjefum, en Andinn er samur; munur er á embættum, en Herrann er samur; munur er á framkvæmdum, en Gud er samur, sá er framkvæmir allt í öllum (1 Kor. 12, 4. 5. 6). Og svo er um þad, ad þó vér sjáum þann mun á lífi gudlegrar veru, ad Sonurinn er getinn af Födurnum frá eylífd, og Helgur Andi gengur út frá Födur og Syni, þá eru þeir samt ekki adgreindir; Gud er samt hinn eini og sami, Höfundur allra hluta, Skapari vor, Lausnari vor, Helgari vor. Víst getur ekki mannlegur hugur skilid dýrd hins þríeina Guds, og mannleg ræda fær ekki lýst henni; þó getum vér hér í duptinu ef vér hlýdum gudrækilega til, heyrt hid þrefalda, helga ord, er spámadurinn, þá er hann var frá sér numinn, heyrdi fordum hljóma gegnum himnana: heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn Zebaoth; öll jördin er full af hans dýrd (Es. 6, 3)!

---

## 14.

## Sköpun heimsins.

Þegar vér grandgæfilega skodum veröldu þessa, bædi hina ytri, sem er umhverfis oss, og hina innri, þad er þá veröldu, sem Gud hefir lagt í hjarta mannsins (Préd. 3, 11. eptirþví sem sumir þýda þad), þá verdum vér þess varir, ad hún er öll tvöfaldrar náttúru. Alstadar sjáum vér dýrd, óskiljanlega og gudlega, því Gud setti merki sitt á allt sem til er, hann lét bædi alheim og einstaka hluti bera sér vitni, og allt gerdi hann viturlega. En vér sjáum og ad dýrd þessi er alstadar dofnud og aflögud, vér sjáum og harla margt í veröldinni, sem vér hljótum ad kalla illt, og af því fær hver skepna sinn hluta, einsog af gædum lífsins. Gud skapadi manninn eptir sinni mynd, og gjördi hann líkan sér; hver getur til fullnustu lofad tign mannsins, er Gud setti hann adeins skör lægra enn englana, og krýndi hann sóma og vegsemd (Sálm. 8, 6)? En hver getur og til fullnustu skírt frá eymd mannsins? Því þótt hann sé herra jardarinnar, undra fagur ad ásýndum líkamans, og gæddur háleitum sálargáfum, þá er hann þó hádur hégóm-

anum, og haldinn í ánauð veikleikans, og ber byrði sína — margar byrðir, sem líkaminn þjáist undir, og sálin andvarpar undir, þreyandi eptir lausninni. Lítum vèr í kríngum oss, sjáum vèr alstaðar hluttakendur í þjáníngum vorum, því öll skepna andvarpar í sameiníngu og þjáist saman í þúngri eymð allt til þessa dags, einsog postulinn að orði kemst (Rómv. 8, 22).

Skepna er orð, sem vèr nefnum opt; vèr nefnum það jafnvel svo opt, að vèr optastnær hugsum lítið, þá er vèr nefnum það, og er það þó harla mikillar þýðíngar og einkar merkilegt orð. Það inniþindur í sèr allar verur, eins hinar æðstu og hinar lægstu, nema eina, veruna yfir öllum verum, hina óskapaða; og lýsir því, að ekkert, sem það er um haft, hafi upptök sín í sjálfu sèr, eða sè, slíkt sem það er, af sjálfu sèr. Sèrhver skepna á tilveru sína að þakka Skapara sínum, sèrhver hefir af honum þegið öll sín líkama og sálar — þessvegna köllum vèr það allt af Guði gefið. Og þóað þær skepnur, sem fengu frjálsræði, vinni sjálfar til þess, er leiðir af gjörðum þeirra, kemur það þó fram við þær eptir Guðs ráðstöfun, en ekki sjálfra þeirra.

Hugmyndir þessar eru svo mikilvægar, að oss ríður á, að halda oss fast við þær. Frá hinu nálæga viljum vèr hefja huga vorn til hins undanfarna, og til upphafs allra hluta; vèr nálgumst þar mikla leyndardóma, er vèr búumst ekki við að geta ráðið, en höfum þó nokkra vitneskju um, meðþví opinberanin leysir þar úr margri spurníng, er fram er borin af mannlegu viti. Hvað kennir þá Kristin trú oss um sköpun heimsins?

Hið nálæga getur ekki fullnægt manninum; hann leitar frètta af ókomna tímanum; og spyr hvað í vændum sè, en kristin trú stjórnar þá huga hans, og varar hann við, að hafa óttann í ferð með sèr, svo hann kenni honum ekki, að pína sig með áhyggju fyrir armæðu þeirri, er morgundagurinn eður aðrir ókomnir ókunnir dagar muni færa honum, en ræður honum að gleða hjá sèr vonina, og halda sèr fast við hana; einnig þá hina blíðu og saklausu von, er með ótal smá-loforðum huggar oss í þrautunum; en um fram allt þá hina miklu von, sem væntir útvalníngarinnar, væntir lausnar, til Guðs barna dýrðlega frelsis,

og heitir því, að allar þjáníngar þessara tíma sèu ekkert í samanburði við dýrð þá, er við oss mun opinber verða (Rómv. 8, 18. 23); maðurinn spyr og hinn liðna tímann, hann girnist að heyra sögur af því, er fyrrum hefir gjörzt í veröldinni — og þegar hann hefir eingar sögur fyrir sèr, les hann sig áfram með ályktunum, frá hinu nálæga og frámeptir öldum, alltaf lengra og lengra, þángaðtil hann er kominn að upphafinu, og þar truflast að sönnu hugmyndir hans, en þó getur hann ekki látið af að spyrja.

Oss er ekki unnt, að komast hjá að hugsa um upphaf, hvað torveldt sem oss veitir að ödlast skírar hugmyndir um það; röð viðburðanna, sem liðin er, getur ekki verið án upphafs, heldur hlýtur einhver af þeim að hafa verið fyrstur. Enda þeir menn, sem einsog af ásettu ráði halda sèr við almennar hugmyndir, og þykjast hvergi sjá annað enn það, er menn kalla edlilega rás hlutanna, þegar þeir segja, að öld eptir öld gángi allt eptir lögum náttúrunnar, verða þeir þó að bæta þessu við: "einsog frá upphafi veraldar" (2 Pét. 3, 4); þeir þoka alltaf upphafinu lengra og lengra fram, en það stoðar þá ekkert, því hugurinn leitar samt að upphafi. Allt sem nú er til, hefir að sönnu orðið til á edlilegan hátt. Það korn, er menn sá nú, er komið af korninu, sem sáð var í fyrra, og það korn aptur af korninu, sem sáð var í hitt hið fyrra, og svo framvegis. Það trè, sem nú er í blóma, hefir einusinni sprottið upp af dálitlu frækorni, er stormur sleit á haustfíma af gömlu trè af samri tegund, sem nú er horfið; og svo fram eptir öllum öldum. En einusinni hefir þó verið það ár, þá eingu sáðkorni frá fyrra árinu hefir verið sáð yfir akrana. Hvernin fèkk jörðin, á þessu fyrsta ári hennar, ávöxtu sína? Einusinni hefir hið fyrsta trè vaxið, sem eingin mannahönd hafði gróðursett, og ekki var sprottið af neinu frækorni sinnar tegundar, því ekkert trè var til áður, að bera fræ. Hvernin varð það trè til? Þær kynkvíslir hinna lifendu, sem nú fylla upp jörðina, hafa fengið líf sitt af kynkvíslum, sem áður voru til, og þannig rekur hugurinn áfram hina afar laungu ætt, en verður þó að hætta um síðir. Einusinni hefir hinn fyrsti fugl súngið undir himninum, og einusinni hefir hið fyrsta stórhveli kafað í

öldunum, einusinni hefir hinn fyrsti madur birzt, sem átti ad drottna yfir öllum villidýrunum á jördunni og öllum fuglum undir himninum, og öllum-fiölda sjódýranna. Þessi hinn fyrsti madur átti sér hverki födur né módur; hann var ekki gjördur í smidjum náttúrunnar — en med hverjum hætti vard hann þá til? Það getur ekki hafa verid med nokkrum þeim hætti, er vér nú köllum edlilegan, því þá byrjadi fyrst eldileg rás hlutanna, og vér finnum, ad hér erum vér ad minnsta kosti komnir ad takmörkum náttúrunnar, og ad því sem henni er ædra.

Mannlegt vit finnur nú líka svar uppá þessa rannsókn sína í gudlegri opinberun. Fyrir trúna skiljum vér, ad veröldin er ordin til af ordi Guds, á þann hátt, ad þeir hlutir sem sjást, eru ordnir til af þeim, sem ekki sáust (Hebr. 11, 3). Um þetta segir heilög ritning oss í fyrstu línu: í upphafi skapadi Gud himin og jörd (1 Mós. 1, 1). Öll kristileg þekking byrjar líka á því, ad kannast vid, ad allir hlutir hafi upptök sín frá Gudi, ad þeir séu skapadir afordi hans og almætti. Því er, einsog ádur er sagt, ordid "skepna" svo yfirgripsmikid. Lítum vér yfir her-sveitir himnanna, ímyndum vér oss alla hnetti, sem snúast ásamt þeim hnetti, er vér búum á, kríngum vora sól, og alla hnetti, er snúast í kríngum adrar sólir, og allar sólir, er snúast í kríngum sól allra sóla, þá er það alltsaman skepna. Og rennum vér augum til einstakra hluta, til ormanna í duptinu, til blómanna á jördunni, til gimsteinanna í fylsknum klettanna, þá er það allt-saman skepna; þannig kallar madurinn sjálfan sig, og þannig mun og höfudengillinn frammi fyrir hásæti Drottins kalla sig; því vér eigum allir ad minnast þess, ad allt líf og öll til-vera er sprottin af Gudi, ad Skaparinn er einn, og allt annad, ad eingu fráteknu, er skapad af honum.

Her nefnum vér adeins hinar háleitu hugmyndir um þann, sem er getinn af Födurnum frá eylífd, en er þó ekki skapadur, sem kalladur er það ord, er var í upphafi hjá Gudi og var Gud, og allir hlutir eru af ordnir (Joh. 1, 1); þann er Gud hefir settan erfingja alls og skapad heiminn fyrir hann (Hebr. 1, 2), þann er líka hefir endurleyst heiminn. Ver nefnum adeins hin-ar háleitu hugmyndir um Anda Guds, sem sveimadi yfir vötn-

unum, medan jørdin var aud og tóm, og myrkur var yfir djúpunum (1 Mós. 1, 2), hinn sama, er enn í dag sveimar yfir ókyrrleik tímanna og fullkomnar hina nýu sköpun. Ritníngin eignar hinum þríeina Gudi sköpun veraldarinnar. En vér viljum ekki hér leitast vid ad útlista þessar háleitu hugmyndir. Ekki ætlum vér heldur ad skíra frá, hvernig Gud lét himin og jørd og allar hersveitir þeirra smámsaman myndast úr hinu óskipulega frumefni. Á sex døgum skapadi Gud himininn og jørdina og hafid og allt þad sem í þeim er (2 Mós. 20, 11). Þú getur mælt þessa daga, einsog þú vilt, á stuttan eda lángan mælikvarda. Eitt augabragd er ekki offstutt handa þeim, sem í upphafi sköp alla hluti med eintómu bódi sínu, og eflaust hefir á elztu tímum heimsins gjørt marga ummyndun í einu vetfángi, einsog hann optlega hefir sídan gjørt, og einsog hann á hinum sídustu tímum mun gjøra hina miklu ummyndun (1 Kor. 15, 52). En þykist þú í løgum jardarinnar, þeirri sem nú er, finna merki lángvinnra umbiltínga, þá láttu þad ekki vera þér til ásteitingar, því ordid "dagur" getur líka merkt lángt tímabil; einn dagur er hjá Drottni sem þúsund ár, og þúsund ár sem einn dagur (2 Pét. 3, 8). Hvernig ættum vér ad geta mælt dagana, medan ljósin voru ekki til á himinhvolfinu, til ad gera mun á deginum og nóttinni, medan sólin stód ekki þar, sem hún stendur nú, til ad drottna yfir døgum jardarinnar (1 Mós. 1, 14. 16)? Fjøll hrærdust ákaflega og hófust upp, en dalir sigu nidur, jørdin bærdist í innislum sínum, hafid gekk uppá lendin, og féll út aptur, þoka og myrkvi hjúpudu jørdina og dreifdust aptur, þángadtil hinn sjøundi dagur rann, hid sjøunda af hinum sjø ákvordudu tímabilum, þá var regla komin á rás hlutanna, þá vard ró og kyrrd; "Gud hvíldist eptir verk sín".

Um þetta efni látum vér þá segja meira, sem rannsaka løgun náttúrunnar, en þad, sem einkum og sérílagi verdskuldar vora eptirtekt, eru þessi hin mikilvægu ord, sem frásøgun um sköpunina endar med: "Gud leit allt er hann hafdi gjørt, og sjá, þad var harla gott" (1 Mós. 1, 14. 16). Og hvernin gat þad ødruvísi verid, þarsem þad kom frá hinum almáttuga, alvitra og algóda Skapara? Og samt sem ádur, þegar vér nú lítum

yfir jörðina, og dæmum um hana, jafnvel eptir þeirri hugmynd um hið góða, sem vor takmarkaði hugur getur gjört sér um það, hvernig getum ver þá sagt, að allt sé nú harla gott? Æ! það er ekki gott, að öll skepnan andvarpar í sameiningu, og þjáist saman í þúngri eymd; það er ekki gott, að jafnvel þeir, sem hafa frumgróða andans, andvarpa hljóðliga undir ánauð dauðlegleikans. Eg vil ekki leitast við, að telja upp allan þann eymdafjölda, sem mætir börnum mannanna á hinum erfiða vegi frá vöggunni til grafarinnar; en þegar verkið, er þeir með glöðu geði áttu að vinna, opt og tíðum er fyrir þá þúng og áráng-urslaus armæða, sem eyðir andanum, í stað þess að auka hann og hressa; þegar þessi andi mannsins — hinn háleiti ódauðlegi andi — verður að þrælka einúngis fyrir nauðsynjum líkamans, verður að berjast við húngur og sjúkleik; þegar dauðinn, með lángvinnum pínandi þjáníngum eyðir afli líkama og sálar, eða þegar hann kemur snögglega, og slítur með grimd þá sem elskast hvern frá öðrum — það hlýtur allt að vera gott, einsog hegníngar Drottins ætíð eru fyrir þá, sem auðmýkja sig undir hans volduga hönd, og láta sér snúa frá villúnni; og hver maður, sem verður fyrir þessu, hann lúti Guði, en þrjózkist hverki né láti hugfallast, því hvern sem Drottinn elskar, þann tiptar hann (Hebr. 12, 6); en eg get ekki trúað því, að kjör mannsins hafi verið þannig, þegar Guð skapaði hann eptir mynd sinni, eg get ekki trúað því, að þetta hefði verið mönnunum ætlað, hefðu þeir haldið áfram að vera börn Guðs. En haldi nokkur, að allt þetta sé gott, þegar litið er á samband þess við alla aðra hluti, og afleiðíngar þess á endanum, að mannkynið geti einúngis við þjáníngar þessar undirbúizt til dýrðar þeirrar, sem við það mun opinber verða: þá aðgæti hann, að sú ánauð dauðlegleikans, sem andi mannsins andvarpar í, er ekki barátta við eintóma líkamlega eymd. Nei! það eru til hörmúngar, sárri og þýngri, sem niðurlækka meir og eyða meir, enn húngur og sjúkleiki og líkamlegur dauði. Því það, að andinn hefir háð sig holdlegleikanum, og gjört veröldina og girndir hennar að hinu æðsta, en fyrirlitið ríki Guðs og réttlæti, að þessi hin rángsnúna og spillta tilhnegíng nú finnst hjá manninum, undir

einsog edli hans gjörir vart vid sig, ad sjálfur andi mannsins er einsog hann væri fæddur í synd og getinn í ránglæti, ad hann hefir beitt drambi gegn Gudi og mönnum, ad hann hefir gjörzt hóttafullur, ad hann öfundar og hatar, ad hans sanna líf og ljós er þannig slokknad, edur ad minnsta kosti dapurt ordid: þad er þad sem í raun og veru er illt, og hid illa er aldrei gott. Og þessvegna — Nei! þannig er madurinn ekki kominn frá hendi Skapara síns.

Ad vísu eru nokkrir til, sem líta til þjóda þeirra, er vér med öllum rétti köllum villuþjódir — því sannarliga hafa þær villzt af götu sannleikans og réttindanna — og þegar þeir þá líta þar manninn í sinni mestu niburlæging, svo fátt er mannlegt eptir á honum, nema myndin og málid, þá segja þeir: þarna má sjá manninn einsog honum er edlilegt ad vera, og einsog hann var í öndverdu! af slíkum rótum er öll dýrd hins mannlega lífs sprottin! En ætti eg ad trúa því, ad þetta, sem einmitt er úrættad, sé hid upprunalega, þá yrdi eg líka ad trúa því, ad lífid geti sprottid upp af daudanum og hid illa sé rót hins góda. Ef þetta nidurdrep í allskonar smán væri hid upphaflega ástand mannkynsins, þá gæti eg ekki trúad því, ad veröldin sé ordin til af völdum hins heilaga og réttláta; þá gæti eg aldrei framar rennt augum mínum til himins og sagt: héradofan koma gódar og fullkomnar gjafir.

Bera ekki allar sögur vitni um annad betra sakleysisástand, sem hafi verid hid upphaflega ástand mannkynsins? Finnast ekki snemma á öldum merki máttar og þekkingar, er margsinnis hafa skarad fram úr mætti og þekking laungtum seinni alda. Ber ekki allt ástand þess mannkyns, sem nú er uppi, vitni um glatada dýrd, sem þad er ad berjast vid ad ná aptur? Engin þjód er svo fárád, ad hún ekki hafi einhverjar menjar þess, er ekki geti verid fundid upp af svo spilltri og úrættadri kynslód. Því ef þessir menn, sem nidurlægdir eru móts vid dýrin, eda nidur fyrir þau, hafa búid til handa sér í slíku ástandi mannlegt mál, þá er þad óskiljanlegt, hversvegna þeir hafi numid stadar vid þessa hina miklu og örduga uppgötvun og ekki tekid miklu meiri framförum. Ef þeir af sjálfsdádum hafa búid sér til hug-

myndina um guðlega stjórnendur, hafa numið af sjálfum sér að reisa ölturu, og að færa guðunum fórnir, þá skil eg ekki, hvers vegna þeir hafa allir logið upp falsguðum, og búið sér til ránga og grimdarfulla guðsþjónustu, úr því hin sanna hlaut að liggja öllu beinna við fyrir þá. En allt eðli þeirra ber vitni um eitthvað gott, er búið hafi í þeim í öndverðu, en nú er orðið skemmt og aflagað við lángvinna spillingu. Þeir snéru, segir postulinn, dýrð hins ódauðlega Guðs í líkneski dauðlegra hluta, og gøfguðu og dýrkuðu skepnuna meir enn Skaparann, þessvegna hefir Guð ofurselt þá ónýtum hug, og svívirðilegum girndum, svoað þeir slepptu allri eðlilegri hegðan (Rómv. 1, 23. 25. 26. 28).

En í öndverðu var það ekki þannin (Matth. 19, 8). Aðsønnu var ekki hið upphaflega ástand mannsins fullkomið, því hinn endanlegi er ekki hinn óendanlegi, en því var greidd gata, til að geta orðið það. Maðurinn bjó í aldingarðinum Eden, en það þurfti þó að yrkja hann og verja, ef ávartarsemi hans ætti síþelt að aukast. Sál mannsins gat tekið móti allskonar þekking, en það varð samt að útvega, auka og efla þekkínguna. Hjarta mannsins gat tekið mót øllum góðum tilfinníngum, þó var það ekki orðið svo støðugt, að ekki mætti tæla það og skemma. Maðurinn var, enn sem komið var, frjáls, einsog eingillinn yfir honum; báðir høfðu um tvær leiðir að velja; önnur lá uppeptir, til samvistar við eylífan Guð, önnur lá niðurí ánauð veikleikans, lángt niðurí djúp spillíngarinnar. En þá var ekki spillíngin komin enn; hver vera var góð eptir sinni tegund. "Guð leit allt er hann hafði gjört, og sjá, það var harla gott."

Sérhver kristileg trúarfræði, sem vitar syndina og sýnir, að hún leiði mennina til gløtunar, segir frá, hvernig síðan hafi farið. En sérhver þesskonar trúarfræði kallar líka til mannanna, að þeir snúi aptur og endurnýist eptir mynd hans, sem skapaði þá; sérhver þesskonar trúarfræði boðar líka endurlausn þá, er Guð bjó þeim, er þjáðust í ánauð veikleikans. Því hversu mjøg, sem spillíngin er orðin skepnum Guðs innrætt, þá er samt ekki tilgángur sköpunarinnar orðinn að engu. Øll skepna er orðin til af guðlegum kærleika. Afþví Guð er kærleikur, og hefir án afláts góðar gjafir að gefa, skapaði hann veröldina, og fyllti

hana lifandi verum, sem geta fundið til miskunar hans. Hann skóp manninn til meiri sælu enn þeirrar, er dýrin taka þátt í með honum; hann skóp hann til þeirrar sælu, að geta með frjálsræði viðurkennt Guð, og gefizt á vald hans og orðið æ fullkomnari undir föðurlegri vegleiðslu hans, í réttlæti og kærleika. Frjálsræði mannsins leitaði sér annars takmarks, og aflagaði það, er Guð hafði skapað, en gát samt ekki breitt vilja Guðs, né ónýtt elsku hans. Þóað skepnan sé hégómanum háð, hljóta samt enn allir kraptar að efla ráð Guðs, hvert sem þeim er ljúft eða leitt; ennþá snýr Andi Guðs hinum villta aptur, leiðir hinn hrösula, styrkir hinn veika, safnar öllum Guðs börnum betur og betur saman í einn söfnuð, sveimar yfir ókyrrleik tímans, skipar og lagar. Og þannig á úr þessari hinni sjötrudu og þjáðu skepnu að verða önnur ný í fyllingu tímans; nýir himnar eiga að koma og ný jörð, þar réttlætið býr (2 Pét. 3, 13), og Guð er allt í öllu (1 Kor. 15, 28). Til þessa skapaði Guð heiminn.

---

## 15.

## Guðleg stjórn og viðurhald.

Hver er meining vor, er vér segjumst trúa? Í daglegu máli er þetta orð optastnær viðhaft, þá er menn vilja lýsa því yfir, að þeir haldi eitthvað sé, en hafi ónógar sönnur fyrir því, svo þeir áræði ekki, að segjast vita það. Sérhver maður finnur samt, að hann raunar fer ránglega með orðið: að trúa, er hann lætur það merkja þetta; því ef vér spyrjum einhvern, hvert hann trúi því þá í raun og veru, er hann segist trúa á þenna hátt, mun hann án efa ekki bera á móti því, að hann vanti hið fullkomna samþykki sálar sinnar og hina staðföstu hvíld í viðurkendum sannindum, er hann finnur berlega að viðþarf, þarsem orðið trú á að geta orðið viðhaft, með öllu afli þýðingar sinnar. Þetta þýðir það alstaðar í heilagri ritníngu, þar er það

hvergi sama sem ástæðulitill grunur eður efasemi og reikun, heldur er trúin þar ætíð örugg eptirvænting þess er menn vona, og óbifanleg sannfæring um það, sem þeir sjá ekki (Hebr. 11, 1). Því ekki er kallað menn trúi þeim hlutum, er þeir sjá. Þú sér, að sólin gengur á himninum í fegurð sinni, þú verður þess var með skilningarvitunum, að ilur hennar leiðir fram gros og blóm úr skauti jarðarinnar; en þú trúir því, er þú fær ekki séð, að það sé máttur Guðs, er kveykt hafi loga sólarinnar og leiði hana á hinum bjarta himinvegi, að miskunsemi Guðs hafi hana sem verkfæri í hendi sér, til að skrýða jörðina fögrum skrúða og fylla hana ávöxtum. Þú sér hvað þér mætir í heiminum og kallar það sumt blídt og sumt strídt, eptirþví sem skilningarvitum þínum finnst það vera; en þú trúir, að ósýnileg hönd sé til, er leiði alla þræði æfi þinnar, hversu undarlega sem þeir liggja, þú trúir því, þó ekki fáir þú það ætíð séð, að allt verði þeim til góðs, sem elska Guð (Rómv. 8, 28). Einmitt afþví trúin snertir ósýnilega og himneska hluti, er hún aðeins tómur grunur og efasöm hugsan öllum hinum mikla fjölda, er lyptir ekki huga sínum yfir hið jarðneska; og einmitt afþví þær einar sálir, sem batnað hafa og tekið framförum, geta hafið sig upp til trúarinnar, til hinnar óbifanlegu sannfæringar um það, sem ekki verður séð, einmitt af því heimtar Kristur trúna, til þess hann skuli birta oss dýrð sína.

Án trúar getur einginn verið Guði þægur; því sá sem vill koma framfyrir Guð, verður að trúa því, að Guð sé til og umbuni þeim, er leita hans (Hebr. 11, 6). Þá trú, sem lýst er í þessum orðum, mættum vér kalla hina almennari trú, til aðgreiníngar frá þeirri trú, er einkalærdómar hins kristilega sagnaðarboðskaps teudra og heimta; það er þá trú, að syndugir menn vænta sér náðar Guðs og líknsemi fyrir Krist. Þessi einkatrú kristinna manna er þar aðeins, sem hin almennari trú er fyrir, hún styðst við hana og gjerir hana sullkomnari; því opinberun Guðs í Kristi er það, sem styrkir til hlítar samfæring vora um að Guð sé til og taki að sér mennina; og einginn sá maður, er þekkir sjálfan sig réttilega, dirfist að vænta umbunar af Guði, nema því aðeins, hann kanníst við miskun hans. En látum oss

nú stadnæmazt vid sannindi hinnar almennu trúar, og spyrja sjálfa oss: hvad vér getum vitad um afskipti Guds af veroldinni og þeim hlutum, sem eru og framfara í henni. Ver ætlum ekki í þessum vorum hugleidíngum ad fara útfyrir takmørk þau, sem manninum eru sett, vér ætlumst ekki til, ad geta gagnskodad alla leyndardóma, heldur ætlum vér ad minnast á þad, er snertir sérhvern mann, er sérhvert hjarta getur fundid til og sérhvert vit fær íhugad; vér ætlum ad minnast á þá þekkíngu, er vér megum ekkián vera, eigi lif vort ekki ad vera án stadfestu og reglu, og vonar og huggunar.

Hid fyrsta ord, er sýnir oss afskipti Guds af veroldinni er ordid, sképun. Þetta ord bendir oss til, ad medal allra endanlegra hluta, hafi ekkert þegid tilveru sína, né líf sitt, né krapt sinn, af sjálfu sér, heldur hafi allir hlutir, andlegir og líkamlegir, á himni og jørdu, upptøk sín fra Gudi. En er vér segjum, ad Gud hafi skapad og gjørt alla hluti, þá verdur oss ósjálfrátt ad bæta þessu vid: "og hann vidheldur øllum hlutum" (Kól. 1, 16 og 17); og þetta høfum vér í huga, er vér nefnum gudlegt vidurhald.

Eg gjøri rád fyrir einginn muni ímynda sér Skapara heimsins, einsog mannlegan smid, er lýkur smídi sinni og fer á burt og veit ekki hvert um hana fari vel edur illa. Smidurinn setur frá sér sigurverkid, og hjól þess snúast einsog þeim var ákvedid; en ef regla þeirra breitist, verdur smidurinn ekki var vid þad, fyrr enn hann kemur einhverntíma aptur, til ad vita, hvert vísirinn snúist leid sína. Smidurinn setur smídi sína fra sér, en hún verdur æ einsog hún var, þángadtil hún gengur úr lagi; hún breitir sér ekki sjálf, og verdur ekki fegri, því ekkert lífs-afl er í henni. En þú hid mikla meistaraverk almáttugs Guds, þú hin dásamlega náttúra! allt, sem í þér er, lifir, og allt er þad á hvíldarlausri hreifíngu, allt, sem í þér er, þróast og verdur fullvaxta, og nýar myndir koma jafnan í stad hinna fyrri, því andi hins almáttuga lífgar þig. Því segir postulinn, er hann minnist á afskipti Guds af heiminum, ad Gud gefi øllum líf og anda og alla hluti og ad hann sé ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og sèum vér (Post. 17, 25 og 27—28). Því

segir og hid helga skáld: Drottinn! hversu mørg og mikil eru verk þín, øll hefir þú þau med speki gjørt, og jørdin er full af gódgirni þinni. Allar skepnur vona á þig, ad þú gefir þeim fædslu á hæfilegum tíma. Þegar þú gefur þeim, þá safna þær, þegar þú upplýkur þinni hendi, þá verda þær saddar. Ef þú hylur andlit þitt, þá skelfast þær; ef þú tekur á burt andardrátt þeirra, þá deya þær og verda aptur ad dupti. Þegar þú útsendir Anda þinn, þá verda þær skapadar, og þú endurnýar ásýnd jardarinnar (Ps. 104, 24 o. nn. vv). Allar gódar gjafir í hinu vídlenda ríki náttúrunnar koma frá honum, er vidheldur øllum hlutum med almætti sínu. Far þú, ef þér líst, eptir því sem skilníngarvitin segja þér, og segdu ad jerdin veiti oss braud og skýin sendi oss regn, og náttúrunni sé svo háttad, ad hún annist allt hid lifanda; en eg ætla ad lypta augum sálar minnar til hans, er safnar skýunum og frjófgar jørdina, eg ætla ad eigna alla hluti almætti hans, svo segjandi: hann vøkvar fjøllin úr háselum sínum, hann lætur gras spretta handa fénadinum og áverti mønnunum til nota, er hann framleidir braud af jørdunni (Sálm. 13, 14).

En gudlegt vidurhald er einnig stjórnun er leitar ætíd ad ná føstum tilgángi og nær yfir alla hluti, smáa og stóra, því þad er ekki blindur kraptur og medvitundarlaus, er sýnir sig í øllum hlutum, heldur er þad kraptur lifanda Guds. Þá er vér heyrum alvørugefnar samrædur um mannleg kjør, verdum vér þess ad vísu varir, ad annars vegar gjøra menn rád fyrir gudlegri stjórn, en aptur heyrum vér hinsvegar þráfaldlega ord, sem eru þessari trú med øllu gagnstædileg; þad eru ordin, hendíng og tilviljun. Og ord, sem til eru í málinu, láta ætíd í ljósi hugsanir, sem til eru í sálunni; sérhver hugmynd hefir verid til í huga þér, og sérhver tilfinning í hjarta þér, ádurenn þú færir ad leita ad ordi handa henni. Sú hugmynd er því einnig almenn, ad allt, edur ad minnsta kosti mikid af því, sem vidber í heiminum, vilji til af hendingu; þad vill svo til, ad hid góda edur hid illa kemur í ljós, ad fyrirtæki vor heppnast edur ónýtast, ad vér verdum yfirbugadir edur ad vér sigrum. Og þessi hugmynd virdist og vera rétt, þegar vér skodum vidburdina á jardneskan hátt; hversu marga merkis-atburdi hefir ekki leidt af því sumu, sem

leit út til ad vera allra hluta ómerkast! Hefdir þú farid nokkurn annan veg, enn þú fórst, hefdir þú komid svipstundu fyrr edæ sídar, þá hefdi margt farid ødruvísi; hefdi sá eda sá gjørt eitt-hvad annad, enn einmitt þad, sem hann gjørdi í hugsunarleysi og tilgángslaust, þá hefdi sú og sú ógæfa ordid umflúin, eda sú og sú gæfa ekki komid fram. Þessa adferd, ad stadnæmast svona vid yfirbord vidburdanna og þad sem skilníngarvitin skynja, kallar ritníngin: skodunaradferd hins náttúrulega manns; en hvernig á þekking vor ad aukast, er vér stadnæmumst þannig vid yfir-bordid, og leitum ekki annars sambands millum hlutanna, enn þess, er vér verdum varir med skilníngarvitunum? Einmitt af því þessi hin ómerku tilefni, er vér køllum svo, koma af stad hinum mikilvægustu umbreitíngum, hljóta þau og ad vera á valdi gudlegrar stjórnar, ella væri eingin rød né regla í heiminum. Og eínginn heldur þó ad svo sé; jafnvel hjátrúin, hversu heimsku-leg og fávís, sem hún er, leitar ad ødru sambandi, enn því sem augad getur séd; allt hid mikla umtal, er vér heyrum dags-daglega um þá gæfu edur ógæfu, er fylgi sumum mønnum og fyrirtækjum, edur lodi vid einhvern tiltekinn stad, og um þá heppni edur óheppni, er jafnvel á ad stjórna teníngunum: hvad er þad annad, enn óskír medvitund um einhverja hulda reglu, er jafnvel þad, sem mest þykir hendíngunni undirorpid, stjórnist af ei ad sídur. Þannig verdur jafnvel hjátrú heimskíngjans ad vitna í móti honum, ad han viti betur og hugsi ekki þad er hann segir, þegar hann gjørir gabb ad gudlegri stjórnan, og dirfist ad kalla nokkud hendíng í ríki hins almáttka. Því þessi hugmynd er hin verulega vantrú, sem afneitar Gudi. Uppspretta allrar gudrækni er sú medvitund, ad vér lifum, hrærumst og séum í Gudi, ad máttur hans og vizka og heilagleiki og réttlæti og kær-leiki, opinberi sig alstadar í oss og umhverfis oss. Apturámót ef hendíngin fremur sinn skelfilegan leik hér á jørdu, þá er ann-adhvert eínginn Gud til á himnum, edur hann hirdir ekkert um þá hluti, sem fram fara á jørdunni, edur hann er ekki al-máttugur; eitthvad er þá til, sem ekki hlýdnast valdi hans. Sinn skelfilegan leik, sagda jeg; því med hversu mikilli léttúd, sem mennirnir leika sér ad þessari hugmynd, høfdum vér þó full røk

til ad skelfast, hvert sinn er vér med alvörugefni íhugum ástand vort á jördunni, ef hugurinn segdi oss, ad þad sé alltsaman einúngis komid undir tilviljun, og kríngumstædum, er allt ad einu vel hefdu getad verid ödruvísi, hvert mennirnir hreppi hamíngju eda óhamníngju, hvert hinu góda verdi framgengt edur ekki, hvert leidin liggi til lífs edur dauda; ef hugurinn segdi oss, ad allir hinir smágjörfu þrædir, er stjórna kjörum vorum, flæktust í stjórnleysu hvér innanum annan, og eingin hönd væri til, er héldi þeim edur stjórnadi þeim. En sá sem þetta segir, verdur þá líklega jafnframt ad halda þad sé tilviljun, ad heimurinn hafi ödlazt þá mynd, sem nú hefir hann, ad missirin skiptist á eptir föstum reglum, edur ad augad hafi lokizt upp til ad sjá, og eyrad til ad heyra. Því sé þetta ekki tilviljun, beri himin og jörd, beri fuglar himinsins og blóm jardarinnar berlega med sér vott máttar og guddómleika hins eylífa, þá getur þad ekki verid, ad Gud hafi myndad allt þetta, og látid þad sídan eiga sig sjálft, hafi látid lífid koikna og gefid þad svo á vald, rádlausum kröptum tilviljunarinnar. O! sérhver hugsan, er fædist af skynsemi vorri, sérhver hreifíng samvizku vorrar, sérhver góð tilfinníng í hjarta voru, sameinar sig öllu hinu undrunarlega og umhugsunaroerda, sem vér höfum reynt, til ad kenna oss, ad vér séum ekki gefnir á vald hendíngunni, ad hönd sé til, er stjórni og radi nidur, og vizka, er veiti einnig þeim hlutum reglu og tilgáng, sem kalladir eru tilviljun á jördunni. Þegar brædur Jósephs ætludu ad gjöra honum íllt, þegar þeir voru búnir ad ráda honum dauda, þá litu þeir upp, og sjá! flokkur Ismaelíta fór frambjá þeim (1 Mós. 37, 25); þad leit út einsog tilviljun ad þeir komu einmitt þángad og um þetta leiti; þeir fóru finna ferda ad kaupa og selja, en hinn almáttki lét þá fara ferdina fyrir sig, svo þeir væru verkfæri í hendi hans, til framkvæmdar þoí, er seinna oard mörgum manni til líknar og frelsis. Þegar dóttir Pharaós gekk til árinnar, bissi hún ekki betur, enn hún gengi einsog vant var æskuleid sína, til ad kæla sér í ánni Níl, en þenna dag flutti Gud barn í hendur henni, er hún átti ad frelsa úr opinni kverk daudans (2 Mós. 2, 5). Og sá, er hún frelsti, vard mikill og ávann sér ódaudlegt nafn, hann frelsti

þjód sína undan ánaudar-oki, hann vard løggjafi hennar, og hinir vitrustu løggjafar hafa sídan af honum lært, og hinir merkustu atburdir fjarlægra tíma voru látnir fylgja því lifi, er dóttir Pharaós frelsti á þeirri gaungu, er hún vissi á eingan hátt med hvílíkum eyrindum hún var send.

"Mínar hugsanir eru ekki ydar hugsanir, og ydar vegir eru ekki mínir vegir" (Es. 55, 8); hversu optlega segir hinn almáttki oss þetta, er hann ónýtir hinar kænleguftu rádagjørdir vorar, er vér førum veg vorn sjáandi, med skírum og stadfostum vilja, ad ná tilteknu takmarki, og verdum þó ad lokunum varir vid, ad vér erum komnir í alla adra átt, enn vér høfdum ásett oss ad stefna. Hversu optlega veitir hann einnig tilgánginn, er vér høfdum eingan tilgáng, og hann, er ad vitni hins helga skálds veitir loptsjónunum vit (Iob. 38, 36), hann gjørir einnig vit úr hinum hugsunarlausu athøfnum mannanna. Því hvert sem madurinn veit af því edur ekki, geingur hann á vegum Guds, hann er fús edur ófús þjónn, en ætíd er hann verkfæri í hendi Guds. Helgar bækur hins gamla testamentis kalla hinn almáttuga hvad eptir annad Iehóvah Zebaoth, þad er: Drottinn hersveitanna, því allir kraptar á himni og jørdu þjóna honum, bædi þeir sem medvitund hafa og þeir sem ekki hafa medvitund. Hann gjørir vindana ad eyrindsrekum sínum og eldslogana ad þjónum sínum; en hann leidir og mennina þángad sem hann vill nota þá, og kveykir hugsanir og álygtanir í hjørtum þeirra. Til hins ræuta og særda sendir hann hinn samverska mann, til ad hella vidsmjøri í sár hans, til hinnar einmana og hrelldu módur sendir hann Jóhannes, ad vera henni í sonar stad; þessvegna átt þú ad þakka Gudi allt þad, er þú þakkar mønnum, því Gud sendir þá á hentugum tíma og leggur hjálpina í hønd þeirra. Einn geingur út til ad vera vøndur Guds hegníngar og leyptranda sverd, til ad hegna hinum drambsømu, ad eyda hinu ónýta, ad vekja þjódirnar af svefni þeirra og kenna þeim ad audmýkja sig undir Guds voldugа hønd; annar er sendur ad temja hina óstjórnlegu kraptana, ad koma reglu á hid truflada líf, ad gródursetja og vernda hina føgru rót vísindanna, ad færa þjódunum blessun fridarins, og reisa musteri hinum hæsta. Gud hefir ennþá máttk-

ari þjóna, er standa nær augliti hans, heyra rödd orda hans og fremja þad er hann býdur þeim (Sálm. 103, 20). Englarnir eru einnig þjónustubundnir andar, sendir þeim til adstodar, er ödlast eiga sáluhjálpina (Hebr. 1, 14). Hvernig þessar verur séu, og hvernig þær láti krapt sinn í ljósi, þad er oss ekki fremur birt, enn hvad vér eigum sjálfir ad verda á sídan. En hver mundi efast um, ad verur séu til mönnunum ædri, allar skapadar, einsog þeir, allar þjónustubundnir andar, er hlýdnast verdi gudlegum vilja, en séu samt líkari Gudi, enn vér erum, ad vizku og heilagleik og mætti, því þær séu slíkar sem vér eigum ad verda, og séu gæddar mynd Guds á fullkomnara hátt, enn vér getum ordid hér í veikleika vorum, þarsem vér erum bundnir hlekkjum syndar og vanvizku. Vér eigum — einsog postulinn segir, er hann varar vid engladýrkun — ekki ad dæma um þá hluti, er vér þekkjum ekki, og ekki reyna til ad fá vitneskju um þad, sem á ad vera oss hulid í þessu lífi, um edlisfar og veru englanna, edur med hverjum hætti athafnir þeirra séu og vernd sú, er þeir veita oss; því ef vér á slíkan hátt viljum komast ad meiru, enn oss er opinberad, flækjum vér oss í efnislausan og sjálfrádan og reikulan leik hugmyndanna, er spillir sannri gudhrædslu, í stad þess ad efla hana. Stjarnan skín nidur til vor af himninum med jöfnu og ókvikulu ljósi, er leidir oss úr efa um, ad hún sé til, og kveykir í oss grun um hina björtu bústadi í húsi Födur vors, er vér eigum ad fá ad þekkja í ödru betra lífi; en hvernig þeim sé háttad í raun og veru, getum vér ekki séd hédan af jördu. Þannig er og því ljósi varid, er vér grillum ædri verur í med adstod opinberunarinnar. Ósýnilegar og máttugar verur umkringja oss á alla vegu, ekki til þess vér skulum óttast, heldur til þess vér skulum gledjast af því. Þad er sagt í einni af hinum helgu fornbókum, ad þegar Elísa spámadur sendi svein sinn útúr borginni, og hann sá ad borgin var umkringd af hermanna lidi med hestum og vögnum, þá hafi sveinninn ordid hræddur og sagt: hvad er nú til ráda? Þá svaradi spámadurinn honum: óttast þú ekki, því vid höfum meira lid, enn þeir. Og Elísa bad og sagdi: Drottinn! ljúk þú upp augum hans, svo hann megi sjá! Þá lauk Drottinn upp augum sveinsins og

hann sá; og sjá, þá var fjallid alþakid glóandi hestum og vögnum allt í kríngum Elísa (2 Kóng. 6. 15 o. m. fl.). Ad vísu veit eg ad þessi fyrirburdur birtist í slíkum myndum, er jardneskur madur mætti fá gripid; en hversu optlega verdur oss ad koma til hugar, hvad vér mundum sjá, ef brestur skilníngarvita vorra væri bættur! því í hinni vídlendu veröld, í himnunum og á jördunni hrærist hvervetna ótölulegur fjöldi andlegra og líkamlegra krapta, og þeir æda ekki hverjir innanum adra í stjórnleysu og ruglíngi, því augad, sem lítur yfir alheiminn, sér hvernig þeir safnast allir saman til reglu og fegurdar, einsog hinir smágjörfu þrædir í haglega ofnu tjaldi, edur hinar mörgu raddir í hljómfögrum samsaung. Því öll veldi og allir kraptar þjóna Gudi.

Til ad geta skodad heiminn gudrækilega, þurfum vér fyrst af öllu, ad hafna þeirri hinni huggunarlausu og skadsamlegu hugmynd um hendíng og tilviljun, er trufli rás hlutanna í veröldinni og rádi breitíngum þeirra og gæfu og ógæfu mannanna. Svo sannarlega sem eg veit ad Gud er til, svo veit eg og, ad auga Guds vakir og hönd hans stjórnar; og svo sannarlega sem Gud stjórnar, getur ekkert í hans ómælanlegu ríki gengid undan valdi hans, er þar eingu gleymt og ekkert vanrækt, því einsog Gud er fullkominn, svo er og stjórn hans fullkomin. Med skilníngarvitum mínum verd eg optlega var vid eintómt regluleysid, og med vitinu get eg optlega ekki gripid einstaka vidburdi á annan hátt, enn ad þeir séu komnir til ad trufla; en eg á þad sem er áreidanlegra, enn skilníngarvitin og vitid, er kemst ekki útfyrir hid sýnilega, og þad er hin rótgróna medvitund, er ekki verdur slitin frá veru minni og bodar mér hinn almáttuga og alstadarnálæga Gud.

En jafnframt og sumir samþykkjast oss í öllu þessu, jafnframt og þeir kannast vid, ad atburdir jardarinnar geti ekki verid seldir á vald blindum og sjálfrádum leik tilviljunarinnar, leida þeir framá hinn mikla leikvöll veraldarinnar forlög, edur eylífa, fyrirfram setta ákvördun, sem allir hlutir renna eptir afmarkada leid sína, einsog huettirnir renna um himinhvolfid, samkvæmt hinu óbreitanlega lögmáli. Þad sem framfer í veröld-

inni, segja þeir, og það sem mætir oss menunum, það er alltsaman ákvardað fyrirfram, vér gaungum þá leid, sem oss er ávísad, vér gjørum og þolum það, sem sérhverjum af oss er úthlutad, og ekkert vald og eingir kveinstafir megna ad breita hinu óbeygjanlegu rádi forlaganna. Þessi ræda lætur í eyrum vorum sem rødd vizkuunar, það er ekki hid lettúdarfulla og ósvífna álit, ad vér getum adhafzt allt það er vér viljum, edur ad adrir geti farid med oss, einsog þeir vilja; það virdist vera hjartaprýdi, ad taka vid forløgum sínum, án kveins og umkvørtunar; það virdist vera gøfuglyndi, ad ásaka ekki menuina um hid illa, er þeir fremja gegn oss, heldur ad álita þá sem verkfæri ædri stjórnar; það virdist sem það auki dýrd gudlegs almættis, er vér eignum Gudi alla vidburdi, er vér segjum ad hinar frjálsu gjørdir mannanna, er menn kalla, hlýdi ad øllu leiti bendingu hans, einsog hin líkamlega náttúran.

En ef vér íhugum gjørr þessa speki, hvad er það þá, sem hún kennir oss? Allir hlutir fara fram fyrir augum forlagaspekíngsins, einsog fyrir augum annara manna; mannkynid velkist í hrygdd og kæti, sumir láta girndir sínar ráda, og sumir reyna hina erdugu baráttu vid tilhneigíngar hjarta síns, sumir leggja alla stund á þá breitni, sem køllud er heidarleg og nytsøm, en sumir saurga hendur sínar á illgjørdum, sumir stæra sig af gódverkum sínum og sumir ásaka sig vegna synda sinna, sumir lifa hugsunarlausir dag frá degi og sumir bidja án afláts, og fela sig og allt sem þeim er kært á hendur þeim, er øllum líknar. En í øllu þessu þykist spekíngurinn sjá, ad sérhver fremur það, sem honum er fyrirhugad, og getur ekki breitt því á nokkurn hátt; sá sem lofar sjálfan sig, getur ekki látid það vera, því hann er ætladur til þeirrar heimsku ad vera hégómlegur, en í raun réttri á hann ekkert lof skilid, því hann hefir einúngis adhafzt það, sem óvidrádanlegur máttur rak hann til; sá sem ásakar sjálfan sig, getur ekki ad því gjørt, en í raun réttri hefir hann ekki unnid til neinnar ávítu, því hann hefir adeins adhafzt það, sem hann var ætladur til; þessi synd og svívirdíng og illvirki mátti ekki missast úr kedju vidburdanna, og er hann framdi þetta, hefir hann einúngis framkvæmt vilja hins almáttuga. Spekíngurinn lofar

hlutskipti sjálfs sín, afþví fjársjódum þekkíngarinnar hefir verid lokid upp fyrir honum, afþví honum hefir verid ætlad ad sjá, ad allt er gott á sínum stad, afþví hann er frelstur af sárum svida idrunarinnar, svoad hann, í øllum athøfnum sjálfs sín og øllum athøfnum annara manna, í sérhverri dygd og sérhverjum lesti, sér adeins ósjálfrád forløg heimsins, einsog þau hafa verid fyrirhugud frá eylífd, en koma nú í ljós fyrir mannlegum augum.

Ottaleg skelfíng fyllir hjarta mitt, jafnskjótt sem eg reyni, ad telja mér trú um sannindi þessarar speki; þad er einsog allar gódar og gudrækilegar og helgar tilfinningar ætli þá ad heimsækja mig í sídasta sinni til sorglegs vidskilnadar um aldur og æfi. Þad liggur í augum uppi, hvad leida mundi af þessari kenníngu, ef hún nædi ad ødlast fullt vald yfir hugskoti og gjørdum manna, ef mennirnir færu fyrir alvøru ad meta sig lausa vid frjálsrædi viljans, og jafnframt vid allan reikníngskap og ábyrgd, ef mennirnir gætu kastad byrdi synda sinna á Gud og ásakad Gud í stad sjálfra sín. En láti eg þessa kenníngu tala til hjarta míns, vaknar samvizkan med øllu afli sínu, og hennar helgri rødd dirfist eg aldrei ad afneita, og get eg aldrei afneitad, og vil eg aldrei afneita. Eg rif í sundur net allra þeirra efasemda, er hinn logni skarpleikur ætladi sér ad flækja mig í, eg lypti høndum mínum til himins, svo mælandi: allur vísdómur hagligra ályktana er ekkert ad meta á móti þeirri sannfæríng, er segir mér, ó þú réttláti Gud! ad eg eigi ad gjøra þér reikníngskap fyrir sjálfan mig. Og þessvegna veit eg og, ad stjórn þín er ekki þari folgin, ad þú hafir fyrirfram ákvardad þad allt, hvernig eg ætti ad verda og hvad eg skyldi adhafast. Þá er þú skópst mig, þá er þú gafst mér þad náttúrufar og þær kríngumstædur, er gjøra mig slíkan sem eg er, hefir þú og afmarkad mér svid kjósanlegra athafna, er eg get ekki útúr komizt. Vilji eg nú af þessum athøfnum kjósa mér einhverja, er trufla mundi rétta framrás veraldar atburdanna, ef henni yrdi framgengt, þá tekur stjórn þín í taumana, og eydir fyrirætlunum mínum og feykir á burt einsog fisi rádagjørdum mínum, hversu viturlegar og øruggar sem þær virdtust vera. En verdi athøfn minni

framgengt, hnígur hún og undir þína stjórn; því, er eg gjørdi í illum hug, snýr þú til gódls, en eg á ad standa þér reikníngskap af vilja mínum; og þad er eg gjørdi í gódum hug — því er midur! eg veit ekki hvert þad muni heppnast, einsvel og vongladar ímyndanir hafa heitid mér, en þad veit eg, ad þú fyrirlítur ekki minn gódan vilja. Eg er því ekki svo frjáls, ád eg geti gjørt þad eg vilji og gengid ad heya baráttu vid þig; en eg er ekki heldur svo bundinn, ad vilji minn sé hádur ósigranda valdi. Eg er frjáls ad vidleitni vilja míns, en jafnframt er eg ad øllu leiti á valdi þeirrar stjórnar, er birt hefir løgmál sitt í þessum ordum: Gud mun endurgjalda sérhverjum eptir verkum hans; þeim sem med stødugleika í gódum verkum leita sér vegsemdar og heidurs og ódaudleika, mun hann veita eylíst líf; en þeim, er mótþróanlegir eru og ekki hlýdnast sannleikanum, heldur hlýdnast óréttlætinu, mun hann gjalda brædi og reidi (Róm. 2, 6 o. u. v.). Því þad sem madurinn sáir, þad mun hann og uppskera (Gal. 6, 7).

---

# 16.

## Forsjónin.

Hverjum tíma fylgir sín alvára, en sumir tíma eru ødrum tímum alvørumeiri og þúngbærari; þad er einsog hørmúngar þær, sem vanar eru ad vitja manns og manns á stángli, flykkist þá saman í hersveitir, til ad gánga yfir lend og lýdi; þá eru hrellíngar óg harmkvæli á nálægum tíma, og hid ókomna þykir vofa yfir med skelfíngar. Sá tími, sem vér erum settir ad lifa á, hefir og haft sína þjáníng, sú kynslód, sem nú lifir á jørdunni, er alin upp og ordin gømul í styrjøld og uppreistum og allskonar hørmúngum, og þótt vér segdum á stundum: nú er komin helgihvíld, nú getur fridurinn reist aptur sitt hid gullna veldi, þá var ekki rónni ad treysta. Vér ætlum ekki ad fara ad telja fram harmkvælin; allir vita hvad fram er komid, og eínginn veit hvad í vændum er.

En hvílíkir eru mennirnir á jørdunni, þegar alvara tímans hittir þá? Marga fyrirhittir hún svo stadda, ad þeir sóa lífinu í léttúd og galsa og gjálífi, einsog ekkert íllt væri til á jørdunni; ógæfan er ekki ennþá búin ad vitja þeirra, sjúkleiki og sorg hefir ekki ennþá brotid sér veg inní hús þeirra, og þá hirda þeir ekki um, þótt adrir fyrirfarist í eymd sinni, þeir hrada sér sem skjótast frá hinum hryggilegu hugleidíngum, og huggast vid ad eymdin muni líklega sneida frambjá sjálfum þeim. Edur hins vegar ógæfan sjálf, eymd og volædi þjódanna og skelfíngar þær, er samfara verda drepsóttum og styrjøld og upphlaupum, verda einsog sjónarleikur handa hinum nýúngagjarna skríl, og svala ad nokkru leiti ósløkkvanlegum þorsta hans eptir nýlundum; slíkum mønnum finnst ad lífid einsog þad er hversdagslega, sé leidinlegt og þýdíngarlaust, og þeim hlýtur ad finnast þad svo, því þeir nota ekki lífid til trúlyndrar idjusemi, til háleitrar vidleitni ad afla sér þekkíngar, edur til rósamra unadsemda kærleikans; ekkert í heiminum er þeim kært í raun og veru, bikar munadarins hafa þeir fyrir laungu í botn drukkid, og afþví hann var sú hin eina nautn þeirra, leita þeir sér nú ad ødrum áhrifameiri leik, þeir leika sér ad ógæfunni, þángadtil hún fer ad fremja sinn skelfilegan leik á sjálfum þeim. Alvara tímans hittir marga fyrir, sem voudir eru og samvizkulausir, þeir hirda ekki hót um adferdina, ef þeir adeins geta framkomid ásetníngi sínum, og ásetníngur þeirra er illur og skadvænn; þessvegna verda þeir gladir vid óróann, því þeir vona hann geti ordid verkfæri í hendi ránglætisins; hinn voldugi vonar, ad geta hrundid øllum skordum; sá sem ekkert á, er hann geti misst, vonar hann geti unnid þad, sem adrir missa; og þannig leida kúganin og uppreistin hver adra, og troda undir fótum sér hin ágætustu blóm og gera hinar fegurstu vonir ad eingu. Alvara tímans hittir marga fyrir í þogn og ørvinglun, vér getum ekki ásakad þá um, ad þeir, sakir léttudar, gefi ekki gaum ad ógæfunni, því þeir gjøra hana of ógurlega í augum sér og gremjast offáran, og sérhver von er flúin úr þeirra huglausu hjørtum;

Þeir sem betri eru, flýa í alvøru tímans undir vernd gudlegrar forsjónar, og sæll er sá, sem búid getur í skjóli hennar!

Hvada huggun, hvada von væri hér á jördunni, ef vér værum án þeirrar trúar, ad á himnum uppi sé vakandi auga, er lítur yfir ókominn tíma, sem hulinn er fyrir vorum augum, og sér í einu hid ókomna og hid nálæga; ad almáttug hönd sé til, er hafi vald yfir sérhverri athöfn og sérhverri rádagjörd, er segi til atburdanna: kom! og þá koma þeir, far! og þá fara þeir? Gudleg forsjón er öll vor huggun og öll vor von — en segir þessi kenning oss þa ekkert, utan oss beri ad vera áhyggjulausum og ókvídnum? Megum vér lifa og láta í heiminum einsog vér viljum, vera einsog vér viljum, og svo rétt sem benda gudlegri forsjón, ad hún skuli vera þjónn heimsku vorrar og synda, svo allir hlutir skuli samt sem ádur verda oss ad gódu? Eg finn í ordi Guds míns huggunarikustu fyrirheit um vernd, hinn himneski Fadirinn býdur oss sjálfur ad felast sér á vald; en eg finn þar einnig ritad, ad einginn geti þjónad tveimur herrum, svo viljir þú kalla hinn almáttuga herra þinn, þegar þú þarft verndar vid, þá áttu ádur ad kalla hann herra, þegar þér ber ad hlýda. Eg finn ritad gudlegt loford, ad allar vorar naudsynjar skuli veitast oss, en eg finn og ritad þetta gudlega bodord: leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis (Matth. 6, 24. 33).

Þetta eru mikilvægar hugleidingar, látum oss því ekki hrinda þeim úr huga vorum, heldur íhuga vandlega med alvörugefni og gudrækni, hvilik ad sé hin kristilega kenning um forsjónina, og þá munum vér fá ad sjá alla þýdingu þessarra hinna fögru orda postulans: vér vitum ad allir hlutir snúast þeim til góds, er elska Gud (Rómv. 8, 28).

Þessar hugmyndir: gudleg stjórn og gudleg forsjón, eru ekki samrar þýdingar. Gud stjórnar öllu, stjórn hans nær yfir vonda og góda, yfir réttláta og rángláta, yfir þá, sem vid hana kannast, og þá, sem ekki gjöra þad. Þú dylur hugsan þína í brjósti þér, en hinn alsjáandi vakir einnig yfir henni, og þér er ekki leyft ad framkvæma sérhverja hugsan, og ordid, sem flogid er yfir varir þér, og verkid, sem hönd þín hefir framid, er ekki framar á þínu valdi, hverttvegga hnígur þad undir stjórn hins hæsta, og hann lætur optsinnis allt annad af því leida, enn þú hafdir tilætlad, hann kallar þad fram, sem einginn gaf

gaum ad, og blæs því á burt, sem bedid var eptir med undr-andi eptirvænting. Einginn madur getur 'komizt undan stjórn-arhønd Guds; en dirfumst vér ad segja, ad gudleg forsjón sé eins-yfirgripsmikil? Med ordinu forsjón meinum vér þau afskipti Guds af mønnunum, ad hann ber umhyggju fyrir þeim, og stjórnar øllum hlutum, svoad þeir hljóti ad verda þeim til góds. Dirfumst vér nú einnig ad segja, ad gudleg stjórn auníst sér-hvern mann á þenna hátt? Þá stædi oss á sama, hvad vér ad-hefdumst í veraldinni; hvert sem þad væri viturlegt eda fávís-legt, hvert sem þad væri gott edur illt, þá snéri gudleg forsjón því ølluſaman oss til blessunar.

Í fyrsta lagi á gudleg forsjón ekki ad leysa oss undan þeirri skyldu, ad neyta þeirra vitsmuna, sem Gud hefir gefid oss til ad hugleida hlutina og þad sem líklegt er ad af þeim rísi. Kastadu þér hér ofanfyrir, sagdi freist-arinn fordumdaga, því ritad er: Gud mun bjóda englum sín-um ad sjá þér borgid, og þeir munu bera þig á høndum sér, ad ekki steytir þú fót þinn vid steini (Matth. 4, 6). En þannig talar einnsaman freistarinn, hinn illi og ráugsnúni andi, er vill leida oss til fávizku og sídan til falls. Pad er svo haudhægt, ad hafast ad í veraldinni hvad sem menn vilja, ad steypa sér gálauslega í hvert vandrædid, rétt einsog blindar fýsnir hjartans hvetja til, og treysta svo hinni miskunnarríku forsjón í øllum þeim krøggum, sem hljóta ad verda ávøxtur slíkrar breytni. En hinn gódi andi, sem í oss býr, svarar freistaranum á þessa leid: þad er og ritad: þú átt ekki ad freista Drottins Guds þíns; því þá adeins getum vér óhultir falid málefni vort Gudi á hendur, er vér høfum farid skynsamlega ad rádi voru; þá adeins megum vér óhultir treysta því, ad hvert sem þad kemur fram edur ekki, er vér høfum gjørt rád fyrir, muni samt speki hins hæsta láta málefni vort fá hin æskileguſtu afdrif.

Samt er ekki fyrirhyggja og vit einhlýtt til þess vér meg-um fela vegu vora Gudi á vald, því þá adeins megum vér vænta oss heilla og blessunar, er vér leggjum stund á Guds réttlæti. Ad vísu er einnig øll andstyggd óréttlætisins á valdi gudlegrar stjórnar, hinn óréttvísi á alls ekk-

ert vald á jördunni, utan honum sé veitt það að ofan (Jóh. 19, 11), og Guð veiti honum það, afþví hann ætlar að láta einnig það þjóna sér. En þótt Guði sýnist að snúa því til góðs, sem mennirnir gjöra í illum tilgángi (1 Mós. 50, 20), mundum vér fyrir þá skuld dirfast að ætla það muni verða til góðs sjálfum þeim, er hugsa og vilja og fremja hið illa? Þá væri Guð þjónn syndarinnar? En því er einganveginn svo varið; guðleg stjórn er réttlát, hún miðar til að endurgjalda sérhverjum eptir verkum hans, og svo sannarlega, sem hver sá, er gjörir hið góða, skal ödlast vegsemd og heiður og frið, svo skal og þjáníng og ótti koma yfir sálu sérhvers manns, er illsku drýgir (Rómv. 2, 9. 10). Og sá, er hin réttláta heguíng mætir, hlýtur að vísu að kannast við, að hann sé á valdi guðlegra yfirráða, en því aðeins getur hann orðið var guðlegrar forsjónar í slíkum atburðum, að hegníngin snúi honum á réttan veg; en sá sem herðir hjarta sitt og stendur í gegn Guði, hann fær að reyna, að Guð stendur einnig í gegn honum.

"Allir hlutir verða að snúast þeim til góðs, er elska Guð". En þeim er ekki elska Guð, hvernig ætti nokkur hlutur að geta orðið þeim til góðs, til sannrar hamíngju og blessunar? Það sem kallað er hamíngja þeirra, er í raun og veru eingin hamíngja, verscælli sálu þeirra verður það að eingri nautn, og óstjórnlegar girndir þeirra spilla fyrir þeim hverri stund, er hefði mátt vera góð og skemtileg, því einginn friður fylgir ágirnd og hégómagirni og drambsemi og reiði og hatri og öfund, eður öðrum illum girndum. Allt það, er guðrækinn maður má réttilega kalla blessun, verður slíkum mönnum að snöru og til falls, og gefur þeim nýtt tilefni til að selja sig á vald hersýnilegum eður huldum syndum. En ef Guð leiðir þá um reynsluveg mótlætínganna, og þeir vilja ekki auðmýkja sig undir hans volduga hönd, og elska ekki að síður eintóma veröldina og sjálfa sig, þá illkast þeirra óstýrilátt geð, og vantrú og guðlast festa rætur í því, eður þeir kasta sér í fáng svívirðíngarinnar, og gleyma Guði og veröldinni og sjálfum sér. Þannig snúast allir hlutir þeim til spillíngar.

Þeir einir, sem elska Guð, geta því fundið, að vernd líknsamrar og miskunsamrar forsjónar gæti þeirra; en þeim ber og að trúa því, að allir hlutir snúist þeim til góðs, og þessa skyldu, að treysta Guði, eiga þeir að rækja, ekki síður enn hverja aðra skyldu.

Þegar menn á fyrri dögum nefndu hið heilaga nafn guðlegrar forsjónar, þá viðurkenndi hver kristinn maður, að oss beri að lúta þeim, sem einnsaman er vitur, þá trúði hann, þótt hann sæi ekki, og þóað vegir forsjónarinnar væru honum myrkir og óransakanlegir, vissi hann, að þetta hlýtur svo að vera, meðan vér gaungum hér í fjötrum líkamans, meðan vér þekkjum aðeins hina nálægu stund, en þekkjum ekki ókominn tíma, er þaðan á að spretta. Þá var enn lotning til í sálum mannanna, þeir stefndu ekki Guði fram fyrir dóm sinn, og héldu ekki sér væri óhætt að þræta við hann, miklu heldur, ef ógudlegar hugsanir vantrúarinnar tóku að hreifa sér í sálu þeirra, reyndu þeir að kefja þær, svosem það er illt væri, og dirfðust ekki að ljá hinni vondu hugsan vond orð, því þeir fundu í hjörtum sínum að maðurinn á að þegja fyrir Guði. Það er oss kunnugt, og vér heyrum það dögum optar, að þetta er orðið ødruvísi; nú heyrast ekki hinar lágu andvarpanir hræddrar sálar, er svo segir: Drottinn! hversu lengi ætlar þú að dvelja? heldur er það hið drambsama vit, er vér heyrum djarflega spyrja og segja: hvað kemur til? því það þykist eiga fullan rétt á að neita, þegar það skilur ekki, — að neita því, sem eingin maður dirfist að neita, né getur neitað í hjarta sér, að alvitur og føðurleg forsjón Guðs leiði hvern, er á Drottinn vonar, að hans réttu takmarki.

Að vísu ber þér og að íhuga vegu Guðs, og dásamlega handleiðslu hans á þér, allt frá þeim tíma, er þú í barnæsku þinni leitaðir hans ofar stjørnunum, og síðan á hverjum degi, er þú hefir fundið, að Guð er ekki fjarlægur neinum af oss. En hugur þinn á að vera auðmjúkur; þegar þú skilur, áttu að gleðjast af því ljósi, er Guð lætur renna upp fyrir augum þér; þegar þú skilur ekki, áttu að lúta og gleðjast af að sjá er til, er sér af vizku sinni það, sem hulið er þínu viti. En hve miklu meira mundu mennirnar skilja af handleiðslu Guðs, ef þeir vildu kann-

ast vid til hvers hún midar. Því einsog vèr verdum þess optlega varir, þegar hjørtu mannanna ljúkast upp fyrir oss, ad stundleg gæfa og gædi þessa heims eru þeim fyrir øllu, en Guds ríki og rèttlæti sem alls ekkert, edur þá ad minnsta kosti miklu lèttvægari og næstum. því einsog eintómt verkfæri til ad geta nád ádur søgdum gædum: svo heimta þeir og, ad gudleg forsjón skuli stjórna øllum hlutum svo, ad þeir geti nád þeirri gæfu, sem allar óskir þeirra hníga ad. Þessvegna heyrum vèr svo optlega, ad þegar þeir íhuga þá vegu, er þeir hafa verid leiddir á gegnum lífid, þá þykjast þeir skilja þá og dást ad þeim, þegar þeir sjá ad þeir hafa verid leiddir til stundlegrar hamíngju á annan hátt, enn þeir høfdu sjálfir girnzt og til ætlazt, ad missir einnar óskar, vard þeim vegur til ad ødlast adra mikilvægri, ad óvina ofsóknir urdu ad gjøra frægd þeirra ad meiri, og margt annad þessháttar. En sjái þeir ekki neinn slíkan tilgáng í handleidslu Guds, kalla þeir hana myrka og óransakanlega — einsog hún gæti ekki midad til neinna annara gæda. Ad sønnu vidurkennir hver gudrækinn madur þakklátlega, hvernig Gud hefir einnig á þennan hátt margopt borid sèr sjálfum vitni fyrir honum; en þegar hann er ad íhuga handleidslu gudlegrar forsjónar, spyr samt hugur hans um lángtum mikilvægri hluti, hann spyr: hvernig hefir Gud leidt mig til sín? Med hverjum velgjørdum, med hverjum mótlætingum hefir Gud komid mèr til ad vidurkenna, ad finna, ad ødlast þau audæfi, er þjófar geta ekki stolid á burt og mølur og rid fær ekki grandad, komid mèr til ad girnast og geta smakkad þá sælu, sem heimurinn fær ekki veitt og ekki heldur á burtu tekid? hvernig hefir sál mín ordid hreinsud af óhreinum girndum? hvernig hefir hid veika ordid styrkt í mèr, og hid ofsterka ordid audmýkt? í stuttu máli: hvernig hefir Gud leidt mig til síns ríkis og rèttlætis? Því er midur! þetta hefir alltsaman ekki verid nema byrjun hingadtil; en þótt Guds ríki sè ekki í oss, nema einsog veikur vísir, þá høfum vèr ekki unnid til ónýtis og ekki mædst til ónýtis, ef þessi vísir dafnar meir og meir, heldur hefir gudleg forsjón nádarsamlega annazt oss.

Ef vèr enn rækjum þá kristilega skyldu vora, ad bidja med þessum ordum: Fadir vor á himnum, frelsa oss frá illu! getum

vér þá ætlað, að vér höfum tæmt þýðingu þessarar bænar, er vér biðjum Guð, að verndа líkama vorn fyrir ólíkjan sjúkleikans, og eignir vorar fyrir höndum þjófa og svikara, og mannorð vort fyrir túngu hins bakmálga? þekkjum vér þá ekkert annað, er vér getum kallað illt? Ó! samvizka sérhvers manns hlýtur að samþykkjast máli voru, er vér segjum, að þessi bæn hafi miklu hjartnæmari þýðingu, að í henni ákalli hver guðrækinn maður sinn himneskan Föður, og biðji hann fyrst og framast, að frelsa sig af valdi villunnar og fávizkunnar, að vernda sig fyrir freistni og falli og leysa sig úr ánauð syndarinnar. Vér þykjumst nokkurnveginn vita hvað horfa mundi til stundlegrar hamíngju vorrar — þótt það fari margsinnis fjærri vér vitum það — og þessvegna dirfumst vér einatt að lasta vegu forsjónarinnar í þessu efni. En mundi nokkur þykjast þekkja hið hulda djúp hjarta síns, og vita af hverjum breystum hann þurfi enn að verða hreinsaður, og í hverjum dygðum hann þurfi enn að styrkjast? mundi nokkur ætla hann geti sjálfur ákveðið, hversu mikið gott hann geti þolað og hversu mikið illt hann verði að þola, til að ná því, sem er lífsins æðsta ákvörðun, það er Guðs ríki og hans réttlæti?

Nei! þetta vitum vér ekki, en vér vitum einúngis hitt, því svo segir Guðs orð oss, að sá, sem leitar, muni finna (Matth. 7, 8). Leitið fyrst, leitið seint og snemma, leitið í kæti og í hryggð að Guðs ríki og hans réttlæti, þá munuð þér og reyna, að dásamlegir vegir guðlegrar forsjónar leiða yður þángað. Og þá bætir hinn himneski Líknarinn þessu við: þá munuð þér og fá í viðbót allt hitt, sem heiðingjarnir sækjast eptir. Verið því ekki hugsjúkir um líf yðvart, hvað þér skuluð eta og drekka, eður hverju þér skuluð klæðast. Vor himneskur Faðir veit, að vér höfum alls þessa þörf (Matth. 6, 31-32), og þegar vér gjörum það, sem í voru valdi stendur, mun hann ekki sleppa af oss sinni örlætis hönd. Hann, sem fæðir fuglana undir himninum, hann, sem skrýðir liljurnar á vellinum, mun ekki láta hann örmagnast í stundlegum skorti, er hefir af alhuga leitað hans ríkis og réttlætis. Og hvað sem vér að öðru leiti áviinnum eður missum í þessum heimi, hvað sem vér að öðru leiti sjáum koma eður fara,

þá kemur þó jafnan Guðs ríki nær og nær, því til þess miðar stjórn hins almáttuga á veröldinni; og Guðs ríki kemur til sérhvers manns, er leitar þess, því það hefir guðleg forsjón fyrirhugað hverjum þeim, er sækist eptir því fyrst og umfram alla hluti; honum verða allir hlutir að snúast til góðs. Við slíkan mátt guðlegrar forsjónar kannaðist postulinn, er hann sagði: vér hrósum oss jafnvel af hörmúngum vorum, því vér vitum, að hörmúngin aflar staðuglyndis, en staðuglyndið aflar reynslu, en reynslan aflar vonar, og vonin bregðst ekki (Rómv. 5, 3-4). Nei! hvernig ætti og vonin að bregðast þeim, er veit, einsog postulinn, að hvorki líf, né dauði, né höfðingjadæmi, né völd, hvorki hið nálæga, né hið ókomna, hvorki hæð, né dýpt, né nokkur önnur skepna, muni geta skilið oss við Guðs kærleika í Kristi Jesú, Drottni vorum (Rómv. 8, 38. 39).

---

## 17.

## Maðurinn.

### Fyrri hugleiðingin.

Einn maður, einn einstakur maður — hversu lítið fer ekki fyrir honum innanum allt mannkynið, innanum hinn ógurlega óumræðilega grúa af mönnum, sem gánga, gengið hafa og að líkindum gánga munu yfir hina víðlendu veröld! Það er einsog einn dropi móti öllu veraldarhafinu; þó hann sé tekinn burt, þá saknar hans einginn, og þó honum sé við bætt, þá sér einginn mun á hafinu. Hversu miklir sem vér þykjumst, hversu opt sem vér viljum gjöra vorar athafnir, vora gleði og vora hryggð einsog að miðpúnkti veraldarinnar, þá verður samt þóttinn að hverfa, undireins og vér rennum huga vorum til alheimsins. Einstöku mönnum hefir að sönnu tekizt að gjöra líf sitt merkilegt, að rita nafn sitt í bækur ókominna alda, og láta athafnir sínar ná útyfir æfiskeið það, er þeim var ákveðið. Þó var það lángtum minna undir sjálfum þeim komið, enn ásigkomulagi þeirra

tíma er þeir voru á settir, en einkum undir hinni ædri stjórn, sem er yfir hverjum manni; margir sádu hinu sama fræi, og sádu med jafnri kunnáttu og jafnri kappi, en fáeinir hittu góda jørd, og þeirra fræ fékk af himninum hentuga tíma. En þeir, sem mørgum mønnum, og næstum allri verøldinni, hefir ordid starsýnt á um stundarsakir, þeir hafa horfid einsog adrir, og optastnær hafa verk þeirra ad litlum tíma lidnum ad engu ordid, ad minnsta kosti sáu þeir sjaldan sjálfir ávexti erfidis síns; þeir voru, einsog adrir, líkir blómi jurtarinnar; sólin rann upp med brennandi hita, og jurtin skrælnadi, og blómid datt af, og hin fagra mynd, er á því var, skemmdist (Jak. 1, 11). Hinn stridi straumur lífsins rennur yfir manninn og allt hvad hann á, og grefur sig undir varda þann, er hann hugdi geyma skyldi nafn sitt um allar aldir; allur sá fegnudur, er mennirnir hafa sagt um í fyrndinni: komid, og sjáid hann, og lofid gæfu vora! honum hafa menn fyrir laungu gleymt; og øll sú hryggd, er mennirnir hafa sagt um í fyrndinni: komid, og hryggist med oss! henni hafa menn fyrir laungu gleymt.

En hvad satt sem þetta er, og hvad vel sem slíkar hugsanir eru lagadar til ad lække í oss drambsemi þá, er á svo audvelt inngaungu í hjørtu vor, þá ber oss vel ad gæta þess, ad þær gjøri oss ekki hirdulausa um annara manna hagi. "Einn einstakur madur, einn vesæll madur", hversu opt heyrum vér ekki þessi ord søgd med slíkri fyrirlitníng, einsog litlu vardadi um eins manns líf eda dauda, heill eda ohamíngju, hversu ottaleg getur hún ekki ordid mørgum sinnum, þessi fyrirlitníng á mønnum, þegar þeir, sem trúad er fyrir ødrum mønnum, hafa þá fyrir verkfæri til ad ná tilgángi sínum, þegar þeir umhugsunarlaust selja líf margra þúsunda og heill margra þúsunda, af drottnunargirni sinni, eda hefndargirni, eda ødrum illum girndum, og álíta allt mannlegt kríngum sig, einsog leiktafl, sem þeir megi fara med einsog þeim rædur vid ad horfa. Og þeir, sem mest fyrirlíta mennina kríngum sig, eru optast úr þeirra flokki, sem mest líta á sig; rángsnúinn hugur þeirra ímyndar sér, ad hinir adrir séu skapadir þeirra vegna. En ert þú þá í rauninni meiri enn hinir? ert þú betri tegundar enn þeir? Gud lét allra

mannanna kynþætti kvíslast útaf einum ættstofni, um alla jarðarkrínglunā (Post. 17,26); hversu alvarlega er oss ekki sagt þetta með þeirri rødd, sem vér megum ekki dirfast að fyrirlíta; það er Faðir allra er segir oss: þér eruð allir brædur.

Að vísu byggir þessi eina kynkvísl jørdina, aðgreind eptir løndum, túngum, háttum og hegðan, lit og ødru útliti; eg sé mismuninn, sem tíð og tímar, himinbelti og margar aðrar orsakir hafa til vegar komið, og forsedur þjóðanna, ef til vill, hafa verið fæddir með, afþví Guð vildi, að margbreitnin á hinu tilveranda væri sem mest; en eg sé einnig líkingu, sem mismunurinn aldrei fær afmáð; í rauninni lítum vér hið sama mannlega andlit, þó myndirnar séu ólíkar, og heyrum hina sømu rødd, þó túngurnar séu ólíkar, ekki dýrslega rødd, heldur mannlega, sem lætur í ljósi greinilegar hugsanir, og skírir frá tilfinníngum, sem eru náskyldar tilfinníngum sjálfra vor. Að sønnu er øll sú þekkíng, er menn híngaðtil eru búnir að afla sér, ónóg til að sýna, hvernig hinir tvístruðu, og svo mjøg úrættuðu og viltu kynþættir manna hafi dreifzt út um løndin; en þar sem vér høfum søgur af, sjáum vér þó, hvernig ættir þeirra koma saman — opt á undarlegan hátt. Og getur nokkur í alvøru trúað því, að mennirnir hafi sprottið eða komið uppúr jørðinni í ýmsum løndum, eða að ýms dýrakyn hafi hér og hvar smátt og smátt ødlazt mannlega náttúru? Getur nokkur trúað því, að sérhver þessara kynþátta hafi búið sér til sjálfur, tilsagnarlaust og án þess þeir hefði afskipti hver af ødrum, allt það, er vér hvervetna verðum varir við, að líkt er með þeim? Vér vitum einga þjóð, sem ekki eigi sér mál, til að skíra með því frá hugsunum sínum; en margar þjóðir yrðu þó að vera til, sem væru ekki búnar að búa sér til mál, ef það væri ekki arfleifð, sem gengið hefði mann frá manni, sem vel mátti breita og snúa, en aldrei gleyma, úr því einusinni var búið að læra málið. Vér vitum einga þjóð, sem ekki kveykir sér eld til hita og birtu, en ef sú þekkíng væri ekki að erfðum fengin, þá mundu margar þjóðir eiga eptir að ødlast hana. Vér vitum margar og ýmislegar þjóðir, sem allar færa guðum sínum fórnir, jafnvel frið-

þægíngar fórnir — hvernig eigum vér ad ímynda oss, ad þær hafi allar búid sér til einmitt slíka gudsdýrkun af sjálfum sér? Leidumst vér ekki ósjálfrátt á þá hugmynd, ad mannkynid hafi snemma á øldum reizt ølturu handa gudlegri veru, og kennt børnum sínum ad bera fram á þau ósaknæmar fórnir, og er sú gudsdýrkun barnalegum mønnum einkar edlileg, en sídan hafi spillíngin gjørt þennan gudrækilega sid andstyggilegan? O! hvert sem vér lítum, og því betur sem vér rannsøkum, þess audsærra verdur þad, ad rótin er ein, sem allur stofninn hefir af sprottid, og kvíslazt svo í hinar mørgu greinar; ad allir kynþættir mannanna hafa kvíslazt útaf einum ættstofni um alla jardarkrínglunа. Mannkynid er ekki mørg kynferdi, og ólíks uppruna, ætlud til ad herja hvert á annad og eyda hvert ødru, heldur er þad adeins einn líkami med mørgum limum, sem hver á ad hjálpa ødrum og þjóna. Mannkynid er ekki margir ættstofnar, og sumum þeirra ætlad ljós og frelsi og yfirdrottnun, en hinum fávizka og ánaud; en hversu ýmislega ástatt sem ordid er fyrir þjódunum, og hversu lángan veg sem sumar þeirra eiga eptir, ádur þær nái aptur réttu mannedli, þá mega og eiga þær allar ad gánga þann veg, og sérhverjum skynsemigæddum jardarbúa er ætlud þekking og andleg gædi, einsog honum eru ætlud réttindi og løgleg eign stundlegra hlúta. Hvada madur sem mætir þér, og sýnist þér hann ókunnuglegur í hegdan, og skilur þú ekki þá túngu, er hann mælir, og bidur hann þig létta hørmum sínum og hjálpa sér, þá er þad ekki vandalaus madur heldur brodir þinn, og þú átt eptir mætti ad hjálpa honum og lidsinna, einsog þú vilt ad þér sé gjørt, þegar þú leitar annara manna.

En þóad mér sé bædi ljúft og skyldt, ad hjálpa einstøkum mønnum, sem þurfa adstodar minnar vid; þóad eintóm vitneskjan um annars manns bágindi geti komid mér til ad kenna í brjósti um hann, þótt vandalaus sé: þá get eg samt ekki borid á mótí því, ad til eru margar þúsundir manna umhverfis mig, sem eg hirdi litid um, hvert vel lídur eda illa; þeir lída framhjá mér næstum einsog skuggar, þeir hverfa, og eg spyr ekki ad þeim. Ekki adeins vantar mína hønd mátt til ad hjálpa,

heldur vantar og hjarta mitt vidkvæmni; eg reyni til ad auka hana, en þad verda þó adeins fáir af fjøldanum er hún nær til. Þannig hirda flestir menn lítid hver um annan, og margir bera byrdi sína, og berjast baráttu sinni, og andvarpa sídasta sinni, nærri því án þess nokkur gefi gætur ad því. Hversu mikilvæg, hversu huggunarfull eru því þessi ord, sem bljóma héradosan: selja menn ekki fim titlínga fyrir tvo smápenínga, og þó gleymir Gud eingum þeirra (Lúk. 12,6). Þessi ord eru ekki komin frá oss, heldur frá h o n - u m, sem Gud helgadi og sendi í heiminn til ad opinbera Gud; þad er frá h o n u m, sem einnig hefir sagt: þér erud meira verdir, enn margir titlíngar. O! ad eg gæti lýst þeirri tilfinníng, sem gagntekur hjarta mitt, þegar eg reyni til ad ímynda mér allan grúa mannanna, bædi þá, sem nú byggja hana, og þá, sem ádur hafa byggt hana, og hnigid sídan til moldar, en leidi þeirra eru fyrir laungu horfin, og nøfn þeirra hafa óminnisøldur fyrir laungu í burtu borid; þegar hugur minn truflast af hinni ógurlegu mergd, en eg segi vid sjálfan mig: e n g u m a f þ e i m h e f i r G u d g l e y m t. Þessi ord gjøra mennina svo mikilsverda í augum mér; þó eg megni ekki ad taka þátt í kjørum allra þeirra, má eg samt ekki fyrirlíta neinn af þeim, ekki hinn lítilmótlegasta. Þessi ord gjøra og sjálfan mig nokkursverdan í tølu annarra manna; þó mér sýnist sjálfur eg svo lítilmótlegur, þó mér sýnist stundum sjálfur eg og allt mitt athæfi svo einskisvert: ó! þá er samt eitt auga til, sem ekki hleypur yfir mig, sem gáir ad mér mitt í grúanum, sem sér mig þegar eg adhefst gott, og þegar eg adhefst illt; þó mér finnist eg vera einmana og yfirgefinn, og allir hafi gleymt mér, og eínginn sé til, sem eg geti leitad til, og hallad ad þreyttu høfdi mínu, ó! þá hefir Gud samt ekki gleymt mér.

"Þér erud meira verdir enn margir titlíngar". Vér eignum oss ekki sjálfir af stærilæti tign þessa, en sá sem skapadi jørdina g j ø r d i l í k a m a n n i n n a d h e r r a j a r d a r i n n a r. Dýrin gaf Gud oss á vald, þau eiga øll ad þjóna oss, og þola yfirrád vor, bædi villudýrin á eydimørkum og stórhvelin í hafinu, og fuglar himinsins, og hver ormur sem skrídur á jørdunni (1 Mós. 1, 28). Vér megum ekki dirfast, ad hafa yfirrád vor til

ad kvelja dýrin; Fadir allra elur einnig ønn fyrir þeim, og þegar hann setti hvíldardaginn, mundi hann líka eptir dýrunum, sem þjóna oss, og vildi veita þeim hvíld. En sé líf einhvers þeirra oss til skada, en daudi þess oss til ábata, þá mun einginn heimta blód þess af oss. Apturámót er ritad: "hver sem úthellir annars manns blódi, hans blódi skal verda úthellt af mønnum, því Gud gjørdi manninn eptir sinni mynd" (1 Mós. 9, 6). Þessi ord, sem øll heiløg ritníng bodar: "Gud skapadi manninn eptir sinni mynd" (1 Mós. 1, 27), þau gefa manninum þá hina miklu tign hans. Þó eg sé kalladur jardarinnar sonur, þá er eg þó einnig af ætt Guds (Post. 17, 28); Drottinn jardarinnar og Skapari hennar hefir þó sett mynd sína á manninn, og gefid manninum yfirrád yfir jørdunni, og gefid honum þær náttúrur, sem þartil þurftu.

Ad sønnu er í rauninni valdid í sálunni, en hún gæti eingu til leidar komid í verøldinni, ef líkaminn væri ekki gjørdur til ad sýna hvad í sálunni býr, og til ad vera verkfæri hennar. Augu vor lukust upp til ad sjá hlutina umhverfis oss; þeim var ekki snúid nidur til jardar, einsog augum dýranna, heldur geingur madurinn upprèttur og lítur yfir yfirbord jardar, og rennir augum frá jørd til himins. Augad er spegill, er dýrd himins og jardar speglar sig í, einnig kemur í því hinn innri heimur í ljós, þad breitir útliti sínu eptir huldustu tilfinníngum hjarta þíns, og hugrenníngar þínar les eg í augum þínum. Og uppsprettu táranna setti Gud í auga þitt, ekki til þess ad þau streymi beisklega, sjálfum þèr til óprýdis og ødrum til kvalar, heldur til þess, ad tárin í auga þínu fegri gledi þína, og mýki hryggd þína; og varirnar lagadi Gud til gledi, og ástar, og blídu-brosa. Samt er þad ekki andlitssvipurinn einn, og bros varanna og tár augnanna, er sýna hvad med þèr býr, því fram af vørunum kemur einnig hin skiljanlega rødd, sem opinberar hugrenníngar sálarinnar, skírir frá gledi þinni og hryggd, og bodar vilja þinn. Og eyra mitt heyrir ekki røddina á sama hátt og eyra dýrsins, sem ekki heyrir annad enn óljósan hljóm, heldur verd eg var vid hina minnstu breiting raddar þinnar, og Gud hefir gjørt mannseyrad svo næmt, ad þad getur

metið mismun og gyldi raddanna, og heyrt hinn sæla samhljóm margra radda hljóðfæra-listarinnar og náttúrunnar. Enn er og hin myndandi mannshönd, og má hana telja haglegasta líkama smiði Guðs, því þegar vér skoðum náttúruna einasaman, söknum vér ætíð mannlegra handaverka. Jafnvel aldingarðinn Eden átti madurinn að rækta og verja, hvað fagur sem hann var, og hvað góður sem ávextir hans voru (1 Mós. 2, 15). Ef þú skoðar það, er menn kalla óbyggðir, ógurleg fjöll og hátignarleg, dynjandi fossa og þykka skóga, þar sem eikarnar með óteljandi greinum flækjast hver í aðra, en dýrahjarðirnar brjótast í gegnum þá, og fuglagrúinn verpir í eikunum: þá saknar þú ætíð einhvers, þángaðtil þú sér nokkurn vott mannlegrar starfsemi, annaðhvert hús, er menuirnir hafi byggt sér til skjóls móti óveðrinu, eða smiði, er menuirnir hafi þraungvað með binum strángu straumi, til að flýta fyrir verkum þeirra, og til að bera byrðir þeirra, eða braut, er menuirnir hafi gjört í gegnum hina þykku skóga, eða grafir, sem þeir hafi grafið niður í fylsni fjallanna — þángaðtil þú finnur eitthvað, er ber vitni þess, að þar hafi maðurinn unnið eptir ákvörðun sinni, þar hafi jörðin þjónað herra sínum. Og allt þetta er einúngis af því komið, að Guð setti öll hin haglegu liðamót á mannshöndina.

Hversu fagur og hátignarlegur er líkami mannsins í blóma sínum! En þessi hinn sami líkami bindur einnig manninn við jörðina, og gjörir hann jarðneskum áhrifum undirorpinn. Þú þarfnast margskonar jarðneskra nauðsynja; þarfirnar vekja krapta þína og styrkja þá; þú þraungvar jörðinni til að bæta úr þeim, og verður því feguari bótinni, er þú hlauzt að erfiða, og hafa sjálfur fyrir að ná henni. Paráðsan eru til kraptar, sem eru sterkari enn kraptar líkamans, og ekki aðeins fella hann á endanum og leysa hann í sundur, heldur raska laungu áður dýrð hans, og þegar á únga aldri, tálma honum í að ná slíkri fegurð og afli, er honum var ætlað, en síðan banna þeir honum optsinnis að vinna. Þú leitar hér lækninga, og finnur þær á stundum, en mörg eru meinin, sem eingin mannleg kunnátta getur grædt. Hversu opt sjáum vér ekki, að blómið skemmist áður enn það lýkst upp! sjáum augu, sem ekki sjá, eyru, sem ekki

heyra, og túngu, sem ekki talar skilmerkilega — var þá allt þetta skapad til einskis? nádi Skaparinn þar ekki tilgángi sínum? Hver máttur, er honum er aptrad, bendir til frelsis, og allir fjøtrar mannanna' benda til lausnar. Ef þú' skodar manninn í því ástandi, er vér nú verdum ad kalla 'edlilegt ástand hans, þá sérdu ekki annad enn nokkurskonar leifar, skemmda mynd, fjøtradan høfdíngja. En þetta ástand, sem nú er manninum edlilegt, er honum þó í rauninni ekki edlilegt; í því er haggad upprunalegu edli hans, og þad getur ekki verid ædsta ákvørdun mannsins ad sitja í slíkum fjøtrum. Hver tálman og hver mæda á jørdunni kveykir í oss grun um, ad Drottinn muni senda oss Frelsara, til ad boda herteknum lausn, blindum, ad þeir fái sjónina aptur, og þjádum frelsi (Lúk. 4, 18).

En þad sem í hjørtum allra armæddra manna er grunur, þad er í hjørtum kristinna manna stødug trú; þeir vita ad sá hefir verid í verøldinni, sem leysir alla fjøtra af þeim, er á hann trúa, og ásídan mun gefa þeim fullt frelsi, fyrst andlegt, en sídan og hid líkamlega frelsid. Einnig í þessu tilliti eru kraptaverk Krists mjøg merkileg, því þau sýna øll mátt hans og vilja til ad frelsa. Þegar þeir fordum fóru til hans med heyrnarlausan mann og málhaltan, þá snerti hann manninn og sagdi: opna þig! og jafnskjótt opnudust hlustir hans, og hapt túngu hans losnadi, og hann taladi skírt (Mark. 7, 32). Þetta var, og átti ad vera, gódverk vid einstakan mann; Drottinn lét sér annt um hinn ófarsæla mann; þó hann væri lítilmótlegur var hann þó einn af brædrum hans; en kraptaverk þetta var líka bendíng frá þeim, er ásídan mun leysa alla fjøtrada limi. Vid sérhvert blindad auga, og sérhvert lokad eyra, og sérhverja fjøtrada túngu mun ásídan hljóma Ephphata (opna þig), því líkami mannsins mun einnig dýrdlegur verda, og sérhver mannleg mynd ødlast til fullnustu þá dýrd, er henni var ætlud. Ad vísu getur ekki hold og blód ødlazt Guds ríki, né hid daudlega ódaudleikann (1 Kor. 15, 50). Þó trúum vér upprisu líkamans, og væntum Lausnarans, Drottins vors, Jesú Krists, er mun ummynda nidurlægíngarlíkami vora og gjøra þá líka dýrdarlíkama sínum, med hinum sama

krapti, er hann leggur alla hluti undir sig með (Phil. 3, 20. 21).

---

## 18.

## Maðurinn.

Síðari hugleiðingin.

Það er harla margt, er vér höfum um að biðja — heilsa og friður og frjósemi og gæfa; vér vitum ekki, hvernig oss ber að biðja um neitt af þessu; vér segjum: ef verða má, þá komi það, er vér köllum blessan, þá líði frá oss hinn beiski kaleikur; en bætum þessu við: verði samt ekki vor vilji, heldur þinn, himnesiki Faðir! Ó! að vér sæum, að til er annað æðra og mikilvægara að biðja um, enn alltsaman þetta. Já, látum oss segja það hátt og djarflega og finna til þess í hjarta voru: að til er það, sem betra er, enn ríkuglegusti gjafir jarðarinnar og stundlegur friður og frelsun líkamans af skorti, sjúkdómi, dauða; en það er frelsun sálarinnar. Um hana skulum vér fyrst biðja og umfram alla hluti; þar biðjum vér án hiknnar og efa, og mun Guð veita oss áheyrn, ef vér biðjum með trúnaðartrausti.

"Þó vor ytri maður spillist, endurnýast samt vor innri maður dag frá degi" (2 Kor. 4, 16). Sannlega var sá maður sæll, er þessi orð ritaði. Að vísu kallaði heimurinn hann ekki sælan, og skömmu framar hefir Páll sjálfur sagt vera þjakaður í öllu-offóktur, berandi deyðingu Jesú á líkamanum; en með öllu því, sem hann hafði reynt hryggilegt í veröldinni, hafði hann reynt það, sem er gleðilegast af öllu: að í oss býr nokkuð það, er sjálfrátt er fyrir hinn ytra, og getur endurnýazt, eflzt, aukizt meðan hið ytra eyðist.

Mannlegur líkami er dásamlegur, vér hljótum að finna í oss nokkurskonar lotníngu, þegar vér sjáum krapt hans og fegurð, því Guð hefir einnig sett merki sitt á hann. En fyrir þenna líkama erum vér þó bundlaðir við jörðina, og henni háðir; líkaminn breitist og hrörnar, eptir óbreitanlegu legmáli, jafnvel

án vorra valda. En til er og annad í ofs, sem einnig getur breizt og spillzt, þó ekki sé eptir hinu sama lögmáli; þad getur spillzt, þó líkamanum lídi vel, enda getur þad og endurnýazt, þóad líkamanum lídi illa. Þegar vér því snúum huganum til sjálfra vor, þá megum vér ekki nema stadar vid hinn ytra mann, heldur skulum vér prófa ad komast innad hinum innra manni, og horfa nidurí djúp sálarinnar.

Í djúp sálarinnar, segi eg, því ad vísu er sálin djúp og óransakanleg; náttúran í kríngum ofs er ekki einsaman marga vegu leyndardómsfull — því madurinn skilur ekki náttúru sjálfs sín, og edli hans ber upp fyrir honum marga þá rádgátu, er hann fær aldreigi úr leyst, hér á jördu. En einsog vér heyrum glöggt þyt vindanna, þótt vér höfum ekki ransakad híbýli þeirra, og vitum ekki, hvadan þeir komi og hvert þeir fari: eins verdum vér og varir vid hin styrku öfl sálarinnar, þótt ofs sé ókunnugt, med hverjum hætti hún er fram runnin af hinni myrku uppsprettu sinni.

Skilníngarvitin, til ad verda var vid hlutina, sem manninum bera fyrir augu og eyru, hver eptir annan — þau hefir hann ekki framyfir dýrin. Ad sönnu grípur hann í huga sinn réttari myndir hlutanna, heldurenn dýrin, ad öllu samanlögdu, en þó hefir margt dýr hvassari skilníngarvit enn madurinn. Eins hafa dýrin nokkurskonar minni, svoad hundurinn þekkir húsbónda sinn, og fuglinn hreidur sitt, og flest dýr ad minnsta kosti þekkja aptur næsta dag þad, sem þau hafa séd daginn ádur; en hvad er þetta samt í samanburdi vid audæfi minnisins í mannlegri sálu? Því sálin er ekki einsog alda sjáfarins, þarsem hver stafur hverfur jafnskjótt og hann er á ölduna ristur; því þá yrdi einginn fródleikur numinn, og eingu mannlegu lífi lifad. Gud gaf sálu mannsins afl til ad halda föstum hugmyndum þeim, er þar vakna, og geyma þær þar, er ekkert líkamlegt ofríki fær þeim í burtu nád; þad sem þér er utan sálar, þad er ekki í þínu valdi, svo þér sé óhætt ad segja: þessu skal eg halda svo fast, ad einginn slíti þad frá mér; en þad sem þú vardveitir í sálu þinni, þad er í þínu valdi, þú heldur minníngunni, þóad sjálfur hluturinn sé fyrir laungu lidinn frá augum þér, og af minnínga

fordanum, er þú hefir saman dregid, heimtir þú ýmist fram fornt eda nýtt, eptirþví sem þú vilt. Þad er sjálfsagt, ad hinar fornu minníngar fjarlægjast sálinasmátt og smátt, og ad einhver þoka smá-breidist útyfir þær, einsog yfir land; sem er ad hverfa, svo ad vér margopt verdum ad leita ad því, er vér höfum fólgid í sálunni, og finnum þad ekki ad heldur; en opt finnum vér samt umsídir þad er vér leitudum ad, svoad þad hefir ekki verid horfid, en verid í sálunni, þó hún gæti ekki komid því fyrir sig um stundarsakir. Hversu dásamlega renna opt fornar minníngar upp af djúpi því, er þær hafa lánga hríd í dulizt! hversu vakandi verdur opt fyrir gamalmenninu þad, sem hann sá í æsku! því þegar hid nálæga dofnar, þá vaknar hid umlidna úr dáinu. Og oss mundi vera óhætt ad segja, ad þad sem á annad bord er skrifad í sálina fullskírt, þad verdur þar um aldur og æfi. Ad sönnu geta komid dopur elliár, þá er hid umlidna og hid nálæga sveipar sig myrkri, svo hugurinn megnar ekki ad heimta neitt fram af audæfum sínum. En þannig fer oss hvert kvöld; medan ad blundurinn er ad breida á oss skugga-blæu sína, hjúpast öll audæfi sálarinnar smátt og smátt dymmri þoku, nema þær óglöggar myndir, er vakna upp í draumunum. En á morgnana, þegar vér slítum oss úr fadmlagi svefnsins, þá hefir sálin eingu týnt, allar hugmyndir verda henni jafnskírar og ádur, og þad ber vid á stundum, ad mönnum hugsast í svefni þad, sem þeir mundu ekki ádurenn þeir sofnudu, er hugurinn var daufur og tvístradur af háfada dagsins. Eins mun fara eptir kvöld þessa lífs, þegar hinn sídasti blundur svæfir öfl sálarinnar, hvert eptir annad, en slekkur ekki neitt af þeim, ad þá mun ljóma endurnýandi morgun; þá vaknar sálin ad nýu, og hefir þá eingu týnt af öllu því, er hún hafdi full-aflad hér á jördu, og fólgid var í því djúpi, er ellin og daudinn fá ekki ad komizt.

Auk þess sem madurinn getur munad þad, sem hann hefir ádur þekkt eda ritad, getur hann og, med háleitri og ágætri adstod ímyndunaraflsins, lifad upp aptur þad sem hann hefir lifad. Víst veit eg, hversu skadsamur eldur getur ordid af krapti þessum, þegar hann gjörir sig ad þræli holdlegra fýsna, eda þegar honum er ekki stjórnad, og hann brýzt útyfir takmörk

hins tilveranda, til þess að svala sér á draumum og vitfirrast æ því meir, og þegar hann lætur mönnum leiðast hið nálæga, þarsem þeir hafa þó hvern dag og hverja stund skylduverk að vinna. En mundi eg ekki kannast við upphaflegt ágæti sérhverrar gáfu, er Guð hefir sálunni veitta — mundi eg ekki lofa þann krapt, er sálin gæti alls eingar nytjar haft, hverki hins umliðna, né hins nálæga, né hins okomna, ef hann vantaði? Því hvaða líf og hvaða not er í hinu nálæga, þegar það ber oss fyrir augu bert og dauft og á stángli, en ekki í einu lagi og í fullu sambandi hvað við annað? Hvað er í það varið, að muna nöfn og tölur og staði, þegar það sem nafninu er nefnt, og tölunni er talið, verður ekki vakanda fyrir oss? Það er ímyndunaraflinu að þakka, að liðin æfi er sem ólidin, og að gömlum mönnum eru enn ljósar í huga æskuvonir þeirra og framkvæmdir fullorðinsáranna. Það er ímyndunaraflinu að þakka, að vér eigum enn fjarlæga ástvini vora, sem eru hinumegin hafs og hárra fjalla, eða byrgðir í gröfunum. Það er ímyndunaraflinu að þakka, að vér getum enn vitjað hinna ágætu manna, er uppi voru í fornöld, og að það er enn, einsog hvert ágætisverk, er í fyrndinni var unnið, fari fram fyrir augum oss. Kristinn maður! það er ímyndunaraflinu að þakka, að þú getur enn vitjað þeirra staða, er Drottinn þinn hefir dvalizt; að þú ekki aðeins veizt, að einusinni hefir verið mikill spámaður, sá er menn kalla Krist, heldur heyrir þú lofsaung englanna, einsog hjarðsveinarnir í Betlehem; þú ferð í jötunni sveininn, sem á að verða mikill og heita Sonur hins hæsta; þú verður Drottni þínum samferða ýmist í fólksþyrpíngarnar, eður í einveru á fjöll og eyðimerkur; þú fylgir honum á píslargaungu hans og sezt undir krossinn, og heyrir þau hin háleitu orð, er hann mælti í andláti sínu; þú gengur því næst til grafarinnar, er hann var í lagður, og ferð gröfina upp ljúkast, og hinn framliðna meðal hinna lifendu, og heyrir hann enn þýða ritníngarnar, allt þartil er ský himinsins nemur hann á burt, og hann snýr aptur þángað, sem hann kom.

En allur þessi auður, sem gripinn er af skilníngarvitunum, varðveittur af minninu, og einsog dreginn upp af ímyndunaraflinu og sýndur sálunni í mörgum myndum og ýmislegum —

allt þetta, segi eg, er undir yfirrádum vitsins, þess hins-sama vits, sem fær hlutunum allt annad skipulag, enn þad er þeir sýna sig í af sjálfsdádum, og skipar líkum hlutum saman í huganum, hversu lángt sem á milli þeirra er annarstadar, og adgreinir ólíka hluti, hversu skammt sem á milli þeirra er þar sem þeir standa, og leitar þannig ad ødru sambandi hlutanna, enn því, er vér sjáum med augunum og finnum med høndunum. Dýrid gengur medal hinna líkamlegu hluta, og velur úr þeim, einsog madurinn, en velur þad eitt, sem er skilníngarvitunum þægilegt, og ad því búnu, hirdir dýrid ekki um meira, því þá er líkamanum fullnægt. En undireins og madurinn er kominn uppfyrir dýrid, hlítir hann ekki þessari fullnægju, heldur leitar hann ad sjá í gegnum yfirbord hlutanna, og skilja edli þeirra, og vill ekki adeins adgreina hid vidkunnanlega frá hinu óvidkunnanlega, heldur hid sanna frá hinu ránga, því sálin ødlast ekki hvíld nema í einnisaman þekkíngu sannleikans.

Einsog augann leidist ekki ad sjá, eins leidist ekki vitinu ad rannsaka, þad vill skilja hid hulda ekki sídur enn hid opinbera, þad vill þekkja þau løg, er stjórna hræríngum allra hluta, þad vill gagnskoda himnana og øll undirdjúp, ad því leiti sem þad getur. En á þessu háa flugi heyrir madurinn undarlegar raddir og leyndardómsfullar, er svo mæla: þá hluti, er sjást, fær einginn skilid, utan af þeim hlutum, er ekki sjást. Og þegar hann gengur á raddirnar, og snýr huganum úr hinum líkamlega heimi inní hinn andlega, þá er honum þad ekki einhlítt ad álykta af viti sínu, heldur kemur hid háleita og ósýnilega beint í móti honum, og hann ødlast um þad hina sømu, eda þó ennfremur lángtum innilegri og helgari sannfæríng, enn um líkamlega hluti. Þessa gáfu, þenna skilníng, er skynjar hid ósýnilega, gudlega, eylífa, køllum vér skynsemi. Þad er hún, er vér høfum framyfir dýrin; því nokkurskonar vit verdum vér og ad eigna hinum skynlausu dýrum, þad er vit í vef ormsins og í vinnu hunángsflugunnar; þetta vit tilheyrir ad sønnu ekki dýrinu sjálfu. Þad upphugsar ekki neitt af sjálfsdádum og breitir ekki til, en vinnur alla hluti einsog frá upphafi veraldar; en þó kemur mikid vit fram í dýrinu, og vinnur þad sem dýrid vinnur. En skyn-

semin er gefin manninum einum, og ef hún heyrdi ekki og sæi, þá kæmi fyrir ekki hljómur hinna andlegu radda — þá kæmi þad fyrir ekki, ad Gud opinberadi dýrd sína í hinum sýnilega heimi — þá kæmi þad fyrir ekki, ad oss er bodad Krists fagnad-areyrindi; því allt er þetta einúngis ætlad hinum skynsömu verum.

Samvizkan er hin innsta medvitund vor um sjálfa oss og hinn ædra heim, og er sameinud skynseminni. Í samvizku vorri vitum vér um sjálfa oss, ekki einúngis ad vér erum, heldur og hvernig vér erum; hún sér yfir hverttveggja — hid umlidna og hid nálæga; hún þekkir verk mín öll, hún veit einnig af leynilegum rádum mínum, og tilgángi mínum, og af hverju því, er kom mér til ad áforma eitthvad, og stjórnadi hegdan minni. Paradauk dæmir samvizkan um verk og hugrenníngar og gedslag, og þad nemur hún ekki af skilníngarvitunum, né heldur af heiminum: eg kalla ekki neitt gott, þó þad fullnægi holdlegum fýsnum, eda þó heimurinn hæli því; þad er til í mér sá dómur, er optlega hefir stadid í mót ákøfustu fýsnum holdsins, og opt hefir dirfzt ad fyrirlíta heimsins dóm, og fundid um leid, ad hann tók þad ekki upp hjá sjálfum sér, né heldur gjördi þad af einþykkni og þrái. Því mér hefir aldrei verid eins ósjálfrátt um dómana, og þegar eg hefi alls ekki hirt um hvad heimurinn segdi: eg hefi ekki getad dæmt ödruvís enn eg hefi gjört; eg hefi optlega áfellt sjálfan mig, fyrirdæmt verk mín og girndir mínar, og gjört lítid úr því hrósi, er eg hafdi þegid af heiminum. Á því er audséd, ad samvizka mín finnur í sér þad lögmál, er eg hefi ekki sett, og einginn madur annar, heldur hefir Gud, Skapari hjartna vorra, skrifad þad á þau, einsog á hin heilögu spjöld á Sions-fjalli — þad lögmál, er þiggur krapt sinn af medvitundinni um Gud, er setti þad. Pad er því allt eitt dómur Guds og samvizkunnar, þegar hún er vakandi og óspillt; og hvert sinn er hún dæmir mig síknan eda áfellir mig, þá er þad einsog hljód hins mikla lúdurs, er hljóma mun yfir öll ríki veraldarinnar, yfir alla dýrd og alla eymd, yfir lifendur og dauda.

En hversu ósjálfrátt sem mér er ad kannast vid skyldu mína, þá finn eg þó einnig í mér frjálsan vilja, sem getur látid

bugast, og þó med frjálsrædi, enda brotizt undan annarlegum yfirrádum, og hlýdt ødru legmáli, enn því, er eg finn ad eg á ad hlýda. Þó ad vit mitt, þegar eg hugsa um þetta, geti flækt sig í margskonar vandrædi, finn eg þó, ad eg áforma sjálfur, og finn þad med svo fullri sannfæringu, ad svo framarlega eg hafnadi henni, þá hlyti eg ad afneita øllu því, er mér finnst vera áreidanlegast. Eg þarf áminninga og vidvarana Guds og manna; eg þarf, ad eg sé á marga vega borinn, leiddur og tiptadur, eg þarf vernd gudlegrar forsjónar í hinu ytra, svoad eg verdi ekki leiddur í freistni, og hjálp Guds Anda í hinu innra, svoad áform mín skeiki ekki né fyrir farist: en samt er nokkud þad til í mér, sem er mín eign, og einginn annars. Þóad einhver elskadi mig svo mjøg, ad hann vildi selja fram aleigu sína, fyrir mína skuld, edur láta brenna sig lifanda, þá gæti hann samt ekki geingid í minn stad, né áformad þad, er eg einn get áformad; og meira ad segja: almættid sjálft hefir ávallt látid mig sjálfrádan allt í frá þeirri stundu, er Gud skóp mig í sinni mynd, og leysti mig af valdi ósjálfrædisins. Þegar eg frem hid illa, þá get eg ad sønnu safnad mér afsøkunum — þá get eg reynt ad eigna verkid einhverri orsøk fyrir utan mig; en eigi ad sídur veit eg í hjarta mínu, og hver madur veit þad med mér, ad eg hefi afbrotid; þad var sjálfur eg, er áformadi — mér var þad ekki ósjálfrátt. Þegar eg vil hid góda med føstum og einlægum vilja, þá finn eg þad vera til í mér, er eg get sett til mótstødu vid gjørvalla veraldina; ræni mig gótsi mínu, fjøtrid hendur mínar og fætur, pínid líkama minn, ofsækid mig allt ad grafar-bakkanum, þar sem hverri ofsókn er lokid — og vilji minn verdur þó frjáls.

Eg vil nú ekki reyna ad telja hinar mørgu fýsnir, girndir og tilfinníngar í oss, er ekki eru sprottnar af holdlegri náttúru vorri. En allt þad samanlagt er **hinn innri madur**, sá er ad **sønnu er sameinadur hinum ytra**, en **þó ekki hinn sami**. Nei! þad af veru minni, sem húngrar og þyrstir, og kallar audæfi jardarinnar sín gædi, og felur sig í fadmlagi svefnsins, þegar þad er sadt af jardneskri nautn, eda þreytt af jardneskri mædu — þad er ekki sama og **þitt**, er svo opt vekur

líkamann af svefni hans, og svo opt stendur í mót girndum hans, og sækist eptir sannleika og réttlæti, og elskar Gud og menn, og mænir til Guds ríkis. Þad er eg kalla mig, og ætíd er hid sama í öllum breitingum lífsins, í öllum vexti þess og allri hnignan — þad er ekki allt eitt og líkaminn, er partar hans skiptast til án afláts, svo þegar stundir lída verdur varla neitt eptir af hinu jardneska efni, er nú er saman komid í honum. Þessi líkami, sem hefir hvern partinn utan vid annan, og fyllir rúm, og verdur mældur ad stærd, er ekki sama og þad í mér, sem er þess edlis, ad eingin hugmynd um líkamlega stærd getur þar vid átt; hann er ekki sama, og hugsanir þær og tilfinníngar, eda medvitund sú, er aldrei verdur mæld á líkan hátt, og hæd eda breidd jardneskra hluta. Vegna þess líkaminn er settur saman úr þessum portum, þessvegna bíta hann vopn, og jardneskir kraptar geta leyst hann í sundur, svo hann verdi ad dupti, einsog hann ádur var. En hvar er þad vopn, ad gángi inní sálina? hvar er sá kraptur, ad sundur fái leyst það, er eg kalla "mig sjálfan"? Er þad af moldu, svo þad geti ad moldu ordid? Er þad af lopti, svo þad geti ad lopti ordid? — Óttist ekki þá, er líkamann deyda, en geta ekki líflátid sálina (Matth. 10, 28).

Og þessi hinn ómeidanlegi, ódaudlegi andi mannsins, þessi sál, sem komin er af hinu háleita og eylífa, og sköpud er af Gudi eptir mynd sjálfs hans, getur þó spillzt, og spillist einmitt af samvist sinni vid hinn jardneska líkama. Hann var gefinn sálunni til verkfæris, og til þess ad þjóna henni og hlýda; en þóad sálin sé frjáls, þá getur hún gjört sig ad ambátt líkamans, og gjört þá hluti sér ad gudum, sem ekki eru annad enn líkamleg gædi, og af þeirri afgudadýrkan slokkna edur aflagast öfl sálarinnar meir og meir; þá láta þau af völdunum, og verda tóm verkfæri þess sem illt er og óvirdulegt. Og holdid ber sigur af andanum, ekki adeins þegar menn drýgja vidbjódslega lesti, ofát og ofdrykkju, lauslæti og illifnad; því þegar þú, madur! metur mest af öllu addbúd og hægindi líkamans, þá týnir sálin tign sinni og spillist af kveifarskap; og þegar þú leitar áhyggjusamlega ad hverri tilfinníng í líkamanum — þegar þú hefir

allan hugann á ad verja og vardveita þenna hinn ytra mann — þegar þú gjørir hid innra, ædra og ágætara í þér, honum svo háð, ad, hvad lítid sem ad líkamanum gengur, kallar. þú sálunni óskyldt ad reyna á sig edur veita mótstødu: þá er sálin og yfirbugud af líkamanum. Víst er andi mannsins hér á jørdu bendladur vid hinn jardneska líkama, og jafnvel hinar styrku sálir þola mikla raun af þørfum og veikleika líkamans; en Gudi sé lof, ad þó getur hver og einn reynt, einsog postulinn, ad þó hinn ytri madur spillist, getur samt hinn innri madur endurnýast dag frá degi. En þetta reynum vér þá adeins, er vér lítum ekki til hinna sýnilegu hluta, heldur hinna ósýnilegu (2 Kor. 4, 18), þad er: høldum oss fast vid trúna. Hinn trúadi verdur fyrir líkamlegri raun og líkamlegri þjáningu, einsog hver annar; en hann ber þó úr býtum laun trúarinnar, þad er sáluhjálpina (1 Pét. 1, 9).

---

## 19.

## Fráhvarfið frá Gudi.

Þegar vér skodum heim þenna, er vér lifum í, þá sjáum vér svo óumrædanlega margt gott og fagurt og háleitt, ad augu vor fá þad aldrei fullskodad, og hjørtu vor fá þess aldrei fullnotid. Uppi yfir oss er hid háa, ómælilega himinhvolf, og sól dagsins og stjørnu-hersveitir næturinnar horfa nidurá jørdina, er þakin er dásemdarverkum hins almáttka. Drottinn! hversu mørg eru verk þín, og øll eru þau gjørd af mikilli miskun. Hver fær talid allar þær verur, sem þú gafst líf og tilfinningu, og þarmed sælu nautnarinnar? Og hver fær talid allar þær sælur, er Fadir lífsins hefir fyrirbúid hinum lifendu á jørdunni, edur øll audæfi þau, er fylla fjøll og dali, og djúp sjáfarins? Margt af þessum audæfum er ad vísu fólgid; þad verdur ad leita þeirra og vinna ad þeim, ádurenn þau verdi ad gagni; en Gud gjørdi manninn ad drottni jardarinnar, svoad hann leggdi hana undir sig; Gud gaf honum hina haglegu hønd til ad vinna;

hann gaf honum skirleika sálarinnar til að skjörna erfiði handanna; hann gaf honum allar hinar djúpu og ágætu gáfur, ekki adeins til að rata veg sinn á jörðunni, heldur og til að rata upp til heimkynna ljóssins, þángað er sálin þráir; hann gaf honum þær tilfinníngar, að hann ekki adeins finnur í sér fullnægju einsog dýrin fyrir neðan hann, heldur og sælu einsog englarnir fyrir ofan hann. Sjá! Guð seður ekki adeins munna vora á fæðslu, heldur og hjörtu vor á gleði.

Er þá lífið á jörðunni, einkum líf mannanna, fagurt og auðugt og farsælt? — O! — Brjóst vort andvarpar af miklum þúnga, þegar svara á þessari spurníngu. Víst veit eg, að þetta andvarp er optlega synd, er það sprettur af ónærgætni og trúleysi, en þorir samt nokkur að fullyrða, að hinir óvitru menn hafi einir þjáníng að þola, og hinir duglausu hafi einir byrðar að bera? Hvert sem vér litum í veröldinni, þá sjáum vér að sönnu Guð í furðuverkum máttar hans og vizku og miskunar; enda sjáum vér og, að sköpun Guðs er komin úr lagi, svoað það, sem gott er, nær ekki að vaxa og þróast og verða til blessunar. Brjóst hins vitra andvarpar af miklum þúnga, ekki síður enn hins óvitra, þegar lífgeislar sólarinnar breita sér í brennanda eld, þegar frjódropar regnsins renna saman í eyðandi vatnsföll, eður verða að hrynjanda hagli, þegar stormunum er hleypt útúr fángelsi þeirra, þegar hafið gengur á löndin, þegar iður jarðarinnar blása upp ógurlegum eldi, og þegar hræðilegar hersveitir drepsóttanna fara yfir löndin, til að eyða kroptum líkamanna og slökkva þau hin logandi líf. Og það verður ekki varið, að hún er ill hin líkamlega þjáníng, sú er öll skepnan stynur undir, jafnvel þeir, er hafa frumgróða andans, sú er og optlega breitir dýrð lífsins í þúnga byrði. En ætlar nokkur, að öll þessi mæða sé adeins til vakníngar, og að þessi barátta sé ekki til annars, enn til að styrkja öfl sálarinnar, svo hún vinni því ágætara sigur: þá líti sá í hug sér, og í hug öllum oss, og mun hann þá reyna, að hið illa er ekki síður í oss, enn í kríngum oss. Hvíað í mönnunum sjálfum er einnig spilling, er deyfir og aflagar hina dýrustu krapta; og þó þess sjái enn nokkrar menjar, að maðurinn hafi verið skapaður eptir Guðs mynd, þá er þó mynd hans saurgud

og skemmd, svo ekki eru eptir nema leifar af henni. Hið illa í kríngum oss er kallað þrautir og andstreymi, hið illa í oss er kallað synd, og syndin er spilling mannsins, og er ölldúngis gagnstæðileg hinu góða, og því er vera átti. Hvaðan kom syndin í veröldina, og með hverjum hætti? Er hún einsog annað skipuð af Guði manninum til góðs? Er það fast og óumflýanleg tilskipan, að maðurinn falli í synd, og þarmeð í alla þá vesöld, er af syndinni fæðist? Og á maðurinn, þegar hann er þjáður af eymd, að ásaka þann, er skapaði hann, en ekki sjálfan sig?

Hér erum vér komnir að því hinu mikilvæga efni, hvernig hið illa sé til komið. En þóað oss sé mikil forvitni á þessu máli, og einginn fái hugsað um lífið án þess að koma þar iðuglega að, þá verðum vér þó við að kannast, að vér getum ekki greidt úr því svo, að þá létti burt allri dymmunni, er á því liggur. Uppruni allra hluta er næsta myrkur og óransakanlegur mannlegu viti, og slíkt hið sama upptök hins illa. En þó eigum vér ekki að segja, enda getum vér og ekki með sanni sagt, að oss sé það ölldúngis ókunnugt, svoað vér vitum ekki það sem oss er nauðsyn á, til að geta varizt hinu illa. Efað sjómaðurinn, þegar hann er úti í reginhafi, og finnur að stormurinn tekur að þeyta ógurlega vængi yfir hinar rísandi bárur, tæki svo til orða við sjálfan sig: fyrst eg veit ekki, stormur! hvaðan þú blæs, eða hvert þú stefnir, þá ætla eg nú að komast fyrir það, og vita hvernig á þér stendur, áðurenn eg legg til okustu við þig — þá mundi stormurinn hvolfa um skipi hans og lemja það niður í hyldýpi sjáfarins, eður melva það á hinum hörðu skerjum, meðan skipsráðandinn væri að hugsa. Þessvegna fer hann öðruvís að ráði sínu; því hann tekur eptir hvaða stefnu stormurinn hafi; hann athugar, hvert þar séu hvergi blindsker og voðalegir klettar, svoað skipinu sé af þeim hætta búin; hann leitar leiðbeiníngar af stjörnunum; síðan sezt hann við stýri, og reynir til að forða sér og þeim, sem á skipi eru með hönum. Eins eigum vér og ekki, í óeyrðum þessa lífs, að skjóta á frest baráttunni við hið illa, þángaðtil vér finnum uppruna þess og getum leyst úr sérhverju efamáli, er upp fyrir oss yrði borið.

Hafi Guð gefið þér marghæfar, stødugar og skírar gáfur, þá leitaðu svo djúpt, og farðu svo hátt, sem þú kemst, og auktu fróðleik þinn og annara manna; því Guð hefir ekki sett huga vorn mannanna á lítið svið, og bannað honum að bæra sig það-an. En er hugur þinn tekur að fljúga sem hæst, og honum fer að verða sem villugjarnast: þá er mest nauðsyn á, að þú að-hyllist heilsusamlega kenningu Drottins vors, Jesu Krists, þá er leiðir til guðhræðslu (1 Tím. 6, 3). Það er til regla í trú vorri, er kristnum manni dugir ekki að yfirgefa; og þegar vér látum leiðast af henni, þá reynum vér, að hún leiðir oss til þeirrar þekkingar, sem ómissandi er til þess að vekja oss og styrkja undir baráttuna við hið vonda.

Þessi regla trúarinnar kennir oss í fyrsta lagi, að syndin sé fyrir einn mann inn komin í veröldinni (Rómv. 5, 12); því það er ein høfuðkenning kristinnar trúar, að syndin sé frá manninum, en ekki frá Guði. Øll góð og øll fullkomin gjøf er ofanað; fyrir því skal einginn, sá er fyrir freistingu verður, kenna Guði um, því ekkert íllt getur freistað Guðs, enda freistar hann og eingis (Jak. 1, 17. 18). Eins sannarlega og Guð er ljós og ekkert myrkur er í honum (1 Jóh. 1, 5), og eins sannarlega og Guð er algóður: eins sannarlega getur hið vonda ekki haft upptök sín frá honum; og það er ekki forn samsetníngur, heldur hlýtur það að vera satt, að þá er Guð hafði lokið hinu mikla verki sképunarinnar, þá leit hann yfir allt er hann hafði gjørt, og sjá, það var harla gott (1 Mós. 1, 31). Það var að sønnu ekki fullkomið, því hið endanlega hefir takmørk, og leitar að nálægjast smátt og smátt fullkomleikanum. Paradís, er Guð setti manninn í, aldingarðinn, þann er Guð hafði gróðursett, átti að yrkja og verja, svo hann bæri ávøxt og yrði æ fegri; og maðurinn, þótt hann væri skapaður eptir Guðs mynd, þá skyldi hann fræðast og taka framførum, áður honum lærðist að leggja jørðina undir sig. En þá var jørðin ekki komin á vald íllusfra krapta, þá var hið vonda ekki runnið inní hjarta mannsins, íllar ástríður og óstýrilæti voru ekki búnar að æsa það, heldur var maðurinn í fullri vináttu við Guð, og stefndi øllum krøptum sínum, sérhverjum þeirra eptir sínu eðli, stødugt áfram

til fullkomlegleikans í sannleika og réttlæti, kærleika og friði; og þegar Guð leit á það, er hann hafði skapað, þá var maðurinn að sönnu saklaus á barnslegan hátt, og honum var ófarið fram, en þó gat Guð horft á hann með velþóknan.

Nú þarámóti — ó! þegar aðeins vér, ekki skygnari enn vér erum, og ekki sýnna enn oss er um hið góða, skoðum það, sem fram fer í kríngum oss, og það sem fram fer í sjálfum oss, hvert getum vér þá látið oss um munn fara, að það sé alltsaman harla gott? Á þessari jörð byggir allt ránglæti; allar vondar girndir veita henni yfirgáng; öll eymd sækir hana þessvegna heim; kveinstafir undirokaðra og blóð hinna saklausu æpa þaðan allt til himins; og þegar hinn alréttláti litur niðurá alltsaman þetta — þegar hann lítur inní hjarta mannsins, að hugur hans er vondur allt í frá barnæsku (1 Mós. 8, 24): þá ljáum vér hinum eylífa vort mál, og vorar tilfinníngar, og segjum, að Drottni liggi við að iðrast þess, er hann skóp manninn á jörðunni, og að honum liggi við að vera hugsjúkur útaf því (1 Mós. 6, 6). Mikil og hryggileg umbreiting er orðin á jörðunni, og það getur ekki verið, að Skaparinn hafi aflagað og skemmt verk sitt, heldur hlýtur hin frjálsa skepna að hafa sjálf slitið sig úr sambandi við Guð, og viljað brjóta af sér hið heilsusamlega ok og hin blíðu yfirráð, og gefið hinum vondu kröptum færi á sér, og selt sig við aumu verði í smán og vesæld. Hin lánga raunasaga mannkynsins byrjar á því, að maðurinn hverfur frá Guði.

Enn fremur kennir ritníngin oss, að aðrir hafi horfið frá Guði fyrrenn maðurinn. Til er sá, er syndgar frá upphafi (1 Jóh. 3, 8) — það er að skilja, frá upphafi syndarinnar, en ekki frá eylífð. Því einginn er eylífur nema einn, það er, hinn almáttki. er öllu viðheldur, og allt er upp runnið af, andlegt og líkamlegt, á himni og á jörðu; og hann er algóður, og allt er hann skapaði var gott í uppruna sínum, og ætlað til framfara og sælu. Er hin fyrsta óhlýðni við það er tilskipað var, hin fyrsta uppreisn, er orsakaðist af því, að sköpuð vera vildi ekki njóta gæða sinna í felagi við Guð og hinar sköpuðu verur, en vildi stofna ríki handa sér einnisaman — þessi upptök hins illa urðu á und-

an upphafi mannkynsins. Einsog lifid á jørdinni er alltsaman hvad ødru ædra, ífrá hinu nedsta og allt upp til mannsins, er hefir frjálsrædi, medvitund og skynsemi, eins grunar oss, og ritníngin kennir oss med fullum vísdómi, ad, fyrir ofan mennina, þá séu andlegar verur, er í uppruna sínum hafi verid líkari Gudi og gæddar meiri kreptum til ad þjóna og framkvæma bod hans (Sálm. 103, 8). En þær voru einnig frjálsar og endanlegar verur, og tveir vegir lágu fyrir þeim: annar til uppsprettu ljóssins og æ sælla samfélags vid Gud, en annar á burt frá Gudi og ljósinu og sælunni, til þrjózku og uppreistar úti myrkur gløtunarinnar. Þeir gátu fallid, og féllu sumir, og Gud þyrmdi ekki þeim englum, er syndgudu, heldur steypti þeim nidurí helviti, og setti þá í fjøtur myrkranna, svoad þeir geymist til dómsins (2 Pét. 2, 4). Víst eru þeir fjøtradir, og á valdi hins almáttka, og fá ekki komizt útaf því svidi, er hann hefir markad athøfnum þeirra, og megna alls ekkert án hans leyfis — alls ekkert, nema þad sem Gudi þóknast ad láta snúast til góds þeim, er óttast hann. En Gud stjórnar jørdinni á þann hátt, ad hann lystur ekki þegar hina vondu med eldíngum sínum, heldur lofar hann þeim ad freista hinna gudhræddu, þeim til eflíngar, og lofar þeim ad magnast í vonzkunni, svo hid vonda hrapi því dýpra nidur, en hid góda ødlist því dýrdlegra sigur; og á sama hátt stjórnar Gud alheimi og hinum andlegu hlutum, er ekki adeins fylla upp þenna heim, heldur og adra heima. Þad er til illskufullt andlegt vald, þad er freistar og spillir — þad er: vald myrkranna, sem á sér adsetur í undirdjúpinu, og vidbúid er ad svelgja hvern er á jørdunni lifir.

Høggormurinn var þegar í Paradís, enda felst hann og alla æfi sídan í sérhverri Paradís sakleysisins. Hvert getur nokkur, sá er les hina helgu frásøgu, haft sér í huga einúngis óbreittan høggorm, og gjørt sér í hugarlund, annadhvert ad eintómur høggormur hafi risid upp og farid ad tala, edur adeins etid af áverti trésins, en konan sjálf talad þessi ord, er høggorminum eru eignud? Frásagan øll er ad vísu lángtum dýpri þýdíngar, svosem Kristur sjálfur synist ad vísa til, þegar hann segir: djøfullinn var mordíngi frá upphafi, og var ekki stødugur í sannleik-

anum, því sannleiki er ekki í honum; þegar hann fer með lýgi, þá talar hann einsog honum er eðlilegast, því hann er lygari og faðir lýginnar (Jóh. 8, 44). Á flestar túngur merkir höggormurinn hið illa; það skríður og læðist, einsog höggormur, innanum blómin í aldingörðunum, og fer aldrei beint, heldur í einlæga króka; það hefir breitilega fegurð, einsog höggormurinn, og er skreytt margháttuðum litum, og þó ískyggilega; það ræður helzt á þá, sem ekki eru varir um sig eður sofa, enda reynir mátt sinn á hinum, er þekkja hættuna og hræðast hana, einsog sagt er um suma höggorma, að þeir stari á vesælar skepnur, og seiði þær að sér, svo þær komist ekki útyfir seiðhringinn, og renni umsíðir í gin óvinarins; sárin eptir hið illa sýnast opt næsta lítil, einsog bit höggormanna, en banvænt eitur rennur samt þaðan úti hverja æð. Og hvernig sem vér eigum að skilja þessa myrku forsögu í fyrstu bók ritníngarinnar að hverju atviki til, þá dettur oss sjálfkrafa sá í hug, er í hinni síðustu bók ritníngarinnar heitir hinn mikli dreki, hinn forni ormur, sá er kallaður sé djöfull og andskoti, og villi gjörvalla heimsbyggðina (Opinb. 12, 9). Veit eg víst, að nú kalla menn þetta úreldta hjátrú, enda ber eg ekki á móti því, að mjög mikil hjátrú hafi sig þar við festa, og því er miður, að hjátrúin ekki aðeins fyllir sálina með eintóman hugarburð og heimskulegar ímyndanir, heldur og einnig afbakar sannindi þau, er verða á vegi hennar, og fyrirmunar þeim, að geðjast hinum skynsamari mönnum. Það er sjálfsagt, að illur andi kemur hvergi í ljós, einsog honum er lýst, til að hræða þá sem einfaldir eru; það væri betur, hann sýndi sig í slíkri mynd, öllum til skelfíngar! en það er einsog postulinn fagurlega að orði kemst, oss til viðvörunar: djöfullinn sjálfur snýr sér í ljóssengil (2 Kor. 11, 14). Það verður ekki bent á, undir hvaða blómum höggormurinn hafi legið; freistarinn smeygir sér að vísu opt og einatt inní dýrð og kæti veraldarinnar, enda læðist hann og opt inní fátæklegan kofa einsetumannsins, og kveykir í brjósti hans illsku og hatur og andlegan þótta. Hann er þér nærstaddur, þegar þú ætlar þig sem óhultastan; hann er þér nærstaddur á hverri stund léttúðarinnar; hann er þér nærstaddur hvert sinn er hugur þinn villist; hann

er þér nærstaddur hvert sinn er tilfinníng þín slokknar; meira að segja: hann hefir optsinnis, þá er þú hafðir lypt sem hæst huga þínum, smeygt sér inní hjarta þitt, og hellt í það eitri hégómagirndarinnar, svoað það hefir þókzt af loguum tilfinníngum og uppgerðartárum.

Freistarinn vitjaði hinna fyrstu manna í aldingarðinum og tældi þau á ávexti þeim, er var girnilegur á að sjá, og líklegur til, að vera mundi lostætur (1 Mós. 3, 6); en það var fyrirboðinn ávöxtur. Virðist þér hún oflítil, til svo hryggilegra afleidínga, þessi raun, sem fyrir mönnunum var sett? En á það ber þér að líta, að maðurinn var þá enn í barnæsku sinni, og það sem íllt er í gjörðum manna, og hegníngar er fyrir vert, er ekki komið undir hinu ytra ásigkomulagi verkanna, heldur huganum, er þau eru af sprottin. Gjörðu úr ávextinum hvað sem þér lízt, en athugaðu, að hann var fyrirboðinn; og fall skepnunnar var í því fólgið, að hún óhlýðnaðist Skapara sínum, og undi ekki við það, er hann hafði henni nógsamlega veitt, heldur fíktist í það, er henni var bannað, og slökkti í hjarta sínu þakklætið og lotnínguna, og vildi sjálf vera löggjafi sinn og herra sinn og guð sinn.

Af þessu falli var nú að sönnu brunnur Guðs miskunar og Guðs lánglundargeðs ekki apturbyrgður, en þó var nú haggað vinfenginu við hann, og sakleysinu útrýmt, og Paradís lokað, er maðurinn hafði selt sig undir yfirráð syndarinnar, og vígt sjálfan sig til mæðu hins fallna lífs og til hinna óteljandi eymda þess, og til beiskju hins líkamlega og andlega dauða. Því jafnskjótt sem hinu innra lífi var haggað, raskaðist og hið ytra; það var ekki til vonar, og gat ekki verið, að hinir föllnu menn ættu sama fyrir hendum, og mannkyninu hafði verið fyrirhugað, ef það stæði af sér freistíngarnar. Blessanin dró sig í hlé, en bölvan kom yfir jörðina.

Undarlegt samband er á milli foreldra og barna — djúp og óransakanleg venzl sameina mannkynið allt; þú ert fæddur í líkíngu feðra þinna, þú hefir slíka mynd sem hinn fyrsti forfaðir þinn, faðir allra mannlegra kynkvísla (1 Kor. 15, 49), og því er miður, að þú ert og hluttakandi hverstveggja — glæps hans

og hegningarinnar. Nú fæðist maðurinn ekki í Paradís, heldur til mæðu og áþjánar og allskyns eymda; nú fæðist hann ekki í sakleysi — hugur hans og vilji og tilfinning eru ædruvís enn vera bæri allt í frá barnæsku. Horfðu á barn þitt, þegar er hið innra líf þess fer að láta á sér bera, og taktu eptir, hvað það hefir af þér erft; en þú erfðir af þinn foreldri. Þegar á barnsaldri kviknar í afkvæmi þinn illskufullur eldur eigingirninnar, óréttvísinnar, reiðinnar, hefnigirninnar og óstýrilæisins. Vera má þú brosir að látæði barnsins, því er þú sérð af, hvað í barninu býr; en ef því er ekki stjórnað, þá er ekki ævænt, að þetta hið sama hryggi þig til dauða og leggi þínar grán hærur í gröfina. Þegar barnið reiðist ákaflega, og vill sjálft skera úr deilu sinni, þá er reiði þessi sprottin af ösfund og þótta, og er sömu tegundar og sú, er því olli, að Kain drap bróður sinn; sú fýsn í barninu, að það laumast til að gjöra það, sem því er bannað, er sömu tegundar, og sú, er því veldur, að þjófurinn seilist eptir annarlegu gótsi, og sá sem ágjarn er til ríkis og yfirráða seilist eptir konúnglegri kórónu, og eys niður blóði margra þúsunda, þegar er færi gefst, og kveykir upp hann eld, er eyðir þjóðum og ríkjum; vanmáttug þrjózka barnsins, þegar það vill ekki gegna, er sama þrjózkan, sem verður ofboðsleg þegar hún magnast, og brýtur af sér lög Guðs og allra manna.

Vér sjáum enn í eðli mannsins hinn fegursta vott þess, að Guð hafi skapað hann eptir sinni mynd; enda finnum vér og hinsvegar, að þetta hið sama eðli er aflagað og spillt, og sú spilling er ekki að kenna hverjum einstökum manni, heldur eru allir menn í henni fæddir, meðþví þeir eru komnir frá Adam, þeim er fyrstur féll. Það fæðist með oss fúsleikur til hins illa, og þegar er hjarta vort tekur að berjast, hnegist það til hins illa, og sú tilhneging er synd, því hún hlýðir ekki lögmáli Guðs, en það er synd, sem er í gegn lögmálinu; en þótt vér erfum tilhneiginguna, þá drýgjum vér þó synd í hverju lögbroti. Því þóað freistarinn breiði út faðminn í móti mér; og þó syndin sé fyrir dyrunum og stríði á mig, þá ætti eg alltaðeinu að bera hana ofurliði (1 Mós. 4, 7). Gjöri eg það ekki — láti eg hana bera mig ofurliði, þá er ekki Adam þarum að kenna, heldur sjálfum mér; og

með þeim hætti endurnýjar hver maður Adams fall. Því þóað til sé illskufull vera, sú er oss tæli, þá megnar hún ekki að kúga oss, og hinsvegar eru til góðir andar, þeir er á oss kalla; það er undir sjálfum þér komið, hverjum þú gegnir. Höggormurinn læðist í kringum þig; ráðist þú í mót honum, þá mun hann flýa fyrir þér (Jak. 4, 7), en gefist þú upp, þá vefur hann sig utan um þig með þraungum bugðum, og blæs í brjóst þitt banvænu eitri og lángvinnum dauða. Vaktu og biddu, gakktu á hólm ekki aðeins við spillingu veraldarinnar í kríngum þig, heldur um allt fram spillínguna í sjálfum þér; því að sönnu veitir freistarinn þér árásir að utan, en hann er hálfu verri viðureignar, afþví hann á sér vin í hjarta þínu. Hver einn freistast dreginn og tældur af sjálfs síns girnd; síðan, þá er girndin hefir fengið getnað, fæðir hún syndina, en, þá er syndin er fullkomnuð, fæðir hún dauða (Jak. 1, 14. 15).

---

## 20.

## Syndin.

Synd — það orð heyrist nú sjaldan í veröldinni; það er einsog menn haldi, að svo hart orð eigi sjaldan við um gjörðir vorar, einsog þeim virðist það ósanngjarnt, bæði við sjálfa sig og aðra, að nefna svo hörðu nafni það sem menn eru vanir að kalla mannlegar yfirsjónir, mannlega breiskleika og mannlega bresti. En, þú hið þúnga orð! þig skal hver ráðvandur maður heyra í einveru sinni, svoað þú getir sagt honum, hvað það er, sem eyðir friðinum í hjarta hans, og hvaða sjúkleiki það er, sem öll hin mörgu sárindi sálar hans eru af sprottin. Synd er lagbrot (1 Jóh. 3, 4), hún er brot hinna helgu laga, sem menuirnir hafa ekki sett, og geta því ekki heldur afmáð þau né ónýtt þau, né umbreitt þeim; synd er því afhvarf af þeim hinum helga vegi, þar manninum er sagt að finna framfarir og frið, afhvarf til þeirra staða, er honum hefir verið bannað að koma, þar eru lindir lífsins

horfnar, en ruglingur er þar og óróſemi, og þar lykſt á endanum djúp glötunarinnar upp undir fótum hins villuráfandi manns. Allar ſyndir hrópa ekki jafnhátt til himins, og það eru til ſyndir, ſem ekki eru banvænar, það er að ſkilja ekki eru orðnar það, ſvoað menn eiga frá þeim apturkvæmt til hins rétta vegar, og eiga að leita á þeim fyrirgefningar, og þurfa ekki að örvænta hennar hjá hinni eilífu líknſemi; en allt ránglæti er ſynd (1 Jóh. 5, 16. 17). Ætti eg heldur að nefna það vægara nafni, ætti eg að draga ſjálfan mig á tálar og hylja hin hryggilegu ſannindi með afſökunarorðum, og draga þoku milli ſjálfs mín og meðvitundar minnar? Nei! eg ſkal ekki hlífa ſjálfum mér, eg ſkal leitaſt við æ koſtgæfilegar og einlæglegar að ſjá ſjálfan mig, einsog eg er; eg ſkal ekki reyna til að gjöra mér hið illa geðfelt, með því að fegra nafn þeſs, heldur ſkal eg nefna það réttu nafni, og ſegja við ſjálfan mig, að í hvert ſkipti er eg gjöri það, ſem eg ekki má gjöra, eður gjöri það ekki, er eg á að gjöra, þá drýgi eg ſynd; hvert ſem eg geri það óvitandi, í fáſinnu af breiſkleika, eða vísvitandi og af áſettu ráði, þá er það allt ſynd.

Það er mannlegur breiſkleiki, ſegja menn, þeſsháttar breſtir og breiſkleikar, er loða við alla menn; og ſama ſegi eg, því þegar meðvitundin um ſyndina vaknar í brjóſti mér, hryggiſt eg ekki aðeins mín vegna, heldur og allra manna. Eg kannaſt við, hverſu mikið veldi ſyndarinnar er, ekki ſamt mér til afbötunar, og ekki af þótta, og ekki til þeſs að geta gerzt dómari annara, og ekki til þeſs að ſvala öfund minni, á því að laſta það ſem aðrir loſa; heldur til að brýna fyrir mér, hverſu fjærri það fer, að vér mennirnir getum orðið ſlíkir ſem vér eigum að verða, ef vér látum eðli vort eittſaman ráða. Guði ſé lof! eg hefi einnig ſéð hið góða og hið ágæta á jörðunni; eg hefi ſéð athafnir, ſem efalauſt þóknuðuſt Guði og mönnum, eg hefi litið inní mörg hjörtu, þarſem byggði elſka á Guði og mönnum. Þó er hryggilegt til þeſs að vita, að hver mannleg ſál er á valdi ſyndarinnar; ſyndin hellir eitri ſínu í hjarta hvers manns, fylgir honum úti ſkarkala veraldarinnar og aptur í kyrrð og einveru. Allar túngur ſegja mannlegt eðli ſé veikt, að það ſé flekkað og ſpillt, hlýtur hver að ſegja, ſem ſér hvernig maðurinn nú er, og ímynd-

ar sér, hvernig hann hljóti ad hafa verid, þá er hann kom frá höndum Skapara síns. Því, er þad hreinleiki og sakleysi, er þad meinleysi, réttvísi og elska, sem þegar í æsku hreifir sér í hjarta mannsins, og er til í honum, ádurenn hann getur nefnt þad, er lýsir sér í ordum hans og gjördum, og ádurenn hann getur gjört greinarmun góds og ills? Æ! þad er hryggileg arfleifd, sem vér ödlumst undireins og vér fædumst, ádurenn medvitundin vaknar, og ádurenn vér erum búnir ad rétta út hendina eptir hinum forbodna ávexti; þad er barátta í oss, ádurenn vér erum búnir ad gánga á vald annarshvers af herrum þeim, sem vér höfum um ad velja.

Ad vísu er engin fýsn til í manninum, sú er ekki væri gód í öndverdu, því ekki eru þær gródursettar af vanhelgum höndum, heldur af honum, er lífid skóp og gaf því lifanda anda. En edli syndarinnar er einmitt aflögun, ad madurinn hefir aflagad þad, sem gott var í öndverdu, og gjört úr því illt, til ógæfu sjálfum sér og ödrum. Þad er ekki illt, ad þig húngrar og þyrstir, ad þig laungar til ad eiga óhultan bústad, ad þig lángar til ad gledja þig og hressa. En þad lögmál, er öll fyrirheitin fylgja, bædi þessa lífs og annars, þad lögmál, er eittsaman kann og á ad leida mennina ad ákvördun sinni, þad hljódar þannig: leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis, þá munud þér fá allt þetta í vidbót (Matth. 6, 33). Ef þessi laungun til Guds ríkis og hans réttlætis er allra fýsna efst og ædst í hjarta þínu, þá munu þær allar gángast henni á vald, og aldrei koma þér til þess, sem ekki á ad vera. En edli mannsins er ordid aflagad, svoad hann metur hid háleita lítils, og hid lítilvæga mikils; svoad andinn er í ánaud, þarsem hann átti ad drottna. Er þetta ekki arfleifd? Þér segid þó, ad þad sé edli ydvart. Eda er þad ekki synd? Hvad er þá synd, ef afhvarf af réttum vegi og þeirri tilskipan, sem Gud hefir sett, er ekki synd, ef þad er ekki synd, ad sækjast fyrst eptir heiminum, og hans unadsemdum og hans dýrd, og láta sídan Guds ríki og hans réttlæti koma, ef þad getur rudt sér til rúms milli alls þessa? En slíkt er hjarta mannsins, allt í frá barnæsku hans.

Ad vísu gat eg ekki ad gjört, hvad mér var úthlutad, ádurenn

eg hafdi vit á ad kjósa; eg veit mig ekki sekan í hinu óraufsak-anlega sambandi milli spillingar fyrri alda, og spillíngarinnar í fyrstu tilfinníngum hjarta míns. En barnid vex, og lærir ad gjøra greinarmun góds og ills, og spillíngin er ekki svo rík, ad løgmál Guds finnist ekki enn ritad í hugskot vor, einsog á hin helgu spjøld, sem hver madur nemur í æsku, og týnir aldrei nidur; spillíngin er ekki svo rík, ad madurinn viti ekki, ad hann á ad óttast Gud, og halda bodord hans. Hefir þú þá haldid þau? Og þegar þú hélzt þau ekki, þegar þú gjørdir ekki þad, sem þú vissir var gott, og hinn betri vilji þinn vildi gjøra, eda gjørdir þad, sem þú vissir var illt; varstu þá med øllu hádur annarlegu valdi, er stjórnadi þér, svo þú máttir ekki í móti standa? eda hnegstu ekki fremur af sjálfsdádum til hins illa, sem ad sønnu bjó í þér, og ætladi sér ad spilla þér, en þú hefdir þó átt ad drottna yfir, og þad ekki yfir þér.

Til eru syndir, sem ødrum syndum fremur eru kalladar afbrot, og eru øldúngis gagnstædar því, sem gjøra átti. Hver getur talid mergd afbrotanna? Hver mundi geta þolad, ad heyra sagt frá øllum þeim illverkum, sem framin hafa verid undir sólunni? Þad hrópar til himins allt hid saklausa blód, sem úthellt hefir verid á jørdunni, þad hrópar á øllum øldum úr grøf Abels og grøfum allra þeirra, sem fallid hafa fyrir brædrum sínum, þad hrópar úr grøfum spámanna, postula og píslarvotta, en seinni alda menn prýddu grafirnar og frømdu þó sjálfir hid sama (Matth. 23, 29); þad hrópar frá hverjum oruftuvelli, er drottnunargirnin hefir hulid líkum, og hverjum stad, er rán og ofbeldi og illska hafa yfir gengid; þau hrópa til himins launin, sem dregin voru af verkamønnunum þeim, er slóu lønd húsbænda sinna sveittir og lúnir, medan húsbændurnir ólu líkami sína einsog á skurdardegi (Jac. 5, 4. 5). O! þú hid bjarta auga dagsins! hvad hefir þú séd allar þær aldir, er þú hefir gengid veg þinn frá austri til vesturs yfir hin vídlendu ríki jardarinnar, yfir veizlurnar í høllunum, og bágindin í kotunum, yfir hina skuggalégu klefa í klaustrunum, og hin vidbjódslegu musteri munadarins! Og þú hid þegula myrkur næturinnar! þegar ljósid ásidar ljómar í gegnum þig, og þú átt ad skíra frá því, er fram fór:

í dymmu þinni, og frá öllum þeim óhæfum og illvirkjum; er vængir þínir hafa ordid ad skýla, þá munu mennirnir vanmegnast af hrædslu og eptirbid þeirra hluta, er bid eylífa réttlæti, sem dvelur, en gleymir aldrei, muni senda yfir jördina.

Til eru syndir, er menn kalla hirduleysi — og þessvegna eru þær ekki syndir? Þú ætlar þér ad réttlæta þig, og segist ekkert illt hugsa vilja eda gjöra; en þegar þú hverki hugsar eda vilt eda gjörir hid góda, þegar þú vanrækir skyldu þína, vanrækir þad, sem Gud og menn hafa bodid þér, og þú hefir á hendur tekizt, þegar þú þegir, er þú átt ad tala, heldur ad þér höndum, þegar þú átt ad starfa, þegar þú eydir æsku þinni, og heldur ad þú eigir fyrst ad fara ad vinna, þegar þú ert ordinn fullvarta, þegar þú á fullordins aldri sofnar á midri leid, og ætlar ad láta únglíngana vaka, þegar þú ber hærur þínar án sóma, og eingirun sést árángur æfi þeirrar, er þú hefir lifad, og ekkert verk, er þú hefir unnid ad, og hverki er komin speki í sálu þína, eda ráð á varir þínar: er þad ekki synd? Ó! þegar, einsog opt ber vid, ógirnilegt verdur ad búa á jördunni, þá veldur opt þad, ad illar athafnir spilla henni, en líka opt þad, ad mennirnir af deyfd og drúnga nenna ekki ad rísa í móti hinu illa, og adstoda hid góda.

Til eru syndir, er menn kalla vitanlegar; þegar einhver hefir vit á ad gjöra gott, en gjörir þad ekki, annadhvert af ósvífni, eda dádleysi, þá er þad synd (Jak. 4, 17). Til eru syndir, er menn kalla óvitanlegar. Þú veizt ekki, ad þú syndgar; en þegar þú loksins verdur þess var, ad þú hefdir getad séd, ef þú hefdir viljad sjá — ad þú hélzt aptur augunum, afþví þú leynilega í hjarta þínu vildir ekki sjá, þegar þú verdur þess var, ad óvizka þín var ekki annad enn bragd óráðvendni þinnar, er þú fyrst laugst ad sjálfum þér, til þess ad geta sídan logid ad Gudi og mönnum: dirfistu þá ad segja, þú hafir ekki syndgad? Þegar Gydingar krossfestu hinn heilaga og hinn réttláta, er var sendur þeim til frelsis og fridþægíngar, þá vissu þeir ekki hvad þeir gjördu. Þeir hefdu getad vitad þad, og áttu ad vita þad, og þessvegna kom blod hans yfir þá og börn þeirra. Til eru syndir, er hver madur verdur ad kalla ásetníngssyndir, og

augljósliga þrjózkast gegn öllu, sem heilagt er; til eru líka syndir, er menn kalla breiðklcika — en er það ekki synd, að þú ert breiskur, og beygist einsog reirinn, sem vindurinn svegir í allar áttir, ert duglaus til allrar áreynslu, og máttlausari enn hver af girndum þínum.

Til eru syndir í orðum, því menninir eiga á dómsdegi að lúka reikníngskap fyrir hvert illyrði, er þeir hafa mælt, því af orðum þínum muntu sikn eða sakseldur verða (Matth. 12, 36. 37). Það erum ekki vér, er þannig mælum, til að refsa hver öðrum, heldur er það hann, er Guð hefir gefið alla dóma. Og þegar kallað verður á mennina, til að lúka reikníngskap fyrir hvert orð, er þeir hafa mælt — o! þú hið undarlega hljóð, er myndast á vörum mannsins! þú ert að sönnu einsog vindblær, sem kemur snögglega og hverfur snögglega, þó hefir þú það til að bera, er sýnir, að maðurinn er skapaður eptir mynd hans, er talar þau orð, sem eru lifandi og öflug og beittari enn nokkurt tvíeggjað sverð (Hebr. 4, 12). Sjá! orð mannsins getur uppfrætt, hvatt, aðvarað, það getur útvegað hinu heilaga dýrð sína, getur hafið þann er viðþarf uppúr duptinu, getur sadt, huggað, læknað, getur glatt hjartanlega. Orð mannsins getur líka þrjózkast og spottað, getur spillt og á tálar dregið, getur sært, hryggt, ollað óvináttu, getur læst sig inní hjörtu annara manna, einsog með broddum, og rifið þau og slitið í sundur, getur upp æst og komið óeyrðum til leiðar í allri veröldunni. Eigi menninir að lúka nokkurn reikníngskap, eigi þeir að lúka reikníngskap hins góða og hins illa, er þeir hafa gjört, eiga þeir þá ekki einnig að lúka reikníngskap þeirra orða, er þeir hafa talað? Og þegar þau þá safnast saman móti oss á dómsdegi, öll illyrði, er vér höfum mælt, öll hádúngarorð, öll rógsyrði, allir óréttlátir dómar, er vér höfum dæmt um aðra; öll fyrirlitníngarorð og öll meiðandi orð, er vér höfum sært aðra með, öll hræsnisorð, sem vér höfum talað þvert um huga vorn, er vér stundum höfum látið sem vér sellumst á hið góða, sem vér ætluðum oss ekki að gjöra, en stundum á hið illa, sem vér dirfðumst ekki að rísa í móti, öll falsyrði, er vér höfum reynt til að komast frá skyldu vorri með, öll loforð, sem vér höfum ekki

endt: rettláti Guð! láttu náð þína hylja mergð syndanna, vertu ekki harður í dómum við oss, heldur líknsamur og miskunsamur, og fyrirgef, svosem vér og fyrirgefum!

En vera má, að einhver segi: lífið kallar að oss án afláts úr öllum áttum, og krefur oss tafarlaust orða og athafna; hvernig á eg því ætíð að geta fengið tóm og tækifæri til að íhuga, hvert það og það sé með öllu leyfilegt, sé einmitt það er skyldan heimtar? hvernig á eg að geta tekið metaskálarnar, og vegið hvert orð, áðurenn eg fel það vörunum á vald? hvernig á eg samstundis að geta hrundið efa samvizkunnar, áðurenn eg segi og gjöri það, er ekki verður aptur tekið? O! **hin rétta uppspretta syndarinnar er í hjartanu**, því eptir eðli eikarinnar fara ávextirnir; menn geta ekki lesið vínber af þyrnum né fíkjur af þistlum (Matth. 7, 16). Það er túngunni tamast, sem hjartanu er kærast; góður maður framber gott úr góðum sjóði hjarta síns, en vondur maður framber illt úr vondum sjóði (Matth. 12, 34. 35). Ef hjartað væri hreint og gott, leitaði fyrst og um allt fram Guðs ríkis og hans réttlætis, elskaði Guð af öllum mætti sínum, og náúngann einsog sjálft sig, þá þyrftum vér ekki með slíkri áhyggju að meta allt er oss dettur í hug, áðurenn vér látum það koma fram í orðum og gjörðum, þá mundi allt gott renna fram, úr hinni góðu uppsprettu, allt það sem hreint er og sómasamlegt, og elskulegt, og loflegt; enda er ekkert sannarlega gott, nema það sem kemur frá góðu hjarta.

Innanað úr hjörtum mannanna kemur og allt íllt, hórdómur og manndráp, svik og rógur, rán og gripdeildir, guðlast og drambsemi og hirðuleysi (Mark. 7, 21 nn. vv.); íllur ásetníngur er ætíð til í hjartanu, áðurenn munnurinn mælir ill orð og áðurenn höndin fremur ill verk. Í hjartanu er hin rétta synd, sú er rís gegn Guði, sú er hæðist að lögum og reglu, sú er afneitar elsku og réttlæti. Og þegar ótti og ógnan hamla henni frá, að koma fram í orði og verki, ertu þá réttlátur, þó þú getir sagt: liferni mitt var hið ytra óaðfinnanlegt, eptir öllum boðum lögmálsins, ef þú þarft að bæta þessu við: en í hjarta mínu bjó þó öfund og ágirnd og drambsemi og illar girndir?

Nema rádvendni ydar taki fram rádvendni Fariſæanna og hinna løglærdu, munud þér ekki koma í himnaríki (Matth. 5, 20).

Æ! réttláti Gud! þegar vér í huga vornm vekjum ímyndina um allar þær ſyndir, er liggja á øllu mannkyni, ſvoſem arfleifd frá øllum undanfornum øldum, um allar þær ſyndir, er hver einſtaknr madur hefir aukid med hina ógurlegu ſkuld, um allar opinberar og allar huldar ſyndir, um øll afbrot og allt hirduleyſi, um øll ill ord og allar illar hugrenníngar, um alla ſpillínguna í hjørtum mannanna og allt hennar afkvæmi: þá finnum vér, hver ad ſé hin beiſka uppſpretta, er ſljót ógæfunnar renna úr yfir jørdina. Og ſyndir þurfa fridþægíngar vid.

---

## 21.

## Eymd mannſins.

Vér getum litid ſvo á manninn, á gáfur hans og áſtand í verøldinni, ad vér gledjumſt af tilveru vorri, ad vér lofum Gud fyrir hina háleitu tign, er hann hefir veitt manninum, og tøkum undir med Davíd, er hann ſegir: þú hefir ſett manninn adeins ſkør lægra, enn englana, þú hefir krínt hann vegſemd og ſóma, þú hefir gjørt hann ad høfdíngja yfir verkum handa þinna, alla hluti hefir þú lagt undir fætur honum (Sálm. 8, 6.7). En vér finnum einnig og hljótum optlega ad finna til tilveru vorrar á þann hátt, ad vér ſkiljum andvarp poſtulans, og tøkum undir med honum, er hann ſegir: eg aumur madur, hver mun frelſa mig frá þeſsum daudlegum líkama (Rómv. 7, 24)? því þarſem því er eins varid og poſtulinn ſegir rétt á eptir, ad øll ſkepnan andvarpar hver med annari og þjáiſt hver med annari, allt til þeſsa dags (Rómv. 8, 22), þarſem vér ſjáum, ad líf er til alſtadar í hinn ſkapada, ſem brjótaſt vill í ljós, og neyta ſíns hins mikla máttar og bera fram óþrjótanleg audæfi ſín, en ſjáum og, ad alſtadar eru ſkordur, er veita fyrirſtødu, og ánaud, er þjáir lífid, ſvo þad getur ekki komid í ljós, nema drænit og á

ófullkomin hátt, einatt lemstrad og æfinlega skammvinnt, þar sem vér á allavegu heyrum, ad kalla má, kveinstafi hins fjötr-ada lifs, er hryggja raddir sjálfrar gledinnar: þá á þetta einn-ig heima hjá manninum, þótt hann sé höfdingi jardarinnar og skapadur eptir Guds mynd; fram af mannsins brjósti brjótast einnig andvarpanir, og þær eru því þýngri, því ríkara líf þad er, sem hreifir sèr í manninum, og þessar andvarpanir rísa ekki af neinu einstöku mótlæti, heldur er þad hinn fjötradi andi, er kveinar af sinni mikilli eymd; sálin girnist ad breida út vængi sína, en hún er kreppt í böndum líkamans og getur ekki flogid til hæda.

Og af hverju kveinid þér þá, börn mannanna? hví gángid þér svo örmædd leidar ydrar? — Ef ádur nefndum andvörpun-um væru léd ord, ef mennirnir ættu ad kvarta hátt yfir volædi sínu, þá mundu sumir kvarta yfir örbyrgd og húngri og veikind-um, og sumir yfir kúgun og raungum dómum, edur sárum sökn-udi einhverra jardneskra gæda. O! vér þekkjum allir þá hersveit hörmúnganna, er geysar yfir þessa jord, en sú hin rètta upp-spretta eymdarinnar, er samt ekki í neinni þessara líkamlegra og stundlegra þjáninga; hverja byrdi, er þú tækir af herdum vesæl-um manni, mundi samt brjóst hans þjást og stynja ad nýu, þegar hin fyrsta tilfinníng léttirsins væri yfirlidin, og hann mundi þá opt og tídum valla vita sjálfur, fyrir hverja skuld hann kveinadi. Þad eru alvarleg ord og merkileg, er spámad-urinn hefir ritad: hví stynur madurinn alla þá stund er hann lifir? hver og einn stynur vegna synda sinna (Harm. gr. 3, 39)! Syndin er hin fyrsta uppspretta allrar eymdar, og þessi hin beiska móda flóir enn yfir völlu mannlegrar æfi, svo fegursta blóm hennar fölna.

Þ v í l a u n s y n d a r i n n a r e r u d a u d i n n (Rómv. 6, 23) segir Páll postuli, og hann er þar á undan búinn ad segja, ad syndin hafi komid í heiminn fyrir eins manns sakir, og daudinn vegna syndarinnar, og ad daudinn hafi runnid inn til allra manna, afþví allir hafi syndgad (Rómv. 5, 12). En þegar heilög ritníng nefnir daudann í þessari grein, meinar hún og ad vísu til þess dauda, sem gjörir enda á þessu voru lífi í líkamanum,

því skelfing sú og sárindi, sem honum fylgja, eru sprottin af syndinni; en þaraðauki merkir það annarskonar dauða, þegar talað er um að vera dauður í afbrotum og syndum (Eph. 2, 1). Það merkir sloknun hins andlega lífs, sem er í ætt við Guð og Guð hefir glœdt, hins sæla lífs í Guði, þegar talað er um þá, er sitja í myrkri og í dauðans skugga (Lúk. 1, 79). Þar skín ekki ljós sannleikans, þar heldur ekki réttlætið mönnunum í nytsamri hlýðni, þar fyllir ekki og sameinar ekki kærleikurinn hjörtu þeirra, þar er ekki styrkleikur trúarinnar og ekki blítt ávarp vonarinnar, sem ætlað var til að leiða manninn áframhaldandi frá stund til stundar, og frá stundlegum tíma til eylífðar. Samt eru ekki kraptarnir að öllu leiti dánir, þeir brjótast einatt um, heldur óstýrilátlega, og eru rángsnúnir, og einmitt af þessu sprettur eymdin öll. Ef líkaminn væri að öllu leiti dauður, þá væru eingin veikindi í honum, því það er barátta lífsins gegn fyrirstöðunum, sem veldur harmkvælum veikindanna. Svo er og um hið andlega lífið, að ef það væri að öllu leiti sloknað í spilltum manni, þá væri ormurinn, sem bitur hann, einnig dáinn og eldurinn kulnaður; en einmitt afþví hinir rótgrónu kraptarnir hreifa sér enn án afláts, þó ekki samkvæmt eðli þeirra, ekki í sátt og sameiníngu, ekki til æ frjálsari og æ farsælli eflíngar lífinu; einmitt af því fylgir hegníngin syndinni.

Þessvegna snúum vér fyrst hugleiðingum vorum til hins innra lífsins, þegar vér viljum hugleiða eymd mannsins, og gefum gætur að, hvers vér verdum þar varir.

Og þá hittum vér fyrst fyrir vanþekkínguna með öllum afleiðingum sínum. Vér meinum ekki á þessum stað til skammsýni þeirrar, er hlýtur að verá samfara eðli og ástandi endanlegrar veru, því þarsem svo mikil þekking er til, að hún getur leidt manninn í eptirgrenslan hans og athöfnum, hversu mikið sem hann vantar á algjörða þekkingu, þarsem fyrirstöðurnar fjarlægjast æ meir og meir, þarsem að er sívaxandi nálægd ljóss og birtu: þar köllum vér ekki að sé vanþekking. Þegar vér nefnum þetta hryggilega nafn; koma oss, ef til vill, fyrst í huga þær þjóðir, er segja má um með fullum sanni, að þær sitji í myrkri og dauðans skugga, þarsem allt það er horfið, sem mann-

inn prýdir, þarsem allt hid ædra ljós er svo gjørsamlega slokknad, ad berlega má sjá hinn helgi eldur geti ekki kviknad aptur af sjálfsdádum, heldur verdi neistinn ad koma úr annari átt. En þurfum vér ad fara svo lángt, til ad finna vanþekkínguna og þá eymd, sem henni fylgir? Æ, því midur! einnig í grend vid oss, einnig medal þeirra þjóda, er ala og annast hinn fagra vísi uppfrædingarinnar í skauti sínu, sjáum vér nógsamlega, hversu seint myrkrid þokast á burt, og hversu dapra dymmu þad sendir enn allajafna inná ljósid, sem farid er ad renna upp. Einnig hjá þeim, sem ordnir eru kænir í þeirri ment, ad meta stundlegan ágóda og stundlegan halla, ad gjøra sér lífid æ þægara og og vidunanlegra, og eru dugnadarmenn í allskonar jardneskum athøfnum; einnig hjá þeim hittum vér þráfaldlega hina grátlegustu vanþekking á adal-ákvørdun lífsins, á skyldum þess og styrkleika og huggun og von; og þad lítur út einsog øll kunngun og allur kraptur til ad afla nokkurrar háleitrar þekkíngar, sé gjørsamlega horfinn. Meira ad segja, enda þar sem sálin er vøknud, þar sem hún leitar af alhuga eptir sannleikanum, þarsem hún grenslast eptir uppruna hlutanna og hinu hulda sambandi þeirra, og leitar vid ad ransaka alla leyndardóma, þar heyrum vér og tídum þá hina gømlu umkvørtun, ad þar sem mikil vizka sé, þar sé og mikil hugsýki, og ad hver, sem eykur þekkíngu sína, hann auki einnig harmkvæli sín (Préd. 1, 18). Því þarsem sálin er ekki leidd af neinu ædra valdi, og ekki styrkt og studd af neinum ædra krapti, þar kemst hún optlega á afvegu og verdur leidd á eydimørk, í stad þess hún átti ad verda leidd ad uppsprettum lífsins, þar truflast hugsanir hennar, og efasemdir þreyta hana og særa. Þetta er annarskonar eymd, enn eymd þeirra, sem eyda æfi sinni í andlegri deyfd og ómennsku, þad er eymd hinna vitru og spekínganna, þegar rángsnúinn hugur þeirra vill ekki nema sannindin í fyrstu, á sama hátt og fáfrædingarnir í hreinskilni hjartna þeirra; sá einn þekkir þessa eymd, sem hefir lifad þær stundir, er líkaminn þjáist á eingan hátt, en sálin stynur í hljódi, svo segjandi: eg er sjúk og fátæk og blind, og án athvarfs á himni og á jørdu.

Þvínæst verdur syndin fyrir oss, og er hún bædi orsök og afleiding vanþekkíngarinnar. Þad mætti virdast undarlegt, ad vér nefnum syndina sjálfa á þessum stad, er vér ætludum ad tala um þá eymd, sem er hegníng syndarinnar; en til ad geta kannast vid þá eymd, er syndin leidir yfir mennina, þurfum vér ekki ad líta á hinar adrar þjáningar, sem henni fylgja; hún er nógu mikil þjáníng sjálf, og hinir fornu spekíngar hafa med sannindum sagt, ad Gud hegni syndum med syndum, þvi madurinn eykur yfirrád syndarinnar yfir sér med sérhverri nýrri synd, er hann drýgir. Og þad eru sannindi, ad ok syndarinnar er ekki farsællegt, og byrdi hennar er ekki létt. Ef vér athugum þá, sem postulinn hefir um sagt, ad þeir séu blygdunarlausir og fremji allskonar andstyggd (Eph. 4, 19), þá eru þeir ad vísu búnir ad snara af sér byrdi samvizkunnar, ad svo miklu leiti sem hinar helgu raddir skyldunnar og sidseminnar og gudhrædslunnar ásaka þá ekki berlega, en samt geta þeir ekki ad öllu leiti varizt leynilegu biti samvizku sinnar; hvar sem þeir fara, bera þeir med sér þúngbæra tilfinníng illsku sinnar og einkisvirdis; þeir æskja opt og einatt, þótt ekki sé nema vegna stundlegrar velferdar þeirra, ad þeir gætu risid á fætur úr því djúpi hádúngarinnar, sem þeir eru sokknir ofaní; en þeir segjast ekki geta þad. Ad vísu er þad ekki satt, er þeir segja, þeir ljúga einnig í þessari grein gegn samvizku sinni, en satt er þad raunar, ad því lengur sem madurinn hefir verid þræll syndarinnar, því örduga veitir honum ad brjótast undan oki hennar, og med hverri nýrri synd snýr madurinn nýtt hapt á hendur sér. Og enda þeir, sem, annadhvert af ótta fyrir stundlegu tjóni, edur af von um stundlegan hagnad, fordast opinbera lesti, er heiminn sjálfan stuggar vid, hvílíkri eymd hlada þeir á hjarta sitt, er þeir gjöra þad ad bæli syndarinnar, og ala þar illar girndir, er þeir dirfast ekki ad sleppa lausum. Því hvernig sem varid er hinu ytra ástandi þeirra, bera þeir jafnan helvíti í hjarta sér, þarsem ágirnd, eda drambsemi, eda öfund, eda reidi og hatur og hefndargirni, eda losti, eda allur þessi vargaskegur rífur og slítur hjartad í brjóstum þeirra. Spillíngin er ekki jafn-mögnud í öllum mönnum, en þarsem syndin er ei ad sídur runnin inn til allra þeirra, býr einnig eymd hennar í allra

manna hjørtum, og eins þeirra, sem af alhuga hafa leitad Guds-rikis og hans réttlætis. Hver er sá, er ekki hafi fundid sárt til þess, ad hinn gódi vilji sé ordinn svo veikur í honum, ad hann verdi optlega ad bugast fyrir illum girndum, ad tælingar hrifi hann med sér, ad ósæmilegur ótti eda leti aptri honum. Hver er sá, er ekki hafi ordid ad kveina, einsog postulinn, er hann kemst svo ad ordi: viljann hefi eg ad sønnu, en eg megna ekki ad framkvæma hid góda, því hid góda, sem eg vil, þad gjøri eg ekki, en hid vonda, sem eg vil ekki, þad gjøri eg (Rómv. 7, 18. 19). Postulinn segir ekki, ad sig hafi hendt þetta í hvert skipti, heldur segist hann optlega hafa fundid ad hann væri svo ásig-kominn; og hver er sá, er verdi ekki ad játa þetta ásamt hon-um? hver er sá, er ekki hafi ordid ad reyna, sér til ángurs, ad þótt ásetníngur hans hafi verid hreinskilinn, og þótt hann jafn-vel hafi virzt ad vera styrkur og stadfastur, þá hafi hann samt þráfaldlega séd sig hrifinn þángad, næstum því óafvitandi, er hann vildi ekki vera kominn? Þad er grátlegt, ad vér skulum ekki vera styrkari og betri; en vesælir erum vér, ef vér látum þetta liggja oss í léttu rúmi, ef vér finnum ekki, ad þessi veik-leiki er eymd, ef vér skiljum ekki andvarp postulans, þarsem hann kvedur svo ad ordi, einmitt vid þetta tækifæri: eg aumur madur! hver mun frelsa mig frá þessum dauda?

Hid rétta edli syndarinnar er fólgid í því, ad madurinn vill slíta sig lausan frá Gudi og mønnum, og vera einn útaf fyrir sig, og hafa ekki samfélag vid neinn. En einmitt af þessu hefir syndin þúnga hegníngu í før med sér, og þad eru hinar miklu mætur á sjálfum sér, og kærleiksleysid, er ríkir í spilltum hjørtum. Ad vísu er sá, sem hirdir adeins um sjálfan sig, laus vid allar hinar mørgu og þúngu áhyggjur kærleikans, og verid getur honum þyki um stundarsakir, sem líf hans sé honum létt-bærara enn ødrum, afþví hann þarf ekki ad hryggjast med hinum hryggu, né gefa neinn gaum ad høgum þeirra, afþví hann getur látid sér nægja, ef honum lídur ekki sjálfum illa. En sá tími lídur skjótt, er madurinn þykist betur farinn á því, ad hrada sér gegnum lífid, án þess ad taka vidkvæman og hreinskilin þátt í kjørum annara

manna, og án þess að tengja hjarta sitt við nokkurn hlut; og þegar það að lokunum heppnast honum, að slíta sundur öll bönd kærleikans, að elska eingan og vera af eingum elskaður, þá er veröldin orðin honum auð og tóm, einsog hjartað er í brjósti hans, hann finnur ekki til neins af hryggð þeirri, er kærleikanum fylgir, en ekki heldur til neins af indæli hans; og þótt að slíkur maður safni að sér leigðum þjónum, þótt hann steypi sér í allskonar soll, og leitist við að svæfa meðvitund sína í óminnisvímu glaums og glaðværða, segir þó án afláts röddin í brjósti hans: þú ert einmana og yfirgefinn! hann á ekkert, afþví hann vildi eiga allt einn. Það er að sönnu eitt í handleiðslu Guðs, að hann lætur einnig á stundum hið ástríka hjarta verða einmana statt í veröldinni; en einmitt þessi einstæðingsskapur nálægir það Guði ennþá meir, það leitar í eymd sinni til hins himneska Föður, og hann rekur það ekki burt frá sér, hann lætur það finna til sín í honum og til hans í sér, og veitir því á þenna hátt þau auðæfi, það missir ekki aptur, þegar það öðlast í viðbót kærleika mannanna. En að því skapi, sem syndin losar manninn við Guð, veikist og traustið og kærleikurinn, og sá sem aðeins vill gefa sjálfum sér holl ráð, og líta ekki nema á sinn hag, hann hefir að lokunum ekkert athvarf á himni né jörðu. Þá ásakar hann, ef til vill, bæði himin og jörð, en athugar ekki, að hann hefði átt að ásaka sjálfan sig og synd sína.

Híngaðtil höfum vér lýst hinni innri eymd í hjarta mannsins; hvar ættum vér að hætta, ef vér færum að telja fram hina ytri eymd, allar þær hörmúngar, er þjaka mannkyninu? En þær eru einnig laun syndarinnar; ó maður! þessu verði hefir þú selt tign sálar þinnar, og selt Guð þinn og ríki hans. Ef vér ímyndum oss, að syndin hefði ekki komið í heiminn, hvílík eymdafjöld væri þá afmáð! því stríð og upphlaup, og allskonar kúgun, og afleiðingar þeirra á heilum kynslóðum, og svik og rán og gripdeildir, og rógur og ofsóknir — allt þetta væri þá ókunnugt á jörðunni. Þá mundi einginn stynja í örbyrgð og sjúkleika af sjálfs síns völdum, og í allri þeirri eymd, er samfara verður rofi þeirrar reglu, sem Guð hefir sett. Og sú neyð, er þá yrði eptir, hve miklu vægari mundi hún þykja, þarsem

tryggð og viðkvæmni kærleikans, og hin mjúka hönd miskunarinnar mýktu hana, og hjarta hins nauðstadda væri öruggt fyrir tilstyrk góðrar samvizku og trúar og þolinmæði! Ef mennirnir hefðu varðveitt samfélag sitt við Guð og rofið það ekki, þá mundi ekki heldur mönnunum hafa verið ætlað að bera það, sem nú er lagt á herðar hinni föllnu kynslóð.

Allur þessi margháttaði dauði, þessi afleiðing hins ytra og innra lífs, er kominn í heiminn ásamt með syndinni; og sjálfur dauðinn, er vér köllum svo í réttustum skilningi, hann er einnig laun syndarinnar. Að sönnu höldum vér ekki, að hefði syndin ekki komið í heiminn, þá mundi maðurinn hafa orðið kyrr á jörðunni um aldur og æfi. Sá hnöttur, er vér nú byggjum, er að líkindum ekki hinn fegursti og ágætasti allra hnatta; meðal hinna mörgu híbýla í húsi vors himneska Föður, eru þau að líkindum sum, er dýrð hans birtist enn fremur í, og íbúar þeirra finna betur til nálægðar hans. Og þessum æðri bústöðum hefir syndinni ekki verið ætlað að ljúka upp fyrir mönnunum, miklu fremur mundu þeir hafa orðið því verðari að sjá hið fullkomnara, að liðnum uppeldis-tíma þeirra hér á jörðu, ef þeir hefðu varðveitt það samfélag við Guð, er þeir voru skapaðir í fyrir öndverðu. En blíð og hæg burtför í stöðugri trú og sælli von, til bjartari og dýrðlegri heimkynna, þegar þeir, sem eptir bíða, líta á bak hinum framliðna með sömu tilfinningum og postularnir, er þeir sáu skýið taka Drottinn vorn burt frá augum þeirra — það heitir ekki dauði; það er ekki dauðinn, einsog vér þekkjum til hans, sem verið er að lýsa, þá er ritningin segir um Enoch: hann var Guði hlýðinn og hann sást ekki framar, því Guð nam hann á burt (1 Mós. 5, 24). En það eru laun syndarinnar, að dauðinn hefir nú brodd sinn og skelfingar í fylgd með sér, að hann kemur nú með öllum harmkvælum sínum og hylur hina síðustu gaungu mannsins í dymmu myrkri. Og dauðinn er runninn inn til allra manna, afþví allir hafa syndgað; einsog allir menn eiga hlutskipti í brotum alls mannkynsins, svo eru þeir og hluttakandi mannlegra afdrifa. Það er ekki heldur aðeins ein döpur stund, er einungis að lokunum liggur fyrir hverjum manni, sem í heiminn er borinn til að líta ljós sólarinnar, því dauðinn

leyniſt hvervetna í aldingardi lífſins, og laungu fyrr, enn hann ætlar ſér ad hæfa, dregur hann dapran ſkugga yfir øll þeſs blóm; hvad eptir annad minnir hann þig á uálægd ſína, og þú veizt ekki nema hann muni þá og þá ſlíta áſtvin þinn úr fadmi þér, og ekki veiztu hvenær hann mun ſnerta þig ſjálfan kaldri hendi, og vígja þig ſvo til myrkra ſinna. Í þeſsari óvíſsu og þó ſvo víſsu eptirbid, eydir madurinn døgum ſínum, og medan daudinn verdur ekki ſviptur broddi ſínum, ná þeſsi ord poſtulans til allra manna, ad þeir lifa allan aldur ſinn undir ánaudaroki af ótta fyrir daudanum (Hebr. 2, 15).

Mønnunum er ætlad einuſinni ad deya, en ſídan kemur dómurinn (Hebr. 9, 27). Þad eru nú fæſtir, ef til vill, er hugſa greinilega um þenna dóm, ódar enn ádynur; mørgum virdiſt þad, ef til vill, annad eins lítilræði, ad lúka reikningſkap ſínum, vid hinn heilaga og réttláta Gud, einsog ad lúka honum vid ſjálfa ſig. En hrædſlan býr ſamt leynilega í brjóſtum þeirra, og ef þeir á ſtundum reyna til ad hugga ſig fyrir ſkelfingum daudans med von ókomins lífs, ſkelfaſt þeir af þrumurøddum dómſins, er duna úr fjarſka í eyru þeim. Því hverſu leugi ſem þeir hafa tamid ſér þá ment, ad afneita og þrjózkaſt, þá er ſamt ætíd eitthvad í þeim, er veit, ad þeir eiga ad gjøra honum reikningſkap, ſem viðbúinn er ad dæma lifendur og dauda (1 Pét. 4, 5). Og þeſsvegna eru þeir einatt ſvo aumlega ſtaddir, ad þeir eru þreyttir og ſaddir af þeſsu lífi, og ſkjálfa þó og titra fyrir þeirri ſtund, ſem á ad ljúka øllum þeim hørmungum, er kvelja þá.

En hví høfum vér talid fram alla þá eymd, ſem komin er ſaman í því andvarpi, er brýzt fram af mannſins þjádu brjóſti? Vér høfum gjørt þad vegna þeſs, ad tilfinning eymdar vorrar kveykir laungunina til endurlauſnar, og gruninn og vonina um hana. Því þegar madurinn andvarpar þannig, hlýtur hann annadhvert ad gefaſt á vald hugganarſnaudri ørvinglun, edur hann hlýtur ad þrá endurlauſn. Heilbrygdir þurfa ekki læknis vid, heldur þeir ſem vanheilir eru (Matth. 9, 12), og þeſsi tilfinning mannlegrar eymdar, er einmitt þad, ſem leidir oſs til Kriſts.

## 22.

## Fagnadarbodskapur Krists.

Páll postuli byrjar bréf sitt til Kólossüborgar manna á því, ad þakka Gudi fyrir, ad sannleiksord kristinnar trúar séu til þeirra komin, einsog um alla verold, og fyrir þad, ad þau séu ávaxtarsom hjá þeim, einsog alstadar. Postular Krists hofdu sannarlega mikid tilefni til ad þakka Gudi, þegar þeir á efra aldri litu á umlidin ár. Ad sonnu áttu þeir mikillar armædu ad minnast, mikilla báginda og mikilla ofsókna, þegar þeir renndu huga sínum yfir lidna æfi; og andstreymidvar enn ekki á enda kljád, því þeir komust aldrei í þad ástand, ad þeir gætu horft útá hid ólgufulla haf úr óhultri hofn, þeir áunnu sér aldrei róserni né heldur von um hana hér á jordu. Pannig reit Páll bréf þetta í fángelsi, og þó hann vonadist eptir, ad hann mundi leysast einnig úr því fángelsi, þá ætladi hann sér ekki fyrir þad, ad setjast ad í nædi og makindum, heldur átti hann í vændum hid sama andstreymi og hina somu mædu og ádur. En hinn réttláti hryggist ekki af því, ad minnast mædu þeirrar og rauna, er fyrir hann hafa komid, þegar hann getur einnig minnzt þess, ad hann hafi séd árángur þess. Og þenna árángur hofdu postularnir séd, mikinn og undarlegan. Heidnidrottnadi í veroldinni, svartmyrkur grúfdi yfir ollum londum, og sýndist mundi eyda ollum sannindum, réttlæti og kærleika, en á þeim hinum dymmu og doprú tímum var sú hrísla gródursett, er audsjáanlega þroskadist gudlegum þroska; postularnir gátu, hvert sem þeir litu, þakkad Gudi marga, sem hæsir voru ordnir til ad odlast hlutskipti heilagra í ljosinu, sem frelsadir voru úr ánaud myrkursins, og fluttir inní ríki hins elskulega Sonar Guds, og um þá voru postularnir sannfærdir, ad þeir væru endurleystir fyrir hann. Pessvegna gladdist Páll í þjáningum sínum fyrir sofnudinn, er hann hafdi tekizt á hendur ad þjóna, eptir þeirri sýslu, sem Gud hafdi honum á hendur falid (Kól. 1, 3. og s. frv.)

Pau umskipti, sem urdu vid fagnadarbodskap Krists, eru hin merkileguftu og undarlegustu, sem nokkurntíma hafa ordid

í veroldunni. Þeir sem brotid hafa undir sig lønd og ríki, hafa ad sønnu á stundum bruitt vegum þeirra, en þad hafa þeir gjørt med ófridi og ofbeldi. Ad sønnu befur þad tekizt einstøku løggjafa, ad umnynda þjód sína eldúngis, en þá hefir þad komid til af því, ad þjódin hefir fengid honum vøld á hendur, til þess hann gæti komid á breitíngunum, af því, ad þjódin hefir undirgengizt ad hlýda bodi hans og banni, og gefid honum sverd laganna, til ad kúga hina óhlýdnu med. En í þetta skipti voru þad fáir menn og umkomulitlir, þeir komu úr landi, sem fyrirlitid var, frá þjód, sem hatud var, þeir komu frá krossi, er Drottinn þeirra og Meistari hafdi verid negldur á, svosem óbótamadur; þeir áttu hverki gull né silfur, til ad kaupa sér áhángendur, þeir høfdu eingin veraldleg metord, til ad krefjast athyglis og hlýdni, þeir hófu ekki stríd, til ad stofna ríki eda eyda þeim, þeir høfdu ekki þad, er þeir kalla sjálfir fortølur málsnildarinnar (1 Kor. 2, 4), þad er: þó ræda þeirra væri full af anda Guds og krapti, og hin háleita himneska speki væri í henni fólgin, var hún samt ekki løgud eptir þeim fegurdarreglum, er á þeim øldum voru í áliti, og ekki løgud til ad ávinna hylli þeirra vitrínga, er þá voru uppi og kenndu; alstadar urdu þeir fyrir spotti eda hatri, og voru Gydíngum til hneixlis en Grikkjum ad athlægi (1 Kor. 1, 23). Samt sem ádur fekk kenníng þeirra vidtøkur og vidgáng, samt sem ádur blómgadist idn þeirra, og afleiding starfa þeirra breiddist æ meir út, og hefir stadid stødug, hvernig sem annad hefir breizt allar aldir sídan, og er ennþá audsær bædi í oss og umhverfis oss. Hvernig er þad komid til? **Hvernig hefir kristin trú fengid svo dásamlegan vidgáng?**

Vér leysum úr þessari spurning med annari spurníngu: hvernig kemur þad til, ad jørdin ber ávexti? Jordin ber ekki korn, nema korni sé sád í hana, og kornid sprettur ekki, nema þad sé látid í jørdina, og þróast þó ekki mønnum til blessunar, nema himininn veiti hagstæda vedráttu; en verdi allt þetta samfara, þá er þad edli hlutanna, eptir því sem Gud hefir gjørt þá, ad gnægd kornsins tekur ad hylja akrana. Svo er og sú þekking á Gudi og vilja hans og rádstøfunum mønnunum til frelsis, er gledur oss kristna menn, ad hún hefdi ekki getad breidst útum jørdina, hefdi ekki

fagnadareyrindi Krists verid bodad; en ekki hefdi fagnadareyrindid fengid framgáng, nema eitthvad sé til í hjarta mannsins, er þarfnist þess, sem Kristur færir því, og fái af því fullnægju. Ofbeldi og illyrdi geta ekki áunnid fagnadarbodskapnum Krists vidtøkur í hjarta mannsins; skynsamlegar røksemdir geta ad sønnu greitt gøtu hans, og verid honum til verndar, en menn gefa þeim samt ekki fullan gaum, og meta þær ekki réttilega, og íhuga þær ekki nógu nákvæmlega, nema þeir finni til dýrdar og sanninda fagnadarbodskaparins. Og þessi tilfinning, sú hin sæla ró, sú huggun, sú gledi, er hjartad finnur til, þegar ljós Krists fer ad skína inní þad, ber vitni þess, ad til er í manninum þerf sú, er enginn hlutur annar fær úr bætt, og ad edli mannsins er þannig háttad, ad hann getur hvergi ødlazt fullnægju, nema í Kristi.

Edli hvers hlutar þýdir ásigkomulag hans, einsog þad er upphaflega. Edli mannsins þýdir því þad ásigkomulag hans, sem hverki áhrif annarra hluta né frjálsrædi sjálfs hans hafa breitt. Einsog madurinn er nú, þegar hann fer ad vita til sín, þá er edli hans spillt, og þessvegna hefir þad verid sagt, ad madurinn skilji ekki eptir edli sínu þad sem andlegt er (1 Kor. 2, 4), og ad vér séum allir eptir edli voru børn reidinnar (Eph. 2, 3). En þetta hid spillta edli var ekki edli mannsins í øndverdu, því Gud hefir ekki gjørt manninn slíkan; ekki hefir heldur spillingin eydt øllum leifum hins upphaflega ásigkomulags mannanna, og aldrei getur hún ordid svo møgnud, ad íllskan verdi hid rétta edli þeirra; því fer svo fjærri, ad í rauninni er íllskan afløgun, sem er gagnstæd edli mannsins, og því óstýrilátari og ósvífnari sem hún er, þess andsæraru verdur þad, ad hún er gagnstæd edli hans, og því segir postulinn, ad heidingjarnir gjøri eptir edli sínu þad sem løgmálid býdur (Rómv. 2, 14).

Allteinsog mannlegu edli er nú þannig varid, ad þad løgmál, sem hann optlega brýtur, og lætur sér úr minni lída, og fyrilítur, þad er ritad í hjarta hans, eins er því og þannig varid, ad sú laungun til hins gudlega og eylífa, til lausnar og hjálpar, frelsis og fridar, er hann optlega eydir og útrýmir, býr þó ávallt í brjósti hans. Og úr því þad er Guds eylífa rád-

sköpun, ad menninnir skuli ödlast lausn og frid og frelsi fyrir Jesum Krist, þá dirfumst vèr ad segja, ad það sé mönnunum edlilegt ad þrá Krist, og ad sú þörf búi í brjóstum þeirra, er hann einn getur úr bætt. Þessi laungun býr í manninum, einnig ádurenn hann þekkir Krist, en hún er þá einsog óljós grunur, og leitar alstadar, en finnur hvergi hvíld, fyrr enn hún finnur hann; en þegar hún er búin ad finna hann, þá kviknar í manninum elska, er hrópar úr djúpi veru hans: Drottinn! til hvers ætti eg ad leita, ef eg yfirgæfi þig? þetta er meining postulans, er hann segir um Drottinn sinn, ad allir hlutir séu "skapadir handa honum" (Kól. 1, 16); allir hlutir eru svo gjördir, ad þeir ná ekki fullkomnun sinni, nema í sambandi og sameining vid Krist; þó er andi mannsins einkanlega svo lagadur, ad hann getur ekki nád fullkomnun og fridi og sælu, nema í samveru vid Krist; hann leitar Krists eptir upprunalegu edli sínu, og er skapadur "handa honum". Af þessu kemur þad, ad fagnadarbodskapur Krists hefir tekid slíkan vidgáng í veröldunni. Einsog kornid hefir breidt sig út um veröldina úr því fjarlægu landi, er Gud gródursetti þad fyrir öndverdu, vegna þess þad bætir svo einkarvel úr líkamlegum þörfum mannanna, þannig hefir og fagnadarbodskapur Krists breidt sig út um ríki veraldarinnar, afþví hann bætir úr hinum andlegu þörfum, og fullnægir hinni miklu, brennandi laungun í andlegu edli mannanna.

Hver mundi bera móti því, ad það sé samkvæmt mannlegu edli ad trúa á Gud, eda ad madurinn sé í öndverdu til þess skapadur. Ad sönnu er þad ekki fortakanda, ad einstöku þjód geti verid ordin svo dýrsleg, ad hún hafi næstum allseingan grun af því, ad Gud sé til; verid getur og, ad stöku madur medal vor villist svo ofbodslega, ad um hann megi med sanni segja, ad hann sé án Guds í heiminum, ad honum sé gagnstædilegt ad hugsa eda heyra talad um Gud, og allt gott sé frá honum vikid, þegar hann er búinn í mörg ár ad herda hjarta sitt, og hefir sýnjad hinu góda og háleita um alla hlýdni, en velt sér í munadarlífi, eda ágirnd, eda ómennsku. En þetta ástand er fullkomin spilling. Því medan þú ert ekki búinn ad

herda hjarta þitt, þá veit eg fyrir víst, að þegar eg tala við þig um Guð, hinn eylífa, sem allir hlutir eru byggðir á, og standur stöðugur, hvernig sem veröldin breitist um aldur og æfi, og vilji hans bifast ekki, hvernig sem mannlegur vilji fer á reik; um Guð hinn almáttka, er sólir skína og sólir myrkvast að boði hans, ríki hefjast og ríki eyðast, en ekki fellur einn titlingur á jörð án hans vilja; um Guð hinn heilaga og réttláta, er gjalda mun sérhverjum eptir því sem hann hefir til unnið, og hið illa mun ekki fá í móti staðið — þegar eg tala við þig um þetta, þá veit eg fyrir víst, að ræða mín fær á þig, og sannfærir þig, ekki meðþví að færa til djúpsærar ástæður, né heldur með haglegum ályktunum, heldur vegna þess hún verður að geðjast hjarta þínu, og koma saman við það, sem óspillt er í eðli þínu, svoað þú finnir að hún er sönn.

En það er líka samkvæmt mannlegu eðli, að trúa gudlegri opinberan. Þó Guð sé ekki fjarlægur neinum af oss, og vér sjáum alstaðar merki Guðs, hryggir það oss þó optsinnis, að vér finnum, að hann býr í því ljósi, er hugur vor fær ekki að komizt; og þegar vér lítum upp til himna hans, er vér fáum ekki uppi komizt, þá liggur það beint við, og er oss eðlilegt, að óska Guð komi niður til vor, og birti sig, og gefi oss svo mikla þekking á sér, að hinn reikandi hugur geti staðnæmzt, og hið skelfda hjarta fengið hvíld. Um allan jarðarhnöttinn og um allar aldir hefir verið talað um guðlega opinberun; það er optastnær samsetníngur og skrokksögur, en einnig þær bera þess vitni, hversu eðlilegt manninum sé, að ímynda sér, að Guð, sem hlýtur að vilja mönnunum ödlist þekking á sannleikanum, hafi ekki látið þá öldúngis tilsagnarlausa. Eða voru það aðeins fávísar þjóðir í fornöld, er fundu að þær þörfnuðust guðlegrar opinberunar? Er mannkyninu nú farið svo fram, að það þurfi eingrar opinberunar við, og vilji við einga opinberun kannast? Lítið í kríngum yður, þegar einhver kemur, og segist vera spámaður, og þykist hafa fengið háleitar opinberanir, geta gjört tákn og stórmerki, og hafa æðra ljós enn aðrir menn í sálu sinni, og gáið að, hvernig menn flykkjast utanum hann, ekki aðeins hinn fávísi múgur, heldur og þeir, er vilja láta telja sig í tölu

þeirra, sem vitrir eru og vel ad sér. Slíkt er svívirdilig hjátrú, dramb og hégomagirni, vitanleg eda óvitanleg svik af beggja hálfu; en einnig lýgin á ad bera vitni sannleikanum, og sýna, ad þad er sterklega innrætt mannlegu edli, ad madurinn leiti þángadtil hann finnur Gud, nær og skírar, enn í einumsaman vidburdum náttúrunnar. En hví leitid þér þess hjá lýginni, er sannleikurinn býdur ydur? Hversvegna leitid þér þess í leynum og myrkri, sem liggur bert í dagsljósinu? Fagnadarbodskapur Krists lædist ekki um kríng í ískyggilegu rökkri, heldur er hann opinber öllum kynslódum; hann er ekki grundvalladur á flugufregnum og tortryggilegum frásögum, heldur hefir hann greinilegar ástædur vid ad stydjast; hann bodar ekki heimskulegan samsetníng, heldur þad, er hver hreinskiliun hugur verdur ad gledjast vid ad heyra: ad Gud hefir opinberast í þeim, sem ædstur er allra manna, og hin rétta kóróna og prýdi kynslódar vorrar, sem gjördist madur og bródir vor, en er þó mynd hins ósýnilega Guds, og frumgetníngur allrar skepnu, og fyrir hann eru allir hlutir skapadir, bædi á himni og jördu, sýnilegir og ósýnilegir; sá hinn sami var ádurenn allt annad, og allt vidhelzt fyrir hann (Kól. 1, 15. 16. 17). Þetta einka-ágæti opinberunarinnar, er hún hefir svo mjög umfram allt annad, sem kallad er gudleg opinberun, eda er þad í raun og veru, er hún fullnægir sálunni med, sem þráir þekkínguna á Gudi, og nánara samfélag vid hann — þetta ágæti er þad, sem umfram allt hefir veitt og enn veitir fagnadarbodskapnum Krists svo addáanlegar vidtökur medal mannanna.

Enn fremur er þad mönnunum edlilegt, ad trúa á gudlega forsjón, og vilja gjarnan heyra talad um hana. Undireins þegar talad er um forlög, háleit og óbifanleg og óvidrádanleg forlög, er stjórna allri rás vidburdanna á jördunni, en mannleg vizka og mannlegur máttur megna ekki ad kollvarpa rádsályktunum þeirra, þá fær slík ræda á menn, og kveykir lotníngu í hjörtum þeirra, afþví hún mótmælir því, sem gagnstædilegast er hinni medfæddu tilfinníng í mannlegu hjarta, en þad er hin eydilega hugmynd, sem brýtur nidur allt þad sem heilagt er, um hid stjórnlausa vald hendíngarinnar og tilviljunarinnar. En ef

vèr íhugum þessi forlög nokkud gjörr, sjáum vèr skjótt, hversu sá hugur er huggun horfinn, sem finnur ekkert (þegar hann vill lypta sèr yfir rugl og reik vanalegra hugsana) nema ósveigjanlega ákvørdun, er allir hlutir verda ad hlýda. Því sè allt fyrirfram ritad í hina myrku bók, er straumur tímans gjörir ekki annad enn fletta upp, jafnótt og hann lídur framhjá, þá er sèrhver athøfn ákvørdud fyrirfram, og sá sem syndgar, hefir fyrirfram verid ætladur til syndar og hádúngar, og sá, sem hid góda og háleita þroskast í, hefir ekki adhyllzt þad med frjálsum vilja, heldur hefir naudsynin knúid hann. Hve miklu betur gedjast hjarta voru kenníngin um hina gudlegu forsjón. Samkvæmt þessari kenníngu er ekki heldur neitt til í øllum hinum vídlenda heimi, er kallad verdi hendíng; og þó er ekki óbreitanlega ákvardad, hvad mikid gott eda illt hver frjáls vera skuli adhafazt. Gud hefir úthlutad sèrhverri veru þad svid, sem hún á ad vinna á, og hefir sett henni takmørk, er hún fær ekki yfirstigid; en á þessu svidi, getur hin frjálsa vera hnigid ad bøstum hins góda, edur látid tælíngar hins illa hrífa sig med sèr; hvad sem hún kýs, kýs hún þad sjálf, og sú kosníng rædur því, hvert hún verdur síkn edur sek. En hvad sem þú kýs, fær þú ekki vald til ad koma því einu fram, sem **þèr** sýnist gott; rádagjørdum þínum verdur hrundid, edur þær fá framgáng, af valdi, sem ekki er **þitt** vald, og sèrhvert ord, sem varir þínar mæla, sèrhver athøfn, sem hønd þín fremur, fer fram undir almáttugri stjórn, er leidir allt á **sínum** vegum, og þeim, sem kappkosta ad gjøra hid góda stadfastlega og einlæglega, og bidja med audmýkt og trúrækni, er hún miskunarrík og líknsøm forsjón, og lætur alla hluti snúast þeim til góds. Þetta er sú hin eina kenníng, er getur veitt hjartanu hvíld; en einmitt afþví hjartad tekur svo fúslega á móti henni, leitar þad og á alla vegu ad jarteiknum því til stadfestíngar, ad Gud anníst mennina á þenna hátt. Því sè gudleg forsjón til, þá skiljum vèr ad vísu, ad rádsályktanir hennar hljóta optlega ad vera óransakanlegar, og vegir hennar órekjanlegir, takmørkudum skilníngi vorum, en þad hlýtur samt einnig ad geta sèst á jørdunni, ad Gud er til, sá er stjórnar. Hversu fúslega leitum vèr því bædi á vorum og annara manna

lífsferli, sem lítid ber á, sem og í hinum mikilvægu viðburdum, er koma jordunni í hreifíngu, ad sérhverju jarteikni, er vitnad geti um stjórnandi hond, og sérhverjum votti, er vér getum um sagt: þetta er ekki tilviljun, og ekki adeins mannleg athøfn, heldur er þad Guds rádstøfun; og sérhvert þesskáttar jarteikn geymum vér í brjósti voru til styrkingar oss í trú vorri. En þarsem vér nú stundum finnum slík jarteikn, og stundum ekki, þarsem vér svo optlega verdum ad trúa, þó vér sjáum ekki, svo ad vor hin veika sál verdur optlega kvalin af efasemdum, þá spyrjum vér, hvert ad um allar þær þúsundir ára, sem lidnar eru yfir jordina, sé ekkert jarteikn komid frá Gudi, er berlega hafi opinberad miskun hans ollum þjódum, og stadfezt loford forsjónar hans, svo augljóslega, ad þad færi sálunni birtu, þótt hún á hrædslustundum sínum sjái jafnvel ekkert utan myrkur umhverfis sig. Þetta jarteikn er þad, sem hinn kristilegi fagnadarbodskapur bodar oss med þessum ordum: svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf Son sinn eingetinn, til þess ad hver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur hafi eylíft líf (Jóh. 3, 16). Hver sem trúir þessum bodskap, hefir fundid jarteikn þad frá Gudi, sem hann ádur leitadi alstadar ad med svo mikilli órósemi; og dýrd þessa vitnisburdar, og ljós þad og huggun, sem í honum er fólgin, er þad, sem hefir útvegad og útvegar ennþá fagnadarerindi Krists vidtokur á jordunni.

Einnig á vorum rósømu æfistundum gedjast þetta fagnadarerindi vorum innstu og beztu tilfinníngum, en vér getum ekki í móti mælt, ad þegar allt er kyrrt í oss og kríngum oss, eda sé þad eintóm gledi, sem hrærir hjarta vort, þá finnum vér midur til þess, hver þørf oss er á því, því þad er ad vísu satt, ad heilbrygdir þurfa ekki læknis, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12). Vér skulum ekki ávita sjálfa oss, þó vér séum ekki ætíd jafnsjúkir, þó vér dirfumst annan tíma meir enn annan, ad nálgast hinn eylífa Fødur, þó vér finnum þá betur enn endrarnær, ad Guds nád er yfir oss, ad vér erum í samfélagi vid hann, og høfum hans frid. Þar mun koma, ad hinir hreinskilnu og audmjúku munu aptur finna til sjúkdómsins, og einsog rødd læknisins er hinum sjúku kær og huggunarfull, eins munu þá

Krists huggunarord fá að nýu viðtökur í hinu skelfda og sundurkramda hjarta. Meðan dagsverk vort veitir oss létt, og vér höfum upphvatníngu til þess, og laun fyrir það, og ávextir þess þróast fyrir augum oss, og mennirnir þakka oss fyrirhöfn vora, þá eigum vér að vísu bæði að þakka og biðja; en þó er þá hjarta vort heilbrygt og staðfast. Apturámóti þegar erfiðið fer að verða þúngt, þegar vér reynum mótstöðu, vanþakklæti, bakmælgi, þegar vér verðum að leggja mikið í sölurnar og höfum ekkert að reiða oss á, nema rödd skyldunnar í samvizku vorri, þá skiljum vér hvað það þýðir, að öll verk vor eigi að fara fram í Jesú nafni, í hans nafni, er sjálfur lagði mest í sölurnar, og hefir sagt, að lærisveinninn sé ekki fyrir meistara sínum, og að hverr, sem ekki taki kross sinn og fylgi honum, sé hans ekki verður (Matth. 10, 24. 38), en segir og á öðrum stað: sælir eruð þér, þegar menn atyrða yður og ofsækja og tala gegn yður allskonar illyrði mín vegna, þó ljúgandi (Matth. 5, 11). Þegar samvizka vor er í friði, og vér finnum að oss fer fram í því, sem gott er, þá skulum vér að sönnu ekki draga sjálfa oss á tálar og segja oss syndlausa, því það er oss fullkunnugt, að vér verðum réttlættir af Guðs miskun en ekki fyrir vor verk; en það er þó beiskja iðrunarinnar, er lætur oss finna allan sætleik Krists huggunar; þegar einhver yfirsjón, annaðhvert afbrot, eða hirðuleysi, kvelur oss, þegar vér finnum til alls hins illa, sem í oss býr, og koma vill í ljós, og kemur opt í ljós í orði eða verki, í smáu eða stóru, þegar vér lítum hyldýpi spillíngarinnar í oss, þá, og ekki fyrr, skiljum vér fullkomlega, hvað til þess kom, að hinir syndugu aðhylltust Jesúm (Lúk. 15, 1), þá finnum vér, hvað varið er í það fagnaðarerindi, sem boðar oss hann, er hafði vald á að fyrirgefa syndirnar (Matth. 9,6). Þegar kærleikinn er allt í kríngum oss á vegferð vorri, og vér eigum viðkvæma, hugula og trúa vini, þá vitum vér að sönnu, hver hafi glaðt og helgað kærleikann á jörðunni; en sá, sem er einmana og munaðarlaus, finnur þó bezt, hvað vér eigum, þarsem er hinn himneski vinur, sem elskaði oss og gaf sjálfan sig út fyrir oss (Eph. 5, 2), og hefir sagt: þann, sem til mín kemur, mun eg ekki frá mér reka (Jóh. 6, 37). Og þegar dauðinn kem-

ur og gjörir oss einmana, þegar vér stöndum við gröfina, og eingin rödd þaðan svarar harmatölum vorum, þá svarar hann oss enn, er hefir með fagnaðarboðskapnum leidt í ljós lífið og ódauðleikan (2 Tím. 1, 10); og þegar skelfingar dauðans heimsækja hjörtu vor sjálfra, og dymmu hans dregur fyrir augu vor, og öll auðæfi veraldarinnar koma oss að eingu haldi, og sorg vina vorra verður oss ekki til annars enn ama, og sála vor hættir að geta fundið sér neina huggun í brunnum spekinnar, þá getur samt hjarta vort gripið Jesú nafn, og þessi huggunarorð hans hljóma þá í því; eg er farinn á undan, að tilreiða yður stað, svoað þér séuð þar sem eg er (Jóh. 14, 2. 3).

Er nokkuð annað nafn, er verði sett í stað þessa? eða annar fagnaðarboðskapur, er fullnægi svo hinum dýpstu tilfinníngum vorum? Og af þessu orsakadist, að svo margir tóku fyrir öndverðu feginsamlega við kristinni trú; af þessu orsakast, að hún hefir getað komizt svo víða og hefir viðhaldizt allar þessar aldir; af þessu orsakast, að vér erum algjörlega sannfærðir um, að hverjar breitíngar sem her eptir verða í veröldinni, og hvert sem straumurinn ber heldur frá eða að Krists kirkju um stundar sakir, þá mun þessi trú aldrei úr gyldi gánga; það getur aldrei komið önnur í stað hennar, svo framarlega sem hún verður ætíð söm, og svo framarlega sem mannleg náttúra verður ætíð söm. Þessvegna heyrum vér, að þeir, sem leita sálu sinni hvíldar, án þess að vitja Krists, viðurkenna ávallt, að þeir hafi ekki fundið það, er þeir leitudu að; þessvegna heyrum vér, að þeir, sem finna hann, segja ávallt: þetta var það, er eg hafði svo víðs vegar adleitað, og af svo innilegri og sárri laungun, en hvergi getað fundið, þángaðtil eg fann hann.

---

## 23.

## Israelslýður vænti Krists.

Hátíðir kristinna manna eru fagrir dagar og fagnaðarríkir. Guði sé lof! að þeir dagar eru til, er verkamaðurinn getur lagt

nidur byrdi sína, er gledin sækir híbýli vor heim, fer ad leika vid börnin í húsunum, og segir vid hina fullordnu: skammist ydar ekki ad gledjast med hinum glödu, því nema þér verdid börn í annad sinn, getid þér ekki komizt í himnaríki. Gud gæsi ad vér á slíkum hátídardögum gætum létt á sérhverju örmæddu hjarta, og leidt gledina þángad, sem hún er ekki vön ad koma! En kristilegar hátídir eru og slíkir dagar, sem ætladir eru til alvarlegra hugleidínga; og hversvegna ættu slíkar hugleidíngar ekki ad geta verid gladrar náttúru? Meira ad segja: hvada gledi er hreinnar og háleitrar náttúru utan henni fylgi alvara? Látum mennina leita þess, er þeir vilja í veröldinni, en eg ætla á hátídardögunum ekki sídur enn á hryggdardögunum ad leita þess, er ekki má án vera, eigi hryggdin ekki ad verda huggunarsnaud og gledin med öllu ótilhlýdileg, eg ætla ad leita Guds og hans frelsis. Og sérhver kristileg hátíd minnir á þetta ödrum dögum fremur. Klukkurnar kalla alla menn med hátídlegum hljómi til kirknanna, og þeir safnast ad úr öllum áttum til helgidóma sinna. Þad er undarleg laungun, er hvetur þá til ad yfirgefa skemtan sína heima edur utanhúss og vitja hinna alvarlegu stada, er líta út einsog þeir séu vigdir handa annari veröld, enn hinni sýnilegu. Og undarlegtnafn er þad, sem hljómar þar í móti oss, þad er nafnid: Jesús Kristur — þessu nafni lúta öll kné, þad kreist lotníngar af hinum drambsama, þad veitir hinum audmjúka trúnadartraust, þad vekur hinn léttúdiga til umhugsunar, þad huggar hjarta hins hrellda, og hvar sem gudræknir menn heyra þetta nafn nefnt, fylgja því hinar helgustu endurminníngar og merkustu kenníngar og sælustu vonir.

Slíkar kristilegar hátídir eru nú á dögum haldnar um allan heim, og sérhver sunnudagur er slík hátíd; hvernig hefir þessi sídur hafizt? Því verdur ekki í móti mælt, ad kristin trú sýnir mátt sinn á þessum tímum, ord hennar og jarteikn og áhrif birtast á medal vor, mikid edur lítid, í hverju héradi og á hverjum bæ, og í hvers manns hjarta. En allt þad, sem til er á jördunni, á sér eitthvert upphaf; hvar hefir þá hin kristna trú hafid skeid sitt á jördunni? Eg leita land úr landi, og lángt fram eptir öldum; en upphafid, er eg leita ad, hverfur samt

ekki í skugga svo fjarlægra tíma, ad ekki séu til nema óáreidanlegar fráságur ad skíra mér frá því; kristin trúa er komin í ljós á slíku tímabili, ad þadan ífrá hösum vér sannar sögur af atburdum þeim, er hafa ordid henni samfara, hver fram af ødrum. Og er eg nú leita ad upphafi hennar, þá er einsog geislar leidbeinandi stjørnu leidi mig æ lengra og lengra, þángadtil stjarnan stadnæmist yfir fjarlægu landi, yfir litlu þorpi, yfir fátæklegu herbergi, og þar finn eg í jøtu einni þad barn, sem er høfundur hins kristilega lífs, þess er nú er svo margbreitt ordid, og hefir svo vída um lønd flogid.

Gud minn! ó hversu lætur þú mikilvæga hluti rísa af því, er þykir vera svo litilsvert fyrir mannlegum augum! var nokkur sá medal allra þeirra, er um þær mundir rédu rád sín edur voru þegar farnir ad fremja þau stórvirki, er þeir ætludu ad breita med ástandi mannkynsins; var nokkur sá medal allra þeirra, er óttudust þá eyding, er þeir héldu væri ad búa um sig undir skýlu svipullar rósemdar; var nokkur sá medal allra þeirra vitringa, er leitudu frétta af nálægum og ókomnum tíma — var nokkur sá medal allra þessara manna, er snéri augum sínum til Bethlehems? var nokkur sá, er gæfi gaum ad fráságunni um þad, er fram hafdi farid á einni nóttu, módur ókominna stórtídinda? Øvørum og skyndilega hljómadi fagnadarbodskapurinn um þad barn, sem þá var í heiminn borid, um þann Frelsara og høfdingja heimsins, er þadan var útgenginn; þessi bodskapur brauzt fyrst ígegnum vanvirding og þvínæst gegnum ofsóknir og allskonar fjandsamlegt ofríki, hann hljómadi frá fjalli til fjalls og af strønd til straudar, svo bergmálid kvedur enn vid í øllum endimørkum hinnar vídlendu veraldar.

Øvørum — já úti løndum, í hinum mørgu ríkjum heimsbyggdarinnar, í hinni miklu høfudborg, er skelfdi konúnga jardarinnar med nafni sínu, og dró ad sér æ meir og meir af audæfum allra ríkja, og listum og vísindum þeirra: þar voru øllum mønnum þessir atburdir ókunnir. En í Jerúsalem væntu margir endurlausnarinnar, huggunar Ísraels, þeir høfdu heyrt forfedur sína tala um hana, þá er sjá høfdu fyrirheitin álengdar og breidt fadminn móti þeim, og voru dánir í trúnni

(Hebr. 11, 13), og høfdu fengid trú sína og von í hendur ókomnum kynslódum. Hversu merkileg er þessi eptirvænting! — þú hin undarlega og ókyrrláta, ætíd framgjarna og ætíd kúgada þjód útá hinu vanvirta landi! hvernig komu þær upp hjá þér, hinar stórhugudu ímyndanir um tignarvald, er rísa mundi úr skauti þínu? hvernig urdu þær allar ad hugmyndinni um Høfdíngja, Frelsara og Endurlausnara af ætt Davíds og úr Davídsborg? Hvernig fór þessi hugmynd ad verda svo rík, ad hún kæmist til annara landa, svo allur austurheimur var, eptir søgusøgn sjálfra heidíngjanna, fullur af eptirvæntíngu um heimshøfdíngja þann, er koma mundi af Gydíngalandi? Pér hjardsveinar Bethlehems! af hverju vissud þér, ad Drottinn Kristur, Guds Smurdi, ætti ad koma, svo ydur var þad adeins nýlunda, ad hann væri kominn, og ad þér skyldud leita hans sem barns í jøtu einni? O! saga kristindómsins nær fram fyrir daga Krists; forn fyrirheit eru til, og þau eru ekki draumórar né tælandi myndir sjúks ímyndunarafls, heldur eru þau óhvikul og áreidanleg, einsog stødugt skin einhverrar stjørnu; fornar spár eru til, ritadar med myrku, en ómáanlegu letri, laungu fyrrenn uppfyllíngin sendi ljóma sinn yfir þær, svo þad letur vard læsilegt øllum kynþáttum jardarinnar.

Eg vil ekki keppa um þad, hvar vér eigum ad byrja, en víst er þad føgur tilhugsun, hafi hugbodid um endurlausnína vaknad, þegar er andi mannsins var lagdur í ánaudar fjøtur, hafi hin sæla rødd fyrirheitanna hljómad frá vørum hinnar eylífu miskunar, þegar er hid eylífa réttlæti bodadi vorum fyrstu foreldrum skelfilegar hótanir hins fyrsta dóms. Í hinni elztu bók ritníngarinnar finn eg ritada formæling yfir því dýri, er øll børn mannanna hafa vidbjód á, yfir hinum ískyggilega, flárháda, eitrada høggormi: "eg mun setja fjandskap milli þín og konunnar, og á milli þíns afkvæmis og hennar afkvæmis; þad skal mola sundur høfud þitt, og þú skalt bíta þad í hælinn" (1 Mós. 3, 15) — hvad þýda þessi ord? á allar túngur og í allra manna hugskotum, merkir høggormurinn líking hins illa. Þegar fedur vorir voru ad skálda um hid skadsamlega vald, er heldur gjørvallri jørdinni í fjøtrum, og þrístir ad brjósti sérhvers

manns og hótar ad fyrir=fara lífinu og voninni og allri dýrd himins og jardar: þá lýstu þeir því einsog ógurlegum ormi, er hríngi sig utanum alla heimskrínglunа og liggi þar med hrædilegu og gínanda gini og kreysti og kremji í bugdum sínum allt þad sem lifir á jerdunni. Þegar vér viljum lýsa hinu illa og skira frá hinu svikſamlega afli tælingarinnar, hvernig þad lædist ad herfángi sínu, innanum saklaus og brosandi blóm, og rædst svo skyndilega á þann, er ekki uggir ad sér: þá fer oss eins, ad vér høfum ekkert ad líkja því vid, utan þann hinn skrídanda høggorm, er fer í krókum og felur hina ískyggilegu fegurd litar síns, innanum skraut marglitra blóma, og situr um þá, er gánga um í grandleysi edur sofa ugglausir, og er svo skadvænlegur, ad sagt er hann seidi jafnvel ad sér med augunum þann, er hættuna sér, svo hann fær ekki umflúid óvin sinn, heldur verdur dreginn æ því nær af huldum krapti ormsaugnanna. Þegar vér tølum um hid sára samvizkubit, og hinn leynilega ótta, er kvelur hjarta hins seka, køllum vér þad orm, er aldrei deyi. Vér verdum þess varir, ad eitur, áþekkt því úr høggorms tønninni, er runnid inni manninn og úti allar ædar hans, og nú eru, eins og ádur í Paradís, englar hegníngarinnar settir ad gæta vegarins ad lífsins tré (1 Mós. 3, 24). Edur svo eg tali án samlíkíngar, þá er íllt og táldrægt og skadsamlegt vald til, er lætur oss verda vara vid afl sitt, ekki adeins alstadar umhverfis oss heldur og í brjósti sjálfra vor; þad tælir manninn til syndar og vigir hann svo til eymdarinnar. En hversu rík sem yfirrad hins illa eru, þá er madurinn samt ekki ad øllu leiti yfirbugadur, hid illa og madurinn eiga í strídi saman, þad ber sig ad svikjast ad honum og bíta hann í hælinn, og madurinn rædst á móti því til ad mola sundur høfud þess. Hverjum þeirra mun verda sigurs audid?

Hverjum þeirra mun verda sigurs audid? — Er þad audvelt ad svara þessari spurníngu? Værir þú búinn ad svara henni med fullkominni sannfæríngu, þá mundi øll órósemi þín hverfa, þá mundi ekki framar vera dugleysi í hjarta þínu, heldur styrkleiki, og ekki kvídi, heldur von. Allt traust til framkvæmdar gódum gjørdum, allt hugrekki, er hrindir burt áhyggjunum, er

vissulega byggt á þeirri sannfæring, ad hid illa muni ad lokunum ekki fá sigur, ad madurinn muni fá yfirstigid þad, ad afkvæmi konunnar muni hæfa og mola í sundur höfud höggormsins. En getur hann áorkad þetta af sjálfsdádum? Munu mennirnir nokkru sinni sjálfkrafa taka sig saman um, ad brjóta hid illa undir sætur sér? Edur á einn ad rísa upp til þess, er veki og efli hina sofandi krapta og safni þeim undir eitt merki? Á einn ad rísa upp af afkvæmi konunnar, af hinu máttvana, fallna, spillta mannkyni, er nógu sterkur sé til ad drepa hvern þann orm, er bítur mannleg hjörtu, til ad drepa hinn ógurlega orm, er vefur sig utanum alla hina jardnesku tilveru? — Ja! sannarlega, vér þekkjum allir einn, sem er ætladur til þess, og hann er talinn á medal sona Evu; en þá er og einkanlega um hann skrád í því fyrirheiti, er forfedurnir hafa fyrir þá sök réttilega kallad hinn fyrsta fagnadarbodskap.

En þetta fyrirheit, þessi spádómur stendur ekki einn sér, hann er alltaf ítrekadur hvadeptir annad og stadfestur og fastsettur med æ nákvæmari ávísunum. Abraham fór umkring í landinu, og reisti tjöld sín, og hagarnir voru fullir af hjördum hans, en hann stód einn uppi medal audæfa sinna, og þjónar hans áttu ad erfa hann. Þá sagdi Drottinn til hans: líttu á himininn og tel stjörnurnar, ef þú getur: þannig skal afkvæmi þitt verda; Abraham skal sannarlega verda mikil og máttug þjód, og allar þjódir jardarinnar skulu blessun hljóta fyrir hann (1 Mós. 15, 3 og f.). Þetta fyrirheit var ítrekad vid Ísaak (1 Mós. 26, 4) og vid Jakob: afkvæmi þitt skal verda einsog dupt á jördunni, og þú skalt útbreidast til vesturs og austurs og sudurs og nordurs, og fyrir þig og afkvæmi þitt, skulu allar þjódir á jördunni blessun hljóta (1 Mós. 28, 14). Þad eru mikil ord: blessun handa öllum kynkvíslum, öllum þjódum á jördunni. Hver þekkir nokkra uppfylling, er geti samsvarad þessu lofordi? Spyrjid þá tíma, sem lidnir eru, spyrjid um öll lönd, nær og fjær, spyrjid í höllum og hreysum, spyrjid barnid, sem heyrt hefir hinar fyrstu frásögur um Guds vegu á jördunni af vörum módur sinnar, spyrjid gamalmennid, sem hefir heyrt og séd svo margt og mikid í veröldinni, spyrjid þá, sem leitad hafa hvildar

sálum sínum, þá, sem haft hafa sundurkramid hjarta, og þèr heyrid hvergi nefnt neitt, er verdi kallad blessun handa öllum kynkvíslum, utan einúngis Krist og hans fagnadarbodskap. Hann hefir látid ljós sannleikans skína medal þeirra, er sátu í daudans skugga, hann hefir látid hina miklu rödd rèttlætisins hljóma frá sudri til nordurs, hann hefir bodad þeim frid, sem fjarlægir voru og þeim sem nærstaddir voru, svo allir hafa adgáng til Fødursins í einum anda (Eph. 2, 17. 18), hann hefir leidt í ljós lífid og ódaudleikann; og líkamlegt frelsi og jardnesk sæla hafa einnig verid í för med fagnadarbodskapnum, þarsem hann hefir verid bodadur óbrjáladur og einsog tign hans var sambodid. Þetta er ekki ennþá alltsaman fullkomnad en þó tekur þad gudlegum þroska (Kól. 2, 19). — En hver leit nú frá tjøldum Abrahams yfir landid, er afkvæmi hans átti ad fylla, yfir fjarlægustu ríki og lønd, lángt gegnum ókomnar aldir? hver vissi, ad eittsinn skyldi renna upp blessun handa øllum þjódum? hver tengdi þessa blessun vid afkvæmi Abrahams? Sannarlega! þóad vèr hefdum jafnvel eingin ønnur fyrirheit enn þetta, gætum vèr samt ekki verid í efa um, ad þad er komid frá honum, sem kallar þá hluti er ekki eru, einsog væru þeir (Rómv. 4, 17), og hefir fyrirfram rádid med sjálfum sèr, ad búa til einn søfnud í fyllíngu tímans, til ad safna øllu undir eitt høfud, sem er Kristur (Eph. 1, 9. 10).

Afkvæmi Abrahams færdist út um landid, og var þeirri þjód svo farid, ad allur fjøldi hennar var hverki betri nè sælli, enn adrar þjódir; en samt var henni trúad fyrir ordunum Guds (Rómv. 3, 2), og hinn spámannlegi andi var máttugur í henni, og bodadi stundum myrkt og stundum berlega leyndardóm þann, er átti ad verda opinberadur á sínum tíma. Vèr getum ekki í þetta sinn skodad hin merkilegu afdrif þessarar þjódar, nè hvernig Gud um margar aldir taladi til fedranna fyrir spámennina; en hvernig og hversu optlega sem þjódin reyndi á þolinmædi Guds, voru samt alltaf nokkrir eptir, sem ekki lutu skurdgodunum, og spámenn og vitríngar og løglærdir risu upp medal þjódarinnar; og jafnvel þóad Jerúsalem grýtti spámenn sína, og lìflèti þá, sem henni voru sendir, hèlt samt rødd þeirra áfram ad hrópa, og kveykti þá eptirvænting, er vard æ styrkvari og stadfastari.

Þessi eptirvænting var tengd við Davíðs ætt, því Drottinn hafði sagt við hann fyrir munn spámannanna: ætt þín og ríkistign skal eylíflega vera staðfest fyrir augliti mínu, og veldisstóll þinn skal standa stöðugur að eylífu (2 Sam. 7, 16); og fyrirheit Drottins héldu sífelt áfram að hljóma í hinum helgu saungvum þjóðarinnar: "eg hefi fundið Davíð, þjón minn, eg hefi smurt hann með heilegu viðsmjeri mínu. Hönd mín skal jafnan veita honum fulltingi, og hönd mín skal aðstoða hann. Og eg vil gjöra hann að frumgetnum syni, allra hæstan meðal konúnga jarðarinnar. Eg skal geyma miskunsemi minnar við hann eylíflega, og halda trúlega við hann sáttmála minn. Eylíflega skal eg honum afkvæmi gefa, og styðja veldisstól hans æ meðan himininn er til. Efað börn hans yfirgefa lögmál mitt og gánga ekki fram í réttindum mínum, þá skal eg vitja synda þeirra með hirtingarvendi og misgjörða þeirra með refsíngum; en miskun mínni skal eg ekki frá þeim snúa og ekki skeika í sannsögli minni, eg skal ekki vanhelga sáttmála minn, og ekki breita því, sem gengið er fram af vörum mínum. Eittsinn hefi eg svarið við sannsögli mína, eg skal ekki ljúga að Davíð: afkvæmi hans skal vera til að eylífu, og veldisstóll hans, einsog sólin fyrir augliti mínu" (Sálm. 89, 21 o. nn. vv.). Og þó leit það út einsog Drottinn útskúfaði honum, og ónýtti sáttmálann við þjón sinn; ætt Davíðs varð að spotti í augum allra nábúa sinna, og kórónu hans var kastað til jarðar; þá efuðust konúngarnir og öll þjóðin í landinu efaðist, spámenn Drottins einirsaman efuðust ekki; þeir boðuðu enn, sem fyrr, að af stofni Ísaí mundi hrísla upprenna, og kvistur einn af rót hans ávöxt færa (Es. 11, 1); þeir boðuðu enn, sem fyrr, í nafni hins Hæsta: sjá þú, þeir dagar koma, þá er eg vil staðfesta það náðarorð, er eg hefi talað til ættar Ísraels og til ættar Judæ. Á þeim dögum og þeim tíma, skal eg láta upprenna af Davíðs stofni réttborinn kvist, sá er stofna skal réttindi og réttlæti á jörðunni (Jer. 33, 14. 15).

Samt sem áður er nú hinn jarðneski veldisstóll Davíðs hruninn með öllu fyrir laungu síðan, veldissprotinn er vikinn frá Júda og löggjafinn frá fótum hans, óstðaðar þjóðir troða niður

landid, og ekkert er eptir af allri dýrd Ísraels, ekkert nema sundrud þjód, sem býr undir dómum Drottins. Hefdi henni ekki verid heitid utan jardneskum konúngi, hefdi þad adeins verid veraldlegt ríki, sem átti ad verda stofnad; þá væri nú sáttmálinn rofinn fyrir laungu sídan og fyrirheitin ordin ad eingu. En hver, sem les ord spámannanna, kannast skjótt vid, ad einsog þeir skrída Smurda Drottins med allskonar vegsemd og ljóma, og kalla sérhvern ágætan konúng og allt hid fegursta og vegsamlegasta, er prýdir allt mannkynid, skugga hans: þannig verdur optlega lýsing þeirra á dýrd hans svo háleit, ad einginn madur fær hana borid og einginn madur stofnsett þad ríki, er þeir tala um. Þannig bodadi spámadurinn um Bethlehem, er var svo lítil á medal þúsunda Judæ: af þér skal einn framgánga handa mér, til ad vera Drottinn yfir Ísrael, uppruni hans er frá því fyrir laungu, frá dögum eylífdarinnar (Mich. 5, 1). Þannig bodadi annar spámadur þad er hann sá í helgum sjónum: barn mun fædast oss, og sonur mun verda oss gefinn; drottinstignin liggur á herdum hans, og nafn hans er: hinn Undarlegi, Rádgjafinn, hinn máttki Gud, Fadir eylífdarinnar, Fridarhöfdíngi; mikilleikur tignar hans og fridar mun vera án enda á veldisstóli Davíds og í ríki hans, er hann mun stadfesta og halda vid lídi med réttindum og réttlæti, hédanífrá og ad eylífu (Es. 9, 6. 7).

Hversu opt sem adrar þjódir hafa talad um gullaldir, er upp mundu koma, hversu opt sem smjadurtúngurnar hafa fagnad komu þess og þess af höfdingjum jardarinnar, sem væri hann sá, er gullöldina hefdi í for med sér, sjáum vér samt ekki neinstadar neitt, er jafnast geti vid eptirvænting Gydingaþjódar; og þessi eptirvænting hafdi gagntekid alla þjódina; þegar Jesús fæddist var hún svo rík, ad menn ávallt rétt einsog bidu þess, ad stjarna hans rynni upp, og spurdu hinn stránga spámann, er kominn var upp á eydimerkum Júdeu: ert þú sá, sem koma á? og þjódin hneig hæglega ad hverjum, sem vildi draga hana á tálar. Eptirvænting flestra þeirra var ad vísu fávísleg; þeir girntust ad fá jardneskan konúng, og sigur og stundlega sælu ásamt honum. En þeir menn voru og til í Jerúsalem og alstadar medal þjódarinnar, er væntu lausnarinnar og huggunar Ísraels af

einlægu og gudhræddu hjarta (Lúk. 2, 25. 38). Ogløggar eptirvæntingar sveimudu fyrir augum sálna þeirra, þeir bidu einnig eptir þeirri dýrd er opinberast mundi, en þeir vissu og, ad þjáníngar mundu á undan koma, og Simeon kannadist þegar vid, er hann sá þad barn, er Gud fyrirbjó frelsi med, handa øllum þjódum, er átti ad verda ljós, ad lýsa fyrir heidíngjum og vegsemd Ísraelsþjódar, "ad sverd mundi nísta sálu módur hans" (Lúk. 2, 31. 32. 35). Hversu berlega bendti og hinn forni spámadur til þessa, er hann vottadi fyrirfram um píslir þær, sem liggja mundu fyrir Kristi, og þá vegsemd, er honum væri sídan ætlud (1 Pét. 1, 11)! Því þegar hann talar um Drottins þjón, þeim er allt muni heppnast, er muni verda mikill og dýrdlegur og hátt upphafinn, er þjódirnar muni veita lotníngu og konúngarnir þagna fyrir (Es. 52, 13. 15), þá verda ord hans miklu háleitari og dýpri þýdingar, enn ad þau geti átt annadhvert vid spámanninn sjálfan, edur vid hans spámannlegt embætti edur Ísraelslýd, þá er hann kemst svo ad ordi: "hann er særdur fyrir sakir afbrota vorra og fyrir vorra synda sakir er hann lemstradur; hegníngin hefir á honum legid, svo vér fengjum fridinn, og fyrir benjar hans erum vér heilbrygdir ordnir. En hann er numinn burt úr hryggd og dómi. Þegar hann er búinn ad gefa líf sitt til syndafórnar, mun hann sjá ávøxt og auka daga sína, og vilja Drottins mun verda framgengt fyrir hønd hans. Fyrir mædu sálar sinnar mun hann sjá ávøxt og saddur verda. Og er hann verdur þekktur, mun þjónn minn, sá hinn réttláti, réttlæta marga, því hann ber syndir þeirra; því mun eg gefa honum marga menn til hlutskiptis, og hann mun skipta hinum øflugu, einsog herfángi, afþví hann gaf líf sitt í daudann, og var talinn á medal spillvirkja, afþví hann bar syndir margra og bad fyrir afbrotamønnum" (Es. 53).

Vér getum ekki talid fram øll audæfi hinna fornu spádóma, þad er margt í þeim, sem myrkt er, en þar eru og óbifanleg spádómsord, og sæll er sá, sem veitir þeim eptirtekt, einsog ljósi, því er skín á dymmum stad, þángadtil dagur ljómar og morgunstjarnan rennur upp í hjarta hans (2 Pét. 1, 19).

Í sandhafi eydimarkanna er stundum einsog ey, blídur blettur og grasi-gróinn vid svalar lindir; hver sem þar kemur, segir ad líkindum: hér hefir þú, Gud minn! fyrirbúid hvildarstad handa hinum mædda vegferdarmanna. Svo er og, ad þegar sálin er ordin mædd og þreytt af ad gánga gegnum skodun mannlegrar syndar og mannlegrar eymdar, og hún finnur stadinn, þarsem ad er líkn og frelsi og fridur, þá er líklegt hún verdi ad segja: hér hefir þú, Gud minn! fyrirbúid sálunni hvild, eptir baráttu hennar og mædu. Slík er tilfinníng Krists játenda, er þeir segja: vér høfum fundid þann, sem spámennirnir hafa ritad um (Jóh. 1, 46).

---

## 24.

## Verk Krists votta ad hann er sendur af Gudi.

Þegar raddir spámannanna voru fyrir laungu þagnadar á Gydíngalandi, þá reis þar upp sá madur, er øllum þókti mikils um vert — Jóhannes skírari. Hann hafnadi allri jardneskri sælu og øllum jardneskum hag, gjørdist vandur ad lifnadi sínum og framferdi, svosem verid høfdu hinir fyrri spámenn; og líktist Elíasi ad audi og krapti (Lúk. 1, 17); hann taladi á eydimørku, og ædri menn og lægri drifu út þángad til hans. Hann ávítadi fólkid med spámannlegu valdi og horfdi med spámannlegri gløggsýni fram á hinn ókomna tímann, þó ekki laúngt fram, einsog spámennirnir, heldur á þad er næst var; hann var ekki sá, er fólkid átti von á, hann var ekki Kristur, enda lézt ekki vera þad, heldur bodadi þann, er eptir hann ætti ad koma, og vera honum miklu meiri, og sagdi svo: hann er þegar á medal ydar (Jóh. 1, 26).

Vandlæting Jóhannesar í rædum og ávítum bakadi honum óvild høfdingjanna; hann var settur í fángelsi, og er hann heyrdi sagt af verkum Jesú, sendi hann til hans tvo lærisveina sína og

bad þá spyrja: hvert hann væri sá, er koma ætti, edur væri von á ødrum (Lúk. 7, 18)? "Sá er koma ætti", það er að skilja: til að frelsa mannkynið úr villu, vesæld og synd, að sigra vøld myrkranna, að færa mønnunum Guðs ríki — hversu undarleg er slík von! en eigi að síður er hún svo edlileg mønnunum, og þeim svo rótgróin, að um alla jørdina, jafnvel þar sem fagnaðarerindi Krists hafði ekki komið, hafa verið søgur um gullnar aldir, þær er uppmundu renna; þjóðirnar hafa haft von sína stundum á einhverjum spekingi, stundum á einhverjum løggjafa, stundum á einhverri hetju, sem þeir héldu ætlaða til þess að hugga mannkynið eptir lánga þjáníngu þess, og flytja því frið og krapt, réttlæti og farsæld á jørðina. En er þeir sáu það ekki rætast, slepptu þeir voninni, og héldu áfram sitt hryggilegt æfiskeið, en biðu ekki eptir frelsinu og ríki Guðs. En á einusaman Gyðíngalandi høfðu menn ekki adeins von, heldur og trú; von annara þjóða var á reiki og svosem í þoku, en Gyðíngar vissu betur hvers þeir vonuðu; margir af þeim slepptu að sønnu voninni, og vera kann að margir hafi fyrirlitið hana, en hinar fornu helgu spár sjáendanna hljómuðu ávallt framan úr øldum, ræður þeirra voru styrkar svosem guðlegrar raddir, þær høfðu gjørt fólkið að því, sem það var, og allir trúræknir Gyðíngar vonuðu eptir lausn. Fyrir því efuðu ekki Jóhannes skírari og lærisveinar hans, að einhver ætti að koma, en fóru til Jesú, er hann gjørdist frægur um allt landið, og søgdu: ert þú sá, er koma á, edur ertu einnig fyrirrennari til að greiða veg þeim hinum mikla, er vér væntum að koma muni?

Hverju svaraði nú Jesús þeim, er spurðu hann þessa? Hann vísaði þeim til verka sinna: farið og segið Jóhannesi það, er þér hafið heyrt og séð: blindir sjá, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra og dauðir rísa upp. Hann nefndi fyrst tákn og stórmerki þau er hann gjørdi, til merkis um, að hann væri sendur af Guði, að hann væri sá, er koma ætti. Að sønnu veit eg, að sum þessi orðatiltæki eru stundum høfð í óeiginlegri merkíngu, og Jesús er kallaður Læknir, afþví hann kom að lækna sár og sjúk hjørtu, og að sagt er, hann lúki upp augum hinna blindu og eyrum hinna heyrnarlausu,

afþví hann glædir eptirtekt sálarinnar á hinum háleitu himnesku röddum, og dregur burt skýluna, er fyrir henni glepur, svo hún sér ekki sannleikann, og ad sagt er, hann lífgi dauda, afþví hann kallar þá frá daudum verkum syndar og andaleysis til hins rétta, sanna, eylífa lífs. En hvernig verda ordin hér í þessari grein skilin ødruvís enn í eiginlegri þýdíngu þeirra? Rétt þar á undan er sagt frá hundradshøfdíngja, er ekki taldi sig þess maklegan, ad Drottinn kæmi inní hús hans, heldur gjørdi honum bod í því trausti, ad øfl náttúrunnar yrdu ad hlýda Jesú bodi, einsog lidsmennirnir, er hann hafdi sjálfur yfir ad ráda, gegndu hverri bendíngu hans, og bad hann þessvegna skipa sjúkdóminum ad láta lausan þjónustumann hans; en er þeir komu heim aptur, er sendir voru, fundu þeir heilan heilsu þann er sjúkur hafdi verid; þvínæst er sagt, ad Jesús fór til Naín, og sá þar daudan mann út borinn, og kalladi hann frá dauda, og ad þad vard frægt um allar nálægar landsálfur. Og því sendi Jóhannes lærisveina sína, ad hann hafdi heyrt getid þessara stórmerkja; en svo stód á, þegar þeir komu, ad þar voru margir, sem Jesús var ad lækna af sóttum og þjáníngum. Til þessa, er þeir høfdu heyrt og sjálfir séd, vísadi Jesús þeim, er hann skyldi segja þeim, hver hann væri.

Eru ekki þessi verk sannir vidburdir? Íhugid afleidíngar þeirra í því landi, er þau voru framin, og um øll lønd; því eitthvad harla merkilegt verdur ad hafa vid borid, ádurenn þvílíkar afleidíngar gætu komid í ljós, og ádur hinn holdlegi og daufi lýdur gæfi gaum ad fagnadareyrindinu, er slíkir vidburdir áttu ad efla. En lesid um allt fram søgnir gudspjallamannanna med réttri skipan. Sannleikinn greinir sig frá lýginni á einu marki, sem audskilid er sérhverjum manni, þó hverki sé lærdur né djúpsær. Gudspjallamennirnir vottudu þad, er þeir høfdu sjálfir séd, og sjálfir skodad, og þreifad á med høndum sínum (1 Jóh. 1, 1), edur látid þá segja sér nákvæmlega, er frá upphafi høfdu verid sjónarvottar (Lúk. 1, 2. 3); og dirfist nokkur, sá er les søgu þeirra, ad segja fyrir samvizku sinni, ad þeir hafi verid þjónar lýginnar? Voru þeir sjálfir á tálar dregnir? Voru þessi hin mørgu, miklu, augljósu verk eintómar missýníngar? Gat

það verið, þeir vissu ekki sjálfir, hvert þeir hefðu séð það er þeir skira frá? Eða var það ásetningur þeirra, að draga á tálar? Höfðu þeir gjört með sér leynilegt samfélag til að fylla heiminn afskrökssögum, og leggja í sölurnar fyrir þær farsæld og ró og allt er menn girnast á jörðunni, og halda þeim fram allt í sjálfan dauðan, og játa þær í andarslitrunum? Hvaðan kom lýginni sá kraptur, að halda þannig saman þjónum sínum, svoað alls einginn brigðist, alls einginn léti tælast af vélum peraldarinnar, alls einginn léti hugfallast af hótunum hennar, alls einginn léti sér í augum vaxa harmkvæli píslarfulls dauðdaga? Ef þeir hefðu verið svikarar — mundi þá ljóssins engill hafa stigið niður á samkomu þeirra, til að kenna þeim hið einfalda og einlæga orðalag, er mælir fram með sér fyrir samvizkum allra manna? Eru verk þessi ekki sönn kraptaverk? það er: voru þau gjörð með eintómum náttúrukröptum, þeim er Kristur hafi fært sér leynilega í nyt, en látizt gjöra kraptaverk; eða voru það himneskir kraptar, er þar komu í ljós — var það herra náttúrunnar, er talaði, svo það varð, er hann bauð, svo það stóð þar? Eg þekki einga fávíslegri og svívirðilegri viðleitni, enn að vilja svipta hinum guðlega ljóma af kraptaverkum Krists, að vilja rengja hið auðsjáanlega, og hafna viti boru, þó vér neytum þess endrarnær við það sem vér heyrum og lesum, og sannfæringu vorri, en fara með þetta einsog önnur mannleg verk, og eigna þau samkomu náttúrlegra viðburða, heppilegri meðferð á læknisdómum, dunum sviplegrar skruggu, hugarburði þess er gjörði eður þeirra sem við voru staddir, í stuttu máli: hverju, sem fánýtur skarpleiki getur látið mönnum til hugar koma. Eg veit einsvel og hver annar, hversu margt hinir hjátrúarfullu hafa dásamað einsog kraptaverk, þó verið hafi eintómar sjónhverfingar, orðnar af ásetningi eður af hendingu; og þó mér væri sagt frá kraptaverkum, sem ættu að hafa orðið í leyni á einhverjum stað, þá trydi eg því ekki, og þó vottar væru til leiddir, að eitthvert kraptaverk hefði orðið í fjölmenni, þá yrði eg samt efablandinn; náttúrleg tilfinning mín fellst ekki á neitt kraptaverk, nema eg geti sagt af fullri sannfæringu: þetta er Guðs verk. En þegar eg íhuga verk Drottins míns, þá skil eg

glögglega, að, þarsem allt það, er vér menniruir megnum að gjöra, er miðt í náttúruuni og undir lögmáli hennar, þá var hann yfir náttúrunni. Fyrstað Drottinn vor, þá er hann var úti á hinum ólgufulla sjó, hefir risið á fætur, þegar stormar himinsins tóku að æða, og öldurnar bjugguft að gleypa það er fyrir varð, og hastað á stormana, svoað þeir þögnuðu, og skipað öldunum, svoað þær gegndu og sefuðust þegar; fyrstað Drottinn vor, þá er hann sá son ekkjunnar útborinn, hefir boðið dauðum að rísa á fætur, svoað dymma dauðans leið burt af augum hans, og sá, er dauður hafði legið, reis upp og tók að mæla; fyrstað Drottinn vor, þá er hann kom að gröf Lazarusar, hefir látið opna hinn dymma helli, og kallað á íbúa grafarinnar, einsog kallað er á lifandi menn, svo dauðinn varð að láta að orðum hans og skila aptur herfangi sínu, þó hann hefði grúft sig niður yfir það: þá þarf eg ekki að láta segja mér nákvæmlega, hvað kraptaverk séu, eg þarf ekki að vera mjög kunnugur leyndardómum náttúrunnar til að verða sjálfum mér samþykkur í þessu efni; því það vita bæði fróðir og ófróðir, að slík verk verða ekki af mannavöldum.

Nú ef einhver tæki svo til orða: þó það sé gefið eptir, að tákn og stórmerki hafi orðið, og andlegir kraptar hafi stýrt viðburðunum, þá er ekki að vita, hvert þeir hafi komið úr vondri eða góðri átt; því hið illa getur einnig sýnt af sér þvílíkan mátt, og vottar Krists segja sjálfir, að hinn rángláti, óvinur Guðs og manna, opinberi sig með öllu afli og táknum og stórmerkjum lýginnar (2 Thess. 2, 9), og Kristur segir, að margir falskristar og falskennendur muni uppkoma, og gjöra tákn mikil og stórmerki (Matth. 24, 24), svo vér sjáum ekki á kraptaverkunum, hvert sá, er þau gerði, hafi verið kominn af himnum ofan eða úr undirdjúpunum: tæki nokkur svo til orða, sem nú sögðum vér, þá er vonanda, að sá viti ekki hvað hann mælir. Því þó hin blíða rödd miskunarinnar lýsi því yfir, að hverskyns synd og guðlastan skuli verða mönnunum fyrirgefin, þá er samt þessu við bætt: en löstun Andans verður ekki fyrirgefin (Matth. 12, 31), og það var tilefnið, að óvinir Krists eignuðu verk hans samfélagi við hinn vonda, og sögðu, hann ræki út djöfla með liðsinni

Beelzebuls, djøfla høfdíngja — það var, segi eg, tilefnið til þess, að Drottinn minntist á þá synd, sem ekki yrði fyrirgefin hverki hér né annars heims. Því þegar einhver hættir að geta gjört mun á sønnu og lognu, og góðu og illu, þegar einhver herdir svo hjarta sitt, að hann getur haft fyrir augum sér líferni Krists, þegar hann ferdaðist um til þess að líkna, að hann getur haft fyrir augum sér verk Krists í sambandi þeirra við kenníngu hans, og þó sagt: "hann er sendur að villa, svíkja og tæla mennina, og ginna þá í gløtunina með táknum og stórmerkjum; þau hafa orðið af vøldum andskotans, en ekki Guðs": hvað verður þá eptir í brjósti þessa manns, það er hæfilegt sé fyrir sannleikann og guðlega miskun, svoað hún geti leidt hann til sáluhjálpar?

Einsog kraptaverkin styðja kenníngu Krists, eins verpur hún og birtu sinni á þau, svo það sameinast hverttveggja, og verður að einni dýrð. Þegar Jóhannes gjørði frá sér lærisveina sína til að spyrja Krist, hvert hann væri sá, er koma ætti: þá vísaði Kristur á kraptaverk sín: blindir sjá, haltir gánga, líkþráir hreinsast, og daufir heyra, og dauðir rísa upp; en hann bætti þessu við: og fagnaðareyrindið er boðað hinum fátæku. Þetta hið síðastnefnda var einnig ætlunarverk hans, og að vísu hinn mikilvægari partur þess, og vegna þess var hann einkanlega sendur. Því Sonur Guðs eingetinn kom ekki í verøldina einúngis til þess að lækna fáeina sjúka menn, til þess að gefa sýn fáeinum blindum mønnum, til þess að kalla fáeina dauða menn til þessa skammvinna lífs; heldur átti hann að glæða með þessum táknum og stórmerkjum eptirtektina á fagnaðareyrindi því, er hann var sendur að boða — hann átti að staðfesta það fyrir þeim er efast, svoað vér einnig, þegar hinir æðri kraptar í oss eru daufir og sljófir, og vér finnum ekki fullgløggt sannleika sjálfrar kenníngarinnar — að vér getum þá haft oss fyrir augum þessaytri staðfestíngu, og sagt: Guð var með honum (Post. 10, 38). En fagnaðareyrindið sjálft var og er aðaleyrindið. Fagnaðareyrindið, það er: hinn gleðilegi boðskapur, hið helga ljós í myrkri veraldarinnar, hin himneska huggun í jarðneskum raunum, boðskapur frá Guði til að lækna þá sem hafa sundurkram-

in hjörtu, til ad boda herteknum lausn og ánaudgum frelsi (Lúk. 4, 18): þad var adaleyrindid. Og þetta fagnadareyrindi hefir fært sønnur á sig, og færir enn sønnur á sig, fyrir samvizkum mannanna. Eg veit þad fyrir víst — hver sem þú ert, er þetta lest edur heyrir, ad þú hefir þúngar byrdar ad bera, og ad þér finnast þær svo þúngar opt og einatt, ad þú þykist ekki fá undir þeim risid; þú kvartar ekki einúngis um líkamlegt mótlæti, heldur og um andlegar raunir: hid innra líf þitt er teppt og bundid, hjarta þitt er snautt eda titrar af sárum kvída, myrkur daudans dregur upp yfir høfdi þér, og þig óar vid gini grafarinnar, jafnvel ádurenn þig ber þar ad, þú leitar ad fróun, lækníng og hjálp — þú leitar, en þú veizt ekki, hvar þú átt ad finna. En þad er þó til eitt fagnadareyrindi — bodskapur lífsins og miskunarinnar; og þú getur undireins markad þará, hvílíkt þad muni vera, ad þad er prédikad, og prédikad einsog gjørt er, um alla jørdina, í margar aldir. Allt annad, sem upp hefst á jørdunni, hefir sinn tiltekinn aldur, og fellur sídan; svo er um veldi og ríki, svo er um øll mannanna féløg, svo er um meiníngar og kenningar. En fyrstad kristin kirkja stendur enn medal svo margra hrynjandi rústa, fyrstad Krists fagnadareyrindi heyrist enn medal svo margra hverfandi radda, fyrstad ofsóknunum hefir ekki tekizt ad fyrirkoma því, né léttúdinni ad drepa því á dreif — þá minnir sigurfæld hennar oss á hin merkilegu ord, er sá hinn skynsami madur sagdi á rádssamkomu Gydínga, þegar hin helga trú tók ad hefjast, og høfdíngjar á Gydíngalandi bjuggust ad kúga hana med øllum rádum, þeim er þeir áttu vald á: sé þetta fyrirtæki af mønnum, sagdi hann, þá verdur því eydt, en sé þad af Gudi, þá megnid þér ekki ad kefja þad (Post. 5, 38. 39); þad verdur ad vera, menn hafi fundid med sjálfum sér um allar þessar laungu og margbreittu aldir, ad Krist fagnadareyrindi er kraptur Guds til sáluhjálpar hverjum er trúir (Rómv. 1, 16), fyrst þeir hafa ekki hafnad því. Já, sannlega hefir þad reynzt svo um allar aldir, ad þegar þessi heimur hefir tælt mennina eda fullnægt óskum þeirra, þá hafa þeir fyrirlitid fagnadarbodskapinn, og þegar hugur þeirra hefir gjørzt fullur þrjózku og yfirgángs, þá hafa þeir hatad hann og ofsókt; en þegar Gud hefir

litillækkad þá, þegar hin dýpri ösl sálarinnar hafa farid ad bæra á sér aptur, og hin ædri laungun hennar hefir vaknad, hafa þeir ekki átt neitt hæli, nema þann hinn sama fagnadarbodskap, er svo optlega hefir verid smádur og ofsóktur. Enn í dag er hann mönnunum jafnnálægur, enn er hann óafbakadur á medal vor, og þeir sem af heilum hug hafa vid honum tekid, þó þeir hafi í fyrstu gjört þad fyrir fortölur annara, munu enn geta med sanni sagt, einsog hinir samverskn fordum: ver trúum nú ekki framar fyrir fortölur annara, því vér höfum sjálfir heyrt og vitum, ad hann er sannarlega Frelsari veraldarinnar (Jóh. 4, 42). Þad er til ástæda fyrir sannleika fagnadarbodskaparins í honum sjálfum, sú er full anda og máttar, og hugnast samvizku hvers manns, þad er: hinni innstu tilfinníng vorri, sem adgreinir rétt og rángt. Þessi ástæda fullkomnar algjörlega hinar ytri ástædurnar. Hana þekkja þeir, sem tekid hafa Krists ok sér á herdar med hógværd og audmýkt, og lært af honum, og fundid, ad hann gefur þeim, sem erfida og þúnga eru þjádir, hvíld handa sálum þeirra (Matth. 11, 28. 29); hana þekkja þeir, er sjálfir hafa reynt þýding þessara Krists orda: hver sem vill gjöra vilja þess, er mig sendi, hann mun komast ad raun um, hvert kenningin er frá Gudi, edur eg tek hana upp hjá sjálfum mér (Jóh. 7, 17); hana þekkja þeir, sem freistarinn hefir spurt, annadhvert fyrir munn annara, ellegar í hjörtum sjálfra þeirra, er svo hæglega efast og hneixlast — hvert þeir vildu ekki yfirgefa Drottinn sinn, einsog margir hafa gjört? þeir þekkja hana, segi eg, ef þeir hafa þá fundid til þess er postulinn sagdi: Drottinn! hvert eigum vér ad fara? þú hefir ord hins eylífa lífs (Jóh. 6, 68).

Fagnadareyrindid er bodad hinum fátæku. Hversu margir vísindaskólar hafa verid í heiminum, þarsem spekin hefir ekki adeins verid seld vid audæfum, heldur hefir jafnvel bædi verid og ordid ad vera öllum ófáanleg, nema einstöku afbragdsmönnum, þeim er sakir frábærra vitsmuna, rækilegs undirbúníngs og mentanar voru færir um, ad ráda í hinar vandskildu greinir, sem vizkan var hjúpud í. En þegar Kristur stofnadi sinn skóla, þad er: sína heilaga kirkju, þá baud hann til ríkum og óríkum, því hann vildi, ad sannleikurinn yrdi ber öllum

mönnum. Einginn madur er svo lítilsverdur, ad ekki þarfnist hann gudlegra sanninda sér til huggunar og leidbeiníngar; og því er naudsyn á, ad hinar háleitu kenníngar, er veita sálunni frid og frelsi, séu finnanlegar hverjum, er þeirra leitar af einlæg-um hug, þó þær séu slíkar, ad einginn fái lengra komizt, hversu djúphygginn sem er, og þroskadur ad vitsmunum; og hversu opt hefir Kristur sýnt, ad þad, sem hulid er hinum vitru og spekíngunum, getur ordid bert fyrir smælíngjunum (Matth. 11, 25). Hann sneiddi sig ekki hjá hinum voldugu eda lærdu, heldur veitti þeim áheyrn, hvert sem þeir komu til hans á næturþeli, eda áverpudu hann í vidurvist fólksins; en hinir fyrstu játendur hans voru þó lítilla manna; þá gjordi hann ad þjónum síns ríkis, og sendi þá frá sér til ad boda hinum fátæku fagnadar-erindid. Ad sönnu voru þeir kalladir fram fyrir konúnga og höfdingja fyrir hans sakir, og mörgum, er höfdu veraldlegar virdíngar, komu þeir til ad láta sér ekki þykja minkun ad krössi Krists; en einginn var svo umkomulítill, ad þeir ræki frá sér eda fyrirlíti, hvert sem var snaudur eda ánaudugur, ef þeir vændu, ad hann mundi þekkjast ord Drottins þeirra. Og þad hefir vid-haldizt æ sídan. Í hvad mörgu tilliti sem kirkja Krists hefir opt úrætzt og spillzt, þá hefir hún ætíd borid umhyggju fyrir hin-um fátæku; þegar Drottinn kemur, þá mun hann sjá hneixlanir og saurganir fleiri enn tölu verdi á komid, en þó mun hann sjá, ad játendur hans hafa í hans nafni mettad hina húngrudu, klædt hina nöktu, tekid ad sér hina munadarlausn, og ad þjónustumenn hans hafa talad máli hinna umkomulitlu, og þráfaldlega sagt herrum jardarinnar, ad veita þjónum þeirra þad sem rétt er og sanngjarnlegt, og muna til þess, ad þeir eigi sjálfir herra á him-ni (Kól. 4, 1) — svoad hlekkir ánaudarinnar eru vída med öllu brotnir, en sumstadar eru þeir ad losna. Samt eru ekki adeins stundlegar gjafir veittar hinum fátæku í nafni Drottins vors; heldur eru í sérhverju kristnu landi, þó þad sé afskekkt, og þar sjáist eingin höll, heldur mest kot og hreysi, og fáir láti sér annt um, hvert ad íbúum þess lídi í ödru vel edur illa — þá eru þar þó kirkjur byggdar, svo konur og karlar geti leitad þángad, eptir hita og þúnga rúmhelgu daganna, til ad heyra áminníng

og huggun Guðs orða, og til þess að börnin geti snemmindis kynnt sér hinn eina og sanna Guð, og þann er hann sendi, Jesum Krist. Þannig er fagnaðareyrindið enn í dag boðað hinum fátæku.

Hinum fátæku, sagða eg; en þurfa hinir auðugu ekki að halda á neinum fagnaðarboðskap, eður hafa þeir annan? Ó! meðan maðurinn kallar sig auðugan og þykist hafa alls nægtir og skort á eingu, hefir hann ekki not af Krists fagnaðarboðskap. En það er til þorsti, sem jarðneskar uppsprettur fá ekki slökkt; það er til þörf, sem öll dýrð veraldarinnar fær ekki fullnægt. Hver sem til þessa finnur, hvert sem hann er voldugur konúngur eða fátækur förumaður, þá leitar hann Jesú; því heilbrygðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem vanheilir eru (Matth. 9, 12). Sælir eru voladir í anda, því þeir munu eignast himnaríki (Matth. 5, 3).

---

## 25.

## Líf Krists á jörðunni.

Hið daglega líf mannanna er að vísu harla virðingarvert, þegar þeir leitast við með trúleik og skynsemi að gjöra þær skyldur, sem hver dagur leggur á þá, þegar þeir bera hita og þúnga dagsins, og taka með þolinmæði kross sinn á herðar sér, en eru líka nægjusamir, og taka þakklátlega á móti þeim gæðum, er Guð dag hvern gefur þeim. Ekki megum vér heldur fyrirlíta hinar daglegu hugsanir, sem vakna í sálunni, um það sem hverjum degi viðvíkur, því vér eigum að hafa hugann við starf vort, hvert það er heldur mikið starf eða lítið, sem oss er á hendur falið í lífinu. En hversu volud er sú sál, sem ekkert þekkir, nema þessar daglegu hugsanir! Menn fá jafnvel ekki þekkt það lögmál, sem á að prýða alla hegðan vora, það er: hið heilaga lögmál ráðvendninnar, af eintómri skoðun stundlegra hluta og daglegra, því þetta lögmál er nokkurskonar æðra

ljós, sem skín inni sálina; og ekkert af því, er sýnir oss, ad hid daglega líf sé í raun og veru mikid og merkilegt, ekkert af því, er veitir hjartanu hinn ædra og sælla føgnud, ekkert af því, sem í raun réttri huggar oss í hinum margháttudu þjáníngum lífsins, ekkert af því, er lætur oss eygja morgunroda vonarinnar, í stadinn fyrir myrkur hins dymma dauda, í gegnum breitíngar þessa hins daudlega lífs: ekkert af øllu því geta daglegar og venjulegar hugsanir veitt oss.

Þessvegna á hver madur, sem girnist ad hafa sønn not lífs síns hér á jørdunni, ad audga sál sína meiri og háleitari hugmyndum, enn þær eru, sem hver dagur færir honum sjálfkrafa. Vér sjáum einnig, ad þeir, sem hafa aflad sér vizku og mentunar, eru vanir ad taka sér, utanvid þann veg, er þeir verda ad renna ásamt hinum háværa lýd, svosem nokkurskonar nædissaman hól, til ad geta á stundum farid þángad úr skarkalanum og nád þar meiru vídsýni, og hvílzt vid skemtilegri hugleidíngar, og safnad nýju fjøri og nýum hug, til ad halda áfram vegferdinni. Og vér ættum sannarlega ad gledjast, þegar vér lítum einhvern rádvandan mann, er á sér athvarf í vísindum og mentum, eda einhverju ødru sæmilegu starfi, sem honum þykir skemtilegt, og hann getur varid til þeim stundum, sem honum eru gefnar til hressíngar, og sleppt svo daglegu umstángi endur og sinnum, svo hugrenníngar hans verdi ekki smámsaman einsog hjólin í sigurverki, sem snúast alltaf eins.

En hvert sem þú finnur nokkurt slíkt hæli edur ekkert, hvert sem þú hefir lært mikid eda lítid þér til umhugsunar, þá áttu samt eitt hæli, sem Gud hefir búid hverjum manni, er vill leita þess í mannraunum sínum og hverskyns armædu, en þad eru kristilegar hugleidíngar. Hver sem vill eiga kristid nafn skilid, á ekki ad láta þau kristin frædi, er hann hefir numid, liggja ardlaus í sálu sinni, heldur á hann optsinnis ad renna huganum til þeirra, ekki adeins til trúaratridanna, heldur og til hinna heiløgu frásagna, sem þeim eru samfara, og þau eru byggd á, og hljóda um. Hvílík audæfi bera þá fyrir augu gudrækins manns! Fæstir vita mikid um þad, sem vid hefir borid í heiminum utanvid þá hina mjóu gøtu, sem liggur frá vøggu þeirra til grafarinnar;

vér getum ekki heldur flett upp veraldarsøgunni, og látid þá, sem fávísir eru, virda fyrir sér hetjur og spekínga fornaldarinnar. En heilagri ritníngu vildum vér geta komid inní hvert hreysi, því hún hefir ad geyma mikla mergd af hinum fegursti og fródlegustu fráságum, er gjørzt hafa í fornøld. Þar sem eptir er nokkurt skynbragd á jardneskum og himneskum hlutum, þar þykir bædi úngum og gømlum ánægjulegt ad lesa søgurnar af vidburdunum í tjøldum forfedranna, af hinum mikla løggjafa, er dóttir Faraós var send til ad frelsa, til þess hann gæti frelsad þjód sína úr ánaud, og gjørt hana med helgum løgum hæfilega til mikilla hluta, af hinni undarlegu leid Davíds frá hjørdunum til veldisstóls Ísraels; af Salomoni í allri dýrd hans, af konúngum Ísraels, þeim er lutu Gudi, og þeim er þrjózkudust gegn honum, af spámønnunum, er spádu í nafni Drottins; en þar er ritud ein frásága, sem tekur øllum fram, þad er hin einfalda og þó háleita frásága gudspjallamannanna um líf Krists á jørdunni.

Hversvegna ber nú á døgum miklu minna á þessari helgu fráságu enn ádur, og hversvegna þykur hún nú særstum eins fýsileg ad heyra, og ádur þókti hún? Vera má þad komi nokkurnpart til af því, ad menn reyna nú miklu framar til ad komast í skilníng á einni og einni grein, enn ad láta háleitar hugmyndir gagntaka allan huga sinn med fjøri og afli; en einkum kemur þad til af því, ad menn leita nú ekki ad ødru enn edlilegri ráds hlutanna, og skoda ekki stórmerki Guds med lotníngu, heldur med efasemi. Því undursamleg er frásága þessi; ef vér sviptum hana stórmerkjunum, fer af henni blærinn og úr henni kraptúrinn, og hún verdur ad tómum samsetníngi, eda hégoma, eda ødru, sem er enn fyrirlitlegra. Þad eru einmitt stórmerki Guds, sem gjøra þessa fráságu dýrlega. Vér menn, erum allir hádir edli veraldar þessarar, verdum ad hlýda løgum þess, getum ekki, án þess adstodar, gengid eitt fótmál, eda gjørt eitt hár svart eda hvítt á høfdi voru. En þar segir frá þeim, sem átti ad bæta hid spillta edli, leysa hid fjøtrada edli, og reisa á fætur hina føllnu kynslód; þessvegna hlaut hann ad vera ædri edli því, er hann átti ad leysa; þessvegna hlaut hann ad vera sameinadur

gudlegu edli, sem á sér vegu og ráð, sem eru oss mønnunum hulin; þessvegna lét Guð táknin fylgja Kristi, honum til dýrðar, og þessvegna gjørði Kristur gudleg stórmerki.

Hversu fullar sælu og huggunar finnast ekki kristnum manni frásøgurnar um Drottinn vorn, þegar hann les þær með slíkri trú! Hann nefnir sig kristinn, afþví hann trúir að einusinni hafi runnið upp frelsi handa hinum glødudu kynþáttum, sem hafi breiðzt út, og breiðist enn út, æ víðar. Hvar ljómaði morgunroði frelsunarinnar? Hin helga frásaga vísar oss til Bethlehems, lítillar borgar í afskekktu og fyrirlitnu landi; þar vísar hún oss til gestaherbergis, og í því herbergi til jøtu einnar, sem barn liggur í. Er það þetta barn sem á að verða stórt, og eignast nafn, sem æðra er øllum nøfnum? Er það móðir þessa barns, sem allar þjóðir skulu sæla kalla? — Mørg børn hafa fæðzt í dýrðlegum høllum, og óteljandi glediraddir hafa þá látið til sín heyra, en smjaðurtúngurnar þá þegar lofað hin miklu afreksverk, er þau mundu vinna, og samt hefir líf þeirra horfið burt af jørdunni, án þess menn sæu nokkrar menjar þess. En úr jøtunni í Bethlehem kom sá, er átti að láta orðstýr sinn og afleiðingar lífs síns ná til endimarka jarðar og til allra ókominna alda. Hinn háværi lýður hirti lítið um barn það, sem borið var í hinni mestu niðurlægíng, þó urðu tákn og stórmerki, er sýndu hver fæddur væri. Hjarðsveinarnir úti haganum sáu gudlega birtu ljóma í kríngum sig, og heyrðu himneskar raddir, er boðuðu þeim og þjóð þeirra og øllum heimi mikinn føgnuð. Í Dag, søgðu þær, er yður Frelsari fæddur, hinn fyrirheitni, Drottinn Kristur; þér munuð finna hann í borg Davíðs, svosem úngbarn, er liggur í jøtu einni. Og hjarðsveinarnir fóru inní Bethlehem, og søgðu frá því, er þeir høfðu heyrt og séð; og móðir hans, sem tortryggð var og fyrirlitin, varðveitti hvert orð þeirra í hjarta sínu. Síðan er barnið fært í musterið, spámannlegar raddir heilsa því, og orðrómurinn um það berst út um Jerúsalem, meðal allra sem væntu endurlausnar. Á austurløndum eru vitríngar nokkrir úti á næturþeli að athuga rás himintúnglanna, og sjá undarleg tákn, er þeir ætla boða muni, að høfðíngi sá sé fæddur, er heidíngjarnir í løndum þeirra hugðu að

koma mundi af Gydíngalandi, og þeir fara þegar að veita honum lotníngu. Þá óttast konúngurinn fregn þá, er hann fær, hann óttast ad barn þad, er borid var, muni ásídan reyna til ad steypa honum úr völdum, og lætur því drepa öll úngbörn í Bethlehem. En engill Drottins frelsadi barnid, og var búinn ad koma því undan valdi óvina þess, og skýla því í fjarlægum löndum. Ad sönnu kom þad skjótt aptur, en fæddist þó upp á laun; ad sönnu spurdist þad eittsinn, ad barn eitt hefdi setid í í musterinu medal kennendanna, og ad allir hefdu undrazt andsvör þess og vitsmuni, en ad ödruleiti var allt kyrrt. Menn höfdu nú gleymt bodskap þeim, er ordid hafdi, eda héldu hann mundi ekki koma fram, þángadtil hinn merkilegi spámadur, Jóhannes skírari, hóf ad kenna á eydimörku. Þar kom Jesús til hans, ad láta skírast, og þá urdu enn tákn og stórmerki, er sýndu Jóhannesi það, er honum var meiri, og hvöttu hann til ad bera hann vitnisburd, sem kom því til leidar, ad hinir fyrstu af lærisveinum Jesú adhylltust hann. Sídan fór Jesús út á eydimörk, til þess ad búa sig í nædi undir starf þad, er hann ætladi ad byrja á, þar átti hann baráttu í undarlegum og tælandi vitrunum, þar fyrirleit hann ánaud líkamlegra naudsynja, þar hafnadi hann ginníngum til flaslegra fyrirtækja, er heimskíngjar einir freista med Drottins Guds síns, þar virdti hann ad vettugi ríki veraldarinnar og dýrd þeirra, og er hann var þannig undirbúinn, stefndi hann öruggt ad takmarki sínu, og hóf ad kenna.

Nú eru kristin frædi kennd um allan heim, og afleidingar þeirra ná einnig þángad, er menn þekkja ekki nafn Krists, eda hata þad og fyrirlíta. Hvadan eru frædi þessi komin, sem eru heidninni svo gagnstæd med öllu? Hvadan hafa þau breidzt út um jördina? Hin helga frásaga vísar oss til bakkanna á Genesareths vatni. Þar er hid fegursta hérad á Gydíngalandi, og byggir þar fjöldi fólks, og borgir eru þar skrautlegar; þar ferdadist Jesús um, og gjördi gott, læknadi sjúka, gaf blindum sýn, lét halta gánga, og vakti upp dauda, því Gud var med honum. Þar sýndi hann, ad hann væri sendur af Gudi, er hann lét í ljósi mátt sinn; þar sýndi hann vottum sínum, er dýrkudu hann, geisla dýrdar þeirrar, er sídan kom í ljós, þá er hann ummyndadist í augsjón þeirra.

Þar kenndi hann líka þjóðinni þá kenníngu, er síðan átti að heyrast gegnum allan skarkala lífsins, betra síðina, snúa mönnunum til réttlætis, þýða lögmál Guðs, og kenna foreldrunum að hafa það yfir, svo börnin gætu snemma lært það, og helga lífið á jörðunni. Þar kenndi hann fagnaðarerindi Guðs ríkis — boðskap þann frá Guði um náð og frelsi, er síðan átti að hljóma í höllum og hreysum, og vera um allar aldir hæli hinna aumu, færa þeim frið, sem erfiða og þjáðir eru, og lækna sundurkramin hjörtu. Þar sýndi hann hið heilaga eptirdæmi, er ætíð átti að skína þeim til eptirbreytnis, er með sannri kostgæfni leggja stund á hið góða; þar sameinaði hann máttinn og hógværðina á hinn fegursta hátt, í óslökkvanlegri ást á Guði og mönnum; þar tók hann á sig syndir veraldarinnar, þótt sjálfur væri hann syndlaus; þar lypti hann opt í einveru sál sinni á vængjum bænar og guðrækni, til himna, þángað er hið sanna heimkynni hans var; en síðan stè hann niður þaðan aptur, til að vera hjá þeim, er hann nefndi bræður sína, til að leita að því, sem glatað var og frelsa það, til að drekka af bikar þeim, er hans himneskur Faðir lèt bera honum, til að framkvæma það, er Guð hafði honum á hendur falið. Sjaldan yfirgaf hann hèrað þessi, til þess einung í Jerúsalem að greiða götu sína, til að vekja þá, er hæfir voru til trúarinnar, þángaðtil hann undir endalok æfi sinnar, bjó þar hið fyrsta aðsetur safnaðar síns.

Nú er fyrirgefníng syndanna boðuð um allan heim; rödd heyrist, er segir við þann, sem iðrast og búinn er til betrunar: synd þín er afmáð. Hvaðan kemur þessi rödd? Hin helga frásaga vísar oss til næturmyrkranna í Gethsemane, þar sem Frelsari veraldarinnar átti hina örðugu baráttu, þar sem sál hans var hrygg til dauða, og sveiti hans fèll til jarðar sem blóðdropar, þángaðtil stund myrkranna var kominn, þegar svikarinn braust inn til hans, til að selja hann í dauða, er saklaus var og heilagur, þegar allir yfirgáfu hann, og menn fluttu hann til hinna órèttlátu og grimmu dómenda. Þar sjáum vèr hann færðan úr einum stað í annan, húðstrýktan, skrýddan búnaði þeim, er menn höfðu til smánar yfir hann kastað, með þyrnikórónu á hinu mædda höfði, leiddan út, til þess fólkið skyldi aumkast yfir hann, en kynslóð

sú, er hann þoldi allt þetta fyrir, gjørdi þad ekki. Vér fylgjum honum á píslargaungu hans, er hann bar kross sinn, og hné undir byrdinni, en sagdi þó vid dætur Jerúsalems: grátid ekki mín vegna, heldur ydar vegna og barna ydvarra. Ver lítum til Golgatha-hædar, og sjáum þar standa þrjá krossa; á tveimur þeirra hánga óbótamenn, sem deya fyrir syndir sínar, en á midkrossinn er sá negldur, sem kom til sinna, er vildu ekki vid hann kannast, heldur spotta hann í sjálfu andlátinu; þar heyrum vér kvedjur hans til vina og óvina, þar sjáum vér píslir hans, allt til þess er hann gat med sanni sagt: þad er fullkomnad! allt til þess er hann, sem bar syndir allrar veraldarinnar, er hann vígdi sig til fridþægíngar-dauda, gat med sanni sagt: þad er fullkomnad!

Nú hafa menn um alla vereld von um ódaudleika, háir og lágir, vitríngar og einfeldníngar, líta nú yfirum takmørk þessa lífs, og búast vid réttlátum dómi í ødru lífi; hinir armæddu horfa úr raunum þessa lífs upp til himins, og vænta þess fridar á ødrum betri stad, er þeir hafa ekki ødlazt hér á jørd; og þegar tár hinna yfirgefnu falla nidur á hina þøglu grøf, stendur vid hana engill sá, er aptur mun sameina þá adskildu, og snúa harmagrátnum, í blídan og stilltan trega, er felur Gudi allt sitt ráð. Von mannanna um annad líf hefir ekki ætíd verid slík; hvernig er þá líf og ódaudleiki kominn í ljós? Hin heilaga frásaga vísar oss til grafar einnar vid Jerúsalem, þar sem nokkrir trúfastir menn høfdu lagt lík vinar síns og meistara, og velt þar yfir hinum þúnga steini, er um aldir átti ad hlífa hinum dauda vid skarkala hinna lifendu. Þángad gengu í morgunkyrrdinni fáeinar harmandi konur, og hryggir lærisveinar, og sjá! grøfin var opin, og sjá! hinn krossfesti var upprisinn, og birtist þeim optsinnis, og med skírum jarteiknum. Er þetta ekki sønn saga? Einginn hefir sá atburdur ordid í fornøld, er eins margir eda eins rádvandir og sannsøglir vottar séu ad. Þeir vørdu lífi sínu til ad votta þetta, þeir fóru med vitnisburd sinn borg úr borg og land úr landi, og eingin er sú mæda til eda ofsókn, er þeir væru ekki fúsir ad þola sakir Drottins þess, er þeir báru vitni um, sakir Drottins, er krossfestur var, og sídan uppreis; þeir sáu

brædur sína falla vid hlid sér, þeir sáu sverdin blika yfir høfdum sér, en þó tók ekki einn af þeim vitnisburd sinn aptur; allt til elli, þegar þeir fundu, ad daudastund þeirra nálægdist, héldu þeir áfram ad vitna um þad, er þeir høfdu heyrt, þad er þeir høfdu séd med augunum, þad er þeir høfdu skodad, og þreifad á med høndunum (1 Jóh. 1, 1), og eitt af því var, ad Gud hefdi vakid Jesúm frá daudum. Og vid upprisu Drottins bættu þeir ætíd dásamlegri uppstiguíng hans til himna. Med hverju ødru móti hefdi líf Jesú á jørdunni átt ad enda? Hefdi hann átt ad gánga í annad sinn fram fyrir óvini sína, og láta krossfesta sig í annad sinn? Eda hefdu lærisveinar hans átt ad skýla honum, eda hann ad skýla sér sjálfur í einhverjum afkima? hefdi hann átt ad eyda þar æfi sinni í gleymsku, án þess ad starfa ad hinum háleita tilgángi lífs síns, þángadtil hann hefdi ordid sóttdaudur. Hversu sundurlausar og ósæmilegar verda allar hugmyndir vorar, undireins og vér førum ad snúa gudlegum vidburdum í náttúrlega, og yfirgefum þad, er vér høfum søgur af! Gudspjallamennirnir segja oss ekki, ad Kristur hafi, eptir ad hann var upprisinn, lifad á jørdunni á sama hátt og adrir, sem á henni búa, heldur ad hann hafi opinberazt margsinnis og á margan hátt, og er hann opinberadist í sídasta sinni og hafdi safnad þeim saman, hafi hann blessad þá, og er hann blessadi þá hafi ský numid hann frá augum þeirra (Post. 1, 9). Þetta ský hylur enn sídustu daga Drottins vors á jørdunni, og før hans til Fødur síns, og einsog vér vitum ekkert um, hvad vér munum verda á hinni miklu stund hinnar sídustu ummyndunar, eins vitum vér ekkert um þad, hvernig þad hafi horfid, er seinast var eptir daudlegt í mannlegu edli Jesú, og hvernig hid daudlega hafi skrýdzt ódaudleikanum. En úr skýinu ljómar dýrd Guds, því þetta er fullkomlega sannad: Drottinn er sannarlega upprisinn, og hinir trúfestu vóttar hans hafa séd hann, og mørg hundrud játenda hans hafa séd hann í Galíleu (1 Kor. 15, 7), og loks er hann stiginn til himna í augsýn postula sinna.

Slíkt var líf Jesú á jørdunni. Og safni eg nú øllum atridum þess í eina mikla hugmynd, þá finn eg, ad líf hans var ekki einsog vorra líka, heldur bjó í því máttur hins almáttka,

og stórmerki Guds söfnudust ad því á alla vegu. Og þá segi eg vid sjálfan mig: þessi æfisaga, er þú skodar og dáist ad, er ekki skröksaga, sem ímyndunaraflid hafi fegrad, heldur er hún eins sönn, og hvad annad, er satt er á jördunni. Pad er því satt, ad þegar mannkynid átti ad verda endurleyst, og fædast ad nýu, þá braust himneskt edli gegnum hina algengu rás hlutanna, öfl hinnar jardnesku náttúru létu undan Drottni sínum, og sýndu oss þannig, ad hann væri sá, er vér eigum ad hlýda og trúa, og ödlast lífid í hans nafni. Á þenna hátt sameinast hinu jardneski vitnisburdur hinum himneska, er heyrdist hina miklu tídindanótt, til ad boda oss: ydur er Frelsari fæddur!

---

## 26.

## Gudlegt edli Krists.

„Spámadur mikill er kominn til vor, og Gud hefir litid í nád sinni til lýds síns“ (Lúk. 7, 16), sagdi fólkid fordum, er þad sá eitt af kraptaverkum Krists. Spámadur mikill — já, í sannleika sá, sem meiri er enn nokkur spámadur (Matth. 11, 9): þessi ord Krists koma oss hér í hug, þó hann segdi þau ekki um sjálfan sig, heldur um Jóhannes skírara, er sendur var ad greida götu hans. En hver var hann þá sjálfur, er fyrirrennari hans, sá er skyldi greida honum veg, var miklu meiri enn nokkur spámadur? Hver var hann, er verk hans skelfdu svo mjög hinn undrunarfulla lýd, er frægd hans barst yfir allar nálægar landsálfur, og yfir öll lönd, og um allar aldir? Hver var hann, og hver er hann?

Pessi spurning er ekki einskisverd, svoad hvert sem úr henni er leyst edur ekki, þá sé önnur kenning vor jafn-áreidanleg. Pví þad er áríðandi kristinnar trúar, ad Kristur búi fyrir trúna í hjörtum vorum (Eph. 3, 17); vald hans á ad veita kenningunni rétta stefnu, og áminningunni fullan krapt; kærleikur hans á ad færa hrelldum hjörtum huggun, sjúkum hjörtum lækningu,

snaudum hjörtum fyllingu; máttur hans á ad eyda broddi daudans og sigri helvítis. Í kirkju Krists getur einginn lagt annan grundvöll, enn þann, sem lagdur er, sem er Jesús Kristur (1 Kor. 3, 11); en hver er hann þá, sá er mennirnir útskúfudu, og þó er ordinn ad höfudhyrníngarsteini? Hver er hann, sá ed er undirstada alls hins mikla musteris?

Hinar spámannlegu raddir, er hljóma frá hinum fremstu öldum, allt ífrá þeirri stund, er mannkynid var fallid og tók ad þarfnast lausnar og frelsunar, vísa oss til hans; og þau verk, er hann gjördi fyrir gudlegan tilstyrk, sýna oss, ad hann er sá er koma átti. En ef hann hefir komid frá Gudi, ef hann er gefinn oss af Gudi til vizku og réttlætis, helgunar og endurlausnar, þá hljóta ord hans ad vera sönn, og þá hefir hann hverki dregid sjálfan sig á tálar né heldur oss, þá er hann taladi um sjálfan sig, edli sitt og tign sína. Fyrir því leitum vér ekki til annara, heldur spyrjum vér sjálfan hann: hver hann sé? og hvad hann segi um sjálfan sig?

Hann vísar oss þá fyrst til verka sinna. Þegar hann bar fyrir sig vitnisburd fyrirrennara síns, þess manns, er fólkid virti svosem spámann, þá bætti hann þessu vid: en eg hefi vitnisburd meiri enn Jóhannesar, því þau verk, sem Fadir minn fékk mér ad leysa af hendi, einmitt þau verk, sem eg gjöri, vitna um mig, ad Fadirinn hafi sendt mig (Jóh. 5, 36). Þegar hann sagdi: trúid mér, ad eg er í Födurnum og Fadirinn í mér, bætti hann þessu vid: en ef þér trúid ekki ordum mínum, þá trúid mér sakir verkanna (Jóh. 14, 11). En þegar Kristur ber fyrir sig verk sín, þá er þad ekki einsog þegar Páll postuli segir: postulateikn eru gjörd medal ydar med táknum og stórmerkjum og kraptaverkum (2 Kor. 12, 12); því Drottinn vor fer um sín kraptaverk slíkum ordum, er einginn madur hefir sagt, og einginn engill gæti sagt og eingin sköpud vera: þá hluti sem Fadirinn gjörir — hinn eilífi Fadir, sá er allar túngur kalla hinn almáttka — þá gjörir og Sonurinn sömuleidis. Og þessu er þar vid bætt: einsog Fadirinn uppvekur dauda og lífgar, þannig lífgar og Sonurinn þá, er hann vill (Jóh. 5, 19. 21). Þetta er einkenni gudlegra verka; því mennirnir geta myndad úr

daudum hlutum, þeir geta búid til nýar myndir og harla dásamlegar, fegri sérhverju, er augu þeirra hafa séd hér á jørdu, lagadar eptir hinum háleitu hugmyndum, er Gud hefir veitt sálum listamannanna, en enginn listamadur getur ad heldur blásid lifsanda í kaldan líkama myndar þeirrar, er hann hefir til búid, né kennt henni ad lída yfir jørdina, né lokid upp augum hennar, svoad hún sjái, né munni hennar, svoad hún tali; mannleg íþrótt getur med Guds adstod vidhaldid ljósi lífsins, þó þad logi dauft, en er þad slokknar, þá kveykir enginn þad aptur utan almættid sjálft, og þad er eingis, nema þess, er eylíflega lifir, ad blása lífi í brjóst hinu dauda. En þetta voru ord hans, er svo segir: saudir mínir þekkja rødd mína, og eg þekki þá, og þeir fylgja mér, og eg gef þeim eylíft líf, og þeir skulu aldreigi týnast, og enginn skal slíta þá úr hendi minni (Jóh. 10, 27. 28); og enn á ødrum stadr: eg em upprisan og lífid, hver sem á mig trúir, mun lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25). Og þegar Jesús sagdi, ad einsog Fadirinn uppvekti og lífgadi dauda, eins lífgadi Sonurinn þá, er hann vildi, þá taladi hann ekki ad eins um einstøku kraptaverk, heldur um hid mikla og almenna tákn, ad þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra rødd Guds Sonar, og þeir, sem heyra hana, munu lifa (Jóh. 5, 25); og svoad vér trydum og vonudum á þetta hid mikla tákn, sýndi hann kraptaverkin, og í kraptaverkunum þann hinn gudlega mátt, er vér eigum allir ad tigna.

Fylg Drottni þínum á vegferd hans, þá er hann gekk umkríng, gjørdi gott og grædi alla, sem af djøflinum voru þjádir, því Gud var med honum; bú þér til greinilega hugmynd um hid mikla og dásamlega líf, er kom í ljós í hinum mørgu verkum hans, og tefdu í huganum vid sum af þeim, svo þú megir glegglega skilja stærd þeirra og gyldi. Gakk med honum ad Nains borgarhlidi; þar muntu sjá einn hinna sorglegustu vidburda, sem fyrir menn geta komid (Lúk. 7, 11 o. nn. v.); þú munt sjá sorgmædda ekkju á hinni þúngbæru harma-gaungu ad fylgja líki sonar síns andvana, er hún átti einan barna, þángad, er hún átti aldrei ad sjá hann framar. O! hversu margur, og hversu þúngbær skilnadur verdur í veröldu þessari! Hversu grimmlega

eydir hinn dymmi daudi hvervetna ríkjum lífsins, og hlífir ekki blómum æskunnar sjálfrar, né heldur einvalalidi spekinnar og réttlætisins; hann verdur ekki mýktur med harmatárum, og sérhvad, er lífi lifir, tekur hann ad herfángi seint edur snemma. En vid Naín kemur madur einn á móti líkmönnunum, og stödvar líkfylgdina, og gengur ad börunum, og tekur til orda: "ungmenni! þú sem liggur hér í fastasvefni, þeim er menn fá ekki rofid, eg býd þér: rís þú upp!" Heyrid þad og skiljid! Hann ávarpar hinn dauda; hann skipar honum einsog jardneskur herra skipar lifanda manni; hann segir vid þann, sem firrtur er öllum mætti, og limir hans stirdnadir af dauda, einsog sagt er vid heilbrygda menn: stattu upp, rístu á fætur! Annadhvert er sá, er slíkt mælir, vitfirríngur, og veit ekki hvad hann talar, eda er hann Lávardur lífs og dauda, og talar almáttug ord. Og sjá! sá, sem daudur var, rís á fætur og tekur ad mæla. Von var, ad þeir er sáu slíkt, yrdu óttaslegnir, og hlytu ad sjá, ad þetta voru gudleg stórmerki.

Frá þeim stad, er þetta tákn vard, hverfur hugur vor sjálfkrafa til Bethaníu og ad hinni dymmu gröf, þar sem vinur Jesú hafdi legid fjóra daga (Jóh. 11, 17 o. m. fl.). Þar sjáum vér aptur þann, er med ordum einum opnadi augu hins blinda, og fyllti af heilbrygdi visnada limu, en hafdi samt ekki í þetta sinn viljad frelsa frá dauda þann er sjúkur var. Nú gengur hann ad gröfinni; þar lá þegar sá hinn þúngi steinn, til ad hlífa ró grafarinnar, svo ad birta veraldar þessarar skini ekki inn þángad, og skarkali hennar ónádadi ekki hinn þögula grafarbúa. En Jesús bregdur ró grafarinnar, lætur velta burt steininum, kallar inní hana — heyrid þad! skiljid þad! hann kallar inní gröfina hárri röddu: Lazarus, kom þú út hingad! Sá, er slíkt mælir, er enn sem fyrr annadhvert vitfirríngur, og veit ekki hvad hann talar, eda er hann Lávardur lífs og dauda, og talar almáttug ord. Og sjá! eitthvad tekur ad bærast í hinum dymma helli, lífsaflid hverfur aptur í limu þess, er daudur var, hann kemur út, hjúpadur líkblæum, sér aptur ljós sólarinnar, og þá, er hann ádur þóktist hafa kvadt fyrir fullt og allt, og þ a n n, er hann

hafði trúað á, og nú sýndi honum guðlega dýrð; og nú vegsamar hann Guð enn af nýju með öðrum lifandi mönnum.

Þetta sama almætti sjáum vér í öllum hlutum: vér sjáum það, þegar Jesús býður hinum sjúka, er legið hafði rúmfastur í mörg ár og verið borinn af öðrum, hvert sinn er hann skyldi úr stað flytjast — þegar Jesús býður honum, að hann risi á fætur, og taki upp rúmið, og hann verður heill, og tekur að gánga, svoað allir sjá; og þegar vér sjáum Jesum blessa hin fáu brauð, svo þau verða nóg saðning handa mörgum þúsundum; og þegar vér heyrum hann úti á hinum ólgufulla sjó hasta á stormana og hinar æðandi öldur. Með slíku hugarfari eigum vér að lesa frásagnir guðspjallamannanna: vér eigum ekki að rýra þær slíkt er vér megum, og ekki að breiða ofanyfir stórmerki Guðs, og nærri því fyrirverða oss þeirra vegna, heldur eigum vér að fagna dýrð Frelsara vors, og styrkja trú vora á íhugun verka hans.

Hvert sinn er Jesús segir, hann megni ekkert af sjálfum sér, það er að skilja: sem manni, heldur einúngis fyrir samfélag sitt við hinn himneska Föður, þá lýsir hann sannlega samfélagi þessu á slíkan hátt, að það hefur hann hátt yfir alla skepnu, er hann gjörir fyrir það þá hina sömu hluti, sem hinn almáttki. Athugum það er hann sagði einn hinna síðustu daga hérvistar sinnar, þá er sá tími var liðinn, að hann væri í niðurlægíngu sinni og ætlaður til dauða, og hann var búinn að drekka þann hinn beiskjusfulla kaleik, er honum var réttur, og þola píslir og dauða, svosem honum var ætlað, og var uppriSinn og dýrðlegur vorðinn; hann var þá staddur á fjallinu í Galíleu, þeirri hinni sömu landsálfu, er hann hafði framið flest kraptaverk sín. Hann gekk til lærisveina sinna; en þeir veittu honum lotníngu; hann mælti: mér er gefið allt vald á himni og á jörðu (Matth. 28, 18). Heyr það, himin! heyr það, jörð! svo talar Drottinn þinn. Einginn dauðlegur maður, þó hann hefði öðlazt hina æðstu tign jarðneskra metorða, né heldur neinn himneskur engill mundi dirfast að taka sér slík orð í munn — því þó sá væri efstur og dýrstur allra engla, þá væri hann eingu að síður skepna sem vér; en hafi sá, er slík orð talaði, ekki verið fullur ósvífni og

óstjórnar, og viljad fria Gudi hugar, og kalla af himni hegningareld, svoad sæist vanmáttur hans, þá hlýtur ad veta, hann hafi vitad-sig vera í því sambándi vid hinn eylífa Födur, ad hann hafi þorad ad stadfesta þetta, er hann hafdi sagt ádur fyrr: allt er mér í vald gefid af Födur minum (Matth. 11, 27), Fadirinn elskar Soninn og hefir gefid alla hluti í hans hönd (Jóh. 3, 35). Sídan baud Kristur, svosem herra jardarinnar, lærisveinum sínum ad þeir færi út um allan heiminn, og kenndi öllum þjódum — því allar voru þær hans eign —, og ad þeir skírdu þær, ekki adeins í nafni Födursins, heldur og í sínu nafni og Heilags Anda; því hann hafdi sjálfur sagt berum ordum, ad allir eigi ad heidra Soninn einsog Födurinn (Jóh. 5, 23). Vér höfum ekki talad þessi ord — vér höfum ekki tekid upp hjá sjálfum oss, ad veita gudlega lotníngu þeim, er vér köllum Drottinn voru og Meistara; heldur heimtar hann þad sjálfur med fullum rétti, þarsem hann er í samfélagi vid hinn eylífa Födur. Og ádur hann hvarf úr augsýn lærisveina sinna, komst hann fyrir því ekki eins ad ordi, og menn eru vanir, þegar þeir skilja: eg verd ad yfirgefa ydur, og get ekki lengur ordid ydur samferda um leid lífsins; heldur segir hann: sjá! eg er med ydur alla daga, allt til enda veraldarinnar.

Hugur vor stígur æ hærra, er vér íhugum ord Drottins vors um sjálfan sig, og heyrum hann taka svo til orda: "sannlega, sannlega segi eg ydur: ádurenn Abraham vard til, var eg" (Jóh. 8, 58) — líkt og spámadurinn segir: "hann er upprunninn fyrir öndverdu og ífrá eylífd" (Mich, 5, 1) —; sömuleidis, er vér heyrum hann segja svo: "einsog Fadirinn hefir lífid í sjálfum sér, svo gaf hann og Syninum ad hafa lífid í sjálfum sér (Jóh. 5, 26); edur svo: sá sem hefir séd mig hefir séd Födurinn" (Jóh. 14, 9); því allar greinir þessar eru fólgnar í þeirri einni grein, er átrúendur hans hafa ætíd vidurkennt, en óvinir hans ætíd kallad gudlast: "eg og Fadirinn — vid erum eitt" (Jóh. 10, 30).

Med slíkum ordum vottar Drottinn vor sama og postular hans, og postularnir sama og Drottinn vor, er þeir segja svo: "Soninn hefir Gud sett Erfíngja allra hluta, og skapad heiminn

fyrir hann; Sonurinn er geisli Guds dýrdar og ímynd veru hans, og stjórnar øllu med sinu kreptugu ordi" (Hebr. 1, 2. 3); edur er þeir segja svo: "í upphafi var ordid — þad er: hid lifanda-ord, er merkir gudlega veru, og vilji Guds framkvæmist fyrir þad — og ordid var hjá Gudi, og ordid var Gud; allir hlutir eru fyrir þad gjørdir, og án þess er ekkert til ordid sem til er; og ordid vard madur, og tók sér bólfestu medal vor (Jóh. 1, 1. 3. 14); edur er þeir segja svo: Kristur er kominn af fedrunum eptir holdinu, sem er yfir øllum, Gud, blessadur ad eylífu" (Rómv. 9, 5). Þetta er undirstødugrein kristinnar trúar — og sé henni haggad á nokkurn veg, þá bifast undirstadan øll, og musteri trúarinnar liggur þegar vid hruni — þad er, sagda eg, undirstødugrein kristinnar trúar, ad hann, sem er kalladur hinn eingetni, afþví hans samfélag vid Gud er eylíft, og ædra og innilegra og øflugra, enn nokkurra annara, er Guds børn eru kalladir — ad hann, sem er ímynd ósýnilegs Guds, frumgetníngur allrar skepnu, sá er allt er fyrir skapad á himni og á jørdu, sýnilegt og ósýnilegt, og vidheldur øllu (Kól. 1, 15. 16. 17) — ad hann stærdi sig ekki af því, þó hann hefdi Guds mynd, heldur mínkadi sjálfan sig, gjørdist þjónn, vard mønnum líkur, litillækadi sjálfan sig, og var hlýdinn allt fram í daudann, já, fram í daudann á krossinum (Philipp. 2, 6. 7. 8). En hvernig sem hann mínkadi sjálfan sig í þjónustu kærleikans, hversu mikid sem hann lagdi nidur af gudlegri dýrd sinni, er hann birti sig í mannlegri mynd, þá skein þaraf eigi ad sídur gudlegur ljómi, og mannlegt edli hans var gagntekid af hinu gudlega edli; þad er ekki madur slíkur sem vér erum, er vér køllum einnan Meistara vorn og Lávard — þad er ekki madur slíkur sem vér erum, er borid hefir synd allrar veraldarinnar — þad er ekki madur slíkur sem vér erum, er veita mun eylíft líf þeim, er á hann trúa:

Þetta kunnum og eigum vér gløgglega ad skynja, svo framarlega sem vér viljum eiga þad skilid, ad heita kristnir menn. En af því leidir med eingu móti, ad vér eigum ad freista, ad kanna djúp gudlegrar veru, og þýda alla hennar leyndardóma, edur skíra gudlega hluti med mannlegum ordum. Vér vitum, hver sagt hefir: einginn þekkir Soninn nema Fadir-

inn (Matth. 11, 27); vér vitum, að hér á jörðu lifum vér í von, en ekki í skoðun (2 Kor. 5, 7), og sjáum í gegnum gler, í þoku, en ekki augliti til auglitis (1 Kor. 13, 12). Reyni þeir, sem hafa þekking og gáfur, að komast svo hátt, sem þeir geta; hugur mannsins á þó aldrei lángt þángað, er hann villist. En annarsvegar skeytum vér alls ekki þeirri mótsögn, að menn geti ekki trúað því, er þeir séu ekki komnir í skilníng um. Sýndu fyrir mér jarðneska hluti, þá skal eg sýna fyrir þér himneska hluti; sýndu fyrir mér samband sálarinnar við þenna líkama þinn, þá skal eg sýna fyrir þér samband hins guðlega eðlis við hið mannlega í Jesú Kristi; sýndu fyrir mér uppruna hugsana og tilfinnínga í sálu vorri, þá skal eg sýna fyrir þér, hvernig hinn eingetni er upprunninn af Föðurnum. Og ef þú lyptir huganum til Guðs, þess er þú játar, þá muntu brátt verða að viðurkenna, að Guð, sá er þú segir þig á trúa, býr í því ljósi, er einginn fær aðkomizt; en þá viðurkennir þú um leið, að þú trúir því, er þú sért ekki kominn í skilníng um, svoað vitnisburðurinn um Krist, Son Guðs eingetinn, fæddan af Föðurnum fyrir allar aldir, geti verið réttur, þótt þú sért ekki búinn að skilja hann til fulls.

Það er enn önnur mótsögn, að þessi grein um eðli Krists sé huga vorum alls ónýt, og ekki til annars, enn íhugunar vísindamönnum, svo það sé ráðlegast, að láta þá skera úr því máli, en ræða ekki um það við almúga. Það er að skilja: undirstöðunni eigum vér að sleppa, en byggja þó hærra og hærra — á tómum sandi! O, ef oss tækist til hlítar að leiða þenna vitnisburð um eðli Krists, inní hjarta hvers manns, þá mundi og hver maður finna, hvílík andleg auðlegð í honum er fólgin!

Þú, sem gengur þína erfiða leið, tældur af jarðneskum munum, og aldrei ánægður — þú, sem fyllist hræðslu og efasemi, er þú lyptir huganum til hins andlega: finnur þú ekki, að þér sé nauðsyn á þeim orðum, er þú getir stutt þig við, hvernig sem breitast bæði meiníngar annara í kríngum þig, og meiníngar sjálfs þín, og geti staðfest það, er þú þykist vera búinn að skilja, og opnað fyrir huga þínum nýja brunna þekkíngarinnar, og leidt þig óhultan um hættulega stigu girnda og misjsýnínga?

Lofadu Gud, ad munnur Jesú taladi ekki af einniſaman mann-legri ſpeki, og ad ord hans voru Guds ord og eylif ſannindi, og ad hann taladi af því valdi, er eſaſemdir þinar verda ad þagna fyrir. Þú, ſem kannaſt vid krøfu hins eylifa réttlætis — þú, ſem heyrt heſir Guds løg, og veizt ad þau ná til þín — þú, ſem búinn ert ad heyra fyrirfram med ſkelfdri ſamvizku hid alvørufulla atkvædi dómſins — þú, ſem búinn ert ad ſjá, ad þú heſir ſkuld ad gjalda, þá er þú getur ekki goldid, enda ekki afmád: vildir þú ekki, ad einhver gæti komid og ſagt vid þig: ſyndir þínar eru þér fyrirgefnar? En ef einhver madur ſegdi þetta vid þig af ſinni hálfu, takandi þad upp hjá ſjálfum ſér, þá mundir þú virda ſvo, ſem ſá madur drægi ad þér ſpott: því hvernig má ſjúkur madur ljá þér ſtyrk í ſjúkdómi þínum? hvernig má ſyndugur madur létta af þér ſyndabyrdinni? Lofadu Gud, er hann heſir veitt þér ad þekkja þann, er fyrir ſjálfan ſig hafdi eingar ſyndir ad bæta, og hafdi vald á ad gjøra þad, ſem Gud einn megnar, og ſvo ad fyrirgefa ſyndir á jørdunni. Þú, ſem reynt heſir neyd lífſins og neyd daudans, og ekki ad eins horft á hana í kríngum þig, heldur pínzt af henni í hjar-ta þínu — þú, ſem lifad heſir þær ſtundir, ad ſála þín heſir verid einmana, yfirgefin, af ſér komin: þú heſir eflauſt leitad þér vinar á himni. Og eg veit fyrir víſt, ad þar er Fadir allra vor, og ad hann er ekki ſjarlægur neinum af oſs, heldur getum vér fundid hann, þegar vér leitum hans rækilega. Enda veit eg og hinsvegar, ad þegar vér erum í þúngri baráttu, þá er oſs þørf á, ad ſjá Gud ſem næſtan oſs, og þá verdur hugannm þad fyrr fyrir, ad nálgaſt hinn opinberada, enn hinn óſýnilega. Daudur madur var úthafinn, ſegir í fráſøgunni — heſir þú, er þetta leſt edur heyrir, nokkurntima fylgt líki til grafar? heſir þú ſéd nokkurn, er þú elſkadir, hjúpadan og lagdan í grøfina, og døkkmódu daudans renna þar yfir hann? Hafirdu ekki ſéd ſlíkt, þá mun liggja fyrir þér ad ſjá þad; þú, ſem átt vini eda vandamenn, taktu þá þeſsa hina helgu fráſøgn, og leſtu hana med trúudum hug. Ad ſønnu kemur ekki Líknarinn ſýnilega til, og ſviptir daudann herfángi ſínu; en gudlegt vald hans huggar þitt hid ſorgmædda hjarta: hann ſegir þér, ad hann hafi

vardveitt þad sem þú misstir, því hann sé upprisan og lífid. Lofadu Gud, er hann hefir látid þann birtast á medal vor, er ekki var slíkur sem vér erum, né daudanum undirorpinn, heldur hafdi vald til ad segja og efna þessi ord: sá tími kemur, og er þegar kominn, ad þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra rødd Guds Sonar.

---

## 27.

## Mannlegt edli Krists.

Í einu játníngarriti kirkju vorrar er svo kvedid ad ordi: eg trúi ad Jesús Kristur, sannur Gud, getinn af Fødurnum fyrir allar aldir, og jafnframt sannur madur, fæddur af Maríu mey, sé Drottinn minn, og hafi endurleyst mig, hverki med gulli né silfri, heldur med sínu heiløgu, dýrmætu blódi, og med píslum sínum og dauda, er hann þoldi fyrir sakleysi. Øllum þessum ordum er fyrirkomid øldúngis samkvæmt kenníngu heilagrar ritníngar. Ef vér nú stadnæmumst vid hinn fyrra hluta þessarar greinar, þá skiptast þessi ordatiltæki: Gudssonur og Mannsinssonur, þannig á í ritníngunni, þegar talad er um veru Krists, ad þau sameinast og verda ad einni hugmynd um Gud og mann, um þann, sem hluttakandi er bædi gudlegs og mannlegs edlis, og er einmitt fyrir þá søk hinn rétti Medalgángari milli Guds og manna. Vér høfum ádur tilfært nokkura vitnisburdi, er sýna gudlega hátign Krists, og boda hann, sem þann, er var frá upphafi, var hjá Gudi og var Gud, þann, er allir hlutir eru gjørdir fyrir, og allir hlutir vidhaldast fyrir, og allt vald er gefid á himni og á jørdu. En sá hinn sami, sem þessi ord hefja ómrædanlega hátt upp fyrir mennina og þessvegna er kalladur Guds eingetinn Sonur, og sameinadur hinum eylífa Fødur, fremur enn nokkur skøpud vera getur verid þad; sá hinn sami er einnig ordinn hluttakandi mannlegs edlis, hann er, einsog postulinn ad ordi kemst, ordinn brædrum sínum líkur um

alla hluti, svo hann gæti orðið miskunsamur og trúlyndur Hösudprestur, til að friðþægja fyrir syndir fólksins (Hebr. 2, 17). Það er einmitt einkasætleiki hins kristilega fagnaðarboðskapar, það er hinn djúpi og sáluhjálplegi leyndardómur kærleikans, að sá, er var hjá Guði, og var Guð, gjörðist maður og dvaldi með oss (Jóh. 1, 1. 4), að þó Jesús Kristur væri ímynd Guðs, hafði hann ekki dýrð sína til að leita sjálfum sér hagnaðar, heldur litillækkaði sjálfan sig, er hann tók á sig þjóns mynd og varð mönnum líkur (Phil. 2, 6. 7).

Þessvegna kemst og Páll postuli svo að orði, er hann ætlar að skíra frá, hvílík þau sannindi séu, er Guð vill að mennirnir komist til þekkingar á, svo þeir verði sáluhólpnir: Guð er einn, og einn er Meðalgángarinn milli Guðs og manna, maðurinn Jesús Kristur, er gaf sig sjálfan til lausnargjalds öllum, til vitnisburðar á hentugum tíma (1 Tím. 2, 5. 6). Hverki hér né annarstaðar segir postulinn, að sá, sem vera átti Meðalgángarinn millum Guðs og manna, og átti að sætta mennina við Guð, hafi verið eintómur maður, því síður syndugur maður, einsog einhver af oss; samt sem áður boðar postulinn hann jafnan, svosem sannan mann, fæddan af afkvæmi Davíðs (2 Tím. 2, 8), fæddan á réttum og hentugum tíma, þá er frelsinu gat orðið og átti að verða framgengt fyrir hann.

Þá er fylling tímans var komin, sendi Guð Son sinn, fæddan af konu (Gal. 4, 4). — Innst í hjarta mannsins, er óteljandi girndir og óteljandi kvalir slíta í sundur, hefir Guð fólgið von um lausn. Ef vér hlýðum á raddir heiðingjanna, hvar sem hið andlega líf hafði tekið að hreifa sér, þá heyrum vér að vísu sífelda kveinstafi og huggunarlausa, einsog dauðinn mundi að síðustu svelgja lífið, og himin og jörð, og allir guðlegir og allir mannlegir hlutir tortýnast hver með öðrum. En samt heyrum vér einnig vongladari raddir, sem búast við gullöldum, er þeir kalla svo, þá er baráttunni eigi að vera linnt og armæðu mannanna aflétt, en allskonar blessun komi af himnum ofan og fyrirhitti jörðina hæfa að veita sér viðtöku. En það sem meðal heiðingjanna voru óáreiðanleg munnmæli, er fremur voru ímyndunaraflinu til skemtunar, enn að hjartað

trydi þeim, þad vor medal Ísraelsþjódar stadfast loford frá Gudi. Uppfrá þeim degi, er Abraham fékk hid undursamlega fyrirheit í tjaldbúdum sínum: fyrir þitt afkvæmi skulu allar kynkvíslir jardarinnar blessun hljóta, hætti aldrei eptirvæntingin, er beid þess, sem fram átti ad koma í fyllingu tímans. Hversu seint sem aldirnar lidu, hversu optlega, sem eintómar jardneskar umsýslur og villur skurdgoda-þjónkunar, ætludu ad ná yfirrádum yfir þjódinni, þagnadi samt aldrei hin spámannlega rödd, er ítrekadi hid forna fyrirheit, og tengdi þad vid Davíds ætt, og vid þann höfdingja, er koma mundi frá Bethlehem, og verda harla mjög lítillækkadur og förnfærdur fyrir syndir þjódarinnar, en eigi ad sídur mundi hann verda mikill og veldisstóll hans ædri öllum veldisstólum, og allir gánga til hlýdni vid hann um gjörvallan jardarhnöttinn. Þessi eptirvænting fylgdi þjódinni í útlegd, og tók í mót henni, er hún kom heim aptur, hún fyllti hid nýa musteri, er þeir reistu, og þótt þad væri fatæklegt í samanburdi vid hid fyrra musterid, er Salomon hafdi prýtt med allri dýrd sinni, átti þó dýrd þess ad verda miklu meiri. Fylling tímans kom nær og nær, margir menn voru í Jerúsalem og alstadar á medal sona Ísraels, bædi á Gydíngalandi, og á sérhverju því landi, er Gud hafdi dreift þeim út um, til þess ad þeir greiddu veginn fyrir hinu ókomna, þeir voru margir, segi eg, er bidu endurlausnarinnar og væntu hennar einmitt á þeim tíma, er fyrirheitin rættust. Vissi ekki Simeon fyrir víst, ad hann mundi ekki fara til fedra sinna, fyrrenn hann væri búinn ad líta huggun Ísraels (Lúk. 2, 25, 26)? Komu ekki vitríngar úr austurheimi, er þeir sáu stjörnuteiknid á himninum, afþví eptirvænting hins mikla kóníngs Gydínganna var komin jafnvel til þessara hinna heidnu landa (Matth. 2, 1 o. n. v.)? Barn átti ad fædast og drottinstignin ad liggja á herdum þess (Es. 9, 6), — hver átti ad verda módir ad því barni?

Á þessum merkilega tíma bar svo vid, ad eyrindsreki af himnum birtist mey einni í Nazareth, og kvaddi hana med þeim ummælum, ad Gud hefdi veitt henni nád sína og hún væri blessud medal allra kvenna; því næst bodadi hann henni, ad hún mundi verda þúngud og fæda son, hann er verda mundi mikill

og kalladur Sonur hins Hæsta, og honum mundi Drottinn Gud gefa ríki Davíds forfedur síns (Lúk. 1, 26 o. n. v.). Ad hún óttadist þessi ord, kom ekki til af því þau bodudu, ad nú væri komin fylling tímans — því þessu trúdi hún einsog allir gudhræddir menn þjódarinnar — ekki heldur af því, ad fæding barns þessa átti ad verda med dásamlegu móti — því líklegt var ad tákn og stórmerki mundu fylgja því barni, er fædast átti heiminum til frelsunar — heldur kom þad til af því, ad Gud hafdi virzt ad veita einmitt henni nád sína, og ad einmitt henni var hid Heilaga á hendur falid. Hversu margar tilfinníngar hlutu og ad vakna í sál Maríu, er hún heyrdi þessa undarlegu kvedju! Hin audmjúka mey vard gagntekin af hrædslu, er hún heyrdi þad eyrindi, er bodadi henni, til hvers hún væri ætlud, en hún adhylltist einnig fyrirheitid med styrkleika trúarinnar, svo segjandi: sjá! eg em ambátt Drottins, verdi mér ad ordum þínum! og þannig var hún vígd til hinna mörgu þrauta og hinnar háleitu sælu æfi sinnar. Því víst var um þad, marga mædu vard hún ad þola, svo hinni miklu ákvördun æfi hennar gæti framgengt ordid. Hún var tortryggd og útskúfud, þá er hún gekk þúngud ad barninu, og í fátækt og harla lítilmótlegu herbergi ól hún son sinn frumgetinn. Skjótt vard hún ad flýa med barn sitt á ókunnugt land, til ad fela þad fyrir óvinum þess, er ætludu ad taka þad af lífi, og er hún var komin heim aptur og búin ad ala son sinn upp, einsog hann væri af lágum stigum, þá sá hún ad vísu, ad hann gekk fram fyrir fólkid, og ad margar þúsundir þyrptust ad honum; en hún sá einnig, hvernig hann var hatadur og ofsóktur, þartil sverdid ad lokunum nísti sálu hennar, er hún stód undir krossi hans, og heyrdi hann kalla af miklum trega: Gud minn! Gud minn! hví hefir þú yfirgefid mig? Samt sem ádur kannadist hún jafnan vid, ad Drottinn hefdi litid nádarsamlega til audvirdilegrar ambáttar sinnar, og ad hinn almáttki hefdi breytt dásamlega vid hana, svo ad allar ókomnar kynslódir mundu hana sæla kalla (Lúk. 1, 48. 49).

Sonur hennar vard mikill, og var hann kalladur Sonur hins Hæsta, en hann var og kalladur Mannsins-sonur, því hann birtist á jördunni einsog sannur madur, hluttakandi

holds vors og blóds, og afrekadi heiminum frelsi, og vard Medalgángari milli Guds og manna. Nú á døgum þurfum vér ekki ad gánga í gegn þeirri villukenning, er snemma reyndi til ad læðast inní Krists kirkju, og sagdi svo, ad Kristur hefdi ekki borid mannlegan líkama utan til sýnis, og ad øll opinberan Krists væri eintómar sjónhverfingar, er villt hefdu augu mannanna, þarsem hann væri sjálfur miklum mun meiri og heilagri, enn svo, ad honum hæfdi ad bera þann hinn duptlega klædnad. Nú efast líklega einginn um, ad Kristur hafi sannlega borid hann, og sé ordinn mennunum líkur og reyndur á allan hátt rétt einsog vér. Og hversu mikil huggun er til þess ad vita, ad Kristur hafi ordid hluttakandi í kjørum vorum, og tignad og helgad sérhverja stétt, og tignad og helgad sérhverja litillækkun, er saklaus madur verdur ad þola í veroldinni! Sértu borinn af lágum stigum, hefir samt vagga þín ekki stadid lægra, enn hin fyrsta hvíla Drottins þíns; hafirdu búid vid ørbyrgd, þá vantadi hann optlega þad er hann gæti høfdi sínu ad hallad; hann hefir þolad húngur og þorsta, einsog þú; hann hefir grátid einsog þú; hafi mennirnir audvirt þig og útskúfad þér, þá kom hann og til sinna, og þeir þekktust hann ekki; þykist þú hafa ordid fyrir ósæmilegri medferd, þá kom hann og ekki til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna ødrum; hafir þú ordid ad þola ofsókn og hádúng — o! þá hefir þyrnikorónan ekki verid sett á þig med beiskara spotti, enn hún var sett á Drottinn þinn og Meistara, og þinn krosts hefir ekki verid þýngri enn hans; og þegar bikar daudans verdur eittsinn borinn þér, þá hefir og hann tæmt hunn sama bikar ádurenn þú.

Hann var ad allri mynd sinni einsog madur, og afþví þeir er hann átti ad frelsa, hafa hold og blód, þá er hann einnig ordinn þess hluttakandi (Hebr. 2, 14). En hann er og í tilliti til sálarinnar ordinn oss líkur; hversu nákvæmlega og hversu óadgreinanlega sem sál hans var Gudi sameinud, var hún þó eigi ad sídur takmørkud, einsog vor sál. Honum óx vizka med aldri (Lúk. 2, 52), einsog ødrum mønnum, og þótt hann hafi ekki tekid hlutdeild í ástrídum þeim, er annarlegt vald og skadsamlegt hrifur oss svo optlega til sín med, voru honum samt

kunnar allar mannlegar tilfinníngar. Pad er frá honum sagt, ad þá er menn ætludu ad meina honum ad lækna á hvíldardegi, hafi hann litazt um med reidísvip og ordid hryggur af hardúd hjartna þeirra (Mark. 3, 5); þad er og sagt, ad þegar hann kom ad grøf Lázarusar hafi hann ordid hryggur og komizt harla mjøg vid (Jóh. 11, 33); og þá er píslirnar nálgudust, var þad ekki ad eins líkaminn er þjádist, heldur var og sál hans óttaslegin, og hann var hryggur allt til dauda (Matth. 26, 28).

Því segir postulinn: vér høfum ekki þann Høfudprest, er ekki geti kennt í brjóst um veikleika vorn, heldur þann, sem freistíngar hefir þolad á allan hátt, einsog vér (Hebr. 4, 15). En hann bætir einu ordi vid: þó syndlaus, segir hann, og þetta eina ord gjørir svo mikinn mun Krists og allra annara manna, ad þeir eru hinir frelsudu, og hann er Frelsarinn. Tøkum þetta eina ord á burt, látum Jesum líkjast oss einnig í þessari grein, þá getum vér einnig tekid á burtu nafnid Jesús, þá er þad ordid þýdingarlaust, því þá megnar hann ekki framar ad frelsa lýd sinn af syndum hans; þá getum ver einnig tekid á burtu nafnid Kristur, því þá verdur hann ekki framar kalladur Sonur hins Hæsta, þá getur hann ekki framar verid Konúngur ad eylífu. Látum oss gjøra tilraun; segjum um einhvern syndugan mann: þessi madur er ljós heimsins, hann er vegurinn, sannleikurinn og lífid; og þá nunum vér þegar finna, ad ord vor eru búin ad missa þýdingu sína, því synd og villa eru æ samfara, og hvar sem syndin er búin ad eitra mannlegt edli, þar vitum vér ekki framar hvar sannleikurinn þrýtur og villan tekur vid, og þá er ekki annad ordid eptir í kenníngu Krists, enn einhver speki á bord vid svo marga adra, en ekki eitt ord, er verid geti óbrigdult ljós fóta vorra. Látum oss gjøra tilraun, ímyndum oss ad einhver madur, sem fæddur er í synd, einsog vér, gengi fram og segdi: eg hefi vald til ad fyrirgefa syndir á jørdunni, þá yrdi hid sælasta fyrirheit ad skelfilegri gudlestun, og þótt hann bydist til ad fórnfæra sjálfum sér fyrir syndir vorar, mundum vér finna ad hann hefdi einga borgun fram ad selja, er hann gæti afmád med jafnvel eintómar syndir sín sjálfs, heldur þyrfti hann miklu fremur fridþægíngar vid, einsog vér. — Hversu miklu ødruvísi

hljódar hinn kristilegi fagnadarbodskapur: þann sem ekki þekkti synd, hefir Gud gjört ad syndafórn vor vegna, svoad vér yrdum réttlættir fyrir hann (2 Kor. 5, 21).

Þannig lýsir heilög ritníng honum æfinlega; hún kallar hann Krist, hinn Réttláta (1 Jóh. 2, 1. Post. 22, 14), þann, er ekki hefir framid synd (1 Pét. 2, 23), er píndur hefir verid fyrir vorar syndir, hinn réttláti fyrir hina óréttlátu (1 Pét. 3, 18). Því gat hann og ekki adeins sjálfur sagt: hver af ydur getur sagt mig sannan ad nokkuri synd (Jóh. 8, 46)? heldur var heilagleikur hans svo mikill, ad þótt vér ad ödru leiti finnum allar mannlegar tilfinníngar, sem gódar eru, í hjarta hans, sjáum vér samt alls eingan idrunarvott, hverki í ordum hans né athöfnum; en hefdi nokkur villa edur synd verid til í fari hans, þá hefdi idrunin hlotid ad verda þeim samfara. En hafi hann verid ædri öllu þessu, hafi hann í raun og veru ekki þekkt synd, þá hefir og uppruni hans verid á annan hátt, enn vor uppruni, því sá sem fæddur er í synd, og hefir ad erfdum tekid spillt edli, hann verdur og óvörum flæktur í neti syndarinnar.

Hver getur gjört grein fyrir hinu leynilega sambandi millum synda fyrri og seinni kynslóda? En hver getur borid á móti ad slíkt hryggilegt samband sé til? Hver dirfist ad bera á móti, ad edli vort sé spillt, og undireins og vér förum ad vita af sjálfum oss, verdum vér varir vid fýsnir í oss, sem ekki eru frá Gudi og leida ekki til Guds? Og jafnvel þó vér vildum ekki kalla þessar fýsnir syndir, edur ad minnsta kosti ekki vorar syndir, þó vér segdum, ad þá syndgi madurinn fyrst, er hann hnegist til hinna vondu fýsna: höfum vér þá ekki allir mátt reyna, ad þetta hafi ordid snemma, svo ad segja frá upphafi, jafnskjótt, sem vér vorum færir um ad hafazt ad nokkud þad, er vér gætum eignad sjálfum oss? Hver getur tilgreint takmörkin milli þess, er edli vort einsaman knúdi oss, og þá er vér kusum sjálfir? en frá æskuárum vorum verdum vér þess varir, ad vér erum bendladir vid hina almennu spillíngu. Og gat þá sá, sem átti ad kveykja hid nýa líf í mannkyninu, er átti ad gjöra þad Gudi gedþekkt, gat sá, sem átti ad gánga fram fyrir mannkynid, svosem hinn rétti Höfudprestur, hinn rétti Medalgángari, Fridþægjari, Rétt-

lætari, er varð að vera heilagur, saklaus, óflekkaður, syndurum fráskilinn; gat hann verið einn af hinni spilltu kynslóð? Þegar hið óræktaða tré vex eptir edli sínu, getur ekki hjá því farið, að það beri ramma ávexti, menn verða að græða á það annan ágætari kvist, þá breitir hann edli trésins og ávextirnir spretta, Guði til vegsemdar og mönnunum til indis og nota.

Það er oss fullkunnugt, að dag frá degi er sú hugmynd um rás hlutanna að verða almennari, að allt í heiminum komi fram eins edlilega og óumflýanlega og viðurinn sprettur af frjóanga þeim, sem hulinn liggur þegar í frækorninu; eptir þessari hugmynd, leiðir allt, er seinna kemur fram, beinlínis og skiljanlega af því, sem þegar er framkomið, eptir henni segja menn að öll vandræði hverfi; og víst er um það, að eptir henni hverfa allar hrellingar samvizkunnar og allar þær fyrirstöður, er beiskja iðrunarinnar og hið sára og leynilega samvizkubit reisa á götu mannlegrar farsældar. Því þá sprettur hver vera upp einsog hún er, edlilega og óviðráðanlega, einsog greinin af stofninum, og sérhver athøfn eins edlilega og ávöxturinn á greininni. Hvað getur greinin að því gjört, þótt vøkvar hennar sen spilltir, þótt hún beri einga eður aðeins ramma ávexti, ef sjálfur stofninn er ekki betri enn hún? Hvað getur maðurinn að því gjört, þótt gjørðir hans séu vondar, fyrst það er alltsaman aðeins rás náttúrunnar? Þá er hver vera það sem hún getur verið og á að vera, og framkvæmir óumflýanlega það, sem hún getur ekki hjákomizt; þá er sérhver synd og sérhver saurgun og serhver illgjørð, þá er þetta allt til samans, ekkert utan hin eylífa regla, forløgin hafa ætlað það hinum ófarsæla manni, það er innrætt honum, þarsem hann var gjørður að þeirri veru, sem hann er, þarsem hann í upphafi var óumflýanlega ætlaður til smánar og gløtunar. En þá dunið þér og til ónýtis, þrumur á Sínaifjalli! þér eruð þá ekkert nema þýðingarlausar hótanir, í eyrum þess, sem búinn er að komast að leyndardómum hlutanna. Getur hann, sem myndaði duptið, krafið það framar reikningsskapar fyrir það, hvernig hann hefir gjørt það sjálfur? þarf syndugur maður framar að titra frammi fyrir dómara sínum? Hann hefir þó framið vilja dómarans ekki síður; enn hinn réttláti. — En

efad þeir, sem skoda hlutina á þenna hátt, segja enn, ad heimurinn sé sokkinn nidur í illsku, og mannlegt edli sé aflagad og spillt, ef þeir gøfga Krist enn, svosem hann, er kom til ad reisa hid fallna og semja sáttargjørdina millum Guds og manna, þá er og Kristur hreinn kvistur á óhreinum stofni: heiløg vera, komin af vanheilagri ætt, eptir rás náttúrunnar. En þá hljóta menn og ad geta lesid vínber af þyrnum og fíkjur af þistlum, þá hlýtur og hin sama lind ad geta veitt sætt vatn og rammt.

Nei! vér bodum ekki rás náttúrunnar, heldur bodum vér stórmerki Guds og dásamlega hlúti, og á því er byggdur allur bodskapurinn um Krist. Vér bodum ekki Gud svósem náttúruna, heldur svosem Herra náttúrunnar; vér bodum, ad þá er Gud vildi frelsa hina glødudu og reisa hina føllnu kynslód, þá breitti hann rás jardnesfra hluta, þá lét hann adra, þad er sína náttúru ljóma yfir þessa verøld, og gródursetti á hinum skemmda stofni ágætan kvist, þann er ekki var úr þessum heimi, heldur átti ad verda heiminum til blessunar. Þannig er sá fagnadarbodskapur Krists, er vér høfum vid tekid, og þannig ætlum vér ad vardveita hann; vér fyrirverdum oss ekki fyrir hinar helgu hugmyndir hans, og þurfum ekki ad fordast þær, né aflaga, né heldur ad lítillækka hinn mikla bodskap, þángadtil hann er ordinn einn í rød vidburda þessa heims; miklu fremur játum vér Krist, einsog þeir hafa kennt oss, er frá øndverdu voru sjálfir sjónarvottar og flytjendur þessa lærdóms (Lúk. 1, 2); vér kennumst vid, ad uppruni hans er hulinn í Gudi og opinberun hans ordin fyrir gudlegt kraptaverk; vér gledjumst vid þá trú, ad sá, sem var ímynd Guds, hafi gjørzt mønnum líkur, svo mennirnir gætu ordid honum líkir, og ad hann hafi ordid hluttakandi í vorum kjørum til þess vér gætum ordid hluttakandi í hans dýrd.

---

## 28.

## Vald Krists orda.

Þegar vér íhugum vitnisburd heilagrar ritníngar um sendíngu Krists, þá sjáum vér, ad hann hefir þrefaldt embætti

eda ad Fadirinn hefir sent hann í þrefeldum tilgángi. Sem Spámadur átti hann ad fræda mannkynid af gudlegu valdi; sem Hösudprestur átti hann ad færa hina miklu fórn fyrir synd veraldarinnar; sem Konúngur átti hann ad stjórna øllum hlutum, svoad Guds ríki gæti komid til vor. Látum oss nú stadnæmast vid hid fyrsta embættid.

Spámenn køllum vér ekki adeins þá, er boda fyrir óordna hluti, heldur alla, sem birta mønnunum gudlega veru, og þeim eru af Gudi sendir. Svo var Móses fordum háleitur spámadur, sem gekk á milli Guds og Israelsmanna; hann birti þeim þann, sem var og er og mun vera, þad er hinn lifanda Gud, er skapad hefir himin og jørd, og allt sem í þeim er; hann taladi af Guds hálfu til fólksins, lagadi hegdan þess med helgum løgum og sýndi því framá ókomnu tímana bædi med hótan og blessan. Þad hófust margir spámenn á Gydingalandi, og Gud taladi margsinnis og á marga vegu til fedranna fyrir munn spámannanna, bædi um hid nálæga og um hid ókomna; því þeir voru einsog rødd Guds, og birtu gudlegan sannleika, ýmist til ad fræda, eda til ad áminna og vara vid, eda til ad ávíta, eda til ad hugga þjód þá, er kosin var til svo undarlegra hluta. Spámennirnir voru því kennendur þjódarinnar, og tóku ekki upp hjá sjálfum sér þad er þeir tøludu, heldur vottudu þad sem Gud blés þeim í brjóst, og gátu fært sønnur á gudlega sendíngu sína med ástædum anda og kraptar, og táknum og stórmerkjum, og bodun þeirra hluta, er fram áttu ad koma. Og þó spámønnunum væri mikil mótstada veitt, og þó verøldin sýndi þad optsinnis, ad þeir voru ofgódir handa henni: þá var þó ætíd einhver þørf í hjørtum mannanna, svoad menn hlýddu til orda þeirra, og þóktu sig vanta eitthvad, þegar spámennirnir þøgdu; því þóad madurinn stæri sig af viti sínu, þykir honum þó ekki ávallt þad vera sér einhlýtt; allir menn finna, gløggt edur ógløggt, ad þeim er þørf spámannlegra orda, er tølud séu af gudlegu valdi, og opinberad geti þad sem hulid er, og styrkt efablandinn hug þeirra. Þad voru yfirburdir Israelsmanna framyfir adrar þjódir, ad þeir høfdu medal sín spámenn hins Hæsta. En hversu marga spámenn sem þeir gátu talid, þá hafdi samt

einginn verid slíkur sem Móses hafdi leist eptir sig þetta fyrirheit: slíkan spámann, sem eg er, mun Gud senda þér af brædrum þínum (5 Mós. 18, 15), þá kalladi þjódin þad ekki hafa rætzt á neinum þinna seinni spámanna. Þessvegna var þad fyrirheit ad verda æ greinilegra, ad spámadur skyldi koma, sá er þad yrdi of lítilfjörlegt, ad vera þjónn Guds til ad rétta vid kynþáttu Jakobs — sá, er Gud mundi gjöra ad ljósi heidingjanna, svoad hann flytti hjálprædi hans allt ad endamörkum jardarinnar (Es. 49, 6) — sá, er konúngarnir skyldu gánga í birtu hans (Es. 60, 3), og útreyarnar bída eptir lögum hans (Es. 42, 4). Þessa eptirbid gat ekkert afmád úr hjarta þjódarinnar, hverki tímar né forlög, léttúd né trúarskortur. Og þegar Jóhannes skírari kom, og hin spámannlega rödd hafdi þagad ádur margar aldir, þá spurdu þeir hann: ert þú spámadurinn (Jóh. 1, 21)? Þegar Jesús kom, og þeir heyrdu ord hans og sáu verk hans, þá sögdu þeir ekki adeins: spámadur mikill er kominn til vor, Gud hefir vitjad lýds síns (Lúk. 7, 16), heldur sögdu þeir og: hann er sannlega spámadur sá, er í heiminn á ad koma (Jóh. 6, 14), og Móses og spámennirnir hafa ritad um (Jóh. 1, 46). Þessi hin fornu spámæli greiddu götu Jesú; en þegar hann kom, greiddi hann sér veg sjálfur med spámannlegum krapti sínum. Þann krapt syndi hann ekki adeins í táknum og stórmerkjum, heldur — medþví hid spámannlega embætti er einkum í því fólgid, ad tala í nafni hins Hæsta, þá sýndi Jesús einkanlega spámannlegan krapt sinn í ordum, og ávann sér mest á þann hátt vidtökur í hjörtum hinna réttsýnu. Því tákn og stórmerki leida einnig hina forvitnu, hoidlegu og hjátrúarfullu; þeir leita þess, er kraptaverkin vinnur, einúngis afþví ad þeir girnast fullnægju einhverrar jardneskrar þarfar, eda einhver jardnesk gædi; múgurinn leitadi Jesú, afþví hann læknadi sjúka menn, og gaf mönnum ad eta á eydimörku (Jóh. 6, 26), en þeir sem betri voru, adhylltust hann, afþví þeir sáu ad þessi tákn voru gudleg opinberan, og afþví ad þau stadfestu fyrir þá þad, sem þeir einkanlega girntust hjá Meistara sínum, sem var hid heilaga og sáluhjálplega sannleiksord. Þegar Jesús spurdi postula sína, hvert þeir mundu einnig yfirgefa hann, þá svaradi ekki Símon Pétur á þessa

leid: hvar munum vèr hitta þann, er gjøri slík nytsamleg tákn? heldur sagdi hann: Herra! til hvers ættum vèr ad fara? þú hefir ord hins eylífa lífs (Jóh. 6, 68)? Og svo sjáum vèr hvervetna vitnisburd um, hversu mikil áhrif ord Krists høfdu. Þad er sagt af lýdnum í Sichar, ad margir trúdu sakir orda hans, og ad þeir søgdu vid konu þá, er í fyrstu hafdi kallad þá til hans: vèr trúum nú ekki framar fyrir þín ord, því vèr høfum sjálfir heyrt (Jóh. 4, 41. 42); þad er sagt um fólkid í Nazareth, ad allir dádust ad honum og undrudust hin sáluhjálplegu ord, er komu af vørum hans (Lúk. 4, 22); og er hann lauk hinni dásamlegu rædu á fjallinu, þá undradist lýdurinn mjøg kenningu hans, því hann kenndi svosem sá, er **hafdi gudlegt vald til ad kenna.**

Þad er harla merkilegt, ad þrátt fyrir dramb og oftraust og sjálfrædi mannanna, fýsir þá ætíd ad heyra þau ord, er fá megi vald yfir þeim. Þad verdur ad vera, þeir finni, hversu reikull og efablandinn hugur þeirra er, þegar hann er látinn vera sjálfrádur; þad verdur ad vera, þeir finni sèr þørf á slíkri hvíld handa sálum sínum, sem þeir geta ekki ødlazt af sjálfsdádum; og þessvegna flykkjast þeir ekki ad **þeim**, er kann ad kveykja í þeim nýar efasemdir, eda er sjálfur á reiki, og ber upp fyrir þeim þær spurningar, er hann getur ekki sjálfur úr leyst, heldur ad **þeim**, er tala þau ord, er hafa vald yfir sálum þeirra.

Øll gudhrædsla, audsveipni og hógværd er sprottin af þeirri tilfinningu, ad þad sè vald yfir oss, er vèr eigum ad hlýdnast. Gudhræddan køllum vèr þann mann, er ekki þykist vera sjálfur bær og fær um ad ráda sèr, leida sig, hjálpa sèr, heldur vidurkennir, ad þad sè til eylíft vald, sem allir eigi ad lúta. Audsveipid køllum vèr þad barn, er virdir fødur sinn og módur, og hlýdnast valdi því, er Gud veitti þeim. Hógværan køllum vèr þann úngling, sem virdir ord hinna gømlu og vitru, og ímyndar sèr ekki, ad hann sè hinn fyrsti, er eigi ad finna hid sanna og rètta, og ad øll speki lidinna tíma hafi verid einsog fis, er fjúka muni fyrir hverjum vindblæ. Gudhrædsla, audsveipni og hógværd eru því ávallt gagnstædar þrjózku og sjálfrædi.

En hvad er þad, sem því veldur, ad menninir leita Krists æ af nýu? þad vantar aldrei, ad þad séu til einstøku menn, er hugsi med sjálfum sér: eg vil brjóta þau hin leidinlegu yfirráð og hrinda af mér sérhverju oki; því madurinn er ekki frjáls, nema ekkert leidi hann né haldi honum — madurinn finnur ekki sannleikann, nema hann sé settur mitt út á eydimørk, þarsem eingin stjarna væri til leidbeiníngar, og hann yrdi ad þreifast um í myrkri, þartil hann kæmi á hinn rétta veg; og þeir tímar hafa verid, ad þessi meining hefir verid almennari enn ella. En ætíd hafa menn þó komizt aptur í skilníng um, ad þrjózka er ekki sama og kraptur — ad óspísni er ekki sama og frelsi — ad hin líkamlegu bønd vakna ekki einsaman, þegar sálin hrindir af sér øllum gudlegum yfirrádum, heldur og þau bønd, er sálin má ekki án vera — og ad þad er til ok, sem er nytsamlegt, og byrdi, sem er létt.

Gud er ekki Drottinn óeirdanna, heldur fridarins (1 Kor. 14, 33), og vill, ad þad sé vald á jørdunni til ad stjórna hinu óstýriláta, og kúga hid óspísna, og til ad vekja, leida og styrkja. Þad á ad vera vald á jørdunni til ad vardveita rétta þjódskipan, og stjórna gjørdum mannanna, en þad á einnig ad vera til annad vald til ad stjórna hjørtum þeirra. Og medþví ad þetta er vilji Guds, þá verdur ad vera, hann hafi látid gudlegan sannleika opinberast svo, ad hann mætti fá vald yfir mønnunum, og þeir gætu séd, ad hann er frá Gudi kominn. Því þad er ekki Guds vilji, ad vér látum adra leida oss á þann hátt, ad vér fylgjum í blindni hverjum, er á oss kallar, og ætlar sér ad stjórna hjarta voru og hugrenníngum. Hver sem kallar Jesúm Drottinn í alvøru og sannleika, á ad vita, vegna hvers hann gjørir þad; hann á ad hafa safnad í huga sinn vitnisburdum þeim, bædi fyrir hérvistardaga Krists og á þeim og eptir þá, er sameinast svosem í eina mynd honum til vegsemdar, er segir oss: ad hann sé hinn eingetni og elskulegi, er vér eigum ad hlýda; hann á ad hafa fundid ord eylífs lífs í kenníngu Jesú, og krapt hans fagnadareyrindis í hjarta sínu; samvizkan á ad hafa sagt honum, ad þarí sé — einsog postulinn ad ordi kemst — þad vald, er miklu sé ædra øllum yfirrádum og høfdingjadómi, og

valdi og ríki, og öllu, sem nafn hefir, ekki adeins í þessum heimi, heldur og í ödrum (Eph. 1, 21).

Þegar vér finnum og sjáum þetta, þá lútum vér, fullir trúar og audmýktar, valdi Krists orda; en fyrir það verdum vér med eingu móti ad viljalausum verkfærum, þeim er gángi í blindni, án þess ad hugsa og athafna af sjálfsdádum. Fagnadarerindi Krists er ekki gefid oss til þess ad útrýma skynsemi og viti, heldur til ad vekja og leidbeina. Med hverju finna menn krapt þess, ödru enn skynseminni, sem Gud gaf þeim? med hverju skilja menn það, ödru enn umhugsan þeirri, sem Gud lagadi sálina til? Ord Krists fá oss regluna, er vér eigum ad fylgja; en vér eigum sjálfir ad neyta hennar í vandrædum lífsins, í stridi, í fridi, í erfidi, í hugleidíngu, og haga stefnu vorri eptir því ljósi, er hann hefir látid renna upp fyrir oss. Jafnvel medan Kristur var sýnilegur hér á jördu, fór han ekki med þeim, er beiddu hann ad skipta arfi, hann lét ekki taka sig til dómanda og skiptanda í stundlegum efnum (Lúk. 12, 13. 14); þó hann ad vísu vildi, ad það væri dæmt og skipt eptir því réttlæti, er hann kalladi mennina til; hann leiddi ekki svo lærisveina sína, ad hann segdi þeim, hvernig þeir ættu ad hegda sér í hverju sem fyrir þá kæmi, hvad þeir ættu ad dæma, tala, vinna, heldur gaf hann þeim ord sín og Anda sinn, og sendi þá svo útí baráttu lífsins til ad bera sjálfir þúnga þess, og þola sjálfir raunir og hættur, og þróast med því móti til ríkis hans. Ottist því ekki það vald, er vér bidjum ydur ad hlýdnast; vér leitum ekki ad kúga samvizkurnar, heldur ad vekja þær; vér girnumst ad geta leidt hina blindu til Krists, svo þeir verdi heilskygnir, og hina- höltu, svo þeir verdi heilfættir; en þá eiga þeir sjálfir ad sjá med þeim augum, er hann hefir opnad, og gánga med þeim mætti, sem hann hefir styrkt.

Þó er það ad vísu meiníng vor, ad þegar Kristur talar, þá eigi madurinn ad þegja, og ad hann eigi ad kefja efasemdir sínar med valdi Krists orda, og leggja — í þeim skilníngi — hverja hugsan undir hlýdni vid Krist (2 Kor. 10, 5). Því hafi sá komid á jördina, er öll fylling gudlegrar veru bjó í, og kom af himnum til ad boda Guds ord, þá bodar hann þau ekki til

þess, ad vér førum med þau einsog manna ord, veljum úr og høfnum sumu, heldur til þess, ad vér trúum þeim, og ekki ad eins þekkjum þau, heldur og séum þeim hlýdnir; ekki til þess, ad vér dæmum þau, heldur til þess, ad þau dæmi oss; ekki til þess, ad vér leidum þau um [vora vegu, heldur til þess, ad þau leidi oss um sína vegu.

Hversu hjálpsamlegt er þetta vald, sem Kristur hefir kennt med, og kennir enn med, á jørdunni! Tala þú æ til vor af øllu valdi þínu, þú hid krøptuga og sáluhjálplega ord Drottins vors! tala þú svo, ad vér heyrum þad í háreysti girndanna og tælingum veraldarinnar; minn oss fyrst á skyldur vorar, en hugga oss sídan med gudlegum fyrirheitum. Þegar verøldin — þegar ágirni vor ætla ad binda oss þúngum gullfjøtrum vid ískyggileg audæfi þessa heims, eda þegar hjarta vort þýngist af áhyggjum stundlegrar atvinnu, þá minn oss á þau audæfi, er mølur og rid geta ekki spillt, og þjófar geta ekki stolid, og seg oss af øllu valdi þínu: leitid um fram allt Guds ríkis, og hans réttlætis, þá munud þér fá allt þetta í vidbót (Matth. 6, 20. 33)! Þegar hugur vor er hégómlegur, og sækist eptir ónýtu glisi og fávíslegu skrauti og lofi veraldar, þá seg oss án mann-greinarálits, ad hégómagirni saurgi manninn (Mark. 7, 22. 23), en prýdi ekki; láttu glisid følna, og seg oss án afláts, ad þeir, sem leiti sér launa í hégómlegri ordsæld, hafi útteki laun sín (Matth. 6, 2). Þegar heimurinn og hugur vor telja oss trú um, ad vér getum ekki stadid í mót hinu illa utan med illu, og verd-um ad setja hart í mót hørdu og svik í mót svikum, þá tala þú hárri røddu, og þeg ekki, heldur seg oss óaflátanlega, ad elska óvini vora, gjøra þeim gott, er oss hata, og bidja fyrir þeim, er oss gjøra illt (Matth. 5, 44); svoad oss lærist, ad sigra illt med gódu (Rómv. 12, 21). Þegar vér erum of gløggskygnir um yfirsjónir annara, og hardir í dómum vid þá, en linir vid sjálfa oss, þá seg oss óaflátanlega, ad áfella ekki, svoad vér verdum ekki áfelldir; þér ómildir dómendur! hví sjáid þér flísina í auga bródur ydars, en gætid ekki bjálkans í ydrum augum (Matth. 7, 1. 3)? Þegar vér førum ad þykjast, og hirda ekki um annad enn sjálfa oss — þegar vér ætlumst til, ad allir vægi fyrir oss,

og þjóni oss og hlýdi oss — þegar vér sóivirdum litilmagnana, og lúkum aptur hjörtu vor fyrir aumingjunum: þá set oss óaf=látanlega fyrir sjónir, ad oss beri ad breyta vid adra, einsog vér mundum kjósa, ad þeir breyttu vid oss (Matth. 7, 12). Ord Drottins vors og Lausnara! sameina þig þannig eptirdæmi hans, svo oss læríst ad verda hógværir og audmjúkir í hjarta (Matth. 11, 29).

En þegar ord Krists med öllu valdi því, er þau tala med, og eiga rétt á ad tala med — hafa vakid samvizku vora, og látid oss finna, ad Gud er yfir oss, sá er vér eigum ad hlýdnast og gjöra reikningskap, þá hugga þau einnig hjörtu vor, og gjöra þad med hinu sama valdi; og vantrúin á ad láta undan því, og hver ein efasemd ad þagna fyrir því. Hvert sprettur hin helga lind huggunarinnar svo ríkuglega og svo stødugt upp í hjarta voru, ad vér þurfum ekki annarlegra orda, til ad sýna oss miskun Guds, og láta oss bída gudlegrar hjálpar med þögn og þol=inmædi? Eg veit gjörla, ad Guds rödd er einnig í hjarta voru, og ad hjarta vort fyllist á stundum háleitrar sælu, svoad vér finnum, ad vér lifum, hrærumst og erum í Gudi. En reid=um oss ekki á einasaman tilfinninguna; því ekki er hún ætíd jafn=styrk og jafn=sjörug, og margvíslegustu tilfinningar geta vakn=ad í brjósti voru. Þegar allt brosir í kríngum þig, þegar blessunin drýpur nidurá jördina, þá finnur þú og smakkar og sérd, ad Drottinn er gódur (Sálm. 34, 9). En þegar himninum er lokad uppi yfir þér — þegar þú kveinar af sárri neyd, og þad er einsog einginn gefi því gaum — í stuttu máli: þegar eld=íngunni lýstur nidur vid hlid þér, þá brennir hún ekki adeins þad, sem í kríngum þig ver, heldur og blóm trúar og vonar í hjarta þínu. Þau sannindi, ad Gud stjórni öllu, sem fram fer á jördunni, smáu og stóru, eru ekki svo vönd, ad hver madur geti ekki skilid þau, og fundid til þeirra í hjarta sínu; eda hvert er sá nokkur, er ekki hafi fundid á gledistundunum, ad vér gaung=um og hvílumst í verndarskjóli forsjónarinnar? En er þó nokkur sá, er þori ad segja: þessa háleitu speki, eda enn heldur þessa grein barnalærdómsins, hefi eg ætíd haft mér stødugt í huga hvad sem fyrir hefir komid; og þegar eg hefi horft á med aug=

unum þad sem ekki leit neinnveginn út, nema einsog tóm hend- ing og óttaleg tilviljun, þá hefi eg aldrei nefnt þessi ord: hend- ing og tilviljun, né látid mér þau í hug koma, án þess ad mér bydi vid þeim, og skynsemi mín hefir þá ætíd haft nógan styrk í sér til ad stadfesta trúna í hjarta mínu, svoad eg sæi, þad væri gudleg rádstøfun? Hafi nokkur getad þad, þá hefir sá verid øflgari mér; því eg hefi lifad þær stundir, ad ekkert hefir getad veitt huga mínum frid, nema ad eg hefi sett mér fyrir sjónir þessi hin fornu ord: einginn titlíngur fellur á jørd án vilja Fød- ur ydvars á himnum (Matth. 10, 29), og undireins hitt, ad þessi ord hefi eg ekki komid upp med, og ad þau eru ekki til mín komin fyrir mannlega íhugun, en ad sá hefir sagt þau, sem kom í heiminn til ad segja og sýna mønnunum þad, sem augu þeirra sá ekki séd, og vit þeirra megnar ekki ad geta sér til af því, sem þeir sjá — þad er: þann sannleika trúarinnar, er einn veitir sálunni hvíld. Þó vér í fyrstu gjørum þad af hlýdni ad trúa, afþví Guds ord á í hlut, þá glædir þad smátt og smátt tilfinníngu vora, þartil er allar raddir hjarta vors vidurkenna af mikilli gledi: ad trú vor sé rétt. — Þegar þú ert í gódum hug, og horfir á kvøldrodann, medan hann hverfur, þá mun þér koma til hugar, ad slíkt sé hid blída og fagra ljós, er skíni yfir hinum sídustu æfistundum gamalla manna, er þeir hafa varid vel æfi sinni; lítir þú sídan stjørnur himinsins blika skært fyrir augum þér, þá vaknar von ódaudleikans í hjarta þínu, og þá kemur þér til hugar: í húsi Fødur vors eru margir bústadir, og þad er engill hans, er ad sídustu bendir oss blídlega, ad fylgja sér til heimkynna fridarins. En ødruvís liggur á oss hjá þeim sem er ad deya, þegar sá munnur þagnar, er oss þókti svo ind- ælt ad heyra tala, eda þad hjarta hættir ad berjast, er vér elsk- udum. Þá kólnar einnig hjarta vort sjálfra og verdur ad steini í brjósti voru, svoad vér þorfnumst almáttugs ords, þess er bjódi klettinum ad opnast, svo ad lindir lífsins spretti upp ad nýu. Þøkk og lof og vegsemd sé því honum, er ávarpar oss þegar vér syrgjum, og segir oss — ekki med brotnum og þúng- skildum ályktunum, né heldur mannlegum myndugleik, heldur af sínu háleitu valdi: þeim, er fylgja mér og þekkja rødd mína,

þeim gef eg eylíft líf, og þeir skulu aldreigi glatast, og einginn skal slíta þá úr hendi mér (Jóh. 10, 28); eg em upprisan og lífið, hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25). Þegar gott árferdi er á jørdunni, þegar løndin eru óhult í fullum fridi, þegar vizka og réttlæti og sæla haldast í hendur, þá er hægt ad sjá, ad allt taki gudlegum þroska; en þegar hver þjódin rís í mót annari, og hvert ríkid rís í mót ødru, og hardindi og drepsóttir haldast í hendur, þegar øfl himinsins rísa upp, þegar jørdin titrar, og øldur sjáfarins æda, þegar mennirnir ørmagnast af skelfingu og af eptirbid þeirra hluta, er yfir jardríki eiga ad koma, þá er oss þørf á stødugu spámannsordi, því er segi til vor: þegar þetta tekur ad verda, þá lítid upp og hefjid upp høfud ydar, medþví ad lausn ydar fer þá í hønd; því þegar þér sjáid þetta fram koma, þá vitid, ad ríki Guds er í nánd (Lúk. 21, 28. 31).

"Himin og jørd munu fyrirfarast, en mín ord megu med eingu móti fyrirfarast", segir Kristur (Matth. 24, 35). Og þad var spámannlegt eyrindi hans híngad á jørd, ad tala þessi ord, er aldreigi týnast. Og þad eyrindi framkvæmir hann enn í dag, er hann dreifir ordi sínu útyfir løndin, og inní húsin, og inní hjørtu mannanna. Sæll er sá, er heyrir þessi ord og breytir eptir þeim! Honum skal líkja vid hinn forsjála mann, er byggdi hús sitt á bjargi. Sídan kom steypiregn og flód, og stormar æddu og buldu á því húsi; en þad fell ekki, því þad var grundvallad á bjargi (Matth. 7, 24. 25).

---

## 29.

# Kristur er framseldur fyrir afbrot vor.

### Fyrsta hugleiding.

Bodid dauda Drottins, þángadtil hann kémur (1 Kor. 11, 26)! segir postulinn. Margt er þad, sem aldrei gleymist ad øllu leiti á jørdunni; veraldarsagan ritar þad med ómáanlegu

letri á töflur þær, sem tíminn fær ekki eydt, og hver, sem gengið getur inní musteri endurminníngaanna, má lesa þar enn í dag söguna um það, sem fram hefir farið medal þeirra kynslóda, sem nú eru undir lok lidnar. Þú skalt ekki hugsa né segja: þegar eg er farinn, þá eydist það og gleymist, hvad eg hafi verið og hvad eg hafi adhafzt á jördunni; því réttlætid kemur því optlega í ljós þegar hér á jördu, og kemur því einatt undarlega í ljós, sem framast var dulid, og minnist þess yfir moldum þínum, til endurgjalds edur hegníngar. En hver er sá, medal hinna mörgu vidburda á jördunni, er vér getum um sagt: jafnan medan heimurinn stendur, mun þessa vidburdar verda minnst svo glögglega, ad hann verdi ætíd nýr um allar aldir, svoad ekkert af öllu því, sem fram fer á hinni laungu leid alda og aldatuga, geti varid uppyfir hann, og sérhver madur þekki hann, ekki sídur fáfrædíngurinn, enn hinir vitru og spekíngarnir, og barnid heyri um hann talad undireins og eyra þess tekur ad nema nokkurt hljód, og ad gammalmennid, er hefir séd og heyrt svo marga hluti, tali enn um hann, þegar sígur ad kvöldi og á daginn lídur? Hver er sá medal hinna mörgu vidburda, er vér viljum um segja og getum um sagt fyrir öllum lýd, hid sama, sem Móses sagdi fordumdaga vid Ísraelslýd: þú skalt brína þad fyrir börnum þínum, og ræda um þad, þegar þú situr í húsi þínu, og þegar þú fer um farinn veg, og þegar þú leggst til hvíldar, og þegar þú rís úr rekkju (5 Mós. 6, 7).

Þetta erum vér kristnir menn þó vanir ad segja um minníngu Drottins vors og Frelsara; hún lifir frá einni kynslód til annarar hjá úngum og gömlum. En postulinn segir einkanlega: bodid dauda Drottins, þángadtil hann kemur — bodid ekki adeins líf hans og ekki adeins kenníngu hans, heldur og dauda hans. Med þessum ordum segir hann söfnudunum, ad þeir skuli játa Krist svosem þann, er dáinn sé og uppprisinn fyrir þeirra sakir (2 Kor. 8, 14); med þessum ordum segir hann kennendunum, ad þeir skuli boda Jesum Krist og hann krossfestan (1 Kor. 2, 2); med þessum ordum segir hann öllum játendum Krists, ad þeir skuli minnast þess, ad Kristur er framseld-

ur fyrir afbrot vor, einsog hann er upprisinn oss til réttlætingar (Rómv. 4, 25).

Það er hverjum manni ljóst, sem hugsar um það einlæglega, hversvegna Kristur átti að opinberast og verða dýrdlegur og kunnur og boðaður á jörðunni; flestir menn munu þó kannast við, að ætti dymmu hins mikla myrkurs að verða eydt, hlaut harla bjart ljós að renna upp, og ætti hin takmarkaða og veika þekking mannanna að geta orðið aukin og staðfest, var þeim þörf á kennara af Guði sendum, og sá kennari varð að geta sýnt af hverjum hann væri sendur, og gjörast dýrdlegur fyrir augum mannanna. En hversvegna átti hann hinn háleiti, hinn heilagi og hreini, að skelfast og titra, og sál hans að gjörast hrygg allt til dauða? Þegar vér skelfumst og hryggir verðum í þjáníngum lífs eður dauða, þá segjum vér ekki að vér þjáumst fyrir sakleysi, enda þótt vér getum ekki séð, að vér séum sekir í hinum nálægu þrautum vorum; og þótt oss hæfi ekki í hverju andstreymi, sem mætir oss, að kvelja sjálfa oss á þeirri hugmynd, að nú séum vér að þola gjöld fyrir þá eða þá synd, þá ber oss samt að viðurkenna, að vér séum jafnan flekkaðir af synd og óhreinleika, er oss þurfi af að hreinsa í eldi mótlætinganna. En Kristur hafði ekkert afbrotið, hann hafði ekki neina jarðneska eptirsókn, er hann þyrfti að læra að hafna, og einga synd, er hann þyrfti rétt einsog að brenna af sér og svo á burt, áðurenn hann kæmi fram fyrir Guð. Þó sagði hann jafnan, að hann væri kominn á þeim tíma, er vald myrkranna ætti að drottna (Jóh. 12, 27. Lúk. 22, 53); og berlega sást það gat ekki orðið, að hinn beiski kaleikur væri frá honum borinn, heldur átti hann fyrst að þola þetta, og síðan að gánga inní dýrð sína (Lúk. 24, 26).

Það er og sagt með berum orðum, til hvers Kristur átti að þola píslir og verða fórnfærður. Því ef vér spyrjum Drottinn vorn sjálfan, hversvegna hann sé í heiminn kominn, svarar hann oss: Mannsins Sonur er ekki kominn til að láta þjóna sér, heldur til að þjóna öðrum, og láta líf sitt til lausnargjalds fyrir marga (Matth. 20, 28); ef vér spyrjum hann á hinu síðasta kveldi æfi hans, þá er hann vissi að sá, er rétt á eptir sveik

hann, var undir bordum með honum, ef vér spyrjum hann þá: hversvegna kemur þú hér ekki undan? hversvegna kallar þú ekki himnanna hersveitir ad veita þér þjónustu, en selur sjálfan þig varnarlausan í hendur syndurum? þá svarar hann oss: líkami minn verdur framseldur fyrir ydur, og blodi mínu verdur úthellt til syndafyrirgefníngar mörgum (Lúk. 22, 19. Matth. 26, 28). Þannig sagdi og fyrirrennari hans, Jóhannes skírari, þá er hann sá Jesúm koma til sín, og sá í anda til hverra hluta hann var ætladur: sjá það Guds lamb, hina saklausu og þolinmódu fórn, er Gud hefir kjörid, þá er burtu ber heimsins synd (Jóh. 1, 19)! Og ef vér hlýdum ordum þeirra, er vorn vottar ad þíslum Krists, er hann hafdi sjálfur kennt og leiddir vorn af H. Anda, til ad boda fridinn fyrir Jesúm Krist, þá sameinast allir hinir mörgu vitnisburdir þeirra í þessum eina vitnisburdi: Kristur er dáinn vegna synda vorra samkvæmt ritníngunum (1 Kor. 15, 3), samkvæmt hinum fornu ritum spámannanna, þarsem svo er sagt: sannlega bar hann sjúkleika vora og hrygdum vorum hefir hann á sig hladid; hann er særdur vegna afbrota vorra, og fyrir synda vorra sakir er hann lemstradur, hegníngin var á hann lögd, svoad vér fengjum fridinn og fyrir benjar hans erum vér heilbrygdir ordnir (Es. 53, 4. 5).

Þetta er vitnisburdur ritnínganna, skír einsog dagsljósid, og stadfastur einsog stólpar þeir, sem kirkja Guds er áreist; og þótt efasamar hugsanir mínar færu ad tortryggja þetta, þótt mér virdtist, einsog mörgum hefir virzt, ad hér væri eitthvad það, sem Gudi væri ósæmilegt, edur gagnslaust fyrir mennina, þá yrdi eg samt ad segja: þessi vitnisburdur er máttkari, enn svo, ad eg geti tekid hann á burt né hrundid hann á annan hátt, hann er einnig partur af því Guds ordi, er ekki mun lída undir lok, þóad jafnvel himin og jörd breitist; og eg verd þess glögglega var, ad hér koma saman allir vegir opinberunarinnar, og ad það var ekki fyrrenn á krossinum, ad hin eylífa rádsályktun Guds, um frelsunina fyrir Krist, vard fullkomnud, og ad af krossinum ljómar bodun nádarinnar og lífsins. Og víst er um það, ad eg get ekki verid kristinn med því móti, ad eg semji sjálfum mér einhverja speki og búi mér sjálf-

ur til nýan lærdóm um ráðsályktanir Guðs og vegu hans, og setji svo merki Krists á þennan tilbúníng; heldur með því móti, að hvar sem eg finn merki Drottins míns, þess, er eg kalla einan Lávarð minn og Meistara, þá segi eg: þetta eru guðleg sannindi; skilníngur minn lýtur þeim, hugur minn lætur þau leiða sig, eg leitast við að kannast við þau og trúa þeim, og finna til þeirra og hafa þeirra not.

En, Guði sé lof! hugur minn efast ekki þannig. Að vísu get eg ekki stært mig af, að eg sé fyllilega kominn í skilníng um þessa leyndardómsfullu speki, og að nokkru leiti eru vegir Guðs í þessari frelsun veraldarinnar mér eins huldir og upphaf Guðs vega, þá er hann skapaði veröldina. En eg veit, hversu vesæll og hversu skamsýnn eg er, og að eg get ekki búizt við að fá ransakað djúp guðlegrar speki, meðan eg bý hér í duptinu; eg veit, að þegar rannsóknarauga sálarinnar snýr sér að guðlegum hlutum, fær það ekki staðizt ljóma þeirra, og verður því optlega að horfa á þá gegnum myrkvað gler, einsog menn eru vanir að hafa, þegar horfa þarf í sólina, og þegar sálin flýgur í hæðir, heyrir hún aðeins myrkar ræður, er hún verður lánga stund að velta fyrir sér, áður hún fái komizt í réttan skilníng um þær, og fær þó aldrei fullskilið þær hér á jörðu. En þessvegna hefi eg einnig leidt fagnaðarboðskap Krists inní hjarta mitt, þar sem að búa hinar ríkustu tilfinníngar þess og hinn leyndilegi ótti, er gjör-eyðir fegurð lífsins og gjörir dauðann og dóminn svo skelfilegan, en þar sem og hin hógláta von býr, er leitar sér friðar og miskunar hjá Guði; og þar hefi eg fundið, að réttlæti Guðs og miskunsemi Guðs, sameinast hvergi nema í Jesú dauða og friðþægíng, á þann hátt, að samvizkan öðlist huggun, jafnframt og hún verður vakin, og hinum hörðu og heilögu kröfum lögmálsins verði fullnægt, þarsem hinn sæli boðskapur fagnaðarins hljómar svo skært inní hið sundurkramda hjarta, að það dirfist að þekkjast hann, og fær öðlazt af honum slíka lækníng, er svæfir það ekki skaðsamlegum svefni, heldur eflir það á allan hátt til að kappkosta það sem háleitt er og gott.

Sú meðvitund býr í hjarta sérhvers manns, að Guð muni dæma lifendur og dauða. Glaumur veraldarinnar getur að vísu

deyfst þessa medvitund, mennirnir geta af ásettu rádi barid hana nidur, varirnar geta hædst ad henni, en sérhver madur veit samt í samvizku sinni, þar sem ad er hinn rétti bústadur sannfæringarinnar, ad þad muni verda dæmt, sem mennirnir hafa adhafzt, hvert sem þad er illt edur gott. Og þessi dómur hlýtur ad verda hádur med réttlæti, hvert sem hann kemur í ljós seint eda snemma. Vér krefjumst þegar réttlætis hér á jørdunni, vér krefjumst af þeim, er brædur þeirra hafa selt vøld í hendur, ad þeir dæmi án manngreinarálits, og séu þjónar Guds, þeim til góds, er fremja hid góda, en vér krefjumst og, ad þeir beri ekki sverdid til ónýtis, því hid jardneska vald má og ekki heldur láta ad sér hæða. En ef vér finnum ekki réttlætid á jørdunni, lyptum vér augum vorum til himins, og þá er vér segjum: Gud er réttlátur! látum vér í ljósi sannfæring vora, ad vald sé til, hverju valdi ædra, er leida muni í ljós málefni hins saklausa, og láta hann ná rétti sínum, og slíkt hid sama illgjørdir hins seka og senda þeim hegninguna. Og þessvegna segir medvitundin í brjósti voru, ad syndin geti ekki farid á mis vid hegning sína; þar sem syndin er, kemur og hegningin, ekki ad sønnu beinlínis, ekki svo þú vitir hvar, og hvenær og hvernig hún komi, en ad hún komi seint edur snemma, opinberlega edur leynilega, annadhvert á vanalegan hátt, edur med sjaldgæfu og undarlegu móti, þad veiztu eins glögglega, einsog þú veizt, ad þad er ekki hinn sjálfrádi leikur tilviljunarinnar, er heldur saman himni og jørdu, heldur heiløg og óbifanleg løg.

Um þetta efast ekki heldur mennirnir svo mjøg, einsog þad lítur út sem allflestum virdist, ad þad snerti þá ekki, því nú er þad, einsog vér vitum, ad mennirnir þykjast sjaldan drýgja syndir; þetta nafn er of þúngt og of strángt handa breiskleika þeim og ávirdingum, er þeir ad sønnu kannast vid þeir hafi, en halda jafnframt hid eylífa réttlæti muni umbera eins fúslega og sjálfir þeir. Og sæll ert þú, efad þú í raun og veru þarft ekki ad óttast dóminn! En settu þig þá í þeirra stad, er þú hlýtur ad kalla syndara, og spyr svo sjálfan þig, hvert þú dirfist ad halda og getir haldid, ad syndin sé gleymd, afþví hún er umlidin, og fyrirgefin, afþví þú hafir idrast hennar. Þegar Kain gékk

burt ad fela sig fyrir augliti Drottins, og vera skelfdur og landflótta á jørdunni, er drukkid hafdi bródur-blódid úr hendi hans, þá bjó sú tilfinníng í brjósti hans, ad hann sagdi: glæpur minn er meiri enn svo, ad eg fái borid hann (1 Mós. 4, 13); og og hver er sá, er ekki finni, ad svipur bródur þess, er hann hafdi myrdt, vard ad fylgja hónum, hvar sem hann fór og krefjast fridþægingar — slíkrar fridþægíngar, er Kain gat ekki í frammi látid. Ef þú segir, ad glæpur Kains hafi verid meiri enn svo, ad hann hafi ordid fyrirgefinn, og því hafi og þad merki verid á hann sett, er mennirnir flýi fyrir, og þad séu einúngis fáir, og einúngis hinir fullkomlega gløtudu, er geti framid slíkt illvirki; hugsadu þá til Davíds, hins mikla konúngs Gydíngaþjódar, þú veizt, ad hann var gudhræddur allt ífrá æsku, og hver sem heyrir sálma hans, verdur ad kannast vid, enn í dag, ad hann hafi haft hjarta til ad elska Gud og menn heitt og einlæglega. Lestu þá hina hryggilegu frásøgu um hrøsun hans, er vildi svo náttúrlega til, sjádu hvernig valdid og ástrídan leiddu hann af réttum vegi, spor og spor, þángadtil hann var þar ad kominn, er hann gjørdi sig blódsekan, sekan ad blódi síns hins trúa og rádvanda þjóns, er hann seldi í daudann til ad geta dulid syndir sínar fyrir augum mannanna. Lestu þá og kveinstafi idrunar hans, þá er skeyti Drottins nístu hann og hønd Drottins þjakadi honum hardlega, þá er enginn blettur var heilbrygdur á líkama hans, fyrir sakir Guds reidi, og enginn fridur í limum hans fyrir hans synda sakir (Sálm. 38, 3. 4); þá er hann medkenndi afbrot sín, og synd hans stód honum jafnan fyrir hugskotssjónum (Sálm. 51, 5): og spyr svo sjálfan þig, hvert nokkurt mannlegt losord mundi hafa getad veitt honum huggun og frid med þessum ordum: þad er fyrirgefid.

Sæll ert þú, sem hefir vardveitt hendur þinar hreinar af blódi og æfi þina óflekkada af misgjørdum! og margfaldlega sæll ert þú, ef þú gætir sagt þad med sanni um bodord Guds, sem hinn úngi madur sagdi, þarsem hann skildi bodordin einúngis um hina ytri hegdan og hid ytra réttlæti: alls þessa hefi eg gætt, ífrá barnæsku (Matth. 19, 20). En látum oss fletta upp hinni helgu bók løgmálsins, því løgmáli, er menn hafa ekki sett,

og geta því ekki heldur afmáð, né breitt, né nokkurt orð úr tekið, því lögmáli, er sá, sem eptir því ætlar að dæma, hefir ritað í hjörtu mannanna, og boðað í hinni æðri opinberun, er hann birti mönnunum vilja sinn með, og hann enn á hverjum degi leitast við að vekja með samvizkur vorar; þar má lesa hið fyrsta og hið æðsta boðorð: þú átt að elska Drottinn, Guð þinn, af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum — hefir þú þá gætt jafnvel einúngis þessa hins fyrsta og æðsta boðorðs, allt ífrá barnæsku þinni? hefir þá ætíð verið í brjósti þér sú ást á Guði, að hún væri styrkvari, enn fávizkan og hégómagirndin, og ástin á sjálfum þér og veröldinni? Eg ásaka þig ekki um þær gleðværðir, er þú gazt notið saklauslega, og ekki um það, að þú hefir starfað að jarðneskum hlutum; en hefir þú sífeldlega haft Guð fyrir augum þér og í hjarta þér, í sérhverri athöfn og í sérhverri skemtan þinni? Þegar Guð lauk upp fyrir þér sinni örlætishendi og saddi þig á blessun sinni, hefir þú þá ætíð kannast við það, og þakkað það einsog þér bar? Þegar Guð reyndi þig, og svipti þig indi augna þinna, og hellti beiskum drykk í bikar þann, er þér var réttur, hefirðu þá trúað, þótt þú sæir ekki, hefirðu tekið krossinn á herðar þér, og sagt af einlægu hjarta: verði Guðs vilji, hvað sem líður mínum vilja? — Nú komum vér að hinu næsta boðorði: þú átt að elska náúnga þinn einsog sjálfan þig — hefir þú haldið þetta boðorð, svo þú hafir aldrei breytt við mennina, aldrei breytt við neinn mann, öðruvísi, enn þú vildir mennirnir breyttu við þig, hefir þú ekkert illt gjört náúnga þínum, heldur gjört honum allt gott, og gjört það af góðum og ástríkum hug? — Látum oss fletta upp hinum heilögu bókum lögmálsins; þar má lesa tvö stóratriði, annað um afbrot, og annað um vanrækingar, því þótt einhver sá væri til, er ekkert illt aðhefðizt, en vanrækti hið góða, sem hann gæti gjört og ætti að gjöra, þá væri hann einganveginn réttlátur. Þar má lesa um þær athafnir, er verða að sæta guðlegri reiði, en þar má og lesa um ósæmileg orð, er mennirnir eiga að gjöra reikningskap fyrir á dómsdegi, þar má lesa, að innanað úr hugskoti mannanna komi illar hugrenningar og allt illt. Fyrir því ert þú ekki réttlættur, þótt liferni þitt sé ekki hegníngarvert fyrir

mannlegum augum, nema þvíadeins, ad hjarta þitt sé og hreint fyrir augliti Guds.

Hversu léttbært gjøra flestir menn sér ok løgmálsins. Gud minn godur! þarf þá ekkert annad til ad vera réttlátur fyrir þínu augliti, enn ad vera eins samvizkuléttur og flestir menn eru, og hafa gætt sín fyrir blódugum syndum, og því, sem sjálfur heimurinn er vanur ad kalla illgjørdir, og hafa lifad einsog flestir lifa, og gætt nokkurnveginn embættis síns og séd nokkurnveginn um børn sín og bú, og komizt nokkurnveginn af vid þá menn, er vér eigum sambúd vid, og verid sidsamur í hegdan sinni, einsog hver er uppalinn til: — þá væri vegurinn ad Guds ríki ordinn breidur, og þad væru margir sem fyndu hann. En hversu mikil sannindi eru þad, er einn af hinum helgu skáldum hefir sagt: eg hefi séd enda á øllum hlutum, segir hann, en Guds bodord ná harla lángt (Sálm. 119, 96). Og víst er um þad, hid heilaga og stránga løgmál Guds nær harla lángt, þad nær yfir allar athafnir, berar og huldar, og yfir øll ord á vørum vorum, og allar hugsanir huga vors, og allar hræríngar í hjarta voru. Þessvegna heimtar og løgmálid ekki adeins það réttlæti, sem mønnunum er svo gjarnt ad láta sér nægja med, svo sé nokkur sannleiki til í oss, og þyki oss þad nokkurs vert, ad vera slíkir í heiminum, sem Gud vill ad vér séum, þá ásøkum vér og sjálfa oss, afþví hugur vor hefir svo optlega hnígid ad jardneskum hlutum og fest sig vid stundlega muni og hégómlegá, og ekki sókzt kappsamlega eptir Guds ríki og hans réttlæti, og afþví vér svo optlega høfum látid girndir vorar blinda oss, svo vér høfum ekki viljad kannazt vid hid rétta, og ástrídur vorar yfirbuga oss, svo vér høfum ekki gjørt þad sem rétt var, afþví vér høfum látid ákefdina koma oss til ad tala og gjøra annad, enn þad, sem vera átti, edur hugleysid koma oss til ad þegja og halda ad oss høndum, þarsem vér áttum ad láta til vor taka, og afþví oss hefir svo optlega vantad audmýkt og alvørugefni og hógværd í medlætinu, og stødugløndi og þolinmædi í mótlætinu, og afþví vér høfum ekki treyzt Gudi og ekki vonad til Guds, einsog vér áttum ad gjøra; í stuttu máli: afþví sú rót, sem hugsanir vorar og tilfinníngar og ord og gjørdir eru afsprottnar,

er saurgud, og vér hofum elskad sjálfa oss, en ekki Gud af ollu hjarta, né náúngann einsog sjálfa oss.

Þannig sýnir ritníngin, ad allir séu undir syndina seldir (Gal. 3, 22) og samvizkan ber henni vitni, því ef vér segdumst vera syndlausir þá svíkjum vér sjálfa oss og sannleikurinn væri ekki í oss (1 Jóh. 1, 8). En synd þarf fridþægingar vid.

---

## 30.

## Kristur er framseldur fyrir afbrot vor.

### Onnur hugleiding.

Syndir þurfa fridþægingar vid. Alstadar á jordunni finna menn þad, og eru sér þess medvitandi. Þau hin fornu ord, er svo hljóda: hver, sem úthellir mannsblódi, hans blódi skal aptur af monnum úthellt verda (1 Mós. 9, 6), hafa ætíd, þótt hord séu, verid endurtekin í ollum londum. Ekki bjarga menn ad sonnu med því lífi þess, sem daudur er, og vera má tekizt gæti med odru móti, ad hamla mordingjanum frá ad vinna optar slík óbótaverk, en réttlætid verdur ekki verndad, nema hver madur sé helgur, og þad séu órjúfandi log, ad sá sem drepur saklausan mann af ásetníngi, skuli verda afmádur af jordunni. Þess krefjumst vér af mannlegu réttlæti, ad þeim sé hegnt, sem sekur er, og gjorum þad ekki, afþví oss þyki gaman ad hefndinni, heldur afþví vér finnum, ad réttlætid á ekki ad láta ad sér hæda, en þad yrdi, ef glæpaverkin bitnudu ekki á hinum seku, og fyrirgefid væri, án þess búid væri ad taka gjold syndarinnar

Syndir þurfa fridþægingar vid — þad er víst! þad finna menn, ekki adeins í tilliti til þeirrra synda, er ígégn þeim hafa verid drýgdar, heldur og í tilliti til synda sjálfra sín, ekki ad eins í tilliti til hins mannlega réttlætis, heldur og hins gudlega. Þóad mennirnir hefdu gleymt syndum þínum, eda látid sem þeir sæu þær ekki, eda fyrirgefid þær, mundir þú samt finna, ad þú

værir ekki fyrir það sáttur við Guð. Hversu røm sem hjátrúin er, vottar hún samt hvað algeng tilfinning þessi sé, því einnig það, sem afbakað er, bendir til upphaflegra sanninda. Ef vér rennum huganum yfir jarðarhnøttinn, sjáum vér, að þørfin á að geta ødlazt friðþæging fyrir syndir sínar, og fullnægt guðlegu réttlæti, hefir alstaðar komið í ljós, þar sem menniruir hafa gáð sín nokkuð fyrir léttúð, eða verið ekki alsokknir niður í dýrslegt tilfinningarleysi. Þessvegna hafa þeir alstaðar fært guðunum fórnir í friðþægingar skini; tak eigur þinar, hafa menn sagt, tak allar hjarðir þínar, og fórnfærðu þeim fyrir synd sálar þinnar; hlíf ekki því, er þú annt mest, slít það, sem þér þykir vænst um, úr faðmi þínum og frá hjarta þínu, svo þú megir sefa reiði guðanna! Vér ætlum ekki að rekja alla afvegu villunnar, né skíra frá allri andstyggð hennar; en hún er þó vottur þess, hvað fastlega sú sannfæring er innrætt hjarta mannsins, að syndir þurfi friðþægingar við. Til að halda við tilfinningu þessari, var Gyðingum boðið, að færa Guði friðþægingar-fórnir, því fórnir-nar minna menn á syndirnar, segir postulinn (Hebr. 10, 3). En hinsvegar segir hann, að þessar fórnir geti aldrei friðþægt til fullnustu fyrir þá, er færa þær (Hebr. 10, 1). Nei! það geta hverki þessar fórnir, né nokkuð annað, er menn hafa síðan sett í stað þeirra, hverki pílagrímsferðir til heilagra staða, né fégjafir til kirkna og klaustra, né føstur og píntingar líkama síns. Meðþví nú að allar aðrar friðþægingartilraunir eru ónógar, leiðumst vér til hans, er áðurnefndur postuli og gjervøll guð-leg opinberun vottar, að hafi með einni fórn algjerlega friðþægt fyrir þá að eylífu, sem helgaðir verða (Hebr. 10, 14).

Guð getur ekki afneitað sjálfum sér, vera hans er óbreit-anleg, og eylífur sannleiki, og hvernig sem vér aðgreinum nátt-úrur Guðs í huga vorum, til að geta talað greinilegar um veru hans, vitum vér samt, að þær eru ekki aðgreindar í Guði, svoað ein þeirra verði annari yfirsterkari, heldur eru þær sameinaðar á hinn fegursta hátt. Guð er kærleikurinn, hann er þolinnmóður, mikillar miskunar og mikillar líknar, og þessvegna hljótum vér að geta ødlazt fyrirgefníng afbrota vorra. En Guð er einnig

réttlátur, og þessvegna verda syndir ekki fyrirgefnar, nema réttlætinu sé fullnægt.

Hverjar bætur hefir þú ad bjóda? Vera má þú teljir fyrst til iðran þína, og eg veit fyrir víst, ad syndin verdur ekki fyrirgefin, nema menn idrist hennar; eg veit fyrir víst, ad sönn og fölskvalaus idrun þóknast bædi Gudi og mönnum. Þad fann Davíd, er hann sagdi: þú girnist ekki fórnir, ella mundi eg færa þér þær, og brennifórnir þóknast þér ekki; sú fórn, er Gudi þóknast, er harmþrúnginn andi; harmþrúngid og sundurkramid hjarta muntu, Gud! ekki fyrirlíta (Sálm. 51, 18. 19). Nei! þá fórn mun Gud ekki fyrirlíta. En þóad einhver idradist, sem sárast og beiskast mætti hann, og vætti sæng sína í tárum, og synd hans stædi honum ætíd fyrir hugskots-sjónum, mundi hann nokkud fyrir þad dirfast ad segja, hann hefdi fullnægt med því hinu eylífa réttlæti. Hvert geta nokkud idrunartárin þvegid blódblettina af höndum þínum? geta þau komid svip hins myrdta til ad hopa? getur idran þín látid lidinn tíma lída yfir ad nýu, þó ekki væri nema eina stund æfi þinnar, svoad þú gætir tekid þad verk aptur, er þú ásakar þig fyrir, eda bætt því verki vid, er þér svídur ad hafa látid ógjört? O! þegar þú minnist berlega afbrota þinna og hirduleysis, og þú sér synd þína, einsog hún er, þá segir samvizkan vid þig: þetta kunnir og áttir þú ad sjá og vita, medan tími var til, en nú er þad ordid um seinann.

Um seinann? Já! þad sem ordid er, getur einginn máttur aptur tekid; en dagur kemur eptir þennan dag, enn hefi eg tíma fyrir mér, og medan mér er þess unnt, þá kann eg, og á eg, ad verda betri, enn eg hefi verid. Betrun, apturhvarf, umbreiting og endurnýúng hugarfarsins — þad er fullkunnugt hverjum kristnum manni, ad án þessara hluta er eingrar fyrirgefníngar von, ad Kristur á ekki ad vera þjónn syndarinnar, og ad, ef kristilegt líf lifnar ekki í hjarta mannsins, þá heldur syndin áfram ad lifa þar, og fær einga fyrirgefníng. Nú ef umbreitíng þessi verdur í sálu þinni, hvert muntu þá ödlast fyrir hana þá bót fyrir undanfarin afbrot, er þú leitar ad? Víst er um þad, ad vísirinn til betra lífernis getur af miskun Guds

sprottid í hjarta mannsins, og náð med adstoð Heilags Anda æ meiri fegurd og þroska; en ástand vort hér á jørdu er ástand helgunar en ekki heilagleika, og aldrei kemur madurinn hér á jørdu svo hreinn og fullkominn fram fyrir Gud, ad hann hafi ekki fulla þørf á ad andvarpa og segja: Gud! vertu mér syndugum líknsamur! En ef apturhvarf þitt og betrun eru aldrei slík, ad ekki lodi vid þig synd og saurgun, þá þarft þú hvern dag ad fá fyrirgefníng synda þinna, og hvad er þad í hegdan þinni edur í hjarta þínu, er þú eigir svosem afgángs, til ad fullnægja med krøfum løgmálsins fyrir þá dagana, er þú þegar hefir illa nýtt eda ekki nýtt? Enda þótt betrun þín væri fullgjør, og þér farid svo fram, ad þú gætir med sanni sagt, þú syndgadir ekki framar, væru samt ekki þær syndir lidinnar æfi, sem bera vitni móti þér, burtnumdar fyrir þad. Hvert ætlar þú, ad sá, sem blódsekur er, gæti gengid óttalaust til grafar þess, er hann myrdti, og sagt: eg hefi vidbjód á illgjørd minni, og finn gløggt, ad eg skal aldrei framar saurga hendur mínar á blódi, þessvegna er sekt mín afmád? Hvert ætlar þú, ad sá, sem konu hefir tælt, og søkkt henni nidur í lesti og smán, geti huggad sig vid ad segja: eg hefi betrad líferni mitt, þessvegna eru mér afbrot mín fyrirgefin og synd mín horfin? Hvert ætlar þú, ad sá, sem svarid hefir rángan eid vid nafn Drottins, gæti sagt: sídan hefi eg ekki lagt nafn Drottins, Guds míns, vid hégóma, líka skal eg eptirleidis halda Drottni eida mína, og ekki svíkja, edur bera ljúgvitni, þessvegna er sekt mín burtnumin? Fjærri fer því! þegar samvizkan er vøknud, lætur hún ekki huggast vid ordin ein; ad sønnu veit hún, ad einginn ødlast fyrirgefníng, nema sá, sem lætur af ad syndga, en hún veit og hinsvegar, ad betrunin einsóm, svoad vér fremjum ekki framar þad hid illa, er samvizkan ákærir oss fyrir, færir eingum fyrirgefníng.

Þetta hafa margir fundid, og reynt ad bæta yfir illgjørdir sínar med g ó d u m v e r k u m, og haldid ad þeir gætu med þeim verkum afmád þær úr endurminníng Guds og manna. Þad er ad sønnu satt, ad medvitund mannsins um allt hid illa, er hann hefir framid, hlýtur mikillega ad hvetja hann til ad gjøra allt þad gott, sem hann má enn til leidar koma; en

þóað verk þessi séu sannarlega góð — og ekki tómur hegóma og hræsnisleikur, einsog það var opt, sem þeir, er tókust á hendur að leiðbeina þjóðunum, ímyndudu fávitrum mønnum, þeir gætu leitað sér friðþægíngar með — þorirðu fyrir það sjálfur að meta þau verk svo mikils, að halda þau geti bætt upp hirðuleysi þitt eður illvirki? Þú gefur ølmusur, og sæll ertu þess, að þú gjørir það! Ritníngin segir um heiðinn mann, að bænir hans og ølmusur hafi stígið upp til Guðs, og hann hafi minnst þeirra (Post. 10, 4), og hún hvetur oss alla, svo segjandi: gleymið ekki, að gjøra gott og útbýta, því slíkar fórnir falla Guði vel í geð (Hebr. 13, 16). En þóað þú gjørir í þessum efnum ekki aðeins það, sem heimtað er af hverjum einum, heldur meir enn það, sem í rauninni sýnist verða heimtað — en sá reikníngur er torveldur, því hvenær ætti sá, sem nokkuð hefir að gefa af, að geta sagt: nú er skuld minni lokið, þurfamaðurinn á ekki krøfu til meira? — þóað þú vegna þurfamannanna hafir synjað sjálfum þér þess, er þú sýnist hafa rétt á að eiga og gjøra þér gott af, heldurðu fyrir það, að þú hafir bætt syndir þínar? Það lítur svo út, sem margir haldi það, er þeir reyna að losast frá øllum øðrum krøfum løgmálsins með ølmusugjøfum; en løgmálið segir svo: þetta sæmdi að gjøra, en hitt ekki ógjørt að láta (Matth. 23, 23). Hver hefir gefið þér rétt á að setja hvað í stað annars, og bæta brot allra boðorða með því, sem þér þókti verða afgángs af hlýðni þinni við eitt þeirra? Er sú nokkur af fornum þessum, sem hið eylífa réttlæti hafi heitið að taka í bætur fyrir synd þína?

Hinum seka á að verða hegnt; sú meðvitund hefi eg sagt væri innrætt hjarta hvers manns, og því leita margir sér friðþægíngar í **þjáníngum** þeim, er þeir verða að þola. Eg meina ekki með þessu aðeins þær þjáníngar, sem menn hafa optsinnis lagt á sig sjálfkrafa, og haldið að þeir gætu fullnægt Guði, er þeir høfðu styggt, með því að hafna allri gleði, með því að fela sig í dymmum klaustrum og einsetu-hreysum, með því að synja líkamanum fæðslu og aðbúðar; en pinta hann með nýtilbúnum þjáníngum. Vera má, að þessu hafi ekki ætíð valdið sú tilfinníng, að sá, sem hefir ekki viljað gjøra skyldur lífsins, eigi ekki

heldur að njóta ónaðsemda þess; því, ef til vill, ættu sumir að skýla á þenna hátt synd sinni og svívirðing fyrir augliti veraldarinnar; og hver, sem þúng syndabyrði liggur á, hann á ekki að sækjast eptir unaðsemdum heimsins, hann á ekki að hlífa sér við að gjöra yfirbót í einveru, og fyrirmuna sér ánægjur lífsins. En postulinn segir, að harka við líkama sinn sé til lítils (1 Tim. 4, 8), og hún er til ills en ekki til góðs, ef hún er einsaman. Hversu margir hafa ekki einnig í þessum efnum hneigzt til hégómagirni þeirrar, er þeir ætluðu að forðast, og stært sig fyrir mönnunum af yfirbót sinni; hversu margir hafa ekki af heimskulegum hugarburði leitað þeirrar friðþægingar, er þeir höfðu búið sér til sjálfir, í stað þess að leita þeirrar friðþægingar, er Guð hefir búið glötuðum til hjálpar! Apturámót er guðhræðsla nytsöm til allra hluta, og hin sanna guðrækni leiðir heldur þann, sem stundar eptir iðran og yfirbót, aptur út í veröldina, ekki til þess að hann verði aptur að nýu tældur af freistingum hennar, heldur til þess hann skuli bæta úr því, sem enn verður úr bætt, og nota þá tíð og þann krapt, sem enn er eptir. Leitaðu þér ekki sjálfur þjáninga, nema í þeirri hryggð, sem er eptir Guðs vilja, og aflar sáluhjálplegrar betrunar (2 Kor. 7, 10); þær þjáníngar, er þú átt að þola fyrir syndir þínar, mun hinn réttláti, er hegnir en hjálpar þó, senda þér, án þess þú þurfir að leita þeirra. En ef Guð leggur þér þúnga byrði á herðar, ef samvizka þín segir þér, að þetta séu hinir beisku ávextir af því, er þú sáðir sjálfur, að þú hafir átt það skilið, er þú hafir ekki hlýðnazt föðurlegri rödd Guðs, meðan hún hafi upphvatt þig og áminnt blíðlega, þá sæmir þér að segja: eg vil þola reiði Drottins, því eg hefi syndgazt gegn honum (Mich. 7, 9), þú mátt og vona þess, að þú munir hreinsast í þjáníngum þessum, svoað þú gjörist aptur hæfur að líta auglit Drottins, og endurnærast af miskun hans; en hvenær mundir þú dirfast að segja: nú er eg búinn að þola nóga hegníng? hver er sú af þjáníngum þínum, að á henni standi merki þess, að Guð hafi tekið við henni til friðþægíngar, og að afbrot þín séu á þann hátt fyrirgefin, og syndir þínar afmáðar?

Þannig er sálin alltaf millum vonar og ótta; hún heyrir

þrumur dómsins duna, annadhvert í fjarska, eda nærri sér, úr undirdjúpunum eda úr hædum himinsins; hún finnur líka í øll- um skelfíngum til geisla gudlegrar miskunar, hún elur í sér von um, að í djúpi gudlegrar líknar verdi ad vera fridþæging þeirra synda, er menn idrast. En aldrei getur hún sagt vid sjálfa sig: hér er hún! og aldrei getur hún huggad sig med, ad syndirnar séu sér fyrirgéfnar. Þegar svo er komid, þó ekki sé fyrr, finnur sálin, ad hún hefir þörf á gudlegri opinberum, á stødugu, óbif- anlegu fyrirheiti um miskun þá, er hún brennur af laungun eptir, á slíku fyrirheiti, sem henni sé óhætt ad reida sig á, og vid hana segi, ef hún gjørir þad: verdi þér ad trú þinni.

Hversu undarleg er sú sýfn, sem kviknar í hjørtum mann- anna til ad fara til hinna fjarlægu landa, þar sem spámenn Gydínga søgdu fyrir ókomna hluti, þadan sem postular Krists fóru út um heiminn, ad boda þá hluti, sem komnir voru fram — til rústa Jerusalems, til Golgathahædar? Sjá! um einn tíma fór mergd pílagríma um hvern veg sem þángad liggur, og þess þreyttari sem þeir urdu, því meira þóktust þeir hafa áunnid, og því fremur geta ødlazt ró handa sálum sínum í grøf Krists. En þad, er þeir leitudu ad um lángan veg, er harla nærri, hvar sem fagnadarerindi Krists er bodad: þú getur ødlazt þad, hvenær sem þú vilt veita því vidtøkur med trúudum anda: þann er syndlaus var, hefir Gud gjørt ad syndafórn vor vegna, svo vér yrdum réttlættir fyrir hann (2 Kor. 5, 21). Þetta er þad gudlegt fyrirheit, er vér alstadar annarstadar leitum ad árángurs- laust; þetta er sú fridþæging, sem Gud hefir metid gylda, og med henni sýnir Gud, ad hann álítur ekki syndina nokkurskonar leik, og ad mennirnir mega ekki halda syndirnar séu lítilvægar, fyrst hann gjørir þad ekki, en líka sýnir hann, ad hann girnist ekki dauda neins syndugs manns (Ezech. 18, 23), og ad apturhvarf og trú géta ødlazt fullkomna fyrirgefníng syndanna.

Hér nemum vér stadar ad sinni; enda getum vér ekki skygnzt inní þá leyndardóma, er postulinn segir um, ad jafnvel englarnir girnist ad sá þá skilid. En þessir leyndardómar fylla þó hjartad þeirri huggun, er ekkert getur jafnast vid. Ef þú hefir nokkurntíma reynt ad hugga hina þjádu og kvídafullu samvizku, ef þú hefir sýnt til øll mann-

leg hugguna r=rök, ef þú hefir reynt að gjöra lítið úr syndunum, en mikið úr góðverkunum, að gjöra sem mest úr miskunsemi Guðs, til þess minna bæri á réttlæti hans: þá muntu hafa komizt að raun um, hversu ónógt það var alltsaman til að útrýma kvíðanum úr sálunni. En þegar þú nefndir Jesú = nafn, það nafn, sem er hið eina undir himninum, er menn geta orðið hólpnir fyrir (Post. 4, 12), þegar þú sagðir: hann er framseldur fyrir afbrot vor, og þann, er til hans kemur, mun hann ekki frá sér reka (Jóh. 6, 37): þá ødladist hin óttaslegna sála þín frið, og hið særða hjarta þitt lækning. O! heilbrygdir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem vanheilir erú (Matth. 9, 12).

---

# 51.

## Kristur er framseldur fyrir afbrot vor.

### Þriðja hugleiðing.

"Sæll er sá, sem ødlazt hefir fyrirgefning afbrota sinna, svoað syndir hans eru afmáðar! Sæll er sá maður, er Drottinn ásakar ekki fyrir misgjørðir hans (Sálm. 31, 1. 2)". Sá, er þetta hefir ritað, var konúngur í Jerúsalem. Hann hafði fæðzt upp með føður sínum, og verið hjarðsveinn, en farið síðan frá hinum nædisømu høgum, tekið sverð í hønd, unnið miklar orrustur, og frelsað bæði land og lýð. Þá er hann hafði unnið mørg afreksverk, og opt verið í háska staddur, hafði hann ødlazt konúngstign, og verndað síðan ríki sitt, og komið á það góðri skipun, og gjørzt svo vinsæll af þjóð sinni, að hún mun honum aldrei gleyma, og svo frægur, að nafn hans mun ætíð uppi vera. En á þeirri stund, er hann bjó til sálm þenna, var það sem hann hefði lagt niður konúngstign sína; á sálminum sést ekki, það sé konúngur eður sigursæll hershøfðingi, sem hafi orkt hann, heldur maður, sá er finnur, að hann er dupt og aska, svosem vér allir erum, fæddur í synd einsog allir forfeður hans; maður sá, er aðrir menn

hafa kallad herra sinn; en veit þó og finnur, ad hann á sér Herra á himnum uppi, sem ekki ser í manngreinarálit. Hver sem þekkir harmakvædi Davíds, hver sem hefir heyrt raddir sorgarinnar frá mæddu brjósti hans, þegar hann kvartadi ekki yfir armædu og ógæfu, og þad var ekki óréttlæti annarra manna, sem hann var ad bera sig upp um vid þann, sem einn rædur allri hefnd, heldur þegar medvitund um óréttindi sjálfs hans lagdist þúnglega á hann, og han kveinadi svo segjandi: eg þekki afbrot mín, og synd mín stendur mér æ fyrir hugskotssjónum; í mót þér, Gud minn! hefi eg syndgazt, og gjört hid illa í augsjón þinni, en þú ert réttvís í ordum, og hreinn í dómum (Sálm. 51, 5. 6) — hver sem nærri fer um, hvad Davíd hafi tekid út, og hversu hjarta hans hafi verid sundurkramid, mun einnig skilja, hvernig honum hafi ordid vid, þegar spámadurinn sagdi honum, ad Drottinn hefdi numid burt synd hans, (2 Sam. 12, 13.), og finna þad er hann fann, þá er hann hrópadi: sæll er sá, sem hefir ödlazt fyrirgefníng afbrota sinna, hvad syndir hans eru afmádar!

Þad eru mannlegar tilfinníngar, er vér nú lýstum, sem brjótast inni hjarta mannsins, ásamt ótal ödrum tilfinníngum, en fá, ef til vill, á þad fremur enn flestar adrar. Og þó þú hafir ekki enn fundid til þessa, í tilliti til sjálfs þín, þó þú hafir ekki fundid, ad þú hafir drýgt afbrot, sem þurfi fyrirgefníngar vid, og syndir sem þurfi ad verda afmádar, þá hefir þú þó fundid til þess annarra vegna; þú hefir án efa opt séd, edur ímyndad þér einhvern vesælíngsmann, sem veröldin og hjarta sjálfs hans hafdi komid til ad hrasa, sem hverki kunni né vildi bera á móti því, ad hann hefdi syndgazt gegn Gudi og mönnum, og þó þú hafir fundid, ad idrunartár hans gætu ekki afmád afbrot hans, þá hefir þú óskad, ad honum yrdi fyrirgefid á himni og á jördu. Efad sá, er óréttinn hafdi þolad á jördu, gekk þá fram og sagdi vid hinn seka: sekt þín skal vera afmád, og allt þad ógyldt, er vitni bar í móti þér, þá muntu hafa gladzt af ad heyra slík miskunarord. Og ef þess væri audid, ad þú gætir heyrt rödd frá himnum, er segdi vid hinn vesæla mann: vertu hughraustur, syndir þínar eru þér fyrirgefnar! — þá mættir þú

sannarlega óska, ad þú hefdir kristilegt trúartraust, þó þú hefdir ekki ádur ødlazt þad, eda værir búinn ad týna því, þú mættir óska þess væri audid, ad fullkomin sannfæring frá himnum, frá hinu eylífa réttlæti, frá hinni eylífu miskunsemi, gæti gagntekid hid sundurkramda hjarta med þessum huggunarordum: syndir þínar eru þér fyrirgefnar!

Er þá sú von árángurslaus, er leitar slíkrar huggunar á himnum? Einn er þó til, sem frá alda ødli hefir verid sagt um, ad hann hefdi vald á ad fyrirgefa syndirnar á jørdunni (Matth. 9, 6); og hin mikla þørf á fyrirgefníng syndanna, er einhver hin sterkasta hvøt til ad leida mennina aptur til Krists, og kenna þeim ad kalla hann ekki adeins Kennara og Konúng, heldur og Frelsara, Endurlausnara, Fridþægjara. Í frá øndverdu var þad kennt, svosem høfudatridi kristinnar trúar, ad Kristur hafi dáid fyrir syndir vorar (1 Kor. 15, 3), ad vér høfum ødlazt endurlausn, þad er: fyrirgefníng syndanna, í honum, fyrir blód hans (Eph. 1, 7), og medan nokkurt mannshjarta titrar af medvitund sektar og misgjørda, mun ekkert spott og eingin mótsøgn hins tortrygga vits géta varid þessu fagnadareyrindi veg til hins kvídafulla hjarta.

Ad sønnu eru þeir til, sem feginir vildu banna fagnadareyrindi Krists þenna veg til hjarta mannsins. Þeir óttast áhrif þess, þeir bera því á brýn, ad þad svæfi samvizkuna, gjøra afbrotamennina ugglausa í syndum sínum, ad þad svipti krøfur løgmálsins helgi sinni, en hótanir þess afli sínu. Og ad sønnu eru því midur margir til, sem hafa vanbrúkad þessa háleitu og heiløgu og sáluhjálplegu kenníng, sjálfum sér til óhamingju. En mundi nokkur vilja segja í alvøru, ad menn mættu ekki sá korni, edur gródursetja vínvid, afþví þeir geta einnig vanbrúkad þessar gjafir Guds, sér til óhamíngju? Mundi nokkur vilja segja í alvøru, ad vér ættum ad kenna, þad sé eingin fyrirgefníng syndanna til, eda vér ættum ad segja vid hinn brotlega: vei þér, ad þú fæddist, vei þér, ad menn leiddu þig ekki úngan til vísinda og réttlætis, ad ginníngar tældu þig, ad heimska og synd løgdust á hjarta þitt, því einginn máttur á himni né á jørdu mun afmá sekt þá, er þú ert kominn í, medvitund syndar þinnar mun

æ lifa, og kvelja þig um alla eylífd, og verda eylífur þrætuldur milli þín og Guds, svoad þú getur aldrei ordid frelsadur og sæll og fengid ad hvílast í fodurærmum hans? En ef menn eiga ad boda fyrirgefníng syndanna, mundi sú bodun verda réttari, sáluhjálplegri og óhultari fyrir vanbrúkun, ef menn tengja ekki fyrirgefnínguna vid fridþægíngu Krists? Verdur syndin mönnunum andstyggilegri, verdur réttlæti Guds skiljanlegra, vinnur harka lögmálsins meir á hjörtu þeirra fyrir þad, þótt vér segjum, þad sé ekki þörf á neinni fórn, né fullnægjugjörd, ad minnsta kosti eíngri annari fullnægjugjörd enn þeirri, sem madurinn geti sjálfur í té látid? Ad sönnu hlýtur hver, sem óréttindi fremur, ad þola gjöld fyrir þau; eg hefi heyrt skáld ydar segja, ad hverri misgjörd muni verda hardlega hegnt hér á jörd; eg veit, ad raddir þeirra hljóma í hjörtum ydrum, og ad reynslan ber þeim vitni, en á eg fyrir þad ad segja, ad þegar hinn seki hafi þolad gjöld synda sinna, og eymd sú, er hann hefir steypt sér í, sé ordin fullmegnud, þá muni fyrirgefníngin koma sjálfkrafa, og daudinn ad lokunum afmá allt og fridþægja allt? — Ætti eg þá ad kenna, ad þeir dómar, er skelfa syndarann í þessu lífi, muni verda ödruvísi í ödru lífi? ætti eg ad kenna, ad daudinn muni fridþægja allt, þó hann færist yfir manninn, medan hann veltist í öllum syndum sínum, og andinn er ekki lifnadur í honum, og eingin ný lífslind hefir sprottid upp í hjarta hans. Eda ætti eg ad afneita allri reynslu, og segja, ad þjáníngarnar og hegníng sú, er syndarinn verdur fyrir, hljóti ad vekja í honum nýtt líf, og hreinsa hann, og undirbúa hann undir Guds ríki? Þad er, því midur, til sú hardúd hjartans, sem vex í þjáníngum, og þeir menn eru til, sem deya einsog þeir hafa lifad — í öllum syndum sínum.

Eg vil setjast undir kross Jesú Krists. Þar vil eg ekki grennslast eptir hugarfari þeirra, sem leita hinna helgu stada fridþægíngarinnar, einúngis til þess, ad geta kastad þadan sundurlyndis og fyrirdæmíngar eldibröndum út á brædur sína, ekki heldur eptir hugarfari þeirra, er leita skadlegs hælis, til ad halda áfram syndum sínum í, einmitt þar, er allur gódur þróttur á ad eflast og dafna. Ekki ætla eg heldur ad reyna til ad

skignast niduri djúp gudlegra rádsályktana, heldur, ef verda má, niduri djúp mannlegs hjarta. Eg vil reyna til ad komast í skilníng um, hvad fara muni fram í hjarta hreinskilins manns, þess er trúir því örugglega, ad Kristur sé framseldur fyrir afbrot vor; og med þessu móti vil eg afla mér þróttar til ad fyriverda mig ekki sakir fagnadarerindis Krists, er eg vidurkenni, ad þad sé kraptur Guds til sáluhjálpar hverjum, sem trúadur er (Rómv. 1, 15).

"Hann ber syndir allrar veraldar", segir ritníngin. — Ord þau, er vér heyrum optsinnis, fá þráfaldlega minna á oss, enn önnur ord, en þessi ord vil eg láta hafa öll sín áhrif á mig, og eg vil taka þátt í tilfinníngum Drottins míns og Frelsara, þá er hann bar synd allrar veraldar. Því máttkari sem hugurinn er, þess máttkari er tilfinníngin, og fyrir þá sök getur eingin endanleg vera skilid til fulls, hvad fram hafi farid í hjarta Jesú, þegar allar syndir veraldarinnar lágu á honum. En opt hefi eg fundid til þess, sem hefir verid svipad því; því þó eg geti ekki borid neina synd til ad fridþægja fyrir hana, hefi eg þó opt borid syndir veraldarinnar, bædi annarra og sjálfs mín, bædi umlidinna alda og nálægra á þann hátt, ad eg hefi verid þjádur og hryggur. Einn spekíngur komst svo ad ordi: "þegar eg renni augunum yfir jördina, þá andvarpa eg yfir því, ad eg er madur". Hver er sá, er ekki hafi optlega andvarpad af sömu orsök, ekki adeins yfir eymd mannanna, heldur yfir ómennsku þeirra og óverdleik, heimsku þeirra og syndum? Sú kynslód, er þú ert af, gjördi þegar í upphafi vega sinna uppreist í gegn Gudi, sóktist eptir því, sem henni var bannad, leitadist vid ad brjótast undan hlýdni vid lög Guds, vildi drottna yfir jördunni, og ekki kannast vid nokkur yfirrád, reyndi til ad byggja upp til himins, og ná veldisstóli hins almáttka, hún vildi vera sjálfrád, án lotníngar, án þakklætis, án hlýdni, án kærleika Hver getur nefnt svo mikla tölu, ad med henni megi telja öll þau óbótaverk, sem unnin hafa verid undir sólunni, og hver hefir svo mikla tilfinníng, ad hún geti nád útyfir þau öllsaman? Á ökrum þeim, er nú brosa vid blídlega, hafa brædur myrdt brædur sína, og þad er í frásögur fært, ad á völlunum þar skamt í frá hafi orrustur verid

hádar, rán framin, brúdgumar drepnir, en brúdir svívirdtar — þetta er alltsaman umlidid, en þad er ritad í árbækur veraldarinnar, þad er ritad í bækurnar á himni, med því letri, sem ekki mun afmást ad eilífu. Vída má líta miklar rústir, stórkostlegar leifar dýrdlegra halla og dýrdlegra borga — þær sýnast voldugar enn, þótt eyddar séu, og hvíla nú í kyrrd, og hinn fridsami ferdamadur setur sig á þær óhultur, og horfir yfir hid fagra hérad umhverfis. En, ef til vill, hafa þar einhverntíma búid drambsamar ættkvíslir, sem lifdu í leti og munadarlífi, og söfnudu med ránum og undirokun hryggilegri arfleifd handa nidjum sínum, og umsídir, þegar mælir synda þeirra og svívirdingar var ordinn fullur, þá kom hegníngin yfir þá, og sverd hefndarinnar var þá opt fengid í hendur óaldarflokkum, sem þrjózkudust sjálfir gegn lögum Guds og manna, og ætludu sér ekkert ad endurbæta né í lag ad færa heldur einúngis ad eyda og brjóta. Slíkt er efnid í miklum hluta mannkynssögunnar. Ofaná þetta bætist allt þad, sem ekki er í frásögur fært, allt þad, er særdi eda sundurkramdi hjörtu einstakra manna, er fáir tóku eptir í lifanda lífi, og enginn veit hvar grafnir eru; hvernig grannar hafa optsinnis breytt vid granna sína, vinir vid vini, og brædur vid brædur; öll hardúd og grimd, öll svíksamleg ord, öll öfund og íllska í hjörtum mannanna, öll hegómagirnd og heimska, allt hirduleysi um sannleikann og öll þrjózka í gegn honum; hversu fáir þeir voru, sem brutust undan oki veraldarinnar, og veröldin var þeirra ekki makleg (Hebr. 11, 38); hvernig mennirnir hafa líflátid spámennina, og grýtt þá er Gud hafdi sendt þeim, þángadtil Drottinn dýrdarinnar kom til sinna, og þeir vildu ekki veita honum vidtöku (Jóh. 1, 11), en gáfu honum kross ad launum, og gjördu postula hans samkunduræka, og þóktust gjöra Gudi med því þægt verk (Jóh. 16, 2) — O! þegar eg sit undir krossi Jesú, og reyni til ad ímynda mér allt þad, er innibindst í þessum ordum: hann ber syndir allrar veraldar, þá sé eg hin ískyggilegu upptök mannlegrar eymdar, og skil ad þjáníngarnar eru ekki orsakalausar, heldur er syndin uppspretta alls volædis; eg skil þá, ad heimurinn velkist í vondsku (1 Jóh. 5, 19), og ad mennirnir verda ad leysast undan oki

syndarinnar, áður þeir geti orðið frjálsir og máttkir, og áðurenn sárþreyðir sælutímar geti runnið upp.

Undir krossi Jesu heyri eg þessi hin mikilvægu orð: hann er friðþæging synda vorra (1 Jóh. 2, 2), og eg blýt sannarlega að þýða þau á þann hátt: að hann hafi ekki aðeins friðþægt fyrir syndir allrar veraldar, heldur og einnig fyrir mínar. Því þegar eg horfi útyfir hið ókyrra haf veraldarinnar, þá er ekki sem eg sitji og horfi á annarlega hluti, eg sit ekki óhultur á landi, þar sem eg get séð skipin brotna og mennina týnast, og tek aðeins þátt í óförum annarra, án þess mér sé sjálfum hætta búin; heldur er eg sjálfur í háska staddur, og skyggnist um á hinu ólganda djúpi, eptir hæfu, til að geta flúið í. Eg er einsog aðrir grein á hinum spillta stofni, og skil ekki af annarlegum rökum einumsaman það sem fram hefir farið í veröldunni; því þegar eg ásaka mannkynið, annaðhvert fyrir bleyðuskap eða ósvífni, og segi það hafi ýmist gugnað fyrir sérhverri mótspyrnu, af ómennsku og ónytjúngskap, eða reynt til að brjótast undan öllum yfirráðum af ofdirfsku og óstýrilæti, þá finn eg glöggt, hvað fram hefir farið í sálu sjálfs mín, og að eg er í samfélagi við mannkynið, ekki aðeins um þjáníngar, heldur og um girndir og alla undirrót fásinnu og synda. Þegar eg sit undir krossi Jesú, finn eg, að allir eru undir syndina seldir, og þá getur mér ekki til hugar komið, að gjöra einsog Farísearinn, og þakka Guði fyrir, að eg sé ekki syndugur einsog aðrir menn, heldur finn eg, að mér er, einsog öðrum, þörf á að biðja og segja: Guð vertu mér syndugum líknsamur!

Hersvegna er þessi tilfinning svo áríðandi? hversvegna eigum vér að reyna til að halda henni við? — Skriðist lítilætinu, segir postulinn, því Guð veitir dramblátum mótstöðu, en lítilátum miskunar hann (1 Pét. 5, 5). Þó er drambið manninum eðlilegt, oss hættir mjög til að gleyma spillingunni í hjörtum sjálfra vor, og vera heimtufrekir við aðra, en ekki við sjálfa oss. Þegar vér heyrum menn tala um ástand sitt á jörðunni, þá er það ærið margt, sem þeir vildu láta vera öðruvísi, vér heyrum æ meir og meir, að þeir ekki aðeins ásaka hver annan, heldur dirfast þeir einnig að ásaka það vald, er ræður himni og jörðu,

fyrir þad þeim vegni ekki betur. En færi ekki betur, þeir byrjudu á ad óska, þeir væru sjálfir orduir ódruvísi, og reyna til adbæta þad, sem í þeirra valdi stendur, þ. e. hjarta sitt og líferni; færi ekki betur, þeir konnudust vid, ad þad sé syndin, sem alstadar hamlar blessuninni, og Guds ríki verdi ad koma í hjörtu vor, ádur þad geti lýst sér í gjördum vorum? Þad er þessi þekking, sem vaknar hjá oss, þegar vér trúum, ad Kristur sé framseldur fyrir afbrot vor; þegar vér sitjum undir krossi Krists, heyrum vér hina alvarlegu rödd spámannsins, er svo segir: yfir hverju andvarpar madurinn, medan hann lifir? sérhver andvarpi yfir synd sinni! látum oss gaumgæfa og rekja vegu vora, og snúa oss til Drottins, látum oss hefja hug og rödd til Guds á himnum. Vér höfum syndgad og þrjózkast í gegn þér; þú fyrirgafst ekki, og byrgdir andlit þitt í reidi (Harm. gr. 3, 39 og nn. vv).

Þrumur Sinaís's duna einnig á Golgatha, þar má einnig heyra rödd, er svo segir: Drottinn Gud vor er sterkur og vandlætingasamur Gud, sem lætur íllsku fedranna bitna á börnum og barnabörnum; þar sjáum vér, ad á jördunni liggur óttaleg sekt, fyrir allar syndir kynslóda þeirra, er á henni hafa lifad, og ad frá henni hrópar til himins allt þad blód, er úthellt hefir verid fyrir saklevsi, og öll þau laun, sem dregin hafa verid af verkamönnunum, og öll opinber óbótaverk, og allir leynilegir glæpir; þar sjáum vér, ad sérhver af oss er í hinni almennu sekt, því þó vér höfum ekki flekkad hendur vorar á blódi, þó veröldin geti ekki kallad oss óbótamenn, þá höfum vér þó syndgad í hvert skipti, sem vér höfum framid óréttindi, eda vikid frá lögmálinu, eda brotid þad, eda vanrækt (1 Jóh. 1, 17. 3, 4). En þegar vér sitjum undir krossi Jesú Krists, heyrum vér einnig rödd miskunarinnar og fridþægíngarinnar, því Gud sætti veröldina vid sig fyrir Krist, er hann fyrirgaf oss afbrot vor, og setti sáttarord á medal vor (2 Kor. 5, 19).

Þegar oss verdur sýnt, ad vér syndgum allir, er þad ekki til þess vér skulum halda áfram ad syndga, heldur til ad leida oss til betrunar. En hver hefir hugrekki til ad heya hina örduga orustu vid freistíngar og ginníngar, vid sjálfan sig, vid fornan

og fastan vana, og opt og tídum vid øfluguftu ástrídur sínar, utan sá, er trúir því, ad sekt vor muni geta ordid afmád, ad létt geti ordid á ofþýngdri samvizku, ad Gud sé ad finna? Hver hefir þor til ad leggja á stad, ef hann heldur, hann nái aldrei þángad, sem hann ætladi sér? Setjum oss fyrir sjónir þá menn, er verøldin kallar hrasada, sem, auk sjálfra sín, hafa vid áfelli veraldarinnar og afleidíngar gjørda sinna ad strída, ef þeir vilja reisa sig vid: samvizkan er þeim í móti, og segir þeim, ad þad sé farid, sem farid sé, og ad ord og gjørdir verdi ekki aptur teknar, ad þeir séu í skuld, og þeir hafi ekkert ad borga hana med. Ef þeir heyra eingan miskunarbodskap frá himni, þar er þeir sýnast hafa misst ódul sín, eingan sáttarbodskap, er leyfi þeim ad kalla Gud Fødur sinn, þó þeir hljóti at titra fyrir dómum hans, ef eingin rødd er til á himni né jørdu, er geti sagt þeim, "ad syndir þeirra séu fyrirgefnar", svoad þeir trúi því: hvadan eiga þeir þá ad fá hugrekki til ornstunnar, úr því þeir verdu eins aumir, svívirdtir og tortýndir eptir sem ádur, ef engin synda fyrirgefníng er til? Og hinir adrir, sem verøldin áfellir ekki, en álíta sig þó ekki sjálfir sikna fyrir þad; þeir, sem fyrir laungu sídan eru farnir ad sækjast eptir Guds ríki og hans réttlæti, og fegnir vildu hafa þvegid af sér allt þad, sem illt er og til ovirdíngar, fegnir vildu hafa útvegad sér þrótt til alls, sem gott er og dygdugt og lofsvert; sem létu sér ekki nægja, ad hreinsa sig utan, heldur vildu og fegnir hafa útrýmt hverri óhreinni tilfinníng úr hjarta sínu; sem aldrei þreyttust né létu hugfallast, og fundu þó ætíd, hversu hryggilega mikid þeim var ábótavant, og ad þeir gátu einga velþóknum haft á sjálfum sér, og því sídur verid sannfærdir um velþóknun hins eylíflega heilaga og réttláta Guds: hvernig ødlast þeir mátt og þor til ad gleyma því, sem umlidid er, og gánga í móti því, sem ókomid er?

Undarlegt er hjarta mannsins! þad sækist eptir frelsun og fridi, og lætur þó þráfaldlega óvin Guds og manna tæla sig til, ad láta fallast í fadm ørvínglunarinnar, og þykir hægra ad hirda hverki um heiminn né sjálft sig, og búa vid þá huggunarsnaudu tilfinníng, ad øll von sé úti, øll vidleitni til ónýtis, og ad endinn á øllu sé, ad tortýnast. En hvenær sem eg sé djúp spillíng-

arinnar gína undir fótum mér, hvenær sem ad mér kemur freistni til ad gefa mig heldur á vald letilegri og ómannlegri örvilnan, enn ad láta áminningar vonarinnar og réttlætisins kveykja í mér nýa kostgæfni og nýtt líf, þá vil eg fara til kross Drottins míns og Frelsara, og heyra þar hvad eptir annad þau hin mikilvægu ord, sem eg verd aldrei leidur á ad heyra, og svo hljóda: svo elskadi Gud veröldina, ad hann seldi í dauda eingetinn Son sinn, til þess, ad hver sá, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur ödlist eylíft líf (Jóh. 3, 16). Þetta er hinn rétti fagnadarbodskapur Krists; þú gætir ímyndad þér, ad þú hefdir getad ödlazt allt annad, sem er til huggunar og til sælu, án Krists, en þ e t t a getur þú ekki ödlazt án hans. — "Svo elskadi Gud veröldina" — allur ótti og öll óróisemi í hjarta mannanna er sprottin af því þeir efast um, ad þad sé til miskunsamur Gud, er vér megum dirfast ad mæna til og vona á, og þessvegna byrjar fagnadarbodskapur Krists á kærleika Guds. Þrátt fyrir alla synd heimsins, og alla spilling mannkynsins, hefir Gud ekki yfirgefid þad, heldur elskad þad, og sýnt því hann vott elsku sinnar, er hjá hverjum þeim, sem trúa vill, er yfirsterkari óttanum fyrir hegningardómum hans, medþví hann seldi eingetinn Son sinn í dauda fyrir oss alla. "Til þess ad hver sá, sem trúir á hann, tortýnist ekki". Þad er ekkert ord til, er þýdi óttalegri eymd, enn ordid: ad tortýnast. Ef einhver lítur umhverfis sig á jördunni, og sér, ad honum er alstadar útskúfad, ad hann er tortýndur medal mannanna, og einginn vill adstoda hann, og hvergi er líknar eda miskunar ad vænta; ef sá hinn sami horfir til himins, og þykist þadan adeins heyra þá rödd, er segi honum, ad hann sé tortýndur, þá mun sál hans örvinglast. En til þess eg skyldi aldrei álíta mig tortýndan, til þess ad í hinu svartasta myrkri ætíd skyldi sjást geisli ljóss og vonar, er gæti aukizt, og ordid ad björtum dag huggunar og trúnadartrausts, til þess gekkst þú í dauda fyrir mig, Líknari minn! því ritníngin segir ekki, ad þú hafir gengid í dauda eingöngis fyrir veröldina a l l a, svoad mannkynid, þegar á þad allt er litid, gæti einhverntíma rétt vid, ekki heldur, ad þú hafir fórn-

fært þér fyrir einstaka útvalda, heldur ad þú hafir gengid í dauda, til þess ad hver sá, sem á þig trúir, fyrirfarist ekki, heldur ødlist eylíft líf.

Drottinn! eg vil líka trúa, eg vil trúa á þig og fridþægíngar = dauda þinn. Eg vil optlega fara burt úr glepjanda glaumi veraldarinnar, frá gledi hennar og hryggd, og leita til myrkursins í Gethsemane, þarsem hatrid og svikin søldust í dymmunni, en urdu ad framkvæma eylífa rádsályktun Guds, heiminum til frelsis og einnig mér. Eg vil fylgja þér, þá er þú sýndist útskúfadur og tortýndur, þá er Fadir þinn sendi ekki hersveitir sínar ad frelsa þig, þá er einginn gekk í móti hinum grimmu óvinum fyrir þig, þá er þú barst þyrnikórónuna og þeir køstudu yfir þig purpurakápunni til ad smána þig, og bendtu á þig, og hæddust ad þér, segjandi: sjáid manninn! Eg vil fylgja þér þann veg, er þú barst kross þinn, og vildi feginn bera hann med þér, ef eg gæti, svoad þúngi þess mætti létta syndabyrdi mína. Eg vil fylgja þér til hædarinnar Golgatha, og sjá þig talinn medal óbótamanna, og negldan á krossinn; þar er þad, sem mér finnist eg heyri raddir allra idrunarfullra og sundurkraminna hjartna í øllum løndum frá øllum øldum, svo mælandi:

> Jesú! benja-blódid þitt
> Blessada oss æ huggun veitir!

þar vil eg setjast nidur undir krossi þínum og gleyma øllu, nema þér, og hryggd minni; eg vil safna saman í huga mínum øllum raunalegum endurminníngum, og kvídafullum eptirvæntíngum, og øllu því, sem rekur mig til ad þrá lausn, þángadtil eg heyri þessi ord: þad er fullkomnad — þad er fullkomnad hid mikla verk endurlausnar og fridþægíngar. Þá þagna varir þínar, og þeir fara med lík þitt stirdnad til grafarinnar. Þar hvílast limir þínir, en hvíla í upprisuvon. Þar skal einnig sála mín hvílast med kvídafullri von, þartil grøf þín opnast, og rødd heyrist um øll ríki veraldar af lifendum og daudum, svolátandi: daudi! hvar er broddur þinn? helvíti! hvar er sigur þinn! Gudi sé lof, sem gefur oss sigur, vegna Drottins vors Jesú Krists. (1 Kor. 15, 55. 57).

## 32.

## Kristur uppreis oss til réttlætingar.

Hversu dásamlegur var Jesú upprisumorgun! — Það var mjög snemma morguns. Lýðurinn í Jerúsalem, er einum degi áður hafði krossfest hinn réttláta, og sagt: blóð hans komi yfir oss og börn vor, var í fastasvefni; hefuðprestarnir og ráðið, sem hafði fyrirdæmt hann, og skrílinn, sem hafði spottað hann á krossinum, bærðu ekki á sér; þeir hugsuðu, að nú væri hann frá, og alþýðan aðhylltist hann ekki framar, og innan fárra daga mundi hann verða öllum úr minni liðinn. Lýðinn í Jerúsalem grunaði ekki hvað fram fór fyrir utan borgarmúrana, og hitt annað af veröldinni var hulið myrkum skugga, og vissi ekkert af, hvað viðbar þenna morgun. Þá gengu konur nokkrar út til grafarinnar, eins á sig komnar og margir eru, með góðar og ástríkar tilfinningar í hjörtum sínum, en án trúar, og án vonar til Guðs. Þær sáu, að steininum hafði verið velt frá grafarmunnanum, gröfin var opin, og þar, sem verið hafði myrkur dauðans, ljómaði Guðs dýrð, og engill Guðs tekur til orða: hví leitið þér hins lifanda hjá hinum dauðu? hann er ekki hér, hann er upprisinn.

Þetta var fyrsta dag viku, mjög snemma, um sólaruppkomu. Það var og hinn fyrsta dag hinnar nýu viku veraldarinnar og aldar hins nýa sáttmála; sólin rann upp lángt austur héðan, hægt og stillt, meðan flestir menn voru í svefni, og hún rann upp til að skína yfir ríki veraldarinnar. Hver getur talið saman allar afleiðingar þessa morguns? Þá leiddi Kristur í ljós lífið og ódauðleikann; frá gröf Jesú dreifðust vottar hans útí allar áttir, til að boða hinn krossfesta og upprisna; þeir gengu fram fyrir Gyðinga og heiðingja, og höfðu alstaðar sama inntak ræðu sinnar, og Páll hafði í Athenuborg (Post. 17, 30. o. m. fl.): að sönnu hefir Guð látið sem hann sæi ekki tíma vanþekkingarinnar, en nú lætur hann bjóða öllum mönnum alstaðar, að þeir taki sinna-skipti; því hann hefir ákveðið dag, er hann ætlar að láta dæma alla heimsbyggðina með réttvísi af manni, sem hann hefir þartil settan, svosem hann hefir gjört öllum mönnum bert,

er hann hefir vakið hann af dauða. En þegar heimurinn heyrði nefnda uppristu framliðinna, gjörðu sumir gis að því að sönnu, en sumir sögðu: vér viljum heyra yður tala um þetta aptur. Og þeir heyrðu þángaðtil, að þessi ræða sigraðist á þeim, svo að menn könnuðust hvervetna við, Guði Föður til dýrðar, að Jesús Kristur, hinn krossfesti, sem í fyrstu var Gyðingum hneixli og Grikkjum heimska, væri sannur Drottinn, sá er hefði guðlegan mátt og guðlega speki (1 Kor. 1, 23. 24).

Nú þegar sá, sem trúir, að hinn krossfesti hafi upprisið, íhugar með sjálfum sér þessa trú sína, hvað af henni leiði, og hver áhrif hún eigi að hafa á hugann, þá mun hann skilja, að hugurinn verður að lypta sér uppyfir þetta stundlega líf til hins ókomna, og verða fullkomlega sannfærður um, að sá, sem vakti af dauða Drottinn Jesúm, muni og fyrir hann vekja oss af dauða (2 Kor. 4, 14). En meðþví hin kristna trú hefir fyrirheit um ókomið líf, þá á hún einnig að hafa áhrif á þetta líf; hún á þegar í þessu lífi að kveykja og laga í oss slíkt hugarfar, að loforðið um annað líf boði oss fyrirheit um frið og sælu. Á það minnist postulinn, er hann segir: það mun verða talið oss til réttlætis, er vér trúum á þann, er vakti afdauða Drottinn vorn Jesúm Krist, er framseldur var fyrir afbrot vor og vakinn af dauða oss til réttlætingar (Rómv. 4, 24. 25). Hina fyrri greinina, að Kristur sé framseldur fyrir afbrot vor, höfum vér reynt að komast í skilníng um og leiða inní hjörtu vor; en hin síðari grein, að Kristur sé vakinn af dauða oss til réttlætíngar, þýðir naumast öldúngis sama, og hana ber oss einnig að íhuga grandgæfilega.

Orðatiltæki heilagrar ritníngar eru svo full af mikilli og háleitri þýðíngu, að ekki verða höfð skipti á þeim og öðrum orðum; þó menn hafi optlega reynt það, þá hefir það jafnan komið fyrir ekki; þau hafa haldizt í ræðum hinna guðhræddu, og munu haldast þar. Svo er um orðið: réttlætíng. Þegar vér nefnum þetta orð með nokkuri umhugsan, þá minnir það oss fyrst á, að sá sé yfir oss öllum, er réttdæmur sé, og að allur friður vor og frelsi sé undir því komið, að hann dæmi oss réttláta. En það stendur ekki eins á fyrir oss við Guð, einsog

fyrir verkamønnum þeim, er geta gengið fyrir húsbónda sinn og sagt: vér høfum gjört það, sem oss var boðið; vér høfum unnið það, er þú hefir heitið oss kaupi fyrir; vér høfum borið hita og þúnga dagsins, gjald oss nú það, er verk vor hafa til unnið. Ef því væri svo varið, þá værum vér réttlátir sakir verka vorra, og þá væri því máli ofaukið, að Kristur hafi afrekað endurlausn. En meðþví syndin er komin í veröldina, og hefir runnið inn til allra manna — meðþví einginn getur fengið þann dóm, að hann sé réttlátur sakir góðleika síns og dygða sinna, og einginn hefir slík verk fyrir sig að bera, er fullkomin séu fyrir alsjáandi augum hins heilaga — og meðþví einginn megnar sjálfur að afmá sekt sína og einginn hefir sjálfur neina friðþægíng að bjóða fyrir synd sálar sinnar: þá er Kristur framseldur fyrir afbrot vor, og Guð hefir — einsog postulinn að orði kemst — ekki frelsað oss sakir réttlætisverka þeirra, er vér høfum gjört, heldur af miskun sinni (Tít. 3, 5), og hefir sent Son sinn til friðþægíngar fyrir syndir vorar (1 Jóh. 4, 10). Og ef vér spyrjum, hvernig þessi friðþægíng komi oss að haldi, þá svarar Krists fagnaðarboðskapur oss ætíð, að það sé þegar vér tileinkum oss hana með sannri og lifandi trú; því réttlættir vegna trúarinnar høfum vér frið við Guð fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist (Rómv. 5, 1); og jafnvel lögmálið, sem gjörir oss bera að syndum, leiðir oss til Krists, svoað vér fyrir trúna réttlættir verðum (Gal. 3, 24).

Þegar því postulinn segir, að Kristur sé vakinn af dauða oss til réttlætingar, þá kemur það fyrst til af því, að uppríse Krists innsiglar trú vora, meðþví hún veitir oss fullkomna sannfæríngu um, að fórn hans hafi verið þegin, og hann hafi vald til að frelsa þá, er á hann trúa. Þessi boðskapur: "hinn krossfesti er upprisinn" er harla undarlegur, og vér megum með eingu móti telja slíkt með náttúrlegum viðburðum — enda getum vér það ekki. Guðleg stórmerki umkríngja huga vorn øllumegin, þegar er vér rennum høndum til þess hins helga lands, er eingetinn Sonur Guðs hefir dvalizt í til að endurleysa mannkynið; það var guðlegt stórmerki, að hann fæddist, án þess að flekkast af syndinni, er allir menn fá að arfi; og

það var guðlegt stórmerki, að hann var frumgróði upprisunnar, og frumgetníngur hinna endurlifnuðu. En er þetta ekki sannur viðburður? Allir hafa heyrt, og heyra sífeldlega, boðskapinn um upprisuna: hvernig hefir hann dreifzt út um veröldina? Hvaðan fengu vottar Jesú — litilmótlegir menn, er hverki voru vitrir né voldugir fyrir augliti veraldarinnar, þeir hinir sömu, er skömmu áður höfðu af hugleysi yfirgefið hann og afneitað honum, og falið sig af hræðslu við fólkið, er pínt hafði Drottinn. þeirra — hvaðan fengu þeir hug til, að gánga fram fyrir þetta hið sama fólk, og æsa það í móti sér, og fara í önnur lönd, lángt úti heim? hvaðan fengu þeir hinn sigursæla stöðugleik til að þola ofsóknir, háðúngar, píslir, fángelsi og fjötra, sjá dauðann sífeldlega gina í mót sér, og verða loks að herfángi hans, ef þeir hafa ekki haft rétt að mæla — ef stórmerki upprisunnar hefir ekki innsiglað trú þeirra með óbifandi sannfæríngu? Eða er nokkurt merki til efasemdar í tali þeirra? Var sá nokkur einn, er sig drægi í hlé, eða léti af þeim vitnisburði, að Kristur, sem lézt fyrir syndir vorar eptir ritníngunum, hafi risið upp á þriðja degi, og komið síðan fyrir margra augu, með mörgum og skirum jarteiknum? En hafi Guð vakið Jesúm af dauða, þá hefir hann með því sett innsigli almættis síns á hvert orð hans og hvert verk hans; og þegar hinn eingetni sagðist gefa líf sitt til lausnargjalds fyrir marga, þá hefir hinn eylífi Faðir sagt já og amen.

Í þessum skilníngi köllum vér því fyrst, að Kristur sé vakinn af dauða til "réttlætíngar" oss, en þýðing orðsins er þó traudlega öll þar í fólgin. Því þótt réttlætíngin verði fyrir Guðs miskun, þá verður maðurinn samt ekki réttlættur, nema hann — fyrir þessa hina sömu Guðs miskun — verði réttlátari, og hegðan hans réttari fyrir Guði og mönnum; og þó góðverkum vorum sé það ekki að þakka, ef Guð metur oss réttláta, eiga samt góð verk að verða samfara réttlætíngunni; og þóað maðurinn réttlætist fyrir trúna, þá er trúin ekki sönn og lifandi, eða réttara að segja: hún er ekki trú, heldur hugsunarlaust og hræsnisfullt fleipur, nema hún bæti hugarfar og hegðan vora. Hvernig postulinn í þessu tilliti geti sagt, að Kristur sé vakinn

af dauda til réttlætingar oss, þad skiljum vér, þegar vér íhugum hvad hinn sami postuli sagdi, þegar hann stód frammi fyrir landstjóranum Felix: "eg hefi þá von til Guds, ad framlidnir muni upprísa, bædi réttlátir og ránglátir, og því kostgæfi eg ad hafa jafnan óflekkada samvizku bædi fyrir Gudi og mønnum" (Post. 24, 15. 16).

Séu þessi ord vel íhugud, — eru þau sjálfsagt ein af þeim ordum, er hafa allramest áhrif á hjørtu vor, en þau eru í nákvæmu sambandi vid upprisu Drottins; því sá, sem vakti af dauda Drottinn Jesúm, mun einnig vekja oss af dauda fyrir Jesúm (2 Kor. 4, 14), og þad verdur ad vera, ad sannfæringin um þetta hvetji oss til ad leggja stund á réttlæti.

"Eg hefi þá von til Guds, ad framlidnir muni uppríse, bædi réttlátir og ranglátir". Hver er sá, ad þessi von lifi ekki í brjósti hans, ljóst eda óljóst, stundum med tilhløkkun og stundum med kvída? Þad er í oss djúp og óafmáanleg medvitund, sú er vísar máli voru fyrir Guds dóm; hvert sem vér þolum eda fremjum rángindi. Eins sannarlega og Gud lifir, hlýtur allt ad fá sinn réttlátan dóm, því Gud getur ekki afneitad sjálfum sér (2 Tim. 2, 13). Þessi dómur kemur ekki þegar í ljós, því þad væri oss ekki til góds; þad færi ekki vel; ad launin yrdu sámfara gódverkunum og hegníngin afbrotunum, því þá væri ekkert til merkis um, hvert nokkur vildi gjøra hid góda sakir annars enn launanna, eda fordast hid illa sakir annars enn hegníngarinnar. En endurgjaldid kemur — margsinnis hér í heimi, því hid góda verdur launad og hid illa refsad, þó optlega komi þad seint fram og á undarlegan hátt; en optsinnis kemur endurgjaldid ekki í þessari verøldu. Þú skalt ekki kvída, heldur trúa, því réttindunum verdur ekki hallad, og Gud mun gjalda sérhverjum eptir hans tilverknadi; þeim eylíft líf, er med stødugleika í gódum verkum leita vegsemdar og heidurs og ódaudleika; en yfir hina, sem ekki trúa sannleikanum, heldur hlýdnast rángløtinu, mun koma misþóknun og reidi (Rómv. 2, 6 o. m. v.). Og sannlega er einginn sá, er af samvizkusemi hefir þolad mótlæti vegna Guds, og verid sikn saka (1 Pét. 2, 19), ad málefni hans muni ekki koma í ljós, svo hann ødlist miskun. Enda eru og eingin rángindi til, þau

er ekki muni koma í ljós, og sæta maklegum refsingum. En hver, sem þessu trúir, ad daudir muni upprísa, bædi réttlátir og ranglátir — hver, sem ekki adeins skilur þad, heldur og innrætir sér þad, og heimfærir til sjálfs sins: mundi sá ekki kostgæfa ad hafa ætíd óflekkada samvizku fyrir Gudi og mønnum? Þetta er hid fegursta á manninum, og fyrir þad eitt á hann lof skilid; því hvert hann hefir þegid mikid eda lítid, hvert sem áform hans heppnast eda ekki, hvert sem þau eru metin rétt eda rángt, er ekki komid undir honum sjálfum; en ef einhver í stóru og smáu, medlæti og mótlæti, lofi og lasti, kostgæfir ad hafa jafnan óflekkada samvizku fyrir Gudi og mønnum, þá lítur hinn réttláti og miskunsami Gud med velþóknun nidur til hans. Nú medþví upprísa Drottins vors minnir oss sífeldlega á reikníngskap þann, sem fyrir høndum er, hjálpar hún máttuglega til ad leysa oss frá allskonar ránglæti, og hreinsa oss honum til eignar, svo vér séum kostgæfnir til gódra verka (Tit. 2, 14).

En góð verk eru þad, sem sprottin eru af gódum rótum, og ekki eru framin af tómum vana og fyrir sidasakir, né til ad ávinna sér lof eda laun veraldarinnar, né af kvída fyrir ókomnum hegníngum, heldur af lotníngu vid þad, sem rétt er og satt, og af ást á Gudi og mønnum. Til hins góda, sem madurinn á ad leggja stund á, heyrir því einnig og þad einkanlega, trúin sjálf, nefnilega ad hún verdi æ stødugri og indælli og ávaxtarsamari. Hvad eigum vér ad gjøra — søgdu mennirnir fordum vid Drottinn vorn — svoad Gudi líki vid oss? En hann svaradi og sagdi til þeirra: Gudi líkar vid ydur, ef þér trúid á þann, er hann sendi (Jóh. 6, 28. 29). Hvernig megum vér ímynda oss, ad verk vor séu góð, ef vér gjørum þau án trúar og trausts og stødugiyndis? Er sá madur gódur, sem bifast og efar og lætur hugfallast? Leitar hann vegsemdar og heidurs og ódaudleika? Trúin er upphaf alls réttlætis, og einginn getur stundad af kappi þad sem rétt er og gott, nema hann þekki ønnur løg, enn løg holdlegleikans, og ønnur ysirrád, enn þau, sem hann verdur var vid med skilníngarvitunum, og vænti stadfastlega — jafnvel þótt hann sjái ekki annad fyrir augum sér, enn eydíng og dauda — ad hid góda muni bera hærra hlut og Guds

riki muni koma. En þessi stødugleiki hjartans, þessi óbifanlega sannfæring um það, sem ekki sést, er trú (Hebr. 11, 1). Því segir ritningin, ad án trúar geti einginn Gudi þóknast, því sá, sem koma vilji til Guds, verdi ad trúa því, ad hann sé til, og ad hann umbuni þeim, er hans leita (Hebr. 11, 6). En þessa trú — þessa von á Gudi, þrátt fyrir veröldina og allar efasemdir þær, sem hún kveykir, og þrátt fyrir veraldlega armædu og eymd — þetta hid stødugа traust á gudlegri miskun, sem finnst jafnvel í þeirra brjóstum, er finna veikleika sinn og ófullkomlegleika og synd, og verda ad telja sig med þeim, er vantar það ágæti, sem þeir ættu ad hafa fyrir augliti Guds: þessa trú, sagda eg, megnar ekkert ad veita, nema Krists fagnadarbodskapur. Látum þá, er þykjast geta komizt af án þessa fagnadarbodskapar, efla sig til góðverka sinna, einsog þeir hafa vit og faung á. En vér, sem vidurkennum, ad Jesús Kristur er begurinn, sannleikinn og lífid, vér viljum vera honum áfastir, svoad hann sé med oss; því einsog vidargreinin getur ekki borid ávöxt af sjálfsdádum, nema hún sé føst á vínvidinum, eins getum vér ekki borid ávöxt, nema vér séum honum áfastir; því án hans megnum vér ekkert (Jóh. 15, 4. 5). Þegar himininn uppi yfir oss er blídur og heidur, og vér finnum, ad vér erum sælir í þessari veröldu, þá skulum vér læra af kristinni trú ad ofmetnast ekki, og treysta ekki á fallvalt audæfi, heldur á lifanda Gud, sem veitir oss ríkuglega allt gott til nautnar, svoad vér gjørum oss auduga ad góðverkum og søfnum oss fésjódi til góds forlags fyrir hid ókomna, til þess vér hreppum hid eylífa líf (1 Tim. 6, 17. o. nn. vv.). Þegar himininn sortnar, eda vatnsflódin koma og vedrin blása, þá skulum vér minnast þess, ad þolinmædin ein fullkomnar verkid (Jak. 1, 4), og því er það upphaf allra gódra verka, ad trúa á eingetinn Son Guds, á hann, er fordum hastadi á storma himinsins og øldur sjáfarins, svoad þá lygndi þegar — á hann, sem allt vald er gefid á himni og á jørdu, og hefir sagt: látid ekki hjarta ydart skelfast; trúid á Gud, og trúid á mig! (Jóh. 14, 1). Þegar sá kvídi, er sárri er stundlegum kvída, vaknar í hjartanu, og ætlar ad eyda krapti sálarinnar, og gjøra Fødurinn á himnum ad hrædilegum dómara

— og þegar óvinur sálar þinnar telur þér trú um, að syndir þínar banni þér samfélag við Guð, og að þér sé útskúfað, svo þú sért glataður, þá er eitt góðverk, sem þú átt að gjöra, til að ödlast friðþæging synda þinna: þú átt að trúa á eingetinn Son Guðs, er elskaði oss og gaf sjálfan sig í dauðann fyrir oss, og var píndur fyrir syndir vorar, réttlátur fyrir rángláta, svo hann fengi leidt oss til Guðs (1 Pét. 3, 18). Þegar kvölda tekur og á daginn líður, og sá tími fer að höndum, er endar öll verk þín hér á jörðu, þá er enn eptir eitt góðverk, sem þú átt að gjöra, þegar þú lykur aptur augu þín fyrir dýrð veraldarinnar og fyrir eymd hennar: þú átt að trúa á eingetinn Son Guðs, hann er sagt hefir: eg em upprisan og lífið; hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25).

Það er því í nákvæmu sambandi hvað við annað, að Kristur er framseldur fyrir afbrot vor, og að hann er vakinn af dauða oss til réttlætingar; því hann dó fyrir alla, svoað þeir, sem lifa, lifi ekki sjálfum sér framar, heldur þeim, sem fyrir þá hefir dáið og upprisið (2 Kor. 5, 15). Og sú er meining orða postulans, er hann segist hafa látið allt fyrir Krists sakir, til að ödlast þekkingu á honum og á krapti upprisu hans (Phil. 3, 10).

---

## 33.

## Köllun Guðs til vor.

Það er höfuðatriði kristinnar kenningar, að Guð hafi látið boða frið fyrir Jesúm Krist, hann sem er Drottinn allra (Post. 10, 36) og að af eingum ödrum sé hjálpræðis að vænta, því meðal manna sé sá einginn annar til undir himninum, að oss sé ætlað hólpnum að verða fyrir hans fulltingi (Post. 4, 12). Frelsun veraldarinnar er fólgin í komu Krists í heiminn, og kennslu-embætti hans og friðþægingardauða, og sigurandugu upprisu og burtför til Föðursins, og tignarsæti við hægri hönd Föðurnum og konúngstign yfir öllu á himnum og jörðunni og í

undirdjúpunum. En hvernig verður nú einstakur maður aðnjótandi þessa hjálpræðis? Hvernig verður það, sað hver einstakur maður fær áunnið Krist og fundið hann, og öðlazt þekkingu á honum og krapti upprisu hans, og hluttekning í píslum hans (Phil. 3, 8 o. u. v.)? Þetta hefir verið kallað vegur sáluhjálparinnar, það er sá vegur er leiðir manninn til Krists, og lætur hann finna frelsun og sælu hjá honum. Þessum vegi hefir verið ýmislega lýst, eptir því sem ritningin kemst ýmislega að orði um hann; vér megum og ekki ætla, að þeir hlutir, er vér getum aðgreint í þessu efni, til að minda, apturhvarf, trú, endurfæðing, helgun, komi í röð hver eptir annan, svoað einn þeirra hætti þar sem annar tekur við; þeir eru með mörgu móti sameinaðir; helgunin byrjar þegar er maðurinn snýr aptur frá villu sinni, maðurinn endurfæðist þegar og fer að lifa nýu og betra lifi, er hann snýr sér af alhuga til Guðs, og állt þetta verður með tilstyrk lifandi og sannrar trúar; en það er ætíð hið fyrsta, að Guð verður að kalla oss, áðurenn vér getum heyrt rödd hans og fylgt honum eptir.

Köllun Guðs til vor mannanna — vér erum orðnir svo vanir við þetta orðatiltæki úr heilagri ritningu, að vér heyrum það optsinnis, án þess vér gefum réttan gaum að þýðingu þess. En hvenær sem vér íhugum það, hljótum vér að kannast við, að það er undarlegt orðatiltæki og merkir hinn mikilvægasta hlut. Köllun Guðs til vor mannanna — það er því rödd, sem ávarpar oss í veröldinni, og kemur þó ekki úr þessari veröldu, sú rödd, er Faðir lífsins, Drottinn lífsins og dómsins, hinn réttláti og hinn miskunsami, ávarpar oss með. Guð býr í því ljósi, er einginn fær aðkomizt, einginn getur farið til himna, að skoða hann augliti til auglitis, og svosem til að heyra rödd vara hans; og þó verðum vér hér á jörðu varir við köllun, er sannlega kemur frá honum, og með henni áminnir hann oss og býður oss til sín. Þessi heimur talar til vor á margan hátt; auðurinn ginnir oss, og heiðurinn kallar oss af miklu valdi, og fögnuður lífsins ávarpar oss með ótal röddum, mennirnir leggja fyrir oss meiníngar sínar og kröfur, sérhver þeirra hefir sína rödd, er hann leitar að ávinna aðra með til að hlýðnast sínum vilja og veita sér þjónustu. En innanum allt þetta heyrum vér aðra

rødd, þá er bodar oss þann vilja, er hefir miklu meira vald, enn vilji mannanna, og skeikar ekki einsog þeirra vilji, oss er bodid til slíkrar þjónustu, er vér ekki dirfumst um ad segja, ad hún snerti oss ekki, og vér viljum ekki gángast undir hana; vér heyrum sannlega køllun frá Gudi sjálfum.

Um þessa køllun Guds talar Jesús í hinni alkunnu og føgru eptirlíkíng um húsbóndann, er fór á ýmsum stundum dags, ad leigja verkamenn í víngard sinn (Matth. 20, 1 o. u. v.). Sá dagur, sem talad er um í þessari eptirlíkíng, er dagur lífsins, þad er sá dagur, er þykir vera svo lángur um morguninn, er vér lítum yfir hann, en stund líður eptir stund, vonarstundir morgunsins og hitastundir hádegisins, og kvøldid kemur, fyrrenn oss varir, tekur ad kyrra og røkkva umhverfis oss. Og þá stund, sem lidin er, sær þú ekki aptur kallad; minníng hennar varir vid; krøsur hennar hrópa enn úr djúpinu, sem hún er í sokkin, en einginn mannlegur máttur getur sókt hana þángad sjálfa. Húsbóndinn fór ad safna sér verkamønnum; hann kom hvad eptir annad, og jafnan fann hann nokkra, er stódu idjulausir; hann kom á hinni sídustu stundu dagsins, og enn fann hann nokkra, sem ekki voru farnir til vinnu. "Hví standid þér hér allan daginn idjulausir? Dagurinn er ad kvøldi kominn og nóttin er þegar á dottin, þá er einginn getur unnid; nú þegar verdur reikníngunum lokid, og þér erud enn ekki byrjadir á vinnu ydvarri"! Harla mikid verda þessi ord ad fá á hjarta sérhvers manns, er finnur ad þau eru til sín tølud! Því ad afloknum vinnustundunum, kemur stund reikníngsskaparins, og þad veit hver madur í samvizku sinni; hann getur gleymt því, hann getur þaggad nidur medvitundina um þad, en hann veit þad samt í brjósti sér, ad sérhver eigi ad fá þau laun, er gjørdir hans hafa tilunnid, og einsog réttlæti á ad vidgángast á jørdunni, svo hljóti og réttlæti ad vera á himnum, og þessvegna hljóti og sérhver ad verda krafinn reikníngsskapar fyrir þad, er hann hefir gjørt og ógjørt látid. Ad vísu stendur og nádin hjá veldisstóli hins eylífa, og hinn mikli húsbóndi hefir vald á ad gjøra þad af sínu, er hann vill; en einginn heyrir rødd nádarinnar, svo hann hafi ekki ádur heyrt rødd réttlætisins, og þegar hún

kallar til samvizku hans, en hann þekkist það ekki fyrrenn á hinni síðustu stund dagsins, þegar vinnunni hefði átt að vera lokið, þegar hún minnir hann á daginn, er hann hefir eydt til ónýtis, og á allan hinn umliðna tíma, er hann sær ekki aptur keypt fyrir allt gull sitt og allt blóð sitt, þótt hann vildi láta það fyrir hann: þá vorumst að kveða upp þann dóm, er sá hinn eini réttláti Dómari, sem einnsaman þekkir alla hluti, hefir lagt á sjálfs síns vald; vorumst að vilja loka dyrum náðarinnar fyrir þeim, er iðrun gjörir, og einginn hefir, ef til vill, komið að leigja árdegis. En vorumst og að gjöra lítið í orðum vorum og hugrenningum úr þeim reikníngskap, er bíður vor, þegar dagurinn er á enda liðinn.

"Hví standið þér iðjulausir allan daginn?" Hvað þýða þessi orð á vorum húsbóndans? Þau eru sannlega ekki aðeins töluð til þeirra, sem ekkert hafa aðhafzt, eður ekkert það, sem gagn hafi í verið; margir eru þeir, er nóg hafa starfað um dagana, þeir hafa borið hita og erfiði dagsins á við hvern annan, þeir hafa ekki dottað í iðjuleysi, þeir hafa, ef til vill, komið nafni sínu á allra varir, og ritað það, ef til vill, með ómáanlegu letri í árbækur veraldarinnar; en samt sem áður hafa þeir orðið að skelfazt við þessa rödd, er þeir heyrðu hana á hinni síðustu stundu dagsins, því þeir hafa ekki þekkt ákvörðun dagsins, né hversu mikið í hann sé varið; þeir hafa ekki framkvæmt það, sem þeim var ætlað, eður þá að minnsta kosti ekki á þann hátt, sem vera bar; þeir hafa, ef til vill, hlýðt öllum röddum, nema rödd **hans**, er þeir áttu að hlýða; því það eru ekki viðburðir hégómagirndar né ágirndar, er gjöra stundu reikníngskaparins léttbærari. Hinsvegar hafa og þeir menn verið til, er lítið var talað um á jörðunni, þeir fóru leiðar sinnar í kyrrð, og múgurinn gætti þeirra ekki, og þekkti hvorki viðleitni þeirra, né hugarfar; en **hann**, sem metur mikils ófölnanlegt skart hógværs og kyrrláts anda (1 Pet. 3, 4), **hann** sá og þekkti þá; þeir eru gleymdir fyrir laungu á jörðunni, en, Guð minn! þú hefir ekki afmáð nöfn þeirra af lífsins bók, og einsog þeir höfðu áður heyrt rödd þína á vinnustundunum, svo hafa þeir og heyrt hana á stundu reikníngsins, er hún sagði við þá: vel hefir þú gjört, hinn góði þjónn!

þú varst trúr í litlu, eg mun setja þig yfir meira, gakk inní fögnuð Herra þíns (Matth. 25,21).

"Hví standið þér idjulausir allan daginn?" Einginn hefir orðið til að leigja oss, svörudu þeir. O! þegar vér rennum huga vorum til alls þess fjölda, er aldrei hefir heyrt í hjarta sínu þá rödd, er vekur hinar djúpu tilfinníngar, og kallar menn til andlegrar atorku, og kemur til leiðar öflugum og ráðvöndum ásetníngi; þegar vér rennum huga vorum til alls þess fjölda, sem alizt hefir upp í vanþekkíngu, er ekkert hefir haft fyrir augum sér, nema eptirdæmi spillíngarinnar, og ekki tekið við Guðs ríki, þá er þeir voru börn, og síðan séð ekkert í kríngum sig, er skyldt hefir átt við Guðs ríki; þá kennum vér í brjóst um þá, og þökkum Guði fyrir sérhvern er hann miskunar, svo hann umsíðir megi heyra köllun Guðs, og vér gösgum náð Guðs, er svo optlega virðist að láta hina síðustu verða hina fyrstu. En með þessu getur einginn afsakað sig, sem hefir heyrt köllun Guðs og ekki viljað gefa henni gaum; því þótt að þeir séu til, er heyra þessa köllun seinna og sjaldnar og ógreinilegar, enn sumir aðrir, fer þó húsbóndinn seint og snemma að leigja verkamenn sína, og eingimi er sá á meðal vor, er með sanni geti sagt, að hann hafi aldrei heyrt þetta ávarp: far þú og til vinnu, og þá skaltu fá sanngjarnlegt endurgjald.

Oll ráðstöfun Guðs með komu Krists í heiminn er köllun til mannanna, að þeir skuli hverfa aptur frá villu þeirra og komast á réttan veg. Þegar ífrá fornöld hefir Guð optlega og með mörgu móti talað til forfeðranna fyrir spámennina (Hebr. 1, 1); en þetta voru einstakar raddir hjá einni þjóð; nú á tímum hins nýa sáttmála, hljómar köllun Guðs kröptuglegar og almennar, og þessvegna sagði Drottinn vor: frá dögum Jóhannesar skírara og allt til þessa leita menn Guðs ríkis kappsamlega (Matth. 11, 12).

Þeir menn eru til, sem Guð hefir gefið svo mikla og skæra rödd, að hún rétt einsog hljómar landsenda á millum, og það jafnvel útfyrir takmörk lands þeirra til annarlegra þjóða. Þeir eru sjálfir gæddir svo frábærum krapti og koma í ljós á svo hentugum tíma, að allir gefa gaum að orðum þeirra. Slíkur mað-

ur var Jóhannes skírari. Rødd spámannanna var fyrir laungu þøgnuð í Ísrael, og einginn hafði komið í ljós svo øldum skipti, sá er það yrði um sagt, að hann talaði af Drottins hálfu á slíkan hátt, sem spámennirnir; samt sem áður var nú komiun sá tími, er hin fornu fyrirheit áttu að rætast á, og øll þjóðin þjóst við því. Þá hóf Jóhannes að kenna á eyðimørku, svo segjandi: bætið ráð yðvart, því Guðs ríki er nálægt! og lýðurinn úr Jerúsalem og øllum nálægum héröðum fór út til hans (Matth. 3, 2. 5). Hver var sá um þær mundir í þessum landsbyggðum, er gæti með sanni sagt: eg hefi ekki heyrt køllun Guðs, eingin rødd er komin til mín, er hafi kallað mig til apturhvarfs og til himnaríkis?

Samt sem áður var Jóhannes aðeins fyrirrennari; rétt á eptir honum átti sá að koma, sem meiri var enn hann, svo þótt rødd hans væri blíðari, var hún samt bæði styrkvari og áhrifameiri. Því rødd Jesú Krists hefir hljómað øllum røddum hærra, svoað hverki víðáttan né tímalengdin hafa getað sett henni nokkur takmørk. Og þótt þær þjóðir séu til, sem ekki hafa heyrt þessa rødd, enn sem komið er, þá nær það ekki til vor; vor á meðal er einginn, er með sanni geti sagt: eg bý á svo afskektum stað, að fagnaðarerindi Krists hefir ekki komizt til mín, eg er svo vesæll og fátækur, að menn hafa ekki hirdt um að boða mér það, eg er svo fáfróður, að eg hefi ekki getað komizt í skilning á, um hvað verið væri að tala. Fjærri fer því! Krists kirkja er yfirgripsmikill skóli; hún tekur við barninu næstum því eins fljótt og heimurinn, og hún sleppir ekki manninum fyrenn moldir hans hvílast í skauti hennar; hún geymir þá uppsprettu þekkingarinnar, að spekingarnir og hinir vitru fá aldrei tæmt hana, og hún geymir svo einføld og ljós sannindi, að jafnvel hinir fáfróðustu geta gripið þau; þaðan hljómar jafnan rødd, sú er þannig ávarpar hinn kappsama verkamann: þú ert hugsjúkur um marga hluti, en gleymdu ekki því, sem eittsaman er nauðsynlegt; og þannig ávarpar hinn hrellda: huggun er til handa hverju sundurkrømdu hjarta og lækning handa hverju sári. Er nokkur sá til, sem kallaður er kristinn, að hann geti sagt Guð

hefir ekki kallad mig, einginn hefir áminnt mig ad leita Guds ríkis og hans réttlætis?

Hvernig Gud ásídan muni kalla þá, er ennþá sitja í svartnætti daudans, og hvenær og hvernig rødd Krists muni á þenna hátt hljóma yfir þeim, sem í grøfunum eru, og hvernig Gud ámedan kalli þá, er hann hefir ekki híngadtil veitt jafnan adgáng og oss ad uppsprettum lífsins og sannleikans, þarsem hann leidir verk sín fram fyrir augu þeirra, og lætur samvizkuna tala í brjóstum þeirra, og hvernig hann muni dæma þá: þad ætlum vér ekki ad hugleida ad þessu sinni, heldur einúngis þad, sem snertir sérhvern af oss útaf fyrir sig. Getur þú sagt, hvenær Gud hafi kallad þig hid fyrsta sinn? Hann gjørdi þad jafnskjótt, sem medvitund þín vaknadi, á þeim døgum, er minnid geymir ekki, þótt áhrif þeirra haldist lengi vid og stundum alla æfi þína. Því snemma sagdi fadir þinn, edur módir, edur kennari, edur vinur þinn, þér frá almáttkum Gudi, þeim er skapad hefir himin og jørd og hafid og alla hluti, sem í þeim eru, og stjórnar øllum hlutum med almætti og alvizku, þeim er hid stærsta ekki þykir undarlegt, og hid minnsta ekki of lítilfjørlegt; og frá hinum allsvitanda Gudi, er sér allt í skarkala dagsins og í kyrrd næturinnar, og sér fylskni hjartnanna; og frá hinum heilaga og réttláta Gudi, er hefir gjørt skilnad milli góds og ills, einsog milli dags og nætur, og mun gjalda sérhverjum eptir verkum hans; og frá hinum líknsama og miskunsama Gudi, er tekur ad sér hvern sem ákallar hann af hreinu hjarta, og miskunar syndarannum, sem snýr sér til hans. Þad voru mannlegar raddir, er þú heyrdir, en eigi ad sídur taladi Gud til þín fyrir þær, og kalladi þig til sín og ríkis síns. Sídan eldtist þú og fórst ad nema kristileg frædi; þú heyrdir optlega og med mørgu móti þau ord, er heimurinn hefir ad vísu svo optlega spottad og fyrirlitid, og leitast vid ad þagga nidur og afmá, en mennirnir hafa samt alltaf aptur ordid ad snúa sér til, afþví þau eru hid eylífa ord lífsins, og allar hinar ótølulegu raddir heimsins eru ekkert nema hljómandi bjalla, þegar þessara orda missir vid. Þú fórst út um verøldina; en hvar sem þú fórst, fannstu kirkjur reistar vid gøtu þína, er þú gazt gengid inní, ef þú vildir, og

snúið huga þínum frá jarðneskum hlutum og heyrt áminníngar og huggunarorð og fagnaðarboðskap Drottins þíns og Frelsara. Og þótt þú vildir það ekki, þá er ekki Guðs orð bundið við kirkjurnar, heldur brýzt það út þaðan á margan hátt og mætir mönnunum á leið sinni. Það hefir og margsinnis mætt þér, þá er þú girntist það, og þá er þú girntist það ekki, það mætti þér í háfaða dagsins, við vinnu þína og í freistíngum þínum, og vitjaði þín í einveru þinni og í næturþögninni. Sannlega hefir Guð talað til vor optlega og með mörgu móti, hann hefir talað til vor með orði sínu og með sérhverri kristilegri áminníngu, er vér höfum heyrt seint eður snemma; en hann talar og til vor í hjörtum vorum, með heilagri rödd samvizkunnar, og sérhverri góðri tilfinníng, sem hreifir sér í oss; hann hefir kallað oss með sérhverju góðu orði og töluðu í tíma, er hann hefir lagt vinum vorum í munn, og sömuleiðis með hallmælingum óvina vorra og ofsóknum, er hafa þrýst oss til að hafa gætur á sjálfum oss og lifnaði vorum og hugarfari; hann hefir einnig talað til vor með hlutskipti því, er hann hefir sent oss, hvert sem það voru velgjörðir eður refsíngar. Ó! hversu optlega hefir Guð kallað oss á hinum góðu dögunum, þegar fyrirtækjum vorum varð farsællega framgengt, og blessun og friður vitjuðu húsa vorra, og þegar vér á ýmsan hátt vorum kröptuglega áminntir um, að þakka honum öll gæði lífsins, sem lýkur upp sinni örlátri hönd og seður allar lifandi skepnur með blessun sinni; og að þeim, sem vegnar vel í lífinu, beri að gjöra sig verðan gæfu sinnar. Hversu optlega hefir Guð kallað oss með mótlætingum og þjáníngum, er hann á þenna hátt hnegði sálir vorar til alvörugefni, og kenndi oss að trúa ekki of vel heiminum né sjálfum oss, er hann svosem þrýsti oss til, að lypta augum vorum frá jörðunni til himins; hversu optlega hefir hann fælt oss upp af svefni þeim, er á oss var síginn, því satt er það sem skáldið segir, að hið flárláða vald, er situr um að tortýna oss, á vanda til að svæfa manninn með sætum saungvum, þarsem engill frelsunarinnar ber opt að dyrum hart og hræðilega. Víst er um það, einginn er sá á meðal vor, er ekki verði að kannast við, að Guð hafi kallað hann optlega og með mörgu móti.

En til hvers hefir Gud þá kallad oss? vèr getum sagt þad med fám ordum: hann hefir kallad oss frá heiminum til sín. Mennirnir líta á sjálfa sig og hlutina umhverfis sig á trøfaldan hátt, og er sú skodun hver annari eldúngis gagnstæd-ileg. Því sumir menn leita alls síns hlutskiptis í þessum heimi, og kalla gædi hans hinn eina ávinníng sinn og veraldlegan missir hid eina tjón sitt. Þetta veraldlega hugarfar sýnir sig aptur á ýmsan hátt. Þad sýnir sig í óstjórnlegum løstum, þegar madurinn adeins fýkist eptir hverri stundarnautn, þegar hann lætur girndirnar ráda, án þess ad gá neitt ad ókomnum tíma, og án þess ad finna til sóma edar blygdunar, og fer fram þá gøtu, sem heimurinn sjálfur segir ad leidi til gløtunar. Heim-urinn getur ekki heldur veitt slíkum manni neina hjálp, en misk-unsamur kærleiki Guds, fyrirbýr honum frelsi enn af nýu, køll-un Guds hljómar enn á bakka gløtunarinnar, og á þeim, sem þá loksins heyra og snúa aptur og komast á rèttan veg, rætast opt þau ord, ad hinir sídustu skuli verda hinir fyrstu. En hid veraldlega hugarfar sýnir sig einnig optlega í kyrrlátu lífi, þegar madurinn er hóflsamur og idinn, og leitast vid ad safna sèr audi og afla sèr metorda, og komast hjá allskonar sárindum og eiga eins gott og hann getur med nokkru móti hèr á jørdu. Þetta líferni er kallad lýtalaust, þad þykir vera bisna ólíkt hinu, en raunar er þad samrar náttúru; því slíkur madur leitar einnig hlutskiptis síns á þessari jørdu, og þar er hann fastur á fótum, skammvinnir hlutir ginna hann, og þótt hann láti huggast yfir missir þeirra, þá er þad ekki í von um betra líf, heldur af nokk-urskonar eroæntíngu, þarsem hann þaggar nidur sèrhverja mann-lega tilfinníng, er hann heldur muni hagga rósemi hans, og lætur sèr lynda þad, sem hann ekki fær umflúid. En hversu reglu-legir og heidarlegir, sem vegir slíkra manna þykjast vera í heims-ins augum, þá fer þó svo, ad endir þeirra, sem er daudinn, slekkur ad lokunum hid verulega og rètta líf þeirra. Adurenn þetta líf er med øllu slokknad, ádurenn eyrad, sem heyrt getur hina himnesku rødd, er med øllu dofnad, hljómar køllun Guds til þeirra, er sækjast eptir jardneskum munum; hún segir: "hvada gagn er manninum þad, þótt hann eignadist allan heim-

inn, ef hann glatar sálu sinni (Matth. 16, 26)? Leitið því fyrst Guds ríkis og hans réttlætis (Matth. 6, 33)!" Hver, sem heyrir þessa køllun og gefur gaum að henni, fer að líta ødruwísi á hlutina, skoðunarmáti hans verður gagnstæður því, sem fyrr var sagt, og postulinn lýsir honum rétt, er hann segir: ódal vort er á himnum (Phil. 3, 20). Þá er sú meðvitund voknuð, að Guð sé ekki fjarlægur neinum af oss, heldur lifum og hrærumst og sèum vér í honum (Post. 17, 27. 28), að af honum og fyrir hann og handa honum sèu allir hlutir (Rómv. 11, 33); þá finnum vér til þess, að vér erum þegnar mikils ríkis og eylífs, þarsem øll góð viðleitni sameinast, einsog allar ár safnast í sjóinn, þarsem allt gott sameinast undir einu høfði í einum líkama, sem tengður er saman með liðum og bøndum og þróast guðlegum þroska (Kól. 2, 19). Þarsem slíkt guðhrædt og himneskt hugarfar kviknar, bætir það- og leiðréttir á margan hátt hið ytra líferni, en umfram allt breitir það hinum innra manni; hlutirnir í kríngum þig eru enn hinir sømu, en þú sèrð annan bjarma yfir þeim; allt er ørðið helgað, athafnir þínar og gleði og hryggð, og baráttunni í heiminum og í brjósti sjálfs þín er linnt, og straumur tímans, sem beljar umhverfis þig, tekur ekkert frá þèr, heldur færir hann þèr gjafir og flytur þig sjálfan nær og nær høfninni, að hinum sælu strøndum fullkomleikans. Einginn á meðal vor býr þegar óhultur í tjaldbúðum friðarins, en hver, sem nokkru sinni hefir komið í þær, hver sem nokkru sinni hefir smakkað hina himnesku gjøf og fundið á sèr krapt hins ókomna heims, hann heyrir að nýu á hverjum degi køllun Guðs; og hvernig sem allt geysar umhverfis hann og í honum sjálfum, heyrir hann samt glegglega í øllum stormum lífsins, þá rødd, er segir seint og snemma: vinur minn, haldtu þèr við Guð og njóttu svo friðar! (Job. 22, 21).

---

# 34.

## Réttileg heyrn Guds orda.

Frelsari heimsins hefir komid í heiminn, hann hefir fullkomnad eyrindi sitt, hann hefir borid synd allrar veraldarinnar og lokid upp himnaríki, og þessvegna — þessvegna erum allir vér frelsadir og munum ekki glatast, munum eignast eylíft líf? Eg get þó ekki ætlad, þegar vér tölum í alvöru, ad nokkur madur hlaupi svona yfir allar midgreinirnar í sønnun sinni, því svo mikid kann þó hver madur í kristilegum frædum, ad hann þekki þessi ord: apturhvarf og trú, og ávøxt trúarinnar í gudrækilegu líferni, og viti ad án þessara hluta geti einginn ordid hluttakandi í frelsun Krists. Edur er Kristur í heiminn kominn einúngis til ad utrýma hegníngu syndarinnar, en ekki syndinni sjálfri? einúngis til ad frelsa þig frá hinum hryggilegu afleidíngum heimsku þinnar og afbrota, en ekki til ad frelsa þig frá heimskunni og afbrotunum sjálfum? Guds ríki er þó adeins handa þeim, er vilja þekkjast þad, því munu og geta þjófar og ræníngjar, munu og geta glópar og skræfur, og maurapúkar, og øfundarseggir, og gudlastarar, og hræsnarar, mun og getur hid veraldlega hugarfar ødlazt himnaríki?

En ef vér gefum gætur ad líferni manna í heiminum, lítur þad þá ekki út, einsog allflestir haldi, þad sé hægra ad ávinna Guds ríki, enn hvern annan hagnad í verøldinni? Vér viljum nú ekki tala um þá, sem hafa gjørsamlega afrækt hina himnesku køllun, og afneita Gudi og ríki hans og réttlæti, edur hirda ekkert um þad. En þegar þeir, sem kalla sig kristna og vilja med eingu móti afneita kristinni trú, þegar þeir lifa samt án Guds í heiminum, þegar vér sjáum þess eingan vott, ad þeir leiti Guds réttlætis, þarsem þeir adeins sækjast eptir jardneskum munum: þá verda slíkir menn ad ætla Kristur taki vid syndurum, þótt þeir láti ekki af syndum sínum, og syndafyrirgefníng sé til án apturhvarfs, edur ad sønn og sáluhjálpleg trú sé til, án ávaxta trúarinnar. Og þó hafa þeir heyrt Guds ord, en Gud komi til! hvernig hafa þeir heyrt þad?

Gefid því gaum ad, hversu þér hlýdid kenníngu minni

(Lúk. 8, 18)! sagði Drottinn vor, og öðru sinni sagði hann: þeim, sem heyrir orð mín og breytir eptir þeim, vil eg líkja við forsjálan mann, er hefir reist hús sitt á bjargi (Matth. 7, 24); og þá er hann sagði: sælir eru þeir, sem heyra Guðs orð, bætti hann þessu við: og varðveita það (Lúk. 11, 28)!

Kristin trú getur eingu til leiðar komið, nema menn þekki hana, og þessvegna er það hið fyrsta af öllu, sem þarf til þess Guðs orð geti borið ávöxt, að mennirnir hafi heyrt það. Postulinn segir: hvernig eiga þeir að ákalla hann, sem þeir hafa aldrei trúað á? en hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir hafa aldrei heyrt neitt um? en hvernig eiga þeir að heyra, án þess nokkur prédiki; og þvínæst segir hann: þannig kemur trúin af heyrninni, en Guðs orð lætur menn heyra (Rómv. 10, 14. 17). — Að vísu er til í mannlegu hjarta meðvitund um Guð, þar er og meðvitund um lögmál Guðs og um afbrot mannanna og mannlega eymd; þar er og til meðvitund um að maðurinn geti ekki hjálpað sér sjálfur, heldur verði hjálpræðið að koma af himnum ofan; en öll þessi meðvitund er svo óskír, að hún vaknar ekki né þroást, án raddar, er komi utanað. Einginn þekkir hinn eina sanna lifanda Guð, utan hann hafi heyrt Guð nefndan, og því síður þekkir nokkur maður hjálpræði það, sem Guð hefir fyrirbúið hverjum manni, utan hann hafi heyrt fagnaðarboðskap Krists. "Nú vil eg spyrja — segir postulinn enn fremur — hafa þeir ekki heyrt? Jú, sannlega! röddin er farin útyfir alla jörðina, og orðið er komið til endimarka heimsbyggðarinnar (Róm. 10, 18)." Og vér getum einnig spurt: hafa þeir ekki heyrt? er nokkur sá á meðal vor, er ekki hafi heyrt? Fjærri fer því! Guðs orð er ekki fágætt vor á meðal, það er ekki lokað inni, og ekki er því tálmað á annan hátt, það greiðir sér götu að höllum og hreysum, það ávarpar barnið, undireins og það fær nokkurt vit, og uppfrá þeim tíma verður það fyrir manninum æ af nýju, enda þótt hann sé hirðulaus og léttúðugur. En það sýnir sig og á hverjum stað, að Guðs orð beitir eingu töfravaldi, það neyðir eingan mann, og birtir ekki mátt sinn á móthróanlegu hugarfari; hver sem á að géta öðlazt hlutdeild í

Guðs ríki, verður að leita Guðs af frjálsum vilja. Því einsog maðurinn megnar alls ekkert, án þess kollun Guðs sé áður búin að ávarpa hann, og guðleg aðstoð styðji hann, svo er og nokkuð hinsvegar, sem Guð hefir lagt á mannsins vald; þú getur virt Guðs orð, en þú getur og vanvirt það, þú getur leitazt við að festa það í huga þínum, en þú getur og leitazt við að reka það jafnóðum út þaðan með annarlegum hugsunum. Þessvegna var það og, að þegar Drottinn vor leit yfir mannfjöldann, er hafði sjálfkrafa safnazt að honum til að heyra orð hans, og hann hóf að skíra frá ávextum orðsins í eptirlíkingunni um sáðmanninn, er fór út að sá (Matth. 13, 3 o. n. v.), þá gat hann fyrst um það sæði, er féll niður við veginn, og etið varð af fuglum himins. Og færi það svo með hin máttugu og indælu orð Drottins vors og Meistara, hvernig getum vér þá furðað oss, þó margir af þeim, sem heyra Guðs orð af vorum vörum, hafi þess eingin not, og það gjöri alls eingin áhrif á þá? Þó telur og Drottinn vor þessa menn með þeim, sem orðið heyra, en það eru og þeir, er hann kveður svo að orði um, að þótt þeir heyri, heyri þeir ekki né heldur skilji.

Því sálin hefir heyrn, og hún verður að heyra Guðs orð, áðurenn það geti komið nokkru til leiðar, svo vitið skilji þýðingu þess, og hjartað finni til máttar þess. Þessvegna leitumst vér við að leiða Guðs orð til hins innra manns, sem hulinn er, og sannlega verður það ekki æfinlega til ónýtis. Nei, Faðir vor á himnum! hversu veikir sem vér erum, hversu optlega sem orð þitt kólnar og deyr á vörum vorum, þá synjar þú samt ekki þeim, er biðja þig, svo gjörsamlega Anda þíns, að rödd vor sé ekki opt og einatt öflug og hvell og lifandi, þá er vér boðum orð þitt. Og þá eru og þeir til, sem taka við því með fögnuði, er þeir heyra það. Þeir taka við því með fögnuði — þá verður það og að hafa komizt að eyrum sálna þeirra, og gjört áhrif á hinn betra hluta mannsins, því sá fögnuður, sem Guðs orð gleðir, er ekki holdlegur; sá fögnuður, sem vér þá verðum varir, er hægur og blíður, og það lítur svo út, sem tárin, er þá renna, beri þess vitni, að hjartað sé viknað, og þeir strengir snortnir, sem taka aðeins undir hinar himnesku raddirnar. Og ættum

vér ekki ad fagna sjálfir, er vér sjáum slíkan fögnud? Þarna, segjum vér þá, grær sádid, þarna hefir ordid fundid gódan akur, er þad getur vaxid á og borid ávöxt. — Æ, Drottinn vor og Meistari! þú ert ad búa þjóna þína undir hryggilega reynslu, er þú segir þeim, ad undir hinu mjúka yfirbordi leynist optlega hin harda hella, og þeir séu til, er taki vid ordinu med fögnudi, en láti þad ekki festa rætur í hjarta sínu, og trúi um stundarsakir, en falli frá á tíma freistingarinnar; og þessi tími freistingarinnar er optlega svo nálægur þeirri stund, þá er þeir fögdust trúa, ad þar er ekki á milli nema augabragd. Ydur ásaka eg ekki, er eg gat aldrei búizt vid neinu af, er létud mig aldrei efast um, ad Guds ord hefdi eingin áhrif á ydur gjört, þarsem eg vissi óvinur Guds og ydar var vidstaddur, og tíndi hvert sádkorn jafnótt og eg sádi því. En þér, sem ómótmælanlega heyrdud med eyrum ydrum, og skildud Guds ord og fundud til þess í hjörtum ydrum, og fundud ad kraptar ædra heims hreifdu sér í brjóstum ydrum; þér, sem sýnduzt ekki geta komid ordum ad mætti lífs þess, er vaknad var í ydur: eg hefi séd ydur á stundum gudrækninnar og frá ydur numda af andlegum fögnudi, og svo hefi eg aptur séd ydur á stundum freistinganna, — og hvad sá eg þá? Þad voru breiskir menn, er hrasa, en hryggjast jafnframt vegna synda sinna, og kannast vid hvad rétt sé og þrá styrkleika til ad geta breytt samkvæmt þekkingu sinni — nei! þad var opt og mörgum sinnum einsog þessir menn hefdu aldrei heyrt nokkurt Guds ord, og aldrei heyrt talad um gudlegt réttlæti, og aldrei hefdi nokkur neisti gudsótta og ástar á Gudi vaknad í hjörtum þeirra, einsog þeir þekktu ekkert lögmál, hverki á himni né jördu, sem mönnunum bæri ad hlýda. Og fyrir því skal eg safna ydur saman, yfirdrepstár! og á dómsdegi skal eg bera ydur fram fyrir veldisstól hins eylífa Guds, ekki samt til þess, ad þér skulid vitna í gegn hinum seku — Gud leidi þá til idrunar og apturhvarfs! — heldur til þess þér getid borid mér vitni, ad eg hafi ekki hætt, fyrrenn eg var búinn ad koma Guds ordi inní þau hjörtu, sem gátu skilid þad og fundid til þess. Og þá skal eg einnig safna saman brennheitum harmatárum augna minna, er svo optlega hafa sært hjarta mitt, og þá skal

eg dirfast ad segja: Drottinn minn! eg hefi einnig borid minn kross í veroldinni, eg hefi einnig ad nokkru leiti bergt á þeim kaleik, er þú tæmdir, þegar þú barst synd allrar veraldar. —

Þegar Drottinn vor leit yfir mannfjøldann, er hafdi safnazt ad honum, sá hann marga, er svo var háttad, ad hid góda sædid óx upp medal þyrna í brjóstum þeirra. Og vér sjáum þad einnig, ó! vér getum ekki annad enn séd þad, hversu mikid illgresi leitar alstadar vid ad kefja nidur hid góda sædid. En medan vér getum, vonum vér hins bezta og optlega rætist von vór, því þeir eru þó til, sem leita Guds af alvoru og heitum hug, er Gud adstodar, svo þeir geti sigrazt á hinum illu girndum, er þeir hafa sjálfir óttazt einsog vér. En þeir eru og til, sem ekki óttast og ekki vaka og bidja, og þyrnarnir vaxa upp í þeim og kefja nidur ordid, svo þad verdur ávaxtarlaust. Vér tølum ekki á þessum stad um þá, er hverfa frá Gudi opinberlega, og kasta sér í fadm stórglæpa og svívirdingar, heldur um þá sem svo er varid, ad girndir og áhyggjur þessa heims, ad ágirnd og drambsemi og hegómagirnd og sællífi sprettur uppyfir trúna og vonina og kærleikann, og kæfir nidur smátt og smátt hverja góda tilfinning, er snemma hafdi vaknad í brjóstum þeirra, svo þeir heyra ekki framar køllun Guds, edur þá ad minnsta kosti láta sem hún snerti ekki sjálfa þá, svo þeir versna med aldrinum, og missa fjør og afl æskumannsins og fá adeins ókosti ellinnar, en ekki vizku hennar.

En hversvegna er oss skírt frá því, ad þyrnarnir kefji svo optlega hid góda sædid á þenna hátt? Mundi þad vera eingungis til þess, ad vér skulum læra einu atridi meir af mannþekkingunni sem køllud er, og fá ad vita hvernig þad sé vant ad fara í veroldinni, og vid hverju vér megum búast af mønnunum? Þad er sannlega ekki einúngis til þess, heldur enn þessi ord: hví sér þú flísina í auga bródur þíns, en gætir ekki ad bjálkanum í auga þín sjálfs (Matth. 7, 3), eru til vor tølud einúngis til þess, vér skulum taka eptir því, ad adrir menn séu vanir ad vera hardir í dómum sínum um adra en hlífa sjálfum sér. Þeir menn eru ad sønnu til, er med fullum røkum mega heita spakir á verald-

legan hátt, því þegar þeir lýsa spillíngu mannlegs hjarta, gjøra þeir þad einúngis til ad sýna, hvernig þad hafi verid og hvernig þad sé og hvernig þeir búast vid þad muni ætíd verda, og hverju vér megum ætíd búast vid af sjálfum oss og ødrum. En þegar Drottinn vor og Meistari dregur skýluna af hjartans hryggilegum leyndardómum, gjørir hann þad afþví hann ætlar ad krefjast betrunar, og vill ad sérhver á medal vor byrji á því ad betra sjálfan sig. Vilji adrir ekki heyra ord hans, þá átt þú samt ad heyra þau, og vilji adrir ekki breyta eptir þeim, þá átt þú samt ad breyta eptir ordum Drottins þíns; og ef þú hælir þér af hyggindum og viti, svo þú getir tekid eptir gjørdum mannanna, og gefid þeim nøfn og metid þær, og sagt hvers þær séu verdar, og getir grannskodad mannleg hjørtu, og þekkt hinar huldu hvatir þeirra, og séd þyrnana, sem spretta upp og kefja hid góda: o! hafdu þá vit þitt fyrst og fremst til ad skilja sjálfan þig, og þekkja hjarta sjálfs þín, því þyrnarnir spretta einnig í því; og ætlir þú ad lagfæra ávirdíngar, þá byrjadu á því, einsog sanngjarnt er og hæfilegt, ad lagfæra sjálfan þig, þad eru sannindi, ad hér á sá málsháttur vid, er þú ber svo optlega á vørum þér, ad hver er sjálfum sér næstur.

Hversu ómissandi er alvarleg og hreinskilin sjálfsprófun! Sérhver madur verdur þó ad játa, ad þad stendur ekki á sama, hvílíkir vér erum, hvert sem þad er heldur í ordum og gjørdum, í sambúd vorri vid adra menn, edur í hugskoti voru, í hinni djúpu uppsprettu, sem øll vor ytri hegdan er framkomin af. Þad er til, sem rétt er og gott, og þad á madurinn ad gjøra, slíkur á hann ad vera; þad er og til, sem rángt er og illt, og madurinn á ad fordast hid ránga, og hinu illa á hann ad rýma burt úr hjarta sínu. En þú sem kannast vid, ad takmark sé til, sem madurinn eigi ad komast ad, og vegur er hann eigi ad þræda; heldurdu þá í raun og veru, ad straumur lífsins flytji þig sjálfkrafa ad þessu takmarki, ef þú adeins lætur berast fyrir honum, og ad sérhver leid sem fótur þinn þrædir, rétt einsog verda vill, muni koma á hinn rétta veg, ef þú adeins heldur beint áfram? Edur heldur þú í raun og veru ad tilfinníng hjarta þíns sé svo hrein, ad þú sjáir undireins ad allt hid illa

sé illt, og sérhver skeikun af réttum vegi sé villa? eður heldur þú að sérhver laungun hjarta þíns sé fýsn til þíns góða, og að sérhvern fýsn í þér, sem er góð í raun og veru, sé svo vakandi, að hún hvetji þig jafnan og aptri þér þegar þess þarf, svo þú þurfir ekki nema láta hjartað ráða, til að geta orðið vitur og góður, og náð ákvörðun sálar þinnar. Hver hefir litið yfir heiminn og skoðað hann alvarlega, án þess hann hafi séð, hvernig straumar spillingarinnar velta fram með háum og eflugum öldum, stundum hægt og stundum hart, og hvernig þeir flóa optlega út í skyndingu og þegar minnst varir, og hrífa með sér ugglausa menn úti þúngstreymi framrásar sinnar. Hver hefir séð hinar mörgu leiðir, sem mennirnir fara í veröldinni, án þess hann hafi orðið að viðurkenna, að einsog sá vegur er til, sem leiðir til lífsins, svo er og til sá vegur, sem leiðir til glötunarinnar, og að hann er breiður og hægur yfirferðar, og þeir eru margir, sem finna hann (Matth. 7, 13)? Hver hefir látið optir hjarta sjálfs sín, og gjört hvað hann vildi, og látið það ógjört, er hann fýsti ekki að gjöra, án þess hann hafi optlega síðan orðið að viðurkenna, að hann hafi framið hið illa og látið hið góða ógjört, og ekkert hafi verið í honum, það er nógsamlega áminnti hann og hvetti? Allir góðir andar hafa þá þagað, eður réttara að segja, þeir hafa að sönnu talað, en gjört það með undarlegum andaröddum, en maðurinn var heptur af jarðneskum munaði og heyrði ekki raddir þeirra. Hver hefir nokkru sinni prófað sjálfan sig, þó ekki væri nema einusinni, rétt af forvitni, til að vita hvað í sér byggi, án þess hann hafi komizt að raun um, hversu margar illar girndir búi í honum, og að þær komi ekki fram einar sér, svo vér getum sagt: þarna er hið góða og þarna er hið illa, heldur læsi hið illa í oss sig innanum hið góða, á undarlegan og hryggilegan og hættulegan hátt? Þessvegna er það svo áríðandi, að vér prófum sjálfa oss kostgæfilega, svo þegar vér heyrum Guðs orð, og heyrum hinar eflugu áminníngar og viðvaranir, er þrísta samvizkunni til að kannast við vald þeirra, þá séum vér ekki hugunarlausir tilheyrendur, né séum, einsog postulinn að orði kemst, líkir þeim manni, sem

gáir að andlitsskapnaði sínum í spegli og gengur á burt og gleymir hvílíkur hann var (Jak. 1, 23).

En eigi þessi sjálfsprófun að koma að haldi, hlýtur hún að vera hreinskilin. Orðið hreinskilni þýðir harla mikilvægan og ómissandi hlut í sambúð manna; mannlegt félag mundi steypast ef hana vantaði gjörsamlega. Hverja kosti sem menn hafa að öðru leiti, þá er samt allur orðstýr þeirra flekkaður, ef þeir eru óhreinskilnir, ef þeir vilja svíkja og pretta, ef þeir draga oss á tálar og eru öðruvísi, enn þeir látast vera, og vita annað, enn þeir vilja vér skulum ímynda oss þeir viti. En maðurinn getur ekki aðeins svikið aðra, hann svíkur einnig optlega sjálfan sig, ímyndar sér að hann sé lángtum öðruvísi, enn hann er í raun og veru, og finnur til annars, enn hann vill vera þekktur að, ekki aðeins fyrir öðrum, heldur og fyrir sjálfum sér. Þegar það er sagt um einhvern mann, að han gæti ekki bjálkans í auga sín sjálfs, hvað getur það heitið, nema óhreinskilni við sjálfan sig? Hann yrði þó að geta orðið var við hann, ef hann aðeins vildi líta á sig með sömu augum, og hann skoðar aðra með, og vildi hafa hin sömu orð um sjálfan sig, og hann hefir um aðra.

En þarsem þessi óhreinskilni er svo almenn og örðug að sigrast á, þarsem það á heima hjá svo mörgum, er postulinn segir, að orðið, er þeir heyrðu, kom þeim til eingra nota, vegna þess það fyrirhitti einga trú hjá þeim, er það heyrðu (Hebr. 4, 2), þarsem kollum Guðs og orð hans verða svo optlega ávaxtarlaus hjá þeim, er þau heyra og þeim er ekki heyra þau — eigum vér þá að sleppa þeim? eigum vér þá að hætta að kalla, að tala, að áminna, að aðvara? Satt er það, á hryggðar-stundum vorum getum vér freistast til að halda starf vort sé sálardrep og ónýt mæða. En þú, sem hefir svölun handa öllum þeim, er vinna og þjást, þú, sem ert huggun allrar veraldar! þú hefir og huggun handa þjónum þínum, í mæðu þeirra og andstreymi. Þegar bóndinn hryggist afþví hann sér að sæðið, er hann sáði, kemur ekki upp, eður að það, sem upp er komið, visnar aptur, eður að illgresið vex upp á meðal þess og kæfir það niður: Drottinn minn! ættu þá ekki þjónar þínir að hryggjast, er orðið af vörum þeirra hittir fyrir steinhjörtu, sem ekkert bítur á, eður

hjørtu, sem eru lin einsog var, er láta undan øllu, svo hvert á-hrifið eyðir øðru, eður hræsnisfull hjørtu, er lofa øllu, en enda ekkert, og hafa aldrei ætlað sér að enda neitt, eður þegar girndir og áhyggjur þessa heims spretta upp í hjartanu og kæfa niður hið góða sæðið? En það hefir farið eins fyrir þér, þá er þú gekkst á meðal mannanna, og þó var sérhvert af orðum þínum líf og andi! og lærisveininn er ekki fremri meistara sínum. En það sæði var og til, er féll í góða jørð — O! fyrst vér viljum að aðrir skuli trúa orði þínu, því skyldum vér þá ekki trúa því sjálfir? — Það sæði er og enn til, sem fellur í góða jørð, og sprettur og ber ávøxt — mikinn eður lítinn, en þó má það heita ávøxtur. Þeim sem vinnur, ber að vinna í voninni, og þeim sem sáir, ber að sá í voninni: sjá! bóndinn væntir dýrmæts á-vaxtar jarðarinnar, en þreyir þó, þángaðtil hann fær morgun- og kvøld-døggina; hjálpa þú oss, Drottinn vor! að vér get-um einnig verið þolinnmóðir og styrkvir í hjørtum (Jak. 5, 7. 8)!

---

## 55.

## Apturhvarf til Guðs.

Þegar Páll postuli fór í seinasta sinni til Jerúsalem, afþví hann fann æ betur og betur til køllunar þeirrar, er bauð hon-um fara til vesturlanda, til nýrra starfa og nýrra forlaga, stefndi hann til sín á leið sinni øldúngunum í Ephesus, þar hann hafði lifað og starfað lángan tíma. Þegar hann skildi við þá, var hann sannfærður um, að einginn í þeim héruðum mundi sjá hann þar framar; nýr vegur hafði lokizt upp fyrir honum, og hann vonaðist eptir að sá vegur mundi verða sér ánægjulegur einsog hver annar, er hann hafði farið, og að hann mundi geta rekið á honum eyrindi það, er Drottinn Jesús hafði fengið honum; að øðru leiti vissi hann ekki hvað fram við hann mundi koma, utan að fángelsi og þrautir biðu hans í hverri borg. Á þessari alvarlegu og hátíðlegu skilnaðarstund minnti hann øldúnganna

á, hvernig hann hefdi hagad sér allan þann tíma, er hann hafdi með þeim verið, hann minnti þá á, hvað hann hefdi þolad á medal þeirra, hvad hann hefdi starfad, og hvad hann hefdi kennt bædi á opinberum samkomum og í heimahúsum. Hann taldi til tvo adalatridi, nefnilega apturhvarfid til Guds, og trúna á Drottinn vorn Jesúm Krist (Post. 20, 17).

Enda á líka öll hin kristilega kenning ad vera full af þessu tvennu. Þegar í öndverdu prédikadi Drottinn sjálfur í Galílæa á þenna hátt: snúid ydur og trúid fagnadarbodskapnum (Mark. 1, 15)! Som ér og þýding þess, er sagt er af seinustu dögum hans á jördunni, ad hann hafi opnad hugskotsaugu lærisveina sinna, svoad þeir skildu ritningarnar, ad þetta átti Kristur ad þola, og rísa upp frá daudum, og ad prédika átti öllum þjódum apturhvarf og fyrirgefníng syndanna (Lúk. 24, 45); því fyrirgéfning syndanna fæst fyrir trúna á hann.

Hvert af þessum atridum er hugmynd fyrir sig. Samt sem, ádur megum vér ekki ímynda oss, ad þau séu adskilin í huga mannsins á slíkan hátt, og þau eru þad í rædu hans. Þau eru náskyld; því ádurenn hugur mannsins geti tekid þau umskipti, ad hann snúi sér kostgæfilega til Guds, hljóta nokkrir neistar af sannleika ad vera fallnir í sálina, og hún hlýtur ad hafa veitt sannleikanum vidtöku af nokkurri sannfæring, og stydjast sídan vid hann med nokkurri trú; og ádurenn trúin geti kviknad, og ádurenn hjartad geti veitt Gudi og miskunarordum hans vidtökur, af sannri þörf, med trausti og fögnudi, verdur þad hinsvegar ad hafa tekid nokkur háttaskipti, því holdlega sinnadur madur, sem er öldúngis sokkinn nidur í veröldina, skilur ekki þá hluti, sem snerta Guds anda (1 Kor. 2, 14). Guds ríki kemur ekki allt í einu í hjarta mannsins, heldur sprettur þad smámsaman af litlu frækorni, þessvegna er apturhvarfid í þessu lífi aldrei svo fullgjört, ad hugurinn verdi ekki ad snúast æ betur frá upprunalegu edli sínu, og hinn nýi madur ad koma æ betur í ljós, og þad verdur fyrir trúna; ekki er trúin heldur nokkurn tíma svo stadföst og fjörug, ad menn þurfi ekki ad efla hana og auka, en þad verdur á þann hátt, ad sálin snýr sér æ kostgæfilegar og innilegar til Guds. Apturhvarf og trú eru því

ætíd samfara í kristilegu liferni; en þad er víst, ad eigi seun og sáluhjálpleg trú ad geta glædzt í hjarta mannsins á þann hátt, ad sá, sem trúir, fái fyrirgefníng syndanna í Jesu nafni Post. 10, 43), verdur fullkomin umbreiting ad vera komin á, verdur hugur og andi ad hafa ummyndazt; því Drottinn, Meistari vor og Frelsari, lætur fyrst boda apturhvarf og sídan fyrirgefníng syndanna. Á slíkan hátt prédikudu og postular hans, er þeir sögdu: takid sinnaskipti, og snúid ydur, svo syndir ydar geti ordid afmádar (Post. 3,19).

Nú nemum vér fyrst stadar vid þad atridid, sem Drottinn vor heimtar ad eigi ad gánga á undan, en þad er apturharf id til Guds.

Frumrit heilagrar ritníngar hefir tvö ord, þarsem vér adeins höfum eittsaman ordid apturhvarf. Annad þeirra samsvarar voru ordi ad öllu leiti, og er í því líking tekin af þeim, er villzt hefir af réttum vegi og alltaf villist því meir, sem hann heldur lengra áfram, og fyrirferst svo ad lokunum. Sá sem litur hann viltan og kennir í brjóst um hann, segir honum ad hverfa aptur; og ef hann heyrir þad og hlýdir því, og snýr aptur, á hann enn frelsisvon. Hitt ordid, er postulinn hafdi í grein þeirri, er eg tilfærda fyrir skömmu, þýdir í raun réttri þá breiting hugarins, ad madurinn rannsaki sjálfan sig og hugsi um undanfarna hegdan sína, og breiti svo hugarfari sínu, og endurnýi þad, og snúi því til Guds. Vér viljum því fremur vardveita þessa þýdíngu ordsins, sem hún minnir oss á, ad þad apturhvarf, sem heimtad er af oss, er ekki breiting á eintómri hegdan vorri fyrir manna sjónum, heldur og á hugarfarinu sjálfu — þad er apturhvarf sálarinnar til Guds.

Þetta er meiníng Krists postula, þegar þeir segja, ad Gud bjódi öllum mönnum alstadar ad snúa sér (Post. 17, 30). Þess krefdust þeir, einsog nærri má geta, af heidingjunum, þad er: þeim, sem höfdu þjónad falsgudum, lagt trúnad á allskonar villu, og optlega framid svívirdilega gudsdýrkun. Þessir menn höfdu ad sönnu þörf á ad snúa sér til hins lifanda Guds, og sérhver geisli, sem ljómadi í myrkinu, sérhver áminning um ad láta af villu þessari, og hafna lýgi og hégóma heidindómsins, en trúa á

sannan Gud, midadi til ad koma til leidar apturhvarfi og sinna-skiptum. En postularnir prédikudu ekki fyrir heidíngjum einum-saman apturhvarf, þad er þeim var bodid ad kenna; einsog Jóhannes hafdi bodad Gydingum apturhvarfs-skírn, einsog Drottinn sjálfur hafdi bodad þeirri þjód apturhvarf, er hann eptir mannlegu edli sínu var af kominn, eins segist og Páll postuli hafa bodad Gydíngum og Grikkjum apturhvarf til Guds. Þad er þá audséd, ad sú þjód, sem frá upphafi vega sinna hafdi þekkt sannan Gud, og trúad á hann, og í lánga tíma hafdi ekki tekid þátt í heidínglegri villu, þurfti einnig ad halda á apturhvarfi til Guds. Og hver getur efazt um, ad einnig medal vor, sem Kristnir kellumst, og ekki þekkjum skurdgodavillu, nema af gømlum frásøgum, þurfi einnig ad prédika apturhvarf? Því medan nokkrir afvegir og nokkur villa er til, er apturhvarf naudsynlegt.

A ødrum stad segir Páll postuli: sáluhjálpleg miskun Guds, sem kunn er ordin øllum mønnum, býdur ad afneita ógudleik og veraldlegum girndum, en lifa sidsamlega og réttlátlega og gudrækilega í heimi þessum (Tit 2,11. 12). Nú ef einhver hefir ekki svomikid til ad bera, sem sidsamlega hegdan, ef hann er atadur øllum þeim løstum, sem heimurinn sjálfur hefir vidbjód á, og gengur hinn opinbera veg til gløtunarinnar, þá segja allir menn, ad hann þurfi ad hverfa aptur. En hversu lítid er þó varid í hina ytri sidsemi! Eg ætla ekki ad spyrja, hvert nokkur haldi, ad kristilegur fullkomleiki sé í því fólginn, ad menn leggji nidur opinbera lesti, sem hagga allri mannlegri skipun, og séu sidsamir fyrir manna sjónum; heldur spyr eg, hvert hugmyndum nokkurs manns um sidgædi sé med slíku fullnægja gjørd, hvert hver madur kannist ekki vid, ad menn geti vanrækt margar skyldur og heilagar, hvad sidlátir sem þeir eru í hegdan sinni. Þessvegna bætir postulinn ødru ordinu vid, sem er: réttlátlega, og þad ord er mikilvægt og yfirgripsmikid. Ad lifa réttlátlega í veraldinni innibindur í sér dyggva og støduga skyldurækt vid alla menn, ad gjalda sérhverjum þad, sem honum ber, ad gæta sýslu sinnar af øllum mætti, sem Gud hefir gefid manni, ad búa í landinu og leita sér atvinnu á leyfilegan hátt, ad fordast allt óréttlæti

og ekki adeins fordast áseilni, svik og undirokun, heldur og breyta vid hvern mann í öllum vidskiptum eptir því sem rétt er og sanngjarnlegt. Hver sem ekki hefir lifad á þenna hátt, þarf apturhvarfs vid, og þarf þess í hvert sinn, er hann víkur frá réttlætinu, og hvernig sem hann gjörir þad.

Mikilvæg eru ord eins spámannsins, er hann segir: þeir snúa sér, en ekki samt til himins (Hós. 7, 16), ekki til Guds. Þad lítur svo út, spámadurinn álíti, þad sé til apturhvarf, sem ekki sé sannarlegt apturhvarf, medþví sálin hverfi ekki til uppsprettu lífsins. Þessvegna segir og postulinn, ad hann hafi bodad öllum apturhvarf til Guds, og þegar hann minnist á, ad kristin trú kenni oss, hvernin vér eigum ad hegda oss í veröldinni, segir hann, ad vér eigum ekki adeins ad lifa sidsamlega og réttlátlega, heldur og ad vér eigum ad lifa gudrækilega. Enda eru til margir menn, sem eiga skilid mikid lof fyrir réttláta hegdan, en samt sem ádur verdum vér ad segja, þeir lifi án Guds í heiminum, þó vér getum ekki sagt, þeir lifi ógudlega. Þeir hafa haldid áfram leidar sinnar, og séd stórmerki Guds umhverfis sig, en hverki hafa hersveitir himinsins, né blóm jardarinnar, né brimrót sjáfarins, getad komid þeim til ad snúa sál sinni til hans, sem skapad hefir himininn og jördina og hafid, og allt þad, sem í þeim er. Ef þeir hafa þegid hid góda, þá getur verid, þeir hafi varid því án drambsemi og munadar, en þeir hafa ekki þegid þad svo, sem væri þad frá Drottni, og þeir hafa ekki komizt svo vid, ad þeir hafi lofad Gud og þakkad honum. Ef þeir hafa þolad hid illa, þá getur verid, þeir hafi verid þolgódir, en þeir hafa samt ekki gefid sig á vald vilja hans, sem einnsaman er vitur, þeir hafa ekki lypt upp augum sálar sinnar úr myrkri hryggdarinnar til Guds ríkis, þar hinn eylífi fridur á heima. Þeir hafa fundid til áminninga og advarana samvizkunnar, og þad getur verid, þeir hafi jafnan breytt eptir þeim, en þeim hafa adeins fundizt þær vera kröfur edlis síns, og ekki raddir Löggjafa þess, er heldur saman öllu, sem lifir á himni og á jördu, med lögum sínum, en allt þad, er hvetur oss til góds, eru geislar af heilögu edli hans. Á slíkan hátt halda þeir áfram, á slíkan hátt gánga þeir í mót dauda sínum, og vera má, þeir bídi hans

óttalausir, einsog þeir hinsvegar frá hann ekki, þeir hirda ekki um neitt sem heiti hefir, og þessvegna er einginn sá hlutur á jørdunni, er þeim þyki neitt fyrir ad skilja vid; þeir vænta sér einskis betra, og geta því sleppt voninni um ad mega sjá nokkurn mann aptur, sem þeim var náinn á jørdunni; þeir sleppa voninni um Gud í eylífdinni, einsog þeir høfdu sleppt henni í þessu lífi. Í tilvern þessara manna vanta øll hin sønnu blóm lífsins, sem ein eru fær um, ad breita eydimørk tilverunnar med ylmi sínum og fegurd sinni í indæla paradís, og þessir menn þurfa líklega ad snúa huga sínum og hjarta sínu.

Því meir sem vér íhugum hugmynd kristinnar trúar um apturhvarf, því gjørr sjáum vér, ad hún innibindur í sér, ad madurinn verdi ad breita gjørvøllu líferni sínu, ádur hann geti ordid hluttakandi í velgjørdum Krists. Þessvegna sjáum vér, ad þegar postularnir tala um þessa breiting, eru þeir mjøg skorinordir, og heimta, vér skulum afklædast hinum gamla manni, og endurnýast í anda huga vors, og íklædast hinum nýa manni, sem er skapadur eptir Gudi í rettlæti og heilagleika sannleikans (Eph. 4, 22). En skorinordastur er þó Drottinn sjálfur, þarsem hann segir: sannlega, sannlega segi eg ydur, einginn getur séd Guds ríki, nema hann endurfædist (Jóh. 3, 3).

Ordin leida hugrenníngar í ljós, en hugrenníngarnar koma frá djúpi sálarinnar; og ef mjøg mikill mismunur er á þýdíngarmiklum ordum hjá þeim, sem tala, þá er og mismunur á hugarfari þeirra. Þegar vottar Krists fóru út um allan heim, eptir skipun hans, til ad boda fagnadarerindid, þá urdu þeir ad læra ad tala nýar túngur; þeir tóku hinar annarlegu túngur, og hvert sem þær voru hjálar edur óhjálar, þraungvudu þeir þeim til ad leida í ljós leyndardóma Guds, þeir hrærdu hina hjartnæmustu strengi, og tóku þau ord úr málinu, er komin voru úr innstu fylsknum mannlegs hjarta, og úr þeim bjuggu þeir til nokkurskonar nýa túngu, þeim hlutum sambodna, er hún átti ad birta, og á hana mæltu þeir þad, sem snertir Guds ríki. Á þenna hátt vard ad sønnu hljómurinn margvíslegur eptir þjódunum, er í hlut áttu; en kenníngin var søm fyrir þad, því þad voru tákn og stórmerki Guds, sem verid var ad boda,

og hin djúpsæraſta speki og þekkíng, er hinar margvíslegu radd-
ir tøludu. En einsog þad má boda fagnadareyrindi Krists á
ýmsar túngur, án þess þad breitist á nokkurn hátt, eins má og
boda þad á sama málid svo, ad þad verdi øldúngis ólíkt. Þeg-
ar menn taka hin helgustu ord, sem sókt eru í djúp mannlegs
og gudlegs anda, og setja ønnur í þeirra stad, sem adeins þýda
eitthvad, sem vidber á yfirbordi tilverunnar; þegar menn halda
hugmyndirnar um mikilvægustu adalsannindi kristinnar trúar, séu
adeins austurleuzkar myndir, er menn verdi ad afmá smátt og
smátt, svoad spjaldid, er þær voru dregnar á med mikilli fegurd,
geti ordid øldúngis audt; þegar hinar alvarlegystu og hørdústu
áminníngar smámsaman eru deyfdar, til þess þær heimti ekki
ofmikid, og nefn dygda og glæpa eru løgud eptir vana verald-
arinnar, svo þau hrædi ekki um of: þá er þad til lítils, þó
nafn Krists sé nefnt endur og sinnum, og kenníngin sé kølluд
kristileg, því þá er hún þad ekki.

Þetta veldur ad menn heyra nú sjaldan nefnt ordid endur-
fædíng, og eg heimta ekki heldur, ad þad sé jafnadarlega
nefnt í daglegu tali, því vér eigum ekki ad venja oss á, ad hafa
þau hin mikilvægustu ord ætíd á vørunum, því á þann hátt
mundum ver svipta þau lotníngu þeirri, er þeim ber. En nú
heyrist ord þetta sjaldan, jafnvel í helgum rædum; vera má þad
þyki of þýdingarmikid og heimtufrekt, og þessvegna tala menn
heldur um ad betra sig, ad leggja nidur bresti, og sækjast eptir
dygdum. Þetta er ad sønnu innifalid í endurfædíngunni, en
getur optsinnis snortid hegdanina eina, og ekki hugarfarid, ein-
staka hluti og ekki lífernid allt. Apturámót nær endurfædíngin
til lífernisins alls. Og fagnadareyrindi Krists vill einmitt láta
oss kannast vid, ad madurinn eigi ekki ad vera ávallt í því á-
standi, sem nú er ordid honum edlilegt, heldur eigi hann ad kom-
ast úr því, med því ad breita gjørvøllu hugarfari sínu. Sumir
menn falla í opinbera lesti, en sumir eru þegar á únga aldri
vandir vid reglusemi og sidlæti; sumir fædast upp í fávizku, og
þeim er ekkert kennt til mentunar, en hjá sumum er vitid skerpt
þegar á únga aldri, og þeim eru kennd margskonar vísindi; en
í þeim øllum býr samt sú eptirsókn og sú vidleitni, sem þeim er

edlileg, en Guds ríki mótstædileg, og miskun Drottins á ad lagfæra.

En þad ástand, sem nú er manninum edlilegt, er í því fólgid, ad hann er sokkinn niduri heiminn, og álítur gædi hans hin ædstu gædi; því þad er skilníngarvitum mannsins edlilegt, ad sækjast eptir tímanlegum gædum, og fjærri fer því, ad eg segi þau sèu ill og skadvænleg eptir edli sínu. Gud skóp þau ekki til ad freista vor, heldur til þess vèr skyldum njóta þeirra í hófi og á hæfilegum tíma, og gledjast af miskun hans. En spillíngin er í því fólgin, ad stundleg áhyggja hefir deyft skilníngin á hinu andlega, og laungunin til himneskra gæda er ordin svo lítil, ad sálin vill hvílast í hinu jardneska. Hver er sá løstur, er ekki sè sprottinn af þessari ósedjanlegu eptirsókn jardneskra gæda, er kemur manninum til ad brjála nidurskipun Drottins, og sækjast eptir hinu ódædra, svosem væri þad hid ædra? En þad er ekki á løstum og óbótaverkum einum, ad hid jardneska hugarfar sýnir hversu algengt þad sè; því optsinnis sjáum vèr, einnig hjá þeim, sem hegda sèr óadfinnanlega, og eru skynsamir, og, ef til vill, í mørgu tilliti maklegir elsku vorrar, nokkurskonar fastheldni vid stundlega hluti, sem tálmar hinu ædra lífi. Þegar hyggindin vara oss vid syndum, og hvetja oss til gódra verka, þá er þad optastnær inntakid, ad vèr eigum ad fordast syndina, afþví hún steypi þeim í ógæfu, sem í henni gjørist sekur, en sækjast eptir dygdinni, afþví hún veiti stundleg gædi, heilsu, velmegun og heidur. Eg ætla nú ekki ad grenzlast eptir því, hvert þetta sè satt, og ekki heldur eptir því, hvernig fara mundi, ef vèr kenndum únglíngunum ad haga sèr eptir þessu, og þeir sæu sídan ad løstirnir hreykja høfdi hegníngarlaust, ad hégómagirni og drambsemi og sèrplægni reidir vel af, en sannleikur og rèttlæti verda fyrir mótspyrnum og ofsóknum; en ad hinu spyr eg, hvert þad sè hreinlæti, ad fordast hid óhreina einúngis fyrir þá søk, ad þad eydi stundlegri vellídan? eda hvert þad sè rèttlæti, ad sækjast eptir hinu góda, einúngis vegna þess, þad veiti stundlega farsæld, ad krefjast tvøfaldrár borgunar fyrir þad sem menn láta í móti sèr, og leita sèr jardnesks hagnadar med hverju sem menn gjøra? Hversu opt verdum vèr þess ekki

varir, þegar vèr tølum við mennina um leiðslu guðlegrar forsjónar, að þeir halda hún miði einúngis til að afla tímanlegrar farsældar; meðan þess er nokkur von, að hinar ógleggu, undarlega samtvinnuðu gøtur muni geta leidt til farsællar ástands, er þeir kalla, meðan ætla þeir sèr hálfvegis að varðveita trúna; en þegar sú von er úti, þykjast þeir ekki hafa ástæður fyrir trúnni, og gleyma því, að føðurleg forsjón Guðs lýsir sèr einmitt opt í því, að hún synjar oss stundlegra gæða, eða tekur þau frá oss, til þess vèr lærum að meta æðri gæði rèttilega, og getum orðið hæfilegir til að njóta þeirra. En meðþví það kemur alstaðar fram, að maðurinn er sokkinn niðurí jarðneskan munað, þá þarf hann að breita hug og hjarta, hann þarf að endurfæðast, til að geta øðlazt Guðs ríki.

Þángað vill Guð leiða mennina, er hann lætur þá finna, að stundleg gæði eru ónóg og armæðusøm og hègómleg. Spurðu þræl auðæfanna, hvert þau veiti honum farsæld. Hann mun halda svo fast í fjársjóðu sína, einsog þú ætlir að ræna þeim frá honum, hann mun verja þá, einsog ljónið ver hvolpa sína, og samt sem áður mun hann meðkenna fyrir þèr, að hann hafi aflað þeirra með mikilli fyrirhøfn, gætt þeirra með mikilli áhyggju, og samt sè hann fátækur innanum øll auðæfi sín. Spurðu þræl hins hègómlega heiðurs á líkan hátt; vera má hann þykist øðrum fremri, og þú mundir ekki geta komið honum til að láta hót af virðingu þeirri, er hann þykist hafa aflað sèr, en samt sem áður verður hann að játa, dýrð hans hafi sært hann og meidt á margan hátt, að lof mannanna og virðing veraldarinnar sèu einsog óstøðugir vindar loptsins, að metorðagirndin sè øfundsjúk og verði fyrir øfund, að hún sè girug, og seðjist þó aldrei og fái aldrei hvíld. Spurðu ennfremur þann, er sækist eptir holdlegum munaði, og hann mun ekki þykjast geta nógsamlega aumkast yfir, eða ef til vill smánað, líf hinna iðjusømu og bindindissømu, og vildi ekki fyrir hvern mun að það ætti fyrir honum að liggja. En spyrjir þú hann svo, hvert líf hans sè ánægjufullt og indislegt og øfundsvert, mun hann sjálfur segja þèr frá lífs-leiða þeim, er kvelur hann, frá ormi þeim, er bítur hann, og aldrei deyr, frá eldi þeim, er brennur í honum og

aldrei flokknar. Þessi leiðindi, sem fylgja hinni veraldlegu nautn, og þessi þorsti, sem veröldin aldrei fær slökkt, er harla sár, og mennirnir ásaka optlega fyrir þá sök hann er stjórnar forlögum þeirra; þó leiðir hinn eylífi Faðir börn sín optsinnis aptur til sín einmitt með þessu móti; með sárindunum kennir hann þeim að leita sér lækninga, og með skorti leiðir hann þau til nægta, og með óróssemi til róssemi.

Samt sem áður heldur maðurinn, í baráttu þessari, frjálsræði sínu. Hann getur örvinglast, og sleppt voninni á Guði og sjálfum sér, á þessu lífi og öðru, og þá fer honum, einsog fótgaungumanni á eyðimörku, sem leggst heldur niður í hinn glóanda sand, og kvelst af þorsta, enn að herða sig dálitla stund lengur, til að ná til svalandi lindar. En hann getur líka haldið áfram að leita, og hver sem leitar, hann mun sannarlega finna, því lindir lífsins eru ekki fjarlægar neinum af oss. Ef nokkur heyrir köllun Guðs, þó ekki sé fyrrenn í þjáningunum, og fylgir henni, og snýr sér innst í hjarta sínu til Guðs, þá mun renna upp fyrir honum nýtt ljós, og við það mun honum sýnast lífið og heimurinn og sjálfur hann, allt öðruvísi enn áður; og ljós þetta er ekki aðeins bjart og hlýtt, heldur færir það og frið — þann frið, sem heimurinn getur ekki gefið, sem hefir ekki upptök sín í holdi og blóði, þann frið Guðs, sem æðri er öllum skilningi. Hjá sumum kemur þetta hið nýa líf snögglega, einsog þegar sólin allt í einu kemur framundan dymmu skýi, og þeir geta nærri því greint til stað og stund, er þeir hafi endurfæðzt; hjá sumum kemur það, án þess þeir verði þess varir, einsog þegar himininn er skýum hulinn, en þau eyðast smátt og smátt, og hann verður heiður um síðir; en það verður að koma hjá öllum oss, því einginn getur öðlazt Guðs ríki, nema hann fæðist að nýu. Uppruni þessa hins nýa lífs er leyndardómsfullur — því hver getur lýst veginum frá himni til jarðar? — en þegar það er orðið til, er það opinbert, því það er ekki annað enn það, sem hver maður kann og á að reyna. Þegar Drottinn vor talaði um þetta, sagðist hann tala um jarðneska hluti, það er um slíka hluti, er verða meðal vor hér á jörðunni; og hver sá, sem er honum handgenginn, verður að geta sagt

einsog hann: vér tølum það, er vér vitum, og vottum það, er vér høfum reynt (Jóh. 3, 11. 12).

Hvern þann, er nálgast land hins eylífa fridar, mun hjartad knýja til ad segja, einsog postulinn sagdi fordum, þá er Drottinn vard dýrdlegur fyrir augum hans: hér er gott ad vera, hér skulum vér reisa oss tjaldbúdir! Og hvad kemur þá til vér dveljumst þar ekki? Vér eigum ekki enn ad yfirgefa verøldina, og það er ekki adeins hid líkamlega edli vort, sem leidir oss æ ad nýu úti baráttu veraldarinnar, heldur hnigur og andlegt edli vort æ ad nýu ad umsvifum hennar, unadsemdum og andstreymi. Fyrir það er ekki øllu aflokid med einni orrustu og einum sigri, heldur þurfum vér hvern dag á apturhvarfi ad halda, því hvern dag førum vér á villigøtur. O Gud vor! yfirgef þú oss ekki, heldur kveyk í oss á hverjum degi ný áform og nýa sjálfsafneitun, og lát oss svo reyna hvad endurfæding sé! Hvert sinn er syndin hreifir vid sér í sálum vorum, hvert sinn er fásinna tælir þær, hvert sinn er verøldin æsir upp í mér íllan ákafa, hver sinn er ómennska og hirduleysi kefja í mér hinn rétta ákafa, hvert sinn er eg gleymi ríki þínu og réttlæti, hvert sinn er eg ørvænti mér nádar þinnar og miskunsemi — hvert sinn er eg skeika, þá lát mig ad nýu finna til þeirrar hryggdar, sem hér er þóknanleg og aflar sáluhjálplegs apturhvarfs (2 Kor. 7, 10)! Snú þú mér, Drottinn! svo verdur mér snúid (Jer. 31, 18)!

---

## 36.

## Trúin á Drottinn vorn Jesúm Krist.

Hver sem lesid hefir rædu Páls postula, er hann skildi vid øldúngana í Ephesus (Post. 20, 19. o. m. v.), mun sjálfsagt vidurkenna, ad þar tali rádvandur og hreinskilinn madur, svo og hitt eigi sídur, ad hann sé ekki ríngladur, né hafi látid sig villa af neinskonar hugarburdi, heldur mæli hann sønn og gætileg ord,

einsog postulinn segir á ödrum stad (Post. 26, 25). Hann var farinn ad eldast, þegar hann fór burt úr Ephesus, og hafdi kennt í mörg ár, ýmist opinberlega edur í heimahúsum, og þolad margar ofsóknir, og þegar hann horfir framá þau árin, sem fyrir höndum kunni ad vera, þá sér hann ekkert í vændum, utan bönd og hörmúngar í hverri borg. Og hvad er þad þá, sem hann hefir þolad, og er enn albúinn ad þola slíkt fyrir? hvad er þad, sem hann metur ekkert annad hjá, svoad honum jafnvel þykir ekki undir um líf sitt? hvert er þad starf, sem honum er á hendur falid, og hann er stadrádinn í ad fremja af fúsum hug, slíka stund sem honum verdi lífs audid, þrátt fyrir allskonar harmkvæli? Hann ætlar ad boda Grikkjum og Gydíngum, og hverri þjód, er Gud lofar honum til ad koma, apturhvarfid til Guds og trúna á Drottinn vorn Jesúm Krist.

Þad hefir hann og gjört, og allir hinir postularnir, sem voru í samverki med honum, og ad vísu hafa þeir ekki unnid fyrir gíg, heldur hefir Drottinn unnid med þeim og blessad starf þeirra. Hver sær í mót mælt, ad mikid apturhvarf hafi leidt af prédikun þeirra Páls postula, og menn hafi vída um lönd, einkanlega þar sem mest á reid og styrkur mannkynsins er mestur, snúizt frá skurdgodavillu til hins sanna og lifanda Guds, og hof og hörgar hafi eydzt, en kirkjur verid reistar til ágætari gudsdýrkunar, og ad sú gudsdýrkun haft áhrif á liferni mannanna? Oss er allkunnugt, hversu fjærri ser — því er midur! — ad sannarlega kristilegt liferni hafi ætíd ordid samfara nafninu "kristinn", enda vitum vér og hitt, og þökkum þad Gudi, ad prédikunin um réttlæti, bindindi og ókominn dóm hefir ekki verid árángurslaus. Hver sær í mót mælt, ad trú Jesú Krists hafi breidzt útyfir löndin? Oss er allkunnugt, hversu fjærri ser — því er midur! — ad trú þessi hafi ætíd verid hrein og sönn, og djúp, og stödug og lifandi, einsog hún ætti ad vera; enda vitum vér og hitt, og þökkum þad Gudi, ad þeir hafa ætíd verid mjög margir, sem komizt hafa í sátt vid Gud fyrir nafn Jesú, og ödlazt hafa þrek til ad sigrast á veraldinni, og fyrirlíta saurugan ávinníng hennar og munad, en meta lítils og bera karlmannlega veraldleg harm-

kvæli, og þeir hafa komizt í skilníng um, ad trú Jesú er sú leid, sem liggur til Guds ríkis.

Pad, sem postularnir prédikudu, á ad vera prédikad sífeldlega enn í dag, á þann hátt, ad vér drøgum ekkert undan, þad er nytsamlegt sé — einsog Páll postuli ad ordi kemst — heldur birtum alla rádstøfun Guds. En þad er rádstøfun hans til frelsis mønnunum, ad þeir bæti rád sitt og trúi fagnadarbodskapnum (Mark. 1, 15). Kenníngin um trúna á Drottinn vorn Jesúm Krist á því ætíd ad vera samtengd kenníngunni um apturhvarfid til Guds.

Þegar litid er sem snøggvast í hinar helgu ritníngar, kemur þad þegar í ljós, ad fagnadarbodskapur Krists tengir øll fyrirheit sín vid trúna, svosem þad skilyrdi, er eitt saman ávinni manninum gædi þau, er honum er heitid. Par er alstadar kennt, ad Gud hafi selt fram Son sinn eingetinn, svo einginn þeirra, glatist, er á hann trúa, heldur ødlist þeir eylíft líf (Jóh. 3, 16). Þegar því fólkid spurdi: hvad þad skyldi ad hafast svo þad ynni Guds verk, þá svaradi Jesús: þad er þad sem Gud heimtar, ad þér trúid á þann, sem hann sendi (Jóh. 6, 28. 29). Og þegar Jesús sendi frá sér lærisveinana til ad boda øllum mønnum fagnadareyrindid, tók hann svo til orda: hver sá skal verda hólpinn, er trúir og lætur skírast, þad er ad skilja: hver sem trúir og er svo øruggur og styrkur í trúnni, ad hann hefir þor til ad játa hana fyrir øllum í skírninni, og vígja sig svo til hádúnga og ofsókna fyrir sakir trúarinnar.

En medþví þad var høfudeyrindi Krists í heiminn, ad réttlæta oss fyrir Gudi (2 Kor. 5, 21), þá er réttlætíngin einkanlega tengd vid trúna, svoad trúin á Drottinn vorn Jesúm Krist er réttlætandi trú. Nýja Testamentid kennir alstadar, ad menn verdi réttlættir fyrir trúna án verka løgmálsins (Rómv. 3, 28). Vér vitum — segir postulinn — ad madurinn verdur ekki réttlættur af verkum løgmálsins, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist (Gal. 2, 16); og hann þykist ekki vera í sameiníngu vid Krist, nema þvíadeins, hann leiti sér ekki réttlætíngar af hlýdni vid løgmálid, heldur þeirrar, sem Gud veitir fyrir trúna á Jesúm Krist (Phil. 3, 9).

Nú meðþví Guð — svosem nú var sagt — mun ekki dæma oss réttláta, nema vér trúum, þá verður trúin að hafa einhver áhrif á hugarfarið, þau er maðurinn verði Guði þókn- anlegur fyrir. En hvaða áhrif hefir þá trúin á Jesúm á hugar- far mannsins? Í fyrsta lagi vekur hún hann til að meta það framyfir allt, að réttlætast fyrir Guði. Vér tölum einúngis um hina sönnu trú, en ekki um hina hræsnisfullu, hvert sem á hræsn- inni ber mikið eða lítið; vér tölum ekki um þá, sem hafa trúna til þess að ásella aðra með, heldur um þá, sem hafa hana sér til sáluhjálpar; vér tölum einúngis um það, sem fram verður að fara í hjarta hvers manns, sem alvörugefinn er og hreinskil- inn, og leitar Jesú Krists til að verða réttlættur fyrir hann. Og hvað verður það þá, sem kemur manninum til að yfirgefa unað og áhyggjur, og flýa tálsnörur auðæfa og metorða og munaðar, en leita undir kross Krists, í miðjum hinum jarðnesku önnum og athöfnum, og faðma hinn krossfesta með trúnni? Það er ekkert annað, enn sú tilfinning, að ekkert af því, er vér getum áunnið og öðlast í veröldinni, komi oss að neinu haldi, ef vér reynumst ekki réttlátir fyrir Guði; og þessi tilfinning dafnar og styrkist, því stöðugri sem trúin verður. Það er oss allkunnugt, og því miður! sjáum vér það dag hvern, að þeir eru margir, sem einsk- isvirða og fyrirlíta þá hina sömu trú, sem fordum var boðuð um veröldina með þvílíku kappi, og postularnir hafa barizt fyrir, og píslarvottarnir látið líf fyrir. En sjáum vér ekki einnig, hve lítið þeim þykir undir að réttlætast fyrir Guði? Það lítur út einsog þeir haldi, að ef nokkur Guð sé til, þá hljóti hann að dæma þá réttláta; annarskostar eru þeir algjörlega bendlaðir við jarðneskar hugrenningar, og lypta aldrei huganum til þess, sem æðra er, og reyna aldrei að komast í skilníng um, í hverju sam- bandi þeir séu við Guð. Þó eru og þeir til, sem þykjast vera réttlátir fyrir Guði sakir verka sinna; og það er annað ætlunar- verk trúarinnar að eyða þessum hinum skaðlega hugarburði. Að vísu fullnægði maðurinn lögmálinu, og væri réttlátur fyrir lög- málið, ef hann væri fullkominn, flekklaus og kappsamur í hjarta sínu, og ræða hans væri lifandi og heilög, viturleg, skynsamleg, uppörfandi, huggunarfull, og ekkert illt liði fram af vörum hans,

og ekkert afbrot né hirduleysi findist í fari hans. En hvernig á ad vera, þad sé ekki skadlegt — eptir því sem madurinn er í hugarfari og ordum og gjørdum — ef hann gjørir sér í hugarlund, þad sé ad fullnægja løgmálinu, ad vera slíkur sem hann hefir verid, og breyta einsog hann hefir breytt, og ad Gud heimti ekki neitt meira? Slík meining veldur því, ad madurinn gjørir sig ánægdan med þad, sem hann hefir komizt, en sækist ekki eptir meiru, og hirdir ekki um ad komast ad takmarki sínu; því hversvegna ætti sá madur ad sækjast eptir framførum í vizku og gódleik, sem héldi svo lítid vera varid í fullkomleika þann, sem løgmálid heimtar, ad hann væri búinn ad fullnægja løgmálinu? Og ætlar þú í alvøru, ad nokkur af Adams nidjum muni geta gengid fram fyrir dóminn, og sagt: þú hinn alvísi og réttláti Gud! slett þú upp þinni heilagri løgmálsbók, en eg mun sletta upp þeirri bók, er ord mín og verk eru í ritud; ransaka þú hjarta mitt og hugarfar; því eg beidist ekki neins annars, enn ad hugur minn komi allur í ljós; og vil eg, ad þú dæmir mig og metir réttlátan, eptir því sem eg hefi til unnid med spaklegum ordum og gódum verkum, og med gódleik og réttlæti og kærleika og stødugleik sálar minnar? En ef oss yrdi ad bjóda vid þvílíku drambi, og standa af því ótti og skelfing, þá føllumst vér med því á ord kristinnar trúar, ad allir hafi syndgazt og hafi skort á því hrósi, sem fyrir Gudi gyldir, og verdi réttlættir án verdskuldunar af gudlegri miskun fyrir endurlausnina í Kristó Jesú (Rómv. 3, 23. 24).

Nú ef einhver hirdti ekki um ad vita meira, enn ad vér séum allir undir syndina seldir, og ad Gud muni vera oss líknsamur sakir Krists, og héldi svo áfram ad syndga í trausti miskunarinnar, eda lifdi í ómennsku og hirduleysi óttalaust eptir sem ádur, þá gæti ad sønnu trú hans ordid honum til falls, og þad miklu framar enn eintóm þjónusta vid løgmálid; enda væri þá trú hans øll ønnur, enn sú er heimtud er til réttlætingar. Því hin sanna trú á Drottinn vorn Jesúm Krist er lifgandi trú. Þar sem postulinn jafnar saman trúnni og løgmálinu, tekur hann svo til orda: ef þvílíkt løgmál hefdi verid gefid, sem lífgad gæti, þá er víst, ad réttlætingin fengist fyrir løgmálid (Gal. 3,

21). En einsog Móses' lögmál — þótt það se heilagt, og boðorðið sé heilagt og réttvíst og gott (Rómv. 7, 12) — gat ekki komið ödru til leiðar með öllum boðum sínum, hótunum og tilskipunum, enn hlýðni þeirri. fyrir manna sjónum, sem aldrei var ónauðug, með öllu: eins getur ekkert annað lögmál getið af sér fullkomna, fúslega og glaða hlýðni, nema það sameini sig guðlegum fyrirheitum; því þó vera kunni, það geti kveykt lotníngu við það, sem gott er, þá gagntekur það ekki hjörtun með kærleika þeim, sem það heimtar til fullnægju sér, en megnar þó ekki að glæða. Fyrirþví heimtar einn af postulunum apturhvarf ekki aðeins frá vondum, heldur og frá dauðum verkum; hann segir, að fórn Krists eigi að hreinsa samvizku vora af dauðum verkum, svoað vér þjónum þeim hinum lifanda Guði (Hebr. 6, 1. 9, 14). Þar, sem líf og krapt vantar í hjartað, þar er eingínn fullkomleiki; og þessi orð Krists, að hann sé kominn af himnum ofan og gefi heiminum líf (Jóh. 6, 33), og að hann sé kominn til þess að menninir hafi líf og fulla nægt (Jóh. 10, 10) — þessi orð, sagða eg, eru að vísu fátæklega skilin, finni menn ekki aðra þýðingu í þeim, enn að Kristur hafi komið til að veita oss mönnunum farsælu. Já, að vísu mun hann veita oss ekki aðeins farsælu, heldur og sælu, og sú sæla er í því fólgin, að vér tekum af nægtum hans, og líf hans kviknar í oss; þegar vér sameinumst honum í trúnni. Fyrirþví getur Páll postuli með sanni sagt, að það, sem lögmálinu hafi verið um megn, er það var vanmáttugt vegna holdsins, það hafi Guð gjört, er hann sendi Son sinn til syndafórnar, svoað kröfu lögmálsins yrði fullnægt á oss, sem gaungum ekki eptir holdinu, heldur eptir andanum (Rómv. 8, 3. 4).

Sérhvað, er sannarlega er gott í lífi mannsins, hefir upptök sín af trúnni. Einginn megnar að leysa líferni sitt úr ánauð holdlegleikans, nema hann hafi áður hafið huga sinn til hins andlega; einginn megnar að þjóna sannleika, réttlæti og kærleika, nema hann trúi, að Guðs ríki sé í vændum, og allar góðar tilraunir safnist saman undir merki hinnar himnesku stjórnar til að efla ríki sannleika, réttlætis og kærleika. Þessari trú getur og einginn maður hafnað með öllu. Nú ef þessi hin hálfa og

veika trú, sem adeins er med lífsmarki í hjörtum mannanna, kemur svo miklu gódu til leidar, hversu mikid mun þá hin fulla og kroptuga trú megna ad framkvæma! En eingin trú er full og kroptug, nema trúin á Drottinn vorn Jesúm Krist. Í henni er einnig fólgin trúin á Gud, hinn almáttka Födur, þann er skapad hefir himin og jörd, og heldur öllu í sinni voldugri hendi og stjórnar öllu, svo ekkert er svo mikid, ad honum vaxi þad í augum, og ekkert svo lítilsjörlegt, ad honum þyki þad einskisvert — þann er snýr öllu med födurlegri forsjá þeim til blessunar, sem elska hann. Einginn segi, ad þessa trú eigi ekki ad prédika, þegar vér prédikum Jesúm Krist; því vér eigum ætíd ad prédika í Jesú nafni, einsog postular hans prédikudu, ad sá, er fram gángi fyrir Gud, eigi ad trúa því, ád Gud sé til, og muni launa þeim, er leita hans (Hebr. 11, 6), og allur hinn kristilegi fagnadarbodskapur midar til þess, ad innræta oss fullkomna trú á Gud og vald hans, og réttlæti, og miskunsemi. Einginn segi, ad þessi trú geti verid til án Krists. Víst er medvitundin um Gud og ríki hans svo innrætt mannlegu hjarta, ad hún verdur ekki afmád; en spyrjid reynsluna og sögu mannkynsins, hvad vakandi hún hafi ordid án kristinnar trúar. En ífrá þeim tíma, er hin kristna trú tók ad breidast útyfir löndin, þá hefir margur geisli af henni skinid jafnvel inní hjörtu þeirra, sem ekki hafa viljad þýdast hana alla; og því hafa margir nád þeirri þekkingu á Gudi, er vér megum ekki kalla ránga né ónýta, þó ekki hafi þeir nád Kristi sjálfum. En öllum, er komizt hafa svo lángt, ad þekkja Krist og krapt upprisu hans og hluttekníngu í píslum hans (Phil. 3, 10) — þeim öllum hefir Gud birzt ekki adeins í sólum himinsins og dásemdum jardarinnar, þeim er votta þegjandi eylífan mátt og gudlega náttúru Guds, og ekki adeins í hinum stopulu hreifingum í hjarta mannsins, þeim er jafnótt myrkvast og óskírast, heldur í honum, sem Födurnum þóknadist ad öll fylling skyldi í búa (Kól. 1, 19), og allir fjársjódir vizkunnar og þekkíngarinnar eru í fólgnir (Kól. 2, 3), og med sanni gat sagt: eg og Fadirinn, vid erum eitt (Jóh. 10, 30), og hver, sem sér mig, hann sér þann, er sendi mig (Jóh. 12, 45); þeir allir verda varir vid gudlega miskun,

ekki adeins í einstöku æfikjörum, og ekki adeins í óskiru hugbodi, heldur og í hinu dýrmætasta og yfirgripsmesta miskunarverki; og þegar þeir finna í hjörtum sínum óumrædanlega elsku Guds og Krists, þá hverfa þær hinar djúpu og þúngu hrellingar sálarinnar, einsog náttmyrkrid fyrir morgunljósinu, og þeir verda gagnteknir af ást á Gudi og mönnum, og finna í sér hug og dug til nytsamlegra framkvæmda.

Og þá er trúin á Drottinn vorn Jesúm Krist sáluhjálpleg trú, og sýnir þad undireins hér á jördu í raunum og andstreymi þessa lífs. Flestir ímynda sér frelsid og sæluna, sem Kristur bodar, einsog gjöf, er þeim verdi fengin ásídan ad endudu þessu lífi; og sumir, sem kristnir kallast, gjöra sér í hugarlund, ad þegar þeir hafi lagt svo mikid í sölurnar, afneitad svo mörgu, og þolad svo mikid, verdi sér þad endurgoldid á uppprisudegi sínum í holdlegum munadi þeim, er þá hafi skort hér á jördu, og óvinum þeirra muni verda frá vísad, svo þeir geti ordid hródugir yfir þeim. En Guds ríki er ekki matur og drykkur, né holdlegur munadur og veraldleg sæla, heldur réttlæti og fridur og fegnudur í Heilögum Anda (Rómv. 14, 17). Sá hefir einginn ódal á himni, sem ekki finnur þetta í huga sínum hér á jördu, og finnur hér í heimi til krapta annars heims. Allt hér á jördu er ad sönnu ófullkomid, og jafnvel þeir, sem hafa frumgróda Andans, andvarpa eptir lausninni (Rómv. 8, 23); en samt eiga lindir hins eylífa lífs ad spretta upp í hjarta mannsins þegar hér í heimi, og geta þad líka. Og þegar vær gjöra þad, finnum vér í huga vorum, ad fyrirheit Krists mida ekki einúngis til annars heims, heldur taka þau ad rætast þegar hér í heimi. Og í baráttu, þrautum og þjáníngum þessa lífs reit Páll postuli þessi hin kreptugu trúarord, er svo optsinnis hafa glædt trúna í hjörtum annara sannkristinna manna: "ef Gud er med oss, hver megnar þá móti oss? Hann, sem ekki þyrmdi sínum eigin Syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hví skyldi hann ekki ogsvo gefa oss allt med honum? Hver vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir. Hver er, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu meira, sem líka er upprisinn, hver og er á hægri hönd Gudi, hver ed

einnig er Medalgángari fyrir oss. Hver mun svipta oss kærleika Krists? þjáníng eda þrengíng? eda ofsókn? eda húngur? eda nekt? eda háski? eda sverd? En í öllu þessu meir enn sigrum vér fyrir adstod hans, sem elskádi oss Því eg er þess fullviss, ad hverki daudi né líf, hverki englar né höfdingjadæmi, né völd, hverki hid nálæga né hid ókomna, hverki neitt, sem á himnum er, né heldur neitt, sem í undirdjúpunum er, né heldur nein önnur skepna, mun geta svipt oss Guds kærleika, sem er í Kristó Jesú Drottni vorum (Róm. 8, 31 o. nn. vv.). Þeir eru margir, sem talad hafa háleit ord, þau er svo má ad ordi kveda ad hljómad hafi sídan í hjörtum allra kynkvísla, og ekki adeins vakid menn til ad undrast sálar styrkleika þeirra er töludu, heldur einnig kveykt í hjörtum annara þann krapt, er sigrast á veröldinni. En ekkert þekki eg, þad er í samjöfnud geti komid vid þessi ord postulans; og þau eru sprottin upp úr djúpi kristinnar trúar; madurinn, sem taladi þau, var kominn í skilníng um Krists frelsi, og fann þad í hjarta sínu, og var gagntekinn af því. Og hver sem á sama hátt færir sér þad í nyt, mun einnig sjálfur komast ad raun um, ad trúin á Jesúm Krist gjörir oss sæla.

Þessi trú hefir verid og er enn fyrirlitin í veröldinni — en sú fyrirlitníng hefir sjálf hegnínguna í för med sér, þar sem er áhyggja sú, er etur hjörtu mannanna, og þad hid huggunarsnauda ástand mannsins, þegar sífeldlega liggur vid, ad kvídinn sigrist á voninni og sorgin á gledinni, og madurinn sér ekki framá annad, enn eintóma dymmu, og kalla má, ad hinar glislegu myndir lífsins séu dregnar upp á svartmyrkur daudans. En þegar eg sé einhvern, er svo mjög ofmetnast — hvert sem þad er af audæfum, eda metordum, eda veraldlegri vizku — ad hann dirfist ad fyrirlíta hina helgu trú, þá er einsaman réttlætir, lífgar og sæla gjörir: þá kemur mér í hug sá hinn sami postuli, er hann hafdi ádur fyrir sagt, — ad bönd og harmkvæli bidu sín í hverjum stad, og stód fjötradur frammi fyrir Agrippu konúngi, og hafdi talad um apturhvarf til Guds og trúna á Drottinn vorn Jesúm Krist. Þá mælti konúngurinn svosem af spotti: Lítid vantar á, ad þú hafir talid mig til ad taka vid kristni; en

Páll svaradi í alvöru hjarta síns: þess vildi eg bidja Gud, hvert sem þar vantar á mikid edur lítid, ad ekki adeins þú, heldur og allir, sem til mín heyra í dag, yrdu slíkir sem eg em, ad fráteknum hlekkjum þessum (Post. 26, 28. 29).

En einnig med hlekkjum þessum. Því sælla er, ad vera bundinn á líkama og frjáls í trúnni, enn vera sem frjálsastur ad líkamanum til, og standa bundinn í andlegum þrældómi, án trúar og vonar á Gud.

---

## 37.

## Hvad þad sé ad trúa.

Þad er fyrirheit kristinna trúarbragda, ad þau skuli veita hvíldsálum vorum og eyda æ bætur og betur yfirrádum syndar og sorgar, og gjöra líf mannsins hér á jördu æ frjálsara og helgara, og búa hann þannig undir ædri tilveru. Med hverju ætla þau sér ad koma þessu til leidar? Hvert er þad rád, er eigi vid allskonar sjúkleika og öllum sárum? Hvad heitir sá kraptur, er hugir hjartad upp, og veitir hinni veiku og rádrúmslitlu mannskepnu nógan styrkleika til ad geta sigrast á freistingum og hörmum og kvída daudans, og hafid huga sinn og vidleitni yfir daudlegleikann, er ógnar henni og öllu því hún á, og áræðt ad lifa og starfa til ad ávinna sér hlutskipti í því, sem eylíft er og ævarandi. Ef vér spyrjum heilaga ritningu, er einsaman getur skorid úr hvad kristin trúarbrögd séu, og hvilíkur sé vilji þeirra, þá nefnir hún ekkert til þess utan trúna; ritningin segir þráfaldlega, ad henni séu gefin fyrirheitin, og vegsamar hana, svosem uppsprettu alls góds, er eigi ad betra og hugga manninn; getirdu trúad, segir Drottinn vor, þá muntu sjá dýrd Guds (Jóh. 11, 40), en án trúar getur einginn Gudi þóknast (Hebr. 11, 6). Trúin er ekki adeins tekin framyfir alla mannlega vizku og allar hugmyndir, er skemta hinu tilfinningarlausa viti, og öll rád, er mennirnir hafa sjálfir hugsad upp, til ad ávinna sér hylli og miskun gudlegrar veru; heldur er hún einnig tekin

framyfir lögmálið, framyfir það lögmál, sem er guðlegs uppruna, og aldrei á að ónýtast, og tilgreinir og heimtar það, sem sérhver maður á að gjöra. Páll postuli kveður svo að orði: "ef þvílíkt lögmál hefði gefið verið, að það gæti lífgað, þá er það ugglaust, að réttlætingin hefði fengizt af lögmálinu. En ritningin sýnir að allir eru sekir, svoað fyrirheitið veitist þeim trúuðu, fyrir trúna á Jesúm Krist" (Gal. 3, 21. 22). En því ómissanlegri, sem kristin trúarbrögð meta trúna mönnunum til frelsunar, því meiri nauðsyn er oss á að íhuga eðli og ásigkomulag trúarinnar, og komast í fullan skilning á, hvað það sé að trúa.

Trúin, segir postulinn, er örugg eptirvænting þeirra hluta, sem menn vona, og óbifanleg sannfæring um það, er þeir sjá ekki (Hebr. 11, 1). Það er og undireins auðséð, að þarsem skilníngarvitin skynja hið sýnilega, og það sem menn geta heyrt og fundið til, þá skynjar trúin hið ósýnilega og andlega. Það er ekki trú, þótt þú sjáir að sól og túngl og stjörnur gángi yfir himinhvolfið eptir óbifanlegum og eflugum lögum, og að sumar og vetur, sáning og uppskera, komi hvert á eptir öðru í réttri röð; og jafnvel þótt að hátign náttúrunnar fylli hjarta þitt undrun og lotníngu, og jafnvel þótt þú kallir náttúruna Guð, þá er það ekki trú að heldur, því hugur þinn staðnæmist ennþá við hið sýnilega og skynjanlega. Því segir og postulinn ennfremur: fyrir trúna komumst vér í fullan skilning um að heimurinn sé til orðinn fyrir Guðs orð, á þann hátt, að hinir sýnilegu hlutir séu til orðnir af hinum ósýnilegu. Með trúnni hefjum vér oss þá yfir náttúruna og allt hið skynjanlega, til hins háleita, eylífa, óskapaða Guðs, sem að er annað enn veröldin, og köllum hann Skapara vorn og Drottinn. Það var ekki trú, þótt mennirnir sæu verk Krists; þau ljómuðu í augum trúaðra og vantrúaðra, einsog sólin skín yfir vondum og góðum. En að lærisveinar Krist könnuðust við guðlegan mátt hans í þessum verkum, það var trú; því hold og blóð gat ekki birt þeim það (Matth. 16, 17). Og þegar vér enn í dag tökum við vitnisburðinum um Krist, þá er það trú; því vér höfum ekki séð það, er þeir sáu, en vitnisburðurinn um það hrærir huga vorn og

hjarta, vér finnum að hann er sannur og trúanlegur, og þannig geta þessi hin huggunar-auðugu orð Drottins vors átt heima hjá oss: sælir eru þeir, sem ekki hafa séð, og trúa þó (Jóh. 20, 29)! Þessvegna er það og, að einsog vonin er ekki framar von, úr því hún er búin að rætast, þannig mun og trúin ekki framar vera trú, heldur skoðun, þegar oss eittsinn auðnast að skoða augliti til auglitis. En vér gaungum ennþá í trúnni, en ekki í skoðuninni (2 Kor 5, 7), og á meðan er það fyrir trúna, að vér skynjum himneska og eylífa hluti, á meðan er hin jarðneska tilvera vor einskisverð og þýðingarlaus, utan vér trúum.

Trú þarf þekkingar við, því hver, sem trúir, trúir einhverju, og þetta, sem hann trúir, verður hann að þekkja. Postulinn kveður svo að orði: hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir hafa ekkert um heyrt? en hvernig eiga þeir að heyra, án þess neinn sé til, er prédiki? og ennfremur segir hann: þannig kemur trúin af heyrninni, en Guðsorð lætur menn heyra (Rómv. 10, 14 17). Einginn getur trúað á Guð, nema hann viti Guð sé til, og endurgjaldi þeim, er leita hans. Satt er það að vísu, að himnarnir framtelja lofgjörð Guðs, og öll verk hans vitna um hann; það er að vísu satt, að meðvitundin um Guð er meðsköpuð hjarta sérhvers manns; en meðvitundin sefur, og auga mannsins fær ekki lesið nafn Guðs í sköpuðum hlutum, áður eyra hans heyri það nefnt. Einginn getur trúað á þann, er Guð útsendi, nema dýrð Krists sé áður búin að birtast honum. Einginn getur ímyndað sér af sjálfsdáðum, hvílíkur Kristur hafi verið, og hvað hann hafi kennt og gjört og þolað, heldur verður sérhver maður að nema það, fagnaðarboðskapur Krists hlýtur að vera undirstaða þekkingarinnar á honum, Kristur þarf að verða boðaður á jörðunni, áðurenn mennirnir geti tekið við honum í trúnni. Þessvegna þarf maðurinn ætíð að hafa öðlazt nokkura þekkíngu, áðurenn trúin geti lifnað í hjartanu. Að vísu hafa margir, sem hafa aðeins haft litla þekkíng og ófullkomna, verið miklu trúarsterkari, enn sumir aðrir, er vitað hafa miklu meir, en villzt úti efablandnar hugsanir; en þeir hafa þó aðeins trúað því, er þeir þekktu, þótt þekking þeirra hafi verið ófullkomin; og þegar hjartað er hreinskilið og trúir Guði, þá verður trúin æ fagnaðarsælli, eptirþví sem þekkíngin

ar? Því hold og blóð geta hvert sem er ekki erft Guds ríki, og hid holdlega hugarfar getur það ekki heldur.

Það er því víst, að Kristur á ekki að vera þjónn syndarinnar (Gal. 2, 17), og að hann gaf sig í dauðann fyrir oss, til þess að leysa oss af allskonar ránglæti, og hreinsa sjálfum sér fólk til eignar, það er kostgæfið væri til góðra verka (Tít. 2, 14), og að postulinn segir þessvegna í nafni Drottins til allra þeirra, er stæra sig af trúnni: sýn mér trú þína í verkum þínum! En hitt er og eigi síður víst, að hversu mörg góðverk sem einhver hefir að bera fyrir sig, þá réttlætist hann ekki af verkum þeim, heldur án verðskuldunar, af guðlegri miskun, fyrir endurlausnina í Kristó Jesú (Róm. 3, 24). Þeir, sem hverki þekkja Guds lögmál, einsog það er, né heldur sjálfa sig, einsog þeir eru — þeir ímynda sér annað, og hugsa þeir muni fá staðizt fyrir dóminum; þeir trúa á sjálfa sig og þurfa ekki friðþægíngar við. En viljir þú, að samvizka þín fallist á þessa höfuðkenníngu ritníngarinnar, að maðurinn verði ekki réttlátur fyrir verk sín, þá litastu um meðal mannanna, og vittu hvað marga þú finnur, sem réttlátir séu, og þú getir leidt þér í hug að gánga mættu fyrir hinn eylífa Dómara og segja: "hér eru þínir helgir menn, sem komizt hafa óflekkaðir út úr saurindum veraldarinnar; sjá! verk þeirra fylgja þeim í lángri runu, gjör svo vel, að telja þau og vega, og þá er fullnægt réttlæti þínu, því þeir hafa hlýdt lögmáli þínu, og hverki vanrækt það né útaf því brotið!" Renndu svo huganum til sjálfs þín, og íhugaðu, að fyrir þér, einsog öllum, er á jörðunni lifa, liggur fyrst dauðinn og síðan dómurinn. Ímyndaðu þér því, að þú stæðir frammi fyrir dómsæti hins hæsta, og hvert þú mundir þá segja: "hér stend eg óhræddur sakir réttlætis míns; ljúk þú upp þeim hinum hræðilegu bókum, er verk mannanna eru í ritud, og allar athafnir þeirra frá vöggunni til grafarinnar, flettu upp þeirri opnu, þar sem mínar eru ritaðar, leiddu í ljós allt, sem áður var myrkri hulið, þú, sem þekkir öll hjörtu! breiddu út allar hugrenníngar mínar og allt sem í mér bjó, meðan eg dvaldi á jörðunni, og launaðu mér síðan eptir verkum mínum einsog þau verðskulda"! En sé einginn maður til, er svo ógudlega gæti talað,

þá er ekki heldur neinn maður til, sá er geti réttlættur orðið fyrir verk lögmálsins.

Það er — í stuttu máli — hvorttveggja jafn-hættulegt: að tala um trúna, en ekki um ávöxtu hennar í góðum verkum, og að áminna til góðra verka, en tengja þau ekki við trúna. Því góðverkin eru einstök, og það getur verið, þú hafir mikla mergð af einstökum góðverkum fyrir þig að bera, og gjörir þér far um, einsog hinn heiðni höfðingi, að láta eingan dag hjá líða, svoað þú hafir ekki nýtt góðverk að bæta við tölu hinna fyrri, og þó getur vel verið, þegar allt er saman lagt, að það sé harla lítið í samanburði við það, sem af þér var heimtað. Því þú átt ekki að fullnægja lögmáli Guðs í einstöku hlutum, heldur í öllu; þú átt að gefa fátækum ölmusu, en þú átt einnig að bægja burt ránglæti; þú átt að fullnægja embættisskyldum þínum, en þú átt einnig að vera góður egtamaki, faðir og húsbóndi á heimili þínu; þú átt að standa stöðugur þegar um mikið er að vera, og vinna sigur í þúngum baráttum, en þú átt einnig að vera vitur og sannorður, og kroptugur, og ástúðlegur hversdagslega. Hvað er varið í góðverkin, sem þú gjörir endrum og sinnum, þegar afbrot og hirðuleysi standa þeim æ til hliðar. Sönn guðrækni kemur fram í hverri athöfn, og einsog vorið skýtur upp óteljandi blómum og jurtum og grösum, eins fyllir blíða trúarinnar líferni mannsins margháttuðum blómum og ávöxtum. O, vér erum harla fjarlægir kristilegum fullkomleika, og þessvegna getum vér ekki orðið réttlættir fyrir verk vor. En vér eigum að nálægjast þessum fullkomleika æ meir og meir, og þartil á hin kristilega trú vor að veita oss ekki aðeins handleiðslu, heldur og laungun og krapt. Því sönn og hreinskilin trú fyllir hjartað kærleika á Guði og mönnum, og af þeim kærleika sprettur allt það, er veitir mannlegu líferni sanna fegurð. Þannig er öll þessi kenníng fólgin í þessum orðum postulans: í Kristó Jesú gyldir ekkert nema trúin, sem er ávaxtarsöm í kærleika.

# 40.

## Vér eigum ad breyta eptir Kristi.

### Fyrsta hugleiding.

Hvad þýdir þad, ad vera kristinn? Allir, sem vorrar þjódar eru, nefnast nafni þessu, og fæstir af þeim mundu vilja sleppa því, þó þeir hafi ekki tekid sér þad sjálfir, heldur hafi adrir gefid þeim þad þegar á únga aldri. Vera má, ad margir séu til, sem geti hvorki gjört sjálfum sér né ødrum grein fyrir því, hversvegna þeir haldi vid nafn þetta, en þeir hafa þó nokkurskonar óskíran grun um, ad þad veiti þeim réttindi og athvarf, er þeir muni þurfa á ad halda, þegar allt annad í verøldinni bregzt. Og þad er satt, því einsog þjódnafn þad, er vér nefnumst, heimfærir oss til þjódar vorrar, og veitir oss þegnrétt á jørdunni, eins setur nafnid kristinn oss í annad félag, er veitir oss ønnur réttinda, sem miklu eru ædri. Þad er satt, Drottinn vor og Endurlausnari! ad þitt hid heilaga nafn, sem nefnt er yfir oss í skírninni, veitir oss réttindi, er vér høldum eptir, þegar hin ønnur nøfn vor duga oss ekki lengur, og getur veitt oss huggun og djørfúng, ekki adeins á døgum kvída og hryggdar, heldur og á degi daudans, og á degi hins mikla dóms.

En veitir þá nafn þetta adeins réttindi, og leggur þad ekki á oss neinar skyldur? Enginn sann-kristinn madur getur efast um þad; vér kønnumst allir vid, ad vér séum skyldir ad lifa kristilegu líferni, og vér heyrum optsinnis, ad menn lofa hina kristilegu sidfrædi, og segja hún sé fullkomnust af øllum. Samt hafa ekki Kristur né postular hans samid handa oss neina sidfrædi med nákvæmu skipulagi og þaradlútandi greinum og bodordum, heldur ætlad mannlegu viti ad semja hana, eptirþví sem þad gæti bezt; en þad er satt, ad þad, sem í hverjum ødrum leidarvísi til réttrar breytni, — skyldu, dygdar, réttlætis og kærleika, er ekki nema hálft og einskakt og áhrifalaust, þad er bædi óskerdt og mikilvægt og áhrifamikid í fagnadarerindi Krists, er svo segir: þú getur ekki þjónad tveimur herrum, þú átt ad elska Drottinn Gud þinn af allri sálu þinni, og af øllum mætti þín-

um, og náúnga þinn einsog sjálfan þig; þú átt fyrst, og fremur øllu, ad sækjast eptir Guds ríki og hans réttlæti, og fela allt annad almættisstjórn Drottins á vald; þú átt ad afneita sjálfum þér øldúngis og afdráttarlaust, svoad þú megir ødlast sjálfan þig aptur, og megir ødlast þid eylífa líf í Gudi. En kristileg sidfrædi er byggd á Kristi, einsog hin kristna trú; einsog vidargreinin getur ekki borid ávøxt af sjálfri sér, nema hún sé föst á vidnum, eins getum vér þad ekki, nema vér séum gródursettir á Kristi (Jóh. 15, 4). Auk margs annars, er þad og fólgid í þessum ordum, sem postulinn segir: Kristur hefir þolad dauda vor vegna, og gefid oss eptirdæmi, til þess vér skyldum, feta í fótspor hans (1 Pét. 2, 21).

Í kristilegri rædu hlýtur þad ordatiltæki opt ad koma fyrir, ad vér eigum ad breyta eptir Kristi. Ef vér nefnum oss kristna af nokkurri sannfæríng, þá verdum vér og ad vidurkenna, ad Kristur sé leidtogi vor (Matth. 23, 10); en fyrst svo er, hljótum vér og ad vidurkenna, ad vér séum skyldir ad fara þann veg, er hann hefir vísad oss. Margir vegir eru til í heiminum, og stefna ekki allir ad sama midi. Ef þú fer sama veg og múgurinn, kemur þú þángad sem múgurinn kemur, og aflar þér somu speki og dygdar, og sama réttlætis, og sama heidurs og styrkleika, og somu huggunar og sama fridar, og flestir menn í heiminum ødlast: þykir þér þad svo æskilegt? Ef þú gengur þann veg, sem ad gekk Drottinn þinn og Meistari, þá gengur þú til þess takmarks, er hann vísadi til. Hann er Frædari vor, ord hans hafa kennt oss, og kenna oss á hverjum degi, hvernig vér eigum ad lifa í veroldinni; en hann er einnig Leidtogi vor, hann hefir farid þann veg, sem vér eigum ad fara.

Ad sonnu er hann eingetinn Sonur Guds, hinn tignarlegi, hinn eini, og dýrd hans er meiri, enn nokkurrar skepnu, hann hefir á sér mynd hins eylífa Fedurs, á þann hátt, er eingin sköpud skepna getur haft hana, og einginn fær unnid slíkt afreksverk, er hann hefir unnid, einsog ekki er nema einn midpúnktur í neinum hríng. En hvad háleitar hugmyndir, sem þú átt og verdur ad gjøra þér um hann, þá máttu ekki álíta hann svo háleitan, ad menn geti ekki reynt ad líkjast honum. Hann var þó

mannsins Sonur og bródir vor, einsog hann er Drottinn vor, og hid sama lunderni á ad vera í oss, einsog var í Jesú Kristi (Phil. 2, 5), og hver, sem segist vera í honum, á ad breyta einsog hann breytti (1 Jóh. 2, 6).

Hvada vegur er þad þá, sem hann hefir farid, og vill leida oss á? Vér getum sagt þad í fáum ordum: í gegnum daudann til lífsins. Vitid þér ekki, segir postulinn, ad hver af oss, sem skírdur er til Jesú Krists, er skírdur til dauda hans; þvíad vér erum greptradir med honum í skírninni til daudans, svoad vér eigum ad gánga í endurnýúngu líferniſins, einsog Kristur er vakinn frá daudum fyrir dýrd Fødursins. Því ef vér erum sameinadir honum, med því ad líkjast dauda hans, þá eigum vér og ad vera þad, med því ad líkjast upprisu hans (Rómv. 6, 3. 4. 5). Í þessum ordum er innifalin øll kenníngin um þad, hvernig vér eigum ad breyta eptir Kristi; og hún skiptist í tvø atridi, því vér eigum ad deya med Kristi, og vér eigum ad lifa med honum.

Hvad er þá fyrst ad deya med Kristi? — "Vitid þér ekki, ad hver af oss, sem skírdur er til Jesú Krists, er skírdur til dauda hans?" Sá daudi, sem hér er verid ad tala um, getur ekki verid líkamlegur daudi, því hann eiga allir menn sér vísan; fyrsta audartak vort á jørdunni vígir oss daudlegleikanum, og fyrsti geislinn, sem skín á oss af sól veraldar þessar, vígir oss myrkri grafarinnar. En daudi Krists var fórnfæring, einsog allt líf hans á jørdunni, og þessvegna er þess krafist, ad sérhver játenda hans afneiti sjálfum sér; þegar postulinn segir, ad vér eigum ad deya med Kristi, þá er þad sømu þýdingar og þad sem Drottinn sjálfur sagdi: hver sem vill fylgja mér, afneiti sjálfum sér, og taki kross sinn á hverjum degi, og fylgi mér (Lúk. 9, 23).

"Hver af oss, sem skírdur er til Jesú Krists, er skírdur til dauda hans". Þegar postulinn reit þessi ord, stód þad hverjum í sjálfsvaldi, hvert hann vildi skírast eda ekki. Hver sá, sem tók skírn, og adhylltist Drottinn og søfnud hans, gjørdi þad med ásettu rádi, en eingum var þraungvad til þess, og einginn tældur til þess med von um nokkurn stundlegan ábata. Sídan heil

ríki og leud hafa tekid kristni, hljóta menn og eiga ad taka börnin undireins inní söfnud Krists, til þess þau skilji, ad þau séu í honum, undireins og þau fara ad vita til sjálfra sín, og geti haft leidbeiníng af Kristi ífrá æsku sinni. En fyrst þetta er gjört medan börnin vita ekkert hvad fram fer, ádurenn þau geta ákvardad sig til nokkurs, þá verda þau ad vera þess sjálfrád, þegar þau eru ordin fullordin, hvert þau vilji álita þau loford gyld, sem adrir hafa gjört fyrir þeirra hönd, og hvert þau vilji halda kristilegan skírnarsáttmála. En ef þú vilt þad ekki, og segist ætla ad stefna lífi þínu ad ödru takmarki, og velja þér annan veg, enn þann, sem leyft er ad fara í þessu félagi, þá er þad á valdi sjálfs þín, ad slíta af þér þau bönd, sem þér er illa vid, og sleppa fyrirheiti því, sem þér hefir verid bodid. En ef þú vilt þad ekki, og segist vilja halda sáttmála þann, sem gjördur er fyrir þína hönd, og vidurkennir ad þú sért skírdur til Jesú Krists, þá getur þú ekki blidrar þér hjá skyldu hinna kristnu, þá segir postuli Drottins einnig vid þig: veiztu ekki, ad hver af oss, sem er skírdur til Krists, er skírdur til dauda hans?

Postulinn býdir þetta fyrst og fremst svo, ad vér eigum ad deya frá syndinni (Rómv. 6, 2. 10. 11). Ad sönnu er sá daudi ólíkur dauda Drottins; hann þurfti ekki ad deya frá syndinni einsog vér, heldur dó han fyrir syndina, og medþví hann fórnfærdi sjálfan sig, skyldar hann oss til ad afneita sjálfum oss; en ad deya frá syndinni, er ad afneita sjálfum sér, þad er: girndum sínum og tilhneigingum. Þessu samsinna flestir ad svo miklu leiti, sem þeir vidurkenna, þad sé naudsynlegt, ad þeir, sem lifa í opinberum löstum og ógudleik, betri sig — eda deyi frá syndinni, ef menn vilja kalla þad svo. En þeir bæta vid í hjarta sínu: þetta snertir ekki sjálfa oss, því í frá barnæsku höfum vid haft vidbjód á löstunum, og gott uppeldi og sómatilfinníng sjálfra vor hafa frá barnæsku verndad oss frá því, sem íllt er og óvirdulegt; þó hid góda í oss sé ennþá ófullkomid, þurfum vér samt ekki ad útrýma neinu, né deya frá neinu. Þó talar postulinn til allra, sem skírdir eru til Krists; og einhverntíma, þegar þú reynir til af hjarta ad sameina þig Drottni, hlýtur ad verda á þér einhver sú umbreiting, sem líkist

dauda, og þad hlýtur ad verda sífeldlega, svoad kristinn madur getur sagt einsog postulinn, ad hann deyi daglega (1 Kor. 15, 31).

Þad er í oss sífeld barátta milli skyldu og tilhneiginga. Ekki er þad samt í öllu tilliti, því Gudi sé lof, ad margar af hinum helgustu skyldum, — idni, trúlyndi, elska, miskunsemi, geta verid samkvæmar tilhneigingum hjartna vorra, og verda þad því meir, sem oss fer meira fram. En hvad lángt sem vér komumst, verda þó margar skyldur oss ördugar; já! skyldan rekur oss ekki adeins til ad láta af vondum tilhneigingum, heldur bannar hún oss optsinnis þad, sem gott er og indislegt, sem veitir ekki adeins saklausa ánægju, heldur og ædri og háleitari fullnægju, og þegar þad kemur opt og tídum ad, og á margan hátt, þá verdur edli vort einatt ad þola nokkurskonar dauda. Opt kemur í oss þikkja, er sýnist makleg, og er þad, ef til vill, í raun réttri; hún er lík þikkju þeirri, er var í Drottni, þá er hann sagdi: þú hin trúarlausa og rángsnúna kynslod! hversu lengi á eg ad vera hjá ydur? hversu lengi á eg ad umbera ydur (Matth. 17, 17). En einsog Drottinn dvaldist samt hjá þeim, og umbar þá, eins eigum vér og ad temja þikkju vora, og umbera menniua, einsog þeir verda ad umbera oss, og þessvegna verdum vér ad sleppa mörgum kröfum, þó réttar séu. Í öllum oss er jardneskt hugarfar; spilling þess er ekki í því fólgin, ad oss þyki vænt um gædi þessarar veraldar, og gledjumst af ad verda þeirra hluttakandi, heldur í því vér álitum þau svo mikilvæg, og metum þau meir enn allt annad; en þegar hin himneska rödd segir vid oss: leitid fyrst Guds rikis og hans réttlætis, þá heimtar rödd þessi, ad þetta jardneska hugarfar deyi. O! — og þegar vér gáum ad ástrídum vorum, hversu mikid sjáum vér þá, er hver af oss þarf ad deyda hjá sér, ef líf rádvendninnar og kærleikans á ad kvikna og eflast: drambsemina, hina illu og ósanngjörnu og óstýrilátu reidi, öfundina, hefndargirnina, lostann, og svo framvegis; og allar þessar ástrídur vakna sífeldlega aptur, og verda því ad deydast sífeldlega — daglega. Paradauki býr í öllum oss nokkurskonar rádriki, sem vill kenna Gudi, hvad hann skuli gjera, og ákafar óskir, sem nálgast ekki veldisstól hins

alvitra med audmýkt, heldur ætla sér ad rádast á himininn, og vilja ráda því, hvad oss verdi sendt hér ofanad; og þegar rád Guds eru ekki samkvæm vorum rádum, né heldur vegir hans vorum vegum, þá kemur í oss óþolinmædi, sem ásakar þ a n n, er duptid á ad þegja fyrir; þetta allt verdur ad deya í oss, eigi elska sú ad geta kviknad í oss, sem ein getur aflad sálum vorum hvíldar, og er undirstada trúarinnar, sem er adalatridi kristindómsins. Eigi því lífid í Gudi, sem er ósérplægid, styrkt og háleitt, ad geta kviknad í oss, þá verdur ad deya hid serdræga og eigingjarna líf, þá er madur lítur adeins á sig og sinn hag. Slíkur er sá daudi, er postulinn segir vér seum skírdir til, þá er vér erum teknir inni kristilegan söfnud; slíkum dauda hafdi hann og ordid ad deya, ádur hann gæti med sanni sagt: eg lifi ekki framar, heldur lifir Kristur í mér (Gal. 2, 20).

Eigum vér því ad geta fylgt Kristi, þá verdum vér ad deya frá syndinni, og ekki adeins frá því, er veröldin kallar synd, þad er löstum og afbrotum, heldur og frá þeirri synd, sem brennur í hjörtum vorum, og lýsir sér í ágirnd og losta og allsháttar illum girndum, og veröldin gefur ekki gaum ad; vér eigum ad deya frá sjálfselsku þeirri og þrjózku, sem gjörir oss ófúsa til ad hlýdnast Gudi og hjálpa náúnga vorum, og lýsir sér í óþolinmædi vid menn, og óþolinmædi í þeim raunum, sem Drottinn leggur á oss. Eg hefi sett allt þetta saman, því þad heyrir allt til þess lífs, sem hefir brotizt undan Gudi, og vill vera eitt sér, en þad líf á ad deya; lát þad deya sem fyrst þú getur, því þad kann ekki og á ekki ad geta stadizt, þad hefir sjálft grafid sér gröf. En er þad ekki optsinnis líkast því ad berjast vid öndina, ad láta í móti girndum sínum og ástrídum, og hafna því, er menn eiga rétt á ad heimta? Er þad ekki optsinnis því líkast, sem værum vér ad slíta hjörtun úr brjóstum vorum, þegar vér afneitum því, sem er svo mjög samtvinnad veru vorri? Sæll er sá, sem kannast vid gudlegt vald Krists orda, svo þau geti talad til hans á reynslustundunum, og annadhvert latt hann eda hvatt, eptirþví sem hann þarf á ad halda. En vér kristnir menn þekkjum ekki adeins kenníngu Krists heldur og líferni hans; sæll er því sá, sem hefir dæmi Krists sér fyrir hugskotssjónum og lærir af því,

ad afneita sér, og láta í móti sér, umbera og þola, einsog Drottinn vor og Frelsari hefir gjört!

Þau eru ekki gengin úr gyldi enn, hin fornu ord, er svo hljóda: "komid hingad til mín, þér, sem erfidid og þjáist! eg vil veita ydur hvíld. Gángid undir mitt ok, og lærid af mér, því eg er hógvær og af hjarta lítilátur, þá skulud þér fá hvíld handa sálum ydrum" (Matth. 11, 28. 29). Vér eigum ekki bágra med ad læra nokkurn hlut, enn hógværd og hjartanlegt lítilæti, og getum þó ekki án þess ødlazt neina hvíld handa sálum vorum. Látum oss því líta til hans, sem hjálpar oss í sérhverri baráttu, ekki adeins í baráttunni vid líkamliga óvini, heldur og í hinni erfidu baráttu, þegar vér viljum temja hjørtu vor. Eg hefi ádur sagt, ad vér ættum ekki adeins ad láta í móti illum og óvirdulegum girndum, heldur ættum vér og optsinnis ad sleppa því, er vér sýnumst eiga rétt á, og sýnumst geta heimtad med sanngirni ad ødrum monnum og lífinu. En þegar vér lítum svo stórt á sjálfa oss, ad vér viljum ætíd fá fram rétt vorn, og þegar vér eigum svo ørdugt med ad brjóta odd á oflæti voru, til ad geta hjálpad, þjónad, gladt og gagnad: hvad mun þá fá meiri áhrif á oss, enn ad adhyllast hann af hjarta, sem kom ekki til ad láta þjóna sér, heldur til ad þjóna ødrum, og láta líf sitt til lausnargjalds fyrir marga (Matth. 20, 28.)? Hvad gjørir oss svo fúsa til ad afneita sjálfum oss, og til ad beita ekki í móti ødrum þeim yfirburdum, er Drottinn veitti oss, hvert sem þeir eru líkamlegir eda andlegir, heldur álíta þá sem skuldbinding til ad efla annara gagn — hvad gjørir oss eins fúsa til þess, segi eg, einsog hin dýrmæta áminníng postulans, er svo hljódar: látid sama lunderni vera í ydur og var í Jesú Kristi, sem var eptirmynd Guds, en stærdi sig þó ekki af því, ad hann væri Gudi líkur, heldur lítilækkadi sjálfan sig, og var hlýdinn fram í daudann, já fram í daudann á krossinum (Phil. 2, 5 og s. fr.)? Hvernig lærum vér betur ad láta í móti reidi vorri og hefndargirni, og ad vera fridsamir og fyrirgefa, enn ef vér setjumst undir kross Krists, þar er Fridþægjari veraldarinnar, hinn heilagi og saklausi, kom til sinna, en þeir vildu ekki veita honum vidtøkur (Jóh. 1, 11), og bad fyrir þeim, sem høfdu útskúfad honum, og ofsókt hann og sakfellt, og

smánudu hann í pínu hans, og sagdi: Fadir! fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvad þeir gjøra (Lúk. 23, 24)? Þar fær þessi áminníng postuláns nýtt afl:, "þad þóknast Gudi, ad þér síud þólinmódir, þegar þér þolid íllt fyrir gódverk ydar. Því til þess erud þér kalladir, medþví Kristur hefir einnig lidid fyrir oss, og gefid oss eptirdæmi, til þess vér skyldum feta í fótspor hans. Hann drýgdi einga synd, og svikmæli fundust ekki í munni hans; þegar honum var formælt, formælti hann ekki aptur í mót, og þegar hann þjádist, ógnadi hann ekki, heldur fól málefni sitt honum á hendur, er rétt dæmir" (1 Pét. 2, 20). Og hvar lærum vér betur ad gefa oss undir vilja hins eylífa Guds, og adfela oss og allt vort rád hinum himneska Fødur algjørlega á vald, enn þegar vér fylgjum Drottni vorum og Meistara til Getsemane, og sjáum hann titra af kvída, er sál hans er hrygg allt til daudans, og heyrum hann bidja á þessa leid: verdi samt ekki ekki minn vilji, heldur þinn!

Hver sem breytir eptir Kristi i øllu þessu, og tekur krossinn, hver sem hann er, sér á herdar á hverjum degi, og lætur sér ekki í augum vaxa ad láta mikid móti sér, en telur einnig fyrir því hafanda ad láta í móti sér, þó í litlu sé, hann er sameinadur Kristi, med því ad líkjast dauda hans. Þú hefir, Drottinn vor og Meistari! vísad oss øllum þenna veg gegnum daudann til lífsins, og hvernig ættum vér ad skorast undan ad fara hann, úr því þú hefir sjálfur farid hann á undan? því lærisveinninn er ekki fyrir meistara sínum (Matth. 10, 24). Vér eigum ad vera fúsir á ad drekka af þeim bikar, er þú hefir drukkid og ad skírast hinni sømu skírn og þú (Matth. 20, 22). Gef oss afl hógværdarinnar, og traust litilætisins, ad vér getum barizt og þjázt med þér, og ad endingu sigrad med þér!

## 41.

## Vér eigum ad breyta eptir Kristi.

Önnur hugleiding.

Vegur vor til Gudsríkis liggur í gegnum margar hörmúngar. (Post. 14, 22). Þær hörmúngar, er fyrstu játendur Krists voru leiddir gegnum til Gudsríkis, voru þýngri og ördugri, enn flestar af þeim, sem fyrir oss eru lagdar; þó á hver kristinn madur enn í dag ad þekkja hluttekníngu í píslum hans, og líkjast honum í dauda hans (Phil. 3, 10); og enn er þad í fullu gyldi, ad ef vér þjáumst med honum, skulum vér og med honum dýrdlegir verda (Rómv. 8, 17). En ad þjást med Kristi, er ekki innifalid í því einu, ad þola nokkud af þeim þjáníngum, er hann þoldi, heldur og í því, ad þola þær med sama hugarfari og hann. Þessvegna er þad mikils áríðandi, vér breytum eptir Kristi í því ad vera þolinmódir og stödugir í þjáníngum.

Pjáníngar — þad er algengt ord. Vér nefnum þad opt, og þad er mikillar þýdíngar fyrir oss auma menn. Því hver getur talid eymdir þær, er daudlegir menn rata í á hinni erfidu lífsleid? Hversu margar eru uppsprettur táranna, er þau renna úr, lík beiskum straumi, og sýnast vera skepnu Guds til óprýdi! Hversu margir eru harmar þeir, sem kvelja hjarta mannsins á laun; þeir koma honum ekki til ad gráta né barma sér, en þad getur verid þeir leggist því þýngra á hann. Pjáníngar — þad ord höfum vér opt fyrir börnunum, til þess þad sé þeim ekki ókunnugt, þegar þau eiga ad fara ad reyna, hvad veraldin veitir. Og ef þú spyrd þau ad því, þegar þau fara ad eldast, hvernig þeim hafi þókt lífid, munu þau ekki svara, ad þú hafir dregid þau á tálar, heldur munu þau kvarta undan harmkvælum lífsins, og stynja undir byrdi þess.

En þá er menn kvarta í öllum áttum, ekki adeins fátæklíngarnir í kotunum, heldur og ríkismennirnir í höllunum, ekki adeins þeir, sem liggja á sóttarsænginni, heldur og þeir sem traustir eru og heilbrygdir, bidur spekin sér hljóds, og eggjar hani kveifarlegu kynslód ad eyda ekki tímanum í ónýtu voli, né orku

sinni í eintómum andvörpum; ber þú, segir hún, það er þú átt að bera, en kvartaðu ekki um það, heldur gaktu stull og ódeigur móti andstreyminu, þá mun það innanskamms missa sárinda sinna, og ekkert vald hafa yfir sjálfum þér.

En æskjum vér oss nú þeirrar speki, sem í því er fólgin að láta öll mannleg efni liggja sér í léttu rúmi — að lindir tilfinninganna þorni upp í brjóstum vorum, svo vér getum hrundið því burt úr sæðmi vorum, er vér unnum mest, án þess hjarta vort komist nokkuð við af því, en það valdi oss eingrar hryggðar, að líta yfir eymd mannanna og renna áugunum til sjálfra vor, og hugsa um ástand vort í veröldinni? Var það slík speki, er skein blíðlega í augum Frelsarans vors, og bjó í hjarta hans, þegar hann kallaði til sín alla þá, sem erfiða og þjást, eða þegar hann leit yfir Jerúsalem, er svo má kalla, að búið væri að setja á hana merki þess, að hún skyldi eyðast, eða þegar hann stóð við gröf Lazari, eða þegar hann var í Gethsemane, og beið þess, er fram við hann átti að koma? Það hafa verið til spekingar, sem hefir tekizt að útrýma allri viðkvæmni úr hjörtum sínum, sem hörmúngar líss þessa fengu ekkert á, hvert sem þær vofðu yfir sjálfum þeim eða öðrum. Það hafa verið til spekingar, sem hafa getað tekið við eiturbikarnum óttalaust, og skemt sér á seinustu stund æsi sinnar við hugrénníngar, sem tilfinníngin á engan þátt í, og yfirgefið allt én saknaðar eða hryggðar. En Drottinn vor og Meistari var ekki síður mannsins Sonur, enn hann var Guðs Sonur, og mannlegt hjarta bjó í brjósti hans. Hvað mörgum guðlegum náttúrum, sem hann hefir sleppt, þegar hann gjerðist mönnum líkur, hefir hann samt ekki sleppt guðlegum kærleika og guðlegri miskunsemi, því hann kenndi í brjósti um alla þá er þjáðust; og meðþví hann varð að reyna allt hið sama og vér, hafði hann og allar hinar sömu tilfinníngar og vér mennirnir. Einmitt þessvegna varð hann mönnunum svo kær, og einmitt vegna þess getur hugur vor ekki að sér gjört, hann fýsist svo mjög til þeirra staða, er þíslir Krists hafa helgað. Þar ríkir hryggðin, en þar á líka huggunin heima; þar lisna allar þær tilfinníngar, sem hvílast í djúpi sálarinnar, en þar kemst og rétt skipun á þær, og þær verða allar að einni fórn handa eylífum

Gudi, og øll øfl sálarinnar sameinast til ad bidja á þessa leid: Fadir vor! verdi þinn vilji!

Nú høfum vèr einkum haft í huga seinustu píslir Krists. Ad sønnu voru þad ekki hinar fyrstu þjáningar hans, er hann vard fyrir í Gethsemane, því laungu ádur hafdi hann ordid ad þola margskonar andstreymi; ad sønnu litu seinustu píslir hans allt ødruvísi út fyrir manna sjónum, enn þær þjáningar, er flestir af oss þurfa ad búa sig undir; en samt sem ádur eigum vèr ad fylgja Drottni vorum á píslargaungu hans, til þess ad geta lært af honúm, ad gefa sig med øllu undir vilja Guds, hvíad í því á hver kristinn madur ad breyta eptir Drottni vorum, þarsem slík undirgefni er hin mesta prýdi á kristnum manni, hverju nafni, sem þjáningar hans nefnast.

"Þegar Jesus kom til Gethsemane, tók hann ad hryggjast og mjøg harmþrúngin ad verda, og sagdi vid lærisveina sína: sál mín er hrygg allt til daudans" (Matth. 26, 36). Sá er þessa pínu leid, og stríddi vid daudann, (svoad sveiti hans var sem þá blóddropar falla til jardar, en sál hans var mjøg harmþrúngin), hann hafdi optsinnis ádur stadid medal margra þúsunda, er hlýddu á kenníngu hans, en lýdurinn tignadi hann sem kóng; þad var hin mikla hetja, er ríki veraldarinnar, og dýrd þeirra, gátu ekki tælt; sem ógnanir hinna voldugu og kurr lýdsins fengu ekkert á; sem vard ad þola ørbyrgd og ofsóknir, en kvartadi þó ekki; sem óttadist ekki þá, er líkamann deyda, en geta ekki líflátid sálina. Hann sóktist ekki eptir því lofi ad heita tilfinníngarlaus, heldur tók hann þátt í mannlegum kjørum, og kalladi baráttu þá erfida, er hann vard ad heya, og þjáníngar þær sárar, er mæddu sálu hans. En hafdi hann fyrir þad látid nokkud af tign sinni? eda voru yfirburdir sálar hans ad minni? Þad vekur eintóma hryggd í manni, ad sjá þjáníngarnar vinna sigur á einhverjum, þegar ekkert er til í honum, er øldur þeirra geti brotnad á. Ef vèr verdum einskis annars varir hjá honum, enn huggunarleysis og ørvæntíngar, þá kennum vèr ad sønnu í brjósti um vesalíng þann, er sjálfkrafa gengur úti gløtunina, en snúum oss þó undan, því slík sjón ollir óbærilegra sárinda, en hefir ekkert til ad bera, er geti mýkt þau. En hvad hryggir

sem vér verdum, þegar hinn þolinnmódi þjáist, þá er samt huggunin ekki fjarlæg; því vér sjáum þolinmædina og gudhrædsluna eflast med honum, og verda mjøg styrkar; vér sjáum berlega, ad menn geta sigrazt á veroldinni, og sú sjón er hjarta voru harla gedfeld, vér erum fúsir til ad hugsa um hana og læra af henni. Því vil eg, Drottinn minn og Frelsari! optlega hugsa um þig, þegar hin mikla skelfilega stund nálgadist í Gethsemane, þegar einginn af lærisveinum þínum vildi vaka eina stund med þér, en þú varst einmana í næturmyrkrinu, þegar vald myrkranna vofdi yfir, þegar þú féllst á kné, og barst fram bænir og audmjúk andvørp, med tárum og kveinstøfum, fyrir þann, sem megnadi ad frelsa (Hebr. 5, 7.), bidjandi: ad sú stund lidi framhjá; en eg vil líka hugsa um þad, ad þegar forløgum þessum vard ekki breitt, og tíminn var kominn, og þú áttir ad verda svikinn í hendur syndurunum, þá stódst þú upp í gudlegum styrkleik, og þegar þú, sem svikinn varst og yfirgefinn og framseldur í dauda, leizt á óaldarflokkana, og sagdir: eg em hann (Jóh. 18, 5. 6), þá hopudu þeir á hæl aptur. Augu sálar minnar skulu optsinnis líta þig med þyrnikórónuna á hinu blóduga høfdi, og purpurakápuna á hinum húdstrýkta líkama, med veldissprota þann í hendinni, er þeir høfdu til ad spotta med kvalir þínar; þau skulu líta þig, þá er dómarinn leiddi þig fram fyrir hinn óda lýd, til þess ad vita, hvert hann gæti ekki komid honum til ad aumkast yfir þig, eda þá fyrirlíta þig, og sagdi: sjáid manninn (Joh. 19, 5.)! En eg vil einnig líta þig, þá er þú stódst, í mikilli nidurlægingu, frammi fyrir hinum óréttlátu, og mæltir þessi ord fullur af trausti: samt er eg konúngur (Jóh. 18, 37); eg vil líta þig, þá er þú mæltir þessi hin mikilvægu ord: eg er sá, er þú segir mig vera, (Mark. 14, 62), eg er Kristur, Messías, Sonur hins blessada, er allar þjódir hafa eptir bedid, og allar þjódir munu blessun af hljóta. Eg vil fylgja þér á píslargaungu þinni, eg vil sjá, þegar þú hnígur undir byrdi krossins, eg vil harma med þeim, sem kenndu í brjósti um þig og grétu yfir þér; en eg vil og sjá, þegar þú snýr þér til þeirra og segir: grátid ekki yfir mér, dætur Jerusalems! heldur yfir sjálfum ydur og børnum ydrum (Lúk. 23, 28). Med því einu móti, ad vér

skodum styrkleika Jesú, þegar vér skodum þjáningar hans, og sjáum dýrd hans skína gegnum niðurlægínguna, med því einu móti getum vér lært af því, það er vér eigum ad læra, og það er ekki hinu kaldi styrkleiki sálarinnar, sem finnur ekki til sárinda þjáninganna, heldur hið kristilega hugrekki, sem vardveitir frelsi sálarinnar.

Í Gethsemane hófust þjáníngar þær, sem Jesús hafdi lengi séd og sagt fyrir. Í fyrstunni var allt kyrrt í kríngum hann; það var einsog þegar þrumuský hafa lengi verid ad safnast saman yfir höfdum vorum; allt er kyrrt um stund — óttalega kyrrt, en á vormu spori munu himinraufarnar opnast, og þrumurnar munu duna, eldíngin fljúga útúr hinum svörtu skýum — hvern mun hún hitta? En Jesús vissi hvern hún mundi hitta, hann hafdi sagt vinum sínum það, en þeir trúdu honum ekki, og tóku á sig hvíld, yfirkomnir af svefni. Þá var Jesús einmana, og einsog það er stundum fyrir oss, þá er ótti er í oss, ad vér finnum til alls þess í einu, er fram vid oss á ad koma hryggilegt um lánga tíma, þannig lagdist og á Jesum þúngi allra þeirra písla, sem yfir hann áttu ad koma, hver annari hrædilegri, og hann fann fyrirfram til sárindanna af öllum þeim örvum, er áttu ad fljúga gegnum hjarta hans. Það var einsog hinn dymmi daudaengill hefdi opinberazt honum, og rétt honum bikar, þann er fullur væri af allskonar hörmúngum. Taktu til einhverja hörmúng, er þér sýnist einna sárust, og spur þú svo sjálfan þig, hvert hún muni ekki hafa verid í bikar þeim, er Frelsari þinn vard ad tæma? Sjá! hann var þá enn med fullum kroptum, en þeir áttu ad eydast hverja stundina af annarri, og ádurenn sól gengi undir næsta dag, átti hann ad verda húdstrýktur og negldur á krossinn, og vanmegnast á honum, og láta líf sitt undir bölvun lögmálsins. Þykir þér, sem spott veraldarinnar, eda hædnishlátur óvina þinna, eda rángar gersakir vina þinna vid þig, eda ótrúlyndi þeirra, sé hid ógurlegasta, sem fyrir þig geti stigid? Sjá! sá, er allt þetta átti ad reyna, hafdi fyrrum þegid lof veraldarinnar, lýdurinn í Galileu hafdi flykkzt ad honum þúsundum saman, og hlustad eptir hverju ordi hans; lof hans hafdi hljómad á strætum Jerusalems, og fyllt

musterið, allur lýðurinn hné að honum og hlýddi á hann; kennifeður Gyðinga höfðu farið til hans, ýmist í hreinskilni, eða af fláræði, en hvert sem var, höfðu þeir tignað hann sem meistara, og löglærðan mann, er mentaður væri til Guðs ríkis. Og nú hafði veröldin yfirgefið hann, nú átti umhverfis hann að hljóma hið grimma óp; krossfestu hann! krossfestu hann! nú áttu þessi hin ósvífnu hæðnisorð að heyrast: öðrum getur hann hjálpað, en sjálfum sér getur hann ekki hjálpað (Matth. 27, 42). Fyrir fáum tímum síðan hafði hann setið meðal vina sinna, er höfðu unnt honum mikið, og aðhyllzt hann; nokkrir þeirra höfðu hlakkað til að verða hluttakandi í heiðri þeim, er þeir ímynduðu sér hann mundi bráðum öðlast; en þeir voru líka til, sem höfðu svarið honum trúnað, þó þeir ættu að láta líf sitt með honum. Og nú var einn þeirra búinn að svíkja hann, og hinir ætluðu að yfirgefa hann, og afneita honum. Þóað ástin á honum væri ekki útkulnuð í hjörtum þeirra, þá hafa þeir nú eflaust tekið að ásaka hann fyrir það með sjálfum sér, að hann hefði ekki hlíft sér og þeim, og að hann mundi hafa leidt bæði þá og sjálfan sig í dauða. Á slíkan hátt varð hann að skilja við þá. Að sönnu stóðu síðan ástríkur vinur hans og móðir hans, undir krossinum. — O! ef þér þykir það sárast af öllu, að skilja við ástvini þína huggunarlausa, þá hefir Frelsari þinn þolað þá hörmúng líka. Sú kona stóð undir krossi Jesú, sem heitið hafði verið, að allar þjóðir skyldu hana sæla kalla, sem hafði huggað sig við fyrirheit það, er hún varðveitti í hjarta sínu, í öllum þeim þjáníngum, er hún hafi orðið að þola með syni sínum og fyrir hann; og nú nísti sverð hjarta hennar. Og sá lærisveinn, er Jesús elskaði, átti ekki lengur að halla höfði sínu að brjósti hans, hann átti síðan hvergi að geta hallað því að, nema að hinum kalda steini grafarinnar. Þykir þér það hryggilegast, að þurfa að yfirgefa starfa þinn í veröldinni, og allt það, er þú hefir varið til lífi og kreptum — það er var einkaindæli þitt, og von þín, meðan dagurinn var ekki þrotinn — og orðstýr þann, er þú hugðist mundi geta þér á jörðunni, svoað nafn þitt mundi verða uppi, þegar nóttin kæmi, þá er ekki verður aðhafst — þykir þér hryggilegast, segi eg, að

ad þurfa ad yfirgefa starfa þenna ófullgjørvan, og fá hann í hendur ødrum, sem verda kunna léttúdugir eda óráðvandir, eda þér óvinveittir, svo þeir dreifi því í sundur, er þú hefir safnad, og rifi þad nidur, er þú hefir byggt? O! á þeirri stund, er Jesús stríddi vid daudann, var hann adeins búinn ad leggja grundvøllinn til musteris þess, er hann ætladi ad byggja, hann átti mikid eptir ad segja lærisveinum sínum, en þeir voru þá enn ekki hæfir ad heyra þad (Jóh. 16, 12)? mundu þeir vilja taka á móti Anda sannleikans, er hann ætladi ad senda þeim? mundu þeir vardveita minningu hans og elska hann eptirleidis, og gæta hjardar hans? Hann vissi þad mundu koma falsspámenn, grimmir úlfar, er sundra mundu saudunum: hver átti ad safna þeim saman, bædi þeim er fjarlægir voru og nálægir, svo þad yrdi ein hjørd og einn hirdir? Og á þessum myrkranna tíma hafdi Jesús sleppt allri gudlegri dýrd sinni; hann átti ekki ad kalla á hersveitir himnanna til ad hjálpa sér, og ljós himnanna áttu ekki ad lýsa skelfdri sálu hans med birtu sinni. Hann vissi gjørla, hvadan hann var kominn, og hvert hann átti ad fara, hann vissi gjørla, vegna hvers hann hafdi verid sendur, og ad sending hans átti ekki ad verda árángurslaus, og ad sjálfsafneitun hans einmitt átti ad fullgjøra starfa hans; en því var og sjálfsafneitun hans fullkomin; hann var um þessar mundir eintómur madur, þó syndlaus, hann vissi ekki stund né tíma, því þad var á valdi Fødursins, heldur fann hann til hins sama, og hid helga skáld, er kveinadi á þessa leid: Gud minn! Gud minn! hví hefir þú yfirgefid mig (Sálm. 22, 2)? Og himin og jørd þøgdu, og þad var ad sjá, sem allar syndir jardarinnar, og allir glæpir, sem undir sólunni hafa verid drýgdir, væru komnir saman í eitt og og ordnir ad einni ofbodslegri misgjørd, er jørdin hafdi ekki adra gjøf ad bjóda Frelsara sínum, enn dauda á krossi, og allar sektir, sem hid styggda réttlæti hefir lagt á hina føllnu kynslód mannanna, hefdu safnazt yfir høfud hins saklausa. — Slíkar voru tilfinníngar þær — en hver getur sagt skírt frá þeim øllum? — er særdu sál Jesú, á þeirri stund, er hann tók ad hryggjast og mjøg harmþrúnginn ad verda, og sagdi: sál mín er hrygg allt til daudans. Naumast getur sú þjáning komid yfir þig í

veröldinni, að ekki hafi hún verið beiskur dropi í bikar þeim, sem Frelsara þínum var réttur.

Hvað hafðist Jesús þá að, meðan hann titraði, af eptirbið þeirra hluta, er fram áttu að koma? Hvar leitaði hann sèr huggunar og trausts, og á hvern hátt gjörði hann það? Han mundi feginn hafa viljað eiga sèr vin, til að styðjast við; hann hafði og tekið með sèr þá þrjá, er hann unni mest; en hann átti einnig að fara á mis við þá huggun, því þeir vildu ekki vaka með honum eina stund. Þá gekk hann afsíðis einnsaman, fèll til jarðar og sagði: Faðir minn! alls ertu máttugur, tak þenna bikar frá mèr; þó ekki sem eg vil, heldur sem þú vilt (Mark. 14, 35. 36).

Snú þú nú, kristinn maður! huganum betur til sjálfs þín, því áminníngin frá Gethsemane talar til þín, hvar Drottinn þinn hjádist, og eptirskildi þèr þar fyrirmynd, svo þú skyldir feta í fótspor hans. Þú hefir heyrt þau orð hans, er eg færði síðast til, í úngdæmi þínu, og eg efast ekki um, að þú hafir geymt þau í minni þèr. Þú hefir ekki þolað sonnu þjáníngar og Drottinn þinn, en eflaust hefir það komið fyrir þig um dagana, að hörmúngar hafi sótt hjarta þitt, og þú hafir titrað af miklum kvíða: hefirðu þá breytt eptir dæmi Drottins? hefirðu þá fallið fram fyrir hinum eylífa, og beðið hann, ekki með ávarpi æstra geðshræríuga og örvínglunar, svo segjandi: hjálpa oss, vèr ætlum að týnast! heldur með hógværri og hreinni bæn, er ætíð á bænheyrslu vísa? Hvernig hefir þú talað til Guðs í hinum hörðu baráttum lífs þíns? Hefirðu sagt: Faðir minn! eins Faðir fyrir það, þótt þú tiptir og særir, þótt hjarta mitt titri, og mèr sýnist þú hafa ausið eintómri reiði yfir mig! Hefir þú sagt: alls ertu megnugur? Að sönnu sè eg ekki nein merki miskunar þinnar, og himin þinn er mèr hulinn, svoað eingin stjarna lýsir mèr í myrkrinu; samt trúi eg, þó eg sjái ekki, og held mèr fast við þig, þú hinn ósýnilegi! eg veit að þú hefir öll forlög í hendi þèr! eg veit, og trúi því, að þú getur sefað ofviðrið, þegar þú vilt, og látið skipið skríða óhult áfram! En hefirðu einnig sagt: verði þinn vilji, þinn vilji, en ekki minn; hefir þú sagt það, ekki adeins með vörunum, heldur af fullri alvörn,

í einlægni hjarta þíns, og af fullkominni, ótakmarkadri undirgefni. O! þad er harla fagurt og huggunarríkt, ad heyra mann, á þýngstu stundum æfi sinnar, — þegar þad vofir yfir, sem hann óttast mest, og hann hlýtur ad bergja af þeim bikarnum, er honum þykir rammastur allra, — segja af fullri sannfæringu: þó þess væri unnt, ad eg mætti taka vid stýrinu, og mætti sjálfur ráda forlögum mínum; þó þess væri unnt, ad eg mætti setja frá mér bikar þann, er eg kvídi fyrir ad drekka — þá skyldi eg samt eingan veginn gjöra þad, himneski Fadir! verdi þinn vilji, en ekki minn! Þetta er ad breyta eptir Kristi, þetta er fórn, sem Gudi líkar vel. Ekki veit eg, hvad Gud muni hafa fyrirhugad um þád, er þú vilt hjá komast, en þad veit eg, ad þessa bæn heyrir Gud, og ad hún veitir hjörtum hinna bidjendu gudlega huggun og gudlegan frid. Einsog Jesús hafdi ödlazt huggun og styrkleika, hugrekki og rósemi, þá er hann stód upp frá bæninni, þó hann vissi, ad tíminn væri kominn, og ad sá væri í nánd, er sveik hann: eins mun og slík bæn veita oss þrek til ad gánga móti sérhverju andstreymi. Hver madur á sér Gethsemane, en Drottinn heyrir og enn í dag hverja audmjúka og trúarfulla bæn, og enn fara englar Guds ofan, og færa hjörtum hinna bidjendu gudlegan frid.

---

## 42.

# Vér eigum ad breyta eptir Kristi.

### Þridja hugleiding.

"Kristur hefir þolad píslir fyrir vorar sakir, og hefir eptirskilid oss fyrirmynd, ad vér skulum feta í fótspor hans (1 Pét. 2, 21)": í þessum ordum ávarpar hinn kristilegi fagnadarbodskapur oss svosem lögmál. "Kristur hefir þolad píslir fyrir vorar sakir": þetta er sannarlega undirstada allrar kristinnar kenníngar, og þessi ord kenna oss, ad hvad sem vér þolum og adhöfumst í veröldinni geti ekkert af því frelsad oss, ef Kristur hefdi ekki ulskad oss og

gefid sjálfan sig út fyrir oss. En jafnframt og Kristur poldi píslir fyrir vorar sakir "eptirskildi hann oss fyrirmynd, svo vér skulum feta í fotspor hans": pessi ord minna oss á, ad ekkert af pví, sem Kristur hefir polad og framkvæmt fyrir vorar sakir, geti ordid oss ad notum, nema vér tökum pátt í pjáningum hans og breytni.

Allir vér, sem erum skírdir til Jesú Krists, erum skírdir til dauda hans (Róm. 6, 3. 5). Hver sem vill hafa hlutdeild í Kristi, verdur ad taka kross sinn á hverjum degi og fylgja honum eptir; sjálfsafneitun er adaleinkenni hins kristilega hugarfars. Vér eigum ad afneita, ekki adeins peim tilhneigingum, sem ætíd eru syndsamlegar í raun og veru, heldur og margskonar indi og margri tilhneiging, sem rannar er flekklaus og saklaus, og pykir jafnvel vera fögur og sæmileg, en vér megum ekki láta eptir henni, pví Gud kallar oss til ad rækja adrar skyldur; vér eigum optsinnis ad gefa upp nokkud af réttindum vorum, og megum ekki heimta ad peim sé fullnægja gjerd, pví pad sem mennirnir kalla rétt, er ekki ætíd rétt í Guds augliti; vér eigum ad kefja nidur reidi vora, og pad jafnvel pó vér getum réttlætt upptök hennar; hin réttláta reidi, sem vaknar í oss, pegar vér sjáum illskuna í heiminum, má ekki gánga úr hófi, hún má ekki mida til ad tortýna, heldur til ad frelsa, og ekki til ad dreifa sundur, heldur til ad safna saman; vér eigum ad afneita vilja sjálfra vor og óskunum í brjósti voru, og pad jafnvel peim óskum, sem sanngjarnlegar eru, pegar vér sjáum ad hugsanir Guds eru ekki einsog vorar hugsanir, svo vér möglum ekki, heldur hlýdnumst polinmódlega Guds vilja. Til ad geta petta, eigum vér ad gjöra kristilegar lífernisreglur stadfastar í sálu vorri, en til pess pær geti ordid lifandi og ávartarsamar, eigum vér ad setja oss fyrir sjónir hid háleita og heilaga dæmi Krists. Viljir pú, kristinn madur! læra ad pola pjáningar, pá gakk pú til Gethsemane, edur stadnæmstu undir krossi Frelsara pins, pángadtil pú ert búinn ad læra, hvad pad sé ad pekkja samfélagid vid Krist í píslum hans, og lagast til ad líkjast honum í dauda hans, og ert kominn í skilníng um pýdingu postulans orda, er hann sagdi: "eg em krosssestur med Kristi (Gal. 2, 20).

En væri nú nokkrum svo farid fram, ad hann gæti tekid undir med hinu helga sálmaskáldi, er svo segir: "Drottinn! hjarta mitt er ekki drambsamt, og eg hörfi ekki hátt, og sækist ekki eptir miklum hlutum. Hefi eg ekki stødvad sálu mína og fridad hana, einsog asvanid barn í fadmi módur sinnar? sál mín er ad vísu einsog asvanid barn (Sálm. 131, 1. 2)"; — væri hann þá med þessu móti ordinn slíkur, sem kristinn madur á ad vera? Þad er fagurt, þad getur verid ágætt og mikilsvert, ad bera og þola og þjást, ad Guds vilja; en þetta er þo ekki nema helmíngur hins kristilega fullkomlegleika; þad er og vilji Guds, ad vér skulum starfa og áorka og framkvæma, og einnig í þessu eigum vér ad setja oss fyrir sjónir hid heilaga dæmi Krists; einsog vér eigum, svosem eptirbreytendur Krists, ad deya med Kristi, svo eigum vér og ad lifa med honum. Sá vegur, sem Kristur vill leida oss á, liggur gegnum daudann til lífsins; og þetta líf á ekki fyrst ad byrja í dýrd annars lífs, heldur þegar hér á jørdu, einsog Kristur ekki adeins lifir Gudi í dýrd sinni, heldur og lifdi Gudi í lægíngu sinni hér á jørdu.

"Séum vér dánir med Kristi, þá trúum vér og, ad vér eigum ad lifa med honum." Eg ber ekki móti því, ad þessi ord bendi einnig til betra lífs í ødrum heimi; þar eigum vér fullkomlega ad lifa med Drottni vorum. En postulinn talar þó ekki um hid komanda líf, er hann segir enn fremur: álítid ydur sjálfa sem þér séud daudir syndinni, en lifid Gudi í Drottni vorum Jesú Kristi; og þá er hann segir: framberid Gudi sjálfa ydur, svósem lifandi ordna úr daudum (Róm. 6, 8. 11. 13); ekki er heldur Pétur postuli ad tala um annad líf, þarsem hann segir, ad Kristur hafi borid syndir vorar á líkama sínum, til þess ad vér skyldum deya frá syndinni og lifa réttlætinu (1 Pét. 2, 24). Og hid kristilega réttlæti er sannlega ekki tóm þolinmædi og sjálfsafneitun, ekki tómt þolgædi heldur og framkvæmdarsemi.

O! látum oss einganveginn skjóta því á frest, ad starfa og framkvæma af øllum mætti, þartil vér einhvern tíma getum gjørt þad med dýrdlegum mætti í betra lífi, né ad gledjast í Gudi af øllu hjarta, þartil vér einhvern tíma losumst frá allri eymd jardarinnar og ødlumst dýrd himneskrar sælu. Hér í heimi, þegar hér í

heimi eigum vér ad finna í oss krapta ókominnar aldar, eigi þeir nokkru sinni ad geta þróast í oss; hér í heimi, þegar hér í heimi eigum vér ad ná eylífu lífi, ef vér eigum nokkru sinni ad ødlast hlutdeild í því; og hinu sanna lífi fylgir bædi atorka og føgnudur. Ad vísu attu, kristinn madur! optlega ad sjá hvernig Drottinn þinn og Frelsari er svikinn og yfirgefinn, dreginn frá dómstólnum fyrir lýdinn, og frá lýdnum fyrir dómstólinn, þú átt ad sjá hann, einsog hann stód med þyrnikórónuna, einsog hann gekk krossferil sinn, einsog hann dó á Golgatha, píndur þér til fridþægíngar, til þess þú getir lært ad deya med honum; en þú átt einnig ad sjá hann, einsog hann var, styrktur afli sannleika og réttlætis og kærleika, einsog hann gekk umkríng og gjørdi gott, er hann tók ad sér hina líkamlega þjádu, hina fátæku og veiku, og gjørdi gott, er hann tók ad sér þá, sem voru þreyttir á sálu og med sundurkrømdu hjarta, er hann leitadi hins glatada til ad frelsa þad, svo þú getir lært ad lifa med honum. Því Gud heimtar hlýdni eigi sídur enn fórnir; mér virdist ad jafnframt og vér fórnfærum hinu illa, ósæmilega, óstýriláta líferni, og seljum þad fram til dauda, þá eigum vér einnig ad íklædast Drottni vorum Jesú Kristi, og gánga fram í nýu líferni, í sannleika Guds, og réttlæti, og kærleika. Einsog urtagardsmadurinn á ekki einúngis ad uppræta hid skadsamlega og ónýta illgresi, heldur og ad fylla gard sinn af føgrum og ylmandi blómum, med heilnæmum ávertum, svo er og Kristur kominn ekki einúngis til þess ad afmá hid illa, heldur og til ad framleida hid góda.

Vér lifum hér á jørdu tvøfoldu lífi, hinu innra og hinu ytra; vér lifum alltadeinu í kyrrd med sjálfum oss, í hugsunum og tilfinníngum hjarta vors, einsog vér lifum fyrir manna sjónum í ordum og athøfnum.

Í hinu innra lífi er rót hins ytra lífs, og þad stendur ekki á sama, hvert þad er nokkurt eda ekkert innra líf í oss, né hvernig þad líf er, sem hreifir sér í brjósti voru. Einginn madur getur ad øllu leiti verid sviptur hinu innra lífi, og hverri hræríng og hugsun og tilfinníng; en í hversu mørgum er þetta líf svefnþrúngid og afllaust! hversu margir flýta sér frá því,

svosem frá hinu ófarsælasta ástandi, og steypa sér í idukast hins ytra lífs, til ad flýa fyrir sjálfum s r, sem er einmitt sama og ad flýa fyrir þessu innra lífi! Og í hverju mørgu er og þessu lífi þannig varid, ad vert sé ad flýa fyrir því, þarsem þad er ekkert annad, enn eptirsókn eptir jardneskum munum, edur eintóm hryggd edur hrædsla, edur reidi og hatur, edur stjórnulausar og skadsamar girndir. En þarsem eingin framfør í kristilegum fullkomlegleika getur verid til, nema hid góda fái tíma og tækifæri til ad þróast í oss, nema hid innra líf aukist ad reglu og þroska, svo kallar hin kristilega áminning oss hvern med ødrum til einveruslunda, og bjódist oss þær ekki sjálfkrafa, eigum vér ad leita þeirra. Ef eg á ad feta í fótspor Krists í þessum heimi, get eg þá dulizt vid, ad ferill hans leidi optlega burt úr mannfjøldanum, í einveru og kyrrd næturinnar? Og ef ad Hann vildi ekki lifa ødruvísi sem madur í verøldinni, enn svo, ad sálin gæti fundid nædi í rósømum hugleidingum, og brjóst hans gæti létt á sér andvørpum sínum og eptirþrá, og þakklæti í bæn og tilbeidslu: hvernig ætti eg þá ad dirfast ad kalla mig eptirbreytanda hans, ef eg vendi mig af þessu øllusaman? Já, þótt eg væri svo ófarsæll, ad eintómir píslarandar ásæktu mig í einveru minni, eintómar kveljandi endurminníngar og eintómar skelfandi tilhugsanir, þá gæti eg ad vísu leitad mér svínnar hjá mønnum, í samfélagi vidkvæmra og skemtilegra vina: en ætti eg þá ekki einnig ad leita mér huggunar í fadmi míns himneska Fødurs? og þad er adeins í kyrrd og einveru, ad eg get fyllilega ordid var vid nálægd hans. Hvad mundi þad gagna mér, þótt eg vildi leita á flótta fyrir ødrum heim, er ofsækja mig? þeir mundu ei ad sídur elta mig hvert sem eg færi; endur og sinnum gæti eg, ef til vill, gleymt því, ad þeir sveimudu yfir høfdi mér, en med því meiri ógnan mundu þeir rádast á flóttamanninn, er þeir kæmust aptur ad honum einum, þángadtil eg hertiadist í móti þeim, og hyggdi ekki á flótta, heldur sigur. Og jafnvel þótt eg vissi ad engill hegningarinnar bidi mín í einverunni, þá væri mér adeins því meiri naudsyn á henni, svo eg gæti ødlazt vizku til idrunar og lækníngu fridþægíngarinnar, og miskun til apturhvarfs til góds og gudrækilegs lífernis.

Þannig var eigi hið innra líf Jesú, því þótt hann hryggðist á stundum, breittist sú hryggð aptur í frið, og optlega í sælan fögnuð. Því fremur, sem vèr breytum eptir honum, því fremur líkjumst vèr honum einnig að hinu innra lífi til, og það er ávöxturinn af því að vèr deyum með honum, því þá eigum vèr og að lifa með honum. Því fremur, sem vèr deyum ífrá saurugum, eður adeins jarðneskum girndum, því meiri þroska mun afl hins æðra lífs ná í oss, því fremur sem vèr deyum ífrá illum áströðum, frá reiði og hatri, því meiri friður mun fylgja hrærugum hjarta vors; því fremur, sem vèr deyum frá ofstýrilátum óskum, því fremur, sem hið einráða líf sjálfra vor, er þrjózkast gegn Guði, deyr í oss, því fremur munu þakkir og vón og tilbeiðsla fylla einverustundir vorar. Þá sjáum vèr fegurð jarðarinnar umhverfis oss, og ljóma himinsins uppyfir oss; þá sjáum vèr, að líf vort hèr á jörðu er nokkursvert, og hið ókomna lífið veitir oss huggun og von; þá lærist oss að fella oss við mennina og samfagna þeim; þá færir kærleiki Krists oss hina sönnu lækníng; þá finnum vèr, að Guð er ekki lángt frá oss, heldur lifum vèr og hrærumst og erum í honum. Og þá lifum vèr hinu innra lífi, ekki adeins einður og sinnum, heldur fylgir það oss gegnum hita og mæðu dagsins, eigi síður enn í kveldkyrrðinni, og í óróa og baráttu heimsins, eigi síður enn í rósemi einverunnar, og bæn og trú og von fylgja oss alstaðar.

En aldrei er hið innra líf slíkt sem það á að vera, nema því adeins það knýi oss til hins ytra lífs, aldrei er trú vor og bæn og tilbeiðsla í anda og sannleika, nema vèr fáum af þeim upphvatníng, og styrkleika, og laungun til að gegna köllun vorri. Drottinn vor og Meistari settist ekki að á eyðimörkinni, heldur undirbjó hann sig þar í kyrrð og einveru, og tók síðan þátt í mannlegu samfèlagi. Hann reisti ekki tjaldbúð sína á fjallinu, heldur fór hann aptur niður til mannanna í dalinn, að lètta af þeim mæðu þeirra og hryggð, hann tók þátt í henni, og færa þeim himneskar gjafir, er hann var sendur að gefa gnægtir af. Kristinn maður! þú sem átt að breyta eptir honum, slíkar gjafir eru ekki lagðar þèr í hendur, en ekki leyfir Drottinn þinn og Meistari þèr að heldur, að þú sitjir afskekktur frá mannlegu

félagi; komdu, segir hann, og sýndu hvað þú hafir unnið á hinum kyrrlátu stundum hugleiðínga þinna, taktu nú á krapti þeim, sem þú hefir áunnið þér í bæninni, afljúktu starfi því, hvílíkt sem það er, er þinn himneskur Faðir hefir þér á hendur falið, og frem þú verk réttlætisins og kærleikans.

Réttlæti — hversu lítið skiljum vér í þýðíngu þessa orðs, er vér látum það ekki merkja meira, enn bann fyrir því að fremja óréttindi! Að fullkomna allt réttlæti, er sama sem að fullnægja öllum skyldum lífsins, smáum og stórum, staðfastlega og trúlega; og enn fremur þýðir það, að vera reiðubúinn og fús til þess, og fagna því, og meta það mest indi lífs síns að afljúka því starfi, sem manni er á hendur falið. Æ, hversu fjarlægir erum vér og í þessum hlut hugarfari Drottins vors og Meistara! því jafnvel þó vér séum að vinnu vorri, hversu optlega stynjum vér þó undir henni, og kvörtum undan henni, hversu optlega leyfum vér oss að álíta hlutskipti vort hörmulegt og þúngbært, afþví vér megum ekki fara til skemtana vorra, eður til annarar vinnu, sem oss virðist geðfeldari, eður vér leitum oss jafnvel að spottast að kollun vorri, svosem væri hún of lítilmótleg fyrir oss, og bægði oss frá að njóta þess frjálsræðis, er vér byggjum eittsaman mundi veita oss, að njóta lífs vors og neyta þess fullkomlega. En hver, sem með alvörugefni og hreinskilni kappkostar að breyta eptir Drottni sínum, hlýtur að fyrirverða sig fyrir lystarleysi það, sem bærir sig í honum, og reyna til að sigrast á því. Látum oss á stundum í huga vorum gánga til staðarins í Samaria, til Jakobs brunns, þarsem Jesús settist niður ferðlúinn, og lærisveinar hans bjuggu honum hressíngu. Þá var hann kalladur til hinnar helgu vinnu lífs síns, og það lífgaði sálu hans og styrkti hinn mædda líkama hans: "fæða mín, sagði hann, það sem seður mig og styrkir og endurnærir, er að gjöra vilja þess, er mig sendi, og leysa af hendi verk hans (Jóh. 4, 33)". Hver sem ekki getur fundið að þessi orð séu háleit og fögur, hver sem aldrei hefir getað tekið þau sér í munn, þrátt fyrir allan veikleika sinn, hver sem aldrei hefir fundið afl þeirra, né fyllíng þá og fögnuð, er samfara verður meðvitundinni um að ná ákvörðun lífs síns, hann á ennþá lángt til Guðs ríkis, og er ekki ennþá byrjaður á að breyta

eptir Drottni sínum. Ef þú segir: ad starf þitt sé svo lítilfjör-legt, ad þad geti ekki vermt hjarta þitt, edur jafnvel svo íllt, ad þad kefji afl anda þíns, komdu þá í þad lífi og anda, med trúmennsku og rádvendni, med skyldurækni og samvizkusemi, med hlýdni vid Gud og ást á mönnum, og trúnadartrausti og von; þetta getur þú sameinad vinnu þinni, hvílík sem hún er, og med því getur þú gjört þad veglegt, sem lítilmótlegt er, einsog þú getur gjört þad lítilsvert, sem veglegast er, ef þú lætur þessara hluta í vanta. Og þegar þú tekur ad þreytast, þegar þèr fer ad virdast, sem þú sèrt búinn nóg ad vinna, láttu þá ord Drottins vors vekja þig úr dáinu, er hann sagdi: mèr hæfir ad vinna, medan dagur er, því nóttin kemur, þá er einginn sær adhafzt (Jóh. 9, 4). Þegar hjarta þitt veiklast í trúnni, edur adrir telja úr þèr kjarkinn med umrædum sínum, og ætla ad koma þèr á þá trú, ad öll fyrirhöfn þín sé gagnslaus, og þú sáir eingu til leidar komid; þegar þú sèrd ad segja, ad öll vetn renni til sjáfar, en sjórinn fyllist aldrei ad heldur, og hid bogna verdi aldrei beint: láttu þá Drottinn þinn kenna þèr ad lypta upp augum þínum, og sjá ad akrarnir taka þegar ad blikna til uppskerunnar (Jóh. 4, 35; láttu hann þá tala til þín um sádmanninn, er fór út ad sá, og þó sumt félli nidur vid veginn, og fuglar himins ætu þad, og sumt félli í grýtta jörd og sprytti þar skjótt, en visnadi og skjótlega aptur, og sumt félli á medal þyrna, er kæfdu þad: þá var og þad sædi til, er féll í frjóssama jörd og bar ávöxt, mikinn edur lítinn, en þó ávöxt (Matth. 13, 3 o. n. v.). Slíkur sádmadur var sjálfur hann, og hann hefir sendt oss út til ad halda áfram sáníngunni, ekki adeins þá, er eigi ad prédika ord hans, heldur og þá, er eiga ad breyta eptir því, og vera trúir í allir idju sinni, hvert sem þeir eru settir yfir lítid edur mikid.

En svo sannarlega, sem allt þad, er vèr adhöfumst í heiminum á ad fara fram, samkvæmt heilögu lögmáli rèttlætisins, svo á og ástin á Gudi og mönnum ad vera hin rètta undirrót allra vorra hugsana og tilfinnínga, orda og athafna; og hvar finnum vèr nú aptur í þessari grein fyrirmynd þá, er komizt geti í nokkurn samjöfnud vid hid heilaga dæmi, sem Kristur hefir

eptirskilid oss? Hversu lítid skynbragd berum vér á edli kærleik-ans, ef vér holdum hann kenni oss ekki annad enn ad umbera og þola! O, hversu fyrirhafnarlítid er þad ad sitja kyrr og láta allt fara einsog fara vill í heiminum, og stynja svo og andvarpa útaf því hann sé sokkinn nidur í illsku! En líttu til Drottins þíns, er brann af ákafa, svo lærisveinar hans minntust þess, er skrifad hafdi verid: vandlæti vegna Guds húss etur mig (Jóh. 2,17); hlýddu á rædu hans gegn þeim, er hömludu mönnum frá því ad ödlast Guds ríki, en hirdtu ekki sjálfir um ad njóta þess, og tálmudu þeim, er þess vildu leita, gegn þeim, er fé-flettu ekkjur, undir yfirhylmíngu lángra bæna, er hlýdnudust því, sem lítils var umvert, en afræktu þad í lögmálinu, sem mest á-ridur, þad er réttvísi, gódfýsi og trú, er hreinsudu hid ytra, en voru innan fullir ráns og óréttinda (Matth. 23, 13). En þegar vandlætíngasemin verdur ad báli, þegar hún tekur ad samlaga sig hinu illa í þér, syndsamlegri reidi og hatri og hefndargirni, þeg-ar þig lángar til ad geta bodid eldi ad rigna af himnum ofan, og tortýna hardsvírudum mönnum, láttu þá Drottinn þinn átelja þig, um þad, er þú veizt ekki hvers anda þú ert, og hygg þú ad breytni hans, því hann kom ekki til ad tortýna sálum manna, heldur til ad frelsa þær (Lúk. 9,54 o. n. v.). Sjá! hann leitadist vid ad brjóta nidur vígi óréttlætisins og draga skýluna af and-styggd hræsninnar, en hann leitadist ekki vid ad kveykja óvild og reidi gegn einstökum mönnum; hann gekk umkríng og gjördi gott, hann sté ekki á þann, sem fallinn var, hann slökkti ekki hinn daufa neista, hann rak þá ekki frá sér, er leitudu hans, hann var ætíd vidbúinn ad lækna þá, sem höfdu sundurkramin hjörtu. Hann stód í móti hinum illu, en einúngis med hinu gódu, er hann bardist fyrir sannleik og réttlæti, og er þeirra tímar voru og vald myrkranna, þá hallmælti hann ekki aptur, er honum var hallmælt, og ógnadi ekki, þegar hann var þíndur; hann hafdi kennt lærisveinum sínum á þessa leid: elskid óvini ydar, blessid þá, er bölva ydur, bidjid fyrir þeim, er gjöra ydur skada og ofsækja ydur (Matth. 5, 44); og hann kenndi þetta ekki adeins, heldur breytti hann og samkvæmt því, og þad í kvölunum á krossinum. Og ást hans var ekki adeins hin almenna gódsemi,

er-ann öllu, sem hefir mannlega mynd, heldur kalladi hann þá vini sína, er hann hafdi kjörid sér, og höfdu yfirgefid alla hluti til þess ad fylgja honum, og hann unni hverjum þeirra fyrir sig af vidkvæmu og tryggu hjarta; hann hafdi ætíd elskad þá, og hann elskadi þá til enda (Jóh. 13, 1). Hann hafdi lagad þá handa sér, hann hafdi þolad þeim margt og vægt þeim og fyrirgefid þeim, hann hafdi kannast vid hid góda í þeim, og notid hinna fegurstu stunda æfi sinnar í samvist þeirra, og í samsæti med þeim yfirgaf hann allan fögnud þessa lífs, og vígdi sig píslum sínum.

Þannig samlagar sig í framferdi Jesú réttlætid kærleikanum og kraptinn blídlyndinu, og þegar vér íhugum nákvæmlega allar þarad lútandi kríngumstædur, fáum vér aldrei tilefni til ad segja þad, sem vér hljótum svo optlega ad segja um framferdi sjálfra vor og annara, ad sumt í því sé of ákaft og sumt of dauft. Og til þess nú ad vér getum stillt ofstopa vorn og breitt yfir vanmætti vorum í styrkleika, ber oss jafnan ad líta til hans, er eptirskildi oss fyrirmynd, ad vér skyldum feta í fótspor hans. Því hversu fjarlægir sem vér erum takmarki voru, á samt einginn skilid ad heita kristinn, er ekki kannast vid sannleikann í þessum ordum postulans: hver sem segist vera í honum, á ad breyta einsog hann breytti (1 Jóh. 2, 6).

---

## 45.

## Hid fyrsta og ædsta bodord: þú skalt elska Drottinn Gud þinn af öllu hjarta þínu.

"Meistari! hvernig á eg ad breyta, svoad eg eignist eylíft líf?" sagdi lögvitríngurinn fordum (Lúk. 10, 25). Og í hverju skini sem hann hefir spurt svo, hlýtur hin sama spurníng ad gjöra vart vid sig í hjarta sérhvers, er vanda vill liferni sitt — þetta hid skammvinna og hégómlega líf, slíkir stormar sem á því mæda, medlæti og mótlæti, kvídi og von, og allar hinar písla-

fullu ástriður, er sífeldlega deila um einvaldsdæmið, þó eingri einni takist að ná því — nei! slíkt líf getur ekki fullnægt mér, og með það get eg ekki verið ánægður. "Hvernig á eg að breyta, svoað eg eignist eylíft líf?" Hér er ekki sagt: svoað eg verði áisðan tekinn inní annað líf, er betra sé enn þetta, einsog að líf það, er vér girnumst, eigi ekki að byrja fyrrenn að liðnu hinu jarðneska lífi; heldur er það eylíft, og meðþví það er eylíft, þá er það ætíð og alstaðar; og þegar hér á jörðu, mitt í dauðleg-leikanum, getur þú höndlað, og áttu að höndla hið eylífa líf, og höndlir þú það, eða höndli það þig, þá getur þú ekki glatað því aptur á þann hátt, er menn glata stundlegum auðæfum, því þú verður ekki sviptur því með neinu líkamlegu valdi, enda getur þú ekki misst það á þeirri stundu, er þú skalt yfirgefa allar þínar jarðnesku eignir, heldur lýkst það þá algjörlega upp fyrir hinum guðrækna, einsog blómið lýkst í sundur fyrir sólargeislun-um, þegar það hefir áður þróast um stundarsakir.

"Meistari! hvernig á eg að breyta?" — það eru ekki aðeins börnin, sem þurfa að fræðast; því hversu fús væri eg að setjast við fætur meistara einhvers, þess er mætti fræða mig, hversu eg skyldi breyta, svoað hið eylífa líf næði í mér að þróast! Hversu fús er hver samvizkusamur maður að hlýða á sérhverja tilsögn þá, er getur leidt hann fram á leið, og kennt honum hvernig hann skuli breyta! En sé nú sá til, er vér köllum Meist-ara í æðstum skilníngi, og sé nokkur Kennari frá Guði kom-inn, sá er sé vegurinn, sannleikinn og lífið, og hafi orð hins eylífa lífs — eigum vér þá ekki að hlýða á hann fremur enn nokkurn annan?

Hverju svaraði Jesús lögvitríngnum, sem bar upp fyrir honum þessa hina miklu spurníngu? Hann svaraði ekki nýum orðum, heldur vísaði á lögmál það, er kunnugt var þeim, er spurði, það er: hið dásamlega lögmál, sem Guð hafði í fyrnd-inni birt sig í fyrir Gyðíngum. Og hvar finnum vér, í fræði-bókum fyrri eða seinni alda, nokkurt lögmál, er tali til meðvit-undar vorrar um það, sem rétt er og gott, af meira valdi, held-urenn þetta boðorð, er ritað stendur í hinum helgu bókum Gyð-íngaþjóðar allt ífrá öndverðu: "heyr það, Ísrael! Drottinn

Guð þinn er einn; þú skalt elska Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum. Og þessi orð eiga að vera rótgróin í hjarta þínu, og þú skalt brýna þau fyrir börnum þínum, og hafa þau um hönd, þegar þú situr í húsi þínu, og þegar þú gengur um farinn veg, og þegar þú leggst fyrir, og þegar þú stendur upp" (5 Mós. 6, 4 o. nn. vv). Á þetta boðorð vísaði nú Jesús lögvitríngunum, þegar hann spurði hann, svo segjandi: Meistari! hvernig á eg að breyta, svoað eg eignist eylíft líf? og á það vísaði hann og öllum öðrum, er spyrja mundu hins sama um ókomnar aldir. En hitt er allt annað mál, hvernig vér getum orðið hæfir til að fullnægja þessu boðorði, og hvernig vér getum vænt réttlætíngar, þarsem vér höfum ekki haldið þetta boðorð, meðþví einginn af oss hefir elskað Guð af öllu hjarta sínu, og af öllum mætti sínum; og ef vér íhugum þetta mál, munum vér skilja, að einginn dauðlegur maður réttlætist af verkum lögmálsins. En eins sannarlega og vér réttlætumst fyrir trúna á Jesúm Krist, en ekki fyrir verk lögmálsins (Gal. 2, 16), eins sannarlega hlýtur þessi trú, ef hún er sönn og lifandi og réttlætandi í raun og veru, að gjöra oss æ hæfari til hlýðni við Guðs lögmál, sem Kristur kom til að fullkomna, en ekki aftaka (Matth. 5, 17), og um allt framhlýtur trúin að gjöra oss æ hæfari til hlýðni við það boðorð, er sjálfur hann kallaði hið fyrsta og æðsta boðorð (Matth. 22, 38).

Hið fyrsta og æðsta boðorð, segir Drottinn — því eitthvert boðorð verður að vera fyrst og æðst, og fela í sér öll önnur boðorð og tengja þau saman. Guðs lögmál er ekki samsafn af sundurlausum reglum og laust saman tengdum, þeim er svo séu lagaðar, að oss beri að fylgja sinni í hvert sinn, og hver geti orðið annari gagnstæðileg, svo ekki verði úr skorið, hverja vér eigum að meta mest; heldur verða öll boðorðin eptir eðli sínu að vera sameinuð í einu boðorði, því er sé fyrirmynd þess hugarfars, er hinir réttlátu eiga að vera gæddir, og fram á að koma í hverri hugrenníng, og í hverju orði, og í hverju verki. Jafnvel þeir, sem ekki aðhyllast Guð, en vilja þó hegða sér skynsamlega í veröldinni, verða að leita sér að einhverri reglu, til þess að setja efst; því það lætur að líkindum, þeir vilji ekki

vera á sífeldu reiki, heldur leiti að laga alla hegðun sína eptir einni stöðugri lífernisreglu, og hugfesti með sér, hvað þeir skuli einkanlega aðhyllast.

Og hver er nú þessi lífernisregla? Hver er þessi kærleiki, sem allur annar kærleiki á að vera í fólginn? Hvað eigum vér að meta mest, svoað vér leggjum á það allan hug, og vinnum því, og lifum því — hvað eigum vér að meta mest?

Látum oss reyna, hvert vér getum sett nokkra aðra reglu í stað þessa hins fyrsta og æðsta boðorðs; ímyndum oss, að einhver segði: eg skal elska heiminn af öllu hjarta mínu og öllum mætti mínum. En vér finnum þegar, áðurenn orðinu er sleppt, að heimurinn er stopull og einginn stöðugleiki í honum, og að sá, er selur hjarta sitt veröldinni, selur það um leið undir allar píslir hennar, og hreppir tómleika í stað fyllíngar. Þú, sem ert ágjarn! hald þú dauðahaldi utan um eigur þínar, og er óvíst, þú fáir varið þær fyrir ofbeldismönnum, falið þær fyrir þjófum, eða forðað þeim logandi eldi; en hitt er víst, að þau augu, sem mæna á gullið, full ágirndar, verða aldrei södd, og að það hjarta, sem ekkert annað elskar, verður æ öreigi, og þykist æ öreigi, mitt í öllum auðæfum sínum. Þú, sem ert hégómagjarn! skemtu þér við reyk virðínganna, og set á höfuð þér kórónur þeirra; en þú munt brátt reyna, hverjir þeirra eru hluttakandi með þér, og þú munt sjá, að þær hafa tælt þig, og ekki verið annað enn sjónhverfíngar, og að þá virðing, er menn veita þér, geta þeir tekið aptur, og munu brátt veita hana öðrum. Þú, sem ert þræll veraldlegs munaðar! sökktu þér niðurí allskyns háðúngar, og reyndu að drekkja sérhverri góðri hýsu, sérhverri endurminníngu, sérhverri aðfinduni samvizkunnar í þeirra myrkum straumi; en þú munt bráðum finna, í hverri áunauð þú ert, og þiggja þau láun, er henni fylgja, og hjarta þínu vera horfin öll huggun og indi. Haldtu í veröldina af öllum kroptum, en kraptarnir hverfa, þegar dauðinn andar á, og ekkert verður eptir af neinu, sem þú unnir, nema einúngis hin dimma gröf.

Paráðosan er um svo margt að vera í þessari veröldu, að þegar hjarta mannsins selur sig henni á vald, verður það að hvarfla til allra hliða; og hvað á það þá að kjósa? hvað á það

að meta mest? "Ekkert", kynni einhver að segja, sem vitur þæktist í veröldu þessari; eg festi ekki huga minn við neitt einstakt, eg lofa hlutunum að koma og fara, nota þá, meðan þeir eru hjá mér, og sakna þeirra ekki, þegar þeir eru horfnir; eg þjóna þeim ekki, en þeir eiga að þjóna mér. Þessi ræða er að sönnu spaklegri að heyra, enn hin fyrri; en þegar að er gáð, þá er þetta sama einsog maðurinn segði: eg vil elska sjálfan mig af öllu hjarta minu, af allri öndu minni og af öllum mætti mínum! Víst veit eg, að fáir munu þannig kveða á með berum orðum, að þetta sé hin æðsta lífernisregla þeirra. Það leynist í manninum einhver góð tilfinníng og einhver blygðunarsemi, er bannar honum að lofa berlega það, sem illt er og svívirðilegt, jafnvel þótt hann gefi því rúm í hegðan og hugrenníngum. En þegar vér heyrum það orðtæki, að hver sé sjálfum sér næstur, vera þýðt á þann hátt, og við haft á þann hátt, að nálega öll ráðvendni og öll tryggð og öll líknsemi verða að eingu; þegar vér heyrum það vera sagt einsog í gamni, og þó reyndar í alvöru, að réttur kærleiki byrji á sjálfum sér; þegar menn telja oss trú um, að hver tilfinníng og hver fýsn í hjarta mannsins sé í raun og veru sprottin af eintómri sérplægni, og að mennirnir hirði um ekkert annað enn sjálfa sig, jafnvel þegar þeir vinni þau verk, er kölluð séu bezt — vantar þá mikið á, að þessi grein: þú skalt elska sjálfan þig af öllum mætti þínum, sé kölluð æðsta lögmál allra mannlegra athafna og hugrenninga? Því er miður, að sérplægnin er mikils til of rík, jafnvel í hjörtum þeirra, er á það leggja mesta stund að útrýma henni; hversu óttalega mun þá ríki hennar styrkjast af þvílíkum kenníngum, þegar því er hvíslað í eyra, og það er kennt á bekkjum uppi, og menn vita þær ekki, heldur jafnvel gjöra að þeim góðan róm, og telja sér og öðrum trú um, að það virði og eigi svo að vera! En reyndu að koma þessu lögmáli á, láttu ástina á sjálfum þér eyða sérhverri annari ást, og vertu sem þóttafyllstur — en muntu þá verða ánægðari? O, hversu gramur og sár og sundurkraminn muntu optsinnis verða, þegar þú finnur, að þú ert ekki jafn-merkur fyrir augum Guðs og manna, sem þú ert fyrir þínum augum, og að veröldin lýtur ekki eins að þínum

vilja, og þú heimtar. Reyndu, segi eg, að koma þessu lögmáli á, og þá muntu hljóta að verða sjálfum þér sundurþykkur í óteljandi hlutum, meðþví að túnga þín dirfist ekki, og hjarta þitt megnar ekki, að dyljast við sannindi þau, að menn eigi ekki að líta einúngis á sitt gagn, heldur og annara (Phil. 2, 4), og að það sé snautt líf og ósarsælt, er um ekkert hirði nema sjálft sig.

Þú skalt elska náúnga þinn! þetta boðorð hljómar innst í hjarta þínu og í hinum kristilega fagnaðarboðskap; þú skalt elska vin þinn og bróður þinn, þú skalt einnig elska þér vandalausa, því þeir eru og náúngar þínir, þegar Guð lætur þig hafa nokkur viðskipti við þá. Guði sé lof, að þeir eru margir á jörðunni, sem kunna skil á kærleikanum, og vita hvað það er, að lifa í öðrum, og láta sér eins annt, og jafnvel optsinnis annara um þeirra velferð enn sjálfra sín, og leggja fúslega mikið í sölurnar fyrir þá. En mættum vér samt sem áður búa til handa oss svo látandi boðorð: þú skalt elska náúnga þinn af öllu hjarta þínu, og af öllum mætti þínum? Fjærri fer það! því hver maður finnur, að ástin á mönnunum má ekki vera æðst í hjarta voru, hversu hrein sem hún er. Eða ættir þú að bendla þig við það, sem illt er og ósæmilegt, fyrir sakir vinar þíns, ef hann væri hneigður fyrir það? Ef svo bæri undir, að þú mættir ekki hirða um hin jarðnesku forlög þín sjálfs, heldur meta það, sem þú finnur fyrir samvizku þinni að rétt er og skylda þín, umfram ró þína og hamingju, og eignir, og líf: mundir þú þá mega draga þig í hlé, til þess að hlífa þeim, er þú elskar, og flekka samvizku þína með því að kaupa þá undan því mótlæti, sem þeir ættu ekki að vilja fá umflúið með þeim hætti? Hver, sem elskar föður eða móður meir enn mig, og hver, sem elskar son eða dóttur meir enn mig, sá er mín ekki verður, segir Drottinn vor (Matth. 10, 37). Þyrðir þú að bera ljúgvitni, þyrðir þú að ljúga, tæla, svíkja, og afneita þannig sannleik og réttindum, til þess að frelsa nokkurn, hversu kær sem hann væri þér? Nei! þú skalt elska náúnga þinn einsog sjálfan þig; og einsog þú mátt ekki meta þinn jarðneskan hag dýrmætara því, er samvizka þín finnur að rétt er, eins máttu ekki meta hag annara það.

Sannur drengskapur og sönn hugprýði mannsins eru í því

fölgin, að hjarta hans hefir þann kærleik að geyma, sem æðri er ást hans á jarðneskum hlutum, ást hans á sjálfum sér, og ást hans á nokkrum manni. Og hverju nafni heitir þá það, er hann á að elska framyfir allt annað? Vera má þú svarir, að það séu: skylda og réttvísi, og að vísu nefnir þú þar heilög nöfn; vei þeim, er ekki heldur þau heilög! vei þeim, er ekki auðmýkir sig undir hin fögru yfirráð skyldunnar, og ekki verður heitur um hjarta, þegar hann hugleiðir mátt og tign réttvísinnar, sem upp er hafin yfir jarðneskan munað og jarðneskan ávinning, hrein og ósérgjarnleg, ætíð söm og jöfn, og án alls manngreinarálits! Vér skulum aldrei svipta þessi nöfn neinu af tign þeirri, sem þau eiga, en samt skulum vér ekki láta þau útrýma nafni hins lifanda Guðs. Hver hefir ekki orðið var við, að einsog menn hafa optlega á seinni tímum, þegar rætt hefir verið um hina líkamlegu skepnu, sett náttúruna á veldisstól Skaparans, að eg svo að orði komist, eins hafa menn fordast í andlegum efnum að minnast á Guðs vilja, og nefnt einúngis skyldu og réttvísi. En hvað er skyldan, sé ekki til Drottinn allsherjar, sá er hafi vald og rétt til að vísa hverjum á það, sem honum byrjar að gjöra? Hvað er réttvísi? Hvert mun hún vera kraptur án meðvitundar, sá er saman haldi hinum andlega heimi, einsog þýngdin þeim hinum líkamlega? Og getur þú elskað þýngdina, þó þú sjáir, að hún sé nytsamleg og ómissandi? Hvað er réttvísin, finnist hún ekki í einhverri lifandi veru, er vilji hið rétta? Hvað er réttvísin á jörðunni, sé ekki réttvísi hjá Guði á himnum?

Látum oss því tala, einsog oss ber að tala, látum oss segja það, sem Drottinn vor og Meistari kenndi oss að segja: Þú skalt elska Drottinn Guð þinn. Því hann lifir, og vér lifum allir fyrir hann einan, hann er oss alstaðarnálægur, og yfirgefur oss aldrei, og gleymir oss aldrei; vér erum sameinaðir honum að eðli voru, einsog limið stofninum; látum oss því einnig sameinast honum að vilja vorum til og hinni heitustu ást, svo að vér getum öðlazt af honum æ meiri þroska og vöxt og viðgáng.

Þú skalt elska Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri sálu þinni, og af öllum mætti þínum

(Mark. 12, 32). En hversu orðin eru sett hér mörg saman, til þess að leiða fyrir sjónir, að hinu fyrsta og mesta boðorði nægist ekki hálfverk og hálfvelgja! Þú getur ekki þjónað tveimur herrum; viljir þú breyta réttvíslega í veröldinni, þá máttu ekki hafa í hjarta þínu tvöfaldan kærleika, þann er hver ónýti annan, eður veiki. En í kærleikanum á Guði er öll hrein ást fólgin. Þegar þú elskar Guð, þá elskar þú einnig fegurð himins og jarðar, meðþví hún vitnar um hann; þá elskar þú og skylduna, meðþví hún er vilji hans til þín — og réttvísina, meðþví hans heilög vera birtir sig í henni; þá elskar þú menniua, meðþví þeir eru hans börn og bræður þínir, og ást hans nær yfir þá, allteins og þig; já — jafnframt og ástin á Drottni Guði þínum kveykir í þér vandlætingasemi um vondsku og guðleysi, kennir hún þér um leið að umbera — meðþví Drottinn Guð þinn er líknsamur og náðugur Guð, og þolinnmóður, og mikillar miskunar (2 Mós. 34, 6), og að vera líknsamur, jafnvel þegar þeir eiga í hlut, sem vondir eru og óþakklátir (Lúk. 9, 35), einsog Faðir þinn á himnum lætur sólina renna upp yfir vonda og góða, og regnið koma yfir ráðvanda og óráðvanda (Matth. 5, 45).

"Þú skalt elska Drottinn Guð þinn". — Og enn tekur ritningin svo til orða: Drottinn Guð þinn skaltu tilbiðja og dýrka hann einan (Matth. 4, 10); þú átt að lúta hinum eylífa, þú átt að fylla sálu þína skoðun hans dýrðar, og verða gagntekinn af þeirri lotningu við hann, sem þú mátt ekki auðsýna neinni skapaðri veru; þetta er heilagt boðorð, en það er ekki æðst. Enn, segir ritningin: óttastu Guð og geymdu boðorð hans, því það ber hverjum að gjöra (Prédik. 12, 13); þú átt að vera þess minnugur, að Drottinn er yfir þér, sem þú átt að hlýða, og að hann er almáttugur, svoað ekkert fær hrifið þig úr hendi hans, og að hann er heilagur og réttvís og vandlátur, og hegnir illverkum; þessi tilfinning á að vera innrætt sálu þinni, og halda samvizku þinni vakandi, og fæla þig frá því sem íllt er, og hvetja þig til að fullnægja skyldum þínum; allir menn, hvert sem eru háir eða lágir, vitrir eða einfaldir, glaðir eða hryggvir, eiga að óttast Guð; og það er mikið boðorð, en þó ekki æðst. Sótan dómsins og réttvísinnar talar opt til vor af himnum ofan, en

þinn eylífi kærleiki talar einnig til vor, og það af munni hans, er sjálfur var hinn fullkomnasti vottur Guðs kærleika, og segir til hvers manns, er þegið hefir líf og anda, og hjarta með tilfinningu: þú skalt elska Drottinn Guð þinn. — Þó er sitt hvað, að vita, að Guð sé til, ellegar að þýðast hann og meta hann æðst gæði; það er sitt hvað, að kalla hann Herra og Dómara, og gjöra það með ótta og hræðslu, ellegar að kalla hann Föður, og gjöra það með ást og trúnaðartrausti; það er sitt hvað, að þakka Guði gjafir þær, er hann hefir oss veitt, ellegar að elska hann sjálfan, og finna til sælunnar í samfélagi hans. Slíkur kærleiki færir hjörtum vorum fullan frið, því postulinn segir, að eingin hræðsla sé í kærleikanum, heldur útreki fullkominn kærleiki hræðsluna (1 Jóh. 4, 18). Ef vér höfum þenna kærleik, þá erum vér aldrei einmana, aldrei munaðarlausir, aldrei andlega snauðir, því honum fylgir líf og fylling — hin sárasta laungun, og hin sælasta fullnægja. Þessi kærleikur hefir ætíð verið vakandi í hjörtum guðræknna manna, og verið þeim fögnuður í meðlætinu og hæli í mótlætinu. "Drottinn! styrkleiki minn! eg hefi þig hjartkæran", segir Davíð (Sálm. 18,2). Einsog hjörturinn æpir eptir ferskju vatni, eins æpir sála mín til þín, ó Guð! Sálu mína þyrstir eptir Guði, eptir hinum lifanda Guði (Sálm. 42, 2. 3). Hvern hefi eg á himnum? þegar eg hefi þig, hirði eg hverki um himin né jörð. Þó eg örmagnist á öndu og líkama, þá er Guð traust hjarta míns og hlutskipti mitt að eylífu (Sálm. 73, 25. 26).

---

## 44.

## Þú skalt elska náúnga þinn sem sjálfan þig.

Þú skalt elska Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu, það er hið fyrsta og æðsta boðorð. En annað boðorð er því líkt: þú skalt elska náúnga þinn sem sjálfan þig. Í þessum tveimur boðorðum er fólgið allt lögmálið og spámennirnir (Matth. 22, 37). Öll þau boðorð, sem ritð eru á hið fyrsta spjald lögmál-

sins, viðvikjandi því, er mennirnir eiga Guði að gjalda, eru fólgin í hinu fyrra af boðorðum þessum; og öll þau boðorð, er rituð eru á hið annað spjald lögmálsins, viðvíkjandi því, er mennirnir eiga hver öðrum að gjalda, eru fólgin í hinu síðara. Allar áminningar spámannanna eru fólgnar í þessum tveimur boðorðum, og þóað Kristur kæmi til að fullkomna lögmálið, vissi hann þó eingin æðri boðorð, er hann gæti sett í stað þeirra.

Nú er vér ætlum einkum að hugleiða hið síðara af þessum yfirgripsmiklu boðorðum, skulum vér íhuga orð postulans Páls, sem berlega hljóða um þetta boðorð. "Gjaldið — segir hann — hverjum, það er þér eigið að gjalda; þeim skatt, er skattur heyrir, þeim toll, er tollur heyrir, þeim ótta, er ótti heyrir, þeim heiður, er heiður heyrir; verið eingum um neitt skyldir, nema það að elska hver annan, því hver sem elskar aðra hefir haldið lögmálið. Því að öll boðorðin eru fólgin í þessari grein: elska skaltu náúnga þinn sem sjálfan þig (Rómv. 13, 7 o. nn. vv.). Postulinn talar á þessum stað bæði um réttlæti og kærleika, og sameinar hverttveggja mjög nákvæmlega; ef þú elskar náunga þinn, verður þú að breyta við hann réttvíslega, en þó þú gjörir það, máttu samt ekki halda, þú hafir fullnægt lögmálinu, því það heimtar, vér skulum elska hver annan.

Þú skalt breyta réttvíslega við náúnga þinn, það er hið fyrsta boðorð, sem hverjum kristnum manni er gefið í tilliti til annara, og er það svo auðskilið, og hefir svo opt verið ítrekað, að óþarfi kynni sýnast, að brýna það fyrir nokkrum, sem þverskallast ekki með öllu gegn áminningum skyldunnar — því fyrir slíkum væri það tómur óþarfi. Þó vildi eg, að til væri sú rödd, sem hljómað gæti í hjarta hvers manns, hvernig sem á stendur, og sí og æ tæki upp fyrir honum þetta hið sama: um allt fram skaltu breyta réttvíslega, því ef þú gjörir það ekki, þá verður ekkert af því, er þú átt eður aðhefst, þér sjálfum né öðrum til sannra nota. Þó þú værir gæddur öllum andlegum gáfum, óþreytanda afli, og brennanda ákafa, en þig vantaði það, er beinir öllu öðru rétta leið, og vísar hverri athöfn þann veg, er einu liggur að réttu takmarki, það er: lotningu fyrir hinni heilögu skipun réttvísinnar: þá gætum vér að sönnu dáðst að

gáfum þeim, er þér væru veittar, en þú gætir ekki með þeim aflað þér virdíngar, né heldur verdir þú þeim þér til sannra nota. Og það væri þér til litillar afbetunar, að segja, þú hefdir yfirgefið hina gleggu og beinu getu réttvísinnar, til að fara aðra brotnari leið, þar er þú mættir vinna meira gagn; því ef það eru sannarleg réttindi, er þú hefir hallað, edur þú hefir hjá þér leidt, hvaða gagn getur du þá unnið, sem sé jafnvægi tjóns þess, er þú hefir ollað, með því að ríra lotningu þá, er allir eiga að sýna réttvísinni, er þeir hafa ekki búið til, heldur er hún þeim boðin, og þeir ekki yfir henni, heldur hún yfir þeim? Þaráofan eru afleidingarnar ekki á mannsins valdi, hann getur ekki ráðið þeim né séð þær fyrir, og þær tengjast opt við gjörðir hans á annan hátt, enn hann hugdi; en illa fer, ef afleidingar þessar snúast oss edur ødrum til ills, og vér verdum þaradauk að kannast við, að vér høfum átt það skilið, afþví vér vildum ekki gjøra það, sem rétt var!

Orð postulans minna oss á, að réttlæti sé það, er vér eigum hver ødrum að gjalda; þóað þú fremjir það, hefir þú til einskis unnið, því þú leggur það ekki til af góðvild þinni, heldur geta menn heimtað það að þér, og mannleg løg mega og munu þraungva þér til að gjøra það, sem rétt var, eptirþví sem í þeirra valdi stendur. En þegar vér tølum um að gjalda hverjum sitt, og borga hverjum það, sem vér erum honum um skyldir, hugsa fæstir um aðrar skuldir, enn þær, er lúka má með gulli og silfri. Það er að vísu harla gott og nauðsynlegt, að vér førum svo með hin tímanlegu gæði, að vér verdum ekki neinum um neitt skyldir; að vér førum svo með annara eignir, að vér svíkjum eingan, né gjørum nokkrum manni rángt til, annaðhvert af sérplægni eða óvild við hann, eða ødrum í vil; að vér førum svo með eignir sjálfra vor, að vér verdum ekki verkamønnunum skyldir um laun þeirra, né látum ólaunaða hjálp vina vorra, annaðhvert vegna eydslusemi, eða hégóma-dýrðar, eða léttúðar: allt þetta, segi eg, er að vísu harla gott og nauðsynlegt, og Guð gæfi, að allir menn kønnuðust við það, svo eg þyrfti ekki að minnast á það, eða færa neinum heim sanninn um skyldu hans í því tilliti! Eg segi ekki, það sé loflegt, heldur segi eg einmitt, það sé ekki annað enn skylda vor, að gjalda hverjum sitt, þeim

skatt, er skattur heyrir, þeim toll, er tollur heyrir, þeim laun, er laun heyra, þeim bætur, er bætur heyra.

En vér eigum ad gjalda hver ødrum fleira enn gull og silfur, og getum á margan hátt gjørt hver ødrum rángt til, þó vér svíkjum ekki. Því hvert sem vér eigum heldur ad skipta vidyfirmenn vora, edur undirmenn, edur jafníngja, eigum vér þeim margt ad gjalda, og þegar vér skorumst undan því, gjørum vér þeim rángt til. Þér, sem settir erud yfir adra menn, og kalladir erud herrar á jørdunni, veitid þjónum ydrum þad, sem rétt er og sanngjarnlegt, og munid til þess, ad þér eigid og herra á himni (Kól. 4, 1)! og þér gjørid þeim rángt til, ekki adeins þegar þér misþyrmid þeim, eda dragid af þeim laun þeirra, eda skamtid þeim þau úr hnefa, heldur og þegar þér finnid ad því, sem ekki er adfinníngarvert, eda meidid þá, eda særid, eda hryggid, afþví ydur er fengid vald á, ad gjøra þad ad ósekju. En þér megid ekki halda, þjónarnir! ad þad séu hinir voldugu einirsaman, sem framid geti rángindi; ekki megid þér heldur hugsa, ad þér gjørid nokkrum rángt til, nema þegar þér stelid eda svíkid; því þér erud yfirmønnum ydrum ekki adeins skyldir um trúleika, heldur og um hlýdni og lotníngu, og þad eigid þér ekki ad sýna einúngis þegar þeir horfa á, einsog þeir, sem þóknast vilja mønnum, heldur einsog þjónar Krists, svoad þér gjørid vilja Guds af hjarta (Eph. 6, 6). Þér fedur og keunendur! gáid ad því, ad þér breytid ekki adeins órèttvíslega, þegar þér látid þá, sem ydur er trúad fyrir, alast upp án tilsagnar og adgæzlu, heldur og þegar þér egnid þá upp, eda típtid þá fyrir sakleysi, eda freistid þeirra yfir megn fram, eda metid ekki réttilega vidleitni þeirra; og ad þér breytid óréttvíslega eins fyrir þad, þó þad séu børn sjálfra ydar, og þér hafid haft mikid fyrir þeim; því Gud, sem hefir trúad ydur fyrir þeim, hefir ekki leyft ydur ad fara med þau eptir hugþótta. En gáid þér líka ad því, børnin gód! ad þér breytid óréttvíslega, þegar þér erud baldin og hirdulaus, eda fyrirlítid, eda styggid fedur, mædur eda kennendur; eda haldid þér, ad hinir eldri finni minna til þess, enn þér, eda þeir eigi hægra med ad gleyma rángindum þeim, er þeir verda ad þola, þarsem þó hver ný áhrif útrýma svo skjótt

øllum ødrum áhrifum úr huga ydrum? Gáid ad því, þér, vinir, og allir menn! ad vér erum ekki adeins hver ødrum skyldir um leigur og laun og borgun, heldur er og bod postulans sanngjarnt og réttvíslegt, er hann segir: gjaldid þeim ótta, sem ótti heyrir, þeim heidur, er heidur heyrir. Vér menninnir erum sannarlega í mikilli skuld hver vid annan, og aukum hana, í stad þess ad lúka hana, þegar vér þrjózkumst vid adra, eda svívirdum þá, þegar vér leitum heldur ad hinu illa enn hinu góda, þegar vér horfum einúngis í brestina, en gleymum ad meta kostina, og kannast vid góda vidleitni, þegar þeir mega fara á mis vid launin, sem þeirra eru verdir, og sérplægnin kveykir øfund og adfinníngasemi. Gjaldid þeim heidur, sem heidur heyrir! Illska, spilling og heimska eiga eingan heidur skilid, en hinu góda, sanna og rétta eigum vér ad audsýna lotníngu. Ef vér erum lotníngarlausir, fjarlægjumst vér hina ædstu veru meir og meir, því sá er eingu vill lúta, og ekkert vill tigna, lýtur ekki heldur þeim, sem heidurinn á frá eylífd til eylífdar. Ef vér erum lotníngarlausir, fjarlægjumst vér og hver annan meir og meir; hinsvegar dregur lotníngin oss hvern ad ødrum, og kemur því til leidar, ad vér unnum hverjum manni sannmælis, gledjum oss vid margbreitnina á gjøfum Guds, erum fúsir til ad láta hvern ráda sér, og fara sinna ferda, ef hann adeins hlídrar sér ekki hjá því, sem øllum er naudsýn á. Þegar vér gjøldum øllum á þenna hátt allt, er vér eigum ad gjalda, fullnægjum vér fyrst krøfum réttvísinnar.

Ef þetta færi fram ætíd og alstadar, mundi þad líta svo út, sem skuldum þeim væri lokid, er menninnir eiga hver hjá ødrum, og til ad lúka þeim, hvetur þad bodord, sem aldrei þagnar, og einginn fær undanfærzt, því allir finnum vér, ad vér erum skyldir ad hlýda því, ekki adeins vegna hegníngarinnar, heldur og vegna samvizkunnar, og meina þetta bodord: látid eingan eiga neitt hjá ydur. En þegar postulinn býdur oss þetta, og skipar oss ad lúka mønnunum allar skuldir vorar, bætir hann vid í sømu grein því, er gjørir skuld vora takmarkalausa; "látid eingan eiga neitt hjá ydur", segir hann, "nema þad ad elska hver annan". Løgmál Guds heimtar ekki adeins réttlæti, heldur

og kærleika; en kærleikinn innibindur í sér réttlætið, og þaradauki margt annað.

"Hver, sem elskar aðra, hefir fullnægt lögmálinu". Það er auðsært, að þetta er satt, að svo miklu leiti, sem lögmálið bannar eitthvað — að svo miklu leiti, sem það segir: þú skalt ekki, þ. e. þú skalt ekki breyta óréttvíslega; því kærleikurinn gjörir eingum nokkurt mein (Rómv. 13, 10), hann tekur ekki undir sig annarlegt fé, hann ber ekki ljúgvitni, og afþví hann herðir ekki að líkamanum heldur að sálinni, afþví hann eyðir öfund, drambsemi og sérplægni, og illum girndum, kemur hann til leiðar hlýðni við hið síðasta og örðugasta boðorð, er svo hljóðar: þú skalt ekki girnast. En hver er sá, er ekki kannist við, að lögmálið krefst miklu meira enn þess, að vér vörumst að gjöra nokkrum rángt til, og borgum það, er vér höfum þegið? Fátæklíngurinn hefir ekki gjört þér neitt gott, er þú þurfir að borga honum, hann getur ekki kvaðt lögin til, að þraungva þér að ljúka upp hirzlum þínum, og miðla sér af því, er þú nefnir þína eign með fullum rétti; en á þó ekki ríkismaðurinn, og hver sá, sem Guð hefir gefið meir enn hann þarf, mikla skuld að gjalda hinum fátæku? Ókunnugur maður, sem þarf á greiðvikni þinni eða ráðum eða aðstoð að halda, hefir ekki þegið neitt gott af þér, er þú þurfir að borga honum aptur; en þegar hann biður þig sanngjarnlega og hóglátlega, gjörir hann þig að skuldunaut sínum, að svo miklu leiti sem þú hefðir getað ráðið honum eða hjálpað. Óvinur þinn hefir gjört þér illt til, hann hefir, ef til vill, synjað þér réttar, er vér höfum sagt að ómissanlegastur væri allra hluta í lífinu; hann hefir, ef til vill, sært hjarta þitt sárum, er svíða enn. En þegar hann kemur til þín, og segir við þig: eg veit gjörla, að þú ert mér ekki skyldur um neitt, en eg þarf samt á aðstoð þinni að halda, og beiðist hennar, gjald nú illu gott: þá afmáir kærleikurinn gjörvalla sekt hans, og gjörir þig að skuldunaut hans, og minnir þig á, að vér erum skyldir að gjöra þeim gott, sem hafa gjört oss illt. Allt hvað þér viljið mennirnir gjöri yður, það eigið þér og þeim að gjöra (Matth. 7, 12): þetta boðorð, sem lögmál Guðs, og öll vitni hans á jörðunni, og samvizkan, brýna fyrir oss sífeld-

lega: þetta hid mikla bodord kennir kærleikurinn oss ad halda, því hann setur oss í annara stad, og lætur oss finna til þarfa þeirra edur báginda, er bæta skal úr, eins gleggt, og vér ættum sjálfir undir þeim ad búa.

En kærleikurinn er ekki fólginn í verkunum einum, því hann er eitt af tilfinníngum hjarta vors. Ef vér elskum hver annan einlæglega, verdur þad ad sönnu ad koma fram í gódum verkum, þegar þeim verdur vid komid, en þad gjörir líka vart vid sig, þegar ekkert verdur adhafst, og vér eigum ekkert til ad gefa — nema þad, sem bezt er, og hver vinur vill sér helzt kjósa, en þad er vidkvæm ást og tryggt hjarta. Af þessu verdur þad audsært, ad postulinn getur sagt þad sé kærleikurinn, sem vér verdum allt af í skuld um hver vid annan, þó vér reynum til ad lúka öllum ödrum skuldum. Því vera má vér getum borgad hverja þeirra, svo vér séum skuldlausir í einu tilliti. Vera má, eg geti farid og borgad hverjum manni, sem á nokkud hjá mér, og geti sídan sagt í gladara skapi: nú eru eigur mínar óbundnar. Vera má, eg geti sagt vid barn mitt, þegar eg er búinn ad ala þad upp, og gjöra þad hæfilegt til ad ala önn fyrir sjálfu sér: nú er eg búinn ad gjöra þad, sem í mínu valdi stód, og er þér því ekki skyldur um neitt meir. Vera má, eg geti sagt, þegar eg er búinn ad ljúka vid eitthvert starf: nú hefi eg bundid enda á þad, sem eg lofadi, og í þessu efni á enginn neitt hja mér framar. En geturdu lokid skuld kærleikans, svo þú eigir engum meiri kærleik ad gjalda? Ætlar þú ad segja vid vin þinn: nú er eg búinn ad elská þig í mörg ár, med því hefi eg lokid skuld minni, og er búinn ad elska þig nóg? Ætlar þú ad segja vid mennina: vinátta mín hefir stadid ydur lengi til boda, og fyrir þad erum vér skildir, nú ætla eg mér eptir þetta engan ad elska, nema sjálfan mig?

Þad þarf ekki bodord til ad segja oss, ad vér eigum ad elska sjálfa oss, því vér lítum ofmikid á oss til þess, og hugsum ofmikid um hag sjálfra vor; en hvernin sem sjálfselskan villir oss, og til hversu margra ráugra ímyndana sem hún leidir oss, könnumst vér þó vid þad med sjálfum oss, ad náúngi vor á jördunni er gæddur sama rétti og vér, og hans gagn jafnáríðandi og gagn

sjálfra vor, að Drottinn himins og jarðar ser ekki í manngreinar-álit, og að hann hefir sett oss í veröldina, til að efla jafnt ann-arra gagn og sjálfra vor; þannig kannast samvizka vor við hið mikla boðorð, er miskunarrík fyrirhyggja Guðs lætur oss svo tíðum heyra: þú skalt elska náúnga þinn, sem sjálfan þig.

En hver er náúngi minn? þannig spurði lögvitríngur-inn forðum, og Jesús svaraði honum hinni fögru og frægu dæmi-sögu um hinn samverska mann, er sá liggja á vegi sínum fram-andi mann, rændan, særðan og yfirgefinn — útlendíngurinn var hvorki sömu þjóðar né trúar og hann — og tók hann að sér, einsog hann hefði verið nákomið skyldmenni (Lúk. 10, 29). Dæmi-saga þessi fær mikið á hvern, sem les hana, og er oss öllum ógleymandi; en er vér íhugum hana, hvaða þýðíng finnum vér þá í henni. Ætli Drottinn vor hafi viljað leysa öll bönd náttúr-unnar, skyldleikans og vináttunnar? ætli hann hafi viljað veita vandalausum mönnum eins mikil réttindi, og þeim, er Guð hefir tengt við oss með svo mörgum og sterkum böndum? — Orðið náúngi þýðir þann, sem er þér náinn. Optast eru þau þér nán-ust, konan í faðmi þínum, barnið á hné þínu, vinurinn við hlið þér, og þeir menn, er þú hefir mest saman við að sælda, og ræður mestu við; og ef þú ert skyldur vandalausum manni, og jafnvel óvini þínum, um viðkvæmni, ráð, hjálp og aðstoð, hví mundir þú ekki vera þeim það ennfremur, sem þú ert skuldbund-inn á svo margan hátt, og getur auðsýnt allt þetta betur og opt-ar enn öðrum! En það getur komið fyrir, að Guð gjöri vand-alausan mann, sem þú hefir aldrei áður séð, og þú ert ekki í neinu sambandi við, nema að því leiti sem hann er maður, svo náinn þér, að hann verði þér í bráð nánastur allra manna, og þú þurfir að taka hann að þér öllum fremur, og gleyma á með-an, fyrir hans skuld, öllum þeim, sem eru og eiga að vera hjarta þínu dýrmætastir. Þannig var ástatt fyrir hinum auma manni, sem varð á vegi fyrir hinum samverska.

En einsog Drottinn hvetur oss með þessari hinni fögru dæmi-sögu, til að auðsýna þeim mönnum velvild, sem vér erum ekki í neinu nánu sambandi við, eins áminnir hann oss með henni um, að elska vor eigi að vera starfsöm, og koma niður á einstök-

um mönnum, sem þurfa hennar við, svo vér gjörum þeim gott. Því ef þú segir það satt, að þú elskir menninа, þá er það ekki nóg, að mannkynið allt standi þér fyrir hugskotssjónum, svosem í reyk og þoku, eða þú sökkvir þér niður í grufl um ókunnar þjóðir og ófornar kynkvíslir, og óskir þeim allra heilla; heldur skaltu sýna það, hvernig þér er í þeli við menninа, með breytni þinni við náúnga þinn, við þann mann, er þú átt við að skipta, sem þú getur gjört eitthvað gott, og átt að veita gagn og gleði. Látum oss ekki, segir postulinn, elska með orði og túngu, heldur með verki og sannleika (1 Jóh. 3, 18).

Þú skalt elska náúnga þinn, sem sjálfan þig! Til að geta hlýðnast því boðorði, þurfum vér að láta í móti oss, og afneita sjálfum oss, og veitir sérplægni vorri örðugt að halda það. En verður lífið hægra, þegar vér elskum ekki aðra enn sjálfa oss, og setjumst á eyðimörk, og látum sérplægni og drambsemi og öfund girða milli vor og mannanna? O, Guð minn góður! sem ritað hefir lögmál kærleikans handa oss með helgum orðum, rita það einnig í hjörtu vor, og lát Anda þinn þýða það fyrir oss, og gefa oss vilja og mátt til að breyta eptir því: þá munum vér komast að raun um, að sjálfsafneitun veitir nægtir, hlýðnin frelsi, og kærleikurinn mátt; þá munum vér fá þessi orð fullskilið: Guð er kærleikurinn, og hver sem er stöðugur í kærleikanum, er stöðugur í Guði, og Guð í honum (1 Jóh. 4, 16).

---

## 45.

## Kristinn maður á að elska Drottinn sinn.

"Þú skalt elska Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu, þú skalt elska náúnga þinn, sem sjálfan þig: þetta eru hin tvö miklu boðorð, sem öll önnur boðorð eru í fólgin; geymdu þeirra og muntu lifa". Vér getum ekki með sanni eignað þessi boðorð fagnaðarerindi Krists, því laungu fyrr, enn það var boðað í heiminum, voru þau þegar rituð í hinu forna lögmáli, er Kristur sjálfur vísaði til. Apturámóti getum vér með sanni

eignad þau anda Krists, þeim anda, er vísadi til hinnar sýnilegu opinberunar Krists fyrir munn allra spámannanna, og átti ad koma fram af þessari opinberun og breidast útyfir øll lønd. Af-því þad var hinn heilagi, eylifi, guddómlegi Andi, er taladi fyrir munn þeirra, er og ad lesa í hinum fornu og helgu ritníngum Gydíngaþjódar, gudleg ord, þau er eingin ønnur ord í heiminum komast í samjøfnud vid. Spekíngum annara þjóda hefir tekizt ad vera sléttordari, og semja rædur sínar med meiri snilli og kunnáttu, og greida hagar úr kerfi hugmynda sinna; en Guds Andi veitti spekíngum Ísraelsþjódar fylling og krapt og opinberun gudlegra leyndardóma, og þessvegna hafa ord þeirra slík áhrif á hid dýpsta í mannlegri sálu, ad eingin ønnur jardnesk speki getur komizt í samjøfnud vid þau. Sýndu mér, til dæmis ad taka, í løgum annara þjóda, tvø bodord ønnur eins, og hin fyrstu og mestu, þá skal eg vidurkenna, ad Guds Andi hafi einnig verid løggjafi þeirra þjóda.

En þó nú jafnvel þessi tvø bodord séu eldri enn Kristur, þad er ad skilja, hinn sýnilegi Kristur, er birtist í mannlegri mynd, þá hefir hann þó komid þeim úr bókum løgmálsins inni hid mannlega líf, og úr afkimum Ísraels út um vída verøldu. En þarsem nú þessi bodord, sem um er sagt: gjør þetta, og muntu lifa — því þú þarft einkis annars med; ef þú gætir þessara tveggja bodorda, samkvæmt sérhverjum bókstaf þeirra og samkvæmt allri hinni miklu þýdingu þeirra, er nær yfir hverja athøfn í mannlegu líferni, hverja tilfinníng í mannlegu brjósti þá þarftu einkis framar, þá hefir þú hid eylífa líf — þarsem nú þessi bodord eru fyrir Krist komin á hvert land, í hvert hús, á hvers manns varir, þarsem Kristur hefir aukid bodordid um elskuna til náúngans, svo nú má ekki skilja þad einsog Gydíngar gjørdu velflestir, svosem þad hljódadi á þessa leid: þú skalt elska vin þinn, og bródur þinn, og skyldmenni þitt, og þann sem er þinnar þjódar og þinnar trúar; þarsem hann hefir aukid þad svo, ad þad hefir nú þessa miklu þýdíngu: þú skalt elska sérhvern mann, sem Drottinn Gud þinn leidir þér í móti, svo líf þitt kemur í nokkurt samband vid hans líf; þarsem nú þessu er til leidar komid, er þá Kristur búinn ad fullkomna eyrindi

sitt, og erum vér þá í eingu ødru sambandi vid hann, enn ad vér skulum hlýdnast ordum hans, og þakka honum fyrir þad hann hefir eptirskilid oss svo ágæta kenningu? —

Rétt ádurenn løgvitríngurinn kom fram med spurníngu sína um hid eylífa líf, hafdi Jesús snúid sér til lærisveina sinna og sagt vid þá: sæl eru þau augu, er sjá þad, sem þér sjáid; því eg segi ydur, ad margir spámenn og koníngar vildu hafa séd þad, er þér sjáid, og sáu þad ekki, og heyrt þad, er þér heyrid, og heyrdu þad ekki (Lúk. 10, 23. 24). Hver er sá kristinn madur, er ekki finni ad hjarta hans hræríst af þessum ordum? Hver er sá kristinn madur, er ekki hafi girnzt ad sjá, þó ekki væri nema einn af døgum Mannsins Sonar (Lúk. 17, 22)? Því sannkristinn madur er í slíku sambandi vid Drottinn sinn, sem madur vid mann — eg get ekki ordad þad ødruvísi; — þad er ekki adeins kenníng Krists, sem er gefin oss, heldur og sjálfur hann; þad eru ekki adeins ord hans, er ljóma í verøldinni, heldur eru þeir sín á milli þú og eg, Lausnarinn og hinir leystu, einsog allir sem unnast. Vér leitum ekki adeins annara gæda fyrir hann, heldur er hann sjálfur hid dýrsta hnoss øllum þeim, er á hann trúa.

Sæl eru þau augu, er hafa séd þad, sem lærisveinarnir sáu, og sæl eru þau eyru, sem hafa heyrt þad, er þeir heyrdu! En þótt vér getum aldrei á vegferd vorri hér á jørdu fengid ad setjast vid fætur honum, og hlusta á rødd vara hans, heyrum vér samt enn í dag hin merkustu og þýdíngarmestu ord, er hann hefir talad; og þótt líkamsaugu vor eigi aldrei ad fá hann litid hér á jørdu, kemur hann samt optlega á einveru-stundum vorum fram fyrir augu sálar vorrar. Og þessa mynd hans eigum vér ekki ad reka frá oss, miklu fremur eigum vér ad halda henni fastri, því hjá Jesú sjálfum eigum vér játendur hans ad leita oss allrar fyllíngar og vizku, og styrkleika, og huggunar. Og þannig er mér, sem eg heyri í fagnadarbodskapi Krists hid þridja bodord, jafnframt hinum tveimur, sem allir þekkja, og þad er svo hljódandi: Kristinn madur á ad elska Drottin sinn. Þetta bodord tálmar ekki hlýdninni vid hin tvø, heldur eflir

hana miklu framar, því ástin á Kristi hlýtur ad glæda ástina á Gudi og mønnum í hjørtum játenda hans.

Kristinn madur á ad elska Drottinn sinn. Pad er ad vísu satt, ad kristindómurinn heimtar jafnan trú, en trúin er þá adeins sønn og lifandi, er hún sameinar sig kærleikanum. Sá, sem kemur fram fyrir Gud, á ad trúa því, ad Gud sé til, og endurgjaldi þeim er hans leita; en hid fyrsta bodord heimtar ekki einúngis, ad vér skulum trúa á Gud, heldur kvedur þar svo ad ordi: þú skalt elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu. Satt er þad og, ad Jesús heimtar ad játendur hans skuli trúa á hann, trúa því, ad hann sé útgenginn frá Gudi, sé vegurinn, sannleikurinn og lífid, trúa því, ad hann hafi selt sjálfan sig fram til fridþægíngar fyrir synd allrar veraldar; en hann vill og, ad þeir, sem trúa á nafn hans, skuli vera í kærleikssamfélagi vid hann. Þessvegna líkti hann sjálfum sér vid vínvidin, er hinar mørgu greinar koma saman í, og afþví greinin getur ekki borid ávøxt, nema hún sé føst á vínvidinum, sagdi hann: verid mér ásastir, svoad eg sé med ydur, því án mín megnid þér alls ekkert; þessvegna sagdi hann: einsog Fadirinn hefir elskad mig, svo hefir eg einnig elskad ydur; verid stadfastir í elskunni til mín (Jóh. 15, 4. 5. 9)! Þessvegna var þad og, ad þegar hann var uppriſinn og ávarpadi postula þann, er hafdi afneitad honum á tíma freistingarinnar, þá spurdi hann hann ekki, hvert hann trydi á sig? og hvert hann vildi hlýda sér og þjóna? heldur sagdi hann: Símon! elskar þú mig (Jóh. 21, 15 o. n. v.)? Og þarsem vér erum einnig limar á hinum sama stofni, þarsem hid ædra líf vort á einnig ad ødlast allan þroska sinn og afl af honum, þá spyr hann oss einnig ennþá þess hins sama.

Elskar þú Drottinn þinn og Endurlausnara? Dirfist þú ad svara og segja einsog postulinn: Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt eg elska þig! — Þegar vér bodum kenningu Krists, þegar vér tølum um bodord þau, er hann setti til ad koma reglu á liferni mannanna og tilfinníngarnar í brjóstum þeirra, þegar vér minnumst á fyrirheit Krists, þegar vér tølum um athvarf þad, sem hid hrellda hjarta finnur undir krossi Krists, og hvernig Kristur hafi leidt í ljós lífid og ódaudleikann, med fagnadarbodskap

sínum og upprisu sinni: — þegar vér minnumst alls þessa, þá hittum vér fyrir marga menn med alvörugefnu hugarfari, sem fegnir hlýda ordinu og taka vid því; þeir sökkva huga sínum nidur í djúp slíkra kenninga, og skynsemi þeirra og samvizku verdur fullnægt. En þegar vér tölum um Drottinn vorn sjálfan og sameiníng vora vid hann, þegar vér segjum, ad mannlegu hjarta geti ekki veizt full hvíld, utan í elskunni á honum, mundum vér þá og enn hitta fyrir þau eyru, er heyri ordid feginsamlega, og þad hugarfar, er taki vid því med fögnudi? Þegar postulinn taladi til hinna fyrstu Kristsjátenda um upprisu Drottins vors, gat hann med sanni sagt: þér hafid ekki þekkt hann, og elskid hann samt; þér hafid ekki enn séd hann, og trúid samt á hann, og fagnid ómrædanlegum og dýrdlegum fögnudi (1 Pét. 1, 8); þad var hreinn og háleitur fögnudur, er einginn gat frá þeim tekid. Andrikir og hjartnæmir saungvar hljóma og frá seinni öldum, er láta í ljósi brennandi laungun sálarinnar eptir Frelsara sínum, svosem ad er sálmurinn: "Jesu minníng", sem enn er súnginn í kirkjum lands þessa, þegar söfnudir Krists gánga til altaris. — Vér heyrum og lof og þakkargjörd streyma frá vörum fedra vorra, þegar hjörtu þeirra voru gagntekin af fögnudi, afþví ad

"sannur Gud, Sonur Födursins,
sjálfur vitjadi mannkynsins".

Ef vér berum þad, sem vorir dagar eiga ad leifa ókomnum öldum, saman vid þessa gömlu sálma, hversu dauft og hálfvolgt er þá allt ordid, hversu lítill fögnudur og fridur og sönn gledi er nú á dögum í játníngum vorum! Af gnægd hjartans mælir munnurinn, og þegar varirnar þagna, mun hjartad vera dautt og ástin ordin köld.

Og þó á kristinn madur ad elska Drottinn sinn; hver sem vidurkennir, ad Kristur sé eingetinn Sonur Guds, og Drottinn sinn og Endurlausnari, hann á ekki einúngis ad trúa á hann, ekki einúngis ad hlýda honum og fylgja, heldur á hann og ad elska hann. — En nú kynni einhver ad segja: hvernig verdur ást gjörd ad skyldu? Eg get þrist viti mínu, med ályktunum og ástædum, til ad kannast vid þad, sem satt er og rétt;

eg get neydt gjørdir mínar til ad hlýdnast því lrgmáli, er eg hefi vidurkennt, ad réttvíst sé; en tilfinníngar mínar get eg ekki neydt, og ekki haft vald yfir hjarta mínu. Þad eru þessi ummæli, er vér heyrum svo optlega nú á døgum, þad eru þau, sem eiga ad sundra øllum lifernisreglum, og leysa mønnunum ad halda áfram ad vera slíkir sem þeir eru. Væri þad satt, ad vér gætum ekki rádid vid hjarta vort, gætum ekki glædt tilfinníngar þess, né bugad þær, gætum ekki komid þeim á adra stefnu, enn þær sjálfar tækju, þá værum vér med øllu seldir á vald náttúrunnar edur tilviljunarinnar, og þá væri ekki til neins ad tala um betrun. Hinn rétti gódleikur sérhvers manns er þó á endanum kominn undir tilfinníngum hjarta hans. "Þóad eg gæti talad bædi engla og manna túngum, en hefdi ekki kærleikann, þá væri eg einsog hljómandi málmur og hvellandi bjalla. Og þó eg hefdi spádómsgáfu, vissi alla leyndardóma og hefdi allsháttar kunnáttu, og þó eg hefdi trú svo mikla, ad eg gæti fjøll flutt, en hefdi ekki kærleikann, þá væri eg einskisverdur, og þó eg gæfi allar eigur mínar fátækum, og léti jafnvel brenna mig, en hefdi ekki kærleikann, væri mér þad til einskis gagns (1 Kor. 13, 1 o. n. v.)". Og hugsid ekki ad vitid geti komizt til vidurkenníngar á sannleikanum, nema tilfinníngin verdi því samtaka; því, þegar hjartad brýzt í móti, leitar þad ad allskonar átyllum, til ad losast undan valdi sannleikans, og med því móti getur madurinn einga sannfæríng ødlazt. Hugsid ekki, ad liferni ydvart geti ordid réttvíst og gott, nema hjarta ydar sé þad einnig; því hvar er uppspretta lífsins, utan í hjartanu? Þú getur um stundarsakir haft vald á ordum þínum, svo þau segi annad, enn þú hugsar og finnur til, en ad lokunum mælir þó munnurinn af gnægd hjartans; þú getur þrísst þér til ad fremja athafnir, sem kalladar eru gódar, en vísid tré getur samt aldrei borid verulega góda ávøxtu. Ef vér þá megnudum ekkert í móti tilfinníngum hjarta vors, þá megnudum vér og alls ekki ad stýra lífi voru ad takmarki sínu. En þad eru sannindi, ad þegar vér segjum, ad vér megnum ekkert í móti tilfinníngum vorum, þá tølum vér beint á móti sannfæríng vorri og reynslu. Vér vitum dável, ad vér getum vakid og alid skadsamlegar tilfinníngar í brjóstum vorum, og ad vér

á þann hátt getum alid í oss beiskllyndi og reidi, og rótfest í oss hatur og hefndargirni. Vér vitum og, ad vér getum bugad þessar tilfinníngar, ad vér getum alid og aukid ást og elsku í hjörtum vorum. Og ef vér getum þetta, eigum vér og ad gjöra þad, því ekkert er neinum manni meiri sómi, enn ad vera trúr mönnum, og trúr Gudi sínum og Frelsara.

Satt er þad, sem postulinn segir, ad sá sem ekki elskar bródur sinn, þann er hann hefir séd, hann getur ekki elskad Gud, er hann hefir ekki séd (1 Jóh. 4, 20). Sá sem er svo kærleikslaus, ad hann elskar ekki menniua, er hann lifir á medal, sá sem ekki vill leita sér neins manns ad binda hug sinn vid, hvernig ætti hann ad geta ordid var vid hina hjartgrónu þörf ástarinnar, er leidir oss til hins himneska Födurs? En því vidkvæmra sem hjarta þitt er, því sælli sem ást þín á mönnum gjörir þig, því fremur muntu girnast ad ná til uppsprettu kærleikans, hins endalausa kærleika, sem einnsaman megnar ad veita fulla hvíld hjarta þínu, er sífeldlega þarfnast og þráir. Og Gudi sé lof! vér lifum þær stundir æfi vorrar, ad vér getum beinlínis nálgast hinn eylífa Fødur, vér verdum þá ekki varir neins adskilnadar í millum hans og vor, vér finnum, ad vér lifum, hrærumst og erum í honum; vér finnum, ad vér erum í honum og hann í oss; hugur vor getur ordid svo frá sér numinn af andlegum fegurdi, ad þad er einsog vér sjáum Gud augliti til auglitis. Og þóad þú á slíkum stundum finnir ekki jafn glegglega til ástarinnar á Kristi, þá óttast þú ekki, kristinn madur! ad hjarta þitt sé fyrir þá skuld á raungum vegi, né ad þú sért fyrir þá skuld útibyrgdur frá samfélaginu vid Krist. Gudleg vera öfundar ekki, og einsog hinn eylífi Fadir reidist ekki heidri hins eingetna, er hyllþættir jardarinnar lúta honum, eins þikkist og Sonurinn ekki, þó Fadirinn sé heidradur. Kristur seldi sjálfan sig fram, til þess hann fengi greidt oss veg til Guds (1 Pét. 3, 18), og þegar hann hefir komid oss til Födursins, og vér hvílumst í fadmi hins eylífa kærleika, þá bidur Frelsari vor fúslega — megi eg komast svo mannlega ad ordi, — þángadtil vér förum aptur ad finna, hversu mjög vér þurfum hans vid. Því heilir þurfa ekki læknis vid, heldur þeir sem sjúkir eru

(Matth. 9, 12), enda munu þær stundir koma, er hjartad verdur aptur snautt og sjúkt, og margskonar harmkvæli nýsta þad; sæll er þá sá, sem ádur hefir fundid til elskunnar á Kristi og vanur er ad leita til hans! Þeir tímar koma, er himininn lokar sér yfir hofdum vorum, hugur vor reynir til ad fljúga stjørnunum hærra, en fer of djarft og villist á flugi sínu, Gud býr í ljósi, því er einginn fær tilkomizt (1 Tím. 6, 16), þú girnist ad lýsa veru hans, og ekkert af ordum þínum á fyllilega vid, þú girnist ad ímynda þér hann, og eingin af hugmyndum þínum líkist honum. Þá finnur þú, ad þú þarft Medalgángara millum Guds og þín, og fardu þá til hans, sem er geisli Guds dýrdar og ímynd veru hans (Hebr. 1, 13), og er þér samt nálægur; søkktu þér nidur í skodun hans, og óttastu ekki, ad þú fyrir þá skuld munir fjarlægjast Fodurinn, því Kristur er hin fullkomnasta opinberun gudlegrar veru á medal mannanna; hver, sem hefir séd hann, hefir séd Fodurinn, því hann er í Fodurnum og Fadirinn er í honum (Jóh. 14, 9. 10). — Tímar hryggdarinnar koma yfir þig, svo þú verdur ad segja hønd hins almáttuga leggist þúngt á þig, og þú naumast megnar ad segja: Fadir á himnum! afþví þér finnst ad hart og ófodurlega sé med þig farid. En hversu edlilegt er þad kristnum manni í dymmu hryggdarinnar ad segja: Jesús minn! og rétt gjørir þú ad létta byrdinni af mæddu hjarta þínu med þessu ákalli, því þá birtist þér hin blída mynd Drottins þíns og Frelsara, hann gengur enn inní híbýli hryggdarinnar, og huggun Guds og fridur Guds koma þángad med honum; hann frædir þig ekki adeins um hinn eylífa kærleika Guds, heldur er hann þér sjálfur hinn dýrmætasti vottur hans; hversu hørd sem þér virdist ad vera handleidsla Guds, hvert geturdu samt efast um, ad Gud, sem útgaf sinn eingetinn Son fyrir oss alla, hafi einnig gefid hann út fyrir þig, ad Gud elski þig og vilji gefa þér alla hluti med honum? Þeir tímar koma, ad þér finnst þú vera einmana, og þad ekki á óbyggdum stødum, heldur ertu einmana innanum manngrúann, þú átt eingan vin, er þú getir kvartad vid um bágindi þín, edur þú vilt ekki hryggja med því vini þína, þú ert óþekktur, rángt lega dæmdur, yfirgefinn, útskúfadur. Ó! sæll er sá, sem þekkir

vin af himnum, og getur sezt vid fætur honum og grátid þar nægju sína yfir eymd sinni, og slíkan vin, er lítur þá aptur til hans þeim augum, er öll miskun himnanna ljómar úr, og ekki þarfnast vitnisburdar um nokkurn mann, afþví hann veit sjálfur hvad med manninum býr (Jóh. 2, 25), og hefir sjálfur sagt: þann, sem til mín kemur, mun eg ekki frá mér reka (Jóh. 6, 37). Þeir tímar koma, er samvizkan vaknar og ásakar, og afbrot vor og hirduleysi, og allar syndir vorar, fornar og nýar, koma fram og vitna í móti oss. Hvert sem þær eru miklar edur litlar, á rádvandur madur ekki svo hægt med ad frida hjarta sitt fyrir Guds augliti. En jafnvel þó þær væru svo miklar, ad bædi hjarta þitt og heimurinn sakfelldu þig, og hinir réttlátu í þessum heimi vildu ekki leyfa þér ad snerta sig, þá er samt einn Miskunnari til, sá er fordumdaga sagdi um hina bersyndugu konu, ad mergd synda hennar væri henni fyrirgefin, afþví hún hefdi audsýnt svo mikil elskumerki (Lúk. 7, 47), hann mun ekki fyrirlíta elsku þína, né hrinda frá sér idrunartárum þínum, né kremja þitt híd særda hjarta. Og yfir syndarana og yfir hina réttlátu kemur eittsinn sú stund, ad öll huggun veraldarinnar er þrotin; á þeirri stundu myrkvast sála þín, og fær ekki gripid þau huggunarord, er ádur voru þér til fridar, og hjarta þitt hefir ekki á daudastundunni nóg afl, til þess ad géta fundid til Guds eylífa máttar og guddómleika; en hafir þú ad undanförnu elskad Frelsara þinn, þá geturdu enn gripid Jesú nafn, og því fylgja þessi hin miklu ord: eg em upprisan og lífid, hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi (Jóh. 11, 25); því fylgir von himinsins, og þegar þú átt ad gánga framá hinn dymma og ókunna stig, þá réttir **hann** þér hönd sína, er þú hefir lengi þekkt og lengi elskad, og leidir þig um daudansleid til þeirra bústada, er hann hefir fyrirbúid þér, og á hinni miklu stund dómsins er hann athvarf þitt og Frelsari.

Kristinn madur! þú átt ad elska Drottinn þinn. Sjá! fordumdaga gekk margur pílagrímur hina laungu og erdugu leid, til ad geta andad ad sér því lopti, sem Frelsari hans hafdi ad sér andad, og setid á bökkum Jórdanar og hlustad á nidinn í Kedronslæk, til ad geta leitad hjarta sínu hægdar á hæd þeirri, sem

kross Drottins var á reistur, og sálu sinni hvíldar í gröf hins uppriśna. En endurminning Frelsarans er ekki bundin við það land, sem fætur hans hafa á staðið, né fjöll þau, er hann reikaði um einnsaman á næturþeli; hann er ekki lángt á burt, svo þú þurfir að fara yfir lönd og höf, til að leita hans, hann er á meðal vor, og segir enn, sem forðumdaga: komið híngað til mín allir þér, sem erfiðið og þjáist, eg vil veita yður hvíld (Matth. 11,28). Áttu í eingri mæðu né andstreymi í veröldinni? eður hefir þú fundið einhvern annan, er geti endurnært þig af lindum þeim, er spretta upp til eylífs lífs? Látum oss elska hann, því hann hefir elskað oss að fyrra bragði! Ekki samt á þann hátt, að þú hafir ást þína til sýnis, og látir blása í lúður fyrir þér, svo það verði sagt á þjóðgötum og mannamótum: þarna er maður, sem elskar Frelsara sinn! Hin sanna ást er hæglát og ófröm, og þú átt ekki að kasta perlum fyrir þá, sem ekki mundu gjöra annað, enn troða þær í sundur (Matth. 7, 6). Geymdu heldur perluna í hinni innstu hirzlu þinni, þar sem einginn getur tekið hana frá þér. Því satt er það, sem stendur í hinum gamla sálmi:

Túnga eingin það tala má
né teikn því skíra nokkur frá,
óreyndir trúað eingir fá,
hvað elsku er Jesú gott að ná.

---

## 46.

## Helgunin.

Þegar Guð bauð Ísraelslýð, fyrir munn Mósis, að yfirgefa aðrar þjóðir og vera útaf fyrir sig, þá átti þessi aðgreiníng að vera til helgunar, og með því einu móti, að fólkið vildi helgast, vildi Guð, eptirþví sem ritníngin að orði kemst, búa meðal þeirra, og vera Guð þeirra, en þeir skyldu vera þjóð hans (2 Kor. 6, 16). Tala þú við allan lýð Ísraelsbarna, sagði Drottinn

vid Móses, og mæl svo til þeirra: þér skulud vera heilagir, því eg em heilagur, Drottinn, Gud ydar (3 Mós. 19, 4). Ef þér hlýdid røddu minni og haldid sáttmála minn, þá skulud þér vera mín eign fremur enn nokkur þjód ønnur; því øll jørdin heyrir mér til; og þér skulud vera mér kennimannlegt koníngsríki og heiløg þjód (2 Mós. 19, 5. 6).

Þegar sá tími kom, ad heidíngjarnir skyldu einnig verda nádarinnar hluttakandi, og Medalgángari hins nýa og mikla sáttmála opinberadist, þá sendi Gud erindsreka sína út um allan heiminn; því Gud vill, ad allir verdi hólpnir og ødlist þekking á sannleikanum (1 Tim. 2, 4). En medþví allir menn vilja ekki þýdast sannleikann, þá er kristin kirkja enn í dag félag útaf fyrir sig — hún er søfnudur, sem allir eru ekki í, jafnvel í hinum kristnu løndum; því hversu margir eru þeir, sem ekki adhyllast hana? Og medþví ad ekki komast allir í himnaríki, sem segja: Herra! Herra! (Matth. 7, 21) — medþví mørgum er svo varid, ad þeir kalla Krist Herra, og vilja samt ekki láta ad ordum hans, og hreinsa sig af saurgun holdsins og andans, þá segir rødd Drottins enn í dag eins til þeirra, sem kristnir kallast: farid burtu frá hinum vantrúada lýd, og skiljist vid hann, og snertid ekki neitt, sem vanheilagt er, þá skal eg taka ydur ad mér (2 Kor. 6, 17). Yfir dyrunum á Krists helgidómi standa þessi ord med loganda letri: apturhvarf, sinnaskipti; og þetta hljómar í eyru sérhvers, er inn vill gánga: engin getur notid Guds ríkis, nema hann endurfædist (Jóh. 3, 3). Þad eru ekki þesskyns umskipti, sem þegar skipt er um klædi edur nafn; heldur er þad mikil og gjørsamleg umbreiting: vér eigum ad afleggja hinn gamla manninn, sem lagadur er eptir hinni fyrri hegdun, og endurnýast í anda vors hugskots, og íklædast hinum nýa manni, sem skapadur er eptir Guds vilja til réttlætis og heilagleika sannleikans; med þessu einu móti nemum vér sannleikann, einsog hann er frá Jesú kominn (Eph. 4, 21 o. m. v.).

En ef einhver kemst vid, og verdur gagntekinn af sannleika Krists orda og kærleika hans — ef hann hefir snúid sér til Drottins, og nýtt líf tekur í honum ad glædast: er hann þá búinn? Þó menn séu ekki fljótt búnir ad safna jardneskum munum, er

fjúka sem fis fyrir stormum lífsins, ellegar að byggja á sandi, það, sem jafnótt hrynur fyrir þeim, þá eru þeir fljótir með sjálfa sig og undirbúníng sinn undir Guðs ríki. Og þó er hann ætlunarverk allra lífdaga vorra, og hver kristinn maður kann orðið: helgun, og þá kröfu, er því fylgir, að taka æ framförum í heilagleik og fullkomnun. Meðþví vér höfum svo dýrmæt fyrirheit — segir postulinn — þá hreinsúm oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomnum helgun vora með Guðs ótta (2 Kor. 7,1). En eitt orð hverfur skjótt, og hefir eingan árángur, nema vér höndlum það og varðveitum. Þessvegna skulum vér nú einsog höndla þetta þýðíngarmikla orð: helgun, og íhuga það.

Ritað er: verðið heilagir, því eg em heilagur, (1 Pét. 1, 16). Þetta boðorð hefir Guð ekki aðeins ritað í hinar helgu bækur, heldur hefir hann og ritað það í hjörtu vor. Hvert sinn, sem vér rennum alúðlega huga vorum til Guðs, finnum vér, að sálin hefur sig ekki aðeins uppyfir veraldlegar breitíngar til hins eylífa og stöðuga, heldur og uppyfir synd og saurgun veraldarinnar til hins heilaga og hreina; því ekkert, sem óhreint er, getur komið nærri Guði, og hann lítur það einúngis til þess að bægja því frá sér og sínu samfélagi. Fyrirþví er það boðorð, að vér skulum einnig verða heilagir, fólgið í meðvitund vorri um Guð; og þótt ritníngin segi til vor margsinnis og á marga vegu: það er Guðs vilji, að þér verðið heilagir (1 Thess. 4, 3), þá segir samvizkan oss ekki sjaldnar hið sama. Oss er alls einginn efi á, að vér eigum að hreinsa oss af allri holdlegri saurgun og af öllum löstum þeim, er svívirða jafnvel hinn ytra mann, og veröldin sjálf getur ekki lofað; oss er og einginn efi á, að oss er boðin önnur hreinsun, sú er miklu er meiri og gjörsamlegri, enn hin ytri, meðþví vér eigum að hreinsa oss af allskyns andlegri saurgun, af illum og óhreinum girndum, sérplægni, öfund, drambi, hatri, og af öllu því, er spillir mannlegri náttúru og blandar ólyfjan í uppsprettur lífsins.

En meðþví allur fjöldi manna vill dveljast í saurguninni, þá er hverjum boðið, sem Guði vill þóknast, að hlýðnast orðum postulans, er hann segir: farið burtu frá þeim, og skiljist við þá! Nú ef þetta væri þarí fólgið, að vér skyldum flýa úr glaumi

og skarkala veraldarinnar útá kyrra eydimörku, eda fela oss í einhverju klaustri, og hirda ekki um, þó ad straumur veraldarinnar og spillingarinnar rynni þar utanveggja, þá getur vel verid, vér fengjum þad ekki af oss baráttulaust; en því meira veraldarsolli sem madur hefdi í verid, því saddari og þreyttari mundi hann á honum ordinn, og því fýsilegra mundi honum þykja ad hugsa til nædis og einveru; því þótt hana skorti marga ánægju, þá ver hún þó mörgum harmi. En Drottinn vor bad ekki þess til handa hinum fyrstu lærisveinum sínum, ad Gud tæki þá úr heiminum, heldur ad hann geymdi þeirra vid illu (Jóh. 17, 15). Eins eigum vér ad dveljast í veröldinni, en fordast þó þad sem illt er og saurugt. Ef allskonar holdleg ánægja væri saurug, og þetta bodord: ad vér skulum verda heilagir, midadi ekki til annars, enn ad ver skyldum firrast alla þesskonar ánægju, og afklæda hinn ágætara hluta vorn meir og meir hinu holdlega, þá mundi oss ad vísu veita þad erfitt, og mikillar baráttu mundi vid þurfa, enn þá vissum vér samt, ad fullkomleikinn væri þarí fólginn, ad líkaminn væri undirokadur, og vér hefdum fyrirlitning á gjöfum jardarinnar, og létum oss nægja þad, sem vér getum med eingu móti án verid; og tækjum vér framförum í þessu einu, þá fullgjördum vér helgun vora. En svo fjærri fer ad fullkomleikinn sé í þessu fólginn, ad þetta er med eingu móti af oss heimtad, og þó þú eigir ad leggja hid holdlega undir þess vald, sem ædra er, og venja þig á, ad geta verid án þess, þegar þú mátt ekki njóta þess, þá er þad samt ekki rétt né sómasamlegt, ad lifa á jördunni, án þess ad hirda neitt um hag annara. Þvíad öll Guds skepna er gód, og ekkert burtkastanlegt, sé hún þegin med þakkargjörd, medþví hún helgast med Guds ordi og bæninni (1 Tím. 4, 4. 5); og þegar Gud lýkur upp sinni mildri hendi, sem full er gódra gjafa, og sedur allar lifandi skepnur med sinni blessan, þá er þad ekki vizka, né kristilegur fullkomleiki, ad láta sem menn sjái þad ekki, heldur er hitt miklu viturlegra og kristilegra, ad fagna og gledjast af gudlegri miskunsemi. Vér eigum ad brúka heiminn, en saurgast ekki af honum, heldur firrast hinn holdlega lýd, og snerta ekkert sem saurugt er.

Það er þegar mikils vert, að skilja vel, hvað Gudi sé geðfellt, og hver að sé hans góður og fullkominn vilji (Rómv. 12, 2), og sjá glögglega, að ekkert einstakt sé af oss heimtað, svosem einhlítt til helgunar, heldur vilji Guð, að oss fari fram í öllu, sem fagurt er og gott, svoað oss verði það alltsaman jafn=eðlilegt. Væri, til dæmis að taka, kristilegur fullkomleiki í því fólginn, að leggja af reiðigirni og ráðríki, eiga frið við alla menn, og vera hógvær, vægur og umburðarlyndur, en hirða að öðru leiti ekkert um, hvað fram færi í veröldinni: þá mundum vér að vísu þurfa mikillar baráttu við sjálfa oss, áður oss lærðist að kefja niður ólgu hjarta vors; en þá væri það ekki nema eitt, sem vér ættum að verja krapti vorum til, og þá mætti það líklega takast um síðir. En kýs Guð sér þvílíka þjónustumenn, sem ekkert kapp er í til hins góða, og eingin vandlæting um hið illa? Eða hefir Kristur gengið á undan oss með þvílíku eptirdæmi? Nei! vandlætið brann í hjarta hans, hann var kroptugur í verkum og optlega harður í orðum, en þó var hann hógvær og lítillátur af hjarta.

Verðið heilagir í öllu dagfari yðru, einsog sá, er yður hefir kallað (1 Pét. 1, 15)! — Orðið: helgun, á ekki við um Guð, og ekki heldur um hann, er af Gudi var sendur, og bar hér á jörðu Guðs mynd hreina og fullkomna; heldur á orðið: heilagleiki, þar við. Apturámót er það réttmæli, að segja: helgun, um oss, því vér erum ekki af=náttúru slíkir, sem vér eigum að vera, heldur verðum vér að taka umskiptum. Þegar þessi umskipti byrja í manninum, köllum vér það apturhvarf og endurfæðing; hið æðra líf=sprettur þá upp í sálu hans, og við það finnur hann, að hann er upphafinn yfir allt illt og ósæmilegt. Þeir, sem ekki hafa umbreizt á þenna hátt, eru fjarlægir Guðs ríki, eður jafnvel ókunnugir því með öllu. Enda verðum vér og ekki heilagir jafnskjótt og slík umbreiting byrjar í oss.

Mörgum er svo varið, að þeir eru óvandir að við sjálfa sig, og þurfa ekki mikið til, að þykjast fullgóðir, að minnsta kosti eptirþví sem þeir kalla að heimtað verði af breiskum mannskepnum, og í samanburði við aðra. Þarámót áminnir kristin trú einnig þá, er heyrt hafa hina himnesku rödd, og byrjað betra

líferni, ad þeir fullgjøri helgun sína, og það fylgir jafnvel ordinu: helgun, ad oss ber ad líkjast meir og meir því sem vér eigum ad verda. Þegar Páll postuli talar um það, er hver kristinn madur á ad láta sér annt um, sem er, ad komast í sem nákvæmast samfélag vid Krist, og afla sér þekkingar á honum, og á krapti upprisu hans og hluttekníngu-í píslum hans, þá kemst hann svo ad ordi um sjálfan sig: "ekki svosem eg hafi þegar nád hnossinu, edur sé þegar algjør; heldur keppist eg eptir ad høndla það, medþví Kristur hefir høndlað mig. Brædur! ekki álít eg mig enn hafa hnossinu náð; eitt gjøri eg: eg gleymi því, sem bak vid mig er, en seilist eptir því, sem fyrir framan er, og skunda til takmarksins, til hins himneska hnossins, sem Gud frambýdur mér fyrir Jesúm Krist" (Phil. 3, 12 o. m. fl.). Hinn mikli postuli vár þá hníginn á hinn efra aldur, hann hafdi starfad meira enn hinir, og ordid ad þola meira, og var þá í fjøtrum fyrir sakir Krists; og samt sem ádur gleymdi hann því, sem bak vid hann var, einsog ekkert væri ágengt ordið, og seildist eptir því, sem fyrir framan var, það er: eptir fullkomleika þeim, sem hann áleit ekki sjálfan sig hafa náð. Hversu ólíkt er þetta hugarfari vel flestra! Þeir hafa hugann á því, sem bak vid þá er, það er: á einstøku gódverkum, sem þeir telja sér til gyldis, og einstøku baráttu, sem þeir hafa átt, og gleyma svo øllu hinu, sem enn er af þeim heimtad sífeldlega. Þegar um hádegi þykjast þeir hafa lokid sínu dagsverki, svoad hinir yngri menn eigi þar vid ad taka. Gjarna viljum vér unna þeim hvíldar, einsog verdugt er, sem borid hafa hita og þúnga dagsins, og komnir eru ad kvøldstundum æfi sinnar; en med slíkum mønnum teljum vér einga þá, sem eru í fullu fjøri, og unnid geta ætlunarverk sitt, svoad það er enn af þeim heimtanda. Og eitt verk er það, sem aldrei er á enda kljád, en það er sú idja, ad taka sér æ fram í rádvendni, vizku, gódleik, styrkleika, gódvilja, gudhrædslu. Gjøri nokkur sér í hugarlund, ad hann sé kominn eins lángt í þessu, og honum beri ad komast, þá hlýtur ad vera, hann þekki hverki þetta bodord: "verid fullkomnir, einsog ydar Fadir á himnum er fullkominn" (Matth. 5, 48), né heldur sjálfan sig.

Margir vidurkenna ad sønnu, ad þeir séu ekki slíkir, sem þeir ættu ad vera, en telja sér trú um, ad þeir geti ekki ordid fullkomnari, enn þeir séu, og því heyra menn ad margur segir: eg er nú svona gerdur, og verd aldrei ødruvísi, Gud og menn verda ad láta sér lynda, ad eg sé einsog eg er. Hvílíkt ógrynni léttúdar og hugsunarleysis kemur fram í þvílíkum ordum! Því med þeim ásetta menn ákvørdun lífsins, hlidra sér hjá allri vidleitni á því sem gott er, ónýta allasaman æfi sína, og einsog bída eptir því, ad Gud umbreyti þeim eldúngis vid endalok æfi þeirra, vinni á þeim kraptaverk, og gjøri þá ad því, sem þeir hirdtu ekki sjálfir um ad verda. Ad sønnu getum vér ekki fullkomnir ordid hér á landi ófullkomleikans, en framsørum eigum vér ad taka, og getum þad; því til eru þeir, sem taka framsørum í vizku og gódleika, eptir því sem þeir eldast; og þad er stødugur sannleiki: ad án helgunar audnast eingum ad sjá Drottinn (Hebr. 12, 14).

Ødrum er svo varid, ad þeir tala ekki um þetta med jafnmikilli léttúd, heldur kvarta þeir um vanmátt sinn med þúngum trega: þeir hafa byrjad svo opt, þeir vita fyrir samvizku sinni, ad þad hefir verid einlægur ásetníngur þeirra, ad bæta rád sitt, og taka framsørum í øllu gódu, og eru samt ekki ordnir betri enn þetta; hvernig geta þeir þá búizt vid ad sér takist seinna betur? En vér eigum ekki ad láta hugfallast, þó vér finnum til vanmáttar vors, heldur láta hann kenna oss, ad leita lids af hinum almáttka, því kraptur Guds sýnir sig fullkominn í veikleikanum (2 Kor. 12, 9). — Vilji bóndinn uppskera nokkud, verdur hann ad plægja, sá og girda um akur sinn; en getur hann sagt ad því búnu: fyrst eg hefi gjørt þetta, þá veit eg, ad eg hlýt ad fá uppskeru? Nei! heldur veit hann, ad eigi gnógt sáds ad fylla akur hans, þá verdur Herra himins og jardar ad senda regnskúrir seint og snemma, og med þeim blessun sína. Þegar einhver ætlar ad byggja sér hús, þá veit hann, ad hann verdur ad safna því sem til þarf, og hafa fyrir ad koma því upp. En á hann þá víst, þó hann gjøri þetta, ad sér muni audnast ad ljúka vid húsid og hafa þess not? Nei! heldur veit hann í huga sínum, ad nema Drottinn byggi húsid, þá vinna þeir fyrir gíg,

sem eru að byggja (Sálm. 127, 1). Og ef vér fáum eingu til leiðar komið án Guðs — hvernig getum vér þá gjört oss í hugarlund, að vér munum fullgjöra helgun vora án Guðs ótta, og án vonar og trausts og bænar til Guðs?

Neyð kennir bezt að biðja, segja menn; og að vísu er því svo varið. Sá bóndi, sem ekki er annars vanur að biðja, fórnar þó höndum til himins, og biður Guð um hagstæða tíð, þegar sáð hans ætla að skrælna í sumarhitanum eður deya í vetrarfrostinu. Þegar sá, sem er að byggja, sér að stormarnir og vatnsföllin koma, og ætla að brjóta niður húsið hans, þá kennir neyðin honum að fórna höndum til himins, þó hann hafi aldrei gjört það áður, og biðja Guð afstýra hættunni, en gefa hamingju til að halda áfram og ljúka við bygginguna. Og mundi oss þá ekki lærast að biðja, í vorri miklu neyð, þegar stormar freistinganna ætla að aptra eður eyða helgunarverki voru, og vér sjáum, hvert oss ber að stefna, en finnum jafnframt til vanmáttar vors! — Orðið: helgun vísar enda svo til, að helgunin sé ekki sjálfum oss að þakka. Vér finnum ekki sjálfir það sem rétt er og gott, heldur opnar Guð hugskotsaugu vor, svoað þau sjái eðli hans og eðli vort, og hið endalausa og eylífa sambandið allra hluta, og oss gefi þaraf að skilja, hvað vera eigi, og hvað ekki, eptir hinni eylífu ráðstöfun; vér megnum ekki sjálfir að stydja oss og bera, og leiða oss að takmarkinu, heldur er vor hæfilegleiki frá Guði (2 Kor. 3, 5). Það er vort ætlunarverk að athuga, og gefa gaum, og fela oss Guði á vald, og færa oss í nyt allt, sem Guð gefur oss, en Guð er sá, er veitir oss viljann og framkvæmdina, eptir gæzku sinni (Phil. 2, 13).

Biðjið, þá mun yður gefast (Matth. 7, 7)! Sé því svo varið, ræður að líkindum, fyrirheitið muni einkanlega rætast, þegar vér biðjum Guð þeirra gjafa, sem vér erum skapaðir til að öðlast, og allt er í fólgið, sem oss er heilsusamlegt. Því það er vilji Guðs, að ver heilagir verðum; þarað lýtur öll Guðs handleiðsla á oss, og sérhver áminning og tilhvatning, sérhver refsing og sérhver uppörfun, og sérhvað, er fram við oss kemur á andlegan eða líkamlegan hátt. Það er vilji Guðs, sagða eg; en hann vill það ekki með sama hætti, sem hann vill, að stjörnur

himinsins renni hinar løgdu leidir, ellegar ad sumar og vetur, sád og uppskera, skiptist á sífeldlega — svoad ekki verdi af brugdid; heldur vill hann þad á þann hátt, sem vera verdur, þarsem í hlut eiga þær verur, sem hann hefir frjálsrædi gædt, svo þær geta gjørt hvert sem þær vilja, ad slíta sig frá Gudi og óhlýdnast vilja hans, ellegar ad fela sig á vald Guds og lúta vilja hans. Fyrirþví er þad ekki rádsályktun Guds, ad breita oss allt í einu í heilagar verur, heldur vill hann helga oss, med því ad leida oss fet fyrir fet, svoad vér færum oss í nyt framfarir vorar, og vøxum í náð og þekkingu Drottins vors og Frelsara (2 Pét. 3, 18). Þad er af oss heimtad, ad vilji vor líkist æ meir og meir Guds vilja, og svo um helgun vora; en þegar vér viljum sama og Gud sjálfur, þá hlýtur þad ad takast. Þessvegna eigum vér ad bidja ørugglega og efast ekki (Jak. 1, 6). Ad sønnu eigum vér ad efla sáluhjálp vora med áhyggju og andvara (Phil. 2, 12), en sú áhyggja á ad leida oss til Guds; og þegar vér leitum Guds af einlægu hjarta, og bidjum hann af einlægu hjarta og gefumst ekki upp, þá skulum vér ekki óttast og efast, heldur trúa, og verda styrkir og gladir í trú vorri. Því Gud hefir ekki ákvardad oss undir hegníngu, heldur til ad ødlast sáluhjálp vegna Drottins vors Jesú Krists, sem dó fyrir oss, svoad vér skyldum med honum lifa (1 Thess. 5, 9. 10).

---

## 47.

## Heilagur Andi.

Allir þekkja kraptaverk þad, sem fordumdaga vard í Jerúsalem, og kom því til leidar, ad hvítasunnu-hátídin vard hátíd handa øllum heimi — því jafnan hefir hún breidst út meir og meir, og mun breidast út um øll lønd — og vard sú hátíd, er vér føgnum á bodun Krists fagnadarerindis á øllum túngum — þarsem hún hafdi ádur adeins verid hátíd á medal þeirrar þjódar, er á henni minntist bodunar hins heilaga løgmáls á Sinaifjalli. Minníng þessa kraptaverks er endurnýud á hverju

ári, og afleidíngar þess vidhaldast frá einni kynslód til annarar. Einsog himin og jørd voru í øndverdu myndud af gudlegum krapti, og náttúran gat ekki hafid skeid sitt á þann hátt, sem nú er kalladur náttúrlegur: þannig var og Krists kirkja stofnsett af gudlegu kraptaverki, og endurlausn hinnar spilltu náttúru vard ekki á náttúrlegan hátt. Tákn og stórmerki hlutu ad verda í Jerúsalem, til þess þrjár þúsundir manna skyldu á einum degi fást til ad trúa á **þann**, sem þeir høfdu krossfest fáum vikum ádur; tákn og stórmerki hlutu ad verda á jørdunni, til þess menn-irnir yrdu vaktir úr dái til ad gefa gaum ad fagnadarerindi því, sem hljómadi af Gydíngalandi, og veita því vidtøkur í hjørtum sínum. Hvítasunnuhátídin minnir oss þannig fyrst á fornar aldir, einsog sérhver kristileg hátíd, og áminnir kristna menn um, ad þakka Gudi fyrir þad, sem til hefir borid fyrir laungu og lángt hédan.

En sérhver kristileg hátíd á einnig ad snúa huga vorum til hins nálæga og ókomna. Þegar Pétur fordum, á hvítasunnuhátídinni, gekk fram á medal mannfjøldans í Jerúsalem, þá minntist hann ekki adeins á þad, sem komid **var** fram vid sjálfan hann, og hina adra, sem voru hinir kjørnu vottar dauda Krists og upprisu; heldur taladi hann og um þad, sem komid **gæti** fram vid sérhvern, er hlýddi rædu hans. "Snúid ydur, sagdi hann, og sérhver ydar láti skírast í nafni Jesú Krists til fyrirgefníngar syndanna, og þér skulud ødlazt gjøf Heilags Anda". Hann snéri ekki adeins fyrirheiti því, sem nú var framkomid á postulunum, til mannfjølda þess, sem þá var samankominn, heldur sagdi hann ennfremur: "þér og børn ydar eigid fyrirheitid, og allir þeir, sem fjarlægir erú, sérhverjir, sem Drottinn Gud vor vill til þess kalla" (Post. 2, 38. 39). Og med þessum ordum er fyrirheitinu einnig snúid til vor, og endurnýjad á sérhverri nýrri kynslod, sem Drottinn Gud vor kallar til safnadar kristinna manna.

Efad gjøf Heilags Anda sýndi sig enn í táknum og stórmerkjum, ef hún lyki enn upp vørum mannanna, svo þeir mæltu á nýar túngur, ef hún veitti þeim enn slíkan mátt, ad þeir gætu lagt hendur yfir hina veiku, svo þeir yrdu heilbrygdir: þá mundu

og væntanlega þeir vera til, sem vildu segnir, einsog madurinn á dögum postulanna (Post. 8, 18), koma med eigur sínar, til ad kaupa fyrir þær svo furdulegan mátt. En þad er, einsog Páll segir, ad opinberun Andans er gefin sérhverjum til þess, sem nytsamt er (1 Kor. 12, 7). Á þeim dögum, er Krists kirkja átti ad verda stofnud á jördunni, var þad nytsamt og ómissandi, ad tákn og stórmerki væru gjörd, og þessvegna veitti Andinn sumum mátt til ad lækna, sumum til ad gjöra furduverk, sumum spásagnaranda, sumum hæfilegleik og hugrekki til ad boda stórmerki Guds á útlendum túngum (1 Kor. 12, 9 o. n. v.). En hversu mjög sem þessi kynslód girnist ad sjá tákn og stórmerki, hversu fegin sem hun vildi snúa hinni helgu gjöf Andans í töfra-afl, tekst henni þad ekki, hún megnar hverki med kænsku, né audæfum, ad ávinna sér neina hlutdeild í hinum frábæru ástgjöfum, er fordumdaga birtu mátt sinn, ekki í leyni, heldur opinberlega frammi fyrir mörgum þúsundum votta. En hvad var þá og adalatridi þess fyrirheitis, er rættist svo dásamlega á postulunum? Þad var ekki hin ytri opinberun kraptarins, ekki táknid, heldur þad sem þad táknadi, þad er ad skilja: gjöf Andans í brjósti mannanna. Hvad hefdi þad notad, þótt þeir hefdu mælt á allar túngur jardarinnar, ef Andinn hefdi ekki ádur verid búinn ad fylla sálir þeirra med þekkíngunni á Kristi, og leidbeina þeim til vidurkenníngar sannleikans, svo þeir gætu mælt heilsusamleg og skynsamleg ord á þessum túngum, eptir því sem Andinn veitti þeim ad mæla. Hvad hefdi hann verid, hinn mikli máttur þeirra til ad lækna og gjöra kraptaverk, hvad hefdi hann verid, utan hégómlegur leikur, ef Andinn hefdi ekki ádur verid búinn ad fylla hjörtu þeirra trú og kærleika, svoad þeir í sannleika gjördu þessi verk í nafni Jesú Krists. Hid andlega og þad, sem allt á ridur, er enn hid sama fyrir alla kristna menn, því hversu mikill sem munurinn er á ástgjöfunum, þá er samt Andinn hinn sami (1 Kor. 12, 4).

Þad er eitt af höfudatridum hins kristilega fagnadarerindis, ad vér getum einnig ödlazt gjöf Heilags Anda, og eigum ad keppast eptir því, og þetta atridi er harla íhugunarvert. En jafnframt og vér segjum þetta, getum vér ekki dulid

fyrir sjálfum oss, ad einsog mørgum virdtist ræda postulanna vera undarleg og ókunnugleg, einsog hún vard svo optlega ad hneixli fyrir Gydínga og heimsku fyrir Grikki, svo er og enn um þessi ord: "gjøf Heilags Anda", ad þau þykja vera undarleg og kinleg á vorum døgum. Þad er og á eingan hátt meining vor, ad neinn madur skuli leitast vid ad vekja eptirtekt annara á sér, svosem þeim, er hafi tekid sig útúr flokki vanheilagrar alþýdu, til þess honum gæti hlotnazt ástgjafir Andans fremur enn henni. Ekkert er vidbjódslegra, heldurenn þegar hid heilaga er gjørt ad leikfángi hégómagirndarinnar, og vid sérhvern, sem þad gjørir, mundi oss vera óhætt ad segja hid sama og postulinn sagdi vid manninn, sem ætladi ad ávinna sér gjøf Guds med peníngum: þú hefir ekkert hlutskipti í þessu ordi, því hjartalag þitt er ekki rétt í Guds augliti (Post. 8, 20. 21). En á gudræknisstundum vorum, þegar sála vor sekkur sér nidur í hinar mikilvægustu íhuganir, þegar vér tølum vid Gud og sjálfa oss, um alla vora athøfn og ásetníng, og hinn verulega tilgáng lífs vors, og eigum þannig ad nefna fyrir sjálfum oss, hver ad séu hin ædstu gædi: eiga þá einnig þessi ord: "gjøf Andans", ad virdast oss ókunnugleg og undarleg?

Ímyndum oss mann, sem ætti sér eina ósk: segdu hvad þú girnist, og þad skal veitast þér! hverju mundi hann þá leita um allan heim, nedan úr djúpi og uppá fjallatinda, til þess ad vera viss um ad finna þad, sem bezt væri til í heiminum, og til þess ad ónýta ekki fyrir sér leyfid, og fara svo á mis vid tilgáng sinn. Gullid er fagurt, og vér vitum hversu mikid vald þad hefir yfir hjørtum daudlegra manna; en mundi nokkur madur á slíkri mikilvægri úrskurdarstund dirfast ad segja: eg veit hvad eg vil, eg er búinn ad hugsa um þad, og búinn ad kjósa; hirdum ekki um hvad ødru lídur, en veit mér svo mikinn aud, ad eg geti keypt heiminn? Edur mundi nokkur dirfast ad segja: veit mér tign og vald, svo eg geti drottnad yfir heiminum? edur veit mér heilbrygdi og sífeldan æskublóma, þángadtil seint og sídarmeir ad stund mín kemur, svo eg geti notid heimsins? edur: eg skal láta lífid lynda mér, eg skal þola hid illa, til ad geta notid hins góda, en tak adeins daudann á burt, svo eg þurfi ekki

ad gánga hinn dymma veg, og yfirgefa heim þenna? Hversu optlega sem vér heyrum mennina tala, einsog það edur það væri hin ædsta ósk þeirra, erum vér samt allir eflaust sannfærdir um, ad færi svo, þeim væri leyst ad kjósa, mundu þeir hverfa á bak aptur, er þeir ættu ad rétta hendur sínar fram til ad taka það, er þeir hefdu svo lánga stund óskad sér, og taka það svo, ad þeir tækju það framyfir sérhvad annad, sem æskilegt væri ad ödlast; því einginn er sá, sem í alvöru dirfist ad segja, ad nokkur stundleg gædi séu til, sem í raun og veru geti ekki verid nema gód, og gæti sadt hjarta hans, og hann skyldi aldrei verda leidur á þeim, og þau gætu bætt honum hvern söknud. Ímyndum oss nú hinsvegar mann, sem væri ad hugsa um hid sama, og segdi þá: eg girnist einnig farsællt líf, og gledin er mér indæl, og krossinn er mér þúngbær, einsog ödrum mönnum; en eg veit ekki hvad mér sé hentast í þessu efni; gefdu eda sviptu, Drottinn minn! einsog speki þín veit ad þarflegt er, en laga adeins hjarta mitt svo í hryggd og kæti, ad þinn heilagur Andi geti búid í því — væri þá þessi bæn svo ókunnugleg og undarleg?

Sérhver sá, sem med athygli hefir lesid heilaga ritníngu, hefir án efa optlega haft indi af hinni fögru frásögn um Salomon, þegar hann var á æskuskeidi, og nýbúinn ad taka vid ríki eptir David konúng, fedur sinn. Hann lá um nótt í hvílu sinni; þá fékk hann helga vitrun, og honum þókti hinn Hæsti birtast sér og segja svo: beidstú hvers er þú vilt ad eg gefi þér! Þá beiddist hinn úngi konúngur ekki lángra lífdaga, og ekki audæfa, og ekki falls óvina sinna; en hann íhugadi í hjarta sínu, ad nú sæti hann á veldisstóli Davids, fødur síns, og væri enn úngur og skorti þekkíng og reynslu, og þó ætti hann ad stjórna miklum lýd og óteljandi, og dæma vandamál hans. Þá bad Salomon á þessa leid: gefdu þá þjóni þínum hyggid hjarta til ad dæma þjód þína, og greina med skynsemd milli góds og ills. Og þessi bæn — segir ritníngin — var gód í augum Drottins; og Gud gaf honum viturt og hyggid hjarta, einsog hann hafdi umbedid; og Gud gaf honum jafnvel það, sem hann hafdi ekki æskt sér — audæfi og heidur. Þá vaknadi Salomon, og sjá það var draumur (1 Kóng. 3, 5 o. nn. vv). En hugarfar það,

sem þessar íhuganir voru asssprotnar, var ekki draumur; og velþóknan Guðs á þessu hugarfari, og blessun Guðs yfir því, var ekki draumur.

Hversvegna er nú þessi frásaga oss svo indæl, hversvegna hafa einnig vor hjörtu velþóknan á henni? Afþví vér sjáum hér úngan mann, sem umkríngdur er af allskonar veraldarsælu, og þekkir samt það, sem æðra er stundlegri farsæld, og hlýðir ekki röddu holdlegra fýsna og hégómagirndar á reynslutímanum, og gleymir sérhverri annari ósk, til að geta beðið, að Guðs Andi leiði og stjórni hans anda. Því var það ekki hið sama, sem Salomon bað um, einsog þó hann hefði sagt: Drottinn! gef mér þinn Helgan Anda í hjarta mitt?

Guðs Andi er andi spektar og hygginda (Es. 11, 2); hann sendir birtu í djúp sálarinnar, hann sannfærir hinn efablandna, hann kennir að greina gott frá illu, og sannleika frá lýgi og villu, og veitir oss þannig ljós það, sem vér eigum eptir að gánga. Guðs Andi er andi ráðs og styrkleika; hann veitir hendinni afl, og viljanum staðfastan ásetning, hann styrkir vor hin aflvana kné, svo vér verðum fótvissir, hann kennir oss að hopa ekki fyrir mótþróa hinna ránglátu, og fælna ekki, þegar vér sjáum dag ógæfunnar. Guðs Andi er andi þekkingar og guðhræðslu; hann bendir oss óaflátanlega á lögmál Guðs, og þýðir það fyrir oss, og minnir oss þannig á Löggjafann og Dómarann á himnum, og lætur oss finna til nærveru hans, til viðvörunar hans, þegar vér skeikum, og upperfúnar hans, þegar vér breytum réttilega. Hann er þessvegna Heilagur Andi, sá er hrífur oss burt frá því, sem er auðvirðilegt og íllt, og lyptir oss upp til æðri heimkynna, þarsem guðhræðslan ödlast endurgjald sitt, og frelsi og friður búa. Og þessvegna er hann Huggunarandi, hann einnsaman færir oss huggun frá Guði, þá er fyllilega svalar hinu hrellda hjarta, hún er blað af friðarins pálmaviði og lækníng þeirra sára, sem veröldin megnar að veita en ekki að græða.

Vér telum ekki á þessum stað um fjarlæga hluti og leyndardómsfulla, sem fáeinum aðeins er veitt að þekkja og reyna; heldur telum vér um það, sem er nákomið sérhverjum manni og sérhver góður maður hefir reynt. Því er nokkur sá til, er hafi

með einlægni og alvörugefni leitað þess sannleika, sem sál hans gæti hvílzt í, og hafi þó ekki lifað þær stundir, er sannleikurinn væri honum ljós, svo villumyrkrið hvirfi ekki aðeins, rétt einsog næturþoka, heldur rynni sól sannleikans upp bæði björt og heit, svo hann fyndi þá fylling og birtu og sannfæring, er hann leitaði að. Er nokkur sá til, sem léti sér alhugað um að gjöra það, sem rétt er fyrir Guði og mönnum, og hafi ekki reynt, að eptir hina hörðu baráttu millum efablandinna hugsana, komi fram, þegar minnst varir, játun eður neitun, sem eyði öllri efasemi og krefjist ótakmarkaðrar hlýðni, en launi þá og hlýðnina með helgum friði? Á hinum góðu dögunum, þegar öll veraldarsæla var á boðstólum, sem líklegt var að gladt gæti mannlegt hjarta, en hjartað gladdist ei að heldur, þegar öll gæði lífsins voru breidd út frammi fyrir oss, einsog fagurt hérað fyrir augum vorum, þegar sólskinið vantar yfir það, þá höfum vér lifað marga þá stund, að æðra ljós skein yfir lífið, svo vér kennudumst við og fundum til hvað oss væri gefið, og smökkuðum og sáum að Drottinn er góður, og þakklætið sameinaði hið himneska hinu jarðneska í huga vorum. Á hinum vondu dögunum, þegar hið umliðna hafði skilið eptir biturleik sinn í hjarta voru, hið nálæga lagðist á oss einsog þúng byrði, og ókominn tími heimsókti oss fyrirfram með áhyggjum sínum, þá var það á stundum í öllri þessari eymd, einsog einhver æðri hönd hefði svipt af oss sérhverri byrði, sála vor fann að hún var léttfær og frjáls, og hafði hugrekki til að bera hið nálæga og vona betri daga. Allt þetta eignar kristin trú jafnan Heilögum Anda, sem Faðirinn sendir í Jesú nafni öllum þeim, sem trúa á það nafn, sem eittsaman undir himninum er gefið meðal manna oss til frelsunar (Post. 4, 12), þeim Anda, sem á að kenna oss alla hluti, og minna oss á alla hluti, sem Drottinn hefir sagt oss (Jóh. 14, 26), og leiða oss í allan sannleika (Jóh. 16, 13). Þessvegna minnir Páll kristna menn á, að Guðs Andi búi í þeim (1 Kor. 3, 16), og líkamir þeirra séu musteri Heilags Anda, er þeir hafi af Guði þegið, svo þeir eigi sig ekki sjálfir (1 Kor. 6, 19).

Eða hvernig vakna allar hræringar Andans í brjósti voru? Er það raunar ekkert nema andi sjálfra vor, sem lyptir sér af

sjálfs síns ramnleik yfir efasemdir og synd, og hugleysi og hryggd? Edur finnur ekki hver madur berlega, ad einhver ædri kraptur vitjar hans, finnur hann ekki á slíkum stundum, ad hann er í sambandi vid allt, sem er fagurt og gott og sælufullt, finnur hann ekki berlega, ad hid dýpsta í veru hans, og ekki adeins hugur hans, er sameinadur himninum og sjálfum Gudi á himnum? Þetta er þad sem postulinn kallar samfélag Heilags Anda, og óskar ad gæti hlotnazt øllum oss (2 Kor. 13, 13). Sjá! þad lítur út einsog sérhver einstakur hlutur í náttúrunni komi fram af mætti sín sjálfs, og samt slítur ekki hvad sig frá ødru, heldur eiga hlutirnir saman, og hvad er til annars vegna, og á tilveru sína ødru ad þakka, svo allir hlutir eru ein eining, ein náttúra, ein verøld. Hvernig getur þetta ordid, nema ósýnilegt band sé til, er haldi saman alheimi, nema kraptur sé til, sem ríki í honum øllum? Því segir og í skepunar bókinni, ad þegar jørdin var aud og tóm, og myrkur var yfir djúpinu, þá sveimadi Guds Andi yfir vøtnunum (1 Mós. 1, 2), og á þann hátt kom ljósid fram, og vatnid safnadist í hafsdjúpin, og jørdin skrýddist urtum, og lifandi skepnur komu í ljós, og jørdin var fyrirbúin þeim til bústadar, og ávextir jardarinnar þeim til fædu, og allt vard ad einni verøldu, er auga Drottins leit med velþóknun. Og þarsem lífid enn án afláts eflist og skipar sér nidur á þessari jørdu, eignar hid helga sálmaskáld þad Gudi, þeim er sendir Anda sinn út, og lifandi verur verda skapadar, og endurnýjar þannig ásýnd jardarinnar (Sálm. 104, 30). En þarsem nú ekkert dafnar í hinni sýnilegu verøld, einstakt og útaf fyrir sig, þarsem máttur Skaparans ríkir í øllu, og Andi hans undirbýr allt og skipar því nidur, mundi þá sérhver andi í hinni andlegu verøld vera einnsaman útaf fyrir sig? Satt er þad að sønnu, ad þarsem allt í hinni sýnilegu verøld verdur ad hlýda því valdi, sem keyrir þad áfram, hefir Gud gefid sálunni frjálsrædi til ad standa í móti áhrifum hins góda, edur hnígа ad því. En hver er sá, er ekki finni, ad þegar hann hnegist ad hinu góda, þá gefur hann sig á vald áhrifum þess Anda, sem kallar þá alla og safnar þeim saman í einn søfnud, sem heyra vilja hina ædri køllun, og sameinar sálir mannanna sín á milli, og sameinar þær

Gudi? Þegar vér vidurkennum sannleikann, þá er því ekki svo varid, ad vér hver um sig búum oss til einhvern sannleika til ad láta huga vorn hvílast í, heldur trúum vér og finnum, ad vér séum leiddir til hluttekníngar í-því, sem er sannleikur í øllu ríki andanna. Þegar vér verdum varir vid rødd samvizkunnar í brjóstum vorum, hver hefir þá nokkru sinni sagt edur hugsad, ad þad væri adeins andi hans sjálfs, sem ávarpadi hann, og segdi honum hvad hann ætti ad gjøra, og ásakadi hann, þegar hann skeikadi, og endurgyldi honum, þegar hann breytti réttilega? Miklu fremur segjum vér allir, ad þad sé Guds rødd, sem vér heyrum, hin sama rødd, sem talar í brjósti sérhvers manns, þegar hann vill einlæglega hlýda á hana, og bodar øllum hid sama løgmál. Þegar hjarta vort fyllist helgum føgnudi, þegar sú tilfinníng ríkir í oss, sem mál vort getur ekkert kallad nema sælu, þá høldum vér þó ekki, ad vér veitum oss sjálfir føgnud vorn, heldur finnum vér, ad oss er veitt hlutdeild í því, sem er gott og sællt sérhverri veru, sem tilfinníng hefir, hlutdeild í sælu hins eylífa. Þegar þú finnur hina sømu tegund urta í fjarlægum løndum, og þú hefir ádur fundid í átthøgum þínum, þá segir þú: hér drottnar einnig hid sama náttúrumagn, hér lætur einnig hinn almáttugi blómin ylma og frækornid dafna. Og þegar hinar sømu hugsanir og tilfinníngar og ályktanir fylla sálir mannanna fjær og nær, er þad þá ekki hinn sami Andi, sem framkvæmir allt í øllu (1 Kor. 12, 6)?

En Andinn, Guds Andi — hvad hugsum vér oss, þegar vér nefnum þetta heilaga nafn? Er sá Andi, sem vér tølum um, einúngis einsog vindurinn, sem þýtur, og veit ekki sjálfur, hvadan hann kemur, né hvert hann fer? Er hann blindur máttur og medvitundarlaus, og kveykir hid andlega líf, en veit þó ekkert af sjálfum sér, né lifir því, sem hann kveykir? O! mundi sá, sem gefur øllum líf, ekki lifa sjálfur? mundi sá, sem gefur sálum mannanna ljósar hugsanir og ríkar tilfinníngar og øflgan vilja, vera sjálfur án medvitundar og tilfinníngar og lífs? Nei! þad er sá Andi, sem rannsakar leyndarrád Guds (1 Kor. 2, 10), og gengur út frá Fødurnum og Syninum, og kallar og safnar saman, og helgar, og farsælir alla anda í hinum takmarkalausa søfnudi, og tengir þannig allan søfnudinn vid sig, og

þá jafnframt við Föðurinn og Soninn; því ofar allri breitíngu tímanna, ofar öllu, sem til er á himni og jörðu, er eitt órjúfanlegt samfèlag: Faðir, Sonur og Heilagur Andi, hinn eini sanni Guð.

Vèr viðurkennum fyllilega, að vèr erum hèr komnir að þeim takmörkum, þarsem augu dauðlegra manna sjá ekki framar skírt, þarsem hugsanir mannanna truflast, og mál mannanna megnar ekki framar að koma orðum að, og nefna rèttum nöfnum. En sèrhver djúpsær hugleiðíng hlýtur að bera oss að þessum takmörkum; hið sýnilega bendir til hins ósýnilega, og það sem vitið sær glögglega skilið, bendir til óransakanlegra leyndardóma. Þessir leyndardómar eru ekki birtir oss til þess, að vèr skulum trufla huga voru á umhugsun þeirra, nè til þess, að nokkur skuli reyna að komast lengra, enn honum er afskamtað, því gjafirnar eru ýmislegar, og Andinn úthlutar sèrhverjum eptir því sem hann vill (1 Kor. 12, 11). Hvað stoðar það, hefir einn guðhræddur maður sagt, þótt þú gætir aldrei svo snillilega talað um leyndardóma þrenníngarinnar, ef þú gjörir það, sem misþóknast þríeinum Guði? Mest er undir því komið, sem postulinn segir, að varðveita leyndardóm trúarinnar í góðri samvizku (1 Tim. 3, 9). En hversu leyndardómsfullir sem lærdómar trúarinnar eru í nokkru tilliti, þá eru þeir samt eins fyrirþví ómótmælanlegir og ómisandlegir hverjum þeim, sem kappkostar að varðveita góða samvizku fyrir Guði og mönnum. Hversu huggunarrík er og þannig þessi grein hinnar kristilegu trúarjátníngar: eg trúi á Heilagan Anda! þarsem eg vona að ná ákvörðun minni og ávinna mèr Guðs ríki, þá trúi eg ekki á sjálfan mig, á vizku mína og mátt; eg veit hversu hæglega mannlegt vit og mannlegt hjarta getur villzt, hvernig geðshræríngar og girndir blinda vitið, svo það flækir sig í neti rángra hugsana og ályktana, og hvernig rángar hugsanir tæla aptur hjartað og leyfa því slíkt er það girnist; eg veit hversu hæglega hinn öflgasti máttur mannanna lætur bugast, og ásetníngar þeirra eyðast, ýmist í hinni seinfæru og deyfandi rás tímans, eður á hinni stormasömu stund freistíngarinnar. En eg trúi að guðlegur Andi sè til, er láti allt hið góða þróast guðlegum þroska, og leitist við að safna öllum sam-

an í einn søfnuð, og leiði alla, sem koma vilja, til Guðs ríkis. Eg trúi á Heilagan Anda, eg trúi því, að þegar eg leitast við að gjøra líkama og sál hæfileg til musteris handa honum, þá birti hann einnig krapt sinn í mér, og leiði mig að hinu rétta takmarki mínu. Eg trúi því, að þarsem þú, ó Guð! hefir gefið mér hjarta, sem heyrir bænir, og gefur fúslega þeim, sem biðjur, góðar gjafir, þá munir þú ekki — þegar eg bið þig, og bið ekki um þær gjafir, er eg gæti efazt um hvert þær séu góðar eður ekki, heldur bið þig um þinn Heilagan Anda, — selja mig á vald anda villunnar og afvegaleiðslunnar, heldur veita mér það, er eg beiðist.

# 48.

## Bænin.

### Fyrsta hugleiðing.

Kristinn maður á að breyta eptir Drottni sínum. Og þegar þú hugleiðir breytni Drottins þíns á jørðunni, sér þú, hann gekk um kring, og gjørði gott, og starfaði að því, er Guð hafði falið honum á hendur, bætti úr bágindum nauðstaddra, líkamlegum og andlegum, og sáði sæði því, er átti að þróast til Guðs ríkis. Þú átt að gjøra hið sama, eptir orku þinni, þú átt ekki, og mátt ekki dirfast, að forðast samblendni við menn, né hlífa þér hjá þúnga og hita dagsins, né armæðu þeirri og áhyggjum, sem spretta af sýslu þinni, né hinni marghattuðu hugsýki, sem er kærleikanum og viðkvæmninni samfara. En þú munt einnig sjá, að hann snéri burt úr skarkalanum, til að gjøra bæn sína. Hversu opt er ekki frá því sagt, að hann hafi farið út á eyðimerk til að biðjast fyrir, eða hann hafi farið uppá fjøll, og verið þar alla nóttina á bæn til Guðs (Lúk. 5, 16. 6, 12). Hver Kristinn maður á að gjøra það, sem Drottinn hans hefir boðið honum. Og ef þú gefur gætur að orðum Drottins þíns, muntu sjá, að hann hvetur til að halda øll Guðs boðorð, ekki aðeins

í orðum og gjörðum, heldur og í hjarta og hugrenníngum; því hann var sannarlega ekki kominn til að aftaka lögmálið, heldur til að fullkomna það (Matth. 5, 17). En ekkert boðorð heyrir þú optar til hans enn þetta: biðjið, og munuð þér öðlazt (Matth. 7, 7), því hann lét aldrei af að minna menn á það með berum orðum og dæmisögum, að þeir eiga sífeldlega að biðja og ekki þreytast (Lúk. 18, 1).

Einn af spámönnunum, sem er að tala um anda þann, er Drottinn mundi senda þjónum sínum í fyllíngu tímans, kallar það anda líknarinnar og bænarinnar (Sach. 12, 10), það er þann anda, er gjörir mennina réttláta í Guðs augum, og veitir þeim miskun hans, og kemur þeim fyrir þá skuld til að sækjast eptir sambandi og sameining við Guð í bæninni. Jesús vandi lærisveina sína á að biðjast fyrir; og var það ekki auðvelt né fljótgjört, að kenna þeim að biðja réttilega. Hann sagði við þá í skilnaðarræðum sínum: híngaðtil hafið þér ekki beðið neins í mínu nafni; en á þessum hinum síðustu æfistundum sínum, lét hann ekki af að áminna þá á þessa leið: biðjið, og munuð þér öðlazt, svoað fegnuður yðar verði fullkominn; og hann gaf þeim þetta fyrirheit til hinnar erfiðu ferðar: sannlega, sannlega segi eg yður, að hvers sem þér biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður (Jóh. 16, 23 o. nn. vv).

Síðan fóru postular Krists út um heiminn til að fylla hann af anda miskunarinnar og bænarinnar; margt var það, er þeir vildu kenna mönnunum, en við hverja kenníng tengdu þeir áminníngu um að biðja. Biðjið, segja þeir, á sérhverri tíð í anda (Eph. 6, 18)! biðjið án afláts (1 Thess. 5, 17)! Verið stöðugir í bæninni og kostgæfnir í þakkargjörð, og biðjið líka fyrir oss (Kól. 4, 2)! Postular Drottins voru sjálfir kostgæfnir í þakkargjörð, bæn og fyrirbænum, og vildu kenna oss árvekni í því. Og hvað yrði úr oss, ef vér mættum ekki biðja? Hvar ætti vesælings hjarta vort, sem æst er af svo mörgum stormum, og sundurkramið af svo mörgum ástríðum, og svo opt hefir verið sjúkt og titrandi, sært og blóðgað, — hvar ætti það að geta fengið hvíld og lækníng og frið, ef vér hefðum ekki lært að biðja? Sálin án bænar er einsog fugl, sem búið er að væng-brjóta, svo hann verð-

ur ad halda sèr vid jørdina. Þessvegna skalt þú aldrei, kalla veraldar-speki! slíta bænina frá hjarta mínu; þóad sála mín hafi undir mikilli byrdi ad rísa, skal hún samt spenna út-vængi sína, og andi bænarinnar skal flytja hana uppúr bágindum og eymd heimsins, upp til Frelsara hennar, í fadm hins eylífa Födurs.

Postularnir kenndu ekki neina grein árángurslaust, og þá ekki heldur bænina. Ad sönnu getum vèr ekki sagt, ad þeir hafi fyrstir nefnt hid helga bænarord fyrir heidingjunum; því þegar Gud lèt manninn gánga upprèttan medal hinna skepnanna, er til jardar lúta, og lofadi honum ad geta lypt augum til stjarnanna, veitti hann honum faung á, ad hefja huga sinn til hans, sem ríkir fyrir ofan stjörnurnar. Medvitundin um Gud er mönnunum svo sterklega innrætt, þeir finna svo glöggt, ad þeir þurfa á gudlegri hjálp ad halda, og vonin um gudlega miskunsemi er þeim svo edlileg, ad vèr optsinnis fáum ad heyra andvarp þau til Guds, í alvöru-tali spakra heidingja, sem kristinn madur gæti upptekid af heilum hug. En sönn og fullkomlega gudrækileg bæn er hjá þeim einsog stöku gullkorn í steini; því allir vitum vèr hvernig gudsdýrkun og bæn var almennt háttad hjá heidingjunum. Allt ödruvísi stód á fyrir Gydingum; þar hafdi andi bænarinnar snemma verid vakinn, og hann kenndi spámönnunum og fedrum þjódarinnar hinar hjartnæmu, máttugu, hógværu og öruggu bænir, sem hljóma enn um alla veröld. Í Jerúsalem var musteri hins eina sanna Guds, og þad kölludu menn bænahús, því þángad fór ein kynslódin eptir adra til ad bidjast fyrir, lofa og þakka, og þegar þjódin dreifdist út um önnur lönd, byggdi hún sèr bænahús, hvar sem hún kom, því rödd bænarinnar átti aldrei ad þagna medal Gydínga. Svo fór, ad mennirnir fengu skilid, ad bæninni væri ekki einskordadur stadur í Jerúsalem nè í neinum ödrum helgudum stad, heldur skyldu sannir tilbidjendur tilbidja í anda og sannleika (Jóh. 4, 21. 23). Postular Krists fóru út um heiminn, og hvar sem kristnir söfnudir hófust, hófst og bænin, og stè til himna, sem fórn handa hinum Hæsta, og var honum miklu þægilegri, enn feitar brennifórnir og reykelsisilmur.

En þóad menn bidji nú alstadar, þar sem við kristinni trú

hefir verið tekið, getum vèr fyrir það með sanni sagt, að þær bœnir sèu allar í anda og sannleika? Því er miður, að spillíngin kemur ekki aðeins í ljós fyrir utan kristna kirkju, heldur og í henni sjálfri, ekki aðeins í lèttúð og heimsku veraldarinnar, heldur og á guðrœknis og bœnar-stundunum. Því þegar þeir, sem báðust lengi fyrir af eintómri hrœsni, til þess ekki bæri á saurgunni í huga þeirra og hegðan, lögðu bœnina einsog byrði á mennina, skipuðu að biðja margar bœnir og lángar, til að friðþægja reiði himinsins, gjörðu bœnina að kalla að hegníngu syndarinnar, og kenndu mönnum að þylja bœnarorðin hugsunarlaust: leiddi það miklu fremur frá Guði, enn til Guðs. Hversu opt hefir ekki verið beðið svo í kristinni kirkju, að það mætti virðast ótrúlegt, að svo gætu beðið játendur hans, er sagði með berum orðum: "þegar þú biðst fyrir, þá hegða þèr ekki sem hrœsnarar, sem vanir eru að standa og biðjast fyrir í samkundum og á gatnamótum, til þess þeir verði sènir af öðrum. Sannlega segi eg yður, þeir hafa sín laun út tekið. En þegar þú vilt biðjast fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og loka dyrunum; bið svo Föður þinn í einrúmi, og hann, sem sèr það, er fram fer í einrúmi, mun veita þèr það opinberlega. Varist í bœnum yðrum ónytju mælgi, einsog heiðíngja er siður, því þeir hyggja, að þeir muni verða bœnheyrðir fyrir orðafjölda. Varist því að líkjast þeim; því Faðir yðar veit, hvers þèr viðþurfið, áðurenn þèr biðjið hann (Matth. 6, 5 og nn. vv).". Þessar áminníngar Drottins hafa verið ítrekaðar á seinni tímum, og hefir það ekki verið árángurslaust með öllu; því það er nú orðið sjáldgæfara enn áður, að hrœsnarar reyni til að afla sèr ágætis fyrir látalæti og lángar bœnir, enda er slík hegðan nú í meiri fyrirlitníng enn áður. En ekki viljum vèr grennslast eptir því nú, hvert bœnin sjálf sè ekki orðin sjaldgæfari um leið. Bœnin fer ekki ánnara milli enn Guðs, og þess er biður, og hann á ekki að leiða vitni til. Það veit eingiun nema þú og Guð, hvert þú ber óskir þínar fram fyrir hann með þakkargjörð, hvert þú hugsar einsmikið um aðra og sjálfan þig í bœnum þínum, og felur þá Guði á hendur, er hann hefir trúað þèr fyrir, og alla ástvini þína, hvert þú spurð Guð á himnum til ráða í öllum fyrirtækjum þínum, hvert þú lyptir huga

þínum, þegar þú vaknar á morgnana, til Föður ljósanna, sem ekki adeins lætur dagsljósið skína yfir fjöll og dali, hallir og hreysi, heldur og hefir gefið sálum vorum það ljós, sem vér greinum vid rétt frá röngu, eda hvert þú á kvöldin, þegar þú ert kominn í rúm þitt, felur þig honum á vald, sem vakir medan vér sofum. Ef þú gjörir það ekki, skaltu gjöra það, viljirdu eiga samfélag vid Gud; ef þú gjörir það sjaldan, skalt þú gjöra það optsinnis; ef þú gjörir það med hálfvelgju, skaltu gjöra það heitt og hjartanlega. Þú skalt bidjast fyrir, þegar laungun hjarta þíns rekur þig til þess, og þér er indi og unun ad bæninni, en þú skalt og einnig bidja, þegar þér er það í móti skapi; og þegar það er einsog allskonar örduglcikar vilji bægja þér frá Gudi þínum, skaltu sigrast á þeim, og leita Guds í bæninni, því hugsirdu sjaldan til Guds, og sála þín verdi ófús á ad snúa sér til hans, þá er því meiri þörf á, ad þú sigrist á óbeit þinni, og snúir huga þínum frá glaumi veraldarinnar, og lyptir honum til Guds.

Því það er edli bænarinnar, ad hún dregur hugann frá því, sem truflar og glepur; ef hugur þinn er á reiki, medan þú bærir varirnar, má það eingin bæn heita. Hversu heilsusamlegt er það ad halda saman huganum! það er ekki hinn léttúdugi einnsaman, er lætur glepja sig, og ekki heimskan ein, sem glepur; því hversu margar og hversu truflandi eru hugmyndir þær, er alvörugefinn og rádvandur verkamadur verdur var, ad brotizt hafi gegnum sálu hans, þegar hann á kvöldin lítur framá lidinn dag! Jafnvel erfidid sjálft, sem heldur huganum saman i svo mörgu tilliti, í hversu margvísleg atvik skiptist það opt edur optastnær, sem útaf fyrir sig eru lítilsjörleg og truflandi! Þessi atvik máttu ekki lítilsvirda, því án þeirra verdur miklu starfi aldrei lokid; aldrei verdur neitt steinhús byggt, nema menn leggi dyggilega stein á stein ofan. En öll þessi einstaku atvik snúa huganum í margar áttir, og olla manni dags daglega margra örduglcika og margrar armædu, sem fær margvíslega á huga vorn. Og vér lifum innanum adra menn, heyrum rædur þeirra um mikilvæg og um harla lítilvæg efni, og ágreiníng þeirra um ótal hluti, og truflar það hugsanir vorar og ályktanir á margan hátt. Og hver dagur hefir sína

þjáníngu, og hver af oss hefir sína byrdi ad bera, og sitt hefir hver ad kæra; hin umlidna æfin hefir sært oss á margan hátt, og hin ókomna skelfir oss med margvíslegum kvída, en fögnudur og von sækja einnig hjörtu vor heim. Allt hlýtur og þetta þannig ad vera; en hvad ætli yrdi úr æfi vorri á endanum, ef vér létum hverskonar áhrif teyma oss vidspyrnulaust. Ef ferdamadurinn gengi alltaf úti bláinn, og horfdi aldrei annad enn nidur fyrir sig, ellegar á þad sem næst væri, mundi hann skjótt villast; þessvegna nemur hann stadar og litast um, til ad vita hvört hann geti ekki eygt takmark sitt, og séd, hvert hann sé á réttum vegi. Ef húsasmidurinn héldi alltaf áfram ad hlada steini á stein ofan, kynni veggurinn ad hallast, og hann kynni þurfa ad rífa nidur þad, er hann þóktist vera búinn ad fullgjöra; þessvegna hættir hann á stundum starfi sínu, og gáir ad því, sem hann er búinn med, og ber þad saman vid hugmynd þá, er hann ætladi ad byggja eptir. Á líkan hátt á og madurinn ad nema stadar, og taka saman huga sinn, svo hann sjái, hvad hann fari, og hvad hann gjöri.

En sérhver hugleiding er ekki bæn, því þad er edli bænarinnar, ad *hún snýr huganum til Guds*, um leid og hún dregur hann frá glaumi veraldarinnar; en í því, ad snúa huganum til Guds, er fólgin lækning og fridur og styrkleiki sálarinnar. Þegar þú bidst fyrir, lyptir sála þín sér upp frá glaumi veraldarinnar, frá eymd hennar og armædu, synd og saurgan, og medvitundin um hinn eylífa og almáttka og heilaga Gud verdur skír í brjósti þér. Þá minnist þú ekki Guds í bæninni á slíkan hátt, sem vér minnumst fjarlægra hluta, er vér getum eingin afskipti haft af, nema í huganum; heldur finnur þú, medan þú bidst fyrir, ad Gud er nærri þér, ad þú lifir, hrærist og ert í honum. Sá er bidst fyrir af öllu hjarta, mun hann nokkud ímynda sér á medan ad Gud byggi lángt fyrir ofan stjörnurnar, og óttast ad bæn sín heyrist ekki þángad? Fjærri fer því! Sá sem bidst fyrir veit þad og finnur, ad eyra er í nánd, sem heyrir bæn hans, ad hjarta er í nánd — ef vér megum svo ad ordi komast — sem miskunar honum, ad til er almáttug hönd, sem ekki sleppir. Þessvegna endurnýar þú og lífgar, hvenær sem þú

bidst fyrir, medvitund þá í hjarta þínu, ad Gud sé hjá þér, og sjái allt er þú adhefst, og allt er þú æskir; og muni vernda þig á øllum leyfilegum vegum þínum.

En er þú lyptir huga þínum til Guds, og trúir því, ad hann sé þér nálægur, og heyri bæn þína: hvad ætlar þú þá ad bera fram fyrir hann? Ekki annad enn stunur og kvein, ekki annad enn nýar og nýar óskir? Hversu fegur er áminníng postulans, þá er hann segir: látid í øllum hlutum óskir ydar koma fyrir Gud í bænum og fyrirbeidni, ásamt med þakkargjørd (Phil. 4, 6); því vér eigum ekki sídur ad þakka enn bidja. Ef børn þín kæmu adeins til þín, þegar þau hefdu einhvers ad bidja, ef þú heyrdir þad á ordum þeirra, og sæir þad á svip þeirra, ad allt hid góda, er þú hefdir audsýnt þeim, hefdi ekki ollad þeim neinnar ánægju, og þau væru óþakklát og heimtufrek, og hefdu gleymt því, er þú hefir veitt þeim, og sæktust einúngis eptir því, sem þeim hefdi verid neitad um: þá mundir þú ekki hafa mikid gaman af ad horfa á þau. Ætli þad geti þá verid Fødur vorum á himnum til velþóknunar, ad sjá oss halda áfram vegferd vorri stynjandi og kveinandi, einsog vér hefdum ekkert gott þegid, þegar hann lýkur upp sinni ørlætishendi, og sedur allar lifandi skepnur med blessan sinni, en verdur þó einskis þakklætis var hjá hinum lifendu, heldur adeins umkvørtunar og heimtufrekju? "Sála mín! lofa þú Drottinn, og gleym ekki velgjørdum hans (Sálm. 103, 2)!" Gud þarf ekki á voru þakklæti ad halda, heldur þurfum vér ad minnast miskunar hans. Því þegar sála vor er full mikillar áhyggju, og snýr sér til Guds, og ætlar ad fara ad telja honum harma sína og kveinstafi, hljómi oss þá fyrir eyrum hin helga áminníng, er segir oss ad bera fram bænir vorrar med þakklæti, þá er sem hún þraungvi oss til ad meta velgjørdir Guds réttilega; þá finnum vér, hversu lítid þad situr á þeim, er Gud hefir veitt svo marga líkamlega og andlega blessan, ad sýta yfir lífinu, svosem væri þad einúngis til byrdarauka. Vér minnumst þá, hvernig Gud hefir verid med oss um lidna æfi, hversu opt hann hefir létt á oss byrdinni, hefir hjálpad oss á þeim vegum, er erfidir voru, hefir látid vantrú vora til skammar verda, en látid hid góda spretta af því, er vér køllum íllt. Og

(27*)

því líflegri sem slíkar hugmyndir verda í huga vorum, med því meira traustí munum vér bidja.

En á oss þá einúngis ad vera umhugad um sjálfa oss, og vora heill og hamingju, þegar vér bidjumst fyrir? Ef vér hugsum um nokkurn annan enn sjálfa oss, og hefum svo mikinn kærleika, ad vér getum fagnad med fagnendum og sýtt med sýtendum, ættum vér þá ekki ad bidja fyrir ødrum í bæn vorri til Guds? Mér kemur ekki til hugar, ad vér skyldum reyna til í bænum vorum ad telja upp alla þá, sem oss er vel vid, og alla þá blessan, er vér æsktum þeim. Pad væri ad bidja mørgum ordum, og mørgum óskírum hugmyndum, því vort hjarta er of lítid til þess, ad vér gætum safnad því øllu saman, hvenær sem vera ætti. En Guds hjarta er ekki lítid, hann sér allt, bædi þá, sem eru oss nálæglr, og þá, sem feta um fjarlæga stigu, og vér þurfum ekki ad segja honum, hvad þeim sé nytsamlegt; hann veit hvers þeir vid þurfa, ádurenn vér bidjum hann. En einsog vér eigum ad endurnýja samfélag vort vid Gud í bæninni, eins eigum vér og ad endurnýja samfélag vort hver vid annan; þessvegna á gódur fadir og gód módir ad innilykja børnin í bæn sinni, og børnin foreldrana, madurinn konuna, og konan manninn; og brædur og vinir og allir menn eiga ad vera fólgnir í tilfinníng vorri, þá er vér rennum bænaraugum til h a n s, sem veitir allar gódar gjafir.

"Verid ekki hugsjúkir fyrir neinu, heldur berid allar óskir ydrar fram fyrir Gud í bæn og ákalli!" Hversu mjøg reynir kristin trú ad eyda áhyggjum þeim, sem vér kveljum med sjálfa oss og adra, og veikjum med hugrekki vort og mátt til ad starfa! En þad ráð, er hún leggur oss til ad e y d a á h y g g j u m þessum, sem eru oss svo edlilegar, og kvikna svo audveldlega af tilfinníng hins nærveranda og tilhugsan hins ókomna, er ad bidjast fyrir. "Berid allar óskir ydrar fram fyrir Gud!" Hvad sem þad er, sem þér er umhugad um, þá ber þú þad fram fyrir Gud í bænum þínum. Verid getur þér þyki þad of lítilfjørlegt til þess ad bera þad fram fyrir Gud; en ef þad í rauninni er þér svo mikilsáríðandi, ad þad gjørir líf þitt myrkt og armædusamt, þá reyndu til ad innilykja þad í bæn þinni; og ef þú

finnur þá, að þú blýtur að fyrirverða þig að biðja Guð um slíkt, ætli þú mættir þá ekki einnig fyrirverða þig að kalla líf þitt erfiðt, þó þú hefðir þetta að bera? En um verulegar áhyggjur, segjum vér ekki, heldur það orð, er oss er gefið til leiðbeiningar og huggunar, og vér köllum Guðs orð eptir uppruna þess: varpið allri áhyggju yðar uppá Guð, því honum er annt um yður (1 Pét. 5, 7). Ef þú færir veg þinn hrelldur og hryggur, og einhver af höfðingjum jarðarinnar mætti þér, og spyrði þig hvað að þér gengi, og þú segðir honum frá raunum þínum, en hann segði þú skyldir varpa þeirri áhyggju uppá sig, og ekki skipta þér af því framar: mundir þú eflaust gjöra einsog hann hefði sagt, og verða við það í léttara skapi. Og það er sem Drottinn himins og jarðar mæti oss á hinni örðugu vegferð vorri, og segi við oss: varpið allri áhyggju yðar uppá mig! Eg skal líka, Guð minn góður! heyra orð þitt og hlýðnast því. Þegar veröldin ætlar dags daglega að glepja fyrir mér og trufla mig, skal eg og dags daglega taka saman huga minn í bæninni, og snúa honum til þín, uppsprettu lífsins, eylífi og heilagi Guð! Og þegar veröldin ætlar dags daglega að armæða mig með áhyggjum sínum, skal eg og dags daglega varpa í bæninni allri minni áhyggju uppá þig, almáttugi, líknsami Guð! Því ef eg held mér við þig með sannri og lifandi trú, þá ber þú umhyggju fyrir mér, og leiðir mig gegnum stríð og frið, nægtir og skort, að sönnu á annan hátt, enn eg hafði til ætlazt, en viturlega og föðurlega, svo eg geti orðið hæfur til að taka á móti hinum góðu gjöfum, er þú hefir heitið þeim, er biðja þig um þær. Hugur manna getur breizt, og þeir gleymt loforðum sínum, en þú heldur loforð þín að eylífu, trúi og sannorði Guð!

---

## 49.

## Bænin.

### Önnur hugleiðing.

Það er all-indælt að sjá úngan mann hefja upp vegferð sína fullan vonar og trausts, en þó er sú sjón hverki sjaldgæf né yfir-

taks merkileg; sá er tilbjó mannlegt hjarta, gróðursetti vonina í því, til þess að hún leiddi oss æ fram á leið, frá einu starfi til annars; og hinn úngi veit ekki hvað lífið hefir að færa, og hefir ekki reynt armæðu og örðugleik, hinir fögru æskudraumar hvarfla enn fyrir huga hans, og reynslan er ekki farin að dreifa þeim. Hitt er fágætara, og enn fegra, að heyra þann, sem aldraður er, gjöra Guði þakkir, að von sín hafi rætzt; hann veit og hefir reynt, hvílík að er æfileið mannanna, hann hefir eflaust lángað til margs, sem honum hefir ekki veitzt, og margur örðugleiki fyrir hann komið, sá er hann hefir ekki mátt yfir stíga, hann hefir optlega sáð, en ekki uppskorið, en og haft margt fyrir stafni, sem honum hefir ekki auðnazt að framkvæma; og segi hann samt, að vonin láti ekki til skammar verða (Rómv. 5, 5), þá hugga og hressa þau orð ekki aðeins sjálfan hann, heldur og þá, sem úngir eru, og heyra mál hans.

Hversu huggunarríkt er það þessvegna að lesa þessi orð Drottins vors í guðspjalli Jóhannesar: "sannlega, sannlega segi eg yður, að hvers þér biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður. Hingaðtil hafið þér einskis beðið í mínu nafni; biðjið, og þér munuð öðlast, svoað yðar fögnuður verði fullkominn" (Jóh. 16, 23. 24). Postulinn hafði heyrt þessi orð, þegar hann var úngur, en var orðinn gamall, þegar hann letraði þau til vitnisburðar fyrir allar ókomnar aldir; og fyrst hann gjörði það, hlýtur að vera, hann hafi sjálfur fundið þau rætast, og reynt, að þessi orð Drottins, einsog öll önnur, voru já og amen. En hafði þá æfi hans verið miklu sælli, enn annara manna? Hann hafði þolað harmkvæli og ofsóknir, einsog aðrir postular Krists; og sá þeirra, er fyrstur féll fyrir sverðseggjum, var Jakob postuli, bróðir Jóhannesar (Post. 13, 3), og þegar Heródes lét taka Jakob, þá mun að vísu bróðir hans hafa beðið, að honum yrði svipt úr hans grimmu höndum, og sú bæn mátti vel sýnast vera fram flutt í nafni Jesú, honum til dýrðar, og til eflíngar ríki hans; þó var hún ekki heyrð, og Jakob var líflátinn saklaus. Jóhannes hefir sjálfsagt beðið optsinnis og í hverri bæn sinni, að orðið fengi viðgáng, og þó hefir hann sjálfsagt fyrir hitt mörg

dádlaus og léttúdug hjertu, sem ekkert hafdi stad í. Hann hafdi séd fálskennendur — óvitra, drambsama og hræsuisfulla játendur trúarinnar, sem afneitudu kristilegum sannindum, og ekki fundu til kristilegs kærleika — troda sér inní söfnudina; hann hefir sjálfsagt bedid, ad kenningum þeirra yrdi ekki ágengt, og þó spratt illgresid upp innanum hveitid. En þó hinn eylífa spekin hefdi synjad honum margs, er hann girntist, þá hafdi hann hinsvegar hlotid mikla og dásamlega bænheyrslu, því honum veittist hin heitasta og innilegasta ósk hans, er hann sá ríki Krists hefjast og vaxa og sigrast á sérhverri mótspyrnu. Athugum, hver ad var hin fyrsta bæn, er fyllilega var bedin í Jesú nafni. Postular Krists, er voru sviptir Lávardi sínum, svoad hann var hættur ad veita þeim sýnilega hjástod, beiddu um speki, krapt og lid, til þess ad stofna og auka kristilega kirkju, og verja fyrir ofurefli því, er uppreis í mót henni, og skömmu ádur hafdi deydt Drottinn þeirra, en vofdi nú yfir sjálfum þeim; þessir hinir fáu og audvirdilegu menn beiddu styrks í mót allri veröldinni; athugum einnig, hversu dásamlega bæn þessi rættist, er kristin kirkja hafdi þróazt svo á einum mannsaldri, ad henni v a r d ekki kollvarpad, en styrkur Gydinga trúar var horfinn, og heidnin ad hruni komin: og munum vér skynja, ad þetta var kraptaverk, einsog þó fjallid hefdi — eptirþví sem Drottinn vor ad ordi kemst — tekid sig upp ad bodi þeirra, og fleygt sér í hafid, og Drottinn vor efndi þar þessi ord: allt, er þér beidist med trúnadartrausti, mun ydur veitt verda (Matth. 21, 21. 22), edur þessi: sannlega segi eg ydur, ad hvers þér bidjid Födurinn í minu nafni, þad mun hann veita ydur.

Þessi fyrirheit voru fyrst gefin postulunum, og medþví ad þeirra ætlunarverk var lángtum meira enn vort, þrætum vér med eingu móti, ad þeim hafi verid heitid slíkum gjöfum og lidsinni Andans, ad vér megum ekki vænta oss jafnmikils — þeirra bæn var lángtum yfirgripsmeiri, og trú þeirra eflaust miklu stadfastari; en eigum vér þá ad halda, ad þessi fyrirheit hafi verid fyrir þá eina? Þ a d snertir þó ad vísu alla oss, ad sá fær, er bidur; og hitt eins, ad allt, sem vér höfumst ad í ordi eda verki,

þá eigum vér að gjöra það í nafni Drottins Jesú (Kól. 3, 17); og fyrirþví er hvorki sú skuldbinding, að biðja í Jesú nafni, né það fyrirheit, sem henni fylgir, einskorðað við æfi postulanna. En hvílík er þá sú bæn í Jesú nafni, er slík fyrirheit fylgja?

Einginn af oss mun vilja gjöra sér í hugarlund, að þegar vér setjum þetta helga og dýrðlega nafn í niðurlag bænar vorrar, þá hafi það svo undarlegan krapt, að vér getum ekki annað, enn orðið bænheyrðir. Það er betra, að byrja á nafni Drottins vors, enn að enda á því, meðþví að þú átt ætíð að biðja í hans nafni, og það á að fylla hjarta þitt, og laga bæn þína, svoað hún verðskuldi bænheyrslu.

Því í fyrsta lagi verður nafn Jesú, þegar vér nefnum það í bæn vorri með guðrækni og lotníngu, að hreinsa og helga óskir vorar. Allir vér berum í hjörtum vorum margar fýsnir og óskir, og í einverunni taka þær að vakna, og eins og heimta allar, að vér berum þær fram fyrir hinn almáttka í bæn vorri, svoað hann veiti þeim það, sem þær beiðast. En eru þær þá allarsaman hreinar og Guði þekkar? Til eru óskir, sem búa kunna í hjarta mannsins, en einginn dirfist að bera fram fyrir Guð, afþví samvizkan er óðar búin að áfella þær. En til eru og aðrar óskir, sem eru í sambandi við eitthvað, sem gott er, og virðast því sakir uppruna síns vera ekki aðeins óaðfinnanlegar, heldur og háleitar, og sprottnar af hollustu við sannleika og réttindi, en hafa saurgazt á leið sinni um hin krókóttu leynigaung hjartans, svo þær eiga ekki að þróast, heldur eyðast. Verið getur, þú hafir réttara að mæla, enn mótstöðumenn þínir, og það sé sanngjarnleg bæn, að þitt málefni verði ofaná; en ef þér liggur við að biðja, að hegníng af himni komi yfir þá, er í móti standa, þá er dramb og hatur í hjarta þínu, og bænin á ekki að efla reiðina, heldur kúga hana. Einnig eru til efasamar óskir, bæði þegar þú girnist eitthvað, sem þú veizt ekki, að hverju haldi þér kemur, og þegar þú vilt komast hjá einhverri raun, sem þér kann að vera heilsusamleg. Enn eru til smásmuglegar óskir, áhrærandi það, sem vér eigum að láta koma og fara eptirþví sem verkast vill, taka það, þegar það gefst, sleppa því,

þegar það vill hverfa, en láta það ekki teygja oss af réttum vegi. Allar þessar óskir, er svo opt glepja fyrir oss, og svo opt ætla að sundurkremja hjarta vort — ó! mér er óhætt að segja, að þær geti ekki nefnt Jesú nafn, því þær eiga ekkert samblendi við hann og hans orð; þessvegna er það svo heilsusamlegt að biðja í nafni hans, því þá verðum vér að hreinsa óskir vorar, og sleppa því úr, sem er saurugt og illt og ósæmilegt, eða þá efasamt, svoað vér getum ekki beðið um það með fullu trúartrausti, en taka þær einar óskir í bæn vora, sem þola nafn Jesú.

Vér eigum að biðja í nafni Jesú. Hversu furðanlegt er það! í neyð vorri og þrengingu, jafnvel þegar önd og líkami titra af dauðans ótta, jafnvel þegar oss er réttur sá kaleikur, sem vér höfum viðbjóð á, þá er oss boðið að biðja í nafni hans, er bað í Gethsemane, svo segjandi: Faðir minn! ef verða má, þá víki þessi kaleikur frá mér (Matth. 26, 39), en varð þó ekki bænheyrður af Feðurnum, eptirþví sem út leit, heldur hlaut að tæma þenna kaleik til hins síðasta og bitrasta dropa. Með hverju trausti get eg þá beðið í nafni hans, þegar eg er staddur í neyð? því ekki er eg betri enn hann, og vera má, mér sé ætlað sama og honum, og eg eigi, þrátt fyrir bæn mína, að tæma þann kaleik, er mig hryllir við, án þess að Jesú nafn frelsi mig frá honum. Já, að vísu! megi það ekki verða, að þessi kaleikur víki frá þér, það er, sé það ráðsályktun hins almáttka og alvitra, að þú tæmir hann, þá getur ekkert nafn og einginn kraptur á jörðu né himni frelsað þig frá því; en þá verður hann þér til blessunar, en ekki til glötunar, hversu beiskur sem hann er. Hver raun, sem yfir þér vofir, þá á hún ekki að sigrast á þér, heldur átt þú að sigrast á henni; en það getur þú ekki, nema þú biðjir, og biðjir í Jesú nafni. Því þegar þú ert staddur í raunum og biður í nafni hans, þá verður þú að biðja einsog hann bað, og bætavið orðum þessum, er oss mönnunum veitir svo örðugt að segja: þó ekki sem eg vil, heldur sem þú vilt, himneski Faðir! því meðan vér biðjum ekki á þann hátt, og það af hjarta, þá biðjum vér ekki í Jesú nafni. Oss hættir svo mjög til að halda, bænin sé öll í því fólgin, að biðja og heimta, þarsem þó hitt er höfuðatriði hennar, að af-

neita — afneita krefum vorum og þeim hinum ákafu girndum, er svo segja: þetta er heilsusamlegt, þetta á mér að veitast, og vilja marka Guði stað og stund, en vilja ekki bíða og þreya með þolinmæði þángaðtil Drottinn frelsar. Öllum oss má þó vera kunnugt, að vér vitum ekki hvers biðja ber (Rómv. 8, 26); og þegar vér vitum ekki, hvers biðja ber, þá eigum vér ekki að heimta í bœninni, heldur fela sjálfa oss og allt vort, allar óskir vorar, allt inni vort og allan skort vorn, alla von vora og allan kvíða vorn á Guðs vald gjörsamlega og án afdráttar. Og þegar oss veitir það örðugt, þá kemur Jesú nafn til liðs við oss, og með því minníng hans og eptirdœmi, og styrkja sálina í baráttu hennar við sjálfa sig, þángaðtil hún getur sagt: ekki sem eg vil, heldur sem Guð vill.

En hvað verður nú eptir, þegar vér hefum hreinsað girndir vorar, reynt að útrýma þeim, sem eru illar og óhreinar, en leggja hinar, sem meinlausar eru, undir vilja forsjónarinnar? Vera kann, þú segir: "bœnin á að spretta af þörf hjartans og laungun þess, hún á að biðja einhvers, og ödlast eitthvað, og þó heimtið þér, að vér afneitum í henni óskum vorum, og leggjum þær undir þann vilja, sem fram verður að gánga, hvert sem vér biðjum, eða ekki; það er og eíngin bœn, sem einskis biður". En hvernig er þessu varið? veiztu þá eingar óskir, nema þær einar, sem þú ert efablandinn um, hvert þú eigir að afneita eður ekki? veiztu einga ósk, er þessu þarf ekki við að bœta: ef það er til góðs, ef það er Guðs vilji? hefirðu einga ósk, sem þú finnur að samkvæm er vilja Guðs? Þegar þú biðst fyrir, þá úthýstu smátt og smátt þeim óskum, er spretta af holdlegu hugarfari; feldu og á vald alvitrum Guði allar saklausar, hreinar og leyfilegar óskir, þær eð einúngis ná til hinna stopulu jarðnesku gæða, stilltu þær með því að vona á miskunsemi Guðs, og gleymdu meir og meir öllu því, sem einúngis tilheyrir þessari veröldu: vittu svo, hvert þú hefir einga ósk eptir. Þegar hið stundlega hverfur, þá vaknar hin sanna, kroptuga, innilega laungun í hjarta hins guðhrædda, og verður að greinilegri hugsan, og stígur upp fyrir hinn eylífa, svo biðjandi: Drottinn! þú ræður öllum hlutum, þú sendir storm og hagstæða veðuráttu eptirþví sem þér þóknast; nú er eg legg útá hið ókyrra lífs haf,

dirfist eg hverki né vil biðja þig um neitt tiltekið; en hvert sem að skip mitt á að líða áfram hóglega í indælu veðri, eða velkjast í ósjó og brimi, þá láttu ekki stjörnu sannleikans hverfa mér, heldur láttu mig sjá hana, svoað eg geti hagað stefnu minni eptir hennar stöðugu ljósi. En ef eg líki lífi mínu við vegferð, þá sé eg ekkert af veginum, nema það sem næst er, hitt liggur í undarlega króka, svoað eg fæ ekki deilt það; mér er ókunnugt, hvert að leiðin muni verða greiðari eða torveldari, og um það þori eg einskis að biðja, heldur fel eg það Guði á vald; en, ó Guð! þegar leiðin er indæl, og allt brosir við mér, þá láttu ekki munað og girnd tæla mig af réttum vegi, veittu sálu minni stöðugleik, svoað eg hafi aldrei hugann af stefnunni; en þegar leiðin er torveld og hryggileg, þá ljáðu mér þann krapt, að eg ædrist ekki af örðugleikanum, og hnígi ekki undir byrðinni, heldur haldi fram stefnu minni, þángaðtil eg kem þar að, er sjálfur þú segir: gakk inn til Herra þíns og hvíl þig! Mér er óljóst, hvað eg kann að græða með viðleitni minni, og hvað eg kann að missa af jarðneskum munum, þegar svo ber undir; en, ó Guð! láttu mig samt fá borgið sálu minni, og haldið óðalsrétti mínum í þínu ríki. Í hjarta mínu er eitt frækorn, er sjálfur þú hefir í það sáð, og allt líf vort er til þess, að þetta frækorn skuli spretta upp og bera blóm og ávexti; láttu ekki stormana feykja því burt, né vetrarkuldann né sumarhitann verða því að grandi, heldur gefðu hagstæða tíð af himni, svoað það spretti upp og blómgist. Líka vex eitt tré í veröldinni, sem þú, Drottinn minn! hefir sjálfur gróðursett börnum mannanna til skjóls og indis; eg veit, að kristileg kirkja á ekki að vera armæðulaus hér í heimi, heldur á hún að stríða og betrast og eflast í baráttunni við óvini sína, bæði þá sem í henni eru og utan hennar — og hvernig mætti eg þá biðja þig að veita henni frið og jarðneska sælu? Al þú hana upp, einsog hvern einstakan mann, eptir speki þinni, í stríði og í friði, en láttu hinn himneska sannleika geymast þar óafbakaðan um allar aldir, láttu ætíð nokkra vera eptir, sem ekki lúta neinum falsguði, og ekki skammast sín fyrir Krists fagnaðarboðskap, né heldur hyggjast að kaupa sig í sátt við þig með neinskonar ófrelsi, heldur tigna þig í anda og sannleika; og láttu mig

ætíð eiga við þá frið og samfèlag, sem ákalla sig af hreinu hjarta! — Um slíka bæn máttu vera þess fullöruggur, að fyrirheitið hljóðar um hana; í slíkri bæn er þèr óhætt að nefna nafn Jesú, og heimfæra til hennar þetta loforð hans: hvers þèr biðjið Föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður.

En vèr eigum ekki einúngis að geta beðið í nafni Jesú, heldur eigum vèr að gjöra það, svoað vèr biðjum í trúnni. Vanti nokkurn yðar vizku, segir Jakob postuli, sá biðji Guð, og mun honum gefast; en hann biðji í trúnni, og efist ekki; því sá, sem er efablandinn, hann er líkur hafsins bylgjum uppæstum og hröktum af vindi; sá maður hugsi ekki, að hann fái nokkuð hjá Drottni (Jak. 1, 5 o. nn. vv.). Þessi orð gánga aldrei úr gyldi: getirðu trúað, skaltu sjá Guðs dýrð (Jóh. 11, 40). En með hverju móti getur hjarta mitt öðlazt þá trú og stöðuga sannfæringu, að Guð veiti mèr það er eg bið? Kemur hún, ef eg bið í mínu nafni, treystandi á verðskuldun sjálfs míns? Satt er það að sönnu, að Guð gefur gætur að sèrhverjum af oss, og eínginn maður er hulinn fyrir augum hans, nè einskisvirðtur af honum, sem elur fuglana í loptinu, og skrýðir blómin á jörðunni, og hefir veitt oss þá tign að vera miklu æðri enn þau. En hvernig yrði reyndar sú bæn að vera, er eg flytti fram einúngis í nafni mín sjálfs? Eg veit fyrir samvizku minni, að glaumur lífs þessa, munaður og þrengíngar þess, lèttúð í æskunni og dramb á fullorðinsárunum, hafa optsinnis látið mig gleyma Guði, stundum fyrir deyfð og stundum fyrir ákafa, ellegar ekki hafa hann í huga til vizku, rèttlætis og huggunar; Guð hefir kallað svo opt, án þess eg hafi heyrt; get eg þá vænt, að jafnskjótt sem eg líti til himins, þá lúkist hann upp fyrir mèr, og Guð láti sem hann viti ekki hirðuleysi mitt og afbrot mín, heldur veiti mèr bæn mína, og hugsi mèr ekki annað enn gott! Víst býr í mèr svo mikil von til guðlegrar miskunar, að einginn kvíði getur nokkurntíma flökkt hana; en þessi von er svo opt efablandin, og ætlar svo opt að gugna, þegar eg horfi á forleg þau, sem Guð lætur mönnunum að hendi bera, eður íhuga rèttvísi Guðs og tilverknað minn; og því er hún eingin trú. Nú ef eg get ekki beðið í nafni mín sjálfs með fullu trúartrausti, í hverju nafni get eg þá

bedid; ødru enn því, sem øll knéeiga ad beygja sig fyrir? Þegar eg bid í Jesú nafni, þá ber eg fyrir mig fridþægíngu hans; eg veit, ad hann hefir goldid og afplánad skuld þá, er eg átti ad gjalda, en gat ekki goldid, og ætíd mundi hafa bægt mér frá samfélagi vid Gud; eg finn, ad vér høfum fyrir hann djørfúng og adgáng med traustí fyrir trúna á hann (Eph. 3, 12). Þegar eg bid í Jesú nafni, þá renna upp í hjarta mínu þessi kristilegu huggunarord: Gud, sem ekki þyrmdi Syni sínum, heldur gaf hann út fyrir oss alla — mundi hann ekki einnig gefa oss allt med honum (Rómv. 8, 32)?

Hinn sami postuli, er færdi í letur þessi ord Drottins vors "hvers þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann veita ydur", segir svo á ødrum stad: þetta hefi eg skrifad, svoad þér trúid á nafn Guds Sonar. Og þetta er sú djørfúng, sem vér høfum til hans, ad ef vér bidjum nokkurs eptir hans vilja, þá heyrir hann oss (1 Jóh. 5, 13. 14). Látum oss því — segir annar postuli — gánga med djørfúng fram fyrir stól nádarinnar, ad vér ødlumst miskun, og finnum nád til hjálpar oss, nær oss á liggur (Hebr. 4, 16).

---

# 50.

## Bænin.

### Þridja hugleidíng.

Ordid bænheyrsla er fagurt ord og huggunarfullt. Þad sýnir, ad einhver hafi verid í vanda og bágindum staddur, og ekki getad rádid úr þeim, né hjálpad sér sjálfur, og hafi því leitad annarra, og hitt fyrir eyra, sem heyrdi, hjarta, sem komst vid, munn, sem svaradi, og hønd, sem gaf. Þegar sá, er bidur, verdur bænheyrdur af mønnum, gledst hann ekki adeins af gjøfinni, heldur opt og tídum enn þá meir af ást þeirri og trúfesti, er kom þeim til ad hlýda á bæn hans og veita hana. En optsinnis hefir sá, sem bágt á, þad bøl ad bera, er hann hverki má

né vill segja ødrum, hann vill ekki mæda né hryggja adra med því, eda þeir skilja hann ekki, eda geta ekki hjálpad honum, eda hann finnur ekkert eyra, sem heyra vill. Hvert leitar hann þá í eymd sinni og bágindum? þú mannlegt auga, sem ekki snýr til jardarinnar, né heldur horfir ætíd nidur á hana! þú mannlegt hjarta, sem alltaf þráir eitthvad, er verøldin getur ekki veitt! hvert leitid þid, þegar mennirnir vilja ekki heyra, eda megna ekki ad hjálpa? O! vér vitum þó allir, hvad þad er, ad leita hins ædra, sem er uppyfir oss, en undireins umhverfis oss, alstadar og harla nærri: ad leita þess á himnum, sem jørdin megnar ekki og vill ekki veita, þad er med réttu nafni, ad bidja Gud, Fødur vorn á himnum. Bænin er manninum svo edlileg, ad hann verdur lengi ad strída vid hana, og lengi ad streitast vid ad kefja nidur og aflaga hinar øndverdlegu tilfinníngar, eigi hann ad geta útrýmt henni úr hjarta sínu. Og þó geta øll bregd og allar þurrar ástædur ekki komid nema einstøku mønnum til ad sleppa bæninni; vera má, ad hinir flestu bidji sjaldan og med hálfvelgju, en þeir áskilja sér þó í huga sínum nokkurskonar rétt til ad bidja, og gjøra þad líka, þegar raunir og bágindi vekja þá af andvaraleysinu; medan himininn er yfir jørdinni, munu líka mennirnir hefja þángad bænar-augu sín upp frá bágindum veraldarinnar.

En þegar vér segjum í fullri alvøru, ad mennirnir eigi rétt á og séu skyldir til ad bidja, eru þeir menn til, sem vilja sanna þad af reynslu sinni, ad þad sé til einskis; þeir nefna til eitthvert mótlæti sitt, þá er þeir hafi leitad Guds, en ekki fundid hann, því hann hafi ekki lagt líknareyru vid bæn þeirra, og ekki afstýrt því, né veitt þad, er þeir bádu um. Þá er vér heyrum kvartad um slíkt, verdur oss opt til hugar ad koma, ad postulinn hefir ekki einúngis sagt: þér ødlist ekki, afþví þér bidjid ekki; heldur og: þér bidjid og ødlist ekki, afþví þér bidjid illa, til þess þér getid sóad því í býlifi (Jak. 4, 2. 3). Postulinn hefir sjálfsagt ekki adeins þá í huga, sem vanbrúka allt, er Gud gefur þeim, í vidbjódslegum løstum, heldur og þá, er hugsa ekki um annad enn jardneska hluti, og þekkja ekki adra bænheyrslu enn þá, sem afstýrir jardneskri eymd, og veitir jardnesk gædi. Mørg sannarlega gudrækileg bæn hefir leitad Guds, en þó ekki veitt þeim, er bad,

hina jarðnesku hjálp eða fróun, er hann vildi fá; hinni eylífu speki hans þókti betur haga, að neita enn veita, og sá, er bað, hlaut að bera þá byrði, er honum var svo þúngbær; en hefir hinn guðhræddi fyrir það nokkurntima sagt, að bænin væri árángurslaus? hefir hann fyrir það hætt að biðja? Aptur eru aðrir, sem segja bænin eigi einúngis að vera til þess að lypta huganum til hins Hæsta, en eigi ekki að bera óskir fram fyrir veldisstól hins eylífa, því Guð veit, segja þeir, hvers vér viðþurfum, þó vér biðjum ekki um það, og það er heimskuleg ofdirfska að halda, vér getum komið Guði til að breita því, er hann hefir ákvarðað í sínum eylífu ráðsályktunum, og laga speki sína eptir vorum fávísu óskum. En hvað verður úr bæninni, ef ekki má biðja? Ef það er allt óbreitanlega ákvarðað, sem fram við mig á að koma, þá get eg ekki litið til himna til annars, enn til að bíða eptir því, hvernig hin óumflýanlegu forlög muni dynja yfir, en ekki vegna þess eg vænti að fyrirhitta þar líkusaman Guð, sem muni hlusta miskunsamlega á bæn mína.

Snúi eg mér frá allri þessari þurru speki til orða Drottins míns og Frelsara, ödlast eg þá huggun, sem miklu er betri; hann eyðir með guðlegu valdi sínu efasemdum þeim, er vantrúin vill bægja mér með frá Guði mínum og Föður, því hann hefir sagt: hvað sem veröldin og efasemdir hjartna yðvarra kunna að segja, þá segi eg yður: ef þér biðjið, mun yður veitast, því hver, sem biður, hann mun ödlast; Jesus hefir tengt fyrirheit þetta við hinar viðkvæmustu og heitustu tilfinníngar í mannlegu hjarta: hver yðar, segir hann, byrgir eyru sín fyrir bæn barns síns? eða hver jarðneskur faðir mundi svíkja barn sitt með skaðsamlegum falsgjöfum, þegar það vonast eptir góðum gjöfum? Hversu miklu fremur mun þá ekki yðar himneskur Faðir gefa þeim góða hluti, sem biðja hann þess (Matth. 7, 7). Ef vér eigum að geta lært að þekkja guðlega veru, þá verðum vér að líta hana á nokkurn hátt í hugskoti sjálfra vor, í tilfinníngum þeim og sýnum, er Guð gaf oss í öndverðu, því Guð skapaði manninn eptir sinni mynd. Og sá, sem gróðursetti miskunsemina í hjarta voru, og gaf oss eyru, til að heyra hina auðmjúku og traustfullu rödd bænarinnar, og hjörtu, sem knýa hendina til að gefa, mundi hann ekki heyra

sjálfur og auðsýna miskunsemi? Einsog faðirinn miskunar barni sínu, eins miskunar og Drottinn þeim, er hann óttast (Sálm. 103, 13).

Maðurinn á sér tvo óvini og heita þeir synd og mæða; þeir eru náskildir, og fylgjast tíðum að, en opt koma þeir þó hver í sínu lagi; ef vér eigum að geta sigrast á þeim, verðum vér að innræta oss áminníng Drottins, og breyta eptir henni; vakið og biðjið, segir hann, svoað þér fallið ekki í freistni (Matth. 26, 41). Freistíngarnar eru margháttaðar; ástríður vorar, laungun og viðbjóður, velvild og reiði ætla stundum að hrífa oss með sér; ótti fyrir mönnum, armæða og bágindi ætla stundum að ógna oss eður tæla oss til að yfirgefa hinn beina veg ráðvendninnar; stundum getum vér tekið ýmisleg ráð, en vera má að eitt þeirra sé ráñgt, ekki aðeins óviturlegt, heldur og óréttvíst, og leiði til villu og syndar. Hversu opt er ekki hjarta vort reikandi og efablandið, jafnvel þegar vér höfum sem beztar gætur á sjálfum oss! Og hvað getum vér þá gjört betra í efa þessum og baráttu, enn lypta huga vorum til Guðs í bæninni, og hafa hann í ráðum með oss? Þegar vér biðjumst fyrir, minnumst vér þess ekki aðeins, heldum finnum vér það, og erum oss þess meðvitandi fyrir samvizku vorri, að Guð er oss nálægur, og sér allt, sem vér aðhöfumst; að ekki er sá glaumur til um daga, að Guð verði vor ekki var, né þau fylskni um nætur, að þau geti skýlt oss fyrir honum; og ætti ekki sú hugsan að veita oss styrk í freistíngunum, og hvetja oss til að leitast við að geyma allt eðli vort óflekkað fyrir augliti hans? Þegar vér biðjumst fyrir, minnumst vér þess, að Guð sér hvað vér kjósum og áformum, og hvernig mætti það vera, að slík hugsan stuðlaði ekkert til, að vér kysum hið rétta, og áform vor yrðu svo hreîn og vönduð að Guði líkaði þau? Þó er oss einganveginn svo nytsamlegt að biðjast fyrir í armæðu og freistíngum, einúngis vegna hugsana þeirra, sem spretta upp í sálinni, þegar vér biðjum, heldur — og það sérílagi — vegna þess vér öðlumst þá guðlega aðstoð vegna bænarinnar, sem vér fáum ekki án hennar. Að sönnu er hinn miskunsami Guðs ætíð búinn til að gefa oss allar góðar gjafir, en hann lætur þær vera komnar undir bæn vorri,

vegna þess vér verdum adeins hæfir til ad fá þad, sem vér bidjum um, vegna bænarinnar, vegna audmýktar þeirrar og trúnadartrausts, sem bænin kveykir og elur. Ef nokkur fer ekki eptir ödru í freistíngunum enn hjarta sjálfs sín, og hirdir ekki um ad grennslast eptir hvad rétt sé, og litur ekki upp til ljóss þess, er gæti leidbeint honum, þá sviptir Gud hann hjálp sinni, og ofurselur hann girndum hjarta síns (Róm. 1,24), og lætur hann uppskera hina römmu áverti, er hann hefir sád til. Ef nokkur treystir á sjálfan sig, og heldur hann sé fremri ödrum daudlegum mönnum, og þad séu adeins önnur duptsíns börn, sem rati í freistíngar af þrekleysi og ónytjúngskap, en ad hans sál sé sterk af rammleik sjálfrar sín, svoad hverki mein né munadur geti raskad ásetníngi hans: þá mun dramb hans lækka, því sá er háskanum næstur, sem óhultastur er um sig; Andi Guds umflýr hinn drambsama, og hann verdur ad læra ad þekkja vanmátt sinn, ef hann á ad fá frelsi. En ímyndum oss, ad einhver fari, í baráttu sálar sinnar, inní svefnhús sitt, og loki ad sér, og tali vid Födur sinn himneskan, sem sér þad sem í leyni er, og segi af gnægd hreinskilinnar sálar: þad er eg bid nú um, eru ekki efanleg gædi, þad eru ekki jardneskar gáfur, er eg kynni ad vanbrúka, né heldur lausn frá bágindum, sem kynnu ad vera naudsynleg mér til lagfæríngar; verdi vilji þinn á mér í öllu slíku! heldur bid eg um hin sönnu óefanlegu gædi; eg veit, hversu hægt er ad draga mig á tálar, og hversu gjarnt hugsunum mínum og girndum er á ad villast, eg veit ad eg hefi opt álitid þad rétt og satt, þegar gedshræríngarnar hafa æst mig, sem eg hefi á eptir séd ad var villa, og sókzt eptir því, er eg seinna hefi idrazt eptir; tala því, Drottinn! þjónn þinn heyrir (1 Sam. 3, 9), veit sálu minni ljós, svo eg megi þekkja hid rétta, veit vilja mínum styrk og stödugleik, svo eg megi vilja þad og framkvæma, og hvad sem þú annars eptir speki þinni vilt veita mér edur taka frá mér, þá skapa, Gud minn gódur! í mér hreint hjarta, og gef mér nýjan styrkvan anda, kasta mér ekki burt frá augliti þínu, og tak ekki þinn Heilagan Anda ífrá mér (Sálm. 51, 13. 14.)! Ef nokkur bidur á þessa leid í fullri alvöru hjarta síns, þá er bæn hans full audmýktar

og trúnadartraustś, og sú bæn heyríst eflaust í himna Guds, og á von á bænheyrslu hans. Þá kviknar ljós í efasamri sálu vorri, er vér getum adgreint vid rétt frá raungu, og í djúpi samvizku vorrar sprettur upp heilög sannfæring, er leidir hina laungu baráttu til lykta, og lætur oss finna, hvad Gud vilji vér gjörum. Á slíkan hátt frelsast madurinn frá synd og fásinnu vegna bænarinnar.

Hver fadir byrgir eyru sín fyrir audmjúkri og öruggri bæn barns síns? Hver fadir mundi gefa barni sínu ónytsamlega eda þá skadsamlega hluti í stad gódra og gagnlegra, þegar þad bidur um ad borda? Og ef vér kunnum ad gefa börnum vorum gódar gjafir; mundi þá ekki hinn himneski Fadir gefa þeim gódar gjafir, er bidja um þær? Á þessum stad talar Drottinn vor um allskonar gódar gjafir, en á ödrum stad nefnir hann sérílagi þá gjöf, sem bezt er af öllum gjöfum; "hvad miklu framar, segir hann, mun Fadir ydar á himnum gefa þeim Heilagan Anda, er þess beidast" (Lúk. 11, 13)! Og ef nokkur bædi Gud um ljós og adstod Anda hans, í stad alls þess, sem æskilegt er á jördunni, og fremur öllum líkamlegum og andlegum gáfum, mundi Gud synja honum slíkrar bænar? edur mundi Gud senda honum anda lýginnar og villunnar, í stad anda sannleikans og spekinnar, er hann bad um? Ekki verdur því í móti mælt, ad sumir menn bidjist fyrir — því þeir kvedja nógumarga votta til þess, og vilja fegnir menn haldi þeir bidjist fyrir — og þó megum vér ekki og viljum ekki segja, ad þad sé Andi Guds, sem býr í þeim og leidir þá. Þad verdur ad vera, þeir bidji ekki einsog vera ber, þeir halda þeir séu gæddir því, sem þeir eiga eptir ad bidja um, þeir halda, ad andi sinn sé Helgur Andi, þeir bidja Gud ekki um ljós og leidbeining, heldur ad hann efli hjá þeim hugsanir sjálfra þeirra, og þad er þeir vilja af sjálfum sér; þeir bidja med drambsemi en ekki med hógværd, og ödlast ekki, afþví þeir bidja illa. Heilagur Andi, sá sem rétt kennir, flýr frá falsþénurum, og víkur frá hinum heimsku (Spek. 1, 5), edli hans er ólíkt því, er menn optsinnis fyrirfram ímynda sér, og hjarta mannsins verdur ekki hæfilegur bústadur handa Heilögum

Anda, fyrrenn eptir lánga tilsøgn og baráttu, og sjálfsafneitun, og margar hørmúngar.

Um fram allt megum vèr og eigum að biðja um andlegar gáfur, en vèr megum og eigum einnig að biðja um stundleg gæði; hver mundi vilja banna hinum þjáða og hinum nauðstadda að flýa til Guðs í bæninni? Sè hjarta þitt hryggt og óttaslegið, skaltu snúa þèr til Föður þíns á himnum, því að miskun hans er jafnmikil og hátign hans. Þegar þú biðst fyrir, minnist þú þess, og finnur það innst í meðvitund þinni, að þú ert ekki yfirgefinn nè einmana, að til er almáttugur Guð yfir þèr og hjá þèr, að þú ert ekki háður blindri tilviljun nè mannlegum geðþótta; einginn getur snert eitt hár á höfði þínu, og einginn hefir vald yfir þèr, nema honum sè gefið það ofanað (Joh. 19, 11). Og hinn almáttki stjórnari forlaga þinna er þaráofan alvitur, og veit miklu betur enn þú, hvað þèr sè til sannra heilla; hann er rèttlátur, það, er þú hefir falið honum á hendur, mun hann varðveita, og það, er þú hefir sáð, mun hann á sínum tíma láta þig uppskera, og agi hann þig, er hann líka algóður og miskunsamur, og mun ekki synja hinum iðrunarfulla bænar hans. Þessar hugleiðíngar veita sálunni djörfung og huggun og von; en hèr skulum vèr í annan stað einganveginn gjöra oss í hugarlund, að ávextir bænarinnar sèu ekki fólgnir í öðru, enn hugrenníngum þeim, er hún kveykir, vèr eigum sannarlega að trúa því, að oss verði veitt það, sem oss er hagaulegt, vegna þess vèr biðjum, og að vèr mundum ekki öðlast það, ef vèr vildum ekki biðja. Því forløg vor eru ekki ákveðin af handa hófi, heldur eptir því, sem vèr eigum skilið, og vèr verðum hæfir til að öðlast þau gæði, sem vèr biðjum um, fyrir bænina, þegar vèr ákøllum Guð með auðmýkt og trúnaðartrausti. Ef menuirnir reiða sig á veröldina eða sjálfa sig, á auðæfi eða hylli manna, heilsu eða afl, slægð eða vitsmuni, eða þeir vilja ekki trúa því, að það sè til Guð, sem vilji og megi hjálpa þeim, sem á hann treysta, þá tekur Guð optsinnis frá þeim hnoss þeirra, hinn veika stafinn, er þeir studdust við, og synjar þeim hjálpar sinnar og aðstoðar á tíma bágindanna, svo þeir fái lært, að mað-

urinn er ekki annað, enn eintómur hegómi, hversu øruggur sem hann þykist vera (Sálm. 39, 6), svo þeir leiti Guðs, og finni hann, ef þeir leita hans af øllu hjarta (Jer. 29, 13). En þegar einhver leitar Guðs á þeßa leið, og heimtar ekki, að Guð hafi sømu áform og sømu ráð, og sjálfur hann, heldur ákallar Guð auðmjúklega, og biður hann taka burtu kaleik þann, sem hann er svo ófús á að drekka, þá hefir Guð optsinnis tekið hinn ramma kaleik burt, og afstýrt hættunni, og snúið hinu illa til góðs, og látið í té hina miklu nægð bleßunar sinnar, afþví maðurinn bað, en það hefði ekki orðið, hefði hann ekki beðið.

Bæn hins réttláta megnar mikið, þegar hún er einlæg, segir einn af postulunum (Jak. 5, 16); en hann segir ekki, hún megni allt, og getur ekki heldur sagt það. Þeir sem hafa óttast Guð, og orðið réttlættir fyrir honum, hafa optsinnis beðið í stundlegum háska og bágindum, og þó hefir eingin bænheyrsla verið sjáanleg í stundlegum efnum, þeir hafa orðið að drekka þann kaleik, er þeir kviðu fyrir, einsog Drottinn þeirra og Frelsari varð að gjøra á undan þeim. Og hver ætli haldi, að maðurinn gæti beðið svo í stundlegum efnum, að það væri ætíð nytsamlegt, að ósk hans rættist? Því fer svo fjærri, að bænin er í þeßum efnum einmitt undirgefni undir vilja hins eylífa: þó ekki sem eg vil, himneski Faðir! heldur sem þú vilt. En þó svo beri opt við, að bænin fái ekki slíka bænheyrslu, er hún árángurslaus fyrir það, eða lyptir hún sér til einskis upp til himna? Postulinn hefir kristilega reynslu fyrir sér, þegar hann segir: verið ekki hugsjúkir, heldur látið í øllum hlutum óskir yðar koma fyrir Guð í bæn og ákalli, ásamt með þakkargjørð; þá mun friður Guðs, sem æðri er øllum skilníngi, halda hjørtum yðrum støðuglega við Jesum Krist (Phil. 4, 6. 7). Slíka bænheyrslu muntu ætíð øðlast, og er hún hin fegursta; því þegar þú hefir falið þig og øll þín efni øldúngis fortakslaust á Guðs vald, og borið upp fyrir honum vandkvæði þín, en endurnýað loforð þitt, að hvað sem Guð ætlar þér, skulir þú leitast við að fullnægja skyldu þinni og bera forløg þín, og biður Guð þeßutan ekki um annað, enn að gefa þér krapta til þeß, og að gefa þér støðugleik og þolinmæði, og trú, og von: þá sprettur upp friður í hjarta

þinu — postulinn segir, að sá friður sé æðri öllum skilníngi; einginn getur skírt þeim frá honum, sem ekki hefir reynt hann, og hann er æðri enn allt hvað heiti hefir; postulinn kallar hann "guðlegan frið", því hann er ekki sprottinn af holdi og blóði, heimurinn veitir hann ekki, heldur kemur hann frá himnum, einsog allar aðrar góðar og fullkomnar gjafir, og hver sem hefir reynt hann, hefir fundið, að hann hefir öðlazt fyrir hann óðal á himnum. Þessi friður flýr stundum frá farsælustu stundum lífsins, ekki aðeins frá glisi og glaumi veraldarinnar, heldur og frá því kyrrlífi, sem ekkert líkamlegt andstreymi mæðir á; aptur kemur hann stundum til mannsins í armæðu og bágindum; Guð heyrir bæn hins þjáða, sem guðhræddur er, og sendir frið sinn í hjarta hans, og gjörir hann auðugan af trú og von, meðan veröldin kallar hann auman og fátækan. Og hefir hann þá einga bænheyrslu fengið, þó hann megi bera kross sinn, einsog hinn, sem ekki biður Guð?

Hver sem biður, hann mun öðlast. En megum vér taka þetta fyrirheit svo, að manninum sé heitið, að undireins og hann biðst fyrir í freistíngunum, verði hann hreinn og heilagur, og undireins og hann biðst fyrir í bágindunum, staðfestist friður Guðs í hjarta hans? O! reynslan kennir allt annað; einsog aldan rís og fellur aptur, eins lyptir hugurinn sér til hins háleita, ágæta og eylífa, og fellur svo aptur máttvana niður. Baráttan við synd og armæðu hefst að nýu hvern dag, og ætti sálin þá ekki hvern dag að hertygjast bæninni í móti þeim? Hversu mjög fá ekki þau orð á hinn íhugunarsama, er svo hljóða: "hann sagði þeim dæmisögu uppá það, að menn eiga stöðugt að biðja og ekki þreytast" (Lúk. 18, 1). Já! aldrei þreytast, aldrei vanstreysta, heldur halda áfram í bæninni, hafa ekki orðasjölda, heldur biðja sífeldlega, æ hjartanlegar, þángaðtil bænheyrslan kemur. Það eru til illar tilhneigíngar, sem vakna alltaf aptur, sem verða svæfðar, en aldrei deyddar, það eru til hörmúngar, sem dynja yfir æ að nýu, og andstreymi, sem hvern dag verður fyrir; fyrirþví skaltu alltaf biðja, dag eptir dag, ár eptir ár; hverri bæn fylgir sín bænheyrsla, og stöðugleiki í bæninni leiðir æ nær og nær takmarki sínu. Þessvegna hefir guðspjallamaðurinn ritað:

frásøguna um konuna, sem kalladi eptir Jesú, og sagdi: miskuna mér, Herra! en hann svaradi henni engu ordi. Hún féll til fóta honum, og sagdi: hjálpa þú mér, Herra! en hann svaradi henni á þá leid, ad þad leit út, sem hann neitadi henni og vísadi henni frá sér. En hún héldt áfram ad bidja med audmýkt og trúnadartrausti, og fékk því loksins bœnheyrslu: "mikil er trú þín, kona! verdi þér sem þú vilt" (Matth. 15, 22 o. nn. vv.)! Alltadeinu lítur þad út stundum, þegar vér bidjum, sem himininn sé byrgdur fyrir oss, og eingin rødd svari oss þadan; stundum er þad einsog vér finnum í hjarta voru, ad oss sé vísad burt, og vér gjørdir rækir, afþví vér séum ekki maklegir bœnheyrslunnar; en þegar vér sigrumst á trúarleysi voru og vantrausti á Gudi, en høldum áfram ad bidja, opnast himnarnir, og huggunarfull reynsla kennir oss, ad sá sem bidur, hann ødlast, og sá sem leitar, hann finnur.

---

## 51.

## Drottinleg bœn.

Hversu heilsusamlegt og hversu indælt er ad úthella hjarta sínu fyrir Gudi í bœninni, og láta allar óskir sínar koma fram fyrir Gud med þakkargjørd og tilbeidslu! Þad er svo margt, sem oss er um annt; látum oss tala um þad vid Gud í bœnum vorum. En þegar vér gjørum þad, hættir oss of mjøg til, ad láta sorgir og áhyggjur vorar glepja fyrir oss, og hafa hugann á einhverju einstøku, en gleyma því, sem miklu er meira og ædra, og vér ættum einkanlega um ad bidja; bœn vorri er svo mjøg hætt vid ad snúast uppí kveinstafi og umkvørtun, þarsem hún ætti ad vera full af elsku, audmýkt og trúartrausti. Og medþví vér vitum ekki opt og einatt, hvad vér skulum um bidja, svosem ber, þá er oss ekki vanþørf á, ad adrir kenni oss ad bidja, sem kunna þad betur enn vér. Þeir hafa verid margir í verøldinni, sem vel og réttilega hafa bedid, og sumir þeirra hafa sídan fært í letur þad,

sem þeir voru vanir ad tala vid Gud á einveruſtundum ſínum, í gledi og hryggd, þegar þeir bádu fyrir ſér edur ødrum. Einn af þeim var Davíd konúngur. Hverſu margt hafdi hann reynt: hann hafdi átt góda daga og vonda, þegid af Gudi ſigur og ſæmd, en hinsvegar ordid ad flýa fyrir óvinum ſínum, og fyrir þeim manni, ſem hann hafdi viljad vel, fyrir ſyni ſínum, hann hafdi opt verid í mikilli hættu, hann hafdi ekki adeins ordid ad kvarta undan ødrum, heldur høfdu ſárindi idrunarinnar kramid hjarta hans. Og medþví hann óttadiſt og elſkadi Gud, og trúdi á hann, ſnériſt gledi hans ætíd í þakkargjørd, og ſorg hans í bæn, og enn í dag endurhljómar í ſálmum hans þad, ſem hann hefir talad vid Gud í hinum margbreittu kríngumſtædum ſinna laungu lífdaga; og hver reyndur madur, ſem les þá med eptirtekt, mun finna hjarta ſitt hitna af leſtri þeirra. Á líkan hátt hljóma enn í eyrum oſs hjartnæmar raddir margra annara gudhræddra manna, og tendra í hjørtum vorum þær bænarfórnir, ſem Gudi eru þóknanlegar. En af øllum bænum þeim, er til eru, þá er ein miklu dýrmætuſt, og ſú bæn er oſs einkanlega bodin. Því eittſinn, er Jeſús var á bæn ſinni einhverſtadar, ſagdi einn af læriſveinum hans vid hann: Herra! kenn þú oſs ad bidja, einsog Jóhannes kenndi ſínum læriſveinum. Þá ſagdi hann vid þá: þegar þér gjørid bæn ydar, þá ſegid: Fadir vor, þú, ſem ert á himnum! og ſvo framvegis, þad er vér køllum drottinlega bæn (Lúk. 11, 1 o. n. v.). Ádur fyrrum bad hver kriſtinn madur daglega ſlíkum ordum, og þókti ſér ekki geta verid rótt, nema hann endadi daginn med því ad neſna þad amen, er endar drottinlega bæn, og honum veitti þá huggun, ad bæn hans væri heyrd. Ad ſønnu ſylgdi þeſsu vanbrúkun á ſtundum — þeſs viljum vér ekki þræta, og med eingu móti til hennar aptur hverfa; þad var ekki gott, ad menn vanhelgudu þeſsi hin helgu ord, med því ad hafa þau um hønd ſvo opt og ſvo hugſunarlauſt, og ad menn héldu þau hafa ſvo undarlega náttúru, ad ekki þyrſti nema hafa þau yfir til ad aſſtýra illu, og afla ſér góds, þarſem þó ordin ſjálf ſtoda alls ekki, nema því adeins, ad meiníngin ſé ljós í huganum og efnid vakandi í hjartanu. En nú fer og ekki vel, er bæn Drottins vors verdur ekki talin med því, ſem menn

vita fyrir víst, ad hverjum kristnum manni sé tamt allt ífrá barnæsku, og þeir kunna ad vera margir, þó kristnir kallist, sem aldrei hafa lesid þessa bæn út med alúd og gudhrædslu. Og þó et þessi bæn løgud sem bezt má verda, bædi til ad glæda og túlka gudrækilega laungun í hjartanu, í henni er ekkert, nema þad sem oss er óhætt ad bidja um í Jesú nafni, þar er eingu ofaukid og einskis vant, hún á vid alla menn, um allar aldir, hryggva og óhryggva, hún er bezt upphaf á morgnana, þegar dagsbirtan vekur oss til vinnu, og beztur endir á kvøldin, þegar vér felum oss Gudi á vald, ádurenn vér leggjum oss til hvíldar. Þessi bæn kennir oss, og þrýstir oss til ad hugsa um adra menn, einsog um sjálfa oss, vér berum þar fram fyrir Gud þeirrà heill og hamingju, þeirra neyd og þørf, þeirra sekt, þeirra freistíng og hættu, undireins og sjálfra vor, svoad alstadar í kristninni sé hin sama fórn bænarinnar, sú er helgi líferni mannanna, og leidi Guds blessan yfir jørdina.

Þegar eg hefi um hønd bæn þá, er Drottinn minn og Frelsari hefir kennt mér, þá lypti eg augum mínum, røddu minni og hjarta mínu til himins, og segi: Fadir vor! Hver er sá, er eg dirfist ad kalla svo? Það er hinn sæli og alvoldugi, Konúngur Konúnganna og Drottinn Drottnanna, hann, sem einn hefir ódaudleikann, og býr í því ljósi, sem einginn fær ad komizt. Eg, sem er dupt og aska — eg dirfist ad ávarpa Drottinn himins og jardar; en hverju nafni á eg ad nefna hann? Eg gæti kallad hann Herra og Dómara, heilagan og réttlátan Gud; og þeim nøfnum skal eg optlega kalla hann, þegar eg íhuga edli hans; og margsinnis, er eg sé dóma hans gánga yfir jørdina, liggur mér vid ad segja: hrædilegi Gud! Hefdi eg því einga tilsøgn í bæninni, kynni eg ad efast um, hvert eg skyldi helzt hafa af øllum nøfnum þeim, sem merkja afskipti Guds af verøldinni og mér. En nú efast eg ekki, því eg hefi ekki tekid upp hjá sjálfum mér hverki nafnid sjálft, né djørfúngina til ad nefna þad, heldur er þad Guds bodord til vor fyrir munn hins eingetna, er hann sjálfur vísadi oss á til ad heyra hann: þegar þér bidjid, segir hann, þá bidjid á þessa leid: Fadir vor! Já, þú allmáttki Gud! þó eg væri jafnvel audvirdilegastur allra

manna, þó eg væri glatadur og útskúfadur á jördunni, þó eg hefdi einga adstod neinstadar í veröldinni, og ekki einn vin í öllum heimi, þóad samvizka mín ásakadi mig, og segdi mig ekki vera þess verdan, þó eg yrdi ad vidurkenna — einsog eg líka verd — ad eg hafi syndgazt í himininn og fyrir þér: þá mundi eg samt sem ádur kalla upp til þín úr djúpi eymdarinnar, og segja, í Jesú nafni, einsog þú hefir bodid: Fadir minn! nei, ekki adeins Fadir minn, heldur og Fadir vor, Fadir allra manna, þeirra, sem í höllunum búa, og þeirra, sem í hreysunum búa, úngra og gamalla, sælla og hryggra, og Fadir allra þeirra, sem mér er mest umhugad, réttur Fadir barna minna, og allra, sem eg ann, bædi þeirra, sem nálægir eru, og hinna, sem fjarstaddir eru, þeirra, sem enn eru á lífi, og þeirra, sem í gröfunum rotna, því þú ert ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu (Matth. 22, 32), Fadir allra þjóda og allra kynkvísla á hinni vídlendu jörd. —

Fadir vor, þú sem ert á himnum! Hvad þýda þessi ord? Hvert býr hinn eylífi Fadir fyrir ofan stjörnur himinsins, svo eg þurfi ad óttast, ad rödd mín muni ekki komast til eyrna hans? og eg geti ekki hugsad til ad nálægjast hann, fyrrenn andi minn losnar úr líkamans fjötrum og flýgur sjálfur til himna? Fjærri fer því! hann er sannlega ekki fjarlægur neinum af oss, því í honum lifum, hrærumst og erum vér (Post. 17, 27. 28). Heldur er himininn hvar sem hann er, og því er ordunum vid bætt, til þess ad vér vitum, finnum og trúum, ad hid himneska sé oss nálægt. Þad er til ædri og óædri heimur: í hinum óædra heimi lifir vor holdlegi partur, og brjóst vort kennir af honum byrdi og þúnga; en í hinum ædra heimi er frelsi, fridur og sæla, og hann er oss alstadar nálægur; þángad á sála þín ad leita, þú átt ad nálægjast hid himneska, þú átt ad nálægjast hann, sem býr í hinum eylífa fridi — þad getur þú á hverri stundu — en svo hid himneska opinberist og sendi geisla sína gegnum hid jardneska, þá byrjadu bæn þína á þenna hátt:

Helgist Guds nafn! þetta atridi drottinlegrar bænar er almennt, einsog öll hin; þad bidur þess, ad Guds nafn verdi hvervetna tignad um hina vídu veröld med sífeldri framför í

hreinleika þekkingar, tilfinningar og vilja. En látum oss hér ekki byrja á því ad bidja fyrir ødrum, hverki fyrir fjarlægum þjódum, er sitja enn í myrkri daudans, né fyrir hinum fárádu, sem nær oss eru, einsog vér værum þegar komnir þad, sem vér eigum ad komast, og ættum ekkert annad ógjørt, enn ad óska ødrum þess, er sjálfir vér værum búnir ad ødlast. Nei! sérhver byrji á ad bidja fyrir sjálfum sér: Gud! láttu mig æ halda heilagt þitt hid heilaga nafn, láttu mig nefna þad med gudhrædslu og lotningu, láttu þad algjørlega gagntaka mig; vektu mig af allskonar deyfd og leti, hreinsadu mig af øllu, sem ekki er nema uppgjørd og látalæti, láttu mig alla daga tigna þig og óttast í alveru og sannleika, láttu allt líferni mitt vera til vitnis um, ad eg haldi nafn þitt heilagt! Gefdu méreinnig krapt og blessun til, ad geta kveykt hina sømu lotningu í hjørtum annara í kríngum mig, bædi á heimili mínu, og í øllum, sem eg hefi afskipti af, hvert sem þeir eru margir eda fáir. Láttu mig einnig ætíd hitta þá fyrir í søfnudi þínum á jørdunni, sem elska þig og sannleikann, einsog eg, og jafnvel þekkja hann betur og elska hann heitar, svoad eg eflist og aukist í ótta þínum fyrir þeirra adstod. Og láttu einnig þinn hinn sanna søfnud breidast út um landid, og um øll lønd; settu skordur fyrir sérhverja villu; láttu ljós sannleikans skína skýlaust, svoad nafn þitt verdi fullkomlega heilagt á jørdunni, og

Ríki þitt komi! Hvernig sem vér erum ánægdir med hid nálæga, þá er þó í hjørtum vor allra laungun eptir einhverju ædra, betra, fyllra og sælla, enn því, sem reynslan hefir haft ad færa; vér girnumst ad sjá mannkynid í fullkomnara ástandi, enn þad híngadtil hefir verid, og hafa sjálfir hlutdeild í því. Hvad ætti eg ad kalla slíkt ástand annad enn Guds ríki? Vei þeim, sem ekkert þekkir ædra enn jardneskt ríki, og getur sadst af einumsaman ávøxtum þessarar jardar, og ekkert girnist, nema þad, sem múgurinn kallar ad eiga góda og náduga daga! O! fyrir hvad kæmi þad, þó allar hledur værú fullar, og allskonar audæfi streymdu híngad frá hinum fjarlægustu løndum, og allt þad, er menn kalla fullsælu, væri hér saman komid, en vizka og réttlæti og kærleiki byggdu ekki í landinu? Hverju værum vér bættir, þó vér ættum gjørvalla verøldina, en ekki ódalsrétt í Guds ríki?

Þú hefir heitið oss, Guð! að ríki þitt skuli koma; hvert ár sem líður, og sérhvað, sem fram fer, einnig þrenging, barátta og óeyrðir, þoka því nær; viðhaldtu ætíð í oss meðvitundinni um það, viðhaldtu laungunni eptir því, svoað hjertu vor hefji sig daglega upp í frið þess frá önnum jarðarinnar og frá þennar munaði, mæðu og áhyggjum, og að vér höldum þángað stöðugri stefnu, og verðum hluttakandi þess, þegar það kemur!

Því ríki þitt kemur ekki til vor, nema vér leitum þess, og hver stundi að vinna slíkt, er hann má, til þess að miskun Guðs og blessun hans verði opinber á oss. Fyrirþví skulum vér hvert sinn, er nýr dagur rennur upp yfir oss, með sinu tilkalli og sínum skyldum, biðja með þeim hætti, sem Drottinn vor og Meistari kenndi oss: verði þinn vilji, ó Guð! svo á jörðu, sem á himni — Verði þinn vilji! Lát oss ekki sljófgast af leti og deyfð, lát ekki léttúðina glepja svo fyrir oss, að vér gleymum, til hvers þú settir oss á jörðina, lát oss aldrei vera annara um neitt, enn að framkvæma þinn vilja, til hvers sem þú kallar oss; jafnvel hinar æðri verur á himnum verja ekki lífi sinu til eintómrar skoðunar, heldur eru þær þjónustusamir andar, sendir í þeirra þarfir, sem ödlast skulu sáluhjálpina (Hebr. 1, 14). Lát oss einnig vera þína erindsreka, hvern á því sviði, sem þú hefir honum afmarkað, lát oss vera þjónustumenn réttlætis þíns og kærleika, framkvæma boð þín, efla réttindi og góða skipun, og flytja frið og huggun, hvert sem þú sendir oss. — Verði þinn vilji! Lát oss ekki villast né tælast, og gjöra vilja veraldarinnar, eður holds og blóðs, eður vors afvegaleidda og bégómlega hjarta, í stað þess að gjöra þinn góðan og helgan og fullkominn vilja! Gef oss vizku, svoað vér þekkjum hann, og krapt og ráðvendni, svoað vér framkvæmum hann, og svoað nafn þitt helgist á meðal vor, og ríki þitt komi til vor!

En þó vér stundum það, sem gott er og háleitt, og þó vér jafnvel leitum Guðs ríkis og hans réttlætis, þá erum vér samt sem áður undirorpnir jarðneskum skorti, á meðan vér dveljumst hér á jörðu. Faðir og Forsorgari! þú sem allra augu vona til, ljúktu upp þinni mildri hendi, og gef oss í dag vort daglegt brauð! — Gætum vér safnað saman öskum mannanna, hvílíkan

grúa mundum vér þá sjá þeirra óska, sem einúngis snerta hið stundlega, hvað menn eigi að eta og drekka, og hverju þeir eigi að klæðast! hvílík er mergð naudsynja þeirra, er menn þykjast með eingu móti mega án vera, ef þeir eigi að geta lifað einsog þeim sæmi, og notið ánægju og sóma í veröldinni! og hversu fá eru þarámót þau orð, sem Drottinn vor kenndi oss að fela í allt það, sem oss í þessu tilliti er naudsynlegt í raun og veru! Það er að sönnu satt, að með daglegu braudi er ekki meint eintómt brauð, heldur og aðrir stundlegir hlutir, sem oss eru naudsynlegir, og að allir þurfa ekki jafn-mikils; Guð gefi sérhverjum það, sem hann þarf, eptir þeirri stöðu, sem hann er í settur, og eptir tölu þeirra, sem hann á að sjá fyrir! En er vér nefnum daglegt brauð, þá minnir það oss á, að það er ekki svo sjarska mikið, sem oss er naudsynlegt í raun réttri, og að vér eigum ekki að biðja um allsnægtir. Láti Guð oss meira í skaut falla, þá kenni hann oss að brúka það eptir sínum vilja; veiti hann oss adeins það, sem vér köllum lítið, þá kenni hann oss að una því; en veittu oss, himneski Faðir! það sem vér þörfnumst í raun réttri. Styrk hendur vorar til nytsamlegs erfiðis, því án erfiðis beiðumst vér ekki fæðunnar; en veittu oss blessan þína, þegar vér erfiðum, svoað vér finnum brauðið í sveita vors andlitis, bæði handa sjálfum oss og þeim, sem vér eigum að standa straum af, og getum, ef verða mætti, miðlað ekkjunni og hinum munaðarlausu; og þegar þú gefur, þá lát oss finna og við kannast, að þú ert sá, er gefur, og að öll iðni vor og íþrótt fengi eingu til leiðar komið, nema þú lykir upp þinni örlætishendi; kenn oss, að gjöra ekki minna úr velgjörðunum, þó þær veitist oss dag hvern, og margsinnis án þess að skortur og áhyggja hafi búið oss undir að meta þær réttilega! En hafi skortur og áhyggja kennt hinu örmædda hjarta að flýa til Guðs — hversu huggunarrík er þá þessi bæn: gef oss í dag vort daglegt brauð! Því hún ryfjar upp fyrir oss áminning Drottins vors, að vér séum ekki húgsjúkir um hinn næsta dag, en látum heldur hverjum degi nægja sína þjáníngu (Matth. 6, 34), það er, látum ekki huga vorn pínast af áhyggjum ókomins tíma, því Guð muni verða með oss á honum einsog þeim er umliðinn sé, og sá tími kunni að verða allur annar, enn vantrú vor hafi

gjørt sér í hugarluud, og ekki sé á ad ætla, nema vér séum leyst-ir af øllum jardneskum skorti, þegar þarad komi.

En þegar vér lítum upp til himins høfum vér ekki adeins bænir ad framflytja fyrir þá daga, er koma eigu, heldur høfum vér og reikníng ad lúka, og hann harla þúngan, fyrir þá daga, sem lidn-ir eru; og hvernig megum vér lúka hann, án þess ad snúa vorri audmjúkri bæn til hinnar eylífu miskunar, og segja: fyrirgef oss vorar skuldir! Pær kunna ad vera mjøg misjafnar, skuldir þær, sem hver af oss á ad lúka, en drag ekki sjálfan þig á tálar, og seg þig ekki vera syndlausan. Minnstu þeirra daga, sem þegar eru horfnir, og þú færd ekki apturkallad, og getur ekki afmád eina yfirsjón af; minnstu ekki adeins afbrota þinna, heldur og hverrar gleymsku, og þá mun samvizka þín votta, ad þú sért þér medvitandi mikillar skuldar. Og til hvers væri þér ad geta gleymt henni? hinn eylífi Dómari gleymir alls eingu; til hvers væri þér ad skunda framhjá henni léttum huga? hid eylífa réttlætid skundar ekki, og sefur ekki heldur, en heimtar reikn-ingskap allra athafna vorra. Og eflaust ertu sekur um margt, sem þú veizt ekki af, svoad þú hefir þar bætt þeirri synd ofaná adrar, ad taka ekki eptir, ad þú gjørdir rángt, eda vanræktir skyldu þína. Hvernig viltu lúka reikníngi þínum vid hinn heilaga og réttláta Dómara, sem allt sér? Heldur þú, ad tár þín geti afmád sekt þína, svoad Dómarinn sjái hana ekki? edur ad idrun þín fái apturkallad þann tíma, sem þú hefir ónýtt, og þú munir sídan geta brúkad hann betur, og kallad aptur þó ekki væri nema eina af athøfnum þínum, til ad endurbæta hana? Edur hyggst þú ad bæta þau hin fornu afbrot med þeim gódverkum, sem þú ætlar ad vinna? Geturdu þá gjørt nokkud þad gott, er þú sért ekki skyldur ad gjøra, og látid þad koma uppí hina fornu skuld? O, látum oss bidja svosem einum munni, því eingir høfum vér neitt ad borga med, vér verdum allir ad flýja til hásætis miskun-arinnar, og segja: fyrirgef oss vorar skuldir eptir þinni enda-lausri miskunsemi; afmádu þær, svo þær vitni ekki framar á móti oss, kastadu syndum vorum í djúp sjáfarins! Og þegar vér bidjum á þessa leid, þá heyrum vér himneska roddu, þá er svo mælir: þér erud bænheyrdir, því ekki sendi Gud Son sinn í heiminn

til ad dæma heiminn, heldur til þess, ad heimurinn frelsadist fyrir hann (Joh. 3, 17); ydar skuld er ydur fyrirgefin, segir hin himneska miskunnarrödd, en bætir þó vid einu skilyrdi: svo sem þér og fyrirgefid ydrum skuldunautum. Um leid og vér gjörum hinum ædsta Dómara reikningskap vorn, eigum vér og ad lúka reikningi vorum hverjir vid adra, og einsog vér viljum ad adrir breyti vid oss, eins eigum vér ad breyta vid þá; einsog vér æskjum fyrirgefningar, eins eigum vér ad fyrirgefa. — Skilur þú, finnur þú, hvers þú bidur, er þú segir: mín skuld veri mér fyrirgefin, svosem eg fyrirgef? Vér kunnum allir fornkvedin heilög ord, er svo hljóda: sólin gángi ekki undir yfir reidi ydar (Eph. 4, 26); en allir vér höfum líka reynt, hversu örduct er eptir því ad breyta; kalanum er gjarnt ad vilja rótfesta sig og þróast þángadtil seinna meir. En þegar vér bidjum á þessa leid, hljótum vér ad strída vid þad, og sála vor fær ekki ró, fyrrenn vér getum í alvöru sagt: eg fyrirgef, svosem eg vænti fyrirgefníngar. Hafi því bródir minn, vinur eda óvinur, styggt mig í nokkru, og eg verdi var vid nokkurt ord af munni hans, edur nokkra hugsun í hjarta hans, er til þess mælist, ad eg gleymi hinu umlidna, þá skal eg gleyma því jafnskjótt, og afmá þad úr huga mínum ásamt allri óvild og kala; og þó hann mælist ekki til þess, skal eg samt fyrirgefa allt þad, er eg get fyrirgefid, og ekki snertir neina sjálfan mig; eg skal kappkosta ad útrýma endurminníngu þess úr huga mínum, eg skal segja, hann hafi ekki vitad hvad hann gjördi, og segja þad af öllu hjarta, svoad eg hafi frid vid alla menn, svomikid sem í mínu valdi stendur, og svo vid Gud sjálfan.

Fyrirgef oss vorar skuldir, en hjálpa oss einnig til ad fylgja þeim ekki; leid oss ekki í freistni! Þetta er mikilvæg bæn, en þó eru þeir fáir, sem bidja svo af hjarta; þad er einsog flestir haldi, þeir séu stödugri á fótum, enn ad þeir geti fallid — þad er einsog þeir haldi, ad ef Gud vilji vardveita þá fyrir mótlæti, þá séu þeir sjálffærir um ad vardveita sig fyrir synd. En vér skulum bidja einsog Drottinn hefir kennt oss; vér finnum gleggt bædi af reynslu sjálfra vor og annara, hversu vanmáttugur madurinn er, hversu audveldlega hugurinn glepst, hversu audveldlega hjartad tælist, hversu audveldlega

fóturinn skridnar, og skulum því bidja: leid oss ekki í freistni! Vèr berum ekki upp svo óskynsamlega bæn, ad Gud skuli hlífa oss vid hverri baráttu og þraut; en þú, sem hjá oss ert í sérhverjum háska! láttu hverja baráttu, sem oss er naudsynleg til reynslu og framfara, enda med því, ad vèr berum sigur úr býtum! láttu ekki þrautirnar stíga yfir oss, láttu þær ekki verda oss ad freistingu, og leida oss burt frá ríki þínu og réttlæti! Vardveittu oss frá ad falla, vardveittu líferni vort frá saurgun og smán, vardveittu hjarta vort frá allskonar spillingu, illum girndum og vesælu hugleysi, ágirnd og drambi, hégóma og fásinnu, vantrú og vonleysi;

Og frelsa oss frá illu — frá öllu illu, hvert sem þad vofir yfir líkama eda sálu, gótsi eda mannordi — frá öllu því, sem vèr getum haft illt af, hvert sem vèr þekkjum þad og kunnum ad nefna, edur ekki; vardveittu oss frá láni og medlæti, þegar þad mundi blekkja hjarta vort, en frá óláni og mótlæti, þegar þad mundi steypa oss í örvæntingu! Frelsa oss frá þessu, Drottinn, Frelsari allra manni! Vèr vörpum í bæninni allri vorri áhyggju uppá þig; vèr felum þinni almáttugri og födurlegri vernd sjálfa oss og alla þá, sem oss er um annt, hvert sem þeir eru nær edur fjær, háir eda lágir, ríkir eda fátækir, hryggir eda gladir, gamlir eda úngir; vertu med öllum oss, medan vèr eigum ad dveljast hèr á jordu, og vertu hjá oss á hinni sídustu stund, og láttu hana færa oss frelsun frá öllu illu!

Því ad þitt er ríkid og mátturinn. — Hversu oft segja menn, ad ríkid og mátturinn sé Guds, og hversu fágæt er þó trúin ætíd hèr á jordu! En hvert sinn er vèr endum bæn vora skulum vèr segja þad af nýu med glödum hug og stödugri trú, og segja þad svo, ad þad endurhljómi ætíd í hjörtum vorum, hvad sem á dagana drífur. Þegar þjódirnar hefjast til valda, og þegar þær verda fótum trodnar, og þegar menuirnir beita öllum mætti sínum, og öll jordin er í uppnámi, þá skulum vèr segja: Guds er þó ríkid og mátturinn. Og þvad vidburdirnir snerti sjálfa oss, og hjarta vort titri, og vèr seum leiddir um dymma vegu, þá er vèr hverki þekkjum nè skiljum, þá skulum vèr segja: Guds er ríkid og mátturinn; án hans vilja

fellur ekki titlingur á jörð, og, bærist ekki eitt hár á höfðum vorum. Sömuleiðis þegar þeir hlutir verða, sem hjarta vort fagnar af, þegar þjóðunum leikur í lyndi, og fegurð jarðarinnar endurnýast, og blessunin vitjar búa vorra og athafna, þá skulum vér segja: Guðs er ríkið og mátturinn, og öll góð gjöf kemur af himni. Fyrirþví á einnig dýrðin að vera Guðs; hver stundin og hver kynslóðin á að birta annari almætti Guðs, og kenna henni að minnast verka hans, og allar verur á jörðunni eiga að taka undir með hinum himnesku hersveitum, svo að Guði á hæðum sé dýrð um alla eilífð.

Þegar vér höfum lokið drottinlegri bæn, bætum vér við hana trúarorðinu: amen, til að vera þess fullöruggir, að bæn vor sé heyrð; vér endum bæn vora í nafni hans, er kenndi oss að biðja, og gaf oss það fyrirheit, að þegar vér bæðum, skyldum vér öðlast; vér endum hana í hinu dýrðlega nafni, er vér eigum ætíð að tengja með hverri daginn við annan, hverja bænina við aðra, og hvert verk við annað: amen, í Jesú nafni, amen!

---

## 52.

## Kristur er Konúngur.

Þegar spámenn Israels litu framá ókomnar aldir, bar jafnan fyrir þá lángt á burt í vitrunum þeirra, Sonur Davíðs, sá er um var spáð, að drottinstignin mundi liggja á herðum hans, og hann mundi nefnast hinum háleitustu nöfnum, og á aukníngu veldis hans mundi einginn endir verða (Es. 9, 6. 7); hinn Hæsti mundi honum mikinn fjölda manna til býtis gefa, og hinir öflgu mundu honum að herfángi verði (Es. 53, 12); ókunnar þjóðir mundu kallaðar verða, og heiðíngjarnir mundu keppast til Israels ljóss, og konúngarnir til ljómans, sem af því legði (Es. 55, 5. 60, 3). Nafnið Messías, Kristur, hinn Smurði, sem smátt og smátt varð hið almenna nafn hins Fyrirheitna, merkir Kon=

úng, því þótt að spámenn og prestar væru á stundum smurdir var samt konúngurinn einkum kalladur Drottins smurdi. Þegar sá, er lengi var þrádur, átti loksins fæddur að verda, var hann bodadur sem sá, er vera ætti Konúngur að eylífu, og einginn endir verda á ríki hans (Lúk. 1, 33). Allir þeir, er síðan vidurkenndu að Jesús væri Kristur, vidurkenndu jafnframt að hann væri Konúngur, múgurinn vildi gjöra hann að Konúngi, og þegar hann í sídasta sinni hélt innreid sína í höfudborg þjódarinnar, tóku þeir vid honum einsog Konúngi, þeir breiddu klædi sín fyrir hann, og strádu pálmavidargreinum á götu hans, og létu rætast ord spámannsins, er svo hafdi sagt: bodid Jerúsalemsborg, sjá þú! Konúngur þinn kemur til þín! þeir æptu fagnadaróp umhverfis hann, svosem Davíds Son, og hann, er mundi hefja að nýu hid forna ríki Davíds, og auka það og vegsamlegt gjöra. Allur borgarlýdurinn þusti út í móti honum, allir lærisveinar hans glödduðst og lofudu Gud fyrir hann hver med ödrum, og smábörnin sameinudu raddir sínar med þeirra röddum. Hann gekk inní musterid og beitti þar slíku valdi, sem sá, er ætti helgidóminn, hann velti bordum þeirra, er okrudu med peninga, og rák þá út, er keyptu og seldu í musterinu. Þegar hann kenndi, hné allur lýdurinn að honum og hlýddi á hann; höfdingjunum gramdist, en urdu samt að þegja; einginn dirfdist að leggja hendur á hann (Matth. 12, 1 o. n. v. Lúk. 19, 37 o. n. v.).

Ef vér berum það saman vid þetta, sem vard fám dögum seinna, þá er allur þessi ljómi horfinn; fagnadarópid er ordid að heiptarópi, og hver madur dirfist að svívirda hann. Þá spyr höfudprestur Gydinga: ertu Kristur, Sonur hins Hálofada? og það er kallad gudlestun, er hann svarar: eg em hann (Matth. 26, 63). Þá spyr hinn heidni dómari: ertu Konúngur? og það þykja ódş manns ord, er hann svarar: rétt segir þú, eg em Konúngur (Jóh. 18, 37).

Ertu Konungur? hefdi þá og margur mátt segja. Að vísu ber þú kórónu, en hún er ridin úr þyrnum, og purpurakápa er lögd yfir herdar þér, en það er gjört í hadúngar skini. Ertu Konúngur? hvar eru þá þjónar þínir? Sá, sem neytti braudsins med þér, er búinn að svíkja þig, og sá, sem ætladi að gánga

i daudann ásamt þér, er búinn ad afneita þér, þeir eru allir tvístradir og hafa látid þig einan eptir. Ertu Konúngur? hvar er veldi þitt? Þeir draga þig frá hverjum dómstólnum til annars, og alstadar dæma þeir þig til dauda; þeir leida þig á hina blódugu hæd Golgatha — er það vegur konúnganna?

Og samt sem ádur var hann Konúngur. Vér segjum það enn med lofgjörd og tilbeidslu, ad svo mörgum öldum lidnum; ofsóknarmenn hans sögdu það, þegar er þeir leiddu hann til dauda, þótt þeir segdu það af spotti. Það er undarlegt, hvernig eitthvert hulid vald rétt einsog þrístir mönnum á stundum til ad segja það, sem þeir skilja ekkert í, og meina med því allt annad, enn sídan kemur í ljós ad verid hafi hin rétta þýding orda þeirra. Þegar höfudprestur Gydínga sagdi það væri gagnlegt, ad einn madur væri líflátinn fyrir þjódina, svo öll þjódin fyrirfarist ekki, þá vitum vér hvad hann meinti med ordum sínum; en Jóhannes gudspjallamadur, er skírir frá þessu, bætir þessu vid: en þetta taladi hann ekki af sjálfum sér, heldur spádi hann, afþví hann var ædsti prestur það árid, ad Jesús mundi deya fyrir þjódina, og ekki einúngis fyrir þjódina, heldur og til þess, ad hann safnadi saman hinum sundurtvístrudu börnum Guds (Jóh. 11, 50). Þegar Pílatus leiddi Jesum fram hrakinn og hæddan, og sagdi vid Gydínga: sjáid Konúng ydvarn! þegar hann hann ritadi yfir krossinn; "Jesús af Nazareth, Konúngur Gydínga", var það eflaust ætlun hans, ad svívirda þjódina med þeim, er hann nefndi Konúng hennar. En það var einsog hulid vald legdi honum ord í munn, og stjórnadi hönd hans medan hann ritadi, og gjördi hann ósveigjanlegan, hvernig sem höfdíngjar þjódarinnar bádu hann ad breita yfirskriftinni á krossinum: "það sem eg hefi skrifad, það hefi eg skrifad" sagdi hann (Jóh. 19, 15. 19). Og það stendur skrifad; hann hefir ekki afmád það, óvinir Jesú hafa ekki afmád það, tímalengdin hefir ekki afmád það: Jesús af Nazareth er Konúngur, hann er Konúngur allra þeirra, er hluttekníng í trú Abrahams hefir gjört þess verda ad heita börn Abrahams, hann er ekki adeins Konúngur einnar þjódar, heldur allra Guds barna, hvar sem þau eru dreifd út um hina vídlendu veröld.

Ríki Krists er allsherjarríki, það er að skilja, veldi hans nær yfir alla jörðina og yfir himnana, yfir þetta líf og hið ókomna, yfir þá, sem kalla hann Drottinn, og þá, sem ekki þekkja hann, edur og jafnvel þrjózkast gegn honum og einskisvirda hann. Þetta bodar hann sjálfur, er hann segir: allt er mér af Födur mínum í vald gefið (Matth. 11, 27), og mér er gefið allt vald á himni og jördu (Matth. 28, 18); edur þá hann segir: Fadirinn elskar Soninn, og hefir gefið alla hluti á hans vald (Jóh. 3, 35), og ekki dæmir Fadirinn nokkurn, heldur hefir hann falið Syninum á hendur allan dóm (Jóh. 5, 22). Þetta boda postularnir, er þeir segja: hann hefir bodid oss að prédika fólkinu og vitna, að hann sé af Gudi útvalinn Dómari lifendra og daudra (Post. 10, 42); þá er þeir segja: til þess er Kristur bædi dáinn og upp aptur risinn og endurlifnadur, að hann skyldi drottna bædi yfir daudum og lifendum (Rómv. 14, 9). Samkvæmt þessu valdi safnar hann alstadar að hinum dreifdu, og sýnir einnig mátt sinn þar, sem hann þekkist ekki og nafn hans er ekki nefnt, og einsog skíman, sem eptir er í rökkrinu, kemur ei að sídur frá sólinni, þótt hún verdi ekki séð, þannig koma og hinir daufu geislar sannleikans í hinu andlega myrkri, er valla eru neinstadar með öllu slokknadir, frá honum, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið; og hvar sem fer að lýsa af morgni, hvar sem menn koma í ljós, er leita sannleikans með einlægni og hreinskilni, og slíta sig frá hinni almennu villu, og greida veg gleggari þekkingu, þar þjóna þeir honum, þótt þeir viti það ekki, og njóta hans adstodar, sem er hið sanna ljós, sem upplýsir alla menn (Jóh. 1, 9).

En satt er það, að Kristur kom í heiminn til að stofnsetja sérstakt ríki, er átti að safna hinum sundurdreifdu börnum Guds í einn flokk, til vidurkenníngar veldis hans, og átti að aukast meir og meir, svo það gæti ordið ein hjörd og einn hirdir (Jóh. 10, 16). Allir vér, sem trúum á Krist, vidurkennum og að hann sé Konúngur í þessum skilníngi; en er vér þá svosem tölum við hann um ríki hans, svarar hann oss enn, einsog hann gjördi fordumdaga, svo segjandi: mitt ríki er ekki af þessum heimi (Jóh. 18, 36). Með þessu svari fældi

Kristur forðumdaga marga frá sér. Það var ríki af þessum heimi, sem Júdas hafði buizt við, og þegar það var ekki stofnsett, seldi hann Drottinn sinn og Konúng fyrir vesælan ávinning. Það var ríki af þessum heimi, sem hinir postularnir girntust, er þeir þrættust um, hver ætti að vera hinn fyrsti, hver ætti að sitja við hægri eður vinstri hlið Drottins þeirra; og þá er Drottinn svaraði þeim: getið þér tæmt þann kaleik, sem eg á að tæma? getið þér skírst þeirri skírn, sem eg á að skírast (Matth. 20, 22)? þá var það raunar hið sama og hann hefði sagt: mitt ríki er ekki af þessum heimi. Það var ríki af þessum heimi, sem lýðurinn girntist, þá er hann vildi gjöra Jesúm að konúngi; og er hann flúði þá, og vildi ekki gjörast fyrirliði lýðsins, er fólginn var í sigur og veraldleg yfirráð, og þá er hann vildi ekki leysa þjónum sínum að berjast fyrir sig, svaraði hann þeim því, að ríki hans væri ekki af þessum heimi; og þessu svari reiddust þeir, þessvegna yfirgáfu þeir hann, eður snérust í móti honum. Mundi nokkuð Kristur síðan vera farinn að hugsa á veraldlega hluti? sækist hann nú eptir gullnum kórónum og ríkjum þessarar veraldar, og dýrð þeirra? er honum nú í hug að æsa upp þjóðirnar, og steypa valdi laganna? er honum nú í hug að fá þjónum sínum sverðið í hendur, til að gjöra mein og skaða? Það stendur enn stöðugt, sem áður, að ríki Krists er ekki af þessum heimi; en ef þessi orð væru réttilega heyrð og rétt skilin á öllum stöðum, mundu þau þá nú á dögum fyrir hitta fusari áheyrendur? eru þá mennirnir nú farnir svo að hyggja á himininn, að þeir sækist ekki framar eptir gæðum þessa heims, og girnist ekki framar að nota hið himneska til að öðlast með því jarðneska sælu, edur jafnvel hið heilaga til að ná með því vanheilögum ásetningi?

"Mitt ríki er ekki af þessum heimi". O! þessi orð hljóma einsog þytur hins mikla lúðurs á dómadegi yfir höfðum þeirra, sem hafa notað nafn Krists til að ávinna með því þenna heim, og kallað sig umboðsmenn Krists, til að reisa sjálfum sér hásæti, hærri enn alla veldisstóla jarðarinnar, og safna sér stundlegum auði af öllum löndum, og látið þjóna sína taka til sverðsins, ekki til þess að verndа kristinn lýð móti heiðingjum og villiþjóð-

um, né til að verndа saklausa menn og styðja þau réttindi, er sannleikurinn hafði að lögum unnið á jörðunni — því til þess hefir Guð fengið höfðingjunum valdið í hendur — heldur til þess að kollvarpa löglegri reglu, og kúga samvizkur, og úthella saklausu blóði, og ávinna brögðum sínum sigur í móti sannleika og réttlæti. "Mitt ríki er ekki af þessum heimi"; hversu harðlega vitna þessi orð í móti þeim, er hafa notað hið heilaga nafn Jesú til stundlegs ávinnings, þótt þeir hefðu ekki vald til að vinna undir sig neitt ríki, og leituðu aðeins hagnaðar sjálfs sín, og reyndu til undir gudrækuis yfirskini að hliðra sér hjá að gjalda öðrum það, sem þeim bar, þeim skatt, sem skattur heyrir, þeim heiður, sem heiður heyrir; og í móti þeim, sem urðu að sleppa voninni um stundlegan ávinníng og stundlegan heiður í þessu lífi, en hugguðust við, að í fyllíngu tímans mundi verða stofnsett ríki af þessum heimi, þar er þeir bjugguzt við að sitja á veldisstólum, og sjá aðra menn fyrir fótum sér! "Mitt ríki er ekki af þessum heimi"; þessi orð eru enn í gyldi, einsog þau voru forðumdaga. Því þótt ásýnd jarðarinnar hafi breitzt, þótt mörg ríki veraldarinnar hafi lotið nafni Krists, þótt ríki Krists hafi svo að segja áunnið sér þjóðleg réttindi, þá er það samt enn í gyldi, að hið sannkallaða ríki Krists er ekki af þessum heimi, og má ekki vera haft til framkvæmdar stundlegum ávinníngi. Þér er leyfilegt, sem kristnum manni, að taka við stundlegu góðsi og stundlegum heiðri, ef þér bíðst það á löglegan hátt; en vei þér, ef þú þjónar Drottni þínum til að öðlast þessa hluti, því þá eru laun þín horfin, og þú ert búinn að selja þegnrétt þinn í ríki Krists!

En þótt ríki Krists sé ekki af þessum heimi, er það samt í þessum heimi einsog í hinum ókomna. Það mundi verða oss torvelt, að hitta það orð, sem réttilega gæti sýnt, hvað það sé í þessu dásamlega ríki, sem er alstaðar í þessum heimi og hefir þó ekki neitt samblendi við hann, hvað það sé — segi eg — sem tengi Drottinn þess og Konúng við þá, sem heyra honum til, ef Drottinn vor sjálfur hefði ekki sagt oss þetta orð, ef hann hefði ekki sjálfur, um leið og hann sagði: "eg em Konúngur", bætt þessu við: "eg er til þess fæddur og í heiminn kominn, að

eg beri vitni sannleikanum. Hver, sem elskar sannleikann, hlýdir minni røddu (Jóh. 18, 37)".

Vér høfum á þessum stad nefnt eitt orð, edur rannar hefur Drottinn vor nefnt það sjálfur í vorn stad, og slíkt orð, sem mørgum er hneixli og mørgum heimska, en það er ordid sannleikur. Þeir eru margir, sem hafa ekki enn komizt svo lángt, ad hirda um sannleikann? þeir eru sokknir niduri umhyggju fyrir stundlegu vidurværi, og hversdagslegar umsýslur og áhyggjur og skemtanir, og hafa aldrei af einlægum hug spurt sjálfa sig, hverju þeim sé óhætt ad trúa og hvers ad vona, edur hvad þeim beri ad gjøra. Þeir eru adrir, sem þykjast næstum vera vaxnir uppúr því, ad grenslast eptir sannleikanum; þegar þeir um stundarsakir eru búnir ad flækja sig, edur láta flækja sig, í neti allskonar haglegra hugsana, og eru komnir ad raun um, ad ekkert hald er í veikum vef, né føst undirstada undir húsi því, sem reist er á sandi, segja þeir einsog Pilatus: hvad er sannleikur? og snúa sér undan med hædnissvip, þegar hann er minnst, og hyggja það séu ekki nema heimskingjar einir, er hirdi nokkud um slíkar spurníngar. Aptur eru þeir menn til, er hyggja sannleikurinn felist í fylskunum, hvert adeins fáum audnist ad koma, það verdi ad fara leynt med hann, afþví adeins fáir þoli birtu hans, og bezt sé ad draga alþýdu manna á misskilníngum. Ad vísu eru og þau frædi til, sem dyljast sjálf, þótt ekki sé þørf á ad leyna þeim; þau geta adeins verid eign einstakra manna, afþví það eru ekki nema einstøku menn, sem hafa gáfur og þekkíngu til ad geta komizt í skilníng um þau. En sá sannleikur, sem þarf til Guds ótta, verdur ad geta bodist øllum sameginlega; annars væri ríki Krists adeins handa fáeinum mønnum, og þó vildi hann ad portum þess væri lokid upp fyrir øllum, og fagnadarerindi hans væri bodad hinum fátæku, og hann hefir sjálfur lofad Gud fyrir það hann hafdi auglýst það fáfródum, er hann hafdi látid vera hulid fyrir fródum mønnum og spekíngum (Matth. 11, 25).

"Hver, sem elskar sannleikann, hlýdir minni røddu". Sá einn elskar sannleikann, sem getur adeins fundid hvíld handa sálu sinni í því, sem rétt er og stadfast, og girnist sjálfur heitt og einlæglega ad komast til þekkíngar á því, og vill fúslega studla til, ad

adrir fái þad þekkt, sá er vill sjá ljós og sjálfur lýsa, og hverki vill láta leida sig í blindni, né vill sjálfur leida adra þad. Einginn hlutur er ósæmilegri, enn ad hafa hid heilaga ad leikfángi, og betra er ad vera daglaunamadur vid audvirdilegustu vinnu og leita sér brauds í sveita andlitis síns, já, betra er ad fara á vergáng, enn ad ávinna sér audæfi og heidur med því ad halda alþýdu manna í villu. Hver, sem elskar saunleikann, fordast lygar og hverskonar brögd, sem einnig eru lygar, og leitast vid ad eyda allskonar yfirskini, bædi fyrir sér og ödrum. Þessvegna segir Páll postuli: vér höfum afneitad allri leynilegri svívirdingu — því allt sem er hulid er einnig svívirdilegt, og æfinlega er einhver blettur á því, því hversvegna ætti þad, sem er heidarlegt og hreinskilid, ad fordast dagsbirtuna? — vér höfum hverki vélar í frammi, né folsum Guds ord, heldur mælum vér fram med oss fyrir hvers manns samvizku med auglýsingu sannleikans, svosem fyrir Guds augliti (2 Kor. 4, 2).

"Med auglýsingu sannleikans", segir postulinn — því sannleikurinn hlýtur jafnan ad vera ordtakid í ríki Krists; öll gód og fullkomin gjöf er ad ofan, og kemur frá Födur ljósanna (Jak. 1, 17), frá Gudi sannleikans; allt illt kemur frá lýginni og födur lýginnar. Kristur segir sjálfur, ad hann sé í heiminn kominn til ad bera vitni sannleikanum, hann bad fyrir lærisveinum sínum, ad Gud vildi helga þá í sínum sannleika (Jóh. 17, 17), hann hét þeim, sem á hann trúdu, ad ef þeir héldu stöduglega vid ord hans, þá skyldu þeir þekkja sannleikann og sannleikurinn gjöra þá frjálsa (Jóh. 8, 31. 32), og hann hét þeim sínum Anda, er skyldi leidbeina þeim til alls sannleika (Jóh. 16, 13). Hann kalladi þá til þjónustu sannleikans, og til hennar kallar hann einnig oss. En þjónusta sannleikans er tvöföld; hún er í því fólgin, ad berjast í móti lyginni, og gjöra villuna bera, og kippa í burt öllum ótrúum máttarstodum; en hún er og í því folgin, ad reisa þá stólpa, sem ekki verdur hrundid, og í stad þeirra sjónhverfinga, er ginna adeins heimskíngjana, á hún ad fylla lífid af fegurd, er fridar og gledur mannlegt hjarta. Þér er ekki borgid, þótt þú sért búinn ad rífa hús þad, sem komid var ad falli, nema þú hafir reist annad í þess stad, er geti hlift þér vid regni og vindi, og

vetrarhørkunni, og sumarhitanum. Þú ert ekki ordinn audugur, þótt þú sért búinn ad kasta á burt ónýtisglingri því, er þú hafdir kallad audæfi þín, nema því adeins þú hafir aflad þér einhvers í þess stad. Sá þorsti er til, sem ekki verdur slekktur, nema á lifandi uppsprettum, og rótgróin laugun er til eptir þeirri þekkingu, sem sálin geti fyllilega hvílzt í, og løgmál þad studzt vid, er samvizkan bædi elskar og óttast, og fyrirheit þau eru byggd á, sem færa oss huggun og von og frid. Hver, sem einlæglega og stadfastlega leitar þessarar þekkíngar, hann elskar sannleikann, og hann mun heyra rødd Krists, því Kristur er veginum, sannleikurinn og lífid (Jóh. 14, 6).

Hver, sem elskar sannleikann, verdur og ad fylgja sannleikanum, og heimfæra hann einlæglega til sín sjálfs, þagga nidur ástrídur sínar og sjálfselsku, svo hann geti dæmt um sig eptir sannleikanum, og leitast vid ad fylgja honum. Mér veitist eingin meiri gledi, segir hinn dýrdlegi postuli Krists, enn ad heyra børn mín gángi í sannleikanum (3 Jóh. 4 v.). Hver, sem elskar sannleikann og leitast vid ad fylgja honum, verdur og ad girnast ad geta komid ødrum til ad gjøra þad. En ríki sannleikans á hvørki né má verda varid né aukid utan med vopnum sannleikans, medþví ad láta hann birtast í ljósi sínu og fegurd, og greida honum veg ad samvizkum mannanna, þar er hann á ad mæla sjálfur fram med sér. Hver, sem elskar sannleikann, beitir eingum ødrum vopnum, enda fengju ønnur vopn eingu til leidar komid í þessari grein. Þú getur, ef til vill, kúgad menn til ad tala og þegja, en ekki til ad trúa. Þú getur, ef til vill, med veraldlegu valdi stillt þad, sem þú kallar straum villunnar, en hafir þú ekki leitazt vid ad byrgja uppsprettu hans, eykst máttur hans optsinnis því ógurlegar, og þegar hann ad lokunum rydur á burt stíflunni, mun hann valda því meiri skemmdum. Og þú, sem ert madur, veikur og villunni undirorpinn einsog adrir, hversu hæglega getur þú villst í dómum þínum; og vei þér þá, er þú sérd um seinan, ad þú hafdir stadid í móti sannleikanum, og offsókt votta hans, í stad þess ad leitast vid, ásamt med brædrum þínum, ad komast til vidurkenníngar sannleikans! Þá mundi dómurinn loga í sálu þín sjálfs, er þú jafnframt fynndir til vanmáttar þíns,

því vér meguum ekkert gegn sannleikanum, heldur fyrir sannleikann (2 Kor. 13, 8).

En hvad mundum vér megna, er vér stædum einir uppi, ef sannleikurinn hefdi ekki þá vorn, sem er styrkvari, enn allur mannlegur máttur? Þessvegna er það svo huggunarríkt að kalla Krist Konúng, því hver, sem á hann trúir, veit, ad hann er med oss alla daga, til enda veraldarinnar (Matth. 28, 20), og ad honum ber ad ríkja, þángadtil hann hefir lagt alla óvini undir fætur sér (1 Kor. 15, 25). O! hefir ekki þyrnikóróna hans blómgazt og ordid ad konúnglegu skarti, miklu dýrdlegra øllum þeim, sem høfdíngjar þessa heims hafa borid? Tíminn hefir velt øldum sínum yfir kollvørpud hásæti og sundrud ríki, en hans ríki stendur stødugt í hinum ólgandi straumum. Sannlega eru það ekki menn, er fyrst hafa kallad hann Konúng, heldur sá, sem bædi vill og má stadfesta ríki hans ad eilífu, er setti hann sér vid hægri hønd á himnum, hátt yfir øllum høfdíngjadóm og yfirrádum, og valdi, og herratign, og øllu því, sem nafn hefir, ekki adeins í þessum heimi, heldur og í hinum ókomna, og lagdi alla hluti undir fætur honum (Eph. 1, 20 o. n. v.).

---

## 53.

## Kristin kirkja.

Það er alkunnugt um alla verøld, hvad vid bar í Jerúsalem á hinni miklu hvítasunnuhátíd, rétt eptir himnaför Krists. Þegar þeir menn, er Drottinn hafdi kosid sér til postula edur eyrindsreka til nálægra og fjarlægra þjóda, høfdu af lokid hinu ørduga prófi, er hafdi komid þeim til ad hneixlast og efast og afneita, en ekki getad útrýmt ástinni úr hjørtum þeirra; þegar þeir voru ordnir hreinsadir í hørmúngum, og høfdu sídan ødlazt ævaranda styrk, fyrir þann hinn mikla føgnud, ad hafa séd Drottinn upprisinn, og hafa séd hann gánga inn í dýrd Fødursins: þá bar svo vid á hinni umgetnu hátíd, ad Andi Drottins fyllti þá, og út bjó þá fyrst med trú og kærleika, þekkíngu á sannleikanum og

ákafa í góðum verkum, og síðan með þeim mætti og gáfum, sem nauðsynlegar voru til hins mikla verks, sem þeir voru til kjörnir. Þeir gengu fram og prédikuðu í Jerúsalem fyrir þjóð sinni á hennar túngu, og þaraðauk fyrir útlendum mönnum, sem þar voru staddir, á þeirra túngu. Og Drottinn var þá og síðar í verki með þeim, og styrkti kenninguna með táknum, sem urðu henni samfara, og jafnskjótt tóku nokkrar þúsundir manna við trú. Upp frá þeim degi hefir kristin kirkja verið til á jörðunni; straumar tímanna hafa ekki getað brotið hana, né sundurþykki sundrað henni, né árásir óvina eydt henni.

Orðið kirkja er nú orðið algengt orð vor á meðal; samt er það útlendt, og á sér ekki rót í voru máli. Svo er því og varið með fleiri orð, sem tíðkuð eru í kristilegum hugleiðíngum. Sjálft Jesú-nafn er útlendt orð, þó hljómar það nú alstaðar í blíðu og í stríðu, í glaumi og skarkala lífsins, og í kyrrð og einveru dauðans, og hver maður veit, að það þýðir þann Frelsara, sem Guð sendi mönnunum. Eins er orðið kirkja útlendt, og þýðir hús Drottins.

Þessu nafni nefnum vér í fyrsta máta hvert musteri og hvert bænahús, sem er byggt Herra safnaðarins til dýrðar. Blessaðar séu þær hendur, sem byggðu þau og verndudu! því í þeim geymist og frá þeim hljómar það orð, sem helgar lífið, og huggar mennina. En til lítils væru húsin tóm, ef einginn söfnuður kæmi þar saman; og þenna söfnuð, sem yfirsamar Drottinn, og játar að hann sé Kennari sinn og Frelsari og Sáluhjálpari, köllum vér einnig kirkju, og postulinn líkir henni við hús, sem vex til heilags musteris í Drottni, og byggt er til bústaðar Guðs í andanum (Eph. 2, 21. 22).

Kristin kirkja eður söfnuður Krists á jörðunni er félag þeirra manna, sem aðhyllast Krist. Þaraf sést, að hún á sér takmörk, það er: að hún grípur ekki yfir alla menn. Að sönnu hafa þessi takmörk færst yfrið lángt út, síðan kirkjan var stofnsett í öndverðu, þó eru til mörg lönd og margar þjóðir, sem enn eru fyrir utan takmörkin. En vér getum ekki heldur sagt, að allir menn í þeim löndum, sem kristnuð eru, heyri til kristinnar kirkju. Að sönnu er kirkjan fús á að breiða faðminn

móti hverjum manni; börnin eru snemma gjörd henni áhángandi, og í uppvexti þeirra eru þeim kennd kristin frædi, menn helga í kirkjunni inngaungu únglínganna í veröldina, og þadanífrá leidir margur merkisatburdur mennina þángad. Allir sem þekkjast þetta, og segja sig ekki berlega út úr félagi kristinna manna, þeir eru kalladir kristnir. En mættum vér fyrir þad dirfast ad segja, sérhver þeirra heyrdi kristinni kirkju til í raun réttri? Því til eru margir, sem ad ödru leiti hirda ekkert um hana; hvorki naudsyn, né laungun, né skildurækt knýr þá til ad sækja þángad, þeir hlýda ekki Guds ordi, né heldur hugleida þad í kyrrþei, sál þeirra lyptir sér ekki í hædir, og þeir lifa og deya í eintómum jardneskum hugsunum. Hverju nafni sem þessir menn nefnast, getum vér ekki talid þá med kristnum söfnudi, og, Gudi sé lof! ad nú þraungva menn þeim ekki til ad látast vera kristnir; því Drottinn vill ekki safna þeim saman, sem spotta á laun, né heldur þeim, sem hafa hugann vid allt annad, heldur adeins þeim, er tilbidja hann viljugir. En alla þá, sem adhyllast oss, köllum vér félaga vora í þessari hinni sýnilegu kirkju, hvert sem þeir eru meir edur minna ákafir, meir edur minna flekkadir, vel edur illa viti bornir, því sérhver þeirra skilur þó ad nokkru leiti edli kirkjunnar, og ad svo miklu leiti skilur hann sig vid hinn tilfinníngarlausa, hirdulausa edur hædnisfulla lýd, og gengur inni hid minna félagid, sem adhyllist Krist.

Hversu dýrmæt var kirkjan í uppvexti sínum postulum Krists! Heimurinn velktist í hinu vonda (1 Jóh. 5, 19), og þad átti nú allt ad eydast, sem þángadtil hafdi vidhaldizt; en mitt í audn þessari var sádreitur tilbúinn, og þadan átti hid nýa fræ ad flytjast um allar álfur. Söfnudurinn jókst æ meir og meir; en þó þad væri gledilegt, var þad hinsvegar hryggilegt ad sjá, ad bædi illir og gódir komu í söfnudinn, og spillingin smegdi sér snemma inní hann. Hversu árvakrir voru postularnir þá, hversu alvarlega vörudu þeir vid hinu illa, og hversu alúdlega áminntu þeir til hins góda! Ef vér, til dæmis, lesum sendibréf postulans Péturs til nokkurra af hinum kristnu söfnudum, mun oss finnast, einsog þessi ágæti postuli, samöldúngur og vottur ad pínu Krists, eptirþví sem hann sjálfur kallar sig (1 Pét. 5, 1), ferd-

ist hús úr húsi í söfnuðunum, meðal þeirra, sem undir ólíkum jarðneskum kjörum áttu að búa; hann sækir heim konur og karla, únga og gamla, herra og þjóna, kennendur og tilheyrendur, og alstaðar er ræða hans rökfamleg, þó hún sé hógvær, og blíð þó hún sé alvarleg, og skraut hennar er ekki fólgið í búníngi hennar, heldur sprettur hún ætíð — að vér brúkum orðatiltæki sjálfs hans — af hinum hulda manni hjartans, í óforgengilegu skarti hógværs og kyrrláts anda, sem dýrt er metið í Guðs augsýn (1 Pét. 3, 4); og alltaf minnir hann alla á, einsog Móses fyrrum sína þjóð (2 Mós. 19, 5. 6), að þeir séu útvalin kynslóð, konúnglegt prestsdæmi, heilög þjóð, samsöfnuð úr veröldinni til eignar handa Drottni, en að þeir skuli fyrir þá sök kunngjöra velgjörðir hans, sem leiddi þá til síns aðdáanlega ljóss, og með góðri umgengni hvetja heiðingjana til að vegsama Guð á vitjunardegi hans (1 Pét. 2, 9. 12).

Hin kristna kirkja hefir nú staðið í margar aldir, og vaxið og skipazt; en er nú, eptirþað Guðs orð hefir erfiðað og áminnt alla þá tíð, gjörvallur hinn mikli söfnuður, sem trúir á Krist, umsíðir orðinn að hinni útvöldu kynslóð, hinni helgu þjóð, þeirri þjóð til eignar, sem postulinn talar um? Því er miður! ekki framar enn það voru allt börn fyrirheitisins, sem áttu kyn sitt að rekja til Abrahams. Til hafa verið tímar og staðir, sem kallaðir hafa verið kristnir, en hvorki Guð né menn hafa getað horft á með velþóknun, heldur enn á Sódóma; og þó vér rennum huganum jafnvel til þeirra tíma og staða, þar sem kristnin hefir skinið dýrðlegast og fegurst, hver mundi dirfast að segja, að jafnvel þar hafi allir, eður að minnsta kosti flestir, verið hinir útvöldu, heilögu og ástfólgnu, sem kallaðir voru frá myrkrinu til Drottins dásamlega ljóss? Eflaust byggir einginn von sína um miskun Drottins á því einu, að hann heyri til hins mikla safnaðar, er vér köllum Krists sýnilegu kirkju á jörðunni; hver maður þekkir það, er Kristur hefir sjálfur sagt: margir eru kallaðir, en fáir útvaldir (Matth. 19, 30). Hjá Kristi gyldir ekkert nema trú, sem sýnir krapt sinn í elskunni (Gal. 5, 6), og fyrst því fer allt of fjærri, að hún sé til hjá öllum, hlýtur að vera til úrval úr hinum mikla grúa, sem að sé Drottins réttileg

eign, það er: minni söfnuður í hinum stærra, sem vér köllum hina ósýnilegu kirkju.

Hversu mjög sem vér optsinnis verðum að hryggjast af spillíugu kristinna manna, og hvernig sem vér knýumst til að kvarta yfir henni hátt og skeruglega, skulum vér aldrei, hvorki í andlegri né stundlegri hryggð, kvarta á þann hátt, að vér gleymum öllu því hinu góða, er Drottinn lofar oss að líta. Og þó vér megum opt segja, "að veröldin sé dæpur og dymm", skulum vér einnig kannast við, "að Guð á himnum eigi sér þá hér á jörðunni, sem elska hann, og þóað þeir sèu hulinn fjársjóður, sèu þeir þó ljós í myrkri veraldarinnar". Því ef þessi minni söfnuður væri ekki, hvað væri það þá, er vér gætum gladzt af að líta, þegar vér rennum augum yfir veröldina? Hvar mundu þau orð verða endurtekin, er vér mælum af gnægð hjarta vors? Eða hvernig gætum vér vænzt, að ástandið á jörðunni mundi batna, ef ekki væri til nokkurskonar helgidómur, þar er varðveita mætti hinn heilaga eld, svoað birta og ilur gæti komið þaðan á heutugum tíma? En spyrji menn, hvar þessa minna, rètta safnaðar Krists sè að leita, getum vér, Guði sè lof! í einu tilliti svarað, að það sè alstaðar, en í öðru tilliti verðum vér að svara, að hann sè hvergi, ekki í neinu sýnilegu mannafèlagi, hvaða heiti sem hafa kann. Því hinum rètta söfnuði er eins háttað og Guðs ríki, að hann kemur ekki svo á beri, svo menn geti þreifað á honum, eða bendt til hans (Lúk. 17, 20), og þessvegna er það rètt, "að hann sè hulinn fjársjóður á jörðunni".

Þeir hafa að sönnu verið til, sem vildu stofna söfnuði, er vera skyldu fèlög eintómra heilagra manna, afþví þeir sáu spillingu hins stærra safnaðar, og gremdust hinum mörgu hneixlunum, sem í honum eru. En ef þú varpar neti í sjóinn, koma í það allskonar skepnur, ætar og óætar (Matth. 13, 47, 48); og ef þú sendir þjóna þína útá þjóðgötur, að bjóða þeim, er þeir finna, til kvöldverðar, verða þeir að safna saman illum og góðum (Matth. 22, 9. 10). Ættum vér þá að gjöra dyrnar mjóar og inngönguna torvelda, svoað vèr getum einirsaman haft not kirkjunnar? Eða viljum vér ekki kalla saman æ fleiri, svoað húsið verði fullt, og svo margir sem auðið er verði hluttakandi í gæðum þess? En

þegar margir koma saman frá austri og vestri, einsog vér óskum þeir gjöri, þar sem kristin kirkja á hlutinn að, þá verður að vera, margir komi ómaklegir innanum. Eða ættum vér að setja dómarasæti við kirkjudyrnar, þar er vér mennirnir mættum dæma og áfella, kjósa og útskúfa? O! látið Drottinn gjöra það, þegar hann kemur að skoða boðsmennina, því hann einn þekkir hjörtu mannanna, og hann einn getur dæmt réttláta dóma. Hvað stoðaði það, þó vér værum harðir í dómum vorum um hegðan manna, úrþví vér yrðum að hleypa inn Fariseunum, sem eru öðrum fremri að lýtalausri hegðan, en yrðum að banna tollheimtumanninum inngaungu; þó vér værum vandlætíngasamir við hinn lítilmótlega og fátæka, er vér þyrðum óhult að segja um það er oss litist, en hneigðum höfðingjum og ríkismönnum, og leiddum þá í hin ágætustu sæti? Það er ekki ritað, að Drottinn vor og Meistari hafi sagt, vér skyldum lesa illgresið úr hveitinu, heldur að hann hafi varað oss við því, meðþví þér kynnuð þá hæglega að rífa upp hveitið með — að hann hafi sagt: látið hvorttveggja vaxa saman til kornskerunnar (Matth. 13, 29. 30). Guð lætur sólina skína yfir illa og góða, og lætur rigna yfir réttláta og rángláta (Matth. 5, 45); á líkan hátt skal sól Krists skína í kirkjunni yfir alla, sem þángað vilja koma, hvert sem þeir eru þess maklegir eður ekki, að hún megi lýsa þeim og lífga þá alla, ef þess væri auðið. Einsog Guð er þolinmóður og segir ekki við nokkurn syndara fyrrenn á dómsdegi, að honum sé útskúfað: eins eigum vér ekki heldur að útskúfa syndurunum, heldur greiða þeim eptir mætti inngaungu í kirkjur vorar, og breiða faðm vorn móti hverjum, sem koma vill, og leitast við að vera öllum allt, einsog postulinn að orði kemst, til þess vér getum frelsað nokkra (1 Kor. 9, 22).

Fyrir þá sök skulum vér gefa gætur hverjir að öðrum, og upphvetja hver annan til kærleika og góðra verka, og yfirgefa ekki söfnuð vorn, einsog sumra er siður til, heldur áminna hver annan (Hebr. 10, 24. 25). Ef vér vildum slíta sundur band það, er tengir oss alla saman, og stofna nýar kirkjur vegna hvers ágreiníngs, breyttum vér gagnstætt tilgángi Drottins vors, sem vill, að hjörðin verði ein, einsog hirðirinn er einn (Jóh. 10, 16). Hefðu postularnir útskúfað sérhverjum, sem Kristur var ekki orðinn

myndadur í (Gal. 4, 19), hversu marga hefdu þeir þá getad tekid í sǫfnudinn? Hin sýnilega kirkja Krists er stofnud, til ad kalla syndara til apturhvarfs og frelsunar, og styrkja þá í sannleikanum, sem hafa veitt honum vidtǫkur. Ef einhver vill ekki koma, skulum vér ekki þrísta honum til þess; ef einhver trúarleysingi byrgir eyru sín, og fer burt, þá látum hann skiljast frá hinum (1 Kor. 7, 15). En hver, sem heyra vill, finnur, ad þad er eitthvad, sem heldur honum, ad hann á eitthvad óútkljád vid oss, sem útkljá mætti, og þá eigum vér ad reyna til ad hylla hann ad oss, en fæla hann ekki frá oss, þá eigum vér ad minnast orda postulans, er hann segir, ad kærleikurinn umberi allt, trúi ǫllu, voni allt og þoli allt (1 Kor. 13, 7). En ef vér slítum bǫnd kærleikans, þá er ǫll sáttarvon úti. Aldrei getum vér, hvert sem er, stofnad þá kirkju á jǫrdunni, sem sé án lýta edur galla edur hneixlana. Þó ekki færu til nema tveir eda þrír, og stofnudu félag, er þeir ætludu ad geyma vid ǫllum hneixlunum, og einga taka í, nema þá eina, er þeir héldu væru í tǫlu hinna útvǫldu, mundi samt óvinurinn koma, því hann sefur ekki, og eingar líkamlegur skordur fá varnad honum inngaungu. Þessvegna þekkjum vér ekkert félag, hversu sérstakt sem vera kynni, sem vér getum vísad til, og sagt um med sanni, ad þad sé hinn rétti Ísrael, hinn minni sǫfnudurinn, sem eingir séu í, nema útvaldir og heilagir ástvinir Guds.

En þó vér finnum hvergi nokkurn sǫfnud, er á þann hátt sé fráskilinn hinum stærra, ad hann sé líka fraskilinn allri spillingu, getum vér þó med sanni sagt, ad hinn rétti kristni sǫfnudur sé alstadar, mitt í hinum stærra. Gudi sé lof! þeir eru til í ǫllum áttum, er þekkja þad og þrá, sem háleitara er, enn ad sedjast ávǫxtum jardarinnar, og ekki halda, þeir hafi aflad sér hins sanna auds, þó þeir hafi safnad fjársjódum á jǫrdunni, né heldur, ad þeir hafi nád takmarkinu, þó þeir hafi komizt æ hærra og hærra á hinum hála stiga manulegra metorda. Þeir eru til í ǫllum áttum, sem trúa Gudi; þeir hafa séd vott hans allt í kríngum sig, þeir hafa heyrt rǫdd hans í hugskotum sínum, medvitundin um Gud hefir æ meir og meir gagntekid edli þeirra, svoad þeir finna, vér lifum, hrærumst og erum í Gudi; þegar fǫgnudur vitjar hjartna þeirra og híbýla, vitjar Gud þeirra einnig, því þeir vita og

kannast vid, ad allt, sem veitir þeim fögnud, er gjöf gudlegrar miskunar; og þegar hryggdin kemur, kemur Gud med henni, og er hæli þeirra og huggun, og þeir lúta honum og lofa rádstafanir hans, enda þótt þær séu þeim óskiljanlegar. Þeir eru til í öllum áttum, sem hafa fundid, ad þeir þörfnudust þess ords, sem hefir þad vald, sem ædra er mannlegu valdi, en þad er Guds ord; sem hafa fundid, ad þeir þörfnudust frelsunar frá synd og glötun, sem einginn madur gæti afrekad þeim; sem hafa leitad Guds, afþví þeir sáu merki hans um alla veröldina, og leitad þángadtil þeir hafa fundid hann harla nærri, og hina dýrdlegustu opinberan hans, og þeir hafa fundid til þýdingar þeirra orda, ad Gud hafi sætt heiminn vid sjálfan sig í Kristi (2 Kor. 5, 19). Þeir hafa ekki addhyllzt Krists, afþví þad vard sidur medal mannanna, ad kalla hann Drottinn og Frelsara, heldur afþví þeir kölludu hann þad med sjálfum sér; þaraf kemur, ad þóad straumurinn fari ad renna í adra átt, segja þeir samt í fullri alvöru: vér þekkjum eingan annan, er vér getum leitad til. Þeir eru til í öllum áttum, sem ekki adeins hafa kallad Krist Drottinn sinn, heldur og þókzt skyldir ad gjöra þad hann býdur, og hafa leitazt vid og munu leitazt vid, ad gjöra sálir sínar ad musteri handa Guds Anda, svo kristin speki og réttvísi og ást og stadfesta og þolinmædi megi búa þar, og sýna sig í liferni þeirra, sem aldrei þykjast hafa gjört nóg, né vera ordnir fullkomnir, heldur gleyma því, sem er á bak vid þá, og sækjast eptir því, sem er framundan, og leitast þannig vid ad nálægjast takmark sitt meir og meir. Allir þessir menn eru einn söfnudur, hvad ólíkir sem vera kunna, því þeir eiga allir saman, medþví þeir eru sameinadir í einni trú og einni von undir einum Drottni; þeir eru hinn minni söfnudurinn í hinum stærra, sem Drottinn hefir velþóknun á.

Nú ef vér viljum reyna, hver til Krists safnadar heyri, þá látum oss einkum reyna sjálfa oss, því þú skalt ekki leitast vid ad bægja ödrum frá hinni sýnilegu kirkju, heldur skaltu reyna til ad útvega sjálfum þér hlutskipti í hinni ósýnilegu; því allt ágæti vort er í því fólgid, ad vér heyrum til hins sanna safnadar Krists. Til þess eigum vér ad hjálpa hver ödrum, og hin sýnilega kirkja

er einmitt ætlud til ad sameina vidleitni margra, svoad vér getum varid til Krists, sem er höfudid, sannleikanum trúir í kærleika (Eph. 4, 15). Verdi þá nokkrum ydar eitthvad á af breiskleika, þá leidréttid þér, sem andlegir erud, hann med hógværd, en sérhver gæti ad sjálfum sér, ad hann leidist ekki til syndar (Gal. 6, 1). Ekkert er eins vidbjódslegt, og dramb og hatur og drottnunargirni og lastmælgi. En verdum vér fyrir því í veröldinni, bregdur oss ekki vid þad, því vid því er ad búast í heiminum; apturámót megum vér vonast eptir ödru í kristinni kirkju, því þar eiga menn ad temja vondar girndir, en ekki ad láta eptir þeim. O þér, sem viljid vera hinn sanni söfnudur Krists, minnist þess, ad þér eigid ad vera útvalin kynslód, heilagt fólk, kjörid til eignar handa þeim, er ydur hefir leidt úr myrkrinu til síns addáanlega ljóss! Ydur mun opt finnast, ad þér séud ókunnugir og útlendir á jördunni, því múgurinn skilur ekki hvad þad er, sem fyllir sálir ydrar, og þykir ekkert varid í þad, sem þér verjid til lífi ydru. Þessfremur skulud þér leitast vid ad ödlast ódal í hinum minna söfnudi, sem ekki gjörir sig frábrugdinn ad líkamlegu látædi, heldur ad ódaudlegu edli hægláts og hógværs anda; þessfremur skulud þér stunda, ad eiga frid vid þá, sem ákalla Drottinn af hreinu hjarta. Því hvad ættum vér, þó oss væri audid ad eignast allt, ef oss vantadi kærleikann? Gæti þad verid — sem ekki er — ad vér hefdum nægja vizku til ad skilja alla leyndardóma, og hefdum þá trú, sem gæti flutt fjöll úr stad, og þó vér megnudum ad gjöra kraptaverk, og létum þeyta lúdur fyrir oss, svo mennirnir sæu gódverk vor: hvad stodadi þad alltsaman, ef kærleikurinn yrdi því ekki samfara?

---

## 54.

## Guds ord og bodun þess.

Kynslód sú, sem nú er uppi, hefir lifad hina þridju fagnadarhátid, er haldin hefir verid til minningar um mikilvæga end-

nýúng og lagfæring í kristinni kirkju, því þá voru liðnar þrjár aldir, frá því er Guð vakti þá menn, sem áttu að vera þjónar hans að þessu verki. Serhver endurminníngardagur, sem settur er til minníngar um þá hluti, sem orðið hafa fyrir laungu síðan, færir oss huggun og gleði. Vèr sjáum alstaðar votta þess, hvað mannlegir hlutir eru skammvinnir. Þær byggingar hafa verið til, sem menn ætluðu að standa mundu um aldur og æfi, og eru samt hrapaðar til grunna; og þau afreksverk hafa verið framin, er allur lýður hefir starað á með hinni mestu undrun, en eru nú komin í gleymsku, svo þeir einir þekkja þau, sem rannsaka liðnar aldir, og mörg þeirra eru jafnvel með öllu horfin; þau vissu hafa verið til, er eittsinn voru á allra vörum, en nú nefnir einginn þau framar. En það er og til, sem stendur stöðugt og talað er um og lætur sjá afleiðingar sínar, laungu seinna, enn sá, sem það framdi, er genginn á burt. Postulinn segir, eldurinn muni reyna hvílíkar að sèu athafnir sèrhvers manns (1 Kor. 3, 13). Hræríngar tímans eru eyðandi eldur, og hin ótrausta bygging verður honum skjótt að bráð, hversu mikið hégómaskraut sem á henni skín; en traustir steinar eru og til, sem tímalengdin fær ekki unnið á.

Drottinn vor segir í annari líkingu; sèrhvað, sem minn himneskur Faðir hefir ekki gróðursett, hlýtur að verða upprætt (Matth. 15, 13). Sèrhvað, sem sprottið er af hinu hverfula, á, þegar í uppruna sínum, fyrir sèr að hverfa; sèrhvað, sem á að standa stöðugt, hlýtur að vera reist á því, sem staðfast er, hið sanna og eylífa hlýtur að birtast í því. Þannig hefir kirkja Krists staðið stöðug, einsog höfundur hennar hafði fyrir sagt, að öll völd helvítis skyldu aldrei á henni sigrast (Matth. 16, 18); þannig hefir og Guðs orð stöðugt staðið, einsog sá hafði fyrir sagt, sem sendur var að boða það með öllum þeim fullkomleik og afli, sem því fylgir, er hann komst svo að orði: himininn og jörðin munu líða undir lok, en mín orð munu aldrei undir lok líða (Matth. 24, 35). Og þegar vèr með alvörugefni hugsum um Kristi kirkju og Guðs orð, þá leiðumst vèr sjálfkrafa til að hugsa um það verk, er eg nefndi rètt fyrir skemmu, hið mikla og dýrðlega og staðfasta endurbótaverk kirkjunnar.

Hverfu optlega hefir Guð kjørið það, sem fyrirlitið var í heimsins augum, til þess að gjøra hinu volduga kinnroða (1 Kor. 1, 27. 28). Sízt uggði það hina drambsømu menn, er høfðu verið svo óskammfeilnir, að setjast á veldisstól Krists, og leitazt við að ávinna sér øll ríki veraldarinnar og dýrð þeirra í nafni Drottins vors, þótt þeir vissu, að ríki hans væri ekki af þessum heimi — sízt uggði þá, að múnkur sá, er þeir héldu að þegar mundi falla fyrir einni banusetníngu, mundi kveykja þann eld, er brenna mundi byggíngar þeirra, og gjøreyða allri dýrð þeirra. Og sízt vissi þessi hinn ráðvandi maður það sjálfur í fyrstunni, að ákafi sá, sem í honum brann, væri guðleg køllun, er leiða ætti til svo ávaxtarsamra afreksverka. Því Lúther átti ekkert skyldt við hégómagjarna trúarvínglsmenn, heldur veitti hann þeim mótstøðu með øllu hinu mikla þreki og gløggskygni sálar sinnar. Hann girntist ekki að skrýða sig neinskonar heiløgum dýrðarljóma, hann þóktist ekki vera spámaður, og hafði hverki vitranir né opinberanir frá að segja; hann vildi ekki styðjast við annað, enn Drottinn sinn og Frelsara, og hans heilaga og sáluhjálplega orð, og samkvæmt þessu orði vildi hann reisa kirkju Frelsara síns.

Því, sem er gefið oss af guðlegri náð, því, sem áunnið er með erfiðismunum og baráttu ágætra manna, því eigum vér að halda fastlega, og gjøra ekki lítið úr því, og láta það ekki viðgángast, að ofurefli né svik svipti oss því aptur. Og þarsem vér nú erum játendur þeirrar kirkju, er minnist Lúthers með svo mikilli þakklátsemi, að hún setur hann næstan postulum Drottins, þá ber oss að vita það og skilja og finna til þess, hverju hann hefir til leiðar komið fyrir oss; hvílíkt ok hann hefir af oss brotið, og hvernig hann leitaðist við að koma kirkjunni aptur í það lag, að hún gæti náð hinum rétta tilgángi sínum.

Krists kirkja er samfélag, er mønnunum ber að taka hlutdeild í. Þetta segjum vér með eins miklum rétti, einsog vér segjum í øðru tilliti, að maðurinn sé ekki ætlaður til að lifa einn útaf fyrir sig; Guð hefir ekki skapað oss til þess, vér skulum gjøra oss fráskila øðrum mønnum, heldur til þess, vér skulum leggja félag vor á meðal, og hjálpa øðrum, og þyggja sjálfir hjálp í þessu samfélagi, með Guðs aðstoð. Þú átt ekki að fara á eyði-

merku og byggja þér þar kofa, einsog einsetumaður, heldur átt þú að reisa byggð þína í margmenninu, og leitast við að safna að þér þeim, er séu vinir þínir, svo þér getið aðstoðað hverjir aðra á lífsleið yðvarri. Þú átt ekki, þótt þú gætir, að taka þig útúr mannlegu þjóðfélagi, heldur áttu að vera því til liðs af öllum mætti, og leitast við að endurgjalda samþegnum þínum að nokkru leiti hin miklu gæði, sem félagið við þá veitir þér. En nái nú stundleg farsæld ekki að þróast, nema margir leggist á einn taum, hvernig ætti þá hin andlega farsæld að geta það? Það er eins örðugt, ef margir hjálpast ekki að því, að finna sannleikann og leiða hann í ljós, og greiða úr honum, og gjöra hann ávaxtarsaman í mannlegu lífi, einsog að brjóta gullið uppúr fjöllunum, hreinsa það, og smíða úr því gersemar, er ekki verður gjört nema margir starfi að því. Samfélag það, sem mennirnir gánga í, til að öðlast þekkingu á þeim sannleika, sem Guðs ótta eflir, og gjöra hann æ ljósari og ávaxtarsamari í mannlegu lífi, til vizku og betrunar og huggunar, það köllum vér kirkju.

En þegar menn gjöra félagskap, hljóta þeir að koma sér saman um eitthvað, þeir verða að hafa eitthvað fast og stöðugt sín á milli til grundvallar félagi sínu, annars væri eintómt sundurlyndi og flokkadrættir þeirra á milli, en alls eingin sameining. Eingin kirkja á að vera, né má vera, slík samkoma manna, að hver segi þar og gjöri það, sem honum líst, án laga og reglugjörðar. Sérhvert hús hlýtur að eiga sér undirstöðu, eigi það ekki að hrynja. Og hver er þá undirstaða kirkju Krists? Vér nefnum hana um leið og vér spyrjum eptir henni; í Krists kirkju getur einginn lagt annan grundvöll, enn þann, sem lagður er, og það er Jesús Kristur (1 Kor. 3, 11). Sé hann ekki sá, er vér sefnumst að, og köllum Drottinn vorn og Meistara, og látum orð hans leiðbeina oss, og leitum oss frelsunar í því, sem hann hefir afrekað, þá gætum vér kennt og ættum að kenna kirkjuna við einhvern annan, enn hann. Væri nú Drottinn vor og Meistari sýnilega nálægur á meðal vor, þá mundum vér setjast við fætur honum, og nema af honum, og spyrja hann um sérhvert mál, og hlýða hverri bendíngu hans. En vér vitum, að hann sagði þegar við postula sína, þeim væri það til góðs, að

hann færi burt, því með því einu móti gæti Heilagur Andi komið til þeirra (Jóh. 16, 7); einúngis með því móti að verða reyndir sjálfir, og venjast við íhugun og áreynslu gætu þeir orðið hæfir til að taka fyllilega við áhrifum Heilags Anda, og verða gagnteknir af sannleikanum, og alast svo upp, sem frjálsar verur, til Guðs ríkis. Þannig væri það oss ekki heldur til góðs, að vér gætum jafnan öðlazt nýar opinberanir, og þyrftum ekki sjálfir að leita sannleikans, og greiða hann með umhugsan vorri útúr orðum Drottins, sem allir fjársjóðir vizkunnar og þekkingarinnar eru í fólgnir (Kól. 2, 3). En þarsem nú Herra kirkju vorrar er ekki sýnilega nálægur vor á meðal, hljótum vér að blýða á vitnisburðinn um hann og kenningu hans. Þenna vitnisburð hittum vér fyrst, að vísu nokkuð myrkan, enn eigi að síður mikilvægan og sannorðan í bókum spámannanna, sem Guð sendi á undan Drottni vorum til að greiða götu hans; og þvínæst finnum vér hann ljósari og fullkomnari í orðum postulanna, er Kristur sjálfur sendi út sem votta sína, þegar hann var kominn í heiminn, og gaf þeim vald til að stofna kirkju hans. Því segir Páll postuli, er hann minnist á söfnuð þann, sem orðinn var til úr Gyðíngum og heiðíngjum, að hann væri reistur á grundvelli postulanna og spámannanna, á þann hátt, að Jesús Kristur væri sjálfur aðalhirníngarsteinninn (Eph. 2, 10). Meðan postularnir lifðu og prédikuðu, voru þeir vottar Drottins vors og orða hans og kenníngar, en afþví kirkja Krists átti að standa um allar aldir, og afþví vitnisburður postulanna mundi bráðum hafa orðið aflaga borinn, ef aðeins munnlegri sögusögn frá einni kynslóð til annarar hefði verið trúað fyrir honum, þá hefir guðleg forsjón séð svo um, að hann yrði ritaður á helgar bækur, og þessar bækur varðveittar í öllum biltíngum liðins tíma. En þegar nú þessar helgu bækur höfðu af mannlegu vélræði verið faldar fyrir almenníngi, svo fáeinum aðeins var leyft að lesa þær rétt fyrir náð; þá komu þeir Lúther og aðstoðarmenn hans aptur fram með þær, og luku þeim upp fyrir allri þjóðinni í landinu; og þegar mannlegar setníngar voru komnar í stað Guðs orða, og hinir blindu leiðtogar leiddu með þeim hina blindu, þá komu þessir miklu menn fram, er æ munu í minni vera, og gjörðu það að órjúfanlegri

reglu, ad Guds ord í hinum helgu bókum spámannanna og postulanna, og ekkert annad, skuli vera grundvöllur kirkju vorrar. Einúngis med því móti, ad þessari reglu sé fylgt, verdur Jesús Kristur sjálfur adalhirníngarsteininn.

"Ekkert annad" — þetta eru þeir fúsir á ad hafa eptir nú á dögum, sem fegnir vilja taka burt hvad af ødru, þángadtil ekkert verdur eptir. En þessi ord eru adeins neitunin; þau mida einúngis til ad verja villukenníngum inngaungu í kirkjuna; látum oss ekki gleyma hinu, sem er fullt eins áríđandi, þad er: hvad þad sé, sem hin sanna kenníng er á byggd. Kirkja Krists á ekki svosem ad hánga í loptinu, edur vera reist á sandi; hún er ekki heldur nýtt hús, er nú eigi fyrst ad leggja grundvöllinn ad, svo hver sem vill geti lagt sín rád og sinn skerf til þess; heldur er grundvøllurinn lagdur fyrir laungu, og einginn getur lagt annan grundvøll, enn þann, sem lagdur er. En þad er Guds ord í hinum helgu bókum spámannanna og postulanna. Bækur spámannanna eru ad vísu gamlar og myrkar í mørgu tilliti; og úr því, sem vandskilid er í þeim, má sérhver, sem hefir þekking og skilníng, leitast vid ad greida, eins vel og honum er audid; mørg ein frásaga og margt ordatiltæki mun jafnan verda nokkrum efa undirorpid, og í tilliti til þess, sem ekki snertir sjálft Guds ord, viljum vér gjarnan veita hverjum fullt frelsi. En øldúngis berlega geyma þessar gømlu ritníngar gudlega opinberun, sérlega bodun frá gudlegri veru til mannanna, frábrugdna hinni náttúrlegu í hinum sýnilega heimi, í skynseminni og samvizkunni; øldúngis berlega benda þær til þess, sem koma átti í fyllíngu tímans og verda øllum þjódum til blessunar; Drottinn, Jehovah, segir jafnan fyrir munn spámannanna: sjá, eg set undirstøduStein í Zíon, reyndan stein, dýrdlegan hirníngarstein, fullkomlega fastan, hver, sem trúir, þarf ekkert ad óttast (Es. 28, 16). Ef nokkur reynir til ad ónýta þenna vitnisburd, þá leitast hann vid ad hagga undirstødu Krists kirkju; ad vísu fær hann ekki rofid hana, því hún er óbifanleg um aldur og æfi, en verid getur hann veikli trú annara, ásamt med trú sín sjálfs. Þad liggur, einsog postulinn ad ordi kemst, skýla fyrir augum hans vid lestur hins gamla testamentis, því

einúngis fyrir Krist verdur henni af honum svipt (2 Kor. 3 14; og hvad getur hann þá fundid í bókum hins nýa sáttmála, er ekki styðjist ad öllu leiti vid gamla testamentid, og postularnir vísa jafnan til ritnínga spámannanna, er fullar séu af gudlegum innblæstri (2 Tím. 3, 16), og segja jafnan: vér höfum fundid þann, sem skráð er um í bókum lögmálsins og spámannanna (Jóh. 1, 46), og Drottinn vor og Medalgángari þýddi sjálfur lærisveinum sínum það, sem um hann var skráð í öllum ritníngum spámannanna (Lúk. 24, 27). En ef nokkur leitast vid ad afmá, ekki adeins vald hinna fornu spádóma heldur og vald Krists orda og vitnisburdar postulanna, ef hann kannast ekki vid neitt í þessu, sem honum sé ædra og hann eigi ad leitast vid ad fá skilid, en megi ekki dirfast ad taka neitt burt af því, þó hann geti ekki gripid það, sem á ad vera leidbeining ransókna hans og regla lífernis hans: þá getur trú hans ekki ordid kristileg, því hún er ekki byggd á kristilegri undirstödu. Lotníng er edli allrar gudhrædslu; hinn gudhræddi lýtur Gudi, og dirfist ekki ad deila á skepnu Guds, né á gudlega handleidslu, þótt það sé sumt í þessu efni, sem skammsýnn skilníngur hans fái ekki skilid, né sjái til hvers vera eigi; þannig nálægir sig og kristinn madur ordum Drottins med lotníngu, hann vidurkennir, ad þau séu sett til vitnisburdar handa öllum kynslódum, hann vidurkennir, ad í þeim séu ord hins eylífa lífs, hann leitast vid ad skilja þau æ ljósar og fullkomnar; en sé svo nokkud, er honum sé myrkt og torskilid, þá þegir hann og veit, ad meiri þekkíng og reynsla getur kennt margt, sem vér höfum ekki ádur getad skilid, hann veit, ad hér á jördu er mörg háleit og heilög ræda, sem oss er myrk og fyrst verdur úr greidt, þegar vér í ödrum heimi fáum ad skoda augliti til auglitis. Hvernig sem á stendur, eigum vér ad fordast ad ríra Guds ord, þángadtil það verdur ekki ofvaxid skynsemi vorri, einsog hún nú er, en kappkosta heldur ad auka skynsemi vora, svoad hún fái gripid fyllíngu Guds orda.

Undirstada kirkju Krists er þá Guds ord, sem vardveitt er handa oss í hinum helgu ritníngum spámannanna og postulanna; og svo ekki neitt annad. Edur hvad ættum vér ad setja til jafns vid það? ætti það ad vera fornar söguságnir, er geng-

id hefdu munn frá munni? En hvar finnum vér slíkar, er á allan hátt séu trúanlegar, og vér getum nokkud af lært i raun réttri? Þad hefir sýnt sig of vel, hvílíka byrdi leggja má á samvizkur manna, og hvílíkur samsetníngur getur komid í stad hinna gudlegu sanninda, ef farid er ad meta søgusagnirnar til jafns vid hid stadfesta Guds ord. Edur eigum vér þá ad vonast eptir nýum opinberunum? O! þá væri allskonar trúarvíngli leyfd inngánga í kirkju Krists. Ekkert fyrirheit er til, sem bodi komu nýrra spámanna, og einginn hefir heldur enn komid í ljós, er hafi getad stadfezt sendíngu sína, edur haft nokkurt þvílíkt tákn i før med sér, er hafi getad gjørt einlæga vini sannleikans efablandna; þeir, sem hafa dregid ad sér fávísa menn med hégómlegum brøgdum, hafa skjótt ordid sér til minkunar, ásamt med hinum blindu áhángendum sínum. Edur hefir kirkjan sjálf ótakmarkad atkvædi, svo henni sé frjálst ad bæta nokkru vid Guds órd, og meta svo viddbætirinn til jafns vid þad? Vér trúum þvísannlega, ad Guds Helgur Andi sé ennþá máttugur i kirkju Krists, og í sérhverjum manni, sem einlæglega lýkur upp hjarta sínu fyrir honum; en kirkja Krists er mannlegt samfélag, og í øllu því, sem mannlegt er, getur villan bæglega blandast saman vid sannleikann. Þad á því hér vid, sem annarstadar, ad vér eigum ad ransaka alla hluti, og halda eiríngis hinu góda (1 Þess. 5, 1). En þegar vér ætlum ad gjøra þessa ransókn, þegar vér ætlum ad greina sannleikann frá villunni, þá ber aptur ad því, ad vér høfum ekkert ad mida vid, nema Guds ord sjálft, sem er og verdur hin eina og órjúfanlega regla fyrir øllu því, sem kenna á í kirkjunni. Séu nokkrar adrar bækur, er vér álítum ad séu sønn játníng kristinnar trúar, þá kemur þad til af því, ad þær eru samhljóda Guds ordi, sem ad eittsaman er undirstada kirkju Krists.

En á þessari undirstødu ber oss ad byggja. Borg Guds er ekki komin albúin nidur til vor af himni, svo vér þurfum ekkert ad gjøra, nema horfa á; heldur á kirkja Krists, einsog allt, sem er gott og fagurt á jørdunni, ad eflast æ meir og meir af mannlegri tilstilli, eptir leidbeiníngu orda hans og med adstod Anda hans. Postulinn kallar kirkjuna musteri Guds,

en hann segir ekki musteri þetta sé þegar algjört, heldur segir hann, ad á undirstødu sinni vari øll þessi bygging til heilags musteris í Drottni (Eph. 2, 21). Hann segir, ad Drottinn vorhafi gjørt suma ad postulum, suma ad spámønnum, suma ad gudspjallamønnum, suma ad hirdurum og kennimønnum, til fullkommunar heilagum, til forstødu embættisins, til uppbyggíngar líkama Krists, þángadtil vér ødlumst allir eining í trúnni og vidurkenníngu Guds Sonar, og høfum nád fullordins aldri og fullkomnum þroska Krists safnadar (Eph. 4, 11 og m. v.). Guds ord á ekki ad liggja í felum, þad á ad koma í ljós og verda bædi prédikad og heyrt. Og vér eigum ekki ad prédika á þann hátt, ad vér einúngis lesum upp heilaga ritníngu, heldur eigum vér ad þýda sanuleika þann, sem hún hefir ad geyma, útskíra hann á vora túngu, heimfæra hann til vorra tíma og vors ástands, og leitast vid ad leida hann inní hjørtu mannanna, svo hann geti ordid ávaxtarsamur í trú og líferni þeirra. Þetta er gjørt med mørgu móti í søfnudunum, til þess eru einkum hinar einstøku kirkjur reistar alstadar í kristnum løndum, er kristin alþýda kemur saman í til ad heyra Guds ord prédikad, og til þess eru þeir settir, sem postulinn kallar hirdara og kennimenn. Því svo sannarlaga, sem Gud er ekki Gud óreglunnar, heldur Gud fridarins, og svo sannarlega, sem allt í kirkjunni á ad fara fram med sómasemi og reglu (1 Kor. 14, 33), svo sannarlega má ekki sérhver dirfast ad troda sér fram til ad kenna. Mundu allir vera kennimenn? segir Páll postuli (1 Kor. 12, 29), og annar postuli segir: brædur mínir! margir ydar gjøri sig ekki ad kennimønnum, og viti, ad ábyrgdar hluti vor verdur meiri (Jak. 3, 1). Hid mikilvæga og heilaga embætti, ad kenna í kirkjunni, útheimtir slíka þekkíngu, ad sérhver madur hefir hana ekki til ad bera, og slíka ástundan, er sérhver hefir ekki háft, né mun hafa. Enn þótt einstakir menn séu settir einmitt til þessa starfs, hafa þeir samt einganveginn lykil þekkíngarinnar svo algjørlega á sinu valdi, ad þeir einir skuli ljúka upp og loka, og þótt sérhver madur eigi ekki ad taka sér dómaravald í kirkjunni, þá á samt sérhver ad ransaka, hverju hann trúi sér til sáluhjálpar, og ransaka þad, samkvæmt því ordi, sem allir menn nú um stund-

ir, Gudi sé lof! geta ad komizt, samkvæmt hans ordi, sem er leidtogi allra vor (Matth. 23, 8). Eingirnn getur lagt annan grundvöll, enn þann, sem lagdur er, og ekki er lagdur af eintómum manna höndum; en á þessum grundvelli verdur, einsog postulinn segir, byggt úr gulli og silfri og dýrmætum steinum, en líka úr tré og hálmi; sérhver hyggi ad, hvernig hann byggir, því þad mun verda ransakad, hvílíkt ad sé verk sérhvers manns. (1 Kor. 3, 10 o. n. v.). O, þú Andi sannleikans! yfirgefdu oss ekki ad verki voru, svo þad fái stadizt ransóknina. Því ef vér sækjum dýrmæta steina í djúp sannleikans, og byggjum úr þeim, þá mun þad standa stödugt, er vér byggjum, dagsljósid mun skína blídlega á þad, og eldurinn mun ekki fá eydt því; en ef vér byggjum úr tré og hálmi, þá sýnir dagsbirtan hégóma vorn, og þad, sem vér byggjum, sundrast ódar enn þad rís. Vér erum kalladir til ad standa í gegn lýginni, og eigum ad leitast vid ad rífa þad allt nidur, sem hún hefir reizt. En látum oss aldrei gleyma því, ad vér erum eingu sídur kalladir til ad stydja og styrkja sannleikann, enn til ad eyda villunni, og vökum og bidjum, svo vér reynum ekki til ad rífa neitt þad nidur, sem reizt hefir verid eptir reglu sannleikans. Þad er skammrar stundar verk ad rjúfa, en lengi verid ad reisa aptur. Og einsog Drottinn vor og Meistari sagdi um sjálfan sig, ad hann væri ekki kominn til ad ónýta lögmálid, heldur til ad fullkomna þad (Matth. 5, 17), svo eigum vér og ad fordast, ad afmá neitt af því, sem áunnid er, hversu lítid, sem vera kynni, heldur kappkosta ad fullkomna þad allt, samkvæmt Guds vilja. Sérhver ransaki fyrst og framast verk sín sjálfs, ádurenn hann fer ad ransaka verk annara, svo þad fái stadizt ransóknina. Látum oss um fram alla hluti leitast vid ad efla lotníngúna fyrir því ordi, sem á ad vera adstod vor í umróti tímanna, og athvarf vort í sérhverri neyd, og leidbeiníng vor í ransókn vorri, og regla vor í líferni vorn, og huggun vor í lífi og í dauda.

# 55.
## Skírnin.

Einsog morgunstjarnan bodar daginn, og segir fyrir, ad sólinmuni upprenna innan skamms og skína yfir öll ríki veraldarinnar, eins bodadi koma Jóhannesar skírara, ad sá væri í nánd, er fedurnir hefdu átt von á. Jóhannes var ekki ljósid, heldur átti hann ad vitna um ljósid (Jóh. 1, 8); hann var ekki Kristur, heldur var hann sendur á undan honum (Jóh. 3, 28), til ad greida honum veg: Hann var spámadur, og þó miklu meiri, enn hinir fyrri spámenn (Matth. 11, 9), því sérhver hinna fyrri spámanna hafdi sagt fyrir óljósum ordum, hvad einhverntíma mundi fram koma, en Jóhannes bendti á þad, er þegar átti ad birtast, svo segjandi: sá er nú kominn medal ydar, sem þér þekkid ekki, sá, sem koma mun eptir mig, og hefir verid á undan mér, hans skóþvengi em eg ekki verdugur ad leysa (Jóh. 1, 26. 27). Og medþví Jóhannes skyldi kallast spámadur hins Hæsta, og vera fyrirrennari Drottins vors og búa honum veg (Lúk. 1, 76), fyrirleit hann snemmindis veraldlegan munad og veraldlegan hagnad, hann var á eydimörkum, og herdti þar líkama sinn til íbúdar hinni styrku sál, þar gekk hann fram í krapti og anda Elíasar (Lúk. 1, 17), þar hóf hann upp rödd sína, og allur Gydíngalýdur dreif til hans. En hann prédikadi ekki til þess, ad safna ad sér forvitnum mönnum og hrífa á þá um stundar sakir, heldur sagdi hann: ef þér viljid umflýja tilkomandi reidi, þá verdid þér ad bera þá ávöxtu, er sambjódi betrudu hugarfari (Matth. 3, 7. 8). Og til ad gjöra greinarmun á þeim, er einúngis mundu segja, ad þeir hefdu heyrt prédikun Jóhannesar einsog adrir, og hinna, er mundu íhuga hana og laga þareptir breytni sína, þá tók hann upp skírnina úti á eydimörkum Júdæulands.

Þad er mönnum ókunnugt, hvert ad skírnin tídkadist ádur med Gydíngum; en ef svo hefir verid, þá hafa þeir ekki skírt adra enn heidíngja þá, er tóku trú þeirra; því sjálfa sig álitu þeir heilaga þjód og Gudi þóknanlega, þá er ekki þyrfti ad hreinsast í skírninni. Þarámót vitnadi Jóhannes, ad þeim væri þad

eingin líku, þó þeir væru kalladir børn Abrahams; eggsin, segir hann, ridur þegar ad rótum trjánna, og hvert það tré, sem ekki ber gódan ávøxt, verdur upphøggvid og í eld kastad (Matth. 3, 9. 10). Hann hafdi skírnina til þess ad merkja það, er hann heimtadi, því einsog vatnid hefir þá náttúru, ad það eydir saurindum, eins skyldu þeir, sem fyrir skírnina teknir yrdu i hid nýa félag, hreinsast af andlegum saurindum, og helgast í Guds ótta.

En Jóhannes vottadi sjálfur, ad hann skírdi einúngis í vatni til lifnadar bóta, og ad sá, er eptir hann kæmi, og yrdi honum meiri, mundi skíra med Heiløgum Anda og eldi (Matth. 3, 11). Jóhannes gat vakid samvizkur manna, mátturinn í ordum hans gat komid mønnunum til ad láta af margskonar syndum, en hid nýa líf gat einginn tendrad í hjørtum mannanna, nema sá einn, er sendur var til ad lífga hid dauda. Þegar Kristur kom, var hann all-ólíkur fyrirrennara sínum; því løgmálid, sem fer á undan fagnadarbodskapnum, á ad ógna og hræda, og lýsa Guds reidi yfir syndinni; en fagnadareyrindid lýsir Guds miskun yfir þeim, er hans leita, og tendrar med því trúna, vonina og kærleikann. Þó tilsetti Kristur einnig skírn, og medþví sú tilskipun verdur æ ad haldast í kristinni kirkju, og allir vér høfum skírn tekid, og nidjar vorir eiga ad taka hana eptir oss, eigum vér ad leitast vid ad komast í réttan skilníng um edli kristilegrar skírnar.

Rækileg íhugun veraldarinnar og ástands hennar lætur án efa sérhvern, sem hreinskilinn er, sanna ord postulans, ad allur heimurinn velkist í hinu vonda (1 Jóh. 5, 19). Vér dyljumst eingânveginn vid það, sem gott er í verøldinni, vér sjáum daglega umhverfis oss, ad Gud lætur sig ekki án vitnisburdar, er hann gjørir oss gott; vér vidurkennum einnig í hjarta voru, ad hver gáfa og hver sýsn, sem Gud hefir innrætt oss, midar í øndverdu til góds, og ad vér erum enn Guds ætt, eptirþví sem postulinn ad ordi kemst (Post. 17, 29), og ad **það** er til í oss, er endurnýazt getur eptir mynd hans, er skóp oss (Kól. 3, 10). En hin sýnilega paradís er ekki einsaman horfin, heldur er einnig spillíngin runnin inn í hjørtu allra manna, og hefir skemmt og aflagad það, er gott var í sjálfu sér og øndverdlega, Guds

ótti og ást á Gudi haldast ekki vid, sannleiki og rettvísi eru ordin mønnum svo léttvæg, þeir søkkva sér ýmist nidur í ómennsku, eda sýkjast í jardneska muni med áksfum og saurugum girndum. Móda spillingarinnar streymir í gegnum allar kynkvíslir, og madurinn fædist ekki nú á døgum einsog hinn fyrsti madur kom frá hendi Skapara síns, vér eru allir í syndinni getnir, og erum á marga vegu hádir verøldinni, er velkist í hinu vonda. Medvitundin um þetta knýr oss til, ad leita til Frelsara veraldarinnar, og hlýda fagnadareyrindinu um hann, er sjálfan sig gaf í dauda, ad vilja Guds Fødur vors, vegna synda vorra, svoad hann frelsadi oss af ófarsæld yfirstandandi aldar (Gal. 1, 4). En frelsi þad, er Kristur heitir oss, er ekki í því fólgid, ad hann muni taka oss úr verøldinni, heldur í því, ad hann muni, ádurenn vér yfirgefum verøldina, gjøra oss hluttakandi endurlausnar þeirrar, er hann hefir afrekad. En þad gjørir hann med því einu móti, ad vér adhyllumst hann af øllu hugskoti voru, og í því skini tilsetti hann skírnina. Þegar hann sendi frá sér lærisveina sína ad boda fagnadareyrindid um øll ríki veraldarinnar, þá baud hann þeim ad skíra í nafni Fødur, Sonar og Heilags Anda (Matth. 28, 19); og þegar hann lýsti dómnum yfir þeim, er ekki trúa, þá bætti hann vid fyrirheitid til þeirra, er trúa, því skilyrdi, ad þeir létu skírast (Mark. 16, 16).

Á þeirra nóttu, er einn af høfdingjum Gydinga kom til Jesú, sagdi hann þegar þessi hin merkilegu ord: ef madurinn fædist ekki af vatni og anda, getur hann ekki fengid inngaungu í Guds ríki (Joh. 3, 5); og hver getur efazt um, ad hann hafi med þessum ordum bent til skírnar þeirrar, er lærisveinar hans veittu þeim, er á nafn hans vildu trúa? Þad var einsog hann segdi: sála þín er snortin af krapti sannleikans, þú ert farinn ad hallast til hans, þad getur verid, þú sért ekki fjarlægur Guds ríki; en þú ert enn á reiki, þú fyrirverdur þig enn fyrir mig og ord mitt, þú leynist á fund minn einsog þú hefdist eitthvad illt ad; og þessvegna ertu ekki enn hluttakandi Guds ríkis, því þad lýkst ekki upp nema fyrir hinum trúndu; getirdu trúad, þá muntu sjá dýrd Guds, þá muntu ekki fyrirverda þig ad kannast vid trú þína, edur taka skírn, til merkis um ad þú trúir, þá munu

kraptar himnaríkis birta sig í þér og blessun þess verda hlutskipti þitt.

Ad vísu var þá, og lengi eptir, allt ødruvís ástatt, enn nú er. Þegar einhver tók skírn, þá yfirgaf hann ad sønnu ekki verøldina, og þurfti ekki ad flýa samfélag annara manna, og átti, einsog postularnir gjørdu, ad vinna sér braud eptir sem ádur, og fullnægja hverri skyldu af meira fúsleik og meiri samvizkusemi; en hann gekk þó í eitt lítid félag, sem verøldin hatadi, og þola vard hádúngar og ofsóknir, svoad margir urdu jafnvel ad tæma hinn sama bikar, sem Drottinn þeirra og Meistari hafdi tæmt, en í erfidi, baráttu, mótlæti, píslum og dauda áttu þeir, sem í því voru, fyrir trú, von og kærleika ad ávinna sér ódalsrétt í hinu himneska og eylífa ríki. Flestir þeir, er þá voru teknir í félag þetta, voru á þeim aldri, ad þeir vissu hvad þeir gjørdu; ábati, vinsæld og munadur tældu þá ekki til ad gánga í þad, þessvegna þurfti hugprýdi til þess; þeir, sem vid skírninni tóku, hafa sjálfsagt á undan verid óránir og efablandnir lángan tíma edur skamman, en sídan ødlazt sannfæringuna í hjarta sitt, en ekki haft þor til ad gánga vid henni, þángadtil þeir hafa rádid af um sídir ad þjóna ekki tveim herrum lengur, og fyrirverda sig ekki framar fyrir Krists fagnadarbodskap; og þegar hann hefir sídan af einlægu hjarta gjørt sáttmála gódrar samvizku vid Gud, fyrir hinn krossfesta og upprisna Jesúm Krist, þá hefir þad eflaust verid Gudi þóknanlegt, þá hefir Gud þegid fórn hans og stadfezt í skírninni gjørdan sáttmála, veitt honum gjafir Andans, og látid Krists fagnadarbodskap verda honum krapt til sáluhjálpar.

Þetta hid litla félag hefir sídan aukizt og margfaldazt svo þad nær yfir lønd og ríki, og í kristnum løndum fylgir því eingin þrenging né hætta ad kalla sig kristinn, heldur fylgir því jardneskur hagur; skírnin er meira ad segja nú á døgum sjaldan í valdi þess, er hana hlýtur, né sprottin af þekkingu hans og ásormi, heldur eru úngbørnin skírd, ádurenn þau vita hvad fram fer, og nefnd kristin, um leid og þau hljóta þad nafn, er þau eiga sídan ad hafa. Er þad rétt gjørt, ad ráda þannig hag barnsins án þess samþykkis, og bída ekki þess tíma, ad þad

geti sjálft kosið hvert sem það vill; er það rétt gjört að gefa, fyrrenn barnið hefir vit á að bidja?

Þeir hafa jafnan til verið, er vildu fyrirmuna það; stundum hafa þeir sagt, að meðþví að skírnin gjöri kost á fyrirgefningu syndanna, þá skuli menn ekki flýta henni, fyrrenn einsog búið sé að safna syndum og saurgun, handa skírninni að afmá, og því hafa margir skotið skírninni á frest allt til hinnar síðustu stundar, til að geta unað sér því lengur við syndir sínar; stundum hafa þeir borið fyrir sig, að þótt barnið sé borið í synd, og saurgað af arfgengri spillingu, og þurfi því Krists líknar, þá finni það framanaf ekki til spillingar þeirrar, er það þurfi af að leysast, og geti ekki unnið til miskunar Krists með iðrun og apturhvarfi, og ekki bundið heit skírnarinnar, sem fyrirheit hennar sé þó allt undirkomið. En í kristinni kirkju hafa menn ætíð munað til orða Drottins, þá er börnin voru til hans færð, svoað hann legði hendur yfir þau. Lærisveinum hans þókti ótilhlýðilegt, að leiða fram börn, sem ekki hefðu vit á, hvað við þau væri átt, til að láta blessa þau. En Drottinn vor þykktist við þá og tók svo til orða: leysið börnunum til mín að koma, og bannið þeim það ekki, því slíkum heyrir Guðs ríki til (Mark. 10, 13). Þessi orð skiljum vér eflaust einsog Drottinn hefir til ætlazt, ef vér fyrirmunum ekki börnunum að komast fyrir skírnina í samfélag við hann, sem er Frelsari allra manna. Vér vitum að postularnir hafa optar enn einusinni skírt menn með öllum hjúum þeirra (Post. 16, 33. 1 Kor. 1, 16), og þá er ekki líklegt, að Feðurnir hafi fyrirmunað börnum sínum að koma til Drottins ásamt sjálfum honum, og látið þau vera eptir í samfélagi heiðingja eða Gyðinga, sem hann var sjálfur að yfirgefa, eða að postulunum hafi úr minni liðið það, sem Drottinn hafði ávítað þá um. Og þó menn séu komnir til vits og ára, og þeim sé alhugað að taka skírn, þá eiga þeir samt ekki fyrirheit Drottins vors, því, eptirþví sem postulinn að orði kemst, frelsaði Guð oss með endurfæðingar lauginni, ekki vegna réttlætandi verka, sem vér höfum gjört, heldur af náð sinni (Tit. 3, 5) og vér gleðjumst við þá tilhugsun, að hinn eylífi, himneski, miskunsami kærleiki nái til barnsins og blessi það, áðurenn það hefir vit á

því, eda veit hvad vid þad er átt, og þegar þad vaxi upp, þá finni þad, ad þad sé komid í þad samfélag, sem þad eigi ad verda í med Guds hjálp.

En audskilid er, ad ef madurinn á ad hafa not þeirra gæda, sem kristninni fylgja, þá verdur hann ad tileinka sér þau í trúnni, þá verdur hann ad færa sér í nyt skírnarréttindi sín og halda skírnarheitin. Þad er því fullkomlega tilhlýdilegt, ad únglíngurinn endurnýi og stadfesti skírnarsáttmála sinn. Eg tala um únglínginn, þegar veröldin tekur ad ljúkast upp fyrir honum, og hann kann ad eiga fyrir höndum ad yfirgefa foreldra sína, og fara þángad, sem einginn hefir gát á honum, og fáir verda til ad leggja honum rád, og hann á sjálfur ad sjá um sig, og opt og einatt hefir eingan hjálparmann, og heyrir ekki annad enn spott og dramb veraldarinnar, ginníngar munadarins og tilhvatníngar ágirndar og hégómagirni, í stad áminnínga, vidvarana og upphvatnínga, er hann ádur heyrdi — eg tala um únglínginn þegar hann er þroskadur, og skilur hvad vid hann er mælt, og veit hvad hann talar sjálfur; þá segjum vér til hans: vidurkennir þú, ad þad sé til vondt, svikafullt og skadsamlegt vald, sem umkríngi oss öllumegin, og vidurkennir þú, ad þad sé óvinur Guds og manna, og sálar þín sjálfs, og viltu afneita þessu valdi? vilt þú adhyllast, í sannri og lifandi trú, Gud, almáttugan Födur, Drottinn og Skapara himins og jardar, og þann, er hann sendi Jesúm Krist, sem ífrá eylífd er sameinadur Födurnum, gjördist madur og brodir vor, og seldur er í daudann fyrir afbrot vor, og vakinn af dauda til réttlætíngar oss, og Heilagan Anda, sem kemur af himnum í hjörtu þeirra, er hans æskja, og býr þá og lagar undir Guds ríki? viltu muna, hvad þú hefir heyrt og numid, og hverju þú hefir heitid í æsku þinni, og gleyma því ekki, þóad veröldin gleymi því, heldur muna til þess jafnan vid vinnu þína og í freistíngum þínum, í medlæti og mótlæti, og vardveita þad þángadtil þú verdur spurdur, hvernig þú hafir efnt loford þitt? Svari þá únglíngurinn, ad þad vilji hann víst, þá blessum vér hann, og veitum honum full réttindi í söfnudi vorum.

Samt sem ádur getur verid, ad ekki fylgi hugur máli,

enda eru menn ekki sjálfrádir um þetta með öllu, því kristnir söfundir mega ekki láta það vidgángast, ad hinir úngu alist upp án frædíngar í kristinni trú, edur ad medöl nádarinnar séu vanrækt, og vér, sem eldri erum, verdum ad láta sjá vott þess, ad vér höfum leidt hina úngu, er oss var fyrir trúad, til þekkíngar á Kristi, og reynt ad glæda í hjörtum þeirra trú og gódan ásetníng, og festa þá vid hann, sem er Frelsari allra manna. En svo er þad undir sjálfum þeim komid, hvert þeir vilja vid kannast, ad skírnin gyldi nokkud og skuldbindi þá, og því rídur ekki mest á því, hvad fram fer fyrir mannasjónum, heldur á því, hvad fram fer milli Guds og mannsins sjálfs; því skírnin er, eptirþví sem postulinn ad ordi kemst, ekki burtnám saurinda af líkamanum, heldur sáttmáli gódrar samvizku vid Gud fyrir upprisu Jesú Krists (1 Pét. 3, 21). Þenna sáttmála getur eínginn gjört fyrir vora hönd, og rétt stadfestíng skírnarinnar er því ekki fólgin í ordum, heldur í huga, hún er í því fólgin, ad madurinn hugsi, einsog postulinn krafdist af hinum blálenzka manni, er beiddi hann skírnarinnar: eg trúi, ad Jesús Kristur sé Sonur Guds (Post. 8, 37), eg trúi, ad af honum einum sé hjálpræðis ad vænta, því mönnunum er ekkert annad nafn gefid, er þá megi hólpna gjöra (Post. 4, 12), og fyrirþví vil eg adhyllast hann, og trúa á hann í lífi og í dauda, og verda þannig í samfélagi vid því, er eg er í tekinn fyrir skírnina; eg tileinka mér skyldur þær og réttindi þau, er henni fylgja.

Nú kynni einhver ad segja, ad trúin sé þó ætíd mest árídandi, og, medþví ad trúin hafi fyrirheitid, þurfi ekki skírnarinnar vid; og vér þrætum med eingu móti; ad hver, sem hefdi sanna og lifandi trú, yrdi fyrir hana hluttakandi sáluhjálparinnar, þó eitthvad, sem hann gæti ekki ad gjört, hefdi bægt honum frá skírninni. En er skírnin óþörf fyrir þad? Madurinn gæti ad sönnu nærst aumlega af villi-ávöxtum jardarinnar; en er samt vanþörf á, ad Gud gefi honum betri fædslu, til ad endurnæra hann og efla krapt líkama hans? eda var þad óþarfi, er Drottinn tilsetti nádarmedöl, til ad glæda trúna og vonina og kærleikann, og vekja til fyllra og gladara lífs? Þegar módir þín fæddi þig í heiminn, var þér gefid mannsnafn, og þegnréttur

á jørdu, og tilkall að þínu leiti til þeirra gæða, er þessi heimur megnar að veita; en þegar Drottinn vor tók við þér fyrir laug endurfæðíngarinnar, hlauztu nafnið kristinn, og þegnrétt í hinu himneska ríki og hlutteknìngu þeirra gæða, er Kristur kom að veita. Að sønnu er skírnin ekki sama og hin andlega endurfæðíng; en allt ífrá þeirri tíð, er þú varst skírður, hefir þó Heilagur Andi kallað þig, og verið þér nærstaddur, og boðið þér þær gjafir, er umbreyta manninum að hug og hjarta, og endurfæða hann til hins eylífa lífsins. Hefir þú nokkurntíma fært þér í nyt réttindi þau, er þú hlauzt í skírninni? hefir þú nokkurntíma sagt við sjálfan þig í fullri alvøru: eg finn, að eg er bundinn af því valdi, er þá umkríngdi mig? eða segir þú það nú á þessari stundu? sé svo, þá ertu réttlættur fyrir Guðs miskun og hluttakandi hins eptirvænta eylífa lífs (Tít. 3, 7). Því þegar þessi orð voru fyrst søgð yfir þér í skírninni, var það ekki einúngis eptir mannlegri tilskipan, og ekki í nafni neins manns, heldur í nafni Drottins þíns og Frelsara; þá voru þau søgð einmitt til þín, en til einkis annars, og viljir þú enn tileinka þér þau, þá ná þau til þín jafnt og hvers annars. Hver hefir ekki reynt, að sálin getur trúað á Guð, og trúað því, að Jesús Kristur hafi komið frá Guði til að frelsa veraldina, en að trú þessi getur þó verið svo dauf, að hún glæðir ekki fjør og fognuð í hjørtum vorum? Það er einsog oss finníst, að alltsaman þetta snerti einúngis allt í sameiníngu, en ekki neitt einstakt — snerti (segi eg) veraldina allasaman, eða einhverja útvalda, en ekki oss. Þá vantar trúna eitt af því, sem mest á ríður, sem er, að tileinka sér, eða heimfæra til sjálfs síns. En svoað þetta vanti ekki, þá eru tilskipuð þau hin helgu embætti, er vér køllum "sakramentin", og veitt eru hverjum manni útaf fyrir sig. Skírnin er ekki prédikun um réttlætíngu og eylíst líf fyrir Krist, heldur er hún þjónusta, er Drottinn vor hefir boðið að veita skuli hverjum manni. Hvert það barn, sem fætt er í kristnu landi, þó það sé svo lítilmótlegt, að mennirnir hirði ekki um, hvað því líður, og þó það væri fætt í veslasta hreysi og í jøtu lagt — þá fyrirlítur hann það ekki, er reyndi sjálfur hið sama, og vér þjónustumenn hans fyrirlítum það ekki, heldur segjum vér: Frelsi-

ari veraldarinnar sameinar sig þér í skírninni, og viljir þú með tímanum sameina þig honum í sáttmála góðrar samvizku, þá ertu í hlutskipti með honum, og ødlast hið eylífa lífið til jafnaðar við hvern af þeim, er sýnast vera mestir Guðs ástvinir.

Er þá svo auðvelt að tendra í oss trúna og glæða hana, að vér þurfum eingan þann þant, er hún megi aukast af? Ó, þú Høfundur og Herra safnaðar vors! þú þekktir hjørtu vor betur, enn hinir tilfinníngarlausu vitríngar; þú vissir gjørla, að á sumum tímum eru hjørtu vor svo full vonar og sælu, að ekki þarf nema eitt orð til að vekja í oss slíkan hug, að vér óttumst hverki neyð né dóm, hegníngu né dauða. En þú vissir einnig, hversu hverfull að hugur vor er, og að tímar neyðarinnar koma yfir oss; neyðarinnar, segi eg — ekki aðeins húngurs og ørbyrgðar og líkamlegra þreugínga, heldur hinnar þúngu andlegu neyðar, þegar hjarta vort tekur að finna til þýðingar þessara orða: einmana, yfirgefinn, útskúfaður, glataður; þá vildir þú, að það skyldi finna til þýðingar þess, að þú í skírninni sameinaðir þig sérhverjum af oss, svoað hver sá, er á þig trúir, fyrirfarist ekki, heldur ødlist eylíft líf. Þú sást, að vér erum herfáug dauðans; þú vissir, að dymma dauðans mundi optsinnis umkríngja oss, áðurenn andlátsstundin rynni upp yfir oss sjálfum; og þegar vinur stendur yfir grøf vinar síns, og veit ekki, hvert hann er farinn — þegar móðir stendur yfir líki barns síns, og getur ekki hjúkrað því né annazt það framar, þá segir þú svo, Drottinn minn: eg er kominn í þinn stað; í skírninni hét eg hollustu minni þeim, er þú tárast yfir, og kallar þig hafa mist; en sáttmáli minn er eylífur jafnt og líf það, er eg veiti. Og þegar kvølda tekur og á daginn líður fyrir oss sjálfum, þá ert þú enn hjá oss — þá græða þín huggunarorð vor særðu hjørtu — þá minnir þú oss á, að þegar vér fæddumst í heim þenna, vorum vér um leið vígðir til dauðans, en þegar þú endurfæddir oss fyrir skírnina og fyrir samfélag Anda þíns, þá vígðir þú oss til eylífs lífs, þá sameinaðir þú sjálfan þig oss, og það band slitnar aldrei, er sameinar þér hina trúuðu.

Það er til djørfúng í trúnni, er í því kemur í ljós, að kristinn maður, í kvíða sála sinnar og hinni ørðugu baráttu,

einsog beitir réttindum skírnarinnar við Drottinn sinn og Frelsara, og dirfist að minna hann, eða þó ennfremur sjálfan sig, á öll þau fyrirheit, sem við eru tengd sáttmála skírnarinnar, og heldur sér føstum við Drottinn, svo mælandi: eg læt þig ekki lausan, fyrrenn þú blessar mig (1 Mós. 32, 26). En séu réttindi, eru og skyldur. Þegar Drottinn safnaðarins sameinaði sig þér í skírninni, þá snerta loford hans einga aðra, heldur lofar hann þér hjástoð Anda síns, og réttlætingu og eylífu lífi; enda snerti og skuldbindingin í það sinni eingan nema þig. Þú varst skyldaður þá til að hafa kristilega trú, og vera stødugur í henni, og láta ekki spott né léttúð né hirðuleysi svipta þig þessu hinu helga hnossi; enda varstu þá og skyldaður til að lifa kristilega, og reyndar er hvorttveggja sama skuldbindingin; því allt sem af Guði er fætt yfirvinnur heiminn, og trú vor er sá sigur, sem yfirvinnur heiminn (1 Jóh. 5, 4); nú ef heimurinn sigrast á oss — ef vér verðum ekki fyrir trú vora glaðari, styrkari, betri, enn vér mundum vera án hennar: til hverra nota er hún oss þá, eða hvernig høfum vér þá fullnægt skuldbindingu skírnarinnar? Þar sem Páll postuli talar um skírnina, bætir hann því við, að þeir er sett hafi trú til Guðs, eigi að leggja stund á að taka øðrum fram í góðverkum (Tít. 3, 8). Hann meinar ekki, að vér skulum drambsamlega hreykja oss upp, og vilja vera fyrirmynd annara, því sá er ekki nema einn, er vér eigum allir eptir að breyta. Hann meinar ekki, að oss geti safnazt verðleikar af góðverkum vorum, svoað vér getum orðið réttlættir fyrir sakir vorra hinna vesælu verka, sem eru svo fá og svo lítilsverð og ófullkomin, heldur fyrir Guðs miskun í Kristó Jesú, Drottni vorum. En postulinn meinar, að þar sem hin sanna trú hafi tekið sér bólfestu, þar verði ávextir að koma í ljós. Hann meinar, að þegar einhver segist trúa á Guð í hjarta sínu, þá megi hjarta hans ekki vera bendlað við heiminn — þá megi hann ekki láta veraldlegan munað né veraldlegar þjáníngar vinna svig á sér — þá verði hann að hafa það til að bera, sem þá vanti, er ekki trúi á Guð — þá verði hann að hafa meiri ósérplægni og hlýðni og auðmýkt og þolinmæði og staðfestu og ást á Guði og mønnum, enn vereldin hafi, eða geti kennt. Það fer aldrei vel-

þegar einhver häggar einhverri grein, sem vel er á røkum byggð; því hann rírir með því krapt og fyllingu sannleikans bæði fyrir sér og øðrum, en hitt er þó enn verra, að hagga einhverri kristilegri lífernisreglu, og kenna ekki og breyta ekki samkvæmt henni. Drottinn vor segir: hver hann haggar einu af þessum boðorðum, er minnst sýnist um varða, og hvetur aðra til þess, hann mun minnstur kallast í himnaríki (Matth. 5, 19); hversu mætti þá nokkur dirfast að hagga hinu mikla boðorði kærleikans, og vænta sér þó hlutskiptis í himnaríki? Skírn vor sameinar oss að vísu Guði á himnum, en hún á einnig að sameina oss hverja øðrum; vér eigum að kappkosta að lækna en særa ekki, að hlífa en áfella ekki, að safna en dreifa ekki, svoað sé einn líkami, einn Drottinn, ein trú, ein skírn, (Eph. 4, 5), eptirþví sem Drottinn vor sagði sjálfur: það á að vera ein hjørð og einn hirðir (Jóh. 10, 16). Þetta er sáttmáli skírnar vorrar.

En einsog vér eigum að beita sáttmála þessum við sérhverja illa girnd, sem ætlar að tæla oss, eins eigum vér að beita honum við hverskonar trúleysi; vér eigum að segja við sjálfa oss: hann, sem forðum sagði: komið hingað, smábørn! því Guðs ríki heyrir yður til — hann segir enn: komið hingað, þér, sem erfiðið og þjáist! vertu ekki hrædd, segir hann, þú hin litla hjørð, því Føður yðar þóknast að gefa yður ríki sitt (Lúk. 12, 32).

---

# 56.

## Hin heilaga kvöldmáltíð.

### Fyrri hugleiðingin.

Það er víst, að sú dýrkun, sem vér eigum að veita Guði, er ekki fólgin í hinni ytri þjónustu einnisaman, en þó mundi lítið verða um hina innri guðsdýrkun, ef engin ytri þjónusta væri, sem lífgaði hana og efldi. Það er einsog heimurinn dragi oss að sér með hundrað høndum, og þessvegna þarf máttugar hvatir

til ad draga oss aptur frá honum til Guds. Máttugar þurfa þær ad vera — en ekki háværar; þad eiga ekki ad vera háar raddir, er hrópi inni skarkalann; því fer svo fjærri, ad þad er allt harla kyrrlátt, sem snýr huganum til Guds, og hinar helgu raddir, sem koma ofanad nidurí hinar marghátttudu athafnir mannanna, og innanad úti hinar marghátttudu hugrenningar sálarinnar, láta aldrei til sín heyra, nema þegar kyrrt er um. Þad er undirrót allrar hinnar ytri gudsdýrkunar, ad til séu einstøku nædisstundir innanum allan háfada þann, sem kemur af størfum eda gledskap mannanna. Þegar postulinn segir: verid stødugir í bæninni og kostgæfnir med þakkargjørd (Kól. 4, 2), hvetur hann med því sérhvern kristinn mann, til ad leita sér nædisstunda í óróssemi lífsins, því alúdleg þakkargjørd og bæn á hvergi heima nema í kyrrd og spekt. Hid forna bodord, er svo hljódar: sex daga skaltu verk þitt vinna, en sjøunda daginn skaltu hafa fyrir hvíldardag (2 Mós. 23, 12), býdur oss, ad láta ekki hjól athafna vorra snúast og suda án afláts, þó vér eigum ad verja þeim tíma, sem oss er ákvedinn í verøldinni, til ad starfa ad ætlunarverki voru; stødva þig, þú ædandi straumur manngrúans! hvílist þér, sem erfidid! og hvíl þú þig, mannlegur andi! og hrind á burt hinum áhyggjufullu og kvídvænu hugrenningum, svoad kyrrt verdi kringum þig og í þér, og þú hafir tóm til ad hugsa um þad, sem eitt er naudsýnlegt, og getir fært Drottni þínum gudrækilega bænarfórn.

Nædissøm stund fyrir eda eptir eda innanum ókyrrleika dagsins, nædissamur dagur eptir hina virku daga vikunnar, er sálunni eins ómissandi, og kyrrd og ró er þreyttum líkama. Þad er sidur í kristnum løndum, ad páskavikan sé kyrrdarvika; á þeirri viku eiga menn ekki ad safnast saman til gladværdar, heldur til alvarlegra hátídishalda, þá má einginn almennur gledskapur vera, né mørg sunur meinlaus skemtun, heldur eiga menn þá ad verda hæglátari í hegdan sinni, svo þeir geti ordid þad líka í huga sínum. Ekki viljum vér einskorda ofmjøg háttalag manna, því vér viljum ekki neyda menn til ad þjóna Gudi af hræsni; en samt viljum vér ekki hagga þessari gømlu, føgru og nytsamlegu venju; menn mega ekki leggja nidur hina sýnilegu

gudsdýrkan, því ella mundi og hin óſýnilega fyrirfaraſt. Til hvers er kriſtni ſú, er vér tölum um, ef vér minnumſt ekki hans, ſem elſkadi oſs, og ſeldi ſjálfan ſig í dauda vor vegna, né kvala þeirra, er hann keypti oſs med, né dauda þeſs, er hann gaf oſs líf med? En hvernig eigum vér ad vardveita minníngu þeſsara hluta óbrjálada, ſé ekkert til ad minna oſs á þá?

Í páſkavikunni er einn dagur, ſem minnir oſs á ſtofnun hinnar heilegu þjónuſtugjördar, er Drottinn vildi einkum láta halda í minníngu ſína. Pad er harla fátt, er Kriſtur hefir ſjálfur ſkipad fyrir um ſidi kirkju ſinnar. Hann ſagdi vid poſtula ſína: farid út um allan heim og kennid fagnadarerindid (Mark. 16, 15), og enn í dag ſegir hann vér ſkulum kenna, því kenning Guds orda er grundvöllur kirkjunnar, og þegar Guds ord er kennt hreint og ómeingad, hefir Drottinn látid oſs þeſs ſjálfráda, med hvada þjónuſtugjörd vér vildum reyna ad veita því framgáng, og efla áhrif þeſs. Hann hefir ekki ſkipad fyrir nema tvo hluti, og mega menn ekki ſleppa þeim í kriſtinni kirkju, því þad, ſem hann hefir bodid, má einginn madur af taka. Annar hluturinn er hin heilaga ſkírn. Madurinn á ekki ad vera órádinn í, hvert hann vilji heyra Kriſti til eda ekki; þar er ekki um lítilvægi ad tefla, ſem þú getir leidt hjá þér, heldur er undir því komid allt hugarfar þitt og trúnadartrauſt, og allar adalreglur breytni þinnar; og því máttu hverki vera efablandinn né heldur fyrirverda þig; trúdu og játadu trú þína! ſegir ſá, er tilſetti ſkírnina, ſem er vígſla játenda hans, þá er þeir gánga í félag hans, og æ er hin ſama hver ſem í hlut á, hvert ſem hann er heldur klæddur purpura edur törum. Paradauk tilſetti Drottinn kvöldmáltídina; hid ſídaſta kvöld æfi ſinnar, þegar illar hugrenníngar voru farnar ad kvikna í hjarta ſvikarans, og veldi myrkranna voru þegar búin til ad nota ſér vald þad, er þeim hafdi verid veitt, og þeſs var ſkammt ad bída, ad vinir Jeſú mundu tvíſtraſt, og hann ekki framar leidbeina þeim ſýnilega: ſafnadi hann ſaman hinum fáu, er ávallt höfdu verid honum handgengnaſtir, og braut braudid, og gaf þeim kaleikinn, og

sagdi: þad er eg nú gjøri, skulud þér framvegis gjøra — gjørid þad í mína minningu!

Á þenna hátt tilsetti Jesús nædisstund innanum hinar morgu ónædisstundir mannlegs lífs; tvístrist þér og farid hver til sinna starfa, hafid nægtir eda þolid skort og mædu, en þegar andstreymid er á enda kljád, og hid blída edur strída um gard gengid, þá farid og safnist samann í kyrrþei med brædrum ydar, sem hafa hina sømu sýslu, og látid endurminninguna taka sér þar bólfestu hjá voninni, og audmýktina hjá trúnni, og þá mun hid jardnekka skína med helgum ljóma í augum ydar, og hid himneska taka á sig sýnilega mynd, og þar mun ydur verda borinn sá kaleikur, er hin þyrsta sál mun fá svølun af! Nú er allt ødruvísi ástatt fyrir kristninni, enn á fyrstu tímum hennar. Játendur Krists urdu þá ad þola ofsóknir, og safnast saman á laun, en nú vernda løgin þá, og þeir safnast saman í skrautlegum musterum, en þó er allt, sem mest á rídur, enn hid sama; á ølturum vorum stendur enn braud lífsins og kaleikur hins nýa sáttmála, og Frelsari heimsins breidir þar enn blídlega út fadm sinn, segjandi: komid hingad til mín allir, sem erfidid, og þjádir erud, eg mun veita ydur hvíld (Matth. 11, 28).

Og hver er sá medal vor, er hann kalli ekki til sín med þessu ávarpi? Því hver er sá madur, er ekki þjáist undir byrdinni? Hann kallar þá til sín, sem þjást undir fátækt og eymd, og þá sem þjást undir audæfum og upphefd, gamalmennin, sem bogna undir þúngslum ellinnar, og únglingana med hin ókyrrlátu hjørtu í barmi sér, sem þjást af hinni marghháttudu von og hinum margvíslega kvída, er lífid sendir í veg fyrir þá; hann kallar þá til sín, sem lengi hafa sókzt eptir Guds ríki og hans réttlæti, en finna þó til hita og þúnga dagsins; hann kallar einnig til sín syndara, sem hrekjast hvíldarlaust úr einum stad í annan, af hinni þúngbæru medvitund, er einginn fær af þeim létt; hann kallar til sín hina daufu og sljófu, til þess andinn geti lífgad þá, og þeir geti vaknad úr svefninum, og hina spøku og vitru, sem flækzt hafa inní miklar efasemdir, þegar ein hugmyndin er annari gagnstæd, og þá fer ad svima á hædum þeim, sem þeir eru uppá

komuir: komið hingað, segir hann, hinar þjáðu mannskepnur allarsaman, svo þér megið öðlast hvíld handa sálum yðrum.

Hversu fagurt og dýrmætt er það, að Drottinn býður öll-um til sín að koma. Boð hans hljómar á svo mörgum og ólíkum stöðum, og á svo mörgum ólíkum málum, og hvervetna nær það til allra hinna mörgu ólíku manna, og hvervetna segir Drottinn: komið hingað allirsaman, með alla byrði yðra; þann, sem til mín kemur, skal eg einganveginn frá mér reka (Jóh. 6, 37). En þareð Drottinn vor og Meistari, sem einnsaman veit, hvað með sérhverjum býr, hefir sagt þetta, ættum vér þá að dirf-ast að setja dómarasæti við hliðina á altari Drottins, og eigna oss vald á að reka þá út, er vér höldum ómaklegir sén, og eigna oss vald á að lesa illgresið úr hveitinu, fyrrenn Drottinn kemur, sem í ljós mun leiða það, sem í myrkrum var hulið, og opinberar gjöra hjartnanna hugsanir, og láta sérhvern fá sín laun (1 Kor. 4, 5)? O! þeir vita ekki hvað þeir gjöra, sem vilja ríkja yfir arfleifð Drottins, þeir vilja loka dyrunum til Drottins, og standa við þær svosem dyraverðir, svo einginn geti komizt út né inn, nema fyrir þeirra tilstyrk; en vér viljum gjöra dyrnar háar og víðar, svo hver geti komið, sem þyrstur er, og hver, sem vill, geti fengið vatn lífsins ókeypis (Opinb. 22, 17). Sagði ekki Drottinn sjálf-ur: vei yður, lögiærðir og Fariseear! sem hamlið mönnum frá því að öðlast Guðs ríki, því sjálfir hirðið þér ekki um að njóta þess, og hindrið þá, sem þess vilja leita (Matth. 23, 13)? Að vísu veit eg, að Drottinn gaf hinum mikla postula lykla himnaríkis (Matth. 16, 19), og að hann sagði við postula sína: hvað þér bindið á jörðu, skal á himni bundið vera, og hvað þér leysið á jörðu, skal á himni leyst vera (Matth. 18, 18). En erum vér þá postular? hefir Drottinn einnig gefið oss vald á að sitja í hásætum (Matth. 19, 28), og dæma þjóð vora, og dæma söfnuð Drottins? Og hvaða vald sem Drottinn hefir gefið postulunum eður oss, þá hefir hann gefið það til uppbyggingar, en ekki til tjóns (2 Kor. 10, 8), til að safna og sætta, en ekki til að tvístra og skemma. Að sönnu veit eg, að eg má meta gjörðir manna, og prófa þær fyrir samvizku minni, og nefna sumar góðar en sumar illar, og að eg má og á að vita menn fyrir lesti og synd-

ir, en uppørsa þá til apturhvarfs; en þegar eg sé einhvern snúa frá villigøtu sinni, og koma til h a n s, sem kalladur er Fridþægari syndaranna, og koma af sjálfsdádum þángad, er hann má vita eins vel og eg; ad vér verdum allir ad segja: Gud veri oss aumum syndurum líknsamur! hví skyldi eg þá dirfast ad kefja þessa hrærúngu í hjarta hans? hver em eg, ad eg skyldi dirfast ad taka hinar skelfilegu metaskálar dómsins, og vega mann mót manni, og segja: þessi er oss léttur? Nei, Drottinn minn! eg finn, ad þú hefir ekki salid mér í vald lykla himnaríkis, mín vanmáttug hondgæti ekki valdid þeim; eg bid þig andvarpandi, ad ljúka upp af miskun þinni ríki þínu fyrir mér, en eg æski ekki ad eigna mér þad dómaravald, er þú hefir áskilid vizku og mætti þín sjálfs. Þegar konúngurinn í dæmisøgunni (Matth. 22, 2 v. nn. vv.) sendi þjóna sína ad bjóda í brullaup sonar síns, áttu þeir ekki ad gjøra annad, enn fara út á þjódgøtur, og safna saman øllum þeim, er koma vildu; þeir áttu ad safna saman illum og gódum, svo brúdkaupsstofan yrdi full af gestum. En konúngurinn ætladi sjálfum sér ad skoda gestina, hvert þeir væru hæfilega skrýddir. Þad eru ord Drottins sjálfs, er vér megum ekki rifa, ad margir séu kalladir; látum þá koma úr øllum áttum, svovad bekkirnir verdi alsettir.

En þad eru einnig ord Drottins sjálfs, ad fáir séu útvaldir. Þad hlýtur ad kveykja í oss føgnud og þakkargjørd, ad vér sjáum hversu almennt kall Drottins er ordid; þess bera jafnvel søfnudirnir í Guds húsi vitni, því þeir eru harla margir, sem segnir vilja heyra Guds ord; þess bera søfnudirnir vid Guds bord vitni, því þeir eru harla margir, sem hlýda þessu bodi Drottins: gjørid þad í mína minníngu! og allir sýna þeir med þessu, ad þeir séu kalladir. En mættum vér einnig segja, ad allir þessir séu útvaldir? Vér spyrjum ekki, hvert þeir séu fullkomnir; því einginn af þeim er fullkominn; en lángar þá til og leggja þeir stund á ad verda þad? er hver þeirra med því skapi, ad hann leitist vid ad slíta af sér hvern fjøtur, sem honum er til minkunar, og reyni til ad útrýma úr sálu sinni óstýrilátum girndum og trúarlausum ótta, en lífga krapta hins betra lífs, med því ad kefja nidur ástrídurnar, sem øllu eyda med loga sínum? Er samvizkan vøknud

í hverjum þeirra, svoad hann medkenni idrunarfullur rángsleitni sína, og gráti syndir sínar? Hafa þeir kannazt vid, hversu grómteknir vér erum allirsaman ordnir af spillíngunni, og hvernig hún lýsir sér bædi í háttalagi voru, í hirduleysi og afbrotum, og hvernig hún fyllir hjartgd drambi, øfund og fásinnu, og hversu mikid oss fyrir þá skuld rídur á ad endurnýast, endurfædast, og verda ad ødrum mønnum, enn vér erum eptir edlisfari voru? Hefir sál þeirra fundid, ad hún var sjúk og fátæk og þrádi réttlæti Guds, og hafa þeir þá leitad hins rétta læknis sálarinnar, og leitad sættar og athvarfs hjá Gudi? hefir hann gefid þeim ad drekka úr lindum þeim, sem upp spretta til eylífs lífs? Hafa þeir allir fundid til hinna sáluhjálplegu afleidínga kristinnar trúar? hefir hún lypt huga þeirra frá hinu fallvalta til hins eylífa, frá heiminum til Guds, hefir hún gefid þeim djørfúng í lífi og í dauda, hefir hún styrkt þá til ad gjøra skyldur sínar ræktlega og trúlega, styrkt þá til réttlætis, og blídkad þá med kærleika, svoad þeir leitudust vid ad elska Gud um alla hluti fram, og náúnga sinn sem sjálfa sig, svoad þeir breyttu eins vid adra, og þeir vildu adrir breyttu vid sig? hafa þeir lært ad umbera og fyrirgefa, og gleyma, og yfirvinna íllt med gódu? Menn geta, því midur, ekki svarad þessum spurníngum med ødru enn þessu: margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

En þetta segjum vér ekki til ad koma mønnum til ad dæma adra hart, heldur til þess ad minna á þessi ord postulans: hver af oss gjøri Gudi reikníngskap fyrir sjálfan sig, þessvegna skulum vér ekki framar dæma hver annan (Rómv. 14, 12. 13). Þegar þú ert til altaris, skaltu ekki snúa huga þínum til þess, sem er fyrir utan þig, heldur til þess, sem sjálfum þér er innanbrjósts, þú átt þá einkum ad hugsa um sjálfan þig, því Drottinn býdur oss ekki til kvøldmáltídar sinnar, til þess vér prófum bresti og syndir mannkynsins, eda þjodarinnar, eda safnadarins, heldur lætur hann postula sinn segja til vor: hver madur prófi sjálfan sig, og eti sídan af braudinu og drekki af kaleiknum (1 Kor. 11, 28).

"Hver madur prófi sjálfan sig"! hversu heilsusamleg er áminníng sú, er á þenna hátt er gefin øllum þeim, sem gánga til

altaris! Það er svo margt, sem glepur og truflar, að vér megum blessa þær næðisstundir, er svo alvarlega upphvorfa oss til að prófa sjálfa oss fyrir augliti Guðs. Einsog ferðamaðurinn setur sig stundum niður við veginn, og lætur aðra fara framhjá, meðan hann rifjar upp fyrir sér það, sem fyrir augun hefir borið og fest hefir rætur í sálu hans, og hugsar um, hvaðan hann sé kominn, og hvert hann ætli: eins látum vér á guðrækinsstundum þessum háfaðan þjóta framhjá oss, og setjum oss undir kross Jesú Krists, og hugsum þar um þann part vegferðar vorrar, sem farinn er, og þann partinn, sem vér eigum fyrir höndum.

Þegar menn fara að hugleiða eitthvað, eru endurminningarnar vanar að vakna; lofa þú fögnuði og hryggð hinna umliðnu daganna að lifna á ný í sálu þinni, því það á ekki allt að hverfa, einsog draumur, sem mætir manninum á æfi hans. Lofa Drottinn, sála mín, og gleym ekki öllum velgjörðum hans (Sálm. 103, 2)! Ætti eg að gleyma hinu góða, er Guð hefir veitt mér svo mikið af, og ekki hugsa um annað enn hryggð sálar minnar. Pílagrímsferðin gegnum lífið hefir optsinnis verið undarleg og optsinnis erfið, en opt hefir líka vegurinn verið greiður yfirferðar, og Guð látið ástvini fylgja oss, sem gjörðu armæðuna léttbæra, og í aptankyrrðinni lagði optsinnis ylm af allskonar blómum um götu vora, og um blíðviðris nætur skinu allar stjörnur himinsins yfir henni. Ekki hefir Guð heldur látið mig vanta vitnisburð um sig, því hann hefir gjört mér gott og sadt líkama minn dag hvern á fæðslu, og sál mína optsinnis á fögnuði. Lofa Drottinn, sála mín, og gleym ekki öllum velgjörðum hans! En samt sem áður kann eg ekki né á að gleyma armæðu lífsins, né andstreymi því, er á mig hefir stríðt, né hörmungum sálar minnar. En eg vil minnast þeirra undir krossi Drottins míns og Frelsara, eg vil hugsa til þess, að lærisveinninn er ekki meiri enn meistarinn, og hafi hann borið sinn kross, á eg einnig að bera minn; og eg vil venja mig við að segja það, er hann sagði: verði þinn vilji, Faðir á himnum, enn ekki minn! eg vil venja mig á þolgæði og sjálfsafneitun, og auðmýkt, og hógværð, þangaðtil eg get sagt: Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað sé nafnið Drottins (Job. 1, 22)!

En þegar vér lítum yfir liðna æfi, höfum vér þá einskis að

minnast, nema þeirra hluta, sem ekki voru í voru valdi — þeirrar gledi og þeirrar hryggdar, er oss hefir verid send? "Hver madur prófi sjálfan sig"! Já! undir krossi Drottins míns 'vil eg prófa sjálfan mig, hvad í mér hafi búid, hvad eg hafi adhafst í veröldinni, og hvad eg hafi vanrækt. Eg vil ekki pína sjálfan mig á þarflausu grufli, né heldur ljúga uppá mig syndum; hafi eg gjørt nokkud um æfi mína, sem eg gledjist vid ad hugsa til, vil eg þakka Gudi fyrir þad, svosem hina beztu gjøf, og bidja hann ad efla mig til góds, og frelsa mig frá illu. En hinsvegar vil eg ekki draga sjálfan mig á tálar, og segja eg sé syndlaus. Þad er, því midur, harla margt, sem eg get ekki efazt um ad hafi verid synd, annadhvert vegna þess, eg hefi gjørt þad, sem rángt var, eda vanrækt þad, sem rétt var. Eg hefi syndgad af órèttum ákafa, eg hefi syndgad af ledurmennsku eda deyfd og sinnuleysi; eg hefi syndgad, svo uppvíst hefir ordid, og eg hefi syndgad, svo eínginn veit nema sjálfur eg; stundum bjó syndin í brjósti mér, þó hún gjørdi ekki vart vid sig í verkunum, og var þad ekki yfirrádum vilja míns ad þakka, heldur øptrudu kríngumstædurnar því; þar bjó bædi drambsemi og øfund, reidi og losti, heimska og hégómadýrd, jardneskt hugarfar og trúleysi. Drottinn, vertu mér syndugum líknsamur! Þad segi eg ekki af því, ad adrir hafi kennt mér ad segja þad, þegar eg fer til altaris, heldur segi eg þad í audmýkt hjarta míns, og eg vil ekki segja þad svo, ad eg hugsi eínúngis til þess, ad eg sé syndugur einsog allir adrir menn, heldur vil eg prófa sjálfan mig, þángadtil eg sé hversu hryggileg spillíngin í mér er, og þángadtil eg sé, hvad þad er, sem eg einkum þarf ad strída vid og þvo af mér, svoad eg geti ødlazt speki og styrkleika til ad heya hina gódu baráttuna, um leid og eg leita mér miskunar og fyrirgefníngar, og geti betrad mig því meir, sem lengra lídur á æfi mína.

Því vegurinn er ekki á enda enn, dagur er ekki enn ad kvøldi kominn, og eg á ad halda lengra áfram. En þegar eg horfi fram á veginn, sem ófarinn er, koma von og ótti í móti mér; samt vil eg ekki reyna til ad draga skýluna af hinu ókomna og ekki grenzlast eptir því, sem fram vid mig á ad koma, og Fadirinn á himnum hefir áskilid sér ad ráda fyrir; heldur vil eg

grenzlast eptir því, sem undir sjálfum mér er komid, en þad er sá ásetningur og þær fyriraetlanir, er eg byrja med hina nýu vegferd. Er þad einlægur ásetningur fyrir mér, ad vera stadfastur í hinu góda, og hafa viđbjód á hinu illa, og vardveita trúna, vonina og kærleikann, hvad sem á bjátar, og reyna til ad gjøra hverja skyldu, og vera dyggur í stóru og í smáu, og heimta því meir af sjálfum mér, sem mér vegnar betur, svoad eg sé maklegur gæfu minnar, en heimta líka af mér þolinmædi og stødulyndi þegar móti blæs, svoad eg geti, einnig á þann hátt, sigrad illt med gódu? er þad einlægur ásetningur fyrir mér, ad hlífa ekki sjálfum mér, heldur kúga hjarta mitt og láta móti girndum mínum, þegar þær eru óstýrilátar, og vilja fara útyfir hin réttu takmørk, en vekja sjálfan mig, þegar eg ætla ad sofna, glæda í mér sérhverja ástgjøf, og temja mér þannig, ad vardveita samvizku mína óflekkada fyrir Gudi og mønnum? Eg má ekki dirfast ad búast vid, ad kærleikur Krists eda fridþæging hans komi mér ad haldi, nema eg hafi þenna ásetning; en þegar eg hefi ásett mér þad einlæglega, og bid Drottinn, þegar eg krýp vid altari hans, heitt og hjartanlega, ad gefa mér Anda sinn, sem helgi mig til Guds ríkis og hans réttlætis, en gef allt annad á Guds vald: þá má eg og á eg ad búast vid ad fridþæging Krists komi mér ad fullu haldi; því hann er Frelsari minn, einsog allrar veraldarinnar. En til þess eg skuli vita þad og trúa því, réttir hann mér braud lífsins og bikar fridþægingarinnar, til fyrirgefningar syndanna og til eylífs lífs. Medtak þú hinn helga pant, svoad þér verdi eptir því sem þú trúdir!

---

## 57.

## Hin heilaga kvøldmáltíd.

### Sídari hugleidingin.

Í samrædu sinni vid hina samversku konu sagdi Jesús þessi hin ógleymanlegu ord: þann þyrstir aptur, sem drekkur úr þessa

heims brunnum, en hinn, sem drekkur af því vatni, er eg mun gefa, skal ekki þyrsta ad eylífu, heldur mun þad vatn, sem eg mun gefa honum, verda í honum ad lind uppsprettandi til eylífs lífs (Jóh. 4, 13. 14). Sérhver, sem er kristinn af alvøru, hefir eflaust optsinnis íhugad þessi ord í hjarta sínu. Húngur og þorsti merkja upphafliga hina mestu og sárustu þørf líkamans; þeir sem ætíd hafa haft allsnægtir, og ætíd verid mettir ádurenn þørfin kom, vita ekki til fulls hvad þessi ord þýda; en hver, sem reynt hefir skort, hver, sem gengid hefir hinn lánga veg um hina brenn-heitu eydimørk, hvar eingin lind var til svølunar, hann veit, hvad húngur og þorsti er. Hinn andlegi hluti vor hefir einnig mikla og sára þørf. Þú veizt alls ekkert til þess — þú, sem aldrei hefir fundid í hjarta þínu, ad þú værir snaudur og sjúkur og ør-magna, enda hefir þú og aldrei leitad Krists med þeim einum hætti, sem hann verdur fundinn. Því þad er þørfin, sem á ad leida oss til hans, og hver sem ekki þykist þurfa hans med, mun aldrei af alhuga adhyllast hann. Ad sønnu hefir Gud gefid hon-um margt og mikid til vitnisburdar, svo þad er øllum bert, ad hann er frá Gudi kominn; en vér mundum ekki leita þessa vitnisburdar, né gefa honum gaum, né veita honum vid-tøkur, nema sú þørf, sem ekki yrdi fullnægt med ødru móti, væri til í hjarta voru. Kristi mun ætíd verda ofaukid, edur hann mun verda til athlægis, í augum hinna heilbrygdu, sem ekki þurfa lækningar vid, hinna sljófu, sem ekki eru vaknadir í hug og hjarta, hinna drambsømu, er reida sig á veraldina og sjálfa sig, og hinna vitru, er þykjast hafa lykil vizkunnar sér í høndum og vita hvern leyndardóm, þóad speki þeirra sé í raun og veru ekkert annad, enn hégómlegt leikfáng, til ad villa sjónir fyrir ødrum, en ekki til ad fullnægja sjálfum þeim. Þessvegna segir Drottinn: sælir eru andlega voladir, og þeir hinir sorg-bitnu, og þeir, sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu; því þeir munu saddir verda og miskun hljóta, og øblast hlutdeild í himna-ríki (Matth. 5, 3. 4. 6).

Þad er til mikil þørf, sem øll veraldleg audæfi og allar veraldlegar uppsprettulindir þekkíngar, ánægju og huggunar geta ekki fullnægt. Sú þørf leidir oss til Krists, og því innilegar og

nákvæmlegar sem vèr sameinumst honum, því meiri fullnægja veit-ist henni. Um þetta taladi hann sjálfur opt òg á marga vegu. Eg em vínvidurinn, sagdi hann, þèr erud greinarnar; einsog greinin getur ekki borid ávøxt af sjálfri sèr, nema hún sè føst á vínvidinum, eins getid þèr og ekki, nema þèr sèud mèr ásastir (Jóh. 15, 4. 5). Eg em hid lifanda braud, sem kom nidur af himni; ef nokkur ètur af þessu braudi, mun hann lifa til eylífd-ar (Jóh. 6, 51). Þau ord, er hann taladi hèrum, þóktu mørg-um hørd, og þeir hneixludust; en hvad segja þau annad, enn ad líf og fylling og fridur sèu hvergi nema í hinni nákvæm-ustu sameiningu vid hann, er kom til ad veita heiminum líf?

Þessari sameiníngu gætir þú nú gjørt þèr far um ad vid-halda, án vissra sýnilegra medala og þjónustugjerdar. Þó þú byggir á eydimørku fjarlægur øllum mønnum, eda þú værir med-al manna, þar sem allur hugur þinn væri øllum ókunnur, og einginn tæki þátt í trú þinni, von þinni og kærleika þínum, svo þú værir einsog á andlegri eydimørku, þá gætir þú, og ættir þú samt ad endurnýja fyrir sjálfs þíns hønd minníngu Frelsara þíns, og adhyllast hann í trúnni. En nú er heimurinn, sem þú lifir í, svo gjerdur, ad hinum margvísleguſtu hlutum ægir þar undarlega saman; þú lifir innanum margháttadar athafnir, gladværdir og áhyggjur, medal þeirra manna, sem optastnær hugsa og tala um allt annad; en allmargir af þeim bera þó í brjósti sèr hina sømu kristilegu medvitund, sem þú, og allmarg-ir hverfa á stundum úr glaumi lífsins til kyrrdarinnar vid altari Drottins: hví skyldir þú ekki fara þángad med þeim? "Gjørid þad í mína minníng! sagdi Drottinn vor sjálfur, þegar hann tilsetti kvøldmáltídina. Hann vissi víst, ad postular hans mundu aldrei geta gleymt honum øldúngis, er þeir høfdu verid honum samtída svo lengi og reynt svo margt í samfèlagi vid hann, og ord hans høfdu fengid svo mjøg á hjørtu þeirra, og hann sjálfur verid þeim kærstur af øllu því, er augu þeirra sáu. En hann vissi einnig, ad hver endurminníng følnar þegar frá lídur, og þad, sem lidid er, hverfur æ lengra inní módu fjarlægdarinnar, og vegna þess baud hann, ad lærisveinar hans sliti sig frá hinu nálæga endur og sinnum, og søfnudust saman

til helgrar þjónustugjørdar, og minntust hins umlidna med ást og lotníngu. Vér getum ekki heldur nokkurntíma gleymt honum øldúngis; hann hefir þannig ritad nafn sitt í verøldina, ad þad skín med ómáanlegu letri fyrir augum allra manna, hinna vitru og hinna fákænu, þeirra, sem vilja sjá þad, og þeirra, sem ekki vilja sjá þad. En hvílíkur munur er á hinni stopulu endurminníngu, sem kviknar í oss af þeim menjum Drottins vors, er vér sjáum hvervetna í heiminum, og þeirri, sem glædist í hjartanu á alvørustundu kvøldmáltídarinnar, þegar þessi ord hljóma frá altarinu: "vor Herra Jesús Kristur á þeirri nátt, sem hann svikinn var!" Sú nótt, er svikrædi og illska gjørdu samtøk á móti hinum réttláta, og verøldin útskúfadi þeim, sem kominn var ad færa henni líf — sú nótt, er myrkrid stríddi vid ljósid meir enn nokkurntíma endrarnær — þessi hin undarlega, sorglega, svipmikla nótt lídur fyrir hug vorn, og sá med henni, er var hlýdinn allt til daudans á krossinum, en vard hátt upphafinn af Gudi, og gæddur því nafni, sem ædra er øllum nøfnum.

En mundi oss þykja tilhlýdilegt, þegar vér komum saman til ad minnast Jesú, ad gjøra þad á sama hátt og endrarnær, þegar vér minnumst þeirra, sem látnir eru — mundi oss þykja nóg ad segja: hann var einn af þeim, sem hefir gjørt mannkyninu mest gott; hann hefir áunnid sér mikinn heidur, svoad nafn hans mun aldreigi fyrnast; þessvegna skulum vér lofa hann og hvetja sjálfa oss til ad breyta eptir dæmi hans? Hver kristinn madur er sá, er ekki fynni, hversu þessi ord eiga hér illa vid, og hvad þau eru gagnstædileg þeirri medvitund, er lætur hann addyllast Drottinn sinn og Frelsara? Um hina segjum vér, ad þeir séu komnir úr þessum heimi, og í ønnur híbýli í hinu mikla húsi hins himneska Fødurs, og ad þeir séu hættir ad hafa áhrif á jardneska hluti, nema ad því leiti sem verk þeirra hafi miklar afleidíngar; en hann var ekki einsog adrir eru, og um hann segjum vér: hann getur gjørt þá fullkomlega sæla, er koma til Guds fyrir hans sakir; því hann lifir æ til ad tala máli þeirra (Hebr. 7, 25). Hann sagdi sjálfur: eg mun vera med ydur alla daga allt til enda veraldarinnar (Matth. 28, 20); sømuleidis:

hvar sem tveir eda þrír eru saman komnir í minu nafni, þar mun eg vera med þeim (Matth. 18, 20); og hvernig gætum vér gjört oss í hugarlund, ad þetta sé talad einúngis um minníngu hans, eda um ord hans, eda um ávøxt verka hans? Þegar vér því heyrum Drottinn vorn taka svo til orda yfir kvøldmáltídinni: "þetta er minn líkami, sem fyrir ydur er gefinn; þetta er mitt blód, sem fyrir ydur úthelliſt til fyrirgefníngar syndanna", þá eigum vér ekki ad rýra krapt hinna helgu orda, né kalla, ad þad sé einúngis til merkis um sameiníngu, er Drottinn sjálfur ætladist til ad væri hin innilegasta sameiníng á milli hans og hinna trúudu. Vér segjum þetta ekki í því skini, ad kveykja þrætur né ala þær; þeir, sem ekki hafa ordid varir vid leyndardóm kvøldmáltídarinnar, komi þángad eptir trú sinni og skynbragdi sínu, og mun Drottinn ekki útskúfa þeim, ef þeir koma med hreinskilnu hjarta; en ekki ber þeim ad halda sig vitrari fyrir þad, þó allt vilji sýnast þeim framar í hinni jardnesku mynd. Því hid gudlega streymir ætíd og alstadar gegnum hid jardneska, sá kraptur í braudinu, sem nærir, og sá kraptur í víninu, sem hressir og styrkir, er kraptur Guds; og haldirdu Kristur sé meira enn madur, og skiljir þú, hvad þad þýdi, ad hann sé eingetinn Sonur Fødursins, geisli dýrdar hans og ímynd veru hans (Hebr. 1, 3), ad hann sé þad ord, sem vera Guds birti sig í — hid almáttka ord, er skapad hafi heiminn og vidhaldi honum, og uppfylli alla hluti: þá hlýtur þú vid ad kannast, ad þad sé guddómskraptur Krists, er birtir sig á líkamlegan hátt í braudinu og víninu. En í kvøldmáltídinni — þar sem vér komum saman í hans nafni, þar sem hann er sjálfur mitt á medal vor, þarsem vér heyrum hann segja: þetta er minn líkami, þetta er mitt blód — áttu einkanlega ad finna til návistar hans, og einsog þreifa á honum; og einsog kraptur hans í braudinu og víninu sameinar sig líkama þínum, eins áttu ad nálgast hann í trúnni, svoad Andi hans sameinist þínum anda, og veiti honum næríngu, fjør og krapt. Þetta er hin helga merkíng kvøldmáltídarinnar.

"Þetta er kaleikur hins nýa sáttmála í minu blódi." Hinn gamli sáttmáli var øllum kunnur; þegar hann var gjørd-

ur, var hinn mikli spámadur, Móses, medalgángari millum Guds og þjódar þeirrar, sem Gud hafdi kosid medal allra þjóda veraldarinnar til ad vera ødrum fremur í sambandi vid hann, til ad þekkja ord hans og geyma þau, og til ad vænta hins ókomna. Gudleg tákn fylgdu þá Mósi; fjallid, þar sem hann bodadi vilja Guds, logadi og skalf, og þad hjúpadist mistri, myrkri og óvedri, og lýdurinn skelfdist af hinum þúngu reddum, og beiddist, ad ekki væri meira til sín talad. (Hebr. 12, 18. 19). Þannig var Ísrael kalladur til hins mikla ætlunarverks og hins nákvæmara samfélags vid Gud. En nú var hinn gamli sáttmáli á enda kljádur, og annar nýr átti ad koma í hans stad; hvernig var hann stofnadur? — Í Jerúsalem sat einn kennari í húsi sér med lærisveinum sínum, sem ekki voru nema erfáir. Þar úti fyrir gengu menn fram og aptur í hversdagsønnum sínum, flestir án háleitra hugsana, sumir hirdulausir um hid heilaga, sumir gjørandi gabb ad því, og sumir lútandi því í hrædilegri hjátrú og blindni, med svik í hug og grimmd í hjarta. Lengra úti í heiminum voru mentadar þjódir, sem þá voru farnar ad sljófgast og sokknar nidur í munad og rángsleitni; þar slekkti vantrúin smátt og smátt þá hina fáu geisla háleitrar þekkingar, er skinu í myrkrinu, og greiddi veg hinni skadlegustu hjátrú, sem ekki vildi hafa gudlega hluti til annars, enn ad þjóna girndum mannanna; hvad átti ad vekja þessar þjódir? Enn voru til ósidadar þjódir og óstýrilátar, búnar til ad æda af stad, og eyda og spilla; hvad átti ad spekja þær? Ef vér ímyndum oss, ad einhver hefdi þá horft yfir verøldina, og séd þar allt, nema hús þad, er Jesús sat í med lærisveinum sínum: hvad mundi sá hafa séd, þad er hann gæti byggt nokkra von á um líf og frelsi handa hinum gjørspilltu kynkvíslum mannanna? Allt var ad losna í sundur; hid forna, sem þángadtil hafdi stadid, var tekid ad skjálfa allt ífrá grundvelli og glidna sundur um allar samkomur, og sérhverri byggíngu lá vid falli; hid nýa leit ekki út fyrir mannlegum augum ødruvísi enn eyding og sundrúng. Þá sat í Jerúsalem, er einnig var þegar merkud til eydingar, einn kennari med lærisveinum sínum yfir kærleiksmáltíd, sem jafnframt var skilnadarmáltíd. Hann hafdi ekki dvalizt med þeim nema fáein

ár; þeir høfdu heyrt ord hans, en þad vantadi mikid á, ad þeir hefdu skilid þau til hlítar; þeir høfdu séd verk hans, en þad vantadi mikid á, ad trúin væri ordin rótgróin í hjørtum þeirra; og nú átti hann ad yfirgefa þá. Sá var og þar vidstaddur, er sú hugsun hafdi kviknad í, sem hrædileguft er allra hugsana; hann hafdi ætlad sér ad hafa jardneskan hag og jardneskan sóma af samfelagi vid Jesúm; og þegar honum þókti þeim hlutum seinka, og jafnvel útséd um þá, vildi hann græda þad, sem grædt yrdi, fór til og seldi Drottinn sinn og Meistara í hendur óvina hans. Ef Júdas hefir heyrt ádurenn hann gekk út, ord þau, er Jesús stofnadi med hina heilegu kvøldmáltíd, og borid þau til þeirra, er ofsóktu Jesúm, þá hefir án efa þeirra grimmi hugur espazt enn meir, og þeir hafa hugsad med sjálfum sér: víst skaltu verda seldur í dauda, víst skal blódi þínu verda úthellt; en sáttmáli sá, er þú gjørdir, verdur ekki til annars, en þér til gløtunar; félagi því, er þú stofnadir, skulum vér skjótt sundra, verki því, er þú hófst, skulum vér skjótt eyda; ádurénn lángt um lídur skal einginn dirfast ad nefna þig framar, og straumur tímans skal afmá minningu þína. Á þessari nótt tók Jesús kaleikinn og sagdi: þetta er kaleikur hins nýa sáttmála; hann sagdi þetta med eins miklu trausti og æ hafdi komid fram í hverju ordi hans og verki. Hinn nýi sáttmáli er ekki einsog hinn gamli; hinn gamli snerti ekki nema eina þjód, en hinn nýi allar kynkvíslir á jørdunni; hinn gamli átti ad verda afmádur, en hinn nýi haldast um allar aldir. Átján hundrud ára eru nú lidin í frá þeirri nótt — hvílík ákafleg tímalengd er þad, þegar vér hugsum frammá hid ókomna! Hvad mun verda ordid af øllu, sem nú er, ef veraldin á enn eins lángan tíma fyrir høndum? Hvad mun þá verda komid í ljós, sem ekkert auga hefir enn séd, og ekkert eyra enn heyrt, og aldrei hefir í neins manns hug né hjarta komid? Allar þessar aldir eru nú lidnar ífrá þessari nóttu, straumur þeirra hefir eydt, umturnad, umbreitt øllu, sem þá var, jørdin hefir breitt ásýndum, svo þad er einsog fjøllin hefdu søkkid og dalirnir hafizt upp til skýa himinsins, þjódirnar hafa blandazt hver innanum adra, túngumál, sidir og venjur, meiníngar og vísindi er ordid ødruvísi, ekkert er óbrjálad, nema sáttmáli sá,

ver Drottinn vor og Lávardur stofnadi, þegar hann var svikinn, þegar heimurinn útskúfadi honum, þegar líkama hans var fórnfært og blódi hans úthellt fyrir marga.

"Þetta er kaleikur hins nýa sáttmála í mínu blódi, sem úthellt verdur til fyrirgefníngar syndanna". Hversu dásamleg og líknarfull eru þessi ord! Allt annad, sem heyrdist í veröldunni, bodadi hegníngu, þrumur hins almáttka voru farnar ad duna, eldíngin leyptradi í hinu dymma skýi, og sagdi fyrir, ad Gud mundi ekki láta ad sér hæda, og þeir dagar færu í hönd, ad menuirnir mundu örmagnast af eptirbid þeirra hluta, er koma skyldu yfir jardríki; en á medan hinir vodalegu og skadsamlegu kraptar voru í uppgángi, þá var þó ein rödd í hinni vídu veröld, eiuúngis ein huggunarrödd, sem bodadi líkn og fyrirgefníng syndanna, medþví Gud — eptirþví sem postulinn ad ordi kemst — sætti heiminn vid sig fyrir Krist, og tilreiknadi mönnum ekki afbrot þeirra, og setti sættarord á medal vor; því þann, sem aldrei þekkti synd, gjördi hann ad syndafórn vor vegna, svoad vér fyrir hann réttlættir yrdum (2 Kor. 5, 19. 21).

"Þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn, þetta er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgefníngar syndanna", sagdi Drottinn vor til postula sinna, en hann sagdi einnig, ad blódi hans yrdi úthellt "fyrir marga", og postularnir sögdu: hann er fridþægíng fyrir syndar vorar, og þó ekki adeins vorar, heldur og gjörvallrar veraldarinnar (1 Jóh. 2, 2). Þegar vér komum saman til hinnar helgu kvöldmáltídar, ná því þessi ord "fyrir ydur" einnig til vor, já, til sérhvers af oss, hins háa og hins lága, hins vitra og hins fákæna, þess, er heimurinn kallar syndara, og þess, er hann telur medal hinna réttlátu. Eingum er vanþerf á hinni himnesku gjöf, og einginn er frá henni útibyrgdur. Fegurd sakramentanna í kristinni kirkju er þarí fólgin, ad þau snerta hvern og einn sérílagi. Þessvegna er sagt yfir kvöldmáltídinni ekki adeins um alla jafnt, ad Kristur sé fridþægíng fyrir syndir gjörvallrar veraldar, heldur og til hvers kristins manns útaf fyrir sig: þigg hinar helgu gjafir, þetta er líkami Jesú, er í daudann var seldur eins fyrir þig og adra, þetta er blód Jesú, sem úthellt var eins fyrir þig og adra til fyrirgefn-

ingar þydanna. Þessi ord "fyrir ydur" krefjast trúar af sér-hverju hjarta; þú verdur ad heimfæra til þín þad sem þú veizt um endurlausn Krists, ádurenn þú getir haft not af henni. En hin heilegu nádarmedøl eru einmitt til þess ætlud, ad glæda trúna, sem dylst í hjørtum mannanna einsog daufur neisti, svo hún verdi ad skærum loga til hreinsunar, frædingar og vermingar. Þetta er kaleikur hins nýa sáttmála, og þegar kaleikurinn er réttur ad þér útaf fyrir þig, þá verdur hinn almenni sáttmáli um leid sáttmáli vid þig sérílagi; hinn eingetni Sonur Guds, hinn mikli Medalgángari millum Guds og manna, kemur þá til þín sem Medalgángari þinn, hann er á millum Guds og þín, og gleym-ir þér ekki, þó grúi mannanna sé ótølulegur. Fyrirþví er þessi kaleikur bikar fróunar og huggunar; kom þú híngad, aum og þjád mannskepna! hann er réttur þér í bágindum þínum, svoad þú ørmagnist ekki, svo þú haldir ekki ad þú sért yfirgefin, svoad kraptur hans lífgi þig, og þú vitir og sjáir og trúir, ad þú eigir einnig Gud og Frelsara. Þad er fridþægíngarkaleikur, því hann er hluttekníng Krists blóds (1 Kor. 10, 16), þeirrar fórn-ar, sem fram var borin fyrir synd allrar veraldarinnar. Æ, þad er kominn adskilnadur á millum mannanna og Guds, þú hefir einnig ordid var vid hann, og fundid ad þú varst fjarlægur Gudi og lífinu í honum, þegar þú vildir nálægjast Gud, fanstu opt ad þér var frábægt, þú sást ad þú varst skrifadur til skuld-ar, sem þú ert ekki fær um ad borga, hryggileg reynsla kenndi þér hvad þad er ad hrædast þann, sem vér eigum ad elska yfir allt fram, sem er allt hæli vort, sem einnsaman megnar ad senda oss huggun og von. Sjá, hér er bikar fridþægíngarinnar, hann er einsog hver annar bikar fyrir þá, sem bergja á honum, án þess ad hafa trúna í hjarta sínu, og ef trúin leidir ekki til apt-urhvarfs, er hún einskisverd, eda verri enn einskisverd — því hún er þá ekki annad enn leikfáng og vanbrúkun hins heilaga; en fyrir trúada er kaleikurinn pantur Guds miskunar, og felur í sér lækn-isdóm hinna dýpstu sára, og fyrirgefníngu syndanna, og von hins ey-lífa lífs. Þad er bikar kærleikans; sjá, hinn eylífi kærleiki lætur rétta oss hann til svølunar í mædu vorri, til huggunar í sorg vorri, til fridþægíngar í synd vorri; ó! látum oss elska hverjir adra, eins-

og Kristur elskadi oss, og gaf sjálfan sig út fyrir oss. Og þá skal þessi kaleikur einnig vera oss frelsisbikar, svo vér finnum, ad vér séum upphafdir yfir jardneska baráttu og jardneska eymd, og verdum nú þegar varir vid þad frelsi, er bídur vor, þegar sá kaleikur verdur oss réttur, er eydir øllum jardneskum draumum, og rígir oss til eylífra unadsemda og til þess samfélags, er lætur oss skoda augliti til auglitis.

---

# 58.

## Hondladu hid eylífa líf.

Þegar vér støndum á árbakka og horfum ofaní strauminn, sjáum vér hvernig hver bylgjan eltir adra og berst æ lengra og lengra, þángadtil hún hverfur oss af sjónum, og rennur til hafs, þar sem øll vøtn koma saman í hinum mikla veraldar sæ; en þótt vatn árinnar skiptist óaflátanlega, er hún samt jafnan hin sama, og uppsprettur hennar, sem aldrei tæmast, endurnýja hana sí og æ. Þegar vér virdum þessa sjón fyrir oss, sem er svo harla breitanleg og þó jafnan sjálfri sér lík, vekur hún smátt og smátt í hjørtum vorum undarlegar og alvarlegar og einatt sorglegar tilfinníngar. Því þetta er eptirmynd mannlegs lífs hér á jørdu, svona rennur þad án afláts fram af hinni huldu uppsprettu sinni, og ber fram bylgjur sínar, ýmist hóglega, edur med strídu idufalli, en straumur þess þrýtur aldrei, lífid rennur óaflátanlega áfram á jørdunni, einúngis hid einstaka, augnablik, stundir, dagar og ár lída hvad af ødru og fjarlægjast æ því meir, þángadtil þau eru horfin og koma aldrei sídan.

Eigum vér þá ad standa á árbakkanum og láta tár vor hrynja í strauminn, afþví hann rennur áfram, og vér megnum ekki ad stødva hann, hversu fegnir sem vér vildum þad? Edur eigum vér ad hrinda med hørdu þessum hugsunum, eigum vér ad steypa oss í ólgustraum tímans og gleyma svo í idunni, ad

tíminn berst áfram og med honum sjálfir vér? eigum vér ad gleyma, ad líf vort hér á jördu lídur framhjá einsog skuggi?

Sú kenníng er til, er segir: höndla hid hverfula, fyrrenn þad hverfur! og vér þrætum þess ekki, ad slík áminníng sé á gódum rökum byggd; oss ber og ad höndla stundina, sem lídur, nota hana og njóta hennar, fyrrenn hún er umlidin, og safna hunángi úr blómunum, fyrrenn þau eru visnud, og hversu skjótt ber þad ekki stundum ad? En ef vér girnumst á þenna hátt ad höndla hid hverfula eittsaman, þá höndlar þad oss, og gjörir veru vora hvad af hverju eydíngu og dauda undirorpna, einsog þad er sjálft. Miklu djúpsærri sannindi hljóma í eyrum vorum, einsog alstadar í heilagri ritníngu, þarsem postulinn segir þessi hin mikilvægu ord: höndladu hid eylífa líf (1 Tim. 6, 12)! og þau eru sannlega þess verd, ad hver rádvandur madur íhugi þau med allri kostgæfni.

Þegar eylíft líf er nefnt, merkir þad venjulega hid ókomna líf, og svo er þad og kallad í ritníngunni, afþví hid eylífa á ad birtast á fullkomnara og dýrdlegra hátt í hinu betra og ædra lífi hinumegin grafarinnar, og opinberun þess á þar ad vera stödugri, enn í tilveru vorri í þessum heimi. En hid eylífa er einmitt þad, sem ekki er undirorpid breitíngum tímans, þad hefir verid til án upphafs, og er án breitíngar, og verdur til án enda; þessvegna getur hid eylífa líf ekki byrjad, heldur er þad jafnan til, einsog þad hefir ætíd verid. Ekki eigum vér heldur ad ímynda oss, ad hid eylífa líf birtist adeins í ödrum veröldum, og þessi veröld sé adeins ætlud hinu stundlega lífi, því hid stundlega lífid á sér einnig rót í hinu eylífa lífi. Myndir þær, sem bera fyrir augu vor í þessu lífi, köllum vér skugga, afþví útlit þeirra er einatt óljóst og þoku hulid, og afþví þær lída einatt framhjá eins skyndilega og skugga ber yfir land; en skugginn, sem er lítid edur ekkert í sjálfum sér, vottar jafnan, ad verulegur líkami sé til, sem skugganm beri af, og eins vottar hid stundlega líf, ad eylíft og sannarlegt líf sé til, er þad hafi rót sína í, og í því birtist. Því fremur sem nokkur hefir hid eylífa og sanna líf í sér, því fullkomnari og eflgari og sælufyllri er tilvera hans hér á jördu; því fremur sem hann fjarlægir sig

því, því fremur adhylliſt hann og eltir það ſem er einber ſkuggi, því fremur verdur öll tilvera hans ſmátt og ſmátt eiuúngis einsog hrædilegur ſkuggi; og þetta áſtand kallar ritníngin dauda, það er: ſloknun hins rétta og ſannarlega lífs. En einsog þeſsi daudi ógnar hvervetna, og leitaſt ætíd og alſtadar vid ad ſvelgja lífid, þannig er og hid eylífa, hid ſanna og himneſka líf ætíd og alſtadar nálægt. Þeſsvegna hét Drottinn vor þeim, er til hans vildu koma, ekki adeins tilveru í ödrum heimi, heldur vildi hann þegar hér á jördu leida þá ad þeim lindum, ſem ſpretta upp til eylífs lífs, ſvo þeir gætu ſvalad hinum ſára þorſta ſálar ſinnar; og þegar poſtulinn ſegir, vér ſkulum höndla hid eylífa líf, ætlaſt hann til vér gjörum það þegar hér á jördu.

Er og nokkur ſá, er ekki hafi á ſæluſtundum ſínum fundid það, til huggunar ſér, ad kraptar ókomins heims geta gjört vart vid ſig í oſs hér á jördu, ad mikid líf og ríkt og ſælufullt — ſem ber það med ſér, ad það á ſér ekki rót í hinu ſtundlega, heldur í hinu eylífa — geti gagntekid veru vora? En ef vér viljum láta hid eylífa líf ſtadnæmaſt í oſs, þá verdum vér ad höndla það og halda því faſtlega; því ef vér ſeilumſt eptir því, ſem ſtundlegt er, þá tegir daudlegleikinn ad oſs hundrad hendur til ad hremma oſs; en ſvo þrífur og hid eylífa líf oſs, ef vér leitumſt vid ad höndla það med heitri og öflugri eptirþrá.

Allt ſem vér vitum, vitum vér af reynſlunni, á þann hátt, ad það hefir runnid upp fyrir oſs, og hefir birt ſig oſs, og vér höfum fundid til þeſs. Þú veizt af jördunni og dýrd hennar, einúngis af því, ad þú hefir ſéd hana og ſmakkad hana og fundid til hennar; þú þekkir herſveitir himinſins, einúngis af því, ad geiſlar þeirra hafa ſnortid augu þín; þannig veit og einginn neitt um eylíft líf, utan ſá, ſem hefir fundid til þeſs í ſér, og því öflugar ſem það hefir hreift ſér í honum, med því meiri viſsu veit hann, ad það er ekki draumur, er hafi tælt hann, heldur ſé það það, ſem í raun réttri er verulegt og ſatt. Ad víſu gjörir hid eylífa líf vart vid ſig í hverjum manni, ſem í heiminn er borinn, hann verdur ſér þeſs medvitandi, ekki ſídur enn hins ſtundlega lífs, en hann byggir þeſsari medvitund út úr huga ſínum, og ſlökkur hana meir og meir ad ſama ſkapi, ſem hann hall-

ast einúngis ad stundlegum hlutum. Því segir og postulinn: fordastu þessa hluti! áduren hann segir: høndladu hid eylífa líf! Rétt þar á undan hafdi hann einkum talad um ágirndina, og sagt, ad hún flækti menn í freistni og snørur og margskonar heimskulegar og skadsamar girndir, er søkkva þeim í spilling og gløtun, því ágirndin er rót alls ills (1 Tim. 6, 9 o. nn. vv.). Høndladu aud þessarar veraldar! sú hvøt er til, sem þannig kallar um vída verøldu, leitadu, segir hún, ábata og gróda, svo þú getir aukid eigur þínar, og notid svo heimsins og sed þér borgid! Eigur þínar? þú nefnir ad vísu þetta ord á hverri stundu, en taktu nú vel eptir þýdíngu þess, og spurdu svo sjálfan þig, hvert þú í raun réttri getir átt eigur hér á jørdu? Audæfi þau, sem þú hefir aflad þér, eru á valdi þjófanna og eldsins og skemmdanna, ekki sídur enn þínu valdi, og þótt þér heppnist ad verja þessum óvinum inngaungu, brýzt samt daudinn inn til þín ad læstum dyrum, og hrifur þig burt frá gulli þínu og gersemum, og þú megnar ekki ad hafa neitt af þeim med þér þángad sem þú fer; kallar þú þetta eigur? En einmitt afþví audurinn hefir ekkert gyldi, nema í hinu jardneska lífi, einmitt af því flokknar æ framar í þeim, sem fæst vid hann einan og tengir allan huga sinn og ást sína vid hann, medvitundin um eylíft líf; hann fær ekki ad reyna þad og finnur ekki til neins af því, sem skyldt á vid ædra heim; vér hittum eingan hardúdarfyllri, eingan, sem sé fastari á, ad halda þad allt ad vera draumóra sjúks ímyndunarafls, er vér segjum um hid eylífa, enn þann, sem hefir gefid sig á vald ágirndarinnar, og selt sálu sína vid hinum ískyggilega audi þessa heims. Fordastu þenna løst, en fordastu einnig hégómagirni og kveifarlegt munadarlíf. Virdtu þá fyrir þér, sem sækjast eptir þessum hlutum! Hinir hégómagjørnu elta fyrirburd, sem skreppur frá þeim, þegar þeir eru rétt komnir ad honum, og nái þeir í hann, halda þeir gufu einni í fadmi sér, er einga frónn veitir þeim, og geti þeir enn um stundar sakir skemt sér vid litarbragd hennar, sundrast hún brádum og hverfur, og þá er ekki adeins fángid tæmt, heldur er og sálin, sem hafdi alla sína skemtun af þessum sjónhverfingum, ordin tóm og of sljóf til allrar háleitrar áreynslu, og óhæfileg ad geta fundid til þess, sem í raun réttri

er kjarni lífsins. Þannig eydir og munadarlífid ekki adeins krøpt-um líkamans, heldur dregur þad og alla dád úr sálunni, því hún girnist einnig hlýa og mjúka hvílu, og vill láta blídan andvara adeins leika um sig, og mettast án afláts í holdlegum og skemti-legum draumum; og þegar svo stormar lífsins taka ad veifa hin-um sterku vængjum, þegar vatnsflódin duna og regnid lemur, þá hefir sál þeirra eingan mátt í sjálfri sér, og hefir ekkert athvarf fyrirbúid sér, er hún géti leitad til á tíma reynslunnar. Og vísdu-lega er því svo varid, ad hver sem leitar sér adeins munadar í hinni jardnesku verøld, hann leitar sér einnig munadar, og einskis annars, í því sem ædra er, hafi þad komid fram í medvitund hans; því hvad ættum vér ad kalla hana annad, þessa kveifarlegu eptirþrá, þessar afllausu umkvartanir, þessar huglausu efasemdir, sem fylla sálina og hrekja hana fram og aptur, svo hún þorir hvorki ad afneita hinu eylífa, né høndla þad, og eru eins fráleitar sannri gudhrædslu, einsog gagnslaus læti leikanda manns eru fráleit øflugu og idjusømu lífi.

Fordastu þessa hluti, segir postulinn; en sækstu eptir rétt-læti og gudsótta, og trú, og kærleika, og þolinmædi, og hógværd! Lifi menn gudlegu líferni, verda þeir sér Guds medvitandi, og verji menn øllu lífi sínu til ad ávinna sér hid eylífa, verda þeir varir vid hid eylífa í sér. Hvert sinn, er hjarta þitt gjørir grein-armun þess, sem er þægilegt og þess, sem er rétt, hvert sinn, er þú segir vid sjálfan þig: þetta indi, edur ávinning, edur hægd-vildi eg feginn ødlast og fá ad njóta, en eg dirfist þess ekki, af-því þad er rángt; edur þú segir: þessa skyldu er mér þúngt ad rækja, þetta, sem eg nú legg í sølurnar, er mér óljúft ad láta, en mér hæfir ad gjøra þad, afþví þad er rétt: þá hefir þú jafn-fremt kaynast vid gyldi slíks løgmáls, sem hefir ekki holdlegan ed-ur stundlegan uppruna; og hvert sinn, er þú hlýdnast þessu løg-máli, og afneitar jardneskum føgnudi og jardneskum hag sakir réttlætisins, finnur þú ad hinir miklu kraptar hins eylífa lífs hreifa sig í þér. Hvert sinn, er þú tekur med hógværd vid hinu illa, sem mennirnir gjøra þér, hvert sinn, er þú tekur med þolinmædi vid hinu illa, sem þér er ætlad ad bera, og kefur nidur harm þinn og svida, og geymir sál þína rósama og stadfasta í mótlæti þínu,

þá er sá kraptur í þér, sem sigrar heiminn; það er hið eylífa, sem styrkir sálina, bæði til að einskisvirða óhreina dýrð stundlegra hluta, og til að bera skammvinnar þjáníngar. Þannig getur og þannig á maðurinn að fá skynbragð á hinu eylífa lífi, meðan hann lifir hér í dauðlegleikanum, ekki adeins í hugsunum og álýktunum, heldur beinlínis af reynslunni. Það er þér ætíð og alstaðar nálægt, þú getur fundið að það er í þér og þú í því, en hvernig ættir þú að finna það og finna til þess, ef þú steypir þér í hinn æðanda straum dauðlegleikans, og lætur ekki hið eylífa líf fá tíma né tækifæri til að eflast í þér? Sæktst þú eptir guðsótta og trú! Það er til sýsn í hverjum manni, sem hvetur hann að nálægjast hið háleita, og nokkurt traust og nokkur von til guðlegrar stjórnar; en þegar þú fordast þessar raddir í brjósti þínu, einsog þú hugsir þær leiði þig á villigötu, og fjarlægi þig ákverdun þinni og fegnuði þínum, þegar þú berð ekki við að ala og efla hinn betra hlut veru þinnar, þegar þú varpar þér í straum tímans: þá er ekki adeins allt, sem þú reynir umhverfis þig, heldur og allt í sjálfum þér, einúngis stundlegt, hégómlegur fegnuður og hégómleg mæða, og dauðinn á baki þess allsaman; en leiðirðu sálu þína frá glamminum til róseminnar, hefjirðu hana yfir trufl og skarkala þessa heims, notirðu hin helgu náðarmeðöl, þá nálægist sálin hið eylífa, og þá finnur þú beinlínis af reynslunni, að það er til, sem háleitara er og betra og sælla, enn það sem augað sér og eyrað heyrir og komið hefir upp í hinu holdlega hjarta; í umbiltíngunum finnur þú til þess, sem stöðugt stendur, í hrellíngum heimsins finnur þú til hins himneska friðar, á bak við hina dymmu nótt eygir þú morgunroða eylífðarinnar, og lífið á baki dauðans.

Af þessu sjáum vér hvað postulinn meinar, er hann segir: höndladu hið eylífa líf! Hann gjörir ekki ráð fyrir það sé fjarlægt, heldur algjörlega í náuð; hann segir ekki, að Guð muni á sínum tíma veita oss það hinumegin grafarinnar, heldur segir hann oss sé boðið það þegar hér á jörðu, og vér skulum höndla það; að vísu vill hann vér skulum taka oss stundir til guðrækniss og upplýsíngar sálu vorri; en ekki ætlar hann samt það sé nóg, að vér tökum oss stund og stund til undirbúnings undir eylífðina;

hann kallar oss ekki burt frá þessu lífi, né útá eydimerk, ad vér skulum byggja oss hreysi til ad sitja þar vid eintómar hugleidíngar, né heldur kallar hann oss burt frá saklausri skemtan, né til tilfinníngarleysis í þjáníngum lífs vors, heldur sýnir øll ræda hans, ad madurinn høndlar og ávinnur sér hid eylífa líf med því ad hegda sér vel í heimi þessum. En hversu mikill munur er á ad hegda sér vel, og því, ad vera síkn af ákærum réttvísinnar fyrir mannlegum dómi! Tveir menn hafa hid sama starf á hendi; annar gjørir þad af naudúng og afþví þad verdur svo ad vera, hann ætlar ad vinna sér braud, edur aud og metord; medan hann á von á þessu, heldur hann áfram, en sjái hann ekkert endurgjald, þyki honum starf sitt of umfángsmikid, til þess hann geti uppskorid ávexti þess, edur of lítilfjørlegt, til þess þad geti veitt honum fé og frama, hættir hann vid þad; hinn leitast vid ad ná ákvordun sinni og afljúka því starfi, sem honum er á hendur falid, og nota vel þann tíma, sem honum er veittur, þessvegna lætur hann endurgjaldid koma einsog honum er ætlad þad, en fyrst af øllu hugsar hann um ad koma því af, sem honum ber; þyki honum verk sitt mikid, treystir hann því, ad sá, sem fól honum þad á hendur, muni einnig senda þá, er unnid geti med honum, og frækorn þad, sem hønd hans sáir, muni ekki glatast; þyki honum verk sitt lítilmótlegt, kemur honum til hugar, ad eingin býgging yrdi fullgjørd, ef einginn fengjist til ad leggja í hana stein á stein ofan, er sé hver, sem ad henni vinnur, trúr í því litlu, sem til hans nær, þá láti Gud allt verk þeirra til samans þróast gudlegum þroska; annar þessara manna ávinnur sér ekkert, ef til vill, edur þá aud og frama, en hinn høndlar hid eylífa líf. Tveir menn njóta gæda þessa lífs; annar þeirra tekur þau edur sóar þeim, og lyptir aldrei huga sínum hærra, skógurinn breidir yfir hann laufhvelfíng sína einúngis til ad veita honum forsælu, stjarnan skín einúngis til ad bera birtu á gøtu hans, blómin ljúkast upp í aldingardi hans, einúngis til þess hann geti sýnt þeim, sem koma ad skoda þau, ad hann eigi slíka prýdi, og svo eru þeir, ef til vill, eins hégómlegir og hugsunarlausir einsog sjálfur hann; hinn lítur frá gjøfinni upp til gjafarans, hann sér Gud í blómum jardarinnar og í stjørnum himinsins, og í sérhverjum føgnudi lífs

síns ser hann glampa hinnar eylífu dýrdar, einsog þegar sólin speglar sig í daggardropa; annar þessara manna hefir þegid öll sín gædi, hinn hefir hér í hinu stundlega lífi höndlad eylíft líf. Tveir menn bera hryggd og mædu þessa lífs; annar þeirra herdir sig í gegn þeim, hann setur upp spekíngssvip, og segir ad stunur og kveinan komi ad eingu lidi, og óþolinmædin gjeri sár hans enn dýpra, svo gáir hann ad í kríngum sig, hvert allir taki eptir stødugleik hans; hinn geymir vidkvæmt hjarta í brjósti sér, svo hann geti fundid til hryggdar sín og annara, en hann ber harm sinn í hljódi og lýtur rádi Guds, hann veit, ad allir hlutir verda þeim til góds, sem Gud elska; annar þessara ávinnur sér, ef til vill, lof af mönnum, hinn hefir höndlad hid eylífa líf.

Þannig eru ekki tveir sérstakir heimar til, svo annar taki þar vid, sem hinn hættir, edur svo, ad vér skulum ýmist hefja oss uppí annan þeirra, edur láta aptur sigast nidur í hinn; heldur er adeins einn heimur til, í þeim skilníngi, sem vér tölum nú um þetta mál; hid eylífa opinberast einnig á þessari jördu, og þótt þad birtist ekki á jafn fullkominn og sælufullan hátt, sem í hinum ædri og betri heimkynnum, er þad eigi ad sídur hid sama og þar birtist. Þessi jörd er forgardur helgidómsins, en hún er einn hluti hins mikla musteris, og samhljómur sá, sem fyllir musterid, heyrist þegar í forgardi þess. Þad er ekki nema einn Gud til og hann er Gud himins og jardar; lögmál þad, sem hljómar í samvizkum vorum, er hid sama lögmál, sem hlýdt á ad verda um alla eylífd, hin rádvanda og Gudi þekka vidleitni, sem þú hefir byrjad á hér í veikleika þínum, er hin sama, sem þú átt ad halda áfram í ödru lífi; og hin sönnu gædi, sem hafa gladt hinar dýpstu tilfinníngar hjarta þíns í þessu lífi, eru hin sömu, sem vonin lætur ljóma med enn meiri fegurd í móti þér úr ókomnu lífi. Allar áminníngar kristinnar trúar, öll kenníngin um kristilegt réttlæti og kristilega trú og kristilega gudsdýrkun, koma þessvegna saman í þessum ordum: höndladu hid eylífa líf!

En þarsem vér finnum til hins eylífa lífs og gjörum þad ad eign vorri, ödlumst vér jafnframt fulla sannfæríng um ad eylíft líf sé til og ódaudleiki. Þad sem er eintóm þoka verdur ad breitast og sundrast, þad sem er einber skuggi, verdur ad lída fram-

hjá, en hid verulega og sanna er ævarandi. Því fremur sem madurinn hefir leitad hlutskiptis síns í stundlegum munum, því fremur sem hann hefir sokkt veru sinni nidurí þá, því fremur virdist honum, ad sjálfur hann sé vígdur til sundrunar og algjörlegs dauda. Þetta er ad vísu eintóm missýning og ósannindi, því kjarninn í veru hans á sér rót í hinu eylífa, og getur ekki ad eingu ordid, en hann selur hann á vald ómælanlegum hörmúngum, þarsem hann sökkur honum nidurí ólgusjó daudlegleikans. En því fremur sem madurinn leitar hlutskiptis síns í hinu eylífa, því fremur losar hann sig undan valdi daudlegleikans. Þessvegna segja hinir fornu spekíngar ad ódaudleikinn sé í ætt vid vizkuna (Spek. 8, 17), ad vidurkenníng bodorda Drottins sé lífs mentun, og þeir, sem gjöra þad, sem honum þóknast, neyti af tré ódaudleikans (Sír. 19, 19); þessvegna segir og postulinn þessi hin háleitu ord: vér letjumst ekki, því jafnvel þótt hinn ytri madur vor hrörni, endurnýast samt hinn innri madur dag frá degi; því þrenging vor er skamvinn og léttbær, og aflar oss yfirgnæfanlegrar eylífrar dýrdar, þarsem vér lítum ekki til hins sýnilega, heldur hins ósýnilega, því hid sýnilega er stundlegt, en hid ósýnilega eylíft (2 Kor. 4, 16—18).

Renndu því, straumur tímans! eg skal ekki hryggjast af hradför þinni; ný blóm spretta jafnan upp á bökkum þínum, og þad, sem þú hrífur med þér af því sem mér var kært, flytur þú til þeirrar strandar, er eg mun sídar á koma, og finna þar aptur þad, sem eg hefi misst. Renndu, straumur tímans! eg veit þad ad vísu, ad ár mín eru talin hér á jördu, en eg skal ekki hryggjast af því, ad reynsluár mín lída hvert af ödru; hafi þad verid létt ár, vil eg þakka Gudi fyrir sérhvern fögnud, sem ílur himinsins leiddi fram af hinu dymma skauti jardarinnar, hafi þad verid þúngbært ár, vil eg þakka Gudi, ad þad er lidid og borid, þakka Gudi, hafi hann kennt mér í þessari raun ad vardveita trú og kærleika, og þolinmædi, og hógværd. Hid ófullkomna verdur aftekid, hid hryggilega lídur undir lok, en hid fullkomna eflist og dafnar. Sæll er sá, sem höndlar hid eylífa líf, og safnar sér af fyllíngu þess krapti, sem þreytist ekki, og fögnudi, sem einginn fær af honum tekid!

## 59.

## Gud er ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu.

Parsem øll hin kristilega kenníng snertir hid eylífa líf, er hún byrjar med því fyrst og kemur ad því sídast, þá talar hún eingaunveginn um þad eitt, sem á ad verda hlutskipti vort, þegar vér erum komnir ad takmørkum þessa lífs, því hid eylífa líf hefir verid til frá upphafi, og er og mun verda æfinlega, og þegar hér í hinni stundlegu tilveru vorri eigum vér ad høndla, og getum høndlad hid eylífa líf. En hver sem hefir høndlad þad, og fundid til þess í sér støduglega, hann hefir og um leid áunnid sér ódaudleika; því nafnid sýnir þad sjálft, ad hid eylífa líf getur ekki verid daudanum undirorpid. Þessvegna leidir og kenníng Krists til sannfæríngar um ódaudleika. Drottinn vor segir sjálfur: eg em upprisan og lífid, hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi, og hver sem lifir og trúir á mig, hann mun ekki deya ad eilífu (Jóh. 11, 25. 26); og postuli hans segir, ad Jesús Kristur hafi afmáð daudann og leidt í ljós lífid og ódaudleikann med fagnadarerindi sínu (2 Tím. 1, 10). Hvar sem þessu fagnadarerindi hefir ordid framgengt, hefir þad svipt daudann broddi sínum, og ríki daudans sigri sínum; Jesús hefir veitt og stadfest von ódaudleikans, bædi med kenníngu sinni og upprisu.

Þegar hinn ágæti og gudhræddi madur, sem andvana líkami Jesú var á hendur falinn, var búinn ad leggja hann í grøfina í klettinum, lét hann velta miklum steini fyrir grafarmunnann. En ad morgni páskadagsins var búid ad velta þessum steini á burt þadan, og þad var hid mesta og fagnadaraudugasta kraptaverk, sem nokkru sinni hefir ordid í heiminum; því þad var ekki adeins sú byrdi, sem svipt var á burt, og sú grøf, sem lokid var upp, heldur skein fagur geisli nidur í allar dymmar grafir, og þúngri byrdi var svipt af sérhverju manns brjósti. Slíkir bústadir daudra, sem sá, er líkami Jesú var í lagdur, eru alstadar um øll lønd; hvert sem þeir eru høggnir í klettana, grafnir í jørdina, edur reistir med allri þeirri dýrd, sem listamennirnir

geta upp hugsad, eru þeir samt allirsaman grafir; daudinn liggur þar á herfángi sínu, og grafarsteinninn gjörir slíkan adskilnad, ad meiri getur ekki ordid hér á jördu, skilnad hinna daudu og hinna lifendu. Satt er þad ad vísu, ad steinn þessi ver skarkala heimsins og öllum mædum þessa lífs inngaungu í gröfina; undir skjóli hans er hæli ad finna, hafi hinn þjádi madur hvergi fundid þad annarstadar á jördunni; þar sækir ekki sótt, þar bítur ekki húngur; gröfin er öruggt vígi, svo bárur ofsóknanna brotna á því, hún hrekur á bak aptur hina dymmu hryggd og hinn fölva ótta; farid og áreitid hina lifendu, en dirfist ekki ad hagga ró grafarinnar. En sá steinn byrgir og úti allan fögnud lífsins; þegar búid er ad leggja hann yfir moldir vorar, audnast oss aldrei framar ad líta blómin gróa og vorid brosa, þá bjódast oss aldrei framar frægdarverk ad vinna, þá kallar morguninn oss aldrei framar til skemtilegrar vinnu, né kvöldid til indællar hvíldar, þá vermir ástin ekki framar hjörtu vor, og sæla vonarinnar fyllir ekki framar brjóst vort; farid allar á burt, þér blídu unadsemdir lífsins! vitjid bústada hinna lifendu, en ekki þeirra, sem daudir eru. Þessvegna leggst og steinn grafarinnar þúngt á oss, laungu fyrr enn hann er laggdur yfir moldir vorar; myndir daudans brjótast innámillum mynda lífsins, tilfinníng daudlegleikans leitar ad færa klaka sinn yfir blómvöllu lífsins, laungu fyrr enn ad því er komid, ad ljárinn gángi yfir þá; svo þad eru ekki hinir daudu, sem steinn grafarinnar leggst þúngt á, heldur einmitt þeir sem lifa. Hver mun velta þessum steini frá grafarmunnanum? Hver hefir almáttugt afl og almiskunsaman kærleika til ad taka á burt byrdi þá, sem liggur á brjóstum allra daudlegra manna?

Lofadur sé Jesús Kristur, fyrir þad hann hefir leidt í ljós lífid og ódaudleikann med fagnadarerindi sínu, og látid von ó-daudleikans renna upp og skína yfir dýrd audæfanna og eymd fátæktarinnar, yfir fjölmennar borgir og fámenn hreysi, yfir alla söfnudi hinna lifendu og allar grafir hinna daudu! Ad vísu hefir Gud gródursett þessa von í mannlegu hjarta, og þegar hjartad er fjörugt og hugurinn er skír, þá kannast madurinn einnig vid, ad eylíft líf gjöri vart vid sig í honum, og ad hinn betri hluti hans, hin rétta vera hans, sé ekki herfáng daudans. En fagnadarerindi

Krists var nauðsynlegt til að vekja hjartað og leiðbeina hinum efablöndnu hugsunum, og upprisa Krists var nauðsynleg, til að staðfesta fagnaðarerindið og votta berlega, að hinar háleitu og fagnaðarfullu hugsanir séu sannar, og fyrirheit þau, sem hjartað hlýðir svo feginsamlega á, komi frá Guði.

Allar alvarlegar hugsanir, sem hafa nokkra staðfestu, leiða oss jafnan að lokunum til ódauðleikans, hverja stefnu sem þær hafa tekið í fyrstunni; en þarsem vér nú að þessu sinni viljum snúa sálu vorri einmitt að þessu efni, þá látum þau orð, sem Jesús hefir sjálfur talað, vísa oss á, hverja götu vér skulum þræða. Svo bar við einhverju sinni, að nokkrir fróðir menn og mikils metnir af Gyðingalýð báru upp fyrir honum kaldar og fávíslegar efasemdir viðvíkjandi öðru lífi, og þá svaraði hann þeim á þessa leið: "þér villist og skiljið ekki ritníngarnar, og ekki vitið þér heldur hvílíkur að er máttur Guðs. Hafið þér þá ekki lesið það, sem Guð hefir til yðar talað, er hann segir: eg er Guð Abrahams, Guð Ísaaks og Jakobs. En Guð er ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu" (Matth. 22, 29 o. nn. vv). Látum oss halda fast við þessa hugmynd og leitast við að komast í skilníng um, hvernig það leiðir af veru Guðs, að líf það, sem hann hefir gefið, hljóti að vera við líði um allar aldir.

Hver, sem þekkir ritníngarnar, hinar helgu bækur, er þekkíngin á Guði er varðveitt í, einsog hann hefir sjálfur opinberað hana, og einsog hann vill hún skuli verða geymd og sýna mátt sinn á jörðunni, sá veit og, að Guð er þar alstaðar boðaður sem sá hinn lifandi Guð. Það sýnist vera óþarfi að bæta orðinu "lifandi" við nafn Guðs, því það gefur að skilja, að hann, sem gefur öllum líf og anda, hljóti einnig að vera sjálfur lifandi, í æðstum skilníngi þessa orðs. Samt hefir það ætíð verið nauðsynlegt, og mun ætíð verða það, að vér köllum Guð með fullum orðum hinn lifanda Guð, þegar vér viljum láta hugmyndina um Guð hafa full áhrif á oss, því ætíð hafa mennirnir viljað minka dýrð Guðs og setja skepnuna í stað Skaparans. Vér viljum nú ekki fá oss til orða villur þær, sem spámennirnir hurftu eigi að síður að prédika á móti um margar aldir fyrir þeirri þjóð, sem átti að rekja kyn sitt til þeirra forfeðra, er snemma höfðu öðlazt þekkíngu á sönnum Guði,

og postular Krists urðu að prédika í móti fyrir öllum heidingj-um, og þeir menn, sem Drottinn vakti til að hreinsa kirkju hans, urðu að prédika í móti, mitt á meðal kristinna manna, — eg meina þær villur, er mennirnir köllúðu ljós himinsins eður dýr jarðarinnar, eður dauðlega menn, eður skapaða anda, mönnum æðri, guði sína, eður eignuðu dauðum líkneskjum guðlegan mátt. En hversu opt verður það enn, að náttúrunni er slengt saman við Guð, og þá um leið skepnunni við Skaparann. Sérhver, sem hefir augu að sjá með og vit að skynja með, hlýtur að kann-ast við opinberun guðlegrar veru í hinum sýnilega heimi. Þegar nóttin leiðir hinar skínandi hersveitir yfir himinhvolfið, eður þegar dagurinn breiðir sundur hinn blómfagra auð jarðarinnar, þegar vér verðum varir við mátt og reglu og speki, djúpt undir rótum fjallana, er aldrei bifast, eður í hinu æðanda hafi, sem aldrei er kyrrt, þegar blessunin líður niður frá himninum í lifganda il, eð-ur svalandi dropum, og kemur aptur upp af skauti jarðarinnar í ylmsætum blómum og fögrum ávöxtum: þá fyllist sérhvert hjarta tilbeiðslu, og sá er einginn, er ekki kannist við, að eitthvað guð-dómlegt opinberi sig í náttúrunni. En þetta hið guðdómlega, er ekki Guð; — þú sérð fald klæða hans, þú sérð glampann af dýrð hans í hinum skapaða heimi, en Skaparann sérðu þar ekki. Viljirðu komast í nákvæmara skilníng um veru hans, að svo miklu leiti sem þú fær gripið hana, verður þú að skoða anda þinn sjálfs, því Guð hefir skapað þig eptir sinni mynd. Og þarsem þú verður þá ekki aðeins vís þess, að þú lifir og aðhefst, á líkan hátt og tréð lifir og dýrið hefst að í hinum óskíru draumum sínum, heldur finnur í sálu þinni hugsanir og tilfinníng og vilja, og ljósa meðvitund, er veit af sjálfum þér og því, sem er umhverfis þig, og er yfir þér og undir þér; mundi þá hann, sem kveykti neista þann, er skín í hugskoti þínu, ekki sjálfur vera ljós? Ó! himininn er hásæti hans, og jörðin er skör fóta hans, sólirnar í hæðum eru hersveitir hans, og öll dásemdarverk á jörðunni eru af honum gjörð, hann hefir niðurskipað öllu því, sem skapað er, og náttúran er opinberun vizku hans og máttar; en sjálfur er hann ekkert af öllu þessu, hann er sá hinn lifandi Guð, og af honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir.

Til hans, sem er og lifir eylíflega, lyptir maðurinn huga sínum, sem hann hefir gefið, og kallar hann hinn almáttka og hinn alvitra. Hver megnar að ransaka dásemdir almættis hans? hver hefir tölu að telja þær með, og orð til að lýsa þeim með? En þær eru til, vér gaungum úr skugga um það, vér sjáum þær, vér þreifum á þeim, og vér sökkvum oss niður í skoðun þeirra. Hið mikla dásemdarverk er í því fólgið, að heimurinn er til, og vér erum til, og erum á óransakanlegan hátt skapaðir af eingu, og kallaðir fram af nóttu meðvitundarleysisins. Mundi þá hann, sem leiddi lífið fram með almáttugri bendingu sinni, ekki halda því við? Mundi þá sú hin eylífa vizkan einúngis byggja til að rífa aptur niður, og skapa til að eyða því aptur, sem skapað er? Mundi það vera tilgángur almættisins og vizkunnar, að sálin, með öllum kreptum sínum og hæfilegleikum, með öllum sínum djúpu tilfinníngum, öllum sínum framsýnu hugsunum og öllum sínum einlægu ásetníngum, skuli aptur verða að eingu? Þá væri Guð, Guð hinna dauðu og ekki hinna lifendu.

En látum oss nefna þau nöfn Guðs, sem hrífa með enn meira afli á sálu vora. Eínginn er sá, er lyptir huga sínum til hins Hæsta, utan hann kalli hann einnig hinn réttláta. Hvert sem oss mætir hryggð eður kæti; hvert sem vér gjörum það er oss hæfir, eður vér látum það ógjört, hvert sem geðshræríngarnar æða í oss, eður allt er dautt og dofið í oss og umhverfis oss, hvert sem vér sjáum dygðir, er prýða jörðina, eður lesti, sem gjöra henni vanvirðu, lætur samt samvizkan ætíð til sín heyra, með slíkri röddu, sem ekkert fær niðurþaggað, og hin helgasta sannfæríng í brjóstum vorum boðar oss, að hvert sem réttlæti er til á jörðu, eður ekki, þá sé samt réttlæti til hjá Guði á himnum. Það lögmál er til, sem maðurinn hefir ekki sett sér sjálfur og megnar ekki heldur að ónýta; hann getur hlýðt því, eður óhlýðnast því, en hlýði hann því, nýtur hann hugrekkis og friðar, og óhlýðnist hann því, hlýtur hann að titra og skjálfa. Að vísu birtist réttlæti Guðs þegar hér í heimi; bæði endurgjald og hegníng koma optlega fram hér á jörðu á undarlegan hátt, stundum skjótt og stundum seint, stundum svo, að hinn seki verð=

ur þeſs einnſaman vis, og ſtundum ſvo, að það er bert øllum lýð. Þegar Kaín var óttafullur og landflótta á jørðunni, er drukkið hafði blóð bróður hans, það er hann hafði út auſið, voru það ekki mannlegar hótanir, heldur ſkelfing hins eylífa rétt=lætis, ſem ráku hann fram og aptur hvíldarlauſt. Þegar Páll poſtuli var ſigri hróſandi, og fann á ſér ſtyrkleika og fegnuð, er hann var fjøtrum reirður og hæddur og ofſóktur, þá var það hið eylífa réttlæti, ſem endurgaldt honum þegar hér á jørðu trú hans og ſtøðugleika með ſlíkum gæðum, ſem meira var í varið, enn allt það, ſem heimurinn kallar ávinning. Og ſamt blauzt þú, hinn mikli poſtuli! að láta líf þitt fyrir ſverði bøð=ulſins, ſamt ſagðir þú áður enn það yrði: ef vér vonum á Kriſt einúngis í þeſsu lífi, þá erum vér veſælaſtir allra manna (1 Kor. 15, 19). Hver mundi hafa ſéð full gjeld hins góða og hins illa hér á jørðu? Og væri allt þrotið, þegar hið jarðneſka brjóſt hættir að anda, mundi eg þá með ſannindum geta kallað Guð réttlátan, er eg ſtæði við banaſæng hins guðhrædda, er hlyti að láta líf ſitt í ómaklegum þjáníngum, eður eg ſtæði við bana=beð guðleyſíngjans, er hefði einſkisvirt Guð og menn, allt að hinu ſíðaſta andartaki; mundi eg geta það, ef eg ætti þá að ſegja: nú er allt þrotið, allur réttur og óréttur, øll afbrot og øll góðverk, allur fegnuður og øll þjáníng, øll von og allur ótti? Já, eg ſpyr ſérhvern, hvað ſem hann hefir reynt og hvað ſem hann hefir ſéð í þeſsum heimi: getur þú ráðið hina myrku ráðgátu lífſins með þeſsum orðum: dauðinn endar alla hluti? En það getur þú einganveginn, því ráðning gátunnar hljóðar á þeſsa leið: fyrſt er dauðinn og ſvo dómurinn. Látum oſs því ſegja það ſtaðfaſtlega og með fullri ſannfæríngu: Guð er ekki Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu, því honum lifa allir menn (Lúk. 20, 38). Já, allir — allir þeir ſem glødduſt og grétu, þeir ſem upphófuſt og þeir ſem voru niðurlægðir, þeir ſem hlýddu og þeir ſem þrjózkuðuſt, þeir ſem heimurinn endur=galdt, og þeir, ſem hann gat ekki endurgoldið, hvert ſem þeir dreifðuſt og hvar ſem þeir gengu til moldar, — allir lifa þeir fyrir hið eylífa réttlæti.

Guð er kærleikur. Hver dirfiſt að efa það, hver get=

úr efad þad, og hver vill efa þad. Sértu madur, hefir Gud þá látid sig án vitnisburdar fyrir þér? Hefir þú ekki séd hann ljúka upp sinni mildri hendi, og sedja allar lifandi skepnur med blessun sinni? Hefir hann ekki gjört sjálfum þér gott, og sadt ekki adeins líkama þinn, heldur og optlega fyllt sálu þína fagnudi? Sértu kristinn, hefir Gud þá ekki gefid þér hinn dýrmætasta vott elsku sinnar, er hann seldi fram Son sinn eingetinn fyrir þig og alla menn? Spyrdu hjartad í brjósti þér; hafirdu fundid til ástar á jördunni, hafirdu unnt nokkrum manni af alhuga, hafi födurástin edur módurástin hreift sér í hjarta þínu; hver hefir þá kveykt kærleikann í brjósti þér, utan Gud kærleikans, hann, sem allt faderni er frá komid á himni og jördu? Mennirnir fara vídsvegar til fjarlægri stranda, og allt á strönd eylífdarinnar; en gleymum vér fyrir þá sök vinum vorum? Gleymum vér þeim, þótt mynd þeirra sé hnigin til þess stadar, er þeir eiga aldrei apturkvæmt úr í ljós þessa heims? Æ! skarkali lífsins og skyldur þess banna oss ad horfa óaflátanlega á þann stad einan, sem þeir hvurfu á, og Gud hefir gefid tímanum og trúnni megn til ad græda, er vér eigum ekki ad hrinda frá oss. En er þad samt ekki, einsog hinn framlidni ávarpi oss úr fylskni sínu, þarsem heimurinn þekkir hann ekki framar, né gefur neinn gaum ad honum, og mæli til vor á þessa leid: lát mig ekki vera gleymdan, né glatadan, né gjörsamlega afmádan, einsog hefda eg aldrei verid til! og svarar þá ekki röddin innst í brjósti voru: alla þá stund, sem hjarta mitt berst, er þér fyrirbúinn stadur á jördunni, sem vera skal bústadur þinn? Finnum vér þad ekki innanum allan grúa hinna lifendu, hvad sem oss hefir leift verid, og hvad sem oss hefir sídan hlotnazt, — finnum vér þad ekki á einverustundum vorum, med sárri og sætri tilfinníng, ad röddin segir í brjósti voru: nei, vér getum aldrei gleymt ydur! Og þú, ó Gud! Gud kærleikans og trúfestinnar! mundir þú nokkud gleyma oss? Mundi einginn samastadur vera til handa oss í hinum morgu heimkynnum þínum? Mundu nokkud forfedurnir, er lifdu í ótta þínum, og bördust hinni gódu baráttu, og vardveittu trúna, og runnu skeid sitt á enda, og leifdu minníng dygda sinna og sæmdarverka á jördunni, — mundu þeir

nokkud vera þér úr minni lidnir, þeim er þeir trúdu á og kölludu Gud sinn? Og hjarta mitt, sem trúdi á þig og vonadi til þín, og elskadi, ekki adeins mennina, heldur og þig, Fadir á himnum! og þekktist eingan fögnud utan þitt samfélag: mundir þú nokkud kremja þad, þá er þad snéri sér til þín í eymd sinni, og selja sálu mína á vald eylífri glötun, svo hún vakni aldrei framar og þakki þér aldrei þadanifrá, Nei, þú ert ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu, því þú ert kærleikurinn.

Ad hinn lifandi Gud, hinn almáttki, hinn alvitri, hinn réttláti, sem allur kærleiki er frá kominn, og sjálfur er kærleikurinn, skapi ekki lífid til þess ad selja þad á vald daudanum, ad hann sé ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu, þad er svo bert, sem nokkur sannleikur getur verid, ef vér adeins viljum kannast vid þad. En þúngbærar stundir eru til í lífinu, þá er þad bifast, sem stadfastast er, og þad verdur oss myrkt, sem ljósast er; og sé þá auga þitt daprad af tárum, sé sála þín þoku hulin og hjarta þitt ordid tilfinníngarlaust í lángvinnri hryggd: hvert á eg þá ad leida þig, svo trúin og vonin og kærleikurinn geti aptur lifnad í brjósti þér? Látum oss gánga til grafar Jesú, og setjast á stein grafarinnar, og hugleida þar hvad Gud hafi látid fram vid oss koma. Jesús er sá, sem sendur var til ad boda heiminum, ad Gud vill ekki vér skulum tortýnast, heldur eignast eylíft líf; hann er sá, sem sagt hefir: hver, sem á mig trúir, skal lifa, þótt hann deyi; hann er sá, sem hefir sagt: eg lifi, og þér skulud lifa; en hann vard og ad gánga hinn dymma veg og vera hlýdinn til dauda, til daudans á krossinum, og hér hafa þeir lagt líkama hans. Hefdi hann nu legid kyrr undir steini grafarinnar, hefdi hin sídasta umbreiting hans farid fram í leynum, og ekkert tákn hefdi ordid fyrir augum hinna daudlegu, þá hefdi ord Guds á vörum hans vantad stadfestíng sína, og hann hefdi ekki leidt í ljós lífid og ódaudleikann. En hann er upprisinn — ó! látum þad hljóma eins lángt og himininn nær, um öll ríki lífsins og um hid dymma ríki daudans: hann er upprisinn! Var þad ekki Gudi sambodid, ad láta hann verda frumgetníng hinna daudu? Og eru ekki færdar sönnur fyrir þessum vidburdi fremur, enn fyrir öllu ödru, sem ordid hefir á lidnum öldum. Vott-

ar hans; hinir sannsöglu, heilögu vottar, er bodudu þad, sem augu þeirra höfðu séd, og hendur þeirra þreifad á (1 Jóh. 1, 1), hafa farid út um allan heim, og bodad Jesúm Krist, krossfestan og upp aptur risinn; þeir hafa ekki girnzt silfur og gull, né heidur veraldar þessarar fyrir vitnisburd sinn, þeir voru vidbúnir ad stadfesta hann med því ad selja sig fram til dauda Drottins þeirra, og margir þeirra hafa tæmt hinn sama bikar og sjálfur hann, og hafa í dauda sínum, er þeir þoldu hans vegna, litid upp til hins upprisna, svo segjandi: Drottinn Jesús, tak þú vid anda vorum (Post. 7, 59)! Herdtu ekki hjarta þitt, og tak heldur vid vitnisburdi þeirra; og þegar þú svo snýr aptur frá Jesú gröf, til þeirra grafa, sem þú ert vanur ad dveljast vid, muntu þar heyra rödd, er svo mælir: hví leitar þú hinna lifendu medal hinna dauðu? Nú sérd þann stad, er þeir hafa verid lagdir á, en þeir eru þar ekki; duptid eitt fúnar í moldinni, en þeir eru farnir á undan þér til Födur þeirra og Födur þíns; þar muntu sjá þá aptur, einsog sagt hefir Drottinn þinn og Frelsari, sem Gud hefir gefid vald til ad uppvekja dauda og gjöra lifandi. Snú því aptur til lífsins, og vertu ad verki þínu, og fardu óhvídinn leidar þinnar; geturdu ekki þagad og bedid litla hríd? Vér finnumst þó allir ad lokunum í heimkynni voru, því Gud er ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu.

---

## 60.

## Upprisa líkamans.

Í öllum kristnum löndum er á hverju ári haldin páskahátíd; þad er mikil hátíd og indæl, og harla merkileg eptir tilgángi sínum. Á helgidögum hátídar þessarar kemur fjölmenni í kirkjur vorar, bædi háir og lágir, úngir og gamlir, ríkir og fátækir; þeir menn eru allir hver ödrum í því líkir, ad þeir fyrir litlum tíma sídan — þad er sama, hvert hann er lengri eda skemmri, því mannsæfin er ekki laung — hafa raknad úr því óminni, sem einginn mannlegur skilníngur getur skygnzt inní, og hafa lifad á

ávøxtum jardarinnar, og átt vid margt ad búa, ýmist blítt eda strítt, indi eda armædu; þeir menn eru allir hver ødrum í því líkir, ad þeir munu innan lítils tíma — þad er sama, hvert hann er lengri eda skemmri, því mannsæfin er ekki laung — allir verda horfnir af jørdunni, þar er þeir lifdu, því þeir eru daudanum hádir. En þeir eru allir komnir til kirkju til ad halda uppriſuhátíd, vegsama, bidja og þakka, einsog þeir séu ætladir til ódaudleika, og til ad vidurkenna, ad lífid sé eylíft, og ad Gud, sem er brunnur lífsins, og lifir frá eylífd til eylífdar, hafi veitt oss hluttekníngu í því lífi, sem aldrei slokknar, heldur logar, einsog eylíft ljós, um allar aldir. Daudlegir menn halda nú hátíd þessa vída um lønd. En hvernig er slík uppriſuhátíd undir komin? Hún var ekki til í fornøld. Ad sønnu hefir vonin um ódaudleika ávalt búid í hjørtum mannanna, og á henni bryddt í einstøkum ordum, sem þó hafa optast verid efasøm; hún falst í myrkum frædum og líkíngum heidinna spekínga, en gat aldrei komizt úr fjøtrum sínum, til ad glæda, efla og ávaxta líf einstakra manna edur heillra þjóda. Hvenær hafa mennirnir farid ad halda hátíd, bædi fyrir vitra og fáfróda, þá er þeir bjóda óvini lífsins birginn, og segja: daudi, hvar er broddur þinn? grøf hvar er sigur þinn? Þetta hlýtur ad hafa haft einhver upptøk, einsog allt annad á jørdunni; og vér þekkjum upptøkin gjørla. Vér vitum ad hátíd ódaudleikans hófst á vígvelli daudans, vid grøf þá, er harmandi menn høfdu lagt ástvin, kennara og herra sinn í. Þángad gengu lærisveinar hans og vinir, hinir fáu, er honum høfdu reynzt trúir, til ad gráta vid grøf hans, og auðsýna honum lotníngu í sídasta sinn, og til ad snúa sídan aptur án vonar og huggunar. Snemma morguns, þegar þeir komu þángad, sáu þeir, ad búid var ad velta steininum frá grøfinni, og heyrdu þann bodskap, ad sá lifdi, er þeir ætludu daudan; sídan sáu þeir hann sjálfan, margsinnis og med mørgum skírum røkum, og jafnvel þeir, sem í fyrstunni efudust, urdu ad vidurkenna einsog hinir, ad Drottinn væri sannarlega uppriſinn. Sídan báru postularnir vitni um uppriſu Drottins Jesú med miklum krapti, og mikil nád var med þeim øllum (Post. 4,33). Þeir fóru, og kenndu alstadar, og Drottinn var í verki med þeim, og

ſtadfeſti kenninguna med táknum, er henni fylgdu (Mark. 16, 20); fagnadarerindi þad, er þeir bodudu, ruddi ſér til rúms, breiddiſt út í allar áttir, og hefur haldizt betur vid á jørdunni, enn nokkur annar bodſkapur, og þeſsvegna er enn á hverju ári haldin ſú hátíd, þá er vér ſegjum med føgnudi, þakkargjørd og lotníngu: Drottinn er ſannarlega uppriſinn!

Þegar vér bodum líf Jeſu á jørdunni, ſegjum vér, ad hver, ſem á hann trúir, eigi ad taka þátt í því, og ſé ſkyldur ad breyta einsog hann breytti (1 Jóh. 2, 6); vér ſegjum, ad hver, ſem vill breyta eptir Jeſú, verdi ad taka kroſs hans á herdar ſér, og afneita ſjálfum ſér, og læra af honum ad vera hógvær og af hjarta lítillátur; vér ſegjum, ad vér eigum allir ad deya med Kriſti, ekki ad ſønnu á kroſsinum, einsog hann, en vér finnum þó allir, hverſu ſáran dauda, ekki adeins drambſemi vor og fávizka verdur ad þola, heldur og opt og tídum óſkir vorar, þær er ſaklauſaſtar eru, og ſú von um betri daga, er vér þóktumſt hafa fullan rétt á ad hafa, og hverſu ſáran dauda ſjálfselſka vor verdur ad þola, ef vér eigum ad geta ordid hans maklegir. En þegar vér bodum uppriſu Jeſu, og líf hans í dýrdinni, bodum vér og, ad hver, ſem trúir á hann, og deyr med honum, ſkuli lifa med honum; einsog hann gjørdiſt fyrirmynd vor í mædu og baráttu, þannig er hann og ordinn fyrirmynd ſú, er vér eigum ad ná, frumgetníngur medal margra brædra (Rómv. 8, 29). Þad er: vér eigum ad uppríſa einsog hann, og verda dýrdlegir einsog hann; þeſsvegna ſegir og hver ſá, er kriſtna trú játar: eg trúi uppriſu líkamans.

En mørgum þykja ord þeſsi óljós og efaſøm. Ef vér ætlum ad reyna til ad greida úr ſkilníngi þeirra, mun einginn betur geta leidbeint hugleidíngum vorum enn poſtulinn Páll, ſem bædi talar fagurt og frródlega í endanum á fyrra bréfinu til Korinthumanna um þetta efni, ſem ſvo mjøg er árídanda og huggunarfullt.

"Vér trúum uppriſu líkamans", hafa kriſtnir menn alltaf ſagt. En verid getur, ad menn komi nú med adra trúarjátníng, og ſegi: "vér trúum ódaudleika ſálarinnar", vér trúum því, ad ſál vor fái einhverntíma frelſi, og ad þetta frelſi ſé einmitt í því

fölgið, að hún brjóti af sèr fjötra líkamans, sem er daufur og þúngur á sèr, og hádur holdlegum áhrifum og veldur sjúkleika, sárindum og syndum, og heyrir jörðunni til, og verður því að hverfa til hennar aptur. Postulinn er og þessu að miklu leiti samdóma, því hann segir, að það sem upprísi sé ekki dauðlegt heldur ódauðlegt, og ekki holdlegt heldur andlegt (1 Kor. 15, 42. 44); og því fer fjærri, að hann segi vèr munum hafa jarðneskan líkama í hinum sælla heimi. Látum oss nú íhuga nákvæmlega von vora um hina mestu sælu. Getum vèr gjört oss það í hugarlund, að öll hin líkamlega veröld, og öll dásemdarverk hins almáttka og öll hin margfalda fegurð, er svo opt hefir skemt augum vorum hèr á jörðunni, muni hverfa einsog draumur, þegar skýlan verður áðidan tekin burt frá augum vorum, og vèr verðum álitnir hæfir til að sjá það, sem æðra er? þá yrði oss einlægt að lánga híngað aptur, til að sjá það, er vèr áður fengum að sjá. En Drottinn hefir sjálfur sagt: í húsi Föður míns eru mörg híbýli (Joh. 14, 2); og sjáum vèr þau ekki álengdar blika í næturkyrrðinni? er það ekki, sem vèr fáum grun af því, þegar vèr sjáum skin þeirra, hvar ástvinir vorir muni dvelja, og hvar vèr munum eiga að dvelja með þeim? En ef til eru önnur híbýli, þar oss er ætlað að vera, og aðrar veraldir, er dýrð hins almáttka fyllir berskjnilega upp, mundum vèr þá ekki öðlast augu til að sjá hana með, og hæfilega mynd til að vera þar? Eða hvernig heldur þú að þú verðir, þegar þú yfirgefur þá jörð, er þú vitkaðist fyrst á? ætlar þú að taka á þig vængi vindanna, og þjóta milli skýa himinsins? eða ætlar þú að íklæðast geislum ljóssins, og sveima milli himins og jarðar? Slíkar hugmyndir eru einnig líkamlegar; eru þær betri, ánægjufyllri, rèttari enn hin forna játníng, er svo hljóðar: vèr trúum upprisu líkamans? Hirð þú ekki um speki hinna dramblátu hugsana, er látast vera skynsamar, er þær reyna til að svipta oss því, sem nokkur staðfesta eða fylling eða huggun er í, og skilja oss ekki annað eptir enn skugga og óskírar hugmyndir, sem bæði vanta fjör og krapt; hirð þú ekki um hana, heldur trú því, að óspillt tilfinníng eigi hægra með að finna sannleikann enn hið smásmugla vit. Rannsóknir vitsins eru svo kaldar, en tilfinníngar hjartans svo heitar.

Nú kynni einhver ad segja: vera má, ád Gud gefi oss líkama aptur, en þad verdur allt annar líkami, enn sá, er vèr høfdum hèr á jørdunni; því hvernig ætti þad ad safnast saman eda rísa upp, sem rotnad er sundur í jørduuni, og komid er uppí loptid, og vindurinn hefir feykt í allar áttir, og samlagazt hefir ødrum líkømum? Postulinn samsinnir þessu ad nokkru leiti; þegar þú sáir, segir hann, sáir þú ekki því, sem fram á ad koma, heldur einberu frækorni, er Gud gefur slíkan líkama, og hann vill; ennfremur segir hann, ad upprisu daudra sè þannig varid, ad holdlegum líkama verdi sád, en upp aptur rísi andlegur líkami; og hann fullyrdir þad, ad hold og blód geti ekki erft Guds ríki, nè daudlegleiki ódaudleika (1 Kor. 15, 37. 38. 44. 50). Postulinn útrýmir á þenna hátt allri jardneskri hugmynd um líkama þann, er vèr eigum ad ødlast; hann segir ekki, ad almættid muni safna saman í upprisunni øllum þeim pørtum, sem tvístrazt hafa sinn í hverja áttina; hann segir einmitt hid gagnstæda, því hold og blód geta ekki erft Guds ríki. Enda medan vèr lifum hèr á jørdunni, er þad fremur mynd sú, sem hold vort og blód lagast eptir, er vèr køllum líkama vorn, enn holdid og blódid sjálft. Blódid er á sífeldri rás um líkamann, en aldrei hid sama, því þad breitist án afláts, verdur og eydist og verdur ad nýu, medan madurinn andar og hjartad bærist; þad er einsog á, sem alltaf hefir sama nafnid, þó vatnid í henni sè aldrei hid sama. Nú er ekki einn blódsdropi, nè einn vødvi í líkama þínum samur og í æsku þinni, og þó segir þú ad líkami þinn sè hinn sami, hvernig sem hann breitist. Af þessu má sjá, ad hid jardneska, er vèr tøkum utanad, og samløgum líkama vorum, er ekki þad hid verulega í honum, heldur er hid verulega í honum nákvæmlega samtengt vid sálina, og myndar innanad allt þad, sem samlagast líkamanum, eptir mynd sinni. En allt er hèr á jørdunni ófullkomid og spillingu undirorpid; hvenær ødlast mannleg mynd alla þá fegurd og alla þá tign, er henni var ætlad, þarsem hún átti ad vera bústadur sálarinnar, er Gud skóp eptir sinni mynd. Endur og sinnum í blóma æskunnar, eda þegar madurinn er uppá sitt hid bezta, einkum þegar skírar og háleitar hugsanir, eda helgar og øflgar tilfinningar brjótast út úr fylsknum sálarinnar, skrýdir sálin líkamann tign sinni og fegurd, svoad hann

skin, sem væri hann ódaudlegur ordinn. En ekki varir þad nema skamma stund, æska og fegurd hverfa skjótt, og blómid eydist í ovedrum lífsins; lífsmagnid eitt eydist ekki, þad megnar ad gjöra svip hins aldrada virduglegan, og ásjónu deyanda manns dýrdlega. En þad, sem alltaf var ad reyna til ad koma í ljós, en gat ekki, þad, sem aldrei gat sýnt sig fullkómlega í hinum holdlega og hrørlega líkama, þad, sem vér allir høfdum grun af, en einginn sá, þad, sem heppid ímyndunarafl eittsaman fékk litid þegar bezt lét, en einginn líkamadur gat gjørt sýnilegt nema til hálfs, þad, sem lærisveinarnir sáu á fjallinu, þegar Drottinn ummyndadist fyrir augum þeirra, og þad var sem hin himneska fegurdin bryti af sér hina jardnesku fjøtra: þad er þad, sem ásídan mun koma í ljós í hinni sídustu ummyndan vorri, þegar fidrildid, sem fyrst var skrídandi ormur, en sídan óf sér grøf sína, losnar úr fángelsinu, og flýgur fram í allri sinni fegurd. Þessarar meiningar er þad, sem postulinn segir á ødrum stad: vér vitum, segir hann, ad þótt þessi jardneska tjaldbúd vor, þetta hreysi vort, verdi rofid, høfum vér af Gudi þegid hús, sem ekki er med høndum gjørt; samt andvørpum vér, afþví oss lángar til ad verda íklæddir — þad er: ad sálin verdi íklædd hinu himneska húsi (2 Kor. 5, 1. 2). Þetta er þad, er hann útlistar svo fagurt, á þeim stad, er vér til færdum fyrst. Þegar þú sáir frækorni í jørdina, segir hann, sáir þú ekki þvi, sem fram á ad koma (1 Kor. 15, 37); gródrarmagnid í korninu getur þú ekki séd, en þegar kornid deyr lifnar grodrarmagnid, og nýr líkami kemur í ljós, miklu skrautlegri enn sá, er þú lagdir í jørdina. Þannig er og varid upprísu daudra; hér er sád daudlegum líkama, enn uppris ódaudlegur; hér er sád óásjálegum líkama, en upprís vegsamlegur, hér er sád veikum líkama, en upprís máttugur; holdlegum líkama verdur sád, en upprís andlegur líkami. Hinn fyrri madur var mold af jørdu, hinn sídari madur, Drottinn, er af himni; og einsog vér høfum borid líking hins jardneska, eins munum vér og bera líking hins himneska (1 Kor. 15, 42 o. nu. vv). Þannig er varid upprísu daudra. Vér munum ekki afklædast, heldur íklædast, ekki hverfa, heldur ummyndast. Ad sønnu hafa ástvinir vorir horfid af jørdunni, og hér mætum vér þeim aldrei framar; en vér mun-

um sjá þá aptur, og þá munu þeir ekki, einsog áður, blómgast og visna svo aptur, né þola tálmun af jarðneskum skorðum, né kveljast af sjúkleika, né gugna undir andstreymi lífs þessa; vér múnum sjá himneskar myndir, en ekki jarðneskar, og samt hinar sömu og áður; það er hið sama lífsmagn, er myndar hinn nýa líkama, og mun það verða auðkennilegt meðvitund vorri og endurminning þeirri, er í öllum breitingum faldist í djúpi sálarinnar, þó ekkert jarðneskt auga hafi eygt það, né það í nokkurs manns hug eður hjarta komið. — Þannig er varið upprisu líkamans.

Ekkert trúaratriði er oss dýrmætara né mikilvægara enn þetta. Það er mikilvægt, afþví það útrýmir þeim hinum raungu hugmyndum um ódauðleika mannsins, sem alltaf vilja smegja sér inn hjá oss, og aflaga hin kristilegu sannindi, sem eru svo heilsusamleg, upphefjandi og huggunarfull. Síðan menn eru farnir almennt að fyrirverða sig að segja, maðurinn heyri einúngis jörðunni til, að líf sálarinnar, hugsanir og tilfinningar séu ekki annað enn náttúrur hins jarðneska líkama, sem rotni í grøfinni ásamt hinum holdlega parti mannlegrar veru; síðan menn eru farnir að kannast við, að duptið eitt geti horfið aptur til jarðarinnar, þar það áður var, en að andinn verði að hverfa aptur til þeirrar veraldar, er hann á heima í: síðan er farið að brydda á nýum meiníngum, er leysa øll þau bønd kærleikans og réttvísinnar, er áttu að halda lífinu saman, næstum eins algjørlega og hinar. Margir eru til, sem að sønnu játa, að hið andlega í manninum sé ódauðlegt, en sýnast þó halda, það komi fram í øðrum verum, einsog hold og blóð leysist sundur í jørðunni, og samlagast svo øðrum líkømum, og kemur fram í øðru sambandi; þeir segja hinn andlegi kraptur viðhaldist, en hinn sami maður sé ekki til framar, sú meðvitund sé ekki til framar, er kom manninum til að segja hér á jørðunni: eg er sjálfur hinn sami frá byrjun æfi minnar til ellidaga, hvernig sem allt breitist; þeir segja, að hinumegin grafarinnar se eingin endurminning hins umliðna til, heldur muni það allt søkkva niður í djúp gleymskunnar, og aldrei koma þaðan aptur; øll synd og øll afbrot, og allur ógudleiki, og øll góð verk, og allt trúlyndi, og allur kærleiki muni hverfa einsog draumar næturinnar, og einginn muni minnast þess

að eylífu. Ekki veit eg hvert nokkur, sem þessu trúir, getur verið kvíðalaus, en hjarta mitt fyllist fegnuði, og andi minn gleður sig í Guði, Frelsara mínum, þegar eg endurtek hina kristilegu játning og segi: eg trúi upprisu líkamans. Því þegar líkaminn rís upp, þegar hinn sanni, ódauðlegi, andlegi líkami kemur fram af hinum er eydist, þá er það ekki ný vera, sem kemur í ljós, heldur hinn sami maður, er Guð hafði áður skapað, og áður þekkt, og hafði verið ein af hugsunum hans, og getur því hverki gleymzt eða týnzt. Það er ekki önnur vera, er mæta skal fyrir Dómaranum á himnum, heldur sjálfur þú, hinn sami, sem gekkst veg þinn frá vöggunni til grafarinnar hér á jörðu, og gjörðir þínar munu fylgja þér, því þú hefir framið þær sjálfur. Það, sem ekki heyrðist hér fyrir háfaða, mun þar hljóma hátt og skírt; það, sem gleymdist hér smámsaman, geymdist samt í djúpi meðvitundarinnar, og mun birtast, þegar bókunum á himnum verður lokið upp, og Guð allsvitandi, sem eingu gleymir, leiðir það í ljós einsog sjálfan þig. Þar mun hver maður heyra sjálfur rödd hins réttvísa; þar munt þú sjálfur heyra, en einginn annar, — annaðhvert hina óttalegu rödd, er svo hljóðar: farið burt frá mér, þér illgjörðamenn (Matth. 7, 23)! eður hina sælu rödd, þá er hin eylífa líkn segir við alla þá, sem sóktust eptir ríki hans og réttlæti, við sérhvern, er hann hefir fyrirgefið syndirnar, og skýlt afbrotum hans, og litið miskunsamlega á trú hans og viðleitni: vel hefir þú gjört, góður og dyggur þjónn! þú varst trúr í litlu, eg mun setja þig yfir meira; gakk inní fegnuð Herra þíns (Matth. 25, 21)! Það var ekki annar Frelsari, er uppreis úr grofinni, heldur hinn sami Jesús, sem þeir krossfestu, svoað þeir gætu séð hvern þeir hefðu stungið (Joh. 19, 37); það er ekki annar Frelsari, sem er í dýrðinni á himnum, heldur hinn sami, sem var á jörðunni, sem elskaði oss og seldi sig fram vor vegna, og fór burt að fyrirbúa oss stað (Joh. 14, 2). Og þannig munum vér og hjá honum finna hina sömu fornvini og tryggðavini, er skildu við oss hér á jörðu, og komnir eru burt á undan oss, svo og líka smámsaman þá, er síðar munu koma. Það er ekki annað barn og þér vandalaust, er lagt verður þér í skaut, þú hin viðkvæma móðir! heldur barn sjálfrar þín, hið sama er þú misstir,

og kom hingad í samfélag vid þig; þad hefir ad sönnu ummyndazt, hefir tekid framförum, og er ordid dýrdlegt, einsog englar Drottins, en er samt þitt barn, og verdur þad um alla eylífd.

O! er hin kalda spekin betri enn hin varma, og sú er særir betri enn sú, er grædir og huggar med eylífri og himneskri huggan? Eg fyrir mitt leiti hverf, eptir öll þau hyggindi eg hefi lært, og alla þá þekkíng eg hefi ödlazt í veröldunni, aptur til þeirrar tilfinníngar, er bærdist í brjósti mér, er eg eygdi fyrst morgunroda eylífdarinnar, og eg vil einlægt feginn vera barni mínu samdóma, og hverjum kristnum manni, sem segir í einfeldni og hreinskilni: eg trúi upprisu líkamans. Þegar vér ödlumst þessa trú, finnum vér fyrst ad vér erum ekki hádir daudlegleikanum, þá skiljum vér fyrst hina réttu þýdingu þessa lífs, og samband þess vid annad líf. Þegar vér skodum samfélög vor á jördunni med þessari trú, verda þau ekki einsog veikir þrædir, er menn hnita edur slíta ad gamni sínu, heldur einsog sterk bönd, er sameina þá, er saman eiga, svo þeir verdi aldrei vidskila hver vid annan. Sá sem hefir misst þad, sem honum var kærast á jördunni, og sá, sem finnur ad sjúkleiki og daudi eyda hinum jardneska líkama hans, segir í trausti trúar þessarar: bíd þú Drottins, þvíad eg mun honum enn þakkir gjöra (Sálm. 42, 6); hversu mjög sem eg finn til valds daudlegleikans, trúi eg því samt, ad eg muni sjá blessun Drottins á landi hinna lifendu (Sálm. 27, 13), og ad eg muni gánga fyrir augliti Guds í ljósi lifandi manna (Sálm. 56, 14).

---

## 61.

## Annad líf.

### Fyrri hugleidíngin.

Hvar sem kristin trú er kennd, er og kennt, ad daudir muni upprísa. Vér getum ekki bodad Gud, hinn himneska Födur, án

þess ad segja um leid, ad hann sé ekki Gud hinna daudu, heldur hinna lifendu; vér getum ekki bodad Jesúm Krist, Frelsara veraldarinnar, án þess ad segja, ad hann sé upprisan og lífid; vér getum ekki bodad Heilagan Anda, án þess ad segja, ad hann leidi til Guds ríkis þá er honum hlýda, og gjøri þá hluttakandi hins eylífa lífs. Ordid: upprisa er því á allra vørum, og hugmyndin, sem þad merkir, er í allra hugskotum, en Gud gefi, ad huggunin af henni og krapturinn í henni megi einnig vera í allra hjørtum.

Þóad vegur mannanna í verøldu þessari sé harla margvíslegur, og vér getum ekki fyrir séd, hvert hann muni verda lángur eda skammur, léttur eda þúngur, þá vitum vér þó med fullkominni vissu, ad vegur hvers manns endar ad sídustu í grøfinni. Jafnvel þeir, sem ekki hljóta greptrun á jørdunni, eiga þó einhverstadar beinin ad bera, og ljós lífs þeirra á einhverntíma ad slokkna. Þetta eru endalokin á allri jardneskri dýrd, sem menn hafa undrazt og øfundad, og á allri jardneskri eymd, sem menn hafa aumkvad og kennt í brjóst um; þetta eru endalok hinna miklu fyrirætlana, sem bjuggu í brjósti hins únga, hinna dýrdlegu athafna, sem hinn fullordni framkvæmdi, og sem allir undrudust, og hins lata og dausa lífs, sem ekki var jørdunni til annars enn þýngsla; hinn réttláti, sem kannadist vid, ad løgmál væri til yfir sér, eptir hverju hann gjørdi sér far um ad laga hegdan sína, og afneitadi heiminum og sjálfum sér, liggur þar vid hlidina á þeim, sem hafdi losad sig vid réttlætid, og tekid munad og hag þar sem þess var kostur; þar er þad hjarta kólnad, sem elskadi Gud og menn, og hitt, sem ekki elskadi adra en sjálft sig; Drottinn og Frelsari! þar hefir hinn dymmi daudi brugdid skugga sínum á hann, sem hefir trúad og vonad á þig, og hinn, er spottadi þitt heilaga nafn. En til þess ertu risinn af dauda, ad vér vitum, ad þad, sem er endalok þessa lífs, er upphaf annars lífs, svoad sérhver, sem á þig trúir, segi einsog postuli þinn: eg hefi þá von til Guds, ad framlidnir muni upprísa, bædi vondir og gódir (Post. 24, 15). Því þó vegir mannanna komi allir saman í grøfinni, þá dreifast þeir aptur hinumegin grafarinnar; þar er sá vegur, sem liggur hógliga uppeptir

þángað sem er ljós, frelsi og friður, hver, sem þar vaknar, mun segja: hingað hefir öll laungun mín stefnt, og hingað hefir allt hugboð hjarta míns bent; þar er enn annar vegur, sem liggur niðureptir dýpra og dýpra, burt frá ásjónu Guðs, þángað sem þeir hitta ávöxtu verka sinna, sem fóttroða sannleikann hér í heimi og leggja stund á ránglæti.

En þegar minnst er á upprisuna, ber það sjaldan við, að neinn þori öldúngis að mótmæla henni, en hitt er og sjaldgæft, að nokkur þori öldúngis að reiða sig á hana; flestir skjóta þeirri tilhugsun lángt í burt, nærri því úti hin yztu myrkur, svoað hún veki þá ekki af draumum þeirra. Ritníngin talar um upprisu dauðra við endalok veraldar þessarar; hún segir berlega, að sá dagur sé í vændum, er verði endurgjaldsdagur bæði fyrir þá, sem verði kallaðir dauðir á jörðu, og fyrir hina, sem þá verði kallaðir lifandi, að sá, sem veröldin útskúfaði og afneitaði, skuli þá birtast í dýrð sinni, og að það sé hulið í Guðs leyndarráði, hvenær þetta skuli fram koma og með hverjum hætti; og vegna þessa er einsog margir gjöri sér í hugarlund, að þeir muni liggja í fasta svefni þángaðtil sá dagur renni upp; og meðþví að hver kynslóðin er sofnuð eptir aðra, og eptirvæntíngin um síðasta dag hefir opt vaknað, en aldrei rætzt, og allt stendur við það, sem verið hefir frá upphafi veraldar, meðþví að þúsund ár eru sem einn dagur fyrir Drottni (2 Pét. 3, 4. 8), þá halda þeir, að það verði eins framvegis líklega um óteljandi aldir, og með því móti er tilhugsun annars lífs vísað svo lángt í burt, að hún hefir nærri því mist allan krapt. Þetta kemur sér að sönnu vel hjá þeim, sem hafa beig af sérhverri mikilli og vekjandi hugmynd; en er líka huggun í því fyrir þá, sem bíða sinnar síðustu stundar með vakanda hug, eða fyrir þá, sem hafa horft á eldíngar dauðans, er þær hittu það, sem þeim var kærast — er þeim, segi eg, huggun í því, að hinir dauðu sofi sí og æ, þángaðtil þeir vakni við hinn síðasta lúðurhljóm, ekki fyrr, ef til vill, enn óumræðanlega laung tíð er liðin?

Þegar Jesús sagði við Mörthu: bróðir þinn mun upprísa, og hún svaraði: eg veit, hann á að upprísa í upprisunni á efsta degi, þá virðist hún meina hið sama, að hún mundi ekki sjá apt-

ur þann, sem hún hafdi missl, fyrrenn í fyllingu tímans. En þegar Jesús sagdi: eg em uppprisan og lífid, hver, sem trúir á mig, mun lifa þótt hann deyi (Jóh. 11, 23 o. nn. vv), þá bendti hann ekki svo lángt fram, heldur vísar hann svo til, ad þeir, sem trúi á hann, hafi stigid yfir frá daudanum til lífsins (Jóh. 5, 24). Þegar Jesús talar í líkíngunni um þá tvo menn, sem höfdu átt svo ólíka æfi hér í heimi, en hreppt sídan sömu afdrif, og dáid bádir, þá sagdi hann ekki, ad bein þeirra hvíldu í jördu, þángadtil þeir mundu vakna vid hinn sídasta lúdurhljóm; heldur sagdi hann, ad vegir þeirra í ödru lífi lægju þegar sinn til hvers stadar, sem stór geymur væri á milli (Lúk. 16, 19 o. nn. vv). Þegar ræninginn, sem píndist á krossinum, kannadist vid ad hann hefdi til þess unnid, og tók til orda, fullur idrunar og trausts, vid þann, sem var krossfestur med honum: minnstu mín, Herra, þegar þú kemur í ríki þitt! þá svaradi Jesús ekki á þessa leid: eg skal vekja þig á efsta degi, heldur sagdi hann: sannlega segi eg þér: í dag skaltu vera med mér í Paradís (Lúk. 23, 42. 43). Þegar Jesús var lagdur í gröfina, duldist hann ekki til þess á degi hins mikla dóms, heldur sýndi hann sig lifanda litlu sídar, og sannadi svo ord sín: eg lifi, og þér munud lifa (Jóh. 14, 19). Þegar því postulinn er ad þrá burtför sína, þá býst hann ekki vid, ad hann muni sofa í dymmu grafarinnar þángadtil dagur Drottins komi, heldur býst hann vid ad koma til Drottins, þegar hin rétta vera sín losist vid líkamann (2 Kor. 5, 8); hann segir: eg er efablandinn — mig lángar til ad losast hédan og vera med Kristi; því lángtum indælla væri þad, en hitt er naudsynlegra ydar vegna, ad eg dveljumst í holdinu (Phil. 1, 23. 24). Og þegar sá, sem fyrstur stadfesti vitnisburdinn um hinn krossfesta og upprisna med lífláti sínu, horfdi til himna á daudastundunni, þá sá hann þá þegar opna, og badst fyrir og sagdi: Drottinn Jesús! medtak þú anda minn (Post. 7, 56. 59).

Af þessu má sjá, ad himnarnir ljúkast upp þegar fyrir hinum gudhrædda — en hvad þýdir þad? hvert flytja ósýnilegir kraptar hann? Himnarnir merkja hér eflaust einhverja ákvedna stadi, og til hins sama benda og þessi hin mikilvægu ord Jesú: í húsi Födur míns eru mörg híbýli (Jóh. 14, 2). Já, ad vísu

eru mörg híbýli í hinu mikla húsi! Dagurinn er ætladur til ad birta jördina, því á daginn áttu ad gánga um á henni og vinna verk þitt; en í kyrrd næturinnar vakna dýpri hugsanir og háleitari laungun, og þá dregur nóttin upp hid mikla himintjald. Dagsbirtan glepur þó fyrir í mörgu tilliti, hún felur hid mesta útsýni, sem veitt er daudlegum augum, upp í gegnum hinn háa, ómælilega himingeym, medal hinna ótölulegu hersveita, þar sem eru hnöttur vid hnött, sól vid sól, heimur vid heim. O! í húsi Födur vors eru mörg híbýli, og ein stjarnan er annari bjartari (1 Kor. 15, 41); vér þekkjum þær ekki á ödru enn ljósi þeirra, sem vér sjáum endur og sinnum, og er nóg til ad sýna, ad þær séu til, en ekki hvílíkar þær séu. En hann, sem leidir þær allar í ljós, og hefir tölu á stjörnunum og nefnir þær allar á nafn (Sálm. 147, 4), hann þekkir þær allar, og þekkir oss alla, hann veit, hverja bústadi vér höfum verdskuldad, hann býr oss hæfilegan stad, þar sem verda mun adsetur vort, þegar vér lidum af þessum heimi, þar sem kríngumstædurnar munu verda einsog oss bezt hentar, þegar vér vöknum af svefni daudans, og þar sem laungun vorri verdur fullnægt fyrst um sinn, þángadtil oss fer meira fram og vér verdum hæfir fyrir annad enn ædra.

En vera má, þú segir: vér vöknum þar ad sönnu, en verdum þar ókunnugir, söknum þess, er vér skildum vid hér í heimi, og þekkjum ekki þad, sem þar er. Ad vísu er þad enn ekki opinbert, hvad vér eigum ad verda (1 Jóh. 3, 2), og mönnum er ekki unnt ad koma ordum ad dýrd himneskra hluta (2 Kor. 12, 4); en þó er samband millum þessa lífs og annars, vér eigum ad hafa þar hinn sama Gud, hinn sama Frelsara, hinn sama Helgunaranda, sem hér, og eiga þar samblendi vid þær verur, sem verda sömu ættar og vér; líka heyra hin ædri heimkynni til hins sama húss og hinnar sömu skepnu, og ef oss á þar ad audnast ad sjá musterinu upp lokid, þá erum vér nú þegar í forgardi þess. Postulinn segir um þá hluti, sem menn geta þegar reynt hér á jördu, ad auga hafi ekki séd, og eyra ekki heyrt, og í einkis hug hafi komid, hvad Gud hafi fyrirbúid þeim, er elski hann (1 Kor. 2, 9); og hver sem þetta hefir reynt, hver sem gagntekinn hefir ordid af hinu nýa lífi, sem Kristur veitir, hann hefir

einnig, eptirþví sem ritningin kemst ad ordi á ødrum stad, smakkad hina himnesku gjøf og krapt komandi aldar (Hebr. 6, 4. 5). Svoad ef þú vilt vita, hvad í vændum sé annars heims, skaltu spyrja sjálfan þig, hvad þú hafir kallad sønn gædi þessa lífs á hinum beztu og sælustu æfistundum þínum, ímyndadu þér sídan þessi gædi laus vid tálmun og ófullkomlegleika, og þá færdu hugmynd um þad, sem fram mun koma um alla eylífd.

Sérhver kristinn og gudhræddur madur álítur trúna gædi lífs síns, og þad slík gædi, ad án þeirra mundi øll fegurd lífsins følna og visna; hann hefir optlega hugsad og fundid, ad þad er: hid eylífa lífid, ad vér þekkjum einan og sannan Gud, og þann, er hann sendi, Jesúm Krist (Jóh. 17, 3). Þekkjum, segi eg? Já, Gudi sé lof! hann hefir ekki látid sjálfan sig án vitnisburdar, hann er ekki fjarlægur neinum af oss, og þetta fyrirheit: sælir eru hreinhjartadir, því þeir munu Gud sjá (Matth. 5, 8) nær einnig til þessa lífs. En á þeim stundum, er hjarta þitt hefir verid hreint og blítt, og þú hefir fundid, ad þú varst Gudi svo nálægur, og ad þú varst í honum og hann í þér, en hugur þinn vildi komast lengra, og ransaka leyndarrád Guds, þá fannst þú líka, ad vér lifum hér í trú, en ekki í skodun (2 Kor. 5, 7). Þú hefir hér á jørdu ávarpad Jesúm, þú hefir kallad hann Drottinn og Frelsara, þú hefir reynt samfélag písla hans og krapt upprisu hans, þú hefir elskad hann, þó þú sæir hann ekki; en þegar þú hefir reynt ad komast í skilning um edli hans og samfélag hans vid Fødurinn og vid oss, og um hina djúpu leyndardóma fridþægingar hans, þá hefir þig ad sønnu grillt til þessara hluta, og þú hefir getad farid um þá skynsamlegum ordum, en þú hefir þó fundid, hve sønn ad séu ord Drottins vors: einginn þekkir Soninn, nema Fadirinn (Matth. 11, 27). Og þó girnist sála þín óaflátanlega ad auka, fylla og glæda þekkingu sína, þú leitar og finnur, en þú finnur þó aldrei fullkomlega þad, sem þú leitar ad; og hvert sinn, er þú finnur hverjar skordur þér eru reistar, hvert sinn, er þig vantar þad, sem oss er ekki veitt hér á jørdu, þá hlakkar hugurinn til þeirrar stundar, er þokan hverfur af augum þínum, og þú verdur leiddur ad uppsprettu þekkingarinnar; því nú sjáum vér — segir post-

ulinn — gegnum dymmt gler og í rádgátu, en ásídan auglití til auglitis; nú þekkjum vér ad nokkru leiti, en þá mun eg sjálfur þekkja einsog eg er sjálfur þekktur (1 Kor. 13, 12).

Ad þekkja Gud, og rádsályktanir hans, og handleidslu hans: þad er næring og þad er blessun fyrir þann anda, sem leitar sannleikans, og fær ekki svöluu nema á uppsprettum hans. Þegar vér hér á jördu sjáum einsog votta hins almáttka, og verdum varir vid þá hluti, sem vér verdum ad segja um: þetta er ekki hending, og ekki af manna völdum, heldur Guds, þegar oss grillir í tilgánginn í handleidslu Guds á gjörvöllu mannkyninu ellegar einstöku mönnum, þá fyllist hjarta vort undrunar, og sérhver, sem leitar sannleikans med rádvendni og alvörugefni, hlýtur optlega, fullur lotníngar, ad taka undir med postulanum, svo segjandi: ó þá dýpt audæfanna bædi speki og þekkíngar Guds! En hversu optlega höfum vér einnig haft orsök til ad segja: rádsályktanir Guds eru óransakanlegar, og vegir hans órekjanlegir, því hver hefir þekkt huga Drottins? Þá getum vér ad vísu trúad, og þá ber oss ad trúa, þó vér sjáum ekki, vér getum unnid verk vort og oss ber ad gjöra þad, og þreya og bída þolinmódlega þartil Drottinn frelsar oss; en oss veitir þó svo örduglegt ad feta hina dymmu leid, og vér andvörpum eptir geislum morgunrodans, þeim er endurnæri sál hins vegmóda ferdamanns, og sýni honum, hvert hann sé leiddur. Sé nokkud til, er sýni fullberlega, hve litlu menn trúa í raun réttri af því, sem þeir látast trúa, og hve lítil gledi þeim er í raun og veru ad von ódaudleikans, þó þeir látist hafa hana, þá eru þad ástædur þær í-mót gudlegri forsjón, sem þeir leida margsinnis útaf því, sem fram fer í veröldinni, ef þeir sjá ekki ad þad midi til stundlegrar gæfu og stundlegra hagsælda. Og þó liggur svarid svo beint vid. Ætti madurinn ekkert í vændum hinumegin grafarinnar, þá væri öll þessi tilvera ekki adeins myrk og óskiljanleg, heldur svo gagnstædileg sjálfri sér, ad vér ættum sem fyrst ad flýa lángt burt frá allri alvarlegri íhugan; en ef þessar dymmu leidir liggja til ljóss eylífdarinnar, hversu megum vér þá væuta ad ná hér á jördu þeim tilgángi, sem á ad fullkomnast um ótölulegar aldir, er ekki verda mældar né taldar, eda hvernig getur oss komid til hugar

ad dœma Guds hugsanir og vegu eptir hinu litla sridi, er vér sjáum útyfir? En þegar vér gaungum hér um hinar myrku leidir, þegar Guds vegir eru ekki vorir vegir, þegar hans hugur er ekki vor hugur, þá eigum vér ad hlakka til þeirrar stundar, er mœdu vorri og baráttu verdur lokid, og vér sáum ad skoda hvern hlut í gudlegri birtu. Því þad, sem þetta líf hefir borid upp fyrir oss einsog myrka rádgátu, mun aptur koma fram í ödru lífi, og þar verda úr því leyst; og þegar vér sjáum þar orsakir þær, er vér hefum svo optlega spurt ad hér í heimi efablandnir og vantrúarfullir, þegar vér komumst ad raun um, hvad þad var, sem Gud var ad hreinsa oss af, hvad þad var, sem Gud var ad venja oss vid og gjera oss ad, þegar vér skiljum til fulls þessi ord, sem hér voru sögd til ad styrkja trú vora: þann sem Drottinn elskar, þann tiptar hann (Hebr. 12, 5), þegar vér — segi eg — sjáum á þenna hátt þrád þann, er liggur í gegnum öll kjör vor á jördunni, og hinn almáttki Stjórnari hefir haft til ad tengja oss vid sig og vorn sanna og eylífa hag, þá skulum vér segja í skodun og gloggri þekkingu þad, sem vér segjum nú í trúnni: ó þá djúpt audæfanna bædi speki og þekkingar Guds! þvíad af honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir; honum sé dýrd ad eylífu (Rómv. 11, 36)!

Já, lof og dýrd og tilbeidsla sé Gudi vorum, hinum almáttka og alvitra, hinum réttláta og miskunsama! Þetta segjum vér þegar hér í duptinu, vér segjum þad í myrkri því, er hylur vora jardnesku vegu, og hvert sinn, er vér segjum þad og tilbeidslan vaknar í sálu vorri, þá gledst hjarta vort. Eda mundi sá, sem gudhræddur er, gánga framhjá unadsemd gudhrædslunnar og tilbeidslunnar, þegar hann telur unadsemdir sínar? Drottinn! eg elska stadinn þíns húss, og þann stad, þared þín dýrd býr, segir David (Sálm. 26, 8). Hversu indislegar eru þínar tjaldbúdir, Drottinn hersveitanna! Sála mín þráir og tregar eptir forgardi Drottins; líf mitt og sál mín gledur sig í hinum lifanda Gudi. Sælir eru þeir, sem í þínu húsi byggja! þeir geta lofad þig sífeldlega (Sálm. 84, 1—5). Hvad er fegra af því, sem mannahendur hafa prýdt jördina med, enn musteri þau, er hvervetna eru byggd hinum eylífa til lofs? Og hver mundi ekki kalla þad

unaðsemd, þegar hinn indæli hljóðfærahljómur streymir í gegnum þau, og hinar skæru raddir frá mannlegu brjósti sameinast honum, þegar Guðs Andi fyllir hjörtu talenda og heyrenda, þegar Guðs orð er flutt hreint og ómeingað, og fellur í góða jörð og færir ávöxt, og þegar allra sálir verða samtaka í einni tilbeiðslu? þó fremjum vér hér á jörðu þjónustuna í því musteri, sem er aðeins eptirmynd og skuggi hins himneska (Hebr. 8, 5), og það, sem hér á jörðu gagntekur brjóst vort, er ekki annað enn hugboð um það, sem fram í oss á að koma, þegar hinum rétta helgidómi verður upp lokið, og vér verðum þjónustumenn í hinni sönnu tjaldbúð, sem Drottinn hefir reist, enn einginn maður (Hebr. 8, 2), og allir helgidómar á jörðunni eru aðeins myndaðir eptir, og heyra þann samhljóm, sem allar raddir á jörðu eru aðeins ómur af.

Þó verðum vér ekki kallaðir til eintómrar íhugunar, því einsog hinn eylífi Faðir vinnur (Jóh. 5, 17), framkvæmir, skapar, skipar og stjórnar, einsog englarnir eru þjónustusamir andar, sendir í þeirra þarfir, sem öðlast skulu sáluhjálpina (Hebr. 1, 14), eins mun Guð kalla oss til hluttekníngar í verki sínu, og þessi hin miklu orð, sem postulinn segir um ófullkomna viðleitni vora hér á jörðu, að vér séum samverkamenn Guðs (1 Kor. 3, 9), munu miklu fremur eiga þar við. Að vísu er það enn ekki opinbert, fremur í þessu efni enn öðrum, hvílíkir vér eigum að verða, hvar vér eigum að þjóna Guði og með hverjum hætti; enn þann, sem hér var trúr yfir litlu, mun Guð setja yfir mikið í öðrum heimi (Matth. 25, 23), og Guð mun setja marga, þar einsog hér, heilögum til fullkomnunar, þjónustunni til framkvæmdar, Krists líkama til uppbyggíngar (Eph. 4, 12), eptirþví sem hver er til hæfur. Einsog maðurinn var settur í hina jarðnesku Paradís til að yrkja hana og varðveita (1 Mós. 2, 15), eins munu hinir sáluhólpnu verða settir í himneska Paradís, og hún mun blómgast af starfi þeirra. Því allir hlutir eiga einnig í öðru lífi að þróast guðlegum þroska, og verða miklum mun fegri og frjófsgari enn hér. Hversu mikið munu jafnvel þeir, sem þykja hæfir til að þjóna Guði í betri heimkynnum, þurfa að nema og rannsaka og taka sér fram! Og hversu mikla aðstoð munu þeir þurfa að veita

hverjir ødrum! Stórar sveitir af úngbørnum líða yfir jørðina einsog í draumi, líta ljós veraldarinnar, og hverfa síðan; þeim heyrir Guðs ríki til einsog ødrum, en þau verða að alast upp til þess, og þegar því dauðinn hrífur barnið úr faðmi vorum, felum vér það að, sønnu fyrst á vald hins himneska Føðurs, en í huga vorum er einsog vér felum það einnig þeim á hendur til ástúðlegrar umønnunar, er sjálfir eru farnir á undan til hinna dýrðlegu bústaða, og hafa trúað oss fyrir þeim, er þeir skildu eptir á jørðunni. Og allir þeir, sem líknsemi Guðs mun ekki útskúfa, en ekki náðu hér fullum þroska, og fengu hér ekki eða gátu ekki notað þá aðstoð, sem þeim var nauðsynleg til þess að þekkíng og réttlæti og kærleikur.gæti þróazt í þeim til hlítar — munu vinna upp í ødru lífi það sem þá vantaði hér, og munu fá tilsøgn og leiðbeiníng, og til þeirrar þjónustu munu þeir verða hafðir, er sjálfir komust lengra hér í heimi, og drógu saman þann forða, sem ekki hver, þó ødrum sé af honum miðlað.

Hversu indæl er æfi vor hér á jørðu, þegar ekkert aptrar framkvæmdum vorum, og heill og árángur og blessun er samfara størfum vorum í þeirri stétt, sem vér erum í settir! En hversu sjaldgæfar eru slíkar kríngumstæður á jørðunni! Vér finnum ekki aðeins skorður alla vega í kríngum oss, heldur verðum vér og því miður síſeldlega varir við skorður í sjálfum oss, erum efablandnir, hvað oss beri af að ráða, duglitlir í framkvæmd, og miklu veikari að kroptum enn vilja. En hvert er þetta eintóm óhamíngja, er vér fáum ekki að gjørt? Er ekkert brotlegt og ekkert syndsamlegt í dugleysi voru? Vér skulum ekki ásaka oss, þegar vér høfum ekki til þess unnið, né kenna oss um það, að vér erum takmarkaðir af stundlegum hlutum að óvilja vorum; en er nokkur sá, er þori að segja, þegar hann finnur, hvað hønd hans er máttlaus og hugur hans sljór: eg hefi gjørt það, sem í mínu valdi stóð, og allt þetta hirðuleysi, allar þessar yfirsjónir, allt þetta dugleysi, sem mér býður svo optlega við bæði á sjálfum mér og ødrum, kemur að eingu leiti af viljaskorti mínum, deyfð minni og hugsunarleysi, dáðleysi mínu, vantrú minni, né því, að eg hafi haft hugann á mér einum og gleymt øllu, sem yfir mér og kríngum mig er? Æ, hið verðskuldaða og hið ó-

verdskuldada blandast hér svo undarlega saman; en er nokkur sá vandadur madur, sem verja vill lífi sínu einsog vera ber, er ekki hafi optlega andvarpad af laungum eptir því ástandi, ad geta þjónad Gudi med fullkomnari þekkíngu, med traustara krapti, med hreinna vilja, enn honum hefir audnazt hér í heimi? Og medþví vér vonum þessa í því lífi, sem í hønd fer — hvad missum vér þá med þessu lífi, nema bresti og veikleika, nema skordur og tálmanir, nema sorg og synd.

Vera kann þú segir, ad vér missum hverjir adra? Því mundi nokkur hugsa um umadsemdir þessa lífs og gædi þau, er hann hafdi hér í heimi, án þess ad minnast ástvina sinna, þeirra, sem urdu honum samferda á leid lífsins, og honum voru hjartfólgnir? Og ef daudinn væri annarskonar skilnadur, enn einsog þegar vinur vor fer á undan í annad land, þángad sem vér eigum ad koma á eptir, ef vér skildum fyrir fullt og allt á grafarbakkanum, og sála vor lifdi svo eylíflega án endurminníngar og án ástar, þá hefdum vér misst hér á jørdu þad, sem oss bættist ekki um alla eylífd.

En þad land, er vér førum til, er land lifandi manna; og þar finnast þeir, er hér skildu. Þar lídur módan af augum vorum, og hver missýníng hverfur á burt, og þar hittast þeir aptur, sem ekki voru fúsir til sátta, medan þeir voru hér saman á vegferdinni, og þeir, sem skildu hér í reidi og fjandskap; þar er ekki manngreinarálit, og þar hittast þeir aptur, sem gjørdu hver ødrum rángt til hér í heimi, hinir voldugu, sem vanbrúkudu vald sitt, fyrirlitu lítilmagnana, vernduðu ekki saklausa, eda undirokudu varnarlausa; eins hinir lítilmótlegu, er þrjózkudust í gegn løgum og rétti, særdu þá, er vildu þeim vel, eda mottu einkis þad, sem þeim var gott gjørt; þar hittast þeir, sem hér í heimi voru kalladir vinir og vandamenn, en rufu trúnadinn og skyldur sínar, þar hittast menn og konur, foreldrar og børn, sem ekki voru blíd hver til annara, heldur gjørdu daglega hvert ødru rángt til, og voru hvert ødru til óánægju. En, algódi Gud! þar lætur þú einnig þá finnast, er hér skildu í fridi, þá er sýndu hver ødrum trúskap og hollustu, medan þú leyfdir þeim ad vera saman, og gjørdu hver ødrum gott hér í heimi; þeir, sem stundudu réttvísi

og tømdu sér líkſemi, finna þar þá, ſem þeir hafa ſkotid ſkjóli yfir, og nú taka vid þeim í hinar eylífu tjaldbúdir (Lúk. 16, 9); þar finnur módirin barn ſitt og barnid módur ſína, madurinn konu ſína og konan mann ſinn, og vinirnir, ſem gengu hér hver ſinn veg til grafarinnar, hittaſt þar aptur, ekki einsóg hér med ſorg og tárum og ſøknudi, og ekki einsog hér med því ſkilyrdi, ad vita ekki, hvenær þeir eigi aptur ad ſkilja, heldur uppþýngdir af uppſprettulindum ódaudleikans, veglegir ordnir í eylífu lífi. Og þar eigum vér einnig ad ſjá þig, Drottinn vor og Frelſari! er oſs hefir ſvo optlega lángad til ad ſjá á hinni mædufſømu pílagrímsferd! Hverſu mikil, hverſu ſælurík var bodun ſú, er poſtular þínir heyrdu fordum: "hinn kroſsfeſti er ekki í grøfinni, þar ſem þeir løgdu hann; hann er uppriſinn, og farinn á undan ydur til Galilæu; þar munud þér ſjá hann, einsog hann hefir ſagt ydur" (Mark. 16, 6. 7). O! væri enn einhver Galilæa á jørdunni, þar ſem vér gætum ſéd þig, hverſu mjøg mundi oſs þá fýſa ád fara þángad, einsog mørgu gudhræddu hjarta hefir verid ſvølun í ad ſjá þá ſtadi, þar ſem þú hefir gengid, þó þú ſért horfinn þadan fyrir laungu. En þótt augu vor fái aldrei ad ſjá þig hér í hinu ſtundlega lífi, þá á þad ſamt enn vid, ad þú ert einúngis farinn á undan, og ad þeir ſtadir eru til, er vér eigum ad ſjá þig, einsog þú hefir ſagt. Því þú lifir, og ver eigum ad lifa, og med þér, í ríki þínu, lifa allir þeir, ſem á jørdunni hafa leift eptir ſig heidarlega minníngu hérviſtar ſinnar, allir þeir, ſem mannkyninu hefir verid ſønn prýdi ad, og allir þínir útvaldir; þeir eru allir hjá þér, og vér verdum teknir í félag þeirra, annadhvert undireins eda ſmátt og ſmátt, eptir því ſem vér verdum hæfir til þeſs; því þad er nógur tími hinumegin grafarinnar til þeſs, ad allir þeir geti komid ſaman, er heyra til hins mikla ſafnadar, er þú ſafnar í lifendum og daudum.

Þar er hid rétta og ſanna, er vér ſáum hér ekki nema í þoku og gátum aldrei nád; þar hverfa misſýníngar þeſsa lífs, þar mun Gud þerra hvert tár af augum hinna hryggu, og daudinn mun ekki framar til vera, og hverki harmur, né vein, né mæda mun framar til vera (Opinb. 21, 4). O! ſæll er ſá, ſem ekki lætur kalda ſpeki og ordkroka útrýma kriſtilegri von úr hjarta ſínu, því

hún ein veitir sanna speki og huggun, og, Gudi sé lof, ad allir geta hennar adnjótandi ordid, jafnvel hinir fákænu og einfoldu. Vegirnir um veroldu þessa eru undarlegir og optsinnis þúngir og þraungvir, og hinn sídasti vegur liggur ad hinni dymmu grof. En sæll er sá, er trúir á Jesúm Krist, og hefir aldrei hugann af hinu ædra lífi.

---

# 62.

## Annad líf.

Sídari hugleidíngin.

"Ad morgni rádguduſt allir ædstu prestar og oldúngar lýdsins um þad, ad ráda Jesúm af dogum, bundu hann sídan, leiddu hann þadan og seldu í hendur landstjóranum, Pílatusi hinum pontverska. En sem Júdas, er sveik Jesúm, sá, ad hann var til dauda dæmdur, idradist hann, og skiladi hinum ædstu prestum og oldúngunum aptur þeim þrjátíu silfurpeníngum, og mælti: eg hefi illa gjort, er eg sveik saklaust blód; en þeir sogdu: hvad vardar oss um þad? ábyrgstu sjálfur. Þá kastadi hann silfrinu á musterisgólfid, skundadi þadan og hengdi sig. En yfirprestarnir tóku silfrid, og sogdu: ekki hæfir ad leggja þetta fé í gudskistuna, því þad eru blódpeníngar. Fyrirþví toku þeir þad rád, ad kaupa fyrir þá akur eins leirkerasmids, til ad jarda í útlenda menn; og vegna þess heitir þar Blódreitur enn í dag" (Matth. 27, 1 o. un. vv.).

Þessi hin alvarlega frásogn leidir oss á harla hryggilegan stad. "Reitur, til ad jarda í útlenda menn" — þar láu þeir andvana, hver vid annars hlid, ferdamennirnir, er komnir voru ad takmarki leidar sinnar, en þó ekki því takmarki, er þeir hofdu ætlad. Þeir hofdu farid til Jerúsalem, ad sjá hina helgu stadi og taka þátt í hinni háleitu hátídagledi, en hlutu þar greptrun í stad gladværda, ekki med frændum og vinum, heldur í fjarlægd, þar sem einginn þekkti þá, og einginn saknadi þeirra, medal annara ó-

kunnugra ferdamanna, sem daudinn hafdi hrifid til sín á ferd þeirra, einsog sjálfa þá. Þessi reitur hèt Blódreitur, því hann var keyptur fyrir blódpeninga, er sjálfum illskunnar þjónum þóktu vera saurgadir, er hinn rèttláti hafdi verid framseldur fyrir í hendur hinna ránglátu, er vinur hafdi selt vin sinn fyrir og lærisveinn meistara sinn. — Hvad hafdi nú svikarinn ábatazt? Hann leitadi verdlauna fyrir ránglæti sitt, og fèkk þau líka, en hversu óttalega hurfu þau á burt úr höndum honum! Hann hafdi sjálfur eingin not af þeim, og það vard ekki eptir af þeim annad, enn hryggilegar menjar, sem voru til minnis um glæp hans lengi eptir burtför hans, og um verdlaun þau, er hann ávann sèr ad sídustu.

Allir þessir vidburdir eru fyrir laungu lidnir, landid allt, þar sem þessi tídindi urdu, er nú ordid blódakur, öllu er þar sundrad og umturnad, og menjar þær, sem ádur voru kunnar öllum í landinu, eru afmádar fyrir laungu. En minníngin lifir þó frá kynslód til kynslódar, hún er ritud á bækur þær, sem tímalengdin fær ekki eydt; og allt, sem ritad er á hinar helgu bækur, er ritad í vorar þarfir — til huggunar oss, eda til uppörfunar, eda til vidvörunar.

En nú kynni einhver ad segja: til hvers er þessi vidvörun? Gudi er svo fyrir ad þakka, ad þad, sem hún talar um, er harla sjaldgæft, eda rèttara ad segja: getur ekki ordid nema einusinni, því Frelsari heimsins átti ekki ad verda seldur í hendur syndara optar enn um sinn. Og jafnvel þ a d, ad vinur sviki vin sinn í þeim skilníngi, edur ad lærisveininn selji meistara sinn, er svo sjaldgæft og svo óttalegt, ad sèrhverjum ofbýdur þad, svoad ekki þarf ad vara vid því. Og liferni og afdrifum Júdasar var svo varid, ad þau skelfa huga vorn, og med Guds hjálp er ekki hætt vid, vèr munum freistast til ad feta í fótspor hans. Já, med Guds hjálp! En hefir þú líka athugad, hvad þau ord þýda, er þú segir nú? Ef Gud vill hjálpa þèr, þá er þèr ekki hætt; og Gud vill hjálpa þèr, ef þú vilt leita hjálpar til hans — ef þú vilt vaka og bidja. En viljir þú þad ekki, þá getur svo farid, ad straumur spillingarinnar beri þig med sèr, einsog svo marga adra, þángadtil þú kemur þar ad, er þú hafdir sízt ætlad. Hvad

margir eru þeir, sem íhuga til hlítar ofbeldi það, sem fylgir mannlegum geðshræríngum, eðli þeirra og ásigkomulag, uppruna þeirra og hvert þær leiða umsíðir þá, sem ekki losa sig undan þeirra grátlegum yfirráðum?

Margar ósannar greinir gánga munn úr munni og verða algengar í tali manna; en ekkert er ósannara, enn að offstopi geðshræringanna framkvæmi það, sem mest sé í varið í veröldinni. Það er að sönnu satt, að eingu verður til leiðar komið með leti og deyfð, heldur með ákafa og atorku; en það, sem gott er og mikilsvert í raun réttri, verður þó ekki framkvæmt, nema með skynsamlegum og réttum ákafa, og hversu fjarlægur er hann ákafa geðshræringanna! Því allar túngur viðurkenna að geðshræringin sé blind, eða sjái skakkt, réttara að segja, því hvenær sjá menn í því ástandi hlutina einsog þeir eru, einsog menn sjá þá eptir og áður? Og hvernig getur þá þvílíkt ástand leidt menn til að framkvæma það, sem gott og háleitt er? Geðshræringin eyðir og skemmir, og kemur manninum til þess, sem hann iðrast eptir á síðan. "Eg hefi illa gjört, er eg sveik saklaust blóð", sagði Júdas. Að vísu gjörðir þú illa, vesæll maður! og leiddir þúnga og hræðilega sekt yfir höfuð þér; en hver hefir nú komið þér í skilníng um það? Var ekki verkið hið sama, þegar þú hugfestir það, og gekkst af stað til að selja Drottinn þinn, og þegar það var unnið? vissir þú ekki eins vel á undan, að hann var saklaus? vissir þú ekki eins vel á undan, að það er illvirki að svíkja saklaust blóð? En hvað kemur til, að þú sérð það nú, hvað kemur til, að þér getur nú skilizt það, en gazt það ekki áður? Afþví geðshræríngunni hefir nú slotað og ský hennar hafa dreifzt, og hið bjarta ljós sannleikans skín nú hlífðarlaust niðurá illvirki þitt.

Ágirndin hefir að vísu verið stærsti löstur manns þessa; hann girntist auðæfi þessa heims, og hafði aðhyllzt Jesúm, afþví hann héldt einsog alþýða manna, að hann mundi stofna jarðneskt ríki handa Ísrael, og skipta svo jörðunni með áhángendum sínum. Þángaðtil ætlaði hann að vera ánægður með litinn og saurugan ávinníng, þar sem hann bæri að hendi; en þegar hann sá, að launin, sem hann vonaði eptir, voru ekki í vændum, þegar hann fór að skilja betur og betur, að það var ekki jarðneskt ríki, sem

Jesús ætladi ad stofna, þá íllskadist hann, og þegar Jesús sá hvad hann hugsadi, og lét í ljósi vid hann, ad hann vissi hvad í honum byggi, og bendti á hann svosem tryggdrofa og svikara, þá magnadist brædi hans og vard ad þrjózku og hefndargirni — ad gedshræríngu, sem blindadi hann, svoad hann sá ekki hid bjartasta. — Þú, sem íhugar æsi manns þessa, þú munt ekki hafa svikid þinn lánardrottinn, né selt vin þinn; en þekkir þú samt ekki hryggilegt ofbeldi gedshræríngauna af sjálfs þíns reynslu? hafa þær aldrei komid þér til ad tala né gjøra neitt, þad er fullnægdi hjarta þínu í brád, en særdi þad sídan, svo þú hlauzt ad fyrirverda þig og segja med hryggum huga: eg gjørdi illa, eg hefi syndgad, mér var ekki vorkun á ad sjá hid ránga eins þá og nú, en eg sá þad ekki, því eg vildi ekki hafa stjórn á mér, og lét gedshræríngunu ráda vid mig.

Hversu undarlegar eru gedshræríngarnar! Þad lítur svo út, sem sá er gjørir eitthvad í gedshræríngu, gjøri þad af miklu fjöri og afli; hinar ytri mótspyrnur svigna fyrir honum, og hinar innri mótspyrnur, er hefdu getad tálmad honum, hefir hann yfirstigid, hann gefur ekki gaum ad neinu lögmáli, né réttindum, né skyldu, hann lætur hjarta sitt ráda, og fremur vilja sín sjálfs, og þad lítur svo út, sem hann adhafist ad sjálfs sín rammleik, og samt er hann hádur annarlegu valdi. Segjum vér ekki og hver madur med oss, ad hann rádi ekki vid sjálfan sig, og þessvegna sér hann ekki þad, sem hann hefdi annars kostar getad séd, og hefdi séd, og þessvegna talar hann og gjørir þad, sem hann hefdi ekki viljad gjøra; hann adhefst ekki sjálfur, heldur kúgar annarlegt vald hann, og rædur gjørdum hans. Hvílíkt er þetta vald? O, hversu undarleg og óskiljanleg er mannleg vera! hversu furdanlega er hann tengdur vid þad, sem meira er og máttkara, enn sjálfur hann! Ad vísu er hann frjáls skepna, hann getur hnegt vilja sinn til hvorrar hlidar sem hann vill, hann getur slitid sig lausan, edur selt sig fram, en valdi því, sem hann selur sig, verdur hann ad hlýda, og þad leidir hann miklu lengra, enn honum hefdi getad til hugar komid. Hinn rádvandi og réttláti og gudhræddi hefir ekki sjálfur komid upp med hid góda; sá, sem er honum meiri, hefir ritad lögmál sitt í hjarta hans, og gefid honum fýsn-

ir og áminningar til hins góda; gefi hann þeim gaum og láti leidast af þeim, lifnar í honum réttlætid og kærleikurinn, og stjórna ordum hans og gjørdum; á þeim stundum, sem hann felur sig Gudi á vald, sýnir Guds Andi mátt sinn í honum og fyrir hann, og þad á ad nokkru leiti heima hjá honum, sem med fullum sanni átti heima hjá postulunum, er Drottinn sagdi um: þad er ekki þér, sem talid, heldur er þad Andi Fødur ydar, sem í ydur talar (Matth. 10, 20). Og einsog því er varid med ordin, svo er þad og med gjørdirnar; því í þessu tilliti framkvæmir Gud einnig í honum viljann og framkvæmdina eptir gædsku sinni (Phil. 2, 13); hann er verkfæri í hendi Guds til ad framkvæma hid góda, og sér optlega ekki, hvad þad merki, né hvad af því muni leida, en eigi ad sídur þróast þad í høndum hans Gudi til lofs og dýrdar. Svo er og um endurgjáld þad, er hann finnur til, Guds frid; hann er ædri er øllum skilningi, ad hann veitir sér þad ekki sjálfur, heldur kemur þad af himnum ofan, einsog øll gód og fullkomin gjøf, og ædri kraptar enn sjálfs hans, hinir himnesku kraptar ókomins heims bæra sig í honum. Selji madurinn sig hinsvegar á vald hinu illa, hefir hann gengid í hørmulega ánaud; því hér er hann ekki heldur einnsaman, heldur leida hin mannskædu veld myrkranna hann fjøtradan eptir sér; þau kveykja í honum ískyggilegan eld illra girnda, er brenna hjartad, en veita því hverki birtu né il, þau blinda augu hans, þau deyfa krapta hans, þau þrísta honum til ad tala og adhafast þad, er hann vildi ekki ádur, og girnist sídan eptirá ad fá aptur tekid, þótt þad ætti ad kosta allar eigur hans, þótt þad ætti ad kosta blód hans; því þessi veld kenna honum einnig ad gjøra þad, sem hann megnar ekki ad meta réttilega, og hafa hønd hans til ad fá því fædi, sem þróast til bølvunar. Andar øfundarinnar og reidinnar og haturssins og hefndargirninnar taka sér bústad í brjósti hans, og reka hann æ lengra med þorsta þeim, er ekkert fær slokkt, því hver hefir nokkru sinni ordid saddur á rángfengnum ágóda og hégómlegum heidri og munadarlífi? Óróseminn, sem rekur hann, samvizkubitid, sem ofsækir hann, ørvæntíngin, sem slítur sundur hjarta hans, er ekki sjálfskøpud, né sprottin af holdi og blódi, né draumaleikur sjúkrar sálar, heldur finnur hann, ad

vøld eru til, meiri og máttkari enn sjálfur hann, hrædileg vøld, er æpa á hann og segja: þú ert vor! og eingin frelsun bidst honum undan þessum vøldum, útan sú, er þau aptra honum frá, það er fridþæging sú, sem veitt er sérhverju idrunarfullu og sundurkrømdu hjarta, sem flýa vill undir vængi gudlegrar miskunar.

"Eg hefi syndgad, er eg sveik saklaust blód" sagdi Júdas. Þetta var ennþá góð tilfinning í brjósti hins ófarsæla manns, það var hin sídasta áminning frá honum, sem ekki vill ad neinn syndugur madur glatist. Hefdi hann hlýdt þessari áminingu med sannri audmýkt og idrunarfullri trú, hefdi hann látid hana leida sig þángad, sem hún kalladi hann, ad krossi þeim, sem hann hafdi sjálfur framselt Drottinn sinn á, þann er ekki var á krossinn negldur einúngis vegna vina sinna, heldur og vegna þeirra, sem bøtudu hann og ofsóktu, og sem fórnfært var til fyrirgefníngar margra syndum, þá hefdu enn hinir gódu andar, sem fagna yfir sérhverjum syndara, sem yfirbót gjørir, hrifid hann og leidt hann til frelsunar. Þegar sá af sampostulum hans, sem ønnur gedshræring hafdi blindad, sem óttinn hafdi komid til ad afneita þeim, er hann hafdi heitid trú og hollustu allt til dauda — þegar hann ráukadi vid sér aptur, vidurkenndist hann og sagdi: eg hefi syndgad, afþví eg afneitadi hinum heilaga og réttláta, og þá gekk hann burt og grét beisklega, þá fór hann í flokk þeirra, sem hørmudu vid grøf Drottins, og þegar Jesús birtist aptur, gat hann øruggur sagt: Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt eg elska þig (Joh. 21, 17). En hvad gjørdi Júdas? idrun hans vard einnig ad gedshræríngu, og þessi gedshræring glapti aptur sjón sálar hans, svo hún sá ekki frelsid, heldur eintóma glotunina.

Hversu undarleg — segi eg enn — hversu óskiljanleg er mannleg vera! Hvad óttastu svo mjøg, vesæll madur? Hví dirfist þú ekki ad halda blódpeníngunum? Þeir eru þín eign, eingínn heimtar þá aptur, þú getur enn keypt fyrir þá allt, sem þú ætladir þér, þegar þú seldir Drottinn þinn fyrir þá; hversvegna brenna þeir hendur þínar, svo þú verdur ad snara þeim frá þér? Einginn er sá á jørdunni, er ógni þér, einginn er krefji þig reikníngskapar, þú hefir framid vilja heimsins, og framid vilja myrkravaldanna, er tími þeirra var kominn, og eigi ad sídur titrar

þú, eigi að síður vildir þú biðja hæðirnar að hylja þig, og fjøllin að hrapa ofan yfir þig. Sjáið hér, hvernig sannleikurinn lætur einnig hann munn votta um sig, sem hatast við hann. Hinn óguðlegi snýr á flótta, þótt einginn elti hann (Sal. orðsk. 28, 1), einhver ógnarleg skelfing keirir hann áfram hvíldarlaust, og hann getur ekki sagt, hvað ótta hans valdi; það er eingin af skelfingum þeim, sem á jørðunni eru, það eru ekki mennirnir, því þeir ásaka hann ekki, það er ekki sverðið, því það vofir ekki yfir høfði hans, það er ekki dauðinn, því hann æðir sjálfur úti hann, og sér hvergi frelsi nema í gløtuninni; heldur eru það píslir samvizkunnar, sem hann fær ekki afborið, það eru þrumur hins eylífa dóms, sem duna yfir honum, það eru vøld undirdjúpanna, sem hann finnur að hann er í hendur seldur. En sjáið og í þessu blindni geðshræringanna! Það eru ekki vøld jarðarinnar, heldur æðri vøld, er þú óttast, og þó skundar þú í hendur þeim! þú óttast það, sem er hinumegin dyra eylífðarinnar, þær ljúkast ekki enn upp fyrir þér, og þú brýst sjálfur til að brjóta þær upp, þú hyggst að geta flúið úr høndum hins lifanda Guðs, þú ætlar að búa þér hvílu í undirdjúpunum, og hyggur að hann sé þar ekki, og hønd hans geti ekki einnig hrifið þig þar, og almáttug hønd hans haldið þér føstum!

Hinir postularnir segja, hann hafi yfirgefið embætti sitt og postuladæmi, og farið til síns staðar (Post. 1, 25). Hvar er sá staður, og hvernig er honum háttað? — O! er nokkur sá til, er hér dirfist að segja: dauðinn friðþægir allt, dauðinn afmáir øll afbrot, þegar líkaminn er að velli lagður, er syndin gleymd og fyrirgefin? — Hinumegin grafarinnar er harla dymmt, og einskis dauðlegs manns auga hefir getað uppgøtvað, hvað eylífðin hafi að geyma; en yfir hinu dymma og hljóða hliði er ritað með eldlegum støfum: villist ekki, Guð lætur ekki að sér hæða! Í hinu mikla ómælanlega húsi eru mørg híbýli; ætti eg að segja, að þeir, sem hér í heimi hafa þriozkazt gegn Guði, og hafnað miskun hans, fari til híbýla ljóssins og friðarins? Ætti eg að segja, það sé ekki annað enn draumórar, eða samsetníngur til að hræða með børn og hérvillinga, að til séu hrylliieg híbýli, sem eru fjarlægari ljósi guðlegrar miskunar, enn þessi jørð, og að ómæl-

anlegur geymur sé millum þessara híbýla, og þeirra, er Drottinn mun veita þeim þjónum, sem hafa verid trúir í litlu, og hann mun setja yfir meira, og sedja á fögnudi sínum? Aldrei skal eg — nei! Gud minn godur! aldrei skal eg dirfast ad taka mér í hönd hinar óttalegu metaskálar, sem eru í þinni hendi, og aldrei skal eg dirfast ad kveda upp þá dóma, er þú getur einn dæmt réttvíslega, afþví þú þekkir einn alla hluti. En einsog eg hefi séd, ad þeir eru til, sem þegar hér í heimi, geyma nokkurskonar helvíti í brjósti sér, orm sem ekki deyr, og eld, sem ekki slokknar; einsog eg hefi séd, ad þeir eru til, sem þegar hér í heimi efna uppá nokkurskonar helvíti handa sjálfum sér og ödrum: eins getur samvizka mín ekki borid á móti því — sála mín titrar, en hun getur ekki borid á móti því, ad hinumegin grafarinnar sé til enn svartara myrkur, mjög fjærri himnaríkis sælu; hún megnar ekki og dirfist ekki ad bera á móti ordi Guds, sem auglýsir dóma hans, og segir oss bædi í tilliti til þessa lífs og annars: Gud mun gjalda sérhverjum eptir verkum hans; þeim, sem med stödugleika í godum verkum leita vegsemdar og heidurs og ódaudleika, mun hann veita eylíft líf; en þeim, sem mótþróauegir eru og hlýda ekki sannleikanum, heldur rángsleitninni mun hann senda brædi og reidi; hrellíngar og harmkvæli munu koma yfir sálir allra manna, sem illskn drýgja (Romv. 2, 6o. nn. vv.).

Hver daudlegur madur mundi vilja reyna til ad segja, hvad fólgid se í þessu myrkri? En einsog blessanin kemur hér ad ofan, og vekur grun í hjörtum mannanna um sælu hinna útvöldu, og einsog til eru stadir og stundir á jördunni, er vér segjum, ad hafi himneska sælu ad geyma, eins eru og til helvízkir logar, er kvikna þegar hér í lífi, og bölvun, er hinn almáttki sendir yfir híbýli og hjörtu hinna sekn. Því þar sem ógudlegir menn koma saman til viddbjódslegs athæfis, þar sem hinir ungu þegar eru vígdir til svívirdíngar, og hádungin hvílir á hærum hinna gömlu, þar sem sundurlyndi og fjandskapur drottna, og hver höndin er uppi móti annari, þar sem hjörtun etast af óstjórnlegum gedshræríngum, heipt og örvíniglan, þar sem hegníngar þær, er Gud hefir látid fylgja löstunum, sækja þá heim, og mannlegt réttlæti einnig verdur ad kuga og tipta, þar sem þessi lýsíng á vid, sem

stendur í einni spádómsbókinni: og mennirnir stiknudu af miklum hita, og þeir átu túngur sínar af ofraun, og þeir hæddu Guð himnanna fyrir píslir þeirra, og snéru sér ekki frá illverkjum sínum (Opinb. 16, 9 o. nn. vv): þar þurfum vér eingu vid ad bæta, þar er þegar helvíti hér á jørdu. Og ef hinn ógudlegi herdir hjarta sitt allt til æfiloka, og ef hann lítillækkar sig ekki, og snýr sér ekki til Guds, ad gefa honum dýrdina, heldur skilur vid í øllum syndum sínum: er þá nokkur sá til, er dirfist ad hæda hid eylífa réttlæti, og segja: hann fór til fridarins heimkynna?

Er þá eingrar endurlausnar von þadan? O! ef þad væri møgulegt, ad hinn torthýndi gæti med sannri idran sent úr djúpi gløtunarinnar andvarp sundurkramins og trúads hjarta til hinnar óendanlegu miskunsemi, þá mundi hinn almiskunsami heyra þau, því hann hefir ekki velþóknan á nokkurs syndugs manns dauda. En er þad møgulegt? Getur sá fundid þadan veg til apturhvarfs og trúar, sem hér í lífi hefir hafnad sérhverri áminníngu gudlegrar miskunar, og hverki hefir látid vekjast af velgjørdum Guds né hegníngum hans, heldur herdt hjarta sitt í synd og hatri og þrjózku? — Eínginn hefir getad ad því komizt, hvad Frelsari veraldarinnar hafi bodad, þegar hann fór ad prédika fyrir øndunum, sem voru í vardhaldi, eptirþví sem postulinn segir (1 Pét. 3, 19), eínginn hefir komizt ad þeim leyndarrádum, sem framkoæmd eiga ad verda, þángadtil fullkomnunartími allra hluta er kominn (Post. 3, 21); þeir hlutir eru byrgdir og innsigladir allt til hins sídasta tíma, einsog spámadurinn ad ordi kemst (Dan. 12, 14). En einnig úr undirdjúpunum hljómar þessi rødd til vor: verid eigi ómildir í dómum ydar um adra, ad eigi dæmi þeir ómildt um ydur; sakfellid ekki, svo þér verdid ekki sakfelldir (Lúk. 6, 37); en sérhver efli sáluhjálp sína med áhyggju og andvara (Phil. 2, 12), og í dag, medan þér heyrid rødd Guds, þá herdid ekki hjørtu ydar (Hebr. 3, 7. 8).

O almáttki, trúfasti Gud, er vér flýum til í hverri neyd og hættu! ættum vér í bæn vorri til þín ad gleyma hættum sálarinnar, þeim hættum, sem ekki eru búnar jardneskum munum, né heldur hinu fallvalta lífi, heldur þeim, er sálin getur villzt í, og misst trú sína og von, frid og frelsi. Vér eigum óvini um-

hverfis oss, og móti þeim verdum vér ad berjast, vaka og bidja, en vér eigum þaradauki óvini í hjørtum sjálfra vor, illar girndir og skadsamlegar ástrídur; svo eru og veldi myrkranna, er sitja um hina istødulitlu, og svæfa þá med sætum saungvum, til þess þeir skuli vakna í skelfingu. O Gud vor! lát sálina vakna fyrrenn þad er ordid um seinan, og kenn oss ad hertigjast þeim hlifum, sem eingin vopn bita; en kenn oss umfram allt ad grípa skjøld trúarinnar, er vér getum sløkkt med øll eldleg skeyti óvinarins (Eph. 6, 16). Þeir verda aldrei fyrirdæmdir, sem eru í Kristi Jesú, og ekki lifa eptir holdinu, heldur eptir andanum (Rómv. 8, 1); hans vegna segjum vér, er sála vor hvílist í óendanlegri miskunsemi Guds med sannri og lifandi trú, óhultir fyrir allskonar ógnunum: daudi! hvar er broddur þinn? helvíti! hvar er sigur þinn (1 Kor. 15, 55).

---

## 63.

## Guds ríki.

Þegar hinn mikli fyrirrennari Jesú, Jóhannes skírari, hóf prédikun sína, þá var þetta bodun og áminning hans til Israels barna: bætid rád ydart, því himnaríki er í nánd (Matth. 3, 2). Og þegar Jesús tók sjálfur ad kenna, er svo ad ordi komizt um hann, ad hann hafi flutt fagnadarbodskapinn um Guds ríki (Mark. 1, 15). Því svo var ástatt, ad hjá hinni merkilegu þjód, sem Gud hafdi ætlad til sérlegra forlaga og alid upp á sérlegan hátt, var dásamleg eptirvænting um mikid ríki, er hefjast mundi af hinu forna Júdæ ríki, og ná yfir allar þjódir og allar aldir. Gud hafdi lokid upp augum spámannanna svoad þeir sáu framá hinar ókomnu aldir, og lutu þegar því, er verda átti í fyllingu tímans; þeir vitnudu um þad í helgum rædum, þeir vøktu vonina um þad og héldu henni vakandi øld eptir øld, svoad hún vard æ krøptugri og þjódinni hjartfólgnari. Þad var ríki Davids, sem um hafdi verid talad; og syni Davids, þeim er ríkid átti ad hefja,

var ekki lýst einsog jarðneskum höfðingja, og hann átti ekki að færa mönnum einasaman jarðneska blessan. Nú þóað fjöldi fólksins hafi haft um þetta jarðneska von, og þóað hún hafi jafnvel blandazt saman við hugmyndir hinna vitrari og betri manna, þá voru það í raun réttri háleitari hugsanir, sem breiddu ljóma sinn yfir hina helgu von. Það sjáum vér þaraf, að það varð almennt að kalla ríki þetta: himnaríki, og Guðs ríki, er skyldi koma frá Guði og verða stjórnað af Guði, og mundi færa mönnum guðlegan sannleika, guðlegt réttlæti og guðlega blessun.

Guðs ríki er til yðar komið, sagði Jesús; öll fyrirheit hans voru loforð um Guðs ríki, og öll kenníng hans var leiðbeiníng til þess. Þetta orð hljómar í öllum hinum helgu bókum, en þó skærast í bókum hins nýa sáttmála. Þetta sama orð hefir og hljómað í hjarta hvers sannkristins manns, því sérhver, sem hinar kristilegu hugmyndir hafa haft nokkur áhrif á, verður að komast við, þegar hann heyrir með guðrækilegri eptirtekt þetta orð: Guðs ríki. Þó hann sé ekki allskostar fær um að greiða úr þýðingu þess, þá finnur hann samt, að öll innilegasta laungun hans og öll hans indælasta von koma saman í þessu eina orði. En hvenær kemur þá ríki þetta, sem öll laungun þráir og öll fyrirheit boða? Það kemur ekki með fullum blóma, fyrrenn mannsins Son kemur, fyrrenn eingetinn Sonur Guðs birtist á degi Drottins, og dýrð hans ljómar yfir jarðríki, einsog þrumuljósið, er það kemur skyndilega fram í einni átt himins og leyptrar til annarar. Þó er oss sagt, að Guðs ríki sé til vor komið, og Drottinn talar ætíð um það á slíkan hátt, svo eingum efi er á, að vér getum orðið þess hluttakandi þegar hér í heimi. En hvar er þá Guðs ríki? Eru nokkrir þeir staðir á jörðunni, að vér getum með sanni sagt: sjá, hér er það, eða: sjá, þar er það? er nokkurt það land, að vér þurfum ekki annað enn fara þángað, er nokkur sá söfnuður, að vér þurfum ekki annað enn gánga í hann, til að finna Guðs ríki? Eigum vér að leita þess í fjölmenni eður á eyðimörkum? Og hvað er það, sem vér leitum að, er vér leitum Guðs ríkis? — Slíkt eru mikilvægar spurníngar, sem hverjum manni ríður á að úr sé leyst.

Þessi bæn í Fadirvori: tilkomi Guds ríki! er án efa sú bæn, sem fæstir skilja. Í hin önnur ord, er Drottinn vor kenndi oss ad bidja med, mun sérhver leggja einhverja skynsamlega þýdíngu, þó hann skilji þau ekki fullkomlega; en eg er hræddur um, ad fæstir yrdu búnir til svars, ef þeir ættu ad gjöra grein fyrir, hvad þeir meina, er þeir tala þessi ord. Og þó er oss óhætt ad segja, ad allar adrar bænir komi saman í þessari einni, og þegar oss veitist hún, höfum vér allt gott. Ef eg á ad snúa þessari bæn á túngumál veraldarinnar, eda réttara ad segja — því hvernig væri þad mögulegt ad koma ordum ad kristilegri tilfinníngu á veraldlegan hátt? — ef eg á ad tilgreina þá ósk í veröldinni, er samsvarar þessari kristilegu bæn, þá er þad óskin um hamíngju. Einsog allar óskir sannkristins manns koma saman í þessari einni: tilkomi Guds ríki! eins koma allar óskir veraldarinnar saman í óslökkvanlegum þorsta eptir hamíngju, og þad sem í Krists fagnadarbodskap er leidbeiníng til Guds ríkis, er í heiminum leidbeiníng til ad verda farsæll á jördunni. Ef vér berum þessi tvö ord saman, þá getur ekki verid efi á, hvert fegra sé og þýdíngarmeira, og hvers réttara sé ad óska. Ordid hamíngja merkir þau gædi, er falla jafnt í skaut manna, hvert sem þeir eru vondir eda gódir, og því segja menn um hamíngjuna, ad hún sé blind. Ad sönnu eru þad í raun réttri sjálfir vér, sem erum blindir, því Stjórnari hamíngju vorrar sér sannarlega hverju hann úthlutar, og hann sendir ekkert í blindni; en vér vitum ekki, eptir hverri reglu hann veitir eda synjar, heldur sjáum vér þad eitt, ad þad fer ekki eptir mannkostum, því þad, sem vér köllum hamíngju, hlotnast eins opt ómaklegum, einsog þad hlotnast ekki þeim, sem maklegri er. En í Guds ríki getur ekkert saurugt komizt, óréttvísir menn ekki Guds ríki erfa (1 Kor. 6, 9), og án heilagleika getur enginn séd Drottinn (Hebr. 12, 14). Hamíngjan er ekki í manninum sjálfum, hún mætir honum á æfileid hans, hún færir honum þesskonar gædi, sem ekki samlagast edli hans og geta því ekki stadnæmzt hjá honum; þau skilja vid hann, eda hann vid þau; en Guds ríki færir mönnum apturámót stödug gædi, er sameinast anda þeirra. Ennfremur geta menn bægt hverjir ödrum frá hamíngjunni, þaramót getur enginn madur

bannað öðrum Guðs ríki með líkamlegu valdi, né rænt því frá honum. En þóað Guðs ríki sé harla ólíkt eintómri hamíngju, þá er það sannarlega indælt og æskilegt; að því skapi sem veröldin er ákof í því að æpa eptir hamíngju, að því skapi biður hinn guðhræddi innilega sí og æ, að Guðs ríki komi; því Guðs ríki er það ástand mannanna, að þeir njóti sannra, verulegra, stöðugra gæða með Guðs blessun.

Þar, í Guðs ríki, verður það að vera, sem mennirnir leita að með svo mikilli ókyrrð og fyrirhöfn, en finna ekki; þeir leita þess í öllu, sem glæsilegt er í heiminum, og tegir þá að sér með útliti sínu, svosem eru auðæfi, metorð og jarðneskur munaður — en gull og metorð og munaður svara: það er ekki í oss. Þar, í Guðs ríki, verður það að vera, sem huggar hið hrellda hjarta, svalar hinni sáru laungun, og seður en þýngir ekki; þar hljóta þær uppsprettur að vera, sem ekki ala þorstann, þegar hinn örmagnaði drekkur af þeim — þær uppsprettulindir, sem ekki þorna í sumarhitanum, ekki frjósa í vetrarkuldanum, og renna blíðlega um eylíft vor meðal sætlega ylmandi aldina; þar — ó! sérhver laungun og sérhver von er fólgin í þessu: þar. Getum vér þá undrazt, þóað Faríseár spyrðu forðum, nær Guðs ríki mundi koma? Fjærri fer því! það er miklu fremur einsog allar biðandi kynkvíslir og öll lifandi mannahjörtu spyrji svosem í einu hljóði: hvenær Guðs ríki muni koma. Og Guði sé lof, að Faríseár spurðu þessa — í hverjum tilgángi sem þeir hafa gjört það — meðan hann var á jörðunni, sem kom að færa mönnunum Guðs ríki. Því mér finnst, að ef Jesús væri enn á jörðunni, þá yrði sérhver, sem trúir, að hann sé vegurinn, sannleikinn og lífið, að fara til hans og segja: Drottinn og Meistari! hvenær kemur Guðs ríki, það er þú kennir og boðar? En nú getum vér ekki heyrt sjálfir svör hans, og Guði sé lof, að guðspjallamaðurinn hefir fært í letur, hverju hann svaraði í þann tíma: Guðs ríki kemur ekki þannig, að á það verði bent, og ekki verður sagt: sjá! það er hér, eða: sjá! það er þar; því Guðs ríki er þegar í yður (Lúk. 17, 20. 21).

Ó! að vér vildum allir taka vel eptir þessu! Hin rétta uppspretta heilla vorra og óheilla kemur ekki niður af fjöllunum,

svoad vèr þurfum ad mæna uppá brún þeirra, þar sem hún sjelf í skýum himinsins, og vænta þadan blessunar; upptök hennar eru ekki heldur í fylsknum jardarinnar, svoad vèr þurfum ad kanna undirdjúpin til ad finna hana; heldur sprettur hún upp í hjarta mannsins. Þar býr kali og óróssemi og kvídi, þar býr einnig gledi og traust og von; þadan kemur hin dymma þoka, sem leggst yfir alla jardneska dýrd, þadan kemur og hid blída ljós, er bregdur birtu sinni yfir alla jardneska fegurd; þar býr bölvan og þar býr blessan. Þessvegna sagdi Drottinn vor oss, ad Guds ríki, hid sæla ástand, sem allir hugir girnast, sè einkanlega fólgid í innri gædum; mennirnir þurfi ad betra sig, svoad þeim lídi betur.

Nú viljum vèr reyna ad komast betur í skilníng um ord Drottins, og láta einn af postulum hans útskíra þau fyrir oss. Páll postulí segir, fullkomlega í sömu þýdíngu sem Drottinn og Meistari hans og vor: Guds ríki er ekki matur og drykkur, heldur rèttlæti og fridur og fagnadur í Heilögum Anda (Rómv. 14, 17). Já, Guds ríki er sannarlega hverki matur nè drykkur, þad verdur ekki borid fram medal hinna dýrdlegu rètta og ekki skenkt í bikara; þad er ad vísu sarsælleg eign, sála þín gledst, þegar Guds ríki kemur til þín, en ekki á sama hátt og dýrid gledst, þegar þad sedur sig á ávextum jardarinnar. Ekki er Guds ríki heldur í dýrdlegum herbergjum, nè fullum hlödum, og hvad sem þú vildir nefna af veraldlegum gædum, hvad sem þú vildir benda á og segja: sjá! þad er hèr, eda, sjá! þad er þar, þá er ekkert af því Guds ríki. En postulinn nefnir þrjú ord, sem allir kunna, og þad, sem þau þýda, getur verid á hverju heimili, og í hverju herbergi, og í hjarta hvers manns.

Hann segir fyrst: Guds ríki er rèttlæti; hvar sem er hreinn, gódur, stödugur vilji til ad fullnægja skyldum lífsins, þar er Guds ríki. Sjáid hèr enn, hver munur er á Guds ríki og því, er heimurinn kallar hamíngju! þó veröldinn beri ekki á móti, ad lífinu fylgi skyldur, er fullnægja þurfi, þá andvarpa mennirnir undir þeim einsog hinni þýngstu byrdi, og álíta þad óhamíngju, ad manninum sè bodid ad fylla svo margar og þúngar skyldur. Er nokkur sá, er vígt hafi líf sitt til þjónustu vid rèttlætid, og lagt

stund á, að hlýða boðum skyldunnar, án þess hann hafi reynt, að maðurinn á þúnga mæðu fyrir höndum og erfiða baráttu bæði við sig og aðra, þegar hann vill fullnægja skyldu sinni. En spurðu þá, sem hafa forðazt hið þúnga ok, þá, sem láta bönd skyldunnar vera veikari enn þráð, og virða að vettugi kröfur réttlætisins — spurðu þá, hvert lífið hafi verið þeim léttbært? Spurðu þræla ágirndar og metorðagirndar, ofáts og ofdrykkju og munaðar, hvert þeim hafi fundizt þeir vera frjálsir, og jörðin einsog Paradís, og æfin einsog aldingarður, og hvert sætleiki fullsælunnar hafi, þegar til kom, verið á botni þess bikars, er þeir hafa drukkið af með svo mikilli áfergju? Æ! hversu opt sem þeir egna oss til reiði, hversu opt sem þeir gremja oss með viðurstyggð synda sinna, þá sjáum vér samt, þegar vér íhugum til hlítar, hversu líf þeirra er vísið og vesælt og fagnaðarsnautt, að þeir eru enn fremur brjóstumkennanlegir í mesta máta, einsog þeir finna sjálfir optsinnis. Oss veitir ekki örðugt að þjóna réttlætinu af öðru enn því, að vér erum ekki fullnuma í því, afþví vér drögum af oss í baráttunni, afþví vér hikum og efumst, og viljum þjóna tveim herrum og ekki verja oss öllum til, og þjóna Drottni Guði vorum af öllum mætti. Látum oss minnast vorra beztu æfistunda, þegar Guð vakti sálu vora af hennar þúngu draumum, og stökkti á burt hinum illu ástríðum, þegar Guð gaf oss náð til að gjöra það, sem gott er, með trúskap og fúsleik og fjöri; þóað það, sem vér framkvæmdum, væri lángtum minna, enn vér á kusum, en vér borguðum samt, á hverri stund og hverjum degi, nokkuð af hinni miklu skuld, og bættum jafnan steini á stein ofan í hið mikla musteri, ó! þá fundum vér samt, að ok Drottins er indælt og byrði hans létt (Matth. 11, 30), þá skildum vér, hvað það þýðir, að boðorð hans séu ekki þúng (1 Jóh. 5, 3), og þá gat sú hin svívirðilega spurníng ekki upp komið í huga vorum: hvert að Guðs ríki væri fólgið í jarðneskum munaði, eða í því að þjóna réttlætinu með heiðri og sóma.

Guðs ríki er friður, segir postulinn ennfremur; því ríki veraldarinnar verða á stundum unnin í stríði og missast aptur í stríði, en Guðs ríki vinnst í friði. Að sönnu á þjónustumaður Guðs að vera ákafur og kroptugur til allra góðra verka, hann á

ad standa alskrýddur gudlegum hertígjum, búinn til bardaga vid sjálfan sig og veraldina og alla hina andlegu herflokka vondskunnar undir himninum; en þegar postulinn lýsir þessum hertígjum, þá kemst hann svo ad ordi: "standid reidubúnir og hafid ydar lendar umgirdtar med sannleika, verid íklæddir brynju réttlætisins, og útbúid fætur ydra med bodskap fridarins, sem ætíd sé ydur vid hønd; en umfram allt, grípid skjøld trúarinnar, og takid hjálm hjálpræďisins, og sverd andans, sem er Guds ord (Eph. 6, 14 o. nn. vv.). Héraf má sjá, ad þessi stridsmadur er í rauninni þjónn og erindsreki fridarins; og einsog hinn mikli Konúngur gekk til hinnar þýngstu baráttu vid veld myrkrauna, ekki med harki og háreysti, heldur hógvær og lítillátur í hjarta (Matth. 21, 5), eins ber lærisveini hans ad breyta. Ef svo má vera, þá haf frid vid alla menn; en ef ekki má svo vera, ef þad er ekki í þínu valdi ad geyma hinn ytra frid, þá geymdu samt hinn innra: fridinn vid adra menn, ad því leiti sem þú getur, med því ad þola og fyrirgefa, fridinn vid samvizku þína, med því ad láta ekki hid illa sigra þig, heldur sigra hid illa med gódu (Rómv. 12, 21), og fridinn vid Gud, því Gud hrindir dramblátum af stóli, en gefur lítillátum nád (1 Pét. 5, 5). Pad er til fridur jafnvel mitt í baráttunni; veraldin veitir hann ekki, og veroldin þekkir hann ekki, hann kemur ad ofan, einsog øll gód og fullkomin gjøf; þad er gudlegur fridur, sem ædri er øllum skilningi, og ord fá ekki útlistad, en hver, sem hefir smakkad hann, veit hvad Guds ríki er.

Ad sídustu segir postulinn, ad Guds ríki sé føgnudur í Heiløgum Anda. Nú nefnum vér þau ord, sem vér megum varla nefna í veroldinni, og vér eigum ekki heldur ad saurga þau med því ad nefna þau fyrir þeim, er ekki vilja skilja þau; vér eigum ekki ad kasta perlum fyrir þá, er vilja stíga þær í sundur (Matth. 7, 6). En þig, sem leitad hefir Guds ríkis kostgæfilega, þig minni eg á føgnud þann, sem þú hefir optlega smakkad, stundum í helgidómum náttúrunnar, á strøndu sjáfarins, í hinni føgru hlíd, eda undir hinum stirnda himni, stundum í heimahúsum, medal ástvina þinna, eda einn í herbergi þínu, eda í Guds húsi, ýmist á vinnustundum þínum, og ýmist á stundum hvíldar og hugleidinga og bænar, þegar þú hefir verid ekki adeins rólegur og glad-

ur, heldur og sæll, þegar þú hefir falið þig eldúngis á vald Föður þíns á himnum, þegar efasemdir og kvíði og sorg hafa flúið einsog náttmyrkrið fyrir morguninum, þegar gjörvöll sála þín hefir verið trú og von og kærleikur, og allur hugur þinn þekk og tilbeiðsla. Þá fannstu til þess innst í hjarta þínu, að sá andi, sem hitti sálu þína fyrirbúna sér til musteris, og gaf hjarta þínu fögnuð, harla ólíkan þeim fögnuði annara, er korn og vín þeirra margfaldast (Sálm. 4, 8) — þá fannstu, segi eg, að sá andi var Heilagur Andi, Andi Guðs og Jesú Krists, og hann kom þér í skilníng um, að Guðs ríki er í oss.

Það er því munurinn á Guðs ríki og jarðneskri hamíngju, að menn fíkjast í hana svosem þann hlut, er koma verði að utan, svo menn geti þreifað á henni og bent á hana; vér heyrum þá optlega segja: sjá, hér er hún, eða: sjá, þar er hún, þar, í því landi er jarðnesk paradís, værum vér þar, mundum vér reisa tjaldbúðir vorar, eður þeir segja, að hamíngjan sé í höllum konúnganna, eða úti í löndum í harki og hernaði, og í björtum ljóma nafntogaðra frægðarverka, eður sé hún í því fólgin að lifa í ró og næði, svo ekki beri á manni; allir leita hennar í kríngum sig, og flýta sér úr einum stað og í annan, úr einu ástandi og í annað, og séu þeir bundnir við einhverja stétt og einhvern stað, þá kenna þeir því um hamíngjuskort sinn; en um Guðs ríki aptur á mót segir hin eylífa spekin oss: Guðs ríki er í yður. Af því er auðséð, að hið bezta og sælsta, það, sem allt mæti lífsins er í fólgið, það, sem vér kristnir menn erum til kallaðir, getur fundizt í sérhverri stétt, og eingum er frá því bægt; og úr því þú hefir hendlað það, þá er það fullkomin eign þín, og ekkert annarlegt vald getur tekið það frá þér, þjófar geta ekki stolið því, og mölur og ryð geta ekki skemmt það. Sérhver, sem leggur stund á kristilega speki, verður að hafa fundið þetta, og sagt optlega við sjálfan sig: já, sannarlega er Guðs ríki í sjálfum oss. En hvert er nokkur sá, er þora mundi að segja, þó hann hafi stundað kristilega speki, að frá því Guðs ríki hafi runnið upp í sálu sinni, hafi það verið stöðugt í henni, hann hafi horft á sólina koma upp og gánga undir, árin koma og fara, og færa honum gleði og sorg, og heiminum nýja mynd, en það hafi ekki fengið á hann, hann hafi horft

áhyggjulaus á biltíngar tímanna, og hugur hans hafi verid samur og jafn, réttlæti Guds og fridur Krists og fögnudur Heilags Anda hafi aldrei myrkvast í honum? O, vér berum gudlega nád í brothættum kerum! Því þad er þad, sem hryggilegast er í veröldinni, ad ekki einúngis hin ytri blóm fölna, heldur og hin innri, ad ekki einúngis hid ytra ástand vort er svo margri umbreitíng undirorpid, heldur og hid innra, ad sálin, sem finnur á stundum, ad hún er svo lifandi og fjörug og sæl, einsog væri henni burtu svipt úr jardneskri mædu og þrengíngu — ad, segi eg, hin frjálsa sál leitar aptur nidur á vid, og stynur í ánaud undir hinum gömlu þýngslum. Víst megnum og eigum vér ad taka ávallt framförum í þessu, því sálin getur styrkzt fyrir Guds miskun, hún getur ordid rólegri, sjálfri sér líkari, stödugri í því, sem gott er. Víst er Guds ríki ekki dautt í oss, þó lítid beri á því um stundar sakir, og vér finnum ekki eins til þess og ádur; því eldurinn á altarinu getur sýnst vera kulnadur út, en neistinn lifir lángt nidri í öskunni, og kemur upp í ljósum loga ódar enn varir; tréd sýnist dautt í hrídvidrum vetrarins, og þó hreifir lífid sér í því, og gjörir vart vid sig aptur, og skrýdir hinar bersnaudu limar lífi og blómi og ávextum; og eins er Guds ríki varid. Þad er, sagdi Drottinn vor sjálfur, líkt frækorni því, er sád er í jördina, og er þá allra frækorna minnst, en er þad vex, verdur þad svo stórt, sem eik, svoad fuglar himins koma og gjöra sér hreidur í greinum þess (Matth. 13, 32). Sælir erum vér, ef vér geymum frækorn Guds ríkis þannig í hjarta voru, ad þad sé einsog sú jurt, er þolir veturinn og stormana, lifir undir klakanum, og kemur í ljós þegar Gud lætur vora aptur. En þó stynjum vér optsinnis, þúnga þjádir, jafnvel þeir, sem hafa frumgróda andans, stynja med sjálfum sér þreyandi endurlausnina (Rómv. 8, 23) og þad ástand, þar sem hid illa er bundid og hid góda er frjálst, þar sem skordurnar eru í burt teknar, og synd og vanmætti aptra oss ekki, og stundlegar þarfir fjötra oss ekki vid jördina, og sálin sýkist ekki og hrörnar med líkamanum; og medan þetta hid frjálsa og sælusulla ástand er ekki hlutskipti vort, getum vér ekki med sanni sagt, ad Guds ríki sé algjörlega til vor komid.

Og þóad einhver einstakur hefdi höndlad þad, og væri þegar

fullkominn, þá eru menn svo nákvæmlega samtengdir hverjir öðrum, og ástand hvers einstaks er svo mjög samtvinnað heiminum, að einginn getur með sanni sagt, að Guðs ríki sé komið til hans, nema það sé einnig komið til annara umhverfis hann. En þegar eg sé, að menn kaupa og selja, og vinna verk sín, og byggja bústaði sína á jörðunni, án þess að hirða neitt um Guðs ríki; þegar eg sé, þeir skeyta ekki sannleikanum, heldur spotta hann ýmist með léttúð og ofvísni, eða rángfæra hann með hrækni og lýgi; þegar eg sé, þeir draga á tálar sjálfa sig og aðra, og blindir leiða hinn blindu, þegar eg sé alla svívirðíng ránginðanna, alla þá lesti, er storka Guði opinberlega, alla þá illsku, er í myrkrunum læðist; þegar eg sé, að bönd friðarins eru slitin og ástin er köld; þegar eg heyri ofvísinn háfaða ósæmilegrar kæti kefja niður sérhverja áminníng um stillíngu og siðsemi, og að menn hafa svo lítið inði af hinum blíðu og hreinu gleðværðum: get eg þá sagt, að Guðs ríki sé komið til vor? Að sönnu ber oss að þakka það gott, sem er; og þó allt mannlegt sé harla ófullkomið, eru þó sannindi og réttindi og friður ekki eins ókunnug á jörðunni, eins- og þeir segja, er sjálfir eru ókunnugir þessum hlutum; það er þó á jörðunni heilagur og almennur söfnuður, sem er samfélag heilagra eða að minnsta kosti guðhræddra manna, og hann getur orðið og á að verða æ stærri og skína æ bjartara. Þegar Frelsari veraldarinnar kom, nálægðist Guðs ríki með honum og fyrir hann; það hefir ekki horfið síðan, og mun ekki hverfa allt til enda veraldar; og þegar menn hafa látið hugfallast og sagt: nú er ljósið að slokkna, nú er vald myrkranna að vinna sigur, þá hefir Guð látið ríki sitt þroskast æ meir. En samt sem áður stynjum vér undir fásinnu og synd sjálfra vor og annara, og hefjum einatt augu vor til himna, svo spyrjandi: nær mun dagurinn upp renna?

Stærið yður, þér hetjur og vitríngar! svosem hefðuð þér sigrazt á veröldinni; og veraldleg sorg og kæti væru lángt fyrir neðan yður, og sæla væri þesskáttar hlutur, sem þér gætuð fyrirlitið, og þér hefðuð í sjálfum yður allt, er þér með þurfið; því hinn aumi og örmæddi hefir samt rétt til hluttekníngar í jarðneskum gæðum. Að sönnu veit eg hvar þær lindir eru, sem upp

spretta til eylífs lífs, og hversu opt hafa þær svalað mér, styrkt mig og endurnært sálu mína! en þó er krossinn optlega þúngur, og eg hefi hrellzt og mun hrellast af minni og annara eymd. Þegar eg sé góðan og drenglundaðan mann, í fjötrum duptsins, berjast við stundlegan skort og sjúkdóm og vesæld, þegar eg sé þá, sem bera í brjósti sundurkramið hjarta, sekir eða saklausir, og þiggja að sönnu líkn af hinum algóða, en kenna þó harma sinna þángaðtil þeir gefa upp andann, þegar eg sé alla eymd og armæðu veraldarinnar, að sekir vinna sigur, en saklausir andvarpa, þegar eg sé dauðans dymma engil þrífa til, og slíta barnið úr kjöltu móður sinnar og vininn úr faðmi vinar síns: á eg þá að segja, að þetta ástand sé Guðs ríki?

Sæll er sá, sem situr til borðs í Guðs ríki! sagði einn af þeim, er sátu með Jesú í húsi Faríseahöfðingjans (Lúk. 14, 15). Já, sannarlega eru þeir sælir, sem leystir eru úr jarðneskum bágindum, frelsaðir af synd og sorg, og hafa náð traustu hæli í hinum sælu bústöðum! Því þar er betra enn hér, og þegar þeir, sem háðu hið góða stríðið, runnu skeiðið á enda, og varðveittu trúna, hafa safnazt til feðra sinna, þá segjum vér, að þeir séu í Guðs ríki. Að því leiti merkir orð þetta fullkomnara, betra og sælla ástand, sem er hinumegin grafarinnar. En eigum vér þá að vanrækja þenna heim? Hann er þó fenginn oss ekki aðeins til bústaðar, heldur og til þess, að vér prýðum hann, og bætum ástandið í honum; um það erum vér áminntir snemma á morgni lífsins, þegar er hinn fyrsti kraptur tekur að vakna í sálu vorri og líkama vorum, um það erum vér áminntir dag frá degi þángaðtil vér megnum ekki lengur að starfa, þá felum vér viðleitni vora þeirri kynslóð í hendur, er eptir oss á að koma, svoað hún haldi fram verki því, er vér urðum að yfirgefa óbúið. Á nú öll þessi viðleitni og fyrirhöfn að vera til einskis? eru allar kynkvíslir jarðarinnar ekki ætlaðar til annars, enn reyna að fylla botnlaust ker, rita á hafsöldu, og vinna fyrir gíg, án þess að komast nær takmarki því, er þær stefna að? Sá, sem erfiðar, á að erfiða í von, sá, sem sáir, á að sá í von, og ef von uppskerunnar hyrfi, hyrfi og einnig viðleitni sáðmannanna. En eins sannarlega og Guð er trúr, eins sannarlega og hið

dýpsta hugboð mannlegrar samvizku er ekki eintómar sjónhverfingar ímyndunarinnar, eins sannarlega og líf mannanna er ekki fánýtt leikfáng, og eins sannarlega og það er sannleikur í Jesú Kristi: eins sannarlega nálægist Guðs ríki meir og meir. Það þróast, einsog kornið sprettur, dag frá degi, án þess á beri, það eflist svo það er sjónarmunur, á hagstæðum tíðum, þar til einhverntíma, að sú stund kemur, er Faðirinn einn þekkir, er undirstaða jarðarinnar mun skjálfa, og kraptar himinsins taka að bærast, og dýrð Himnakonúngsins mun ljóma yfir allt jarðríki, einsog eldíngin kemur úr einni átt himins og leyptrar til annarar.

---

## 64.

## Dagur Drottins.

Þegar vér spyrjum einúngis með jarðneskum hugarfari í veröldinni, þá fyllist hugskot vort órósemi, og vér erum jafnnærri von og ótta; vér sjáum þá hinar óstýrilátu öldur hreifast og rísa, og vitum ekki hver muni stöðva þær eður stjórna þeim. En ef vér snúum huga vorum til hins almáttka Guðs, þegar vér spyrjum á þessa leið, lítillækkast að sönnu hjarta vort, en þeirri lítillækkun eru trú og traust samfara. Að sönnu vitum vér ekki hvað Guð ætlar heiminum eður sjálfum oss á hverri stund; vér vitum að erfiðar tíðir geta komið, og það á að kenna oss að vaka og biðja, og hreinsa hjarta vort af búksorg; en vér vitum einnig, að eptir myrkrið ljómar morgunroði sælla dags, og öll fyrirheit Guðs segja oss, að eptir umrót veraldarinnar muni Guðs ríki ljóma.

Fagnaðareyrindi Krists er boðun þeirra hluta, er fram eru komnir í veröldunni, og þaráofan þeirra hluta, sem ekki eru enn fram komnir. "Boðið dauða Drottins", segir postulinn (1 Kor. 11,26), boðið hann, sem elskaði oss, og gaf sig í dauða vor vegna, svo hann gæti endurleyst oss sér til eignar, boðið það,

er hann hefir gjört og þolað vor vegna; en postulinn bætir þessu við: "þángaðtil hann kemur." Það er: þegar vér minnumst hins umliðna, er birtist í afleiðingum sínum alstaðar í kríngum oss, og ætti að gjöra vart við sig í sálu vorri, þá eigum vér um leið að renna huganum til hins ókomna, því fullkomnunin er enn ekki komin. Í kristilegri trúarjátníngu vorri teljum vér fyrst vitnisburðinn um komu hins eingetna Sonar Guðs í veröldina, þjáníngar hans og dauða og dýrðlega upphefð, og um vald það, er hann stjórnar með ósýnilega hinu sýnilega, og bætum síðan við: "þaðan mun hann koma aptur, að dæma lifendur og dauða." Jafnvel bæn sú, er Drottinn kenndi oss að biðja, snýr daglega huga vorum að þessu efni; "tilkomi Guðs ríki!" þessi bæn táknar laungun, sem þráir eitthvað mikilvægara, sælla og dýrðlegra, enn það, sem enn er fram komið, og það mun eflaust síðan fram koma.

"Drottinn er kominn", sá, sem spámennirnir hafa talað um, og forfeðurnir hafa átt von á: þetta var sá boðskapur, er postularnir höfu á Gyðíngalandi, og fluttu síðan til annara landa. En með eins fullum vísdómi boðuðu þeir, að tilkoma Drottins væri í vændum, það er: önnur dýrðlegri tilkoma enn sú, þá er veröldin gat útskúfað honum og afneitað. "Drottinn kemur" (1 Kor. 16, 22), sögðu þeir, til að hvetja hina kristnu til að vaka og biðja, og ástunda allt það, sem sómasamlegt er og dygðugt og loflegt, svo þeir gætu orðið maklegir til að standa frammi fyrir mannsins Syni; "Drottinn kemur", sögðu þeir við þá, sem þverskölluðust og fyrirlitu sannleikann, og vildu hverki veita sannleikanum viðtökur sjálfir, né heldur lofa öðrum að gjöra það; og þegar þeir þurftu sjálfir á huggun að halda í mæðu sinni og baráttu, minntust þeir þessa fyrirheits Drottins: "já! ég kem, og hefi með mér endurgjald handa sérhverjum, eptir hans tilverknaði (Opinb. 22, 12).

Þessi orð hljómuðu þannig ár frá ári, frá einni kynslóð til annarar; en því lengur sem það dróst, að þau rættust, þess heldur var við því að búast — eins og sjá má í einu af bréfum postulanna, sem er meðal hina ýngstu — að þeir menn mundu koma, sem gerðu gis að þeim, og segðu: hvað verður úr fyrirheitinu um tilkomu hans? Feðurnir eru sofnaðir, og þó er allt

einsog það verið hefir frá sköpun heimsins (2 Pét. 3, 3. 4). Samt sem áður er þetta fyrirheit ein af þeim greinum, sem um hefir verið sagt: himin og jörð munu farast, en mín orð munu aldrei eyðast (Lúk. 21, 33); vér getum ekki afmáð þetta fyrirheit, þó vér vildum, því það stendur eins stöðugt og öll önnur orð, sem Jesús hefir sagt.

En þegar vér íhugum nákvæmar, hver að sé þýðíng eptirvæntingar þessarar, verður oss margt þúngskilið. Orðin eru spámanleg, þau benda til einhvers, sem fram á að koma, en eru líka almenn og optsinnis í líkíngum, og taka það saman, sem, ef til vill, á að vera að koma fram um ómælanlega tíma; hver getur lagt þau út? hver getur dregið skýluna af hinu ókomna, og séð hvernig einn atburðurinn muni fylgja öðrum öld eptir öld? Margir hafa reynt það, og eru fyrir laungu orðnir sér til minkunar. Fjærri fer því, að vér viljum reyna til þess að nýu; en kristileg sannindi, sem eiga að vera öllum til uppfræðíngar og huggunar, verða að vera fólgin í þessum orðum Drottins, einsog í öllum öðrum orðum hans.

Hversu hvikull er hugur mannsins! Þær hafa verið tíðirnar, að ræður Jesú um tilkomu sína á síðasta degi höfðu gagntekið svo hugi mannanna, að þeir þóktust sjá fyrirboða tilkomu Drottins, undireins og ófrið bar að höndum, eða ófriðar fregn, eða uppreisn, eða húngur, eða drepsótt; þeir fóru jafnvel að reikna, og þóktust hafa fundið, að endi allra hluta væri í nánd; þessvegna yfirgáfu margir eignir sínar og sýslu sína á jörðunni, afþví þeir héldu að þeir gætu þá betur búið sig undir hinn mikla dag Drottins. Heimskir menn og blindir! hefir ekki sá sami, er sagðist mundi koma með ludur dómsins og laun mannanna, einnig sagt: það er ekki yðar, að vita stundir eður tækifæri, er Faðirinn hefir tekið sér sjálfur umráð yfir (Post. 1, 7)? hefir hann ekki sagt: þann dag og þá stund vita ekki englarnir sjálfir, og einginn, nema Faðir minn á himnum (Matth. 24, 36). Hinsvegar getum ver ekki borið á móti því, að hugmyndir þessar eru nú orðnar mönnunum svo ókunnar, að vel flestum detta þær sjaldan sem aldrei í hug, og það lítur svo út, að flestir menn haldi, allt muni fara einsog það hefir farið frá upphafi veraldar

ar, ein kynslódin muni koma þegar önnur fer, armædast í andstreymi og baráttu, ávinna til þess aptur ad missa, byggja til ad rífa nidur, fagna og sýta og hverfa sídan, til þess ad nýar kynslódir geti byrjad á hinu sama upp aptur og aptur. Verdum vér ekki aptur ad segja: heimskir menn og blindir! ímyndid þér ydur í alvöru, ad alltaf eigi ad vera ad byggja, en aldrei neitt ad verda fullgjört, ad þær fýsnir og þær hvatir samvizkunnar, er vér köllum gódar og Gudi þekkar, gjöri ekki annad, enn tæla oss og kúga til árángurslausrar áreynslu, en hid mikilvæga, fagra og ágæta, er þær mida til, muni aldrei fá vidgáng, og Guds ríki aldrei koma? Ímyndid þér ydur í alvöru, ad þeir sem þrjózkast gegn sannleika og réttindum, muni alltaf geta haldid áfram ad þrjózkast? eda hljóta ekki réttindin ad fá sigur og álit, svo sannarlega sem réttlátur Gud er til á himnum? Hljóta ekki þeir, sem unnu launalaust, og þoldu illt ad ósekju, ad ödlast heidur og laun og frid? Ad sönnu bendir allt þetta til annars lífs, en úr því þad er skylda vor, ad reyna til ad koma betra ástandi á á jördunni, hlýtur þetta ástand ad komast á, ef tilraun vor á ekki ad vera eintóm árángurslaus armæda.

Þetta bodar og hid kristna fagnadarerindi: ad Guds ríki muni umsídir sigrast á öllum mótspyrnum, og nýir himnar koma og ný jörd, þar réttlætid byggi (2 Pét. 3, 13). En þegar vér lesum rædur Drottins um þetta efni (Matth. 24, 1 o. nn. vv. Marc. 13, 1 o. nn. vv. Lúk. 21, 5 o. nn. vv) med athygli, sjáum vér, ad í þeim eru, einsog í öllum ödrum spámannlegum rædum heilagrar ritníngar, laung tímabil og margir og margvíslegir atburdir settir saman í eina vitrun; þad er einsog þegar vér höfum fyrir oss mikid vídsýni, ad sumt liggur harla nærri, svo vér þurfum ekki ad gánga nema nokkur spor til ad komast þángad, en þad, sem fjær er, blandast hvad innanum annad, svo vér sjáum ekki afstödu þess, fyrrenn jafnótt og vér komumst lengra áleidis. Eflaust midar nokkud í þessum rædum Drottins til hins fjarlægsta og sídasta, til hinnar miklu opinberunar mannsins Sonar med krapti og mikilli dýrd, einsog þegar eldíng kemur úr austri og leyptrar til vesturs, svoad enginn efi mun á því verda **hver** kominn sé, og **ad** hann sé kominn, einsog einn kristinn

frædimadur hefir ad ordi komizt. En sumt er þad í rædum þessum, er audsjáanlega midar til þess, sem er lángtum nær; þar stendur med berum ordum: sannlega segi ydur, þessi kynslód mun ekki undir lok lídin ádur þetta komi fram. Menn hafa og ætíd kannazt vid, ad Drottinn væri einkum ad tala um eydingu Jerúsalems; hann minntist á dýrd musterisins, og sagdi, ad þar skyldi ekki steinn yfir steini verda, heldur skyldi svívirding eydíngarinnar standa á hinum helga stad, hann bodadi hörmúngar, er koma skyldu yfir Gydingaland, en skyldu þó verda styttar sakir hinna útvöldu. Mannsins Sonur, sá er þeir höfdu litilsvirt og frá sér rekid, opinberadist einnig í þessum vidburdum med valdi og mikilli dýrd, hann sendi hefnd yfir þá, sem höfdu heimtad, ad blód hans kæmi yfir sig og börn sín, og vildu sídan ekki snúa sér medan lánglundarged Drottins beid þeirra, hann lét ástvini sína ná rétti sínum, og frelsadi þá frá verstu mótstödumönnum þeirra, og þegar þessi tálmun var í burt tekin, nálægdist Guds ríki sannarlega.

Ordatiltækid "dagur Drottins" finnst þegar í gamla testamentinu; í ædsta skilníngi merkir þad þann dag, þegar þessi veröld er á enda, og nýir himnar og ný jörd eiga ad koma í ljós, en stundum bendir þad audsjáanlega til daga, sem ádur eiga, á einstöku stad og í sérstöku tilliti, ad raska hinni edlilegu rás vidburdanna, aftaka þad sem ádur var, og leida í ljós hid nýa. Þannig segir spámadurinn Obadías, þegar hann spáir gegn Edom: dagur Drottins vofir yfir öllum heidíngjum; þig skal henda þad, sem þú hefir til unnid, og endurgjaldid skal þér í koll koma. (Obad. 15 v.). Þannig segir og spámadurinn Esaías: dagur Drottins herskeitanna mun koma yfir allt þad, sem upphafid er og drambsamt og hátt, og þad mun niðurlægt verda; yfir öll voldug cedrustré á Líbanon og öll eikartré Basans, yfir öll há fjöll og alla bratta tinda, yfir alla háa turna og alla rambyggda múra, yfir öll hin dýrmætu skip kaupmannanna og allt þad, sem skemtir augunum. Öll mannleg drambsemi mun beygd verda, og allt jardneskt vald niðurlækkad, og Drottinn einnsaman vera mikill á þeim degi (Es. 2, 12 o. nn. vv). Þetta er ad sönnu lýsíng á þeim dégi, sem á ad verda sídasti dagur gjörvallrar veraldar, en lýsíngin á einnig vid um suma daga, sem þegar hafa komid yfir einstöku

stadi og lønd. Slíkur dagur kom yfir Sódóma og Gómorrha, þegar Guð brenndi þær til øsku, og fyrirdæmdi þær til umturnunar, og setti þær til dæmis fyrir þá, sem eptirá mundu lifa óguðlega (2 Pét. 2, 6). Slíkur dagur kom yfir Babýlon, þegar Drottinn sendi eydanda storm yfir hana. Áður hafði Drottinn sagt fyrir munn spámannsins: eg hafða þig að hamri, Babýlon! og að hervopni, og eydda eg þjóðflokkum með þér. Nú endurgeld eg, svoað þér sjáið, þeim í Babýlon allt það íllt, er þeir hafa framið í Zíon. Far á brott þaðan, mín þjóð! og hver forði lífi sínu fyrir grimmdarreiði Drottins; því hinir breiðu múrveggir Babýlónar skulu brotnir verða, og hin háu port upp brennd, og kynþættir skulu hafa unnið til ónýtis, og þjóðir lagt að sér til að útvega eldinum bráð (Jer. 51, 20. 24. 45. 58). Slíkur dagur kom yfir Jerúsalem, þegar óvinir hennar gjørðu hervirki um hana, þraungvuðu henni á alla vegu, og løgðu hana gjørsamlega í eyði, og børn hennar með henni, og létu ekki stein yfir steini standa, afþví hún þekkti ekki vitjunartíma sinn (Lúk. 19, 43. 44). Slíkir dagar hafa komið, og munu að vísu enn koma yfir marga einstaka staði, áðurenn stjørnurnar slokkna og undirstaða jarðarinnar tekur að brenna; því allt það, er vill brjótast undan yfirráðum Guðs, og stærir sig af sjálfu sér, þolir hann að sønnu um stundarsakir, en umsíðir kemur dagur Drottins yfir það. Slíkur dagur er sannarlega dagur Drottins, því hann veitir hinum drambláta mótstøðu, og sýnir, að allt sem kallað er mikið, þegar miðað er við mannlegt afl, er ekkert, og að einginn er mikill nema Drottinn. Slíkur dagur er dómadagur, því hann borgar hinum óguðlegu eptir verkum þeirra, og framkvæmir það, sem réttlætið hafði lengi ógnað með. Slíkur dagur er hinn síðasti dagur fyrir margar drambsamlegar fyrirætlanir, hégómlegar ímyndanir og heimskulegar vonir, sem ekki voru byggðar á Guði. Slíkur dagur kemur optlega sem þjófur á nóttu (2 Pét. 3, 10), og einsog snara yfir þá, sem á jarðríki búa; þegar þeir segja: nú høfum vér frið, og erum óhultir, þegar þeir kaupa og selja, eta og drekka, gipta og giptast, einsog á døgum Nóa og Loths, þá hljómar hinn mikli lúður dómsins, og gløtunin er þegar yfir høfðum þeirra.

Þóað endirinn dragist — en hver veit það? hvenær sem

styrjöld kemur, eda fregn um styrjöld, eda uppreisnir og hörmúngar, getur hann verid í nánd; en hann getur líka verid fjarlægur; hver veit þad, utan hann, sem áskilid hefir sjálfum sér ad ákvarda tíma og stund? — Þóad hann dragist, renna samt optsinnis upp dagar Drottins, er advara mennina og áminna þá um ad vaka og bidja, svoad þeir geti ordid maklegir ad umflýa þá hluti, sem fram eiga ad koma, og maklegir ad koma fram fyrir hann, sem birtir dýrd sína í hverri umbilting, sem verdur í veröldinni. Vakid! sökkvid ydur ekki nidur í ofát, ofdrykkju, ágirnd og hégómadýrd, né í deyfd og hirduleysi, heldur verid hóffamir og árvakrir, og hafid ætíd fullt gát á, hvad fram sé ad koma, og hvad í vændum er! Og bidjid! nálægid ydur Gudi, svoad Gud sé ydur nálægur, og vardveiti ydur frá freistni og falli, svoad þér þurfid ekki ad segja til fjallanna: hrynjid yfir oss! né til hálsanna: hyljid oss! heldur getid flúid á nádir Guds, og likn hans geti verid skjöldur ydar!

Því slíkar tídir fara yfir med ógn og skelfíngu, og þjódirnar örvinglast undir oki þeirra, og menuirnir örmagnast af ótta og eptirbid þeirra hluta, er koma munu yfir jardríki. En hversu undarleg og mikilvæg eru þau ord, sem Drottinn áminnir og upphörfar hina trúudu med, þegar hann talar um þetta efni: þegar þessir hlutir taka fram ad koma, segir hann, þá lítid upp, og hefjid upp höfud ydar, því þá er lausn ydar í vændum (Lúk. 21, 28). Því Gud umturnar ekki, nema til ad leida hid nýa og dýrdlega í ljós; þegar hann tekur burt anda sinn og mátt, kemur þad til af því, ad hann ætlar aptur ad senda út anda sinn, og þá verdur skapad, og ásýnd jardarinnar endurnýast (Sálm. 104, 30). Drottinn tekur líking af trjánum; þegar laufknapparnir koma á þau, vita menn ad vorid er í nánd, þó bædi sé dymmt og eydilegt; stundum lídur blídur blær yfir hina snjóþöktu jörd, og þá kemur vorhugi í hjörtu vor. Svo er og þegar vetur er í veröldunni; þegar allt sýnist líflaust, þegar eingum finnst neitt koma til þess, sem oss þykir heilagt og dýrmætt, þegar vér eygjum ekki nokkuru blett, er oss þyki ánægja ad líta, kemur optsinnis blídur blær frá betra heimi og kveykir í hjörtum vorum von um komandavor. Því sú von fylgir kristinni trú, ad Guds ríki nálæg-

ist vid hverja bilting í veröldinni; verid getur samt, þad nálægist ekki þá, sem fyrstir áttu kost á því, en hæfnudu því; en þad kemur til þeirra, sem því var fyrirbúinn stadur hjá, og nálægist meir og meir hvern þann, sem ædlazt hefir inngaungu í hinu heilaga, almenna sefnud, og vonazt hefir eptir því, og varid æfi sinni því til eflingar. Og því meiri sem mótstadan hefir verid, því ágætari mun sigurinn verda. Því ávallt bryddir á mótþróa móti kristnum sannindum og Guds ríki, en stundum magnast hann, hvert sem þá heldur, einsog einn postuli ad ordi kemst, einn madur syndarinnar auglýsist, útbúinn Satans krapti, med ællu afli og táknum og stórmerkjum lýginnar, og med ællum vélum ránglætisins, medal þeirra, sem glatadir verda, afþví þeir medtoku ekki sannleiksást sér til frelsunar (2 Thess. 2, 3. 9. 10), eda margir falskristar koma, einsog annar postuli ad ordi kemst, (1 Jóh. 2, 18). Hver sem ekki er þá fastur í kristinni trú, mun annadhvert láta tæla sig og afvega leidast, eda hann mun láta hugfallast, og sleppa voninni um tilkomu Guds ríkis. En einnig í þessum efnum er trú vor sá sigur, sem yfirvinnur heiminn (1 Jóh. 5, 4), og hver sem berst hinni godu baráttu, og vardveitir trúna, hann hefur upp hæfud sitt, er hann á lausn í vændum; hann hefir ekki bundid huga sinn vid neitt á jærdunni, heldur vid Guds ríki, og þad getur einginn frá honum tekid, og einginn tálmad vidgángi þess. Fegurd þess og vidátta fara æ vaxandi, þángadtil hid eylífa vor kemur.

Allteinsog hin fyrsta bók hinna helgu rita, sem gudsord geymist í, byrjar á hinum fyrsta degi, þegar þeir hlutir urdu til, er vér sjáum nú í veröldinni, en eiga þo allir ad hverfa, þannig talar su bokin, sem hin helgu rit enda á, Opinberanabokin, um hinn sídasta dag veraldarinnar, ad sennu óljost, en þó med krapti og mikilli eptirvæntingu. Einhverntíma taka æfl spillingarinnar ad brjotast um í ællu hinu mikla smídi, einhverntíma ferst þessi veræld, med allri sinni dýrd og ællum sinum girndum. En sem hún tekur ad farast, rennur dýrd Guds upp, og þá birtist hann, sem mennirnir útskufudu, afneitudu og gleymdu, en hefir þó allt vald bædi á himni og jærdu, og allir óvinir hans munu verda lagdir til skarar fóta hans, en hann ríkja ad eylífu. Hann er hin skæra morgunstjarna, segir spámadurinn (Opinb. 22, 16); einsog morgunstjarnan bodar komu dagsins, þannig bodar og hin fyrsta tilkoma Krists hina sídustu, hinn nýa, dýrdlega dag, sem myrkva mun aldrei á draga. Og allir gudhræddar sálir munu sameina raddir sínar og hrópa í mót honum: kom! þá svarar sá, sem allt þetta vottar: já! eg kem skjott — tímar þessa heims lída þó áfram, en hvert sem hann kemur seint eda snemma, kemur hann þo fyrrenn flesta varir. Kom, Drottinn Jesús! segir spámadurinn (Opinb. 22, 20); og á þessu andvarpi enda hin helgu rit.

## Prentvillur.

Blaðs. 2 línu 3 hvertteggja er fráakomið les: hverttveggja er fráakomið; 71 l. 23 øll umegin l. øllumegin; 80 l. 15 afmáanleg l. óafmáanleg; 104 l. 11 ørdina l. jørdina; 106 l. 1 bann l. hann; 135 l. 20 tíma l. tímar; 209 l. 30 Krist l. Krists; 211 l. 25 munaðarlausn l. munaðarlausu; 223 l. 34 dauðar l. dauður; 231 l. 27 austurheinni l. austurheimi; 241 l. 12 vakna l. rakna; 255 l. 33 tii l. til; 263 l. 28 syngdazt l. syndgazt; 264 l. 23 gjera l. gjøri; 294 l. 11 heitum l. heilum; 345 l. 15 réttinda l. réttindi; 353 l. 33 hani l. hina; 370 l. 9 sjg l. sig; 384 l. 26 efska l. elska; 400 l. 9 høndlab l. høndlað; 432 l. 20 heldum l. heldur; 447 l. 17 manni l. manna; 448 l. 27 verdi l. verda; 462 l. 16 þér l. vér; 475 l. 32 þafa l. hafa; 512 l. 34 grafn= l. grafnir.

Aherzlumerki hafa brotnað af ýmsum hljóðstøfum í prentuninni, hvað eg ekki hefi hér tilgreint, né heldur einstøku stafavillur, afþví eg vona það valdi eingri fyrirstøðu í lestrinum, og að góðfúsir lesarar muni leiðrétta það og lesa í málið.

